# Fornmanna Sögur.

## IV. V.

—

## Saga Ólafs Konungs hins Helga.

## I. II.

# SAGA ÓLAFS KONÚNGS HINS HELGA.

---

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN

AD TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

---

FYRRI DEILD.

---

Kaupmannahøfn, 1829.

Prentuð hjá *Harðvig Friðrek Popp.*

# Saga Ólafs konúngs ens helga Haraldssonar.

## *Prologus.*

ARI prestr Þorgilsson enn fróði ritaði fyrstr manna [hèr á landi[1] at norrænu máli fræði, bæði forna ok nýja; ritaði hann fyrst í upphafi sinnar bókar frá Íslands bygð ok lagasetníng, síðan frá lögsögumönnum, hversu lengi hverr hafði lögsögu, ok hafði hann áratal fyrst, til þess er kristni kom á Ísland, en síðan allt til sinna daga; hann jók þar ok við mörg önnur dæmi, bæði konúnga æfi í Noregi ok í Danmörk ok á Englandi, ok stórtíðendi þau, er gjörzt höfðu hèr á landi, ok þikkir oss hans sögn öll merkiligust; var hann maðr forvitri, ok svâ gamall, at hann var fæddr næsta vetr eptir fall Haralds Sigurðarsonar. Hann ritaði, svâ sem hann sjálfr segir í æfi Noregs konúnga, eptir sögu Odds Kolssonar, Hallssonar[2] af Síðu; en Oddr nam af Þorgeiri afrazkoll[3], þeim manni, er vitr var, ok svâ gamall, at hann bjó þá í Niðarnesi[4], er Hákon jarl enn ríki var drepinn; í þeim sama stað lèt Ólafr Tryggva-

[1]) *v. í H.* [2]) *v. í D.* [3]) afrakoll, *H.* [4]) Vikarnesi, *D;* Niðarósi, *H.*

son efna til kaupángs setu, en Ólafr enn helgi reisti kaupstaðinn. Ari kom sjö[1] vetra gamall í Haukadal til Halls Þórarinssonar, ok var þar 14 vetr. Hallr var maðr stórvitr ok minnigr; hann mundi þat, er Þángbrandr prestr skírði hann þrèvetra, þat var vetri fyrr enn kristni var í lög tekin á Íslandi. Ari var 12 vetra gamall, þá er Ísleifr biskup andaðist. Hallr fór milli landa, ok hafði fèlag Ólafs ens helga konúngs, ok fèkk af því uppreist mikla, var honum því kunnigt um konúngsríki hans. Þá er Ísleifr biskup andaðist, var liðit frá Ólafi Tryggvasyni 80 vetra; en Hallr andaðist níu[2] vetrum síðarr enn Ísleifr biskup, þá hafði hann at vetratali 4 vetr ens tíunda tegar; hann hafði gjört bú í Haukadal þrítugr, ok bjó þar 60 vetra [ok 4 vetr[3]; svâ ritaði Ari. Teitr, son Ísleifs biskups, var með Halli í Haukadal at fóstri, ok bjó þar síðan. Hann lærði Ara prest, ok marga fræði sagði hann honum þá, er Ari ritaði síðan. Ari nam ok marga fræði at Þuríði Snorra dóttur goða; hún var spök at viti, hún mundi Snorra, föður sinn; Snorri var þá nær[4] hálffertugr, er kristni kom á Ísland, en andaðist einum vetri eptir fall Ólafs konúngs[5]; því var eigi undarligt, at hann væri sannfróðr at fornum tíðendum, bæði hèr ok utanlands, at hann hafði numit at gömlum mönnum ok vitrum, en var sjálfr minnigr ok nám-

[1]) 8, *D.* [2]) 10, *H.* [3]) ok 3 vetr *D; v. í H.* [4]) *það, sem eptir er af Prologus, er rifit af G.* [5]) hins helga, *b. v. H.*

gjarn. Rita hefir ek látit frá upphafi æfi konúnga þeirra, er ríki hafa haft á Norðrlöndum, ok á Danska túngu hafa mælt, svâ ok nokkrar kynslóðir þeirra, eptir því sem vèr höfum numit af fróðum mönnum, ok enn er sagt í fornkvæðum, eðr í lángfeðga tölu finnst, þar er konúngar hafa rakit ættir sínar. Þjóðólfr enn fróði, skáld, er sumir kalla enn Hvinverska, orti kvæði um Rögnvald konúng, son Ólafs konúngs af Vestfold; Ólafr var bróðir Hálfdánar svarta, föður Haralds ens hårfagra; í því kvæði eru upptaldir 30 lángfeðgar Rögnvalds, sögð nöfn þeirra, ok svâ frá dauða hvers þeirra, ok er talit allt til Íngunar-Freys[1] er heiðnir menn kölluðu guð sinn. Annat kvæði orti Eyvindr skáldaspillir um Hákon jarl enn ríka, Sigurðarson, ok taldi hann lángfeðga til Sæmíngs, er sagt er at væri Íngunar-Freysson, Njarðar[2]; sagt er þar ok frá dauða hvers þeirra ok legstað. En fyrsta öld var sú, er alla dauða menn skyldi brenna; en síðan hófst haugsöld, voru þá allir ríkismenn í hauga lagðir, en öll alþýða grafin í jörð, þá er menn voru dauðir, ok settir eptir bautasteinar til minnis. En síðan er Haraldr enn hárfagri var konúngr í Noregi, þá vitu menn miklu gjörr sannendi at segja frá æfi konúnga, þeirra í Noregi hafa verit. Á hans dögum bygðist Ísland, ok var þá mikil ferð af Noregi til Íslands, spurðu

[1]) Yngvi-Freys, *H.* [2]) son Oðins, *H.*

menn þá á hverju sumri landa þessa ímilli, ok var þat síðan í minni fært, ok haft eptir til frásagna. En þó þikki mèr þat merkiligast til sannenda, er berum orðum er sagt í kvæðum, eðr öðrum kveðskap þeim, er svâ var ort um konúnga eðr aðra höfðíngja, at þeir sjálfir heyrðu, eðr í erfikvæðim þeim, er skáldin færðu sonum þeirra. Þau orð, er í kveðskap standa, eru en sömu, sem í fyrstu voru, ef rètt er kveðit, þótt hverr maðr hafi síðan numit at öðrum, ok má því ekki breyta; en sögur þær, er sagðar eru, þá er þat hætt, at eigi skilist öllum á einn veg; en sumir hafa eigi minni, þá er frá líðr, hvernig þeim var sagt, ok gengust þeim mjök í minni optliga, ok verða frásagnir ómerkiligar. Þat var meirr enn 2 hundruð vetra tólfræð[1], er Ísland var bygt, áðr menn tæki hèr sögur at rita, ok var þat laung æfi, ok vant, at sögur hefði eigi gengizt í munni[2], ef eigi væri kvæði, bæði ný ok forn, þau er menn tæki þaraf sannendi fræðinnar. Svâ hafa gjört fyrr fræðimenninnir, þá er þeir vildu sannenda leita, at taka fyri satt þeirra manna orð, er sjálfir sá tíðendi, ok þá voru nærstaddir. En þar er skáldin voru í orrostum, þá eru tæk vitni þeirra, svâ þat ok, er hann kvað fyri sjálfum höfðíngjanum, þá mundi hann eigi þora at segja þau verk hans, er sjálfr höfðínginn, ok allir þeir, er heyrðu, vissu, at hann hefði hvergi nærri verit; þat væri þá háð, en eigi lof. Nú ritu vèr þau

[1]) tíræð, *H.* [2]) minni, *H.*

tíðendi með nâkkvarri minníngu, er gjörðust um æfi Ólafs ens helga konúngs, bæði um ferðir hans ok landstjórn, ok enn nâkkvat frá tilgaungum þess úfriðar, er landshöfðíngjar í Noregi gjörðu orrostu ímóti honum, þá er hann fèll á Stiklástöðum. Veit ek, at svâ mân þikkja, ef utanlands kemr sjá frásögn, sem ek hafa mjök sagt frá Íslenzkum mönnum; en þat berr til þess, at Íslenzkir menn þeir, er þessi tíðendi sá eðr heyrðu, báru híngat til lands þessar frásagnir, ok hafa menn síðan at þeim numit. En þó rita ek flest eptir því, sem ek finn í kvæðum skálda þeirra, er vâru með Ólafi konúngi[1].

---

[1]) *I stað þess frá:* Rita hefir ek látit, *o. s. frv., hafa D, K þetta:* En bók þessa hefir ek látit rita eptir því, sem segir í kvæðum þeirra Sighvats ok Ottars svarta, er jafnan voru með Olafi konúngi, ok sá ok heyrðu þessi tíðendi, en sumt eptir sögn Ara prests ok annarra fræðimanna, ok þikki mèr kvæðin minnst or stað færð, ef þau eru rètt kveðin ok skynsamliga upptekinn.

## Hèr hefr upp sögu Ólafs konúngs ens helga Haraldssonar.

HARALDR hinn hárfagri var lengi konúngr yfir Noregi öllum, en áðr voru þar margir smákonúngar, sumir höfðu eitt fylki til forráða; en alla þá setti Haraldr konúngr af ríki; sumir fellu, sumir flýðu land fyrir honum, en sumir lètu af konúngdómi, ok náði engi maðr at bera konúngsnafn, nema hann einn; jarl setti hann yfir hverju fylki til landsstjórnar ok lög at dæma. Konúngr átti margar konur ok mörg börn; hann átti 20 sonu eða fleiri, ok voru allir gjörviligir menn; göfug móðerni áttu þeir, ok fæddust þar margir upp með móðurfrændum sínum. Þessir voru elztir: Guthormr ok Hálfdán[1], Eiríkr blóðöx; hans móðir var Ragnhildr, dóttir Eiríks konúngs af Danmörk; hann var uppfæddr með Þóri hersi[2] í Fjörðum. Þessir synir Haralds voru sammæddir: Guthormr, Hárekr[3], Guðröðr[4]; þeirra móð-

1) Hálfdánar 2, *G*, *H*. 2) Hróaldssyni, *B*, *D*, *G*, *H*. 3) ok Hrærekr, *G*, *H*. 4) er sumir menn nefna Gundruð (Gagrauð, *L*.) *b. v. G*, *L*.

ir var Gyða, dóttir Eiríks konúngs af Hörðalandi[1]; þeir voru ok þar uppfæddir í barnæsku. Hálfdán hvíti ok Hálfdán svarti voru tvíburar, synir Æsu[2], dóttur Hákonar Hlaða-jarls, Grjótgarðssonar; Sigurðr[3] hèt hinn þriði; þeir fæddust upp í Þrándheimi; Hálfdán svarti var fur þeim bræðrum. Ólafr hèt einn, Björn ok Sigtryggr, er sumir menn kalla Tryggva, Fróði ok Þorgisl; móðir þeirra hèt Hildr eða Svanhildr, dóttir Eysteins jarls af Heiðmörk; Haraldr konúngr setti Eystein jarl yfir Heiðmörk ok Vestfold, ok seldi honum til fóstrs þessa sonu sína. Sigurðr hrísi ok Hálfdán háleggr, Guðröðr ljómi, Rögnvaldr rèttilbeini, þeir voru synir Snjófríðar Finnsku. Dagr okRíngr, Rögnvaldr[4] rykkill, þeirra móðir var[5] Álfhildr, dóttir Ríngs Dagssonar af Ríngaríki; þeir fæddust upp á Upplöndum. Íngigerðr ok Álof árbót voru dætr Haralds konúngs; Íngibjörg hèt ok dóttir hans, er átti Hálfdán[6]; þeirra börn voru þau Gunnhildr, er átti Finnr skjálgi; [en þeirra börn voru þau Eyvindr skáldaspillir, Njáll, Sigurðr; Þóra hèt dóttir Njáls, ok var hans móðir Ástríðr, dóttir Steinkels Svía konúngs[7]. Ólöfu, dóttur Haralds konúngs, átti Þórir þegjandi; þeirra dóttir var Bergljót, móðir Hákonar jarls hins ríka. Haraldr

---

1) Haðalandi, *L.* 2) Astu, *L.* 3) Sigröðr, *B*, *G*, *H*, *L.* 4) Ragnarr, *hin.* 5) Olöf eðr, *b. v. L.* 6) jarl, *b. v. hin.* 7) ok Eyvindr skáldaspillir, Njáll, Sigríðr ok Þóra; dóttir Njáls var Astríðr, móðir Steinkels Svía konúngs. *G*, *H*.

konúngr gipti dætr sínar innanlands jörlum sínum. Haraldr konúngr var allra manna mestr ok styrkastr, hverjum manni fríðari sýnum, ok betr at sèr gjörr um alla luti; þat var svâ mjök ættgengt, at þat hefir enn haldizt í hans ætt allt í þeirra manna minni, er enn lifa. Haraldr konúngr átti margar orrostur innanlands, ok eignaðist svâ vandliga allan Noreg, at hann átti óðöl öll, bæði bygðir ok sætr, eyjar ok markir allar, ok alla auðn landsins; voru þá allir hans leigumenn ok landbúar. Hann tók konúngdóm 10 vetra gamall, en hann rèð landi sjötígi[1] vetra; en þá er hann var sextigr, voru synir hans alrosknir at aldri, en sumir dauðir; þeir gerðust miklir ofstopamenn innanlands, ok voru sjálfir mjök úsáttir; þeir ráku af ríki jarla konúngs, en suma drápu þeir. Haraldr konúngr stefndi þá þíng fjölmennt austr í landi, ok bauð til Upplendíngum; þá skipaði hann lögum, ok þá gaf hann sonum sínum öllum konúngsnafn, ok setti þat í lögum sínum, at hans ættmenn skyldi hverr ríki taka eptir sinn föður ok konúngsnafn, en jarlsnafn sá, er kvennborinn væri af hans ætt; hann skipti svâ landi með þeim, at hann lèt hafa Víngulmörk, Raumaríki, Vestfold[2], þat gaf hann Ólafi, Birni, Fróða, Sigurði, Þorgilsi; en Heiðmörk ok Guðbrandsdali gaf hann þeim Dag ok Rögnvaldi[3] ok Ragnari;

[1]) 73, *B, L;* 74, *D, G, H.* [2]) ok þelamörk, *b. v. B, D G, L.* [3]) Hríng, *hin.*

Snjófríðarsonum gaf hann Ríngaríki, Þotn, Haðaland, ok þat er þar lá til; hann setti Guthorm, son sinn, lands at gæta ok til landvarnar austr við landsenda, ok gaf honum yfirsókn frá Elfi til Svínasunds, ok Ránríki[1]. Eiríkr var með Haraldi konúngi, feðr sínum; honum unni hann mest sona sinna, ok virði hann mest. [Halland ok alla Norðmæri ok Raumsdali, þar gaf hann yfirsókn Hálfdáni svarta, ok Hálfdáni hvíta yfir Norðheim[2]. Sonum sínum gaf hann í hverju þessu fylki hálfar tekjur allar til móts við sik, ok þat með, at þeir skyldu sitja í hásæti skör hærra enn jarlar, en skör lægra enn hann sjálfr; en þat sæti, er hann hafði, ætlaði hverr sèr, sona hans, eptir hans dag; en hann sjálfr ætlaði þat Eiríki, en Þrændr ætlaðu Hálfdáni svarta, en Víkverjar[3] unnu þeim bezt ríkis, er þeim voru undir hendi. Af þessu varð mikit sundrþykki með þeim bræðrum, þviat þeir þóttust lítit hafa til forráða; þeir voru þá í hernaði, svâ sem sögur eru til, áðr[4] Hálfdán hvíti fèll á Englandi[5]; Hálfdán háleggr fèll í Orkneyjum; Fróði ok Þorgils lètust í Dýflinni á Írlandi; Guthormr fèll í Elfarkvíslum fur Sölva-klofa;

---

1) Haraldr konúngr var lengstum um mitt land; þeir Hrærekr ok Guðröðr voru jafnan innan hirðar með konúngi, ok höfðu veizlur stórar á Hörðalandi ok í Sogni, *b. v. D, G, H, L.* 2) honum gaf hann Hálogaland, Norðm. ok Raumsd.; norðr í Þrándheimi (Heimi *B.*) gaf hann yfirsókn Hálfd. sv. ok Hálfd. hvíta ok Sigurði, *hin.* 3) ok Upplendíngar, *b. v. hin.* 4) at, *hin,* 5) Eistlandi, *B, D, L.*

eptir þat tók Ólafr þat ríki, er hann hafði. Eiríkr blóðöx ætlaði sèr at vera yfirmaðr bræðra sinna, hann var laungum í hernaði; hann átti Gunnhildi konúngamóður. Rögnvaldr rèttilbeini átti Haðaland; hann nam fjölkýngi, ok gjörðist seiðmaðr. Haraldi konúngi þóttu illir seiðmenn. Á Hörðalandi[1] var sá seiðmaðr, er Vitgeirr hèt; konúngr sendi honum orð, ok bað hann hætta seiðum; hann svarar, ok kvað:

Þat er vâ lítil,
þótt vèr seiðim,
karla börn
ok kerlínga,
er Rögnvaldr síðr
rèttilbeini,
hróðrmögr Haralds,
á Haðalandi.

En er Haraldr spurði þat, þá fór með hans ráðum Eiríkr, son hans, blóðöx, til Upplanda, ok kom á Haðaland; hann brendi inni bróður sinn með 8 tigum seiðmanna, ok var þat verk mjök lofat. Guðröðr ljómi druknaði fur Jaðri í Noregi.

2. Björn rèð fur Víkinni ok Vestfold; þá var þar kaupstaðr mikill í Túnsbergi, ok sat hann þar laungum; hann var ekki laungum í hernaði; bræðr hans kölluðu hann kaupmann; hann var vitr maðr ok stiltr vel, ok þótti vænn til höfðíngja; hann fèkk sèr gott kvânfáng; hann gat son þann, er Guðröðr hèt. Eiríkr blóðöx

1) Haðalandi, *D*, *H*.

kom eitt sumar or hernaði með skipaliði miklu til Bjarnar, ok beiddi at taka við sköttum þeim, er Haraldr konúngr átti, ok skyldum á Vestfold; en hinn var áðr vani, at Björn færði sjálfr feðr sínum skattana, eða sendi menn með, vildi hann enn svâ gera, ok því vildi hann eigi af höndum láta, svâ at Eiríkr tæki við. Eiríkr þóttist þurfa vista ok tjalda ok drykkjar. Þeir bræðr þreyttu milli sín með kappmælum, ok fèkk Eiríkr eigi at heldr; fór hann síðan brott or bænum, ok kom aptr um nóttina, veitti hann þá Birni atgaungu, ok feldi hann ok marga menn með honum; tók Eiríkr þar herfáng mikit, ok fór síðan norðr í land. Þetta verk líkaði Víkverjum stórilla, ok var Eiríkr þar mjök úþokkaðr; fóru þau orð, at Ólafr mundi hefna Bjarnar, bróður síns, ef honum gæfist færi á.

3. Eptir um vetrinn fór Eiríkr norðr í Þrándheim, ok tók veizlur í Sölva[1]; en þat spurði Hálfdán svarti, ok fór þegar með her sinn, ok tók hús á þeim Eiríki; hann svaf úti í skemmu einni, ok komst hann til skógar íbrott með 5ta mann, en þeir Hálfdán brendu bæinn, ok allt þat, er inni var; kom Eiríkr með þessum tíðendum á fund Haralds konúngs feðr síns. Haraldr konúngr varð þessum tíðendum allreiðr, ok samnaði þegar liði, ok fór norðr á hendr þeim Þrændum. En er þat spurði Hálfdán svarti, þá býðr hann út skipum ok liði

[1]) *Súlu*, G, *H*; *Sölvaklofa*, *L*.

ok varð fjölmennr, ok lagði út til Staðs fur innan Þórsbjörg; Haraldr konúngr lá þá liði sínu út við Reinfuru[1]; fóru þá menn ímilli þeirra. Guthormr sindri hèt göfugr maðr ok ættstórr; hann var þá í liði með Hálfdáni svarta, en áðr hafði hann verit með Haraldi konúngi, ok var ástvinr þeirra beggja. Guthormr var skáld mikit; hann hafði ort sitt kvæði um hvârn þeirra feðga; þeir höfðu boðit honum laun fur, en hann neitti því, ok beiddi, at þeir skyldu veita honum bæn hvârr þeirra, þá er hann vildi þá biðja; ok því höfðu þeir heitit honum. Hann ferr nú, ok berr sættarboð ímillum þeirra: bað þá hvârntveggja þeirrar bænar, at þeir skyldu sættast; en konúngarnir gerðu svâ mikinn metnað hans, at af hans bæn sættust þeir; margir göfgir menn ok góðgjarnir fluttu þetta mál með honum, ok varð þat at sætt, at Halfdán skyldi halda ríki sínu öllu, skyldi hann ok láta úhætt við Eirík, bróður sinn, ok hvârr þeirra við annann. Eptir þessi sögn orti Jórun skáldmær nokkur erendi í Sendibít:

Haralds[2] frá ek Hálfdán spyrja[3]
herðibrögð, en lögdiss[4]
sýnist svartleitr reyni
sjá bragr [ens hárfagra[5].

---

[1]) Reinslèttu, *B*, *G*, *H*; Steinslèttu, *L*. [2]) Harald, *hin.* [3]) verja, *B*. [4]) lögðust, *G*. [5]) enn hárfagri, *B*; *kap. v. í D; hèr byrjar E bókar brotið með þessum vísum:*

Þvíat ríkr konúngr rekka
reyr undlagar dreyra
morðs, þá er merkja þorðu
magnendr, hófst at fagna.

4. Haraldr hinn hárfagri gat son í elli sinni, sá hèt Hákon; móðir hans hèt Þóra Mostrstaung[1], hún var[2] or Mostr[3] á Sunnhörðalandi; hún var kvenna mest ok hin fríðasta, ok vel ættuð; hún var í frændsemis tölu við Hörðakára, en þó var hún kölluð konúngs ambátt; voru þá margir þeir konúngar lýðskyldir, er þó voru vel ættbornir, bæði karlar ok konur. Hæðiligt þótti Haralds sonum um Hákon, ok kallaðu hann Mostrstángarson. Haraldr konúngr sendi Hákon, son sinn, til fóstrs Aðalsteini, Engla konúngi, ok fæddist hann þar upp; hann var líkastr feðr sínum allra sona hans, ok framastr um allar íþróttir.

5. Eptir fall Bjarnar kaupmanns tók Ólafr, bróðir hans, ríki yfir Vestfold, ok tók til fóstrs Guðröð, son Bjarnar. Tryggvi hèt son Ólafs, voru þeir Guðröðr fóstbræðr, ok báðir hinir efniligustu menn, ok atgerfimenn miklir; Tryggvi var hverjum manni meiri ok styrkari. Þá er Haraldr konúngr hafði 80 vetra aldrs, þá þóttist hann eigi hafa ressleika til, fur aldrs sakir, at

Hvar vita einka örvit,
orveðrs frama gervan
(tíngl-rýrondum túngla)
tveir jöfrar, veg-meira,
enn geðharðir gerðu
gulls land-rekar þollum,
(upp ángr um hófst ýngva)
óblindr fyri lof Sindra?

Hróðr vann hríngastríðis
harm framkveðinn ramman,
Goðormr laut af gauti
góð laun kveðins óðar;
raun-frámfa brá rimmu
runnr skjöldúnga gunnar,
áðr bjóst herr til hjörva
hreggs döglínga tveggja.

1) Morstrstaung, *D*, *E*; Morstaung, *G*. 2) ættskoð, *b. v. E.* 3) Morstr, *D*, *E*.

fara yfir landit eða stjórna konúngsmálum; hann leiddi þá Eirík, son sinn, í hásæti, ok gaf honum konúngsnafn ok[1] vald yfir öllu landi. En er þat spurði Hálfdán svarti, þá settist hann í hásæti, ok tók til forráða um allan Þrándheim, ok voru at því ráði allir Þrændir með honum. En er þetta spyrja Víkverjar, þá tóku þeir Ólaf til konúngs yfir alla Víkina, ok hèlt hann því ríki; þetta líkaði Eiríki stórilla. Tveim vetrum síðarr varð Hálfdán svarti bráðdauðr inní Þrándheimi at veizlu nokkurri, ok var þat mál manna, at Gunnhildr konúngamóðir hefði keypt at konu nokkurri, at gefa honum banadrykk. Eptir þat tóku Þrændir Sigurð til konúngs; en einum vetri síðarr andáðist Haraldr hárfagri, ok var hann heygðr við Haugasund.

6. Um vetrinn eptir tók Eiríkr landskyldir um miðt landit; en um vârit býðr hann út liði miklu, ok snýr austr til Víkr, þvíat þángat var byrr, en bæði Víkverkjar ok Þrændir lágu víða í samnaði. Sigurðr konúngr fór austr landveg á fund Ólafs konúngs, bróður síns, ok voru þeir í Túnsbergi báðir samt. Eiríkr fèkk svâ mikit raðbyri, at hann sigldi dag ok nótt, ok fór engi njósn fur honum, áðr hann kom í Túnsberg. Þá fóru þeir Sigurðr ok Ólafr austr or bænum á brekku eina, ok fylktu þar. Eiríkr hafði lið miklu meira, ok fèkk hann sigr, en þeir Sigurðr ok Ólafr fèllu, ok eru þeir heygðir þar, sem þeir fèllu.

[1]) *hèr byrjar C.*

Tryggvi ok Guðröðr flýðu til Upplanda. Eiríkr lagði undir sik landit, ok alla Víkina, ok dvaldist þar lengi um sumarit.

7. Þat sumar kom vestan af Englandi Hákon Aðalsteinsfóstri; fór hann furst norðr til Þrándheims á fund Sigurðar Hlaða-jarls, er allra spekínga var mestr í Noregi, ok fèkk hann þar góðar viðtökur, ok bundu þeir samlag sitt, ok hèt Hákon honum miklu ríki, ef hann vyrði konúngr yfir Noregi. Þá stefndu þeir þíng fjölmennt; ok á þínginu talaði Sigurðr jarl af hendi Hákonar, ok bauð bóndum hann til konúngs. Ok eptir þat stóð upp Hákon sjálfr, ok mæltu þat sumir menn, at þar væri kominn Haraldr hinn hárfagri, ok vorðinn úngr í annat sinn. Hákon hafði þat upphaf síns máls, at hann beiddi bændr at gefa sèr konúngsnafn, ok þat með, at gefa sèr fylgd ok styrk at halda konúngdóminum; en þarímót bauð hann þeim, at gera þá óðalborna, ok gefa þeim upp óðöl sín, þau er þeir bjuggu á. At þessu erendi varð mikill rómr, svâ at bóndamúgrinn æpti upp, ok sögðust vildu taka hann til konúngs; ok svâ var, at Þrændir tóku hann til konúngs yfir allt land; ferr Hákon þá yfir landit, ok fèkk sèr hirð. Þau tíðendi spurjast nú á Upplönd, at Þrændir hefði sèr konúng tekit, slíkan at öllu sem Harald hinn hárfagra, nema þat skildi, at Haraldr hefði alla menn áþjáð þar í landi, en þessi Hákon vildi hverjum manni gott, ok bauð aptr at gefa bónd-

um óðöl sín, þau er Haraldr hafði af þeim tekit. Við þessi tíðendi urðu allir glaðir, ok sagði hverr öðrum, flaug þat sem sinueldr allt austr til landsenda. Margir fóru af Upplöndum at finna Hákon, sumir gerðu menn til hans, eðr orðsendíngar, at hans vildu gerast.

8. Hákon konúngr fór á Upplönd öndverðan vetr, ok stefndi þar þíng, ok dreif allt fólk á hans fund, þat er komast mátti; var hann þá til konúngs tekinn á öllum þíngum; fór hann þá austr til Víkr; þar koma til hans Tryggvi ok Guðröðr, bræðrasynir hans, ok margir aðrir, þeir er upptöldu harma sína, er lotit þóttust hafa af Eiríki konúngi, bróður hans. Eiríkr konúngr úvinsældist æ því meirr, sem menn gerðu sèr kærra við Hákon, ok heldr höfðu sèr traust at mæla, sem þótti. Hákon konúngr gaf konúngsnafn Tryggva ok Guðröði, frændum sínum, ok ríki þat, sem Haraldr hárfagri gaf feðrum þeirra; Tryggva gaf hann Ránríki ok Víngulmörk, en Guðröði Vestfold; en fyri því at þeir voru úngir, þá setti hann vitra menn til lands at gæta með þeim; hann gaf þeim land með þeim skildaga, sem Haraldr hárfagri gaf sonum sínum, at þeir skyldu hafa helmíng af öllum sköttum ok skyldum. Hákon konúngr fór um vârit norðr til Þrándheims, ok bauð út her miklum af Þrándheimi; Víkverjar komu austan með allmikinn her. Eiríkr dró her saman um miðt landit, ok varð íllt til liðs, þvíat rík-

ismenn margir skutust undan honum, ok fara til Hákonar; en er hann sá þar eigi efni sitt til mótstöðu við Hákon, þá sigldi hann vestr um haf, ok þat lið með honum, sem honum vildi fylgja; fór hann furst til Orkneyja, ok hafði mikit lið; þá sigldi hann vestr til Englands, ok fór þar með herskildi. Aðalráðr[1] Engla konúngr sendi orð Eiríki konúngi, ok bauð honum at taka af sèr ríki í Englandi, ok vildi hann vinna þat til sættar með þeim bræðrum, Hákoni ok Eiríki; var hann síðan konúngr yfir Norðimbralandi, meðan hann lifði, þvíat Adalsteinn konúngr gaf honum þat ríki; þat er kallaðr hinn 5ti lutr Englands. Eiríkr fèll í austrvíkíng[2]. Þau Eiríkr ok Gunnhildr áttu mörg börn; synir þeirra voru þeir Gamli ok Sigurðr slefa, Haraldr gráfeldr, Erlíngr ok Guthormr[3]; Ragnhildr hèt dóttir þeirra, er átti Þorfinnr[4].

9. Hákon konúngr rèð fyri Noregi sjö[5] vetr ok 20; hans öld var svâ góð, at alla æfi hafa landsmenn þat í minnum haft; þá var allskyns ár í Noregi, bæði á sjá ok á landi; þá var ok friðr svâ góðr, at engi grandaði annars fè, ok engi gerði öðrum friðbrot. Hákon konúngr var manna glaðastr ok snjallastr ok lítillátastr; hann var maðr stórvitr, ok lagði mikinn hug á laga-

1) Aðalsteinn, *hin.* 2) vestrvíkíng, *hin.* 3) Fróði, *b. v. B*; Ragnfröðr, Guðröðr, *b. v. hin.* 4) Arnfinnr jarl, son Þorfinns jarls, *hin.* 5) 6, *D*, *F*; 3, *L*.

setníng; hann setti furst Gulaþíngslög[1] ok Heiðsæfislög at upphafi, en áðr hafði sèrhverr konúngr lög, ok var nær sem sín lög gengi í hverju fylki. Hákon konúngr gaf Sigurði jarli, mági sínum, vald yfir öllum Þrándheimi, svâ sem hann hafði furr haft, ok faðir hans fyrir hann um daga Haralds hárfagra. Hákon konúngr var staddr einn tíma at veizlu á Hlöðum með Sigurði, mági sínum; þá fæddi Bergljót son, kona jarls, systurdóttir Hákonar konúngs, jólanótt hina furstu; konúngr jós vatni sveininn, ok gaf nafn sitt; sá sveinn fæddist þar upp, ok varð göfugr maðr ok ríkr, hann var síðan kallaðr Hlaðajarl, er einnhverr spekíngr hefir verit mestr at viti hígat í Norðrlönd. Um daga Hákonar konúngs komu í Noreg synir Eiríks blóðöxar, ok börðust til Noregs veldis, ok áttu orrostur við Hákon konúng, ok hafði hann jafnan sigr, þar fèll Gamli Eiríksson. Hina síðarstu orrostu áttu þeir á Hörðalandi í Storð á Fitjum, ok hafði Hákon sigr, ok varð sárr, ok andaðist á Hákonarhellu, ok þar hafði hann í heiminn komit, ok er hann heygðr á Sæheimi.

10. Eiríks synir lögðu þá land allt undir sik, ok hètu þeir öllum mönnum lögum þeim, er sett hafði Hákon konúngr þar í landi; þeir gáfu ok höfðíngjum þvílíkar nafnbætr, sem áðr höfðu þeir haft af Hákoni konúngi, ok slíkt annat, sem áðr höfðu þeir haft; en er þeir settust í

[1]) ok Frostaþíngslög, *b. v. hin.*

ríki ok festust í landinu, þá þótti þeim ofmikit ríki hafa Sigurðr jarl í Þrándheimi. Bróðir Sigurðar jarls hèt Grjótgarðr, hann var ýngri þeirra bræðra ok virðr minna; hann eggjaðu Eiríkssynir til at drepa bróður sinn Sigurð, ok fengu honum styrk til þess, ok er þat sögn flestra manna, at nokkur þeirra bræðra hafi verit í þessi ferð. Þeir fóru síðan inn í Þrándheim ok [inn á Uglu[1], ok komu þar um nótt, ok tóku hús á Sigurði jarli, ok brendu hann inni með marga menn, ok fóru á brott síðan; þat var 2 vetrum síðarr enn Hákon konúngr fèll, at sögn Ara prests ens fróða Þorgilssonar. Þá var Hákon Sigurðarson hálfþrítögr[2] at aldri, hann var frændmargr ok ættstórr, en Sigurðr, faðir hans, var ástúðligr öllu fólki; varð Hákoni gott til liðs, svâ at allir Þrændir snèrust til hans, ok vörðu land fyrir Eiríkssonum, svâ at engi þeirra þorði at koma inn um Þrándheims mynni; þá fóru menn ímilli þeirra, beggja vinir, ok leitaðu um sættir; kom svâ með fortölum góðra manna, at þat varð at sætt, at Hákon skyldi hafa allt þat ríki í Þrándheimi, er átt hafði Sigurðr jarl, faðir hans, ok vera jarl, en Grjótgarðr, ok þeir menn, er[3] jarl nefndi til, skyldu fara utan sætta, ok brott af Noregi. Með Hákoni ok Gunnhildi voru stundum hinir mestu kærleikar, en stundum beittust þau brögð-

[1]) inn Aglu, *C, E.* [2]) nær tvítugr, *C, D, E, G, H.* [3]) *hèr sleppr E um sinn,*

um. Hákon jarl fór nokkur sumur í Austrveg at herja; þá drap hann Grjótgarð, frænda sinn, ok 2 jarla sonu, ok marga menn með þeim, þá er verit höfðu at vígi Sigurðar jarls, föður hans. Hákon jarl fór á fund Haralds Gormssonar Danakonúngs, ok gerðust þeir fèlagar. Hákon jarl fór aptr til ríkis síns í Noregi, ok varð hann ríkr maðr ok spekíngr mikill.

11. Tryggvi konúngr Ólafsson var ríkr maðr ok göfugr, hann þótti Víkverjum bezt til konúngs fallinn at ráða landi öllu; hann átti Ástríði, dóttur Eiríks bjóðaskalla. Guðröðr, son Bjarnar, var ok göfugr maðr, hann var á vist með Tryggva, frænda sínum; Guðröðr fèkk sèr gott kvânfáng ok sæmiligt; hans son var Haraldr, hann var sendr til fóstrs upp á [Grenmörk til Hrana[1] hvíta; hans son var Hrani hinn víðförli, voru þeir Haraldr mjök jafngamlir ok fóstbræðr. Eitt sumar fór Hákon jarl sunnan or Danmörk; hann átti stefnu við þá Tryggva konúng ok Guðröð konúng, ok sátu þeir lengi á eintali; þá fór Hákon jarl heim norðr. Gunnhildr ok synir hennar spurja þetta, ok grunuðu þau, at vera mundi landráð við þau. Eptir um vârit búast þeir bræðr í hernað, Haraldr gráfeldr ok Guðröðr, synir Gunnhildar, ok fór sèr hvârr, þvíat þeir lètu, sem þeir væri reiðir mjök ok úsáttir; en þá er þeir komu austr í Vík, þá sigldi Guðröðr austr um Foldina, en Haraldr fór til Túnsbergs; en

[1]) Grænland til Hróa, *hin.*

þar skamt á land upp var Guðröðr Bjarnarson; þá fór Haraldr þángat, ok tók hús á honum, ok lagði í eld; Guðröðr gekk út ok hans menn, ok fèll þar, ok margt manna með honum. Þá drap ok Guðröðr Tryggva konúng austr við Veggina, ok sveik hann í trygðum; þat var 6 vetrum síðarr enn Sigurðr jarl fèll. Eptir þat lögðu Gunnhildar synir undir sik allt land; marga aðra menn tóku þeir af lífi, stóra höfðíngja, en sumir flýðu land fyri þeim. Haraldr konúngr Guðröðarson, er kallaðr var hinn grænski, flýði furst til Upplanda ok með honum fóstrbróðir hans Hrani, ok dvöldust þeir þar mjök lengi með frændum sínum. Eiríks synir leitaðu mjök eptir þeim mönnum, er í sökum voru við þá, ok þeim öllum mönnum mest, er þeim var uppreistar at vàn. Þat rèðu Haraldi frændr hans ok vinir, at hann færi or landi brott. Haraldr grænski fór austr til Svíþjóðar, ok leitaði sèr skipanar, ok kom sèr í sveit með þeim mönnum, er fóru í hernað, at fá sèr fjár; hann var hinn gerviligasti maðr. Tosti hèt maðr í Svíþjóð, er einn var[1] ríkastr ok göfugastr í því landi, þeirra er eigi bæri tignarnafn; hann var hinn mesti hermaðr, ok var laungum í hernaði, hann var kallaðr Sköglar-Tosti; Haraldr konúngr grænski kom sèr þar í sveit. Um sumarit fóru þeir í víkíng, virðist Haraldr vel hverjum manni; hann var eptir um vetrinn með Tosta; Sigríðr hèt dóttir

[1]) *hèr sleppr C um sinn.*

Tosta, hún var úng ok fríð ok skörúngr[1] mikill; fimm vetr var hann með Tosta.

12. Eiríks synir voru hreystimenn miklir ok íþróttamenn, grimmir ok úværir við allt; um daga þeirra var í Noregi hallæri mikit, bæði á sjá ok á landi, var þá sultr mikill um allt land; svâ kom, at göfgir menn þoldu þeim eigi vandræði. Klyppr hersir, son Þórðar Hörðakárasonar[2] drap Sigurð konúng slefu. Erlíng konúng drápu bændr. Hákon jarl sat í Þrándheimi með trausti bónda, en stundum var hann í Danmörk með Haraldi konúngi Gormssyni, en stundum herjaði hann í austrvíking; þar hittust þeir Gullharaldr[3], ok fóru um haustit báðir til Danmerkr, ok voru um haustit ok um vetrinn með Dana konúngi; þann vetr sættu þeir vælræðum við Harald konúng gráfeld. Haraldr konúngr Gormsson sendi orð Haraldi konúngi gráfeld Eiríkssyni, nafna sínum, ok bauð honum til sín; ok er hann kom til Limafjarðar, þar sem heitir at Hálsi, þá kom þar Gullharaldr, ok barðist við nafna sinn, hann hafði lið meira; þar fèll Haraldr konúngr gráfeldr Eiríksson; litlu síðarr kom þar Hákon jarl, lagði hann þá at Gullharaldi, ok tók hann höndum, ok hengði hann á gálga. Haraldr konúngr Gormsson fór þat sumar til Noregs, ok hafði 7 hundruð skipa; þá var með honum Hákon jarl ok Haraldr grænski

[1]) svarkr, *B*, *D*, *G*. [2]) Hörðakára, *B*. [3]) Haraldr grænski, *D*, *G*,

ok margt annarra manna þeirra, er flýit höfðu óðul sín ok eignir fur Eiríks sonum or Noregi. Haraldr konúngr fór til þess, er hann kom í Noreg í Túnsberg, ok gekk undir hann allt landsfólk, dreif til hans lið mikit ok fjölmenni. Haraldr konúngr fèkk í hendr Hákoni jarli þann luta allan, er á hans luta kom í Noregi, ok gaf honum til forráða; en þat var Rogaland, Hörðaland, Sogn, Firðafylki, Sunnmæri, Raumsdal, Norðmæri; þessi 7 fylki gaf hann honum til forráða með þvílíkum mála, sem Haraldr hinn hárfagri gaf sonum sínum, nema þat skildi, at Hákon skyldi eignast konúngsbú öll í Þrándheimi ok landsskyldir, hann skyldi ok hafa konúngsfè, ef hann verði land fur úfriði. Nafna sínum, Haraldi grænska, gaf hann Víngulmörk ok Vestfold ok Agðir allt til Líðandisness, ok konúngsnafn; lèt hann hann hafa þat ríki með öllu slíku, sem frændr hans höfðu haft at fornu; Haraldr grænski var þá 18 vetra gamall, ok varð síðan frægr maðr. Hákon jarl fór með her sinn norðr með landi; en er þat spur Gunnhildr ok synir hennar, þá varð þeim íllt til liðs; tóku þau þat ráðs, sem furr hafði tekit Eiríkr, at þau sigldu vestr um haf til Orkneyja. En Hákon jarl lagði land allt undir sik, ok rèð lengi síðan; var þat jafnan, at synir Gunnhildar herjaðu í Noreg, ok áttu orrostur við Hákon jarl, ok hafði jarl þá skatta alla, þá er Dana konúngr átti, til síns kostnaðar, en fyri þat sendi hann Dana konúngi stundum

hauka eða hesta ok nökkut af skatti, en stundum ekki, þartil er Dana konúngr taldi at; ok at lyktum varð hann svâ reiðr, at hann fór með her sinn í Noreg, ok gerði þar hit mesta hervirki; eptir þat veitti jarl honum aungva lýðskyldu. Haraldr konúngr grænski hèlt allt sáttmál við Dana konúng, ok svâ hèlt hann vináttu við jarl, meðan hann lifði; hann fèkk Ástu, dóttur Guðbrands kúlu, göfugs manns.

13. Þá er Haraldr konúngr hófst til ríkis í Noregi, var Eiríkr at Uppsölum í Svíþjóð, Eymundarson, hann andaðist þá, er hann var nær tíræðr[1]. Eptir þat voru konúngar í Svíþjóð synir hans, Ólafr, faðir Styrbjarnar, ok Eiríkr hinn sigrsæli, er lengi var konúngr í Svíþjóð; hann fèkk í elli sinni Sigríðar hinnar stórráðu, dóttur Sköglar-Tosta; þeirra son var Ólafr svænski, er var konúngr í Svíþjóð eptir föður sinn Eirík. Eiríkr Svía konúngr fèkk bana ofarla á dögum Hákonar jarls; Sigríðr drottníng var þá at búum sínum, þvíat hún átti bæði mörg ok stór; hún var forvitr ok forspá um marga luti.

14. Haraldr konúngr fór eitt sumar í hernað í Austrveg, at afla sèr fjár, hann kom í Svíþjóð; en er þat spurr Sigríðr, föðursystir hans, þá sendi hún menn til hans, ok bauð honum til veizlu; hann fór þángat með mikla sveit manna; þar var góðr fagnaðr; sat konúngr ok

[1]) tvítugr, *hin.*

drottníng í hásæti, ok drukku bæði saman um kveldit; ok er konúngr fór til rekkju, þá var sæng tjölduð pellum, ok búit forkunnar vel um; í því herbergi var fátt manna. Ok er konúngr var afklæddr ok kominn í rekkju, þá kom drottníng þar sjálf, ok skenkti honum, ok lokkaði hann mjök til at drekka, ok var hin blíðasta; konúngr var allmjök drukkinn ok bæði þau; þá sofnaði konúngr, en drottníng gekk íbrott ok til svefns. Eptir um morguninn var veizla hin kappsamasta; en þá varð, sem jafnan verðr, þar sem menn verða mjök drukknir, at næsta dag eptir, þá varast flestir at vera ofdrukknir; drottníng var þá enn hin kátasta; hún talaði svâ til konúngs, at hún virði eigi minna eignir sínar, þær er hún átti í Svíþjóð, enn konúngdóm hans í Noregi. Við þessar ræður varð konúngr úglaðr, ok fannst fátt um allt, ok bjóst íbrott eptir þat, ok var hugsjúkr; en drottníng var hin kátasta, ok leiddi konúng brott með stórgjöfum. Fór þá Haraldr konúngr um haustit til Noregs, ok var heima um vetrinn ok heldr úkátr; en eptir um sumarit fór hann í Austrveg með liði sínu, ok hèlt þá til Svíþjóðar, ok sendi orð Sigríði drottníngu, at hann vill finna hana; hún reið ofan á fund hans, ok talaðust þau margt við. Konúngr vekr brátt mál við hana, ef hún vildi giptast honum; hún segir honum þat hègómamál: ok ert þú áðr svâ vel kvângaðr, at þèr er fullræði í. Hann svarar: góð kona er Ásta ok göfug, en ekki er hún jafn-

stóræltuð sem ek. Vera má þat, segir hún, at hún sè ættsmærri enn þú, en hitt hygg ek, at með henni sè nú beggja ykkar gæfa ok hamíngja. Litlu fleirum orðum skiptust þau við, áðr drottníng reið ábrott. Haraldi konúngi varð allskapþúngt af þessu; hann bjóst síðan at ríða á land upp á fund drottníngar, margir hans menn löttu þessa, en eigi at síðr fór hann með sveit manna, ok kom til þess staðar, er drottníng rèð fyri. Hit sama kveld kom þar annar konúngr, sá hèt Vísivaldr or Garðaríki. Þeim var skipat báðum konúngunum í eina mikla stofu ok forna, eptir því var allr búnaðr hennar; þeim var gefinn drykkr áfengr um kveldit, svâ at allir voru fulldrukknir; sofnaðu allir höfuðverðir ok útverðir. Þá sömu nótt lèt Sigríðr drottníng veita þeim atgaungu, bæði með eldi ok vâpnum, þar brann stofan ok allir þeir menn, sem inni voru; þeir voru drepnir, er útkomust. Sigríðr drottníng segir, at svâ vill hún leiða smákonúngum, at fara til þess af öðrum löndum at biðia sín.

15. En þann vetr hinn næsta áðr átti Hákon jarl orrostu við Jómsvíkínga á Hjörúnga vâgi. Hrani hafði verit eptir at skipum, þá er Haraldr konúngr hafði riðit á land upp, var hann settr forráðandi þess liðs, er at skipum var. En er þeir spurðu þat, at Haraldr konúngr var af lífi tekinn, þá fóru þeir íbrott sem tíðast, ok aptr til Noregs, ok sögðu þessi tíðendi. Hrani fór á fund Ástu, ok segir henni þessi tíðendi um för

þeirra, ok svâ þat, hverra eyrenda Haraldr konúngr fór á fund Sigríðar drottníngar. Ásta fór þegar til Upplanda, er hún frètti þetta, á fund föður síns, ok tók hann við henni; en bæði voru þau reið Haraldi konúngi fyri þat, er hann hafði ætlat at láta hana eina, ok um ráðaætlan þá, er verit hafði í Svíþjóð.

16. Eina nótt dreymdi Hrana, at maðr kom at honum í pellskyrtli, ok hafði guðvefjarskikkju yfir sèr, hann hafði gullhríng á hendi; hann mælti svâ: vaki þú, Hrani! segir hann; ek er Ólafr konúngr Geirstaðaálfr; þik vel ek til at brjóta minn haug, ok mun lítit fur verða, ef þú fær mín ráð at: haf eld ok snæri með þèr, ok far svâ í hauginn, þar munt þú sjá marga menn, far óhræðiliga! þar muntu sjá mann með slíkum búníngi, sem nú er ek, tak af honum hjálm ok hrínginn gullvönd ok sverð ok skikkju, síðan högg þú af honum höfuð, ok mun þat auðveldt; ok ef þú bregðr eigi af því, er ek mæli, þá fylgir hamíngja, ella liggr á þèr víti; spenn af mèr belti ok knífinn á; þá mun þèr mál íbrótt at fara, ok vænti ek, at þèr endist vel; ok ef illar vættir taka í klæði þín, þá sker þú af með sverðinu þá leppa, er þeir ná, af þínum klæðum. Ek vil ok segja þèr mína æfi skyndiliga, bæði um haugsgjörð ok um blót ok reimleik, ok hefir þat svâ farit, sem ek gat. En ef þú óttast at brjóta hauginn, þá far þú til móts við Svein Hákonarson, hann liggr hèðan skamt íbrott með liði sínu, ok er fèvani mjök; hann þikkist spurt hafa, at fèvân er mikil í haugi

Ólafs konúngs digrbeins. Nú sagði hann Hrana, hvaðan hann skyldi brjóta hauginn: ok skulum nótt at vera, segir hann; engi mun vinna í hauginn gánga fur ódaun, er or hauginum mun útleggja; þá ráðst þú til, ok far í hauginn, ok mæl til 3 kostgripi at afnámsfè, en helmíng af öðru fè; síðan bið þú Svein jarl halda festinni, hann einn mun einurð ok drengskap til hafa at bíða, þartil er þú kemr or hauginum; ber til skiptis allt lausafè þat, er í hauginum er, ok áðr liggr í einni hrúgu; en hvârki mun í hauginum hljódt nè kyrt, er þú ferr í brott; ljósin munu slokkna, en allir menn munu af hauginum stökkva, nema Sveinn jarl, ok fáir menn með honum; hann mun þá vilja, at þú hafir þriðjúng fjár, en hann 2 luti; en þú seg svâ, at þat sè eigi ykkarr skildagi; hann mun segja þann virðíngar mun ykkarn; lát þú þèr þat líka, laup þú á hest þinn, ok ver eigi nærr honum, enn mál nemi, ok sýn honum þá gripina; hann mun sjá vilja gjörr gripina; en þú lát þess engan kost, ok ríð undan í skóg, ok lètt eigi furr enn þú kemr til Ástu Guðbrandsdóttur, ok fylg henni til föður síns, hún er með barni, ok ef henni greiðist seint, legg um hana beltit þat, er ek hefi átt, ef við þik er ráða leitat, ok mun þat duga; mæl þú þèr laun fur., at þú vilir ráða fur nafni, ef sveinn er, ok lát Ólaf heita, ok skil þú eigi við hann, meðan þið lifið báðir; ok sá sveinn mun verða hjálp ok heilsa kyns vârs, þvíat vèr allir

munum fagna hans híngatburð ok andláti, svâ sem vèr sèim náliga af dauða reistir. Þá gripi, er þú tekr af mèr í hauginum, vil ek at þú selìr í hendr Ástu, ok bið þú hana varðveita, ok selja í hendr syni sínum, þá er hann vex upp. Hrani þóttist spurja: mun þat eigi ofráð, at brjóta haug þinn fyri landshöfðíngjum, svâ mikla ást sem þeir höfðu á þèr, meðan þú lifðir? Draummaðrinn svarar: nógt traust er þèr at jarlinum, hann hefir lángskip alskipat, ok liggr hèðan skamt ábrott í einum leynivâgi; engi er svâ ríkr, at sjá gángi á þín efni. Sveinn jarl þarf fjárins, en þú gjör fèlag við hann at mínum boðskap; brjót þú enn fyrsti manna hauginn, ok gakk inn; lát þú Svein jarl eigi hafa gripina, þá er þú tekr af mèr, þvíat heldr mun hann þá kjósa enn allt fèit; en þriðjúngs mun þèr virt af öllu fènu, þar er þú átt helmíng, en þú lát þik ekki á þat skilja; bið þú Svein jarl láta bera fèit til skipta, en þú kom um morgininn eptir til skiptis, en bú á þeirri stundu ferð þína. Síðan hvarf draummaðrinn ábrott. En Hrani vaknaði, ok hugsaði um, hvat fyrir hann hafði borit; hann vissi gjörla, at Ólafr Geirstaðaálfr hafði verit mikill höfðíngi ok allvinsæll, ok manna bezt at sèr þeirra manna, er í fornum sið hafa verit; svâ kvað Þjóðólfr hinn hvinverski:

Rèð Ólafr
Ofsa[1] forðum,

[1]) Upsa, *F*, *H*.

víða frægr,
ok Vestmari[1],
unz fótverkr
við foldar þröm
[virða vin[2]
[umviða náði[3];
nú liggr gunndjarfr
á Geirstöðum
herkonúngr[4],
haugi vorpinn.

Þessi Ólafr var son Guðröðar Vinda konúngs, ok vissi fyri dauða sinn af draumspeki sinni. Hrani vissi, at þat var satt, er hann sagði honum, ok framkomit var, ok því treysti hann, at þat mundi ok eptirgánga, sem óvorðit var í þeim draumi; hann fór þegar at leita at Sveini jarli, ok fann hann, sem honum var tilvísat, ok gekk fyrir hann; jarl fagnaði honum vel, ok spurr at erendum, þvíat hann vissi at Hrani var frægr maðr, ok hafði víða farit. Hrani frètti, hvârt jarli væri engi hugr á fèfaungum. Jarl kveðst gjarna vildu fjár afla, ef þess væri kostr. Hrani segir nú til, hvar haugrinn var, ok kvað fást mundu fèit, ef hans ráðum væri at farit; ok því játar jarl, ok skildi Hrani sèr helmíng fjár þess, er fengist. Síðan fóru þeir til haugsins, ok brutu, ok gekk þetta allt, svâ sem draummaðrinn hafði sagt; gekk Hrani í hauginn, en jarl hèlt

[1]) goðum líkr ok Grænlands fylki, *b. v. F.* [2]) vígfrömustum, *F, H.* [3]) varð at grandi, *F*; af víða tèði, *H.* [4]) [illegible]

festi, sem Hrani átti skilt. Ok er Hrani kemr í hauginn, sèr hann tíguligan mann á stóli sitja, ok sprettir af honum beltinu, ok var þar knífr á; hann tók hjálm af höfði honum, ok var þat hin mesta gersimi; síðan brá hann sverðinu, ok þorði furst eigi at höggva hann, en þó rèð hann þat af umsíðir, hjó hann af honum höfuðit, var því líkast, sem í vatn brigði, svâ beit sverðit; síðan bjóst hann íbrott, ok bar lausafè allt í festi, þat er áðr lá í hauginum; ekki var þá kyrt í hauginum, ljósit slokknaði, en þess verðr hann varr, at flestir menn eru þá brottu af hauginum, nema Sveinn jarl ok fáir menn með honum. Hrani las sik upp eptir snærinu or hauginum, ok var fènu hagat til gæzlu. Ok um morgininn, er þeir fundust, sagði Sveinn jarl, at hann vill hafa 2 luti fjárins; Hrani sagðist eigi af því haldinn vera; jarl kvað hann enga atferð til þess haft mundu hafa at brjóta hauginn, ef eigi hefði notit at hans tignar ok gæfu. Þú munt ráða verða, jarl! sagði Hrani. Ok er Hrani kom á hest sinn, mælti hann til Sveins jarls: mikinn ójafnað lýstir þú nú við mik ok mikit ofríki, en þó hefi ek þá gripi, er fèmætir eru, ok var þá eigi nærr jarli, enn mál nam í-milli þeirra. Jarl vildi sjá gripina; en Hrani reið undan með 2 hesta; þá skutu þeir hestinn undir honum; hann ljóp þá á bak öðrum hestinum, ok hleypti í skóginn; er nú ekki sagt frá ferðum hans, furr enn hann kom til Ástu

Guðbrandsdóttur, ok sagði henni tíðendi þau, sem vorðin voru, ok fylgði henni til föður síns, ok tók hann allvel við henni.

17. Litlu síðarr tók Ásta jóðsótt, ok var þúngliga haldin, ok horfðist seinliga á um sóttarfar hennar, sátu menn yfir henni mjök harmþrúngnir; þá var ráða i leitat, þeirra er mönnum kom í hug, var Hrani eptirspurðr, ef hann kynni nokkut til at leggja; hann kvað eigi þess örvænt, ok sagðist ráð mundu tilleggja, ef hann rèði fyri nafni sveinsins, ef sveinbarn væri; þeir sögðu þat skyldu at vísu; þá tók Hrani beltit ok lagði um hana, ok litlu síðarr varð hún lèttari[1].

18. Ásta Guðbrandsdóttir ól sveinbarn[2], en sá sveinn var nefndr Ólafr, er hann var vatni ausinn; Hrani jós hann vatni, [ok er þat sumra manna sögn, at Guðbrandr vildi eigi upp láta fæða sveininn fur reiði þeirri, er hann hafði á feðr hans, fur enn Hrani sagði honum, at hann sæi ljós yfir húsi því, er sveinninn var í fæddr; Guðbrandr gekk til at sjá sjálfr; var þá ábrott tekinn sveinninn, ok fæddr upp með mikilli ástúð. Hrani gaf honum beltit ok knífinn at tannfè, ok er honum vóx aldr, þá gaf Hrani honum hrínginn ok sverðit. Ólafr var uppfæddr með Guðbrandi ok Ástu, móður sinni.

---

[1]) *Tvò undanfarandi kapít. v. í B, D, G, L, en eru í F ok H frábrugðnir ok fjölorðari.* [2]) um sumarit, *b. v. hin.* [3]) var sá sveinn þar uppfæddr fyrst, *hin.*

19. Nokkurum vetrum síðarr báðu þeir Ástu, móður Ólafs, Gissr Guðbrandsson, lendr maðr, ok Sigurðr sýr, er þá var konúngr á Hríngaríki, ok hafði hvârrtveggi marga fulltíngsmenn. Sigurðr konúngr var spekíngr mikill at viti, göfugr maðr ok auðigr at fè, ok heldr fastr at framlögum. Gissr var mildr at fè ok meirr við alþýðu skap, ok var þat flestra manna tillaga, at árna Gissuri kvânfángsins. Þá setti Ásta Ólaf, son sinn, á knè sèr, hann var þá 6 vetra gamall. Ásta spurr, ef Ólafr leiði nokkut athuga, hvert eyrendi þeirra manna væri þángat? Ólafr svarar: skilst mèr þat, segir hann, en betra þikkir mèr nú at leika við sveina, enn at íhuga vandamál. Ásta svarar: kalla má, at þetta sè umfram þinn afla, er þú hefir fur aldrs sakir, en þó bregzt mèr mjök í, ef eigi fætt þú nokkut þat at mæla, at ek muni þaraf mín forlög marka. Ólafr mælti: hve mikill ertu metnaðarmaðr, móðir? segir hann. Ásta svarar: eigi ætla ek mik þat munu skorta. Ólafr mælti: hvârt mundi þèr þikkja betra eptir þinn dag, eða meðan þú lifðir, at eiga lendan mann at syni, eða þann, er þjóðkonúngr væri yfir Noregi? Hún svarar: kunna mundi ek þess skyn. Ólafr mælti: þat segir Hrani mèr, fóstri minn, at eigi muni kvistir þèr betri enn aðaltrè, at þú munir ala son við lendum manni, en þú mættir vel ala konúng við þeim, er konúngborinn er

í allar kynkvíslir. Þetta flutti mjök fram mál Sigurðar; var þat afráðit, at Sigurðr konúngr fèkk Ástu, móður Ólafs konúngs; hann var landsstjórnarmaðr góðr, engi var hann hermaðr, rèttlátr ok hófsmaðr um alla luti. Ólafr Haraldsson fæddist upp með Sigurði, stjúpföður sínum, ok Ástu, móður sinni.

20. Einum vetri síðarr enn Haraldr grænski fèll í Svíþjóð, þá tóku Þrændir af lífi Hákon jarl, en tóku til konúngs Ólaf Tryggvason. Ólafr var hinn mesti merkismaðr, ok at àllri atgervi líkastr Hákoni Aðalsteinsfóstra. Ólafr konúngr var vel kristinn, ok hèlt furstr rètta trú Noregs konúnga; hann kristnaði allan Noreg ok mörg lönd önnur, ok var ágætr konúngr; hann fór um allt land, at boða mönnum trúna. Hann kom á Hríngaríki, ok þá veizlu at Sigurði konúngi sýr; þá var Sigurðr konúngr skírðr ok allir hans menn, þá var ok skírðr Ólafr Haraldsson, ok veitti Ólafr konúngr sjálfr honum guðsifjar. Svâ er sagt, at Ólafr konúngr hafi mælt við nafna sinn, þá er hann hèlt honum undir skírn, at slíkan son mundi hann sèr æskja at eiga, ok sagði hann vera konúngs efni dýrðarsamligt. Ólafr Haraldsson sagði ok svâ, at þat kom ásamt með þeim, at þvílíkan konúng mundi hann kjósa sinn föður, sem Ólafr konúngr Tryggvason var, fyri sakir allrar atgervi ok ríkdæmis, er hann hafði umfram flesta konúnga á Norðrlöndum. Þat sýndist ok snemma, at vitrum mönnum fannst mikit

um Ólaf Haraldsson, ok spáðu honum, hverr ágætismaðr hann mundi verða í sínu lífi ok afreksverkum þeim, er hann vann, eptir því sem síðan birtist. Hrani var með Ástu, sem sagt var, hann veitti fóstr Ólafi Haraldssyni. Ólafr var snemma gjörvuligr ok fríðr sýnum, meðalmaðr á vöxt, vitr maðr var hann snemma ok málsnjallr. Sigurðr konúngr var búsýslumaðr mikill, ok hafði menn sína mjök í starfi, hann fór ok optliga sjálfr at sjá yfir akra sína, ok eigi síðr til smíða sinna, eða þar er menn störfuðu nokkut. Þat var eitt sinn, at Sigurðr konúngr vildi ríða af bænum, þar var þá engi maðr yðnarlauss á bænum, at eigi hefðist hverr nokkut at; hann kallaði Ólaf, stjúpson sinn, at söðla sèr hest; hann fór síðan ok söðlaði honum fararskjót; hann segir honum, at búinn var skjótrinn. Þá gekk Sigurðr konúngr út, ok sá, hversu Ólafr hafði gjört; hann mælti: þat er auðsýnt, at þú munt vilja af höndum ráða kvaðníngar þær, er þèr sè ímóti skapi; er þat ok auðsèt, at við munum vera ekki skapglíkir, munt þú vera maðr miklu skapstærri enn ek. Ólafr svarar fá; hann hafði söðlat búkk einn konúnginum.

21. Þat var eitt sinn, er Ólafr reið á dýraveiðar, ok með honum sýgnskr maðr, er Halldórr hèt, ok var kallaðr Rannveigarson; hann hleypti eptir dýrum um daginn, ok fèll af baki; um kveldit, er þeir komu heim, bar Ásta honum at drekka; þá kvað Ólafr vísu:

Fyll horn, kona!
fèll af hesti
Rannveigarson,
þar er riðu drengir;
kunnu eigi Sygnir
á söðuldýrum
fullvel fara;
fær mèr ok þèr!

Halldórr kvað aðra vísu til Ólafs við þann atburð, er áðr hafði gerzt:

Fyll horn, kona!
frá ek at belldi
Ólafr konúngr
undri miklu,
þá er hann söðlaði
sínum mági
búkk at ríða;
fær[1] mèr ok þèr!

22. Ólafr Tryggvason rèð 5 vetr fur Noregi; hann fèll í orrostu suðr fur Vindlandi, sem segir í sögu hans, þá er hann barðist við Svein Haraldsson, Dana konúng, er þá átti Sigríði hina stórráðu, dóttur Sköglar-Tosta, ok við Ólaf Svía konúng ok við Eirík jarl Hákonarson. Eptir þat rèðu Noregi Eiríkr jarl ok Sveinn jarl Hákonarsynir, ok guldu skatta Dana konúngi ok Svía konúngi. Knútr hinn ríki var son Sveins konúngs. Sveinn Dana konúngr fór með her sinn vestr til Englands á hendr Aðalráði, Eng-

[1]) ber, F.

lands-konúngi, Játhgeirssyni, ok áttu þeir orrostur, ok höfðu ýmsir betr, þvíat ýmsir sigraðust. Sveinn konúngr setti menn sína í Víkina, ok var hans vald austan Fjarðar.

23. Þá er Ólafr Haraldsson var 8 vetra gamall, þá var hann viðstaddr einn dag, er Ásta, móðir hans, leitaði í eina hirzlu. Ólafr spurr, hvat þar væri svâ bjart í hirzlunni? Hún svarar: þat eru sverðs hjölt. Ólafr mælti: hverr á? Þú átt, son minn! segir hún, ok er þat sverðit Bæsíngr, er Hrani, fóstri þinn, gaf þèr, en átt hefir Ólafr Geirstaðaálfr. Ólafr mælti: ek vil nú viðtaka ok meðfara. Ásta selr honum sverðit. Sigurði konúngi þótti eigi verða vel meðfarit, þvíat Ólafr dró þat eptir sèr um hallargólfit, en sverðit vár mjök gulli búit. Sigurðr konúngr mælti til Ástu, sagði, at þat var siðvenja kvenna, at láta þat margt eptir börnum, er þau þurfa at aungu, en láta þau missa þess margs, er þau þurfa. Ásta svarar: ef þú færr teygt af honum sverðit, svâ hann gráti eigi, þá leyfi ek þat, en grát hans vil ek eigi. Sigurðr konúngr mælti við Ólaf einn dag við drykkju, at hann vill varðveita Bæsíng, ok þó honum til handa, en fá honum annat sverð lèttara til meðferðar; Ólafr svarar engu. Sigurðr kveðr hann í annat sinn, ok er Ólafr hljóðr; ok hit 3ðja sinn kveðr Sigurðr hann reiðuliga. Ólafr bregðr þá sverðinu, er konúngr kveðr hann hit 3ðja sinn, en leggr umgjörðina undir skykkju

Hrana, fóstra síns, en rèttir blóðrefilinn at konúnginum, en heldr sjálfr um meðalkaflann. Ólafr mælti þá: eigi hefi ek aldr til at banna yðr at taka af mèr Bæsíng, nauðgum, en ek sel hann engum manni af hendi öðruvíss, enn ek hafi umgerðina ok meðalkaflann. Sigurðr mælti: þá varðveit þú sjálfr sverð þitt, ok er þess mest vân, at ek kveðja þik þess eigi optarr.

24. Þá var Ólafr 10 vetra, er Sigurðr bað hann bjóða mönnum í veizlu, ok ráða sjálfan tilfaungum. Ólafr lèt höggva upp [allt búit[1], ok bauð meirr enn hálfu fleiri mönnum, enn Sigurðr hafði mælt; Sigurðr kvaðst hann eigi mundu þessa optarr kveðja, ok kvað brátt mundu uppgánga lausafèin, ef hans skipan skyldi á vera. Ólafr kvað annann veg eiga at búa konúnga enn kotkarl. Þat fannst brátt á, hversu mikit þessum sveini var í hug, ok síðan reyndist um hans ráð enn framarr.

25. Ólafr Haraldsson vóx upp, sem sagt var; hann var ekki hárr meðalmaðr á vöxt, ok allþrekligr ok sturkr, ljósjarpr á hár, breiðleitr, ljóss ok rjóðr í andliti, eygðr forkunnar vel, fagreygr ok bjarteygr, svâ at ótti var at sjá í augu honum, ef hann var reiðr. Ólafr var íþróttamaðr mikill um marga luti, kunni vel við boga, ok sundfærr vel, skaut manna bezt af handboga, hagr ok [sjónhannr um alla luti[2]; hann var kall-

---

[1]) eitt bú allt, *F.* [2]) sjónhannarr um smíðar allar, hvort er hann gerði, eðr aðrir menn, *B, S.*

aðr Ólafr digri; hann var djarfr ok snjallr í máli, bráðgjörr var hann um alla luti, at öllum þroska, ok afli ok vizku; hann var hugþekkr öllum vinum sínum ok frændum; hann var kappsamr í leikum, ok í öllum lutum vildi hann fur öllum vera um allt, þat er tilkom, eptir því sem hann var tilkominn.

26. Ólafr Haraldsson var þá 12 vetra, er hann stè á herskip fursta sinn. Ásta fèkk til Hrana, er kallaðr var konúngsfóstri, til forráða fyri liðinu með Ólafi, þvíat hann hafði opt verit í hernaði. En er Ólafr tók við liði ok skipum, þá gáfu liðsmenn honum konúngsnafn, sem siðvenja var til, þá er herkonúngar fóru í hernað, ef þeir voru kynbornir til konúngsnafns, þóat þeir sæti eigi at löndum, þegar þeir voru herkonúngar. Hrani sat við stýrihömlu, en Ólafr við stjórn í hásæti; þeir hèldu austr með landi, ok furst til Danmerkr; svâ segir Óttarr svarti:

Úngr [hratt þú[1] á vit vængis,
vígrakkr konúngr! blakki,
þú hefir dýrum þrek dreyra,
Danmarkar, þik vandan;
varð nytligust norðan,
nú ert ríkr af hvöt slíkri,
frá ek til þess er fóruð,
för þín, konúngr! gjörva.

En er haustaði, sigldi hann[2] fur Svíaveldi, tók hann þá at herja ok brenna landit, þvíat hann

[1]) hèlztu, *G.* [2]) austr, *b. v. hin.*

þóttist Svíum eiga at gjalda fullan fjandskap, er þeir höfðu tekit föður hans af lífi. Svâ segir Óttarr svarti berum orðum, at Ólafr konúngr fór austr or Danmörk:

Öttuð[1] árum skreyttum
austr í salt með flaustum[2],
báruð lind[3] af landi,
landvörðr[4]! á skip randir;
neyttuð segls ok settuð[5]
sundvarpaði stundum,
sleit mjök róin[6] mikla
mörg ár und þèr báru.

Drótt var[7] drjúgligr[8] ótti
dólgstinns[9] at för þinni,
svanbeiðir[10] namtu síðan
Svíþjóðar nes hrjóða.

Haust þat barðist Ólafr[11] við víkínga, ok er sá Sóti nefndr, er fyri þeim rèð. Olafr hafði miklu minna lið, en skip stærri; hann lagði skip sín millum boða nokkurra, ok var víkíngum þá úhægt at þeim at leggja, en þau skip, er mest lögðu at þeim, þá komu þeir á stafnljám, ok drógu þá at sèr, ok hruðu svâ þau skip. Víkíngarnir lögðu frá, ok höfðu látit menn ok mikit fe; svâ segir Sighvatr skáld:

[1]) attuð, *B*, *H*, *L*. [2]) fleystum, *K*. [3]) lund, *B*; lendr, *H*. [4]) landherr, *B*. [5]) sættust, *B*; sóttuð, *K*. [6]) roðin, *F*. [7]) víðr, *B*; stendr, *D*, *F*; varð, *G*, *K*, *S*; vídt stendr, *L*. [8]) dýrligr, *D*, *F*, *L*. [9]) döglíngs, *hin*. [10]) svannbræðir, *hin*. [11]) ena fyrstu orrostu við Sótasker, þat er í Svíaskerjum; þar barðist hann, *b. v.* *D*, *G*, *H*, *K*, *L*, *S*.

Lángt þar út hinn únga
jöfra kund [at sundi[1],
þjóð ugði[2] sèr síðan,
sæmeiðr, konúngs reiði;
kankaða ek mark[3], en manna,
minna[4] fursta sinni,
hann rauð æztr fur austan
úlfs fót við sker Sóta.

Ólafr hèlt þá austr fyri Svíþjóð, ok lagði inn í Löginn, ok herjaði á bæði borð, hann lagði upp til Sigtúna ok lagði at við fornu Sigtúnir; svâ segja Svíar, at þar sjái enn grjóthlöð þau, er Ólafr konúngr lèt gera undir bryggjusporða sína. En er haustaði, þá spurr Ólafr konúngr þat, at Ólafr Svía konúngr dró her saman, ok svâ þat, at hann hafi járnum gjört um sundit ok sett þar menn til at gæta, svâ at eigi máttu þeir útkomast or Leginum, ok ætlaði Svía konúngr, at þar skyldi þeir bíða frera, ok þótti Svía konúngi lítils verdt um her hans, þvíat hann hafði lítit lið. Þá fór Ólafr konúngr út í Stokkssund, ok komust eigi þar út, þvíat kastalinn var fur vestan sundit, en herr manns fur austan. Nú spurr Ólafr, at Svía konúngr er á skip kominn, ok ætlaði þá at leggja at þeim. Þá lèt Ólafr konúngr grafa [fitina út til hafs[5], en þá voru regn; en um alla Svíþjóð þá fèllu rennandi vötn í Löginn; en einn óss er til hafs or Legin-

---

1) frá grundu, *G*, *H*. 2) hugði, *G*, *L*. 3) margs, *hin*. 4) minni, *hin*. 5) út ígegnum Agnafit til hafsins, *D*, *G*, *K*, *L*, *S*.

um svâ mjórr, at margar ár eru breiðari; en þá er regn eru mikil eða snænám, þá falla vötn svâ æsiliga í Löginn, at forsfall er út um Stokkssund, en Lögrinn gengr þá á landit; en er gröptrinn kom út í sjáinn, þá ljóp þar út straumr ok vatn. Þá lèt Ólafr konúngr leggja stýri öll or lagi á skipum sínum, en draga upp segl við húna; byrr var af landi, ok stýrðu þeir með árum, ok gengu skipin út yfir grunninn, ok komu öll heil á haf út. Svía konúngr veitti þeim þúngar átölur, er gætt skyldu hafa óssins, at Ólafr konúngr kæmist eigi út; þat er nú kallat Konúngssund, ok má þar ekki stórskipum fara, nema þá er vötn æsast mest. Nú er þat sumra manna sögn, at Svíar vyrði varir við, þá er konúngr hafði grafit út fitina ok vatnit fèll út, at Svíar færi þá til með her manns, ok týndist þar fjöldi manns; en Svíar mæla þar ímóti, ok kalla þat hègóma, at menn hafi þar farizt.

27. Ólafr konúngr sigldi þá um haustit til Gautlands, ok bjóst þar til hernaðar; en Gautar höfðu fursamnað, ok gjörðu síðan menn til hans, ok buðu honum gjald af landinu; þat þekktist konúngr, ok tók gjald af bóndum, ok sat þar um vetrinn; svâ segir Óttarr svarti:

Gildir[1] komt þú at gjaldi
gotneskum [her flotna[2],
þorðuð þèr at verða[3]

[1]) Gildis, *B*, *D*; gildr, *G*, *K*, *L*. [2]) herflótta, *F*. [3]) varða, *hin.*

þjóðland[1] fírar[2] brandi[3];
rann, en meðr of minna
margr býr um þrek, varga
húngr frá ek austr, enn ýngvi[4],
Eysýslu lið, deyja[5].

Hèr segir ok svâ, at Ólafr fór, er vâraði, austr til Eysýslu ok herjaði; svâ er sagt, at hann veitti landgaungu, en landsmenn fóru ofan, ok áttu orrostu við hann; þar hafði Ólafr konúngr sigr, ok rak hann flóttann ok herjaði. Svâ er sagt, at Ólafr konúngr kom í fursta í Eysýslu, þá buðu bændr honum gjald af landinu, ok herjaði hann þar eigi; en er gjaldit kom ofan, þá gekk hann ímóti með lið sitt alvâpnat, ok var þar annann veg enn bændr hètu, þvíat þeir höfðu gjald ekki at færa konúngi, heldr hervopn at berjast við hann, sem furr var sagt; svâ segir Sighvatr skáld:

þar[6] var enn, [er unnuð[7],
Ólafr, nè svik fálust[8],
odda [hríð í auðri[9]
Eysýslu gekk[10] heyja;
sitt áttu fjör fótum,
fár[11] beið or stað sára,
en þeir er undan runnu,
allvaldr[12], bændr gjalda.

[1]) þat land, *G, H, S*; þjóðlönd, *hin.* [2]) fyri, *B*; fira, *K*; jöfurr, *G*, *H*, *S*; farar, *L.* [3]) röndu, *B*, *D*, *K.* [4]) úngi, *D, G, S*; ýngri, *hin.* [5]) heyja, *B, D*; þegja, *F, K, S*; þeysa, *G, H*; þreyja, *L.* [6]) þat, *hin.* [7]) er önnur, *B, D, F, K, S*; er annat, *G, H.* [8]) fáluð, *B.* [9]) þing í eyddri, *hin.* [10]) gat, *B.* [11]) farir, *G.* [12]) allvald, *K*; allvaldi, *F, G, H.*

Síðan sigldi Ólafr konúngr aptr til Finnlands, ok herjaði þar, ok gekk á land upp; en lið allt flýði á skóga undan, ok eyddi bygðina, svâ at þeir fengu ekki af fè; hann fór þá lángs á land upp ok yfir skóga nokkura, ok urðu þá fur þeim dalbygðir nokkurar, ok voru þar bæir margir; því heita þar Herdalir; þar fengu þeir lítit fè, en ekki af mönnum. En er áleið daginn, snèri konúngr ofan til skipa sinna; ok er þeir komu á skóginn, dreif lið at þeim öllum megin, ok sótti at þeim fast; konúngr bað menn sína hlífa sèr. En áðr konúngr kæmi or skóginum, þá lèt hann marga menn, ok margir voru sárir; hann kom um kveldit til skipa sinna. Þá gerðu Finnar um nóttina mikit fjölkýngiveðr at þeim ok storm sjóvar; þá lèt konúngr taka upp akkeri ok draga upp segl á skipum sínum, ok beitti hann vestr fyri landit, ok mátti meira hamíngja konúngs, enn fjölkýngi Finna, ok fengu þeir beitt fyri Balagarðssíðu ok svâ út á haf. En Finnar fóru hit efra, sem konúngr sigldi hit ytra, ok væntu þá ok þá, at þá mundi uppreka at þeim; svâ segir Sighvatr skáld:

Hríð varð stáls, á[1] stríðri,
straung, Herdala gaungu
Finnlendínga at fundi,
fylkis niðs[2] hins[3] þriðja[4];
en austr við lá leysti
lið[5] víkínga síðu[6]

[1]) í, *hin.* [2]) móts, *H*; niðr, *F*, *S*. [3]) hinn, *B*, *D*, *G*; hina, *F*, *H*, *L*, *S*. [4]) þriðju, *F*, *L*. [5]) leið, *hin.* [6]) skeiðir, *B*, *D*, *F*, *K*, *L*, *S*; skeiðar, *G*, *H*.

Balagarðs, at barði
brimskíðum lá síðan[1].

Þá sigldi Ólafr konúngr til Danmerkr; ok er hann kom í Suðrvík, þá átti hann þar hina 4ðu orrostu; svâ segir Sighvatr:

Enn kváðu gram gunnar
galdrs[2] upphöfum valda,
dýrð[3], [er þeim[4] vel varðist,
vinnast fjórða sinni;
þá er ólítit[5] úti
jöfra liðs[6] ámiðli[7]
friðr gekk sundr í[8] sáðri[9]
Suðrvík, Dönum kuðri.

Þaðan sigldi Ólafr konúngr suðr til Fríslands; hann lá fyri Kinnlimasíðu í hvössu veðri, þar gekk hann á land upp með lið sitt; en menn fóru ofan ímóti þeim með lið sitt, ok börðust við þá; svâ segir Sighvatr skáld:

Víg vanntu, hlenna hneigir!
höldum[10] grimmt hið fimmta,
þolduð[11] hlýr fur hárri
hríð Kinnlimasíðu;
þá[12] er við rausn at ræsis
reið[13] herr[14] ofan skeiðum[15]
en ígegn at gunni
gekk hilmis lið, rekkum.

1) síða, *B*, *H*, *L*, *S*; síðu, *G*. 2) gjalds, *D*, *F*, *L*. 3) *v. i G*. 4) frá ek þeim er, *hin*. 5) ólítill, *B*, *K*, *S*; ólítil, *G*, *H*; ólitum, *L*. 6) lið, *B*. 7) milli, *K*, *S*. 8) með, *G*. 9) slíðri, *B*, *D*, *F*, *H*, *K*, *S*; suðri, *L*. 10) hjálmum, *hin*. 11) þoldu, *hin*. 12) þar, *B*, *D*, *F*, *L*, *S*. 13) reiðr, *G*, *H*. 14) hverr, *B*; ferð, *D*, *F*, *L*. 15) sverðum, *D*.

28. Þat er sagt, at þá er Ólafr konúngr herjaði um Austrríki, hafði hann markað við heiðit fólk eitt sinni; þá urðu (þeir) þess vísir, at þar var vísindakona ein á því landi, sú er sagði fyrir örlög manna ok líf, ok þótti förunautum konúngs skemtiligt at eiga tal við hana; þeir spurja konúng, ef hann vildi gánga til tals við hana, ok frètta eptir forlögum sínum; hann kveðst þat eigi vilja; þá spurja þeir, ef hann vildi lofa þeim, at frètta eptir fur hans hönd; hann segir sèr lítit um þat, en kveðst eigi banna. Þá spurja þeir vísindakonuna: hefir þú nokkut athuga leidt um konúng vârn, hversu lengi hann mun lifa, eðr hvat honum mun at bana verða? Hún mælti: þar standa yfir æfi hans ógnar geislar, þeir er mèr er eigi lofat þángat at sjá, en svâ skuluð þèr segja konúngi yðrum, at hann mun eitt mismæli tala á allri æfi sinni ok láta á sama degi líf sitt. Nú má þat sjá, hversu geyminn hann var at guðs lögum, er hann vildi engan þann frètta eptir sínum forlögum, er eigi var af guðs krapti vitrat.

29. Nokkurri tíð, þá er Ólafr herjaði á heiðnar þjóðir, ok hann hafði marga heiðíngja við velli lagt ok mikit herfáng samandregit, þá fór herr Ólafs konúngs til skipa með þann fjárlut, er þeir höfðu í hernaðinum fengit; ok er þeir komu til skipanna, þá söknuðu þeir Ólafs, ok vissu eigi, hvar hann mundi vera; við þat varð allr herrinn hryggr, svâ at þeir vissu eigi, hvat þá var til ráðs. Nú er þeir hörmuðu þenna atburð,

ok ætlaðu at leita Ólafs, þá sá þeir, hvar hann reið af landi ofan, ok rak fur sèr marga menn, þá er stórar byrðir höfðu á baki. En er þeir komu til skipanna, þá spurja liðsmenn, hvarfyri þeir lèti rekast svâ margir undir byrðum fur einum manni. Þeir svöruðu: eigi er hann einn, heldr sýndist oss hann koma til vor með fjölda vâpnaðra manna, þeirra er oss nauðgaðu til at bera þessar byrðir. En er liðsmenn Ólafs heyrðu þessa sögu, þá undraðust þeir, ok vegsamuðu Ólaf meirr þaðanfrá.

30. Þá er Ólafr Haraldsson var í Englandi jafnfram Knúti konúngi, þá kom hann hvern morginn furst til kyrkju, þá er hríngt var til tíða, ok hlýddi öllum tíðum, unz lokit var. Aldrí var sá gnýrr eðr ógnir út at heyra, at Ólafr mundi utarr líta eptir kyrkjunni, meðan hann var at tíðum, heldr var hann æ staðfastr á bæninni, svâ at (hann) brá sèr ekki við ógnir þær, sem atbárust. Knútr kom seint til kyrkju, en þó var þat siðvenja, at bíða hans at tíðum. Á nokkrum hátíðardegi varð sá atburðr, at kennimenn biðu Knúts at óttusaung; ok er þeir höfðu lengi beðit, þá leit biskup utarreptir kyrkju, sá er fyri tíðunum rèð, ok sá, hvar Ólafr stóð, en hann sá eigi kominn Knút konúng; þá mælti biskup: seint kemr Knútr konúngr nú, ok munu vèr eigi bíða hans lengr, þvíat kominn er sá konúngr híngat nú, er með hreinum hug ér ávallt, ok elskar guðliga þjónustu. En er Knútr konúngr kom

til tíða, ok spurði þessi orð biskups, þá öfundaði hann Ólaf, er hann var konúngr kallaðr, ok mátti eigi rèttum augum til hans líta. Þat segja menn, at þá væri Ólafr fursta sinn konúngr kallaðr, er biskup nefndi hann konúngs nafni, ok trúa menn þat hafi hann gjört af heilagri andagipt.

31. Ólafr konúngr sigldi þá enn vestr til Englands; en þat var þar tíðenda, at Sveinn Dana konúngr Haraldsson hafði setit þar marga vetr, ok herjat á land Aðalráðs konúngs, ok höfðu Danir þá gengit náliga yfir allt landit, en Aðalráðr hafði þá flýit landit. Þat sama haust, er Ólafr konúngr kom til Englands, vurðu þau tíðendi þar, at Sveinn konúngr varð bráðdauðr um nótt í rekkju sinni; en þat er sögn enskra manna, at Eðvarðr[1] hinn helgi dræpi hann með þeim hætti, sem hinn helgi Merkúríus drap Julíanum níðíng. En er Aðalráðr konúngr spurr þetta á Flæmíngjaland, þá snèri hann þegar aptr til Englands; en er hann kom aptr, sendi hann orð vinum sínum, ok bauð til sín öllum þeim, er fè vildu þiggja til þess, at vinna aptr landit með honnm; dreif þá til hans mikit fjölmenni, þá kom ok þar til liðs við hann Ólafr konúngr með mikla sveit manna[2]. Þeir lögðu furst utan í ána Temps; en Danir hèldu borginni öðrum megin árinnar, en mikit kauptún var öðrum megin, er heitir Suðvirki, þar höfðu Danir mikinn umbúnað, ok grafit um stórt díki ok sett

1) Játmundr, *hin.* 2) Norðmanna, *D, H, K, S.*

fur innan vegg með viðum ok grjóti, þar höfðu þeir í lið mikit. Aðalráðr konúngr lèt þar veita atsókn mikla, en Danir vörðu, ok fengu þeir ekki atgert. Bryggjur voru gjörvar yfir ána Tems milli borgarinnar ok Suðvirkis, svâ breiðar, at aka mátti vögnum á víksl; á bryggjunum vòru ok vígi, bæði kastalar ok karmar[1] forstreymis, [ok tók þar sem maðr var mjórstr[2] á bryggjunum, ok vörðust þeir þaðan. Aðalráðr Engla konúngr var nú mjök svâ hugsjúkr, hvernveg þeir skyldu koma ofan bryggjunum. Ólafr konúngr segir, at hann mundi atleggja með sínu liði, ef aðrir höfðíngjar vildi atleggja. Á þeirri stefnu var þat ráðit, at þeir skyldu leggja her sinn upp undir bryggjurnar; bjó nú hverr höfðíngi sitt lið ok sín skip. Ólafr konúngr lèt gera flaka stóra af viðum ok bera yfir skip sín, svâ at þeir tóku út af borðum, þar lèt hann setja undir stafi svâ hátt ok þykkt, at bæði var hægt at verjast ok vega undan, ok svâ ærit stinnt við grjóti, þóat[3] ofan væri fært á þá. En er herrinn var búinn, þá veittu þeir atróðr neðan eptir ánni; en þegar er þeir komu nærr bryggjunum, þá var borit á þá bæði skot ok grjót, svâ stórt, at ekki stóð við, hvârki hjálmar nè skildir, ok skipin meiddust; lögðu þá frá flestir. En Ólafr konúngr ok Norðmenn með honum lögðu allt

[1]) borðþök, *hin* [2]) svâ at tók upp fyri miðjan mann, *hin.*
[3]) *hèr byrjar C aptr.*

upp undir bryggjurnar, ok báru styrka kaðla um stafina, þá er upp hèldu bryggjunum, svâ sem þeir máttu neðarst, tóku síðan ok rèru öllum skipum senn forstreymis, drógust þá stafirnir með grunnum, þartil er undan gengu, brustu þá niðr bryggjurnar allar; en vâpnaðr herr, er stóð á bryggjunum þykkt, ok margt grjót ok annar þúngi, er á var borinn, þá fèll þat allt niðr í ána[1]. Eptir þetta veitti konúngr atgaungu at Suðvirki, ok vann þat. En er borgarmenn sá þat, at virkit var unnit, svâ at þeir máttu eigi banna skipaför upp í landit, þá hræddust þeir ok gáfu upp borgina; en tőku við Aðalráði; svâ segir Óttarr svarti:

Enn braust þú, èla kennir
yggveðrs! róinn[2] bryggjur,
linns hefir lönd at vinna,
Lundúna, þèr snúnat.

Ok enn kvað hann:

Komtu í land ok lendir,
láðvörðr! Aðalráði,
þín[3] naut rekka reynir[4]
[ríki efldr[5] at slíku;
harðr var fundr, sá er færuð
friðland á vit niðja
rèð ættstuðill áðan
Eátmundar þar grundu.

Ok svâ segir Sighvatr skáld:

---

1) *hèr byrjar E aptr.* 2) þorinn, *hin.* 3) þíns, *C, F, L.* 4) runi, *C, D, F, L, S.* 5) ríkis, *C, D, F, G, L.*

Rètt er[1], at sókn hin sètta
snarr þengill bauð Englum
átt, þar er Ólafr sótti,
yggs, Lundúnar bryggjur;
sverð bitu [völsk, en[2] varði
[víkínga lið[3] díki,
átti sumt[4] í slèttu
Suðvirki lið búðir.

32. Ólafr konúngr var þann vetr með Aðalráði konúngi á Englandi, þá áttu þeir orrostu mikla á Hríngmaraheiði á Úlfkels landi; þat ríki átti Úlfkell snillíngr; þar fengu konúngarnir sigr; svâ segir Sighvatr:

Enn lèt sjöunda sinni
sverðþíng háit verða
endr á Úlfkels landi
Ólafr, sem ek fer málum;
stóð Hríngmaraheiði,
herfall var þar, alla[5]
Ellu kind, en olli
arfvörðr Haralds starfi.

Óttarr svarti segir svâ:

Þengill! frá ek, at[6] þúnga
þinn [herr, skipum[7] ferri,
rauð Hríngmaraheiði,
hlóð valköstu, blóði;

---

1) varð, C, D, E, F, L. 2) völd en, B. 3) víkíngar þar, hin. 4) sunds, B, F. 5) allra, C. 6) enn, C, F. 7) herr með skip, B.

laut fur yðr, áðr lètti,
landsfólk í gný branda,
Engla ferð, á jörðu,
ótt, enn mörg, á flótta.

Þá lagðist enn landit víða undir Aðalráð konúng, en Þíngamenn ok Danir hèldu þá enn víða borgum, ok víða hèldu þeir landit.

33. Ólafr konúngr var höfðíngi fur herinum, þá er þeir hèldu til Kantarabyrgis ok börðust þar, ok vunnu staðinn, en drápu fjölda manna, ok brendu borgina; svâ segir Óttarr svarti:

Atgaungu vanntu, ýngvi!
ætt siklínga mikla,
blíðr hilmir! tóktu breiða
borg Kantara of morgin;
lèk[1] við rann[2], af ríki
rèð þú, bragna konr[3]! gagni,
aldir[4] frá ek at aldri,
eldr ok reykr, [at þú[5] beldir.

Svâ segir Sighvatr skáld:

Veit ek, at víga mætir[6],
virðum[7] hættr[8] hit[9] átta
styrkr gekk vörðr at virki,
verðúngar styr[10] gerði;
sinn máttat bæ banna
borg Kantara, sorgar
margt fèkkst prúðum pörtum
portgreifar Óleifi.

[1]) lèt, *B*, *D*. [2]) rönn (ravnn), *hin*. [3]) vinr, *G*. [4]) aldar, *hin*. [5]) um, *C*, *G*, *H*. [6]) hneitir, *G*. [7]) vörðum, *G*; Vindum, *hin*. [8]) háttr, *B*, *E*, *F*, *L*; hátt, *D*, *G*, *H*. [9]) enn, *hin*. [10]) frið, *E*.

Ólafr konúngr hafði þá landvörn fur Englandi, ok fór með herskipum fyri landit; hann lagði upp í Nýjamóðu, þar var fur þíngmanna lið, ok átti þar orrostu, ok hafði Ólafr konúngr sigr; svâ segir Sighvatr:

Vann úngr konúngr Englum
ótrauðr skarar rauðar,
endr kom brúnt[1] á branda
blóð í Nýjamóðu;
nú hefik orrostur austan[2]
ógndvaldr[3] níu taldar,
herr fèll danskr, er[4] dörrum
dreif mest at Óleifi.

Ólafr konúngr fór víða um landit, ok tók gjald af mönnum, en herjaði at öðrum kosti; svâ segir [Sighvatr skáld[5]:

Máttut [enskar ættir[6],
öld, þar er tókt við gjöldum,
vísi vægðarlausum,
víðfrægr[7], við þèr bægjast[8];
guldut gunnar[9] sjaldan
goll[10] döglíngi þollar[11],
stundum frá ek til strandar
stór þíng ofan fóru.

34. Ólafr konúngr dvaldist þar 3 vetr; en hit 3ðja vâr þá andaðist Aðalráðr konúngr, tóku

---

1) brýnt, *L.* 2) ofan, *F.* 3) ógndjarfr, *B*, *S*; ógnvalds, *E*, *S*; ógnvaldr, *hin.* 4) með, *F*, *L*; fyri, *H*; þar er, *hin.* 5) Ottarr, *B*, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *K*, *S.* 6) enskrar ættar, *hin.* 7) vandfrægr, *B.* 8) bægja, *E*, *G*, *K*, *S.* 9) gumnar (gumar) *hin.* 10) gull, *hin.* 11) hollost, *E*, *K*, *S*; hollum, *G*, *H.*

þá ríki synir hans, Eaddvarðr ok Eátmundr. þá fór Ólafr konúngr suðr um sjó ok barðist í Hríngsfirði ok vann kastalann á Hólund[1], er víkíngar sátu í, hann braut kastalann allan; svâ segir Sighvatr:

Tögr var fyldr[2] í fögrum,
fólksveggs[3] drífa hreggi
hèlt, sem hilmir mælti,
Hríngsfirði, lið þíngat;
ból[4] lèt hann á hóli[5]
hátt, víkíngar áttu,
þar[6] báðut[7] sèr síðan
slíks skotnaðar, brotna[8].

þá hèlt Ólafr konúngr liðinu vestr í Gislu[9]-polla, ok barðist þar við víkínga fyri Vilhjálmsbæ, þar hafði Ólafr konúngr sigr; svâ segir Sighvatr skáld:

Ólafr! vanntu, þar er jöfrar
ellifta styr feldu[10],
úngr[11] komtu af því þíngi
þollr, í Gislu[12]-polla;
þat frá ek víg[13] vittu[14],
Vilhjálms fur bæ, hjálma[15],
tala mín[16] er þat telja,
[trygð í háit, at bygðum[17].

[1]) bælunum, *C*; hælunum, *D*, *E*; hólunum, *G*, *H*, *S*. [2]) fullr, *C*, *D*, *E*, *F*, *K*, *L*, *S*. [3]) fólkhreggs, *C*. [4]) blóð, *C*, *D*, *F*, *L*. [5]) hlóði, *C*, *F*; hæli, *D*; hljóði, *L*. [6]) þeir, *hin*. [7]) báðir, *C*; báðu, *G*. [8]) þrotna, *C*. [9]) Gríslu, *G*, *K*, *L*. [10]) fèllu, *hin*. [11]) hríngs, *G*, *H*. [12]) Gríslu, *G*, *K*, *S*. [13]) vígs at, *C*, *G*. [14]) veittu, *D*, *F*, *G*. [15]) málma, *B*, *F*; álmar, *D*, *G*, *H*. [16]) minnst, *B*, *D*, *G*; minnist, *C*. [17]) tryggs jarls báit snarla, *hin*.

Því næst barðist hann vestr í Fetlafirði, sem Sighvatr segir:

Tönn rauð tólfta sinni
tír fylgjandi ylgjar,
varð í Fetlafirði
fjörbann lagit manna[1].

Þaðan fór Ólafr konúngr til Seljupolla, ok átti þar orrostu, þar heitir Gunnvaldsborg; hann tók höndum þann höfðíngja, er rèð fyri borginni, er Geirfinnr hèt; þá átti Ólafr konúngr tal við borgarmenn, ok lagði gjald á þá ok á jarlinn til útlausnar [30 marka[2] skillínga; slíkt var honum goldit, sem hann beiddi ok lagði á þá, or borginni; svâ segir Sighvatr skáld:

Þrettánda vannt Þrænda,
þá[3] var flótta böl[4], drottinn
snjallr í Seljupollum
sunnarla styr fullan[5];
upp lèt gramr á[6] gamla
Gunnvaldsborg um morgin,
Geirfiðr hèt sá gjörva[7]
genginn[8], jarl of[9] fenginn[10].

Eptir þat hèlt Ólafr konúngr liði sínu vestr í Karlsár ok herjaði þar; hann átti þar orrostu ok fèkk sigr.

35. Svâ er sagt, at heiðíngjar þeir, er rèðu

[1]) mönnum, *hin.* [2]) 20 merkr gulls, *C, D, F*; 12 þúsundir gulls, *G, K, S*; 12 merkr gulls, *E.* [3]) þat, *hin.* [4]) dvöl, *F, L.* [5]) kunnan, *hin.* [6]) í, *hin.* [7]) gotna, *D, G.* [8]) gengit, *C, D, E, F, K, L, S.* [9]) ok, *E, K.* [10]) fengit, *C, E, F, L.*

fur í Karlsám blótaðu tvær undarligar skepnur til fulltíngis sèr, þær er styrkvar urðu þeirra mótstöðumönnum, þat annat var margýgr, hún liggr í Karlsám, en stundum í sjá; hún svæfir skipshafnir með fögrum saung, en drekkir þeim síðan, en stundum æpir hún svâ hátt, at menn verða nær at gjalti, ok hverfa af því aptr. Margýgrin lá þá í Karlsám; þat kvikendi er svâ skapat, at þat er fiskr niðr frá beltisstað ok fjöðr á, en kona upp þaðan; þat er hennar náttúra, þá er hún er í vatni, at hún leikr sèr at fiskum, ok ef hún steypir sèr at skipi, þá þikkir þeim ráðinn manntapi, en ef hún steypir sèr frá skipi, þá farnast vel; þetta skrímsl var svâ magnat, at þat hafði mörgum mönnum at skaða vorðit þar í ósinum. Þá er Ólafr konúngr skyldi útleggja, þá sá þeir, þar sem mættist sjárinn ok vatnit, þetta skrímsl, er í bókum kallast súrna eða hýrenus, ok lèk sèr í ósinum; óssinn var bæði lángr ok breiðr; hún örglaðist upp or sjónum hátt ok allt af grunni neðan. Ok er skip Ólafs, þat er furst fór, rendi fram at þessu skrímsli, þá tók hún í stafninn ok hvelfði, ok furfór allri skipshöfninni; þeir vurðu hræddir, er síðarr fóru á öðrum skipunum, ok mæltu: bíðum vèr Ólafs, ok vitum, hvat ráða hann vili taka. Síðan viku þeir aptr skipunum, ok kölluðu á Ólaf, þegar kall mátti heyra, ok sögðu, at úhreint var í ósinum ok þarmeð þenna atburð. Ólafr biðr þegar róa fram sínu skipi, ok var svâ gert.

Síðan kom upp margýgrin, ok fór gapandi at skipinu; en Ólafr brá saxi, at sumra manna sögn, ok hjó af henni hendina við stafninum; sumir menn segja, at hann tæki eitt spjót ok skyti í brjóst henni, ok fengu henni með því bana; ok varð gæfa hans mjök um fram aðra menn, þegar um vandamál var at vera, ok sýndist þat, hve mikils guð virði hann þessa heims. En svâ kvað margýgrin við hátt, er Ólafr veitti henni skaða, at eigi þóttist slíkt heyrt hafa.

36. Eptir þat fara þeir, sem þeir höfðu áðr ætlat, ok leggja at landi einhversstaðar þaðan skamt ábrott; þeir renna þar upp, ok tóku fè mikit í blóthaugi einum; var þá á hvassviðri mikit, ok hafði blásit hauginn, ok lá silfrit bert, ok fundu þeir af því fèit; ferr herrinn eptir þat allr til skipa. En Ólafr var einn eptir staddr, ferr á land upp einsaman, ok reið í rjóðr eitt, ok hugsaði um, hvârt hann skyldi aptr hverfa eðr eigi; ok er hann hafði þar staðar numit, þá heyrði hann mikla brakan alla vega frá sèr í skóginn, ok því næst kemr þar fram einn göltr geysimikill ok illiligr, hann var grimmligr ok svâ gamall, at hann hafði marga manns aldra, á honum höfðu landsmenn mikinn átrúnað; hann hafði margt lið með sèr, svâ at þakti allt rjóðrit, svâ var þat mikill fjöldi; sýndist honum þat óþekkt mikil, er þar var saman komin. Galti fór með gapanda munni at konúnginum; en Ólafr ljóp upp báðum fótunum í söðulinn, ok forðaði

þeim svâ. Þat er sagt frá vexti galta, at þá er hann vildi bíta konúnginn, lagði hann tranann ok tennr upp á söðultreyjuna. Ólafr konúngr var girðr sverðinu Bæsíngi, hann bregðr því hvatt ok tídt, ok hjó ranann af galta nokkurum fyri neðan augun, ok valt þat upp í söðulinn; galti kvað við svâ hátt, at Ólafr sagðist þat viðkveð heyrt hafa armligast annat enn þat, er margýgrin hafði haft. Síðan kallaði Ólafr sverðit Hneiti, er áðr hèt Bæsíngr, þvíat honum þótti þat hneita önnur sverð fur hvassleika sakir. Nú hafði konúngr ranann af galta til sigrmarks sèr ok tenn; en sumir menn segja, at hann hefði hendina af margýgrinni, ok fór eptir þat til liðs síns.

37. Ólafr konúngr lá þar skipum sínum ok beið byrjar, ætlaði hann þá at sigla til Njörvasunda ok þaðan út í Jórsalaheim; þá dreymdi hann merkiligan draum, at til hans kom tíguligr maðr ok ógrligr, ok mælti við hann, bað hann hætta ætlan þeirri, at fara út í lönd: far heldr aptr til ættjarða þinna, þvíat þú munt konúngr vera í Noregi at eylífu. Hann skildi þann draum svâ, at hann mundi konúngr vera yfir Noregi ok hans ættmenn eptir hann; at þessi vitran snèri hann aptr ferð sinni, ok lá við Peituland ok herjaði þar ok brendi landit; þar brendu þeir stað þann, er Varrandi heitir; þess getr Óttarr svarti:

Náðit[1] úngr at eyða,

[1]) náðut, *hin.*

ógnteitr jöfurr! Peitu,
reynðuð, ræsir! steinda[1]
rönd[2] á Stúlka[3]-landi.

Svâ segir Sighvatr skáld:

Málm[4] rauð[5] Mæra hilmir
munnrjóðr, er komt sunnan,
gáng[6], þar er gamlir sprúngu[7]
geirar, út[8] at leiru;
varð fur víga morði[9]
Varrandi, [sjó fjarri[10],
brendr á bygðu landi
bærr heitir svâ[11] Peitu.

38. Ólafr konúngr hafði verit í hernaði vestr í Vallandi 2 sumur ok einn vetr; þá var liðit frá falli Ólafs konúngs Tryggvasonar 13 vetr, en þessa stund alla höfðu ráðit fur Noregi jarlar, furst Sveinn ok Eiríkr, Hákonarsynir, en síðan Sveinn ok Hákon Eiríkssynir; Hákon var systurson Knúts hins ríka Sveinssonar. Í þann tíma voru í Vallandi jarlar 2, Vilhjálmr ok Roðbert, faðir þeirra var Rikarðr Rúðu-jarl[12], en systir þeirra var Emma drottníng, er átti Aðalráðr Engla konúngr; voru þeirra synir Eátmundr ok Eáðvarðr hinn góði, Eáthvígr ok Eáthgeirr. Rikarðr jarl var son Roðberts lángaspjóts, en hann

---

[1]) þrænda, *C.* [2]) *hèr sleppr G um sinn.* [3]) Tosku, *K*; Týska, *L*; Túska, *hin.* [4]) málms, *hin.* [5]) vann, *hin.* [6]) gagn, *C, D, E, F.* [7]) súngu, *C, D, E, F, H, L.* [8]) upp, *C, D, E, F, K, S.* [9]) njörðum, *B, C, E, F, H, L*; morðum, *K, S*; meiðum, *D.* [10]) sjá fyrri, *L.* [11]) sjá, *C, L.* [12]) þeir rèðu fyri Normandí, *b. v. hin.*

var son Gaungurólfs, jarls þess, er nam Norðmandí; hann var svâ mikill, at hann báru eigi hestar, ok fyri þá sök var hann kallaðr Gaungurólfr; hann var son Rögnvalds hins ríka Mærajarls, en móðir hans var Hildr, dóttir Rólfs nefju; hann var hinn mesti víkíngr ok úeirinn; hann hafði strandhögg stór eitt sinn í Vík austr, þá er hann var kominn or víkíng, ok fur þat varð Haraldr konúngr honum reiðr, ok gerði hann útlaga af Noregi. Þá fór Hildr, móðir Gaungurólfs, á fund Haralds konúngs, ok flutti mál hans, en konúngr var svâ reiðr, at þat tjáði ekki; þá kvað hún[1] þetta:

Hafnit Nefju nafni[2],
[nú rekit gand[3] or landi,
horskan hölda[4] barma,
hví bellit því, stillir!
íllt er við úlf at ýlfast[5]
yggs valbríkar slíkan,
muna við yðrar[6] hjarðir
hógr, er[7] hann gengr til skógar.

Eptir þat fór Gaungurólfr or landi, ok herjaði lengi síðan um Vestrlönd, ok ruddi sèr til ríkis í Vallandi, ok sótti þángat brátt fjöldi manna[8], ok bygði þar, sem síðan heitir Norðmandí. Frá Gaungurólfi jarli eru komnir Rúðu-jarlar, svâ sem nú var sagt; því töldu þeir jafnan frændsemi við Noregs höfðíngja, ok virðu þá mikils, voru

1) Hroifr, *B.* 2) nafna, *C, D, E, L, S.* 3) nú er rekin gandr (grander, *C*) *C, E, F, L.* 4) Hörða, *B, C, D, E, F, L*; höfðu, *K.* 5) ýglast, *E, L.* 6) hilmis, *hin.* 7) ef, *B, D, E, F, L.* 8) Norðmanna, *B, C, D, E.*

þeir hinir mestu vinir Norðmanna alla stund síðan, ok áttu með þeim friðland allir Norðmenn, þeir er þat vildu. Um haustit kom Ólafr konúngr í Norðmandí, ok dvaldist þar um vetrinn[1], ok hafði friðland.

39. Eptir fall Ólafs Tryggvasonar gaf Eiríkr Einari þambarskelfi grið, syni Eindriða Styrkárssonar af Gimsum; Einarr var þá 18 vetra, er hann fór með Eiríki norðr í Noreg. Svâ er sagt, at Einarr hafi verit manna styrkastr ok beztr bogmaðr þeirra manna, er verit hafa í Noregi, ok varð harðskeyti hans umfram alla menn aðra; hann skaut með bakkakólfi ígegnum uxahúð hráblauta, er hèkk á ási einum, þat gerði hann til ágætis sèr; skíðfærr var hann hverjum manni betr; hinn mesti var hann íþróttamaðr; hann var ættstórr ok auðigr. Eiríkr jarl ok Sveinn jarl giptu honum Bergljótu, systur sína, Hákonardóttur, hún var enn mesti kvennskörúngr; Eindriði hèt son þeirra. Jarlar gáfu Einari veizlur stórar í Orkadal, ok gerðist hann hinn ríkasti maðr ok hinn göfgasti í Þrændalögum, var hann jörlum hinn mesti styrkr ok ástvinr beggja þeirra.

40. Þá er Eiríkr jarl hafði ráðit fur Noregi 12 vetr, þá kom til hans orðsendíng Knúts konúngs hins ríka, mágs hans, at hann skyldi fara með honum vestr til Englands með her mikinn. Eiríkr jarl var frægr maðr af bardögum þeim ok orðstír, er hann hafði borit sigr or orr-

[1]) *í Signu, b. v. B, C, E, H, L.*

ostum þeim tveim, er snarpastar höfðu verit á Norðrlöndum: önnur sú, er þeir Hákon jarl, faðir hans, börðust við Jómsvíkinga, en sú önnur, er hann barðist við Ólaf Tryggvason; þess getr Þórðr Kolbeinsson í Eiríks drápu:

Enn hefst[1] leyfðr[2] þar[3] er lofðar[4]
lofkenda frá ek senda[5]
at hjálmsömum hilmi
[hjaldr drýgjanda[6], boð[7], jarli;
at [skögltjalda[8] skyldi,
skil ek, hvat gramr lèzt vilja[9],
endr at ástafundi
Eiríkr koma þeirra.

Jarl vildi eigi undir höfuð leggjast orðsendíng Knúts konúngs; fór hann síðan or landi, en setti eptir í Noregi lands at gæta Hákon, son sinn, ok seldi hann í hendr Einari þambarskelfi, mági sínum, at hann skyldi hafa landráð fur Hákoni; hann var þá átján[10] vetra, en Sveinn jarl hafði þá hálft land til móts við Hákon, frænda sinn. Eiríkr kom til Englands, ok fór þegar til fundar við Knút konúng, ok var með honum, þá er hann vann Lundúnaborg. Eiríkr jarl barðist fur vestan haf; þá feldi hann Úlfkel snillíng; svâ segir Þórðr Kolbeinsson:

Gullkennir [lèzt þú gulli[11]
græðis-hests fur vestan,

1) hefk, *C, D, E, L, S.* 2) leyfð, *B, D, E, H, K, S*; leyfs, *C, L.* 3) þess, *E.* 4) leyfða, *L*; lofða, *hin.* 5) sendu, *C, E, L, S*; kendu, *K.* 6) hjarls drottna, *hin.* 7) bað, *B*; bauð, *K.* 8) skyldligast, *hin.* 9) *hèr sleppr C um sinn.* 10) 17, *B, K, S.* 11) lèt gunni, *hin.*

þundr vâ leyfðr til landa,
Lundún saman bundit;
fèkk [regn þorin[1] rekka
rönn af þíngamönnum,
[öglis höggs[2], þar er eggjar[3]
Úlfkels[4] blár[5] skulfu.

Eiríkr var á Englandi einn vetr, ok átti þar nokkurar orrostur, enn annat haust eptir ætlaði hann til Rómferðar ok bæta heim fur sèr; þá andaðist hann af blóðláti þar á Englandi. Knútr konúngr átti margar orrostur á Englandi við sonu Aðalráðs konúngs, ok höfðu ýmsir betr; hann kom þat sama sumar til Englands, er Aðalráðr konúngr andaðist; þá fèkk Knútr konúngr Emmu drottníngar, er átt hafði Aðalráðr konúngr; börn þeirra voru þeir Haraldr ok Hörðaknútr[6]. Knútr konúngr sættist við Eátmund konúng, ok skyldi hafa hálft England hvârr þeirra; en á sama mánaði, er þeir höfðu sæzt, drap Heiðrekr[7] trjóna[8] Eátmund konúng. Eptir þat rak Knútr konúngr af Englandi alla sonu Aðalráðs konúngs; svâ segir Sighvatr skáld:

Ok senn sonu
sló hvern ok þó,
Aðalráðs, eða
útflæmdi Knútr.

Þat sama sumar komu synir Aðalráðs konúngs

[1]) regn þorins, *D*, *E*; hreggþorins, *K*, *L*. [2]) yglis högg, *B*; ygglig högg, *hin*. [3]) eggja, *S*. [4]) Ulfkell, *B*, *S*. [5]) við lár, *L*. [6]) ok Gunnhildr *b. v. hin*. [7]) Heinrekr, *E*. [8]) strjóna, *hin*.

til Rúðu [móðurbróður síns í Valland[1], er Ólafr kom vestan or víkíngu, ok voru þeir allir samt í Norðmandí um vetrinn, ok bundu lag sitt saman með þeim skildaga, at Ólafr skyldi hafa Norðymbraland, ef þeir gæti unnit England. Þá sendi Ólafr um haustit Hrana, fóstra sinn, vestr til Englands at eflast at liði, ok sendu synir Aðalráðs konúngs jartegnir til vina sinna ok frænda; Ólafr konúngr fèkk honum í hendr lausafè mikit, at gefa höfðíngjum, ok spenja svâ landit[2] undir þá með því. Hrani var í Englandi um vetrinn, ok gat komist at trúnaði margra ríkra manna, ok var landsmönnum betr viljat at hafa samlenda konúnga við sik yfir sèr; en þó var svâ mikill styrkr Dana þá í Englandi, at allir ríkismenn ok landsfólk var undirbrotit ríki þeirra. Um vârit fóru þeir vestan allir saman, Ólafr konúngr ok synir Aðalráðs konúngs, ok komu til Englands, þar sem heitir Íngafurða[3], þeir gengu þar þegar á land með lið sitt; þar voru fyri margir þeir menn, er þeim höfðu liði heitit, þeir unnu þar borg ok drápu margt manna. En er við þetta vurðu varir menn Knúts konúngs, þá drógu þeir her saman, ok vurðu brátt fjölmennir, svâ at synir Aðalráðs höfðu engan liðsafla ímóti, ok sá þann sinn kost helzt, at halda íbrott ok vestr til Rúðu; þá skildist Ólafr konúngr við þá, ok vildi

---

1) í Vallandi til móðurbræðra sinna, *D, E, K, S.* 2) lið, *E, K, S.* 3) Júngufurða, *B;* Menjúngufurða, *E, L;* Menníngafurða, *D, F;* Öxnafurða, *H.*

eigi fara vestr aptr til Vallands; hann sigldi þá norðr til Norðimbralands, hann lagði þar at í höfn þeirri, er heitir [fyri Valldi[1], hann barðist þar við bæjarmenn, ok fèkk sigr ok mikit fè.

41. Sá atburðr varð, þá er Ólafr konúngr herjaði á Írland, at skip hans fjaraði uppi, svâ at þau stóðu á þurru landi, en sjórinn var hvergi í nánd þeim; konúngrinn var farinn upp á land með öllu liði sínu at herja; en er landsmenn sá, hvar skip Ólafs voru uppi fjarut, þá samnaðu þeir ótalligum her, ok ætlaðu at berjast við Ólaf konúng ok hans menn, þóttust Írar hafa ráð þeirra í hendi sèr fur liðsfjölda sakir ok þess, at skip Ólafs voru uppi fjörut. Nú er Ólafr ok hans menn sá, at þeir máttu eigi ábrott komast, en fjöldi liðs fór eptir þeim, ok hann þóttist eigi sjá, hvern veg hann mátti íbrott komast, þá mælti Ólafr konúngr við lið sitt; þar var þá með honum Þorkell enn háfi ok Úlfr, son Þorgils sprakaleggs. Ólafr mælti: þat sýnist mèr ráð, at vèr heitim á guð allsvaldanda, ok biðjum þess, at hann veiti oss sitt fulltíngi, en vèr heitim því, at vera hèðanaf ógrimmari ok óherskárri enn híngattil; höfðíngjarnir sögðust öllu því vilja heita, sem hann sæi ráð fur. Eptir þat mælti konúngr fur heiti þeirra; síðan fèll konúngr til jarðar með liði sínu; en guð heyrði bæn hans, ok gaf þá miskun, at sjórinn fèll svâ skjótt á land, at skipin voru öll á fljóti, áðr konúngr hafði lokit bæn sinni;

[1]) Fyr-Vald, *E*.

stè konúngr á skip sín ok fór leið sína, en Írar hurfu aptr.

42. Þá er Ólafr konúngr hafði herjat ok hneykt grimmleik heiðinna þjóða um eyjar ok andnes, Danmörk ok Svíþjóð, Austrvegu ok Valland, Írland ok England, snèri hann aptr ferð sinni; hann lèt eptir lángskip sín á Norðymbralandi, en bjó þaðan knörru 2 ok [3 hundruð[1] manna, þeir voru albrynjaðir ok allir valdir at hug ok hreysti; hann sigldi þá um haustit norðr í haf, ok fengu óðviðri mikit í hafi, svâ at mannhætta var í mikil; en með því at þeir höfðu liðskost góðan ok hamíngju konúngs, þá hlýddi; svâ segir [Óttarr svarti[2]:

Valfastá, bjótt þú vestan,
veðrörr! tvâ knörru;
hætt hafit èr í ótta[3]
opt skjöldúnga þóptu[4];
náði straumr, ef stæði,
strángr kaupskipum ángra,
innan borðs á unnum
erríngarlið verra.

Ok enn segir hann:

Eigi hræddust ýtar[5],
èr fórut sjá stóran;
allvaldr of getr[6] aldar
engi nýtri drengi;
opt var fyrs[7], en forsi

[1]) 20 menn ok hundrað, *B*, *H*, *K*, *L*, *S*; hundrað, *D*; 20 menn ok 2 hundruð, *hin.* [2]) Sighvatr, *L.* [3]) óttu, *L.* [4]) þópti, *D*, *F*, *K*, *L*, *S.* [5]) jöfra, *B*; ægi, *hin.* [6]) lítr, *B.* [7]) fárs, *hin.*

flaust[1] hratt af sèr brattum,
nautt[2], áðr Noreg beittut[3],
niðjúngr Haralds! miðjan.

Hann segir svâ hèr, at Ólafr konúngr kom utan at Noregi miðjum; en ey sú heitir Sæla[4], er þeir komu furst við land, þat er út frá Staði. Þá mælti Ólafr konúngr: þetta mun oss vera tímadagr, er vèr höfum lendt við Sælu í Noregi, ok er þetta góð vitneskja, er svâ hefir tilborit. Síðan gengu þeir uppá eyna, ok steig konúngr þar á landi fæti, sem var leira nokkur, ok steyptist á knè; þá mælti konúngr: fèll ek nú, segir hann. Þá svarar Hrani[5]: nú festir þú fætr í landi. Konúngr hló at, ok mælti: má svâ vera, ef guð vill at þat gjörist. Gánga þeir nú ofan til skipanna, ok sigldu suðr til Úlfasunda[6]; þá spurja þeir þat, at Hákon jarl Eiríksson var farinn suðr í Sogn, ok hans var þá sunnan vân, þegar er byr gæfi, ok hafði 1 skip.

43. Þá er Ólafr konúngr Tryggvason rèð fur Noregi, þá boðaði hann trú rètta ok kristni þar í landi, ok var þat torsótt mál í mörgum stöðum; hann vann þat til styrks sèr ok frамgángs um siðinn, at hann gipti systur sína[7] Erlíngi Skjálgssyni af Jaðri; en fyri því at henni þótti sèr þat lítilræði, at giptast honum, ótignum manni, þá gaf hann Erlíngi hálfar landsskyldir

1) Haustr, *F*, *L*. 2) nýtr, *K*; neytt, *hin*. 3) hittuð, *D*, *H*.
4) Selja, *F*, *K*. 5) eigi fèlltu, konúngr! *b. v. D*, *E*, *F*, *H*, *L*.
6) Sauðúngssunda, *H*. 7) Astríði, *b. v. D*, *E*, *L*.

ok allar hálfar konúngstekjur við sik milli Líðandisness ok Sogns. Erlíngr Skjálgsson vildi eigi jarl heita, en hann hafði þó meira ríki enn flestir skattkonúngar. Ólafr Tryggvason gipti aðra systur[1] sína Rögnvaldi Úlfssyni, hann rèð fur Vestra-Gautlandi lengi síðan; Úlfr faðir Rögnvalds jarls var bróðir Sigríðar hinnar stórráðu, móður Ólafs Svía konúngs. Eptir fall Ólafs Tryggvasonar, þá er þeir bræðr rèðu landi, Eiríkr ok Sveinn, þá átti Erlíngr[2] einn þriðjúng lands, annann þriðjúng lands hlaut Sveinn Dana konúngr, ok hafði hann mestan lut Víkrinnar[3]; Ólafr Svía konúngr laut hinn 3ðja, þat voru sjö[4] fylki[5] í Þrándheimi: Sparbyggja fylki[6], Skön, Stórdæla[7]-fylki[8], Mæri hvâratveggju, Raumsdalir ok Austrvík[9] við landsenda. Sveinn jarl átti Hólmfríði, dóttur Eiríks Svía konúngs, systur Ólafs Svía konúngs, ok hèlt hann land af hendi hans. Eiríkr jarl lèt sèr ekki líka, at Erlíngr Skjálgsson hefði ríki svâ mikit, ok þótti hann vera ekki trúligr, ok tók hann undir sik allar hans eignir ok landsskyldir allt um Rogaland, ok guldu landbúar opt tvennar landsskyldir, en at öðrum kosti eyddi hann bygðina; lítit fèkk jarl ok af sakeyrinum, þvíat ekki hèldust þar sýslumenn við, ok þvíat eins sat jarl þar at

1) Ingibjörgu, *b. v. hin.* 2) Eiríkr jarl, *H, K, L.* 3) en Eiríkr hafði suman hans hlut at veizlum, *b. v. H, K, S.* 4) 4, *D, E, K, L, S.* 5) *hèr byrjar G aptr.* 6) Verdælafylki, *b. v. E, G, H, K, L, S.* 7) Storða, *B*; Stjóra, *E, L*; Strjóna, *D.* 8) á, *b. v. B, D, G, K, L, S*; *v. í G.* 9) Austr-Rauríki, *hin.*

veizlum, ef hann hefði fjölmenni mikit; þess getr Sighvatr skáld:

Erlíngr var svâ, at jarla[1]
átt[2] skjöldúnga mátti[3],
Ólafs mágr[4], at ægði[5],
aldyggs sonar Tryggva;
næst gaf sína systur
snarr búþegna harri,
[Úlfs varat æðra arfa[6],
aldrgipta Rögnvaldi.

Eiríkr jarl orti því ekki á, at berjast við Erlíng, at hann var frændstórr ok frændmargr, ríkr ok vinsæll, sat hann jafnan við fjölmenni sem konúngar; hann var opt á sumrum í hernaði, ok fèkk sèr svâ fjár, þvíat hann hèlt teknum hætti um rausn ok stórmennsku, þótt hann hefði minni veizlur ok úhaldkvæmri enn um daga Ólafs konúngs, mágs síns; hann var manna mestr ok sterkastr, fríðr sýnum ok vígr allvel, ok um allar íþróttir líkastr Ólafi Tryggvasyni; hann var vitr ok kappsamr um alla luti, ok hinn mesti hermaðr; þess getr Sighvatr skáld:

Erlíngi varð engi
annar lendra manna[7],
örr[8], sá er átti fleiri
orrostur, stóð þorrinn[9];

---

1) jarli, *B.* 2) er, *B, E.* 3) máttit, *hin.* 4) svâ, *b. v. hin,* 5) ægja, *G.* 6) Ulfs var þat, en aðra, *B, S;* úlf seðjandi aðra, *K;* Ulfs feðr var þat aðra, *E;* Ulf varðaðar aðra, *D, L,* Ulfs nið v. þ. a., *G, H.* 7) *vísan héðanfrá er tekin úr S; v. í A, B, L.* 8) ok, *E.* 9) fjölkostigr, *G.*

þrek bar seggr [við sóknir[1],
[sinn þvíat fyrst gekk innan
mildr í marga hildi,
mest en örr [á lesti[2].

þat hefir verit mál manna, at Erlíngr hafi verit göfgastr lendra manna í Noregi um sína daga. þessi voru börn þeirra Erlíngs ok Ástríðar Tryggvadóttur: Áslákr, Skjálgr, Sigurðr, Loðinn, þórir, Ragnhildr, er átti þorbergr Árnason. Erlíngr hafði jafnan með sèr tíu[4] tígi frelsíngja eða fleiri, ok var svâ bæði vetr ok sumar; þar var máldrykkja at dagverðum, en at náttverðum var þar úmælt drukkit; en er jarl var nærr, þá hafði hann 2 hundruð manna eða fleiri; aldrí fór hann fámennari enn við tvítögsessu allskipaða. Erlíngr átti skeið mikla [2 rúm hins 8da tigar[5], ok þó mikil at því, hana hafði hann í leiðángra hina stærri eðr í víkíng, ok voru þar á 2 hundruð manna eða fleira; hann hafði með sèr 30 þræla[6], hann ætlaði þeim verk hvern dag, en gaf þeim síðan stund ok orlof at vynni sèr um nætr ok um reykkr; hann gaf þeim akrlönd, at sá sèr korni ok færa til ávaxtar sèr ok fjár; hann lagði verð á hvern þeirra ok lausn, ok leystu margir sik til frelsis[7]; með því fè keypti Erlíngr annat man, en leysíngjum sínum vísaði hann sumum í síld-

[1]) at sinni, *D.* [2]) snarr í èli darra, *D, G.* [3]) at flestu, *D, G, H.* [4]) 9, *B, D, G, H.* [5]) þrítugsessu at rúmatali, *G;* 2 rúm ok þrjátígi, *hin.* [6]) ok umfram annat man, *b. v. D, E, G, H, L.* [7]) hin fyrstu misseri eða önnur, en allir þeir, er nokkur þrifnaðr var yfir, leystu sik á 3 vetrum, *b. v. E, G, H, K, S.*

fiski, en sumum til annarra fèfánga, sumum vísaði hann til merkr, ok ruddu þeir mörkina, ok gerðu sèr þar bæi; öllum kom hann til nokkurs þroska, þeim er honum höfðu um hendr verit.

44. Ólafr konúngr hèlt nú inn af þjóðleið ok svà inn til Sauðúngssunda, ok lá þar nokkura hríð skipum sínum, ok lá sínum megin hvârt skipanna í sundinu. [Svà er sagt, at nokkur finnskr maðr var á skipi Ólafs konúngs, hann tók svà til máls: miklir lutir ok dásamligir eru þat, er nú berr fur mik. Einn maðr spurr: hvat er þat, er nú berr fur þik? Hann svarar: með mikilli farsælu er kvâma Ólafs konúngs í þetta land, þvíat híngat mun koma Hákon jarl á skipi í dag, ok munu vèr taka hann lifanda. Liðsmenn sögðust mundu drepa hann fur lýgi sína, ok færðu hann konúngi, ok sögðu, hvat hann hafði spáð; ok er konúngr heyrði þessa sögu, þá lèt hann taka spámanninn ok setja í gèymslu. Enn finnski maðr bað konúng fá sèr þann dauða, sem hann vildi, ef eitt orð brysti í því, er hann hafði þeim sagt frá þeim lutum[1]; þeir höfðu meðal skipanna kaðal einn digran; ok á þeirri sömu stundu fór at sundinu Hákon jarl Eiríksson með skeið skipaða; ok er þeir sá skipin fur sèr í sundinu, þá hugðu þeir vera kaupskip 2, róa síðan fram í sundit milli skipanna. Nú draga þeir Ólafr konúngr strengina upp undir kjölinn skipinu, ok vundu með vindásum, þegar er festi

[1]) *frá* [ *v. í hin.*

nokkut undir skeiðinni, gekk (hún) þá upp aptr, en steyptist fram, svâ at sjórinn fèll inn um söxin, fyldi þá skeiðina ok því næst hvelfdi. Ólafr konúngr tók þar á sundi Hákon jarl ok alla þá menn, er þeir náðu at handtaka, en sumir höfðu týnzt fur grjóti ok skotum, en sumir sukku; svâ segir Óttarr svarti:

Blágjóða, tóktu, bræðir[1]
bengjálfs[2]! ok þá sjálfa,
skatti gnægðr[3], með skreyttri[4],
skeið Hákonar, reiði;
úngr sóttir þú, þróttar
píngs margrennir[5] híngat
máttit jarl, [sá er átti[6],
áttland[7], fur því[8] standa.

Hákon jarl var þá leiddr upp á konúngsskipit; hann var manna vænstr ok hærðr allvel, hann hafði bundit gullhlaði um höfuð sèr; hann settist niðr í furrúmit. Þá mælti Ólafr konúngr: eigi er þat logit af yðr, frændum, at þèr eruð fríðir menn sýnum, en farnir eruð þèr nú at hamíngjunni. Þá svarar Hákon jarl: ekki skal þetta úhamíngja, þvíat þat hefir lengi verit í heimi þessum, at ýmsir hafa sigrazt, hefir ok svâ verit með oss ok yðrum frændum, at ýmsir hafa betr haft, er ek enn ok ekki kominn af

---

1) beiðir, *G.* 2) bengjálfrs, *hin.* 3) gnægr, *E.* 4) skreyttum, *D S*; skreyttu, *hin.* 5) mágrennir, *D*, *E*, *F*; mágrennr, *G.* 6) þar er áttuð, *F*, *G*, *L*; þau er áttuð, *hin.* 7) ættlönd, *B*, *D*, *E*, *H.* 8) þeim, *B*; þèr, *G.*

barns aldri, voru vèr ok nú ekki mjök viðbúnir, við nè einum úfriði at verja oss, kann vera at í annat sinn takist betr til enn nú. Konúngr mælti: grunar þik ekki, jarl! at nú hafi svâ tilborit, at þú farir hvârki hèðanfrá sigr nè úsigr? Þá mælti jarl: þèr munuð því nú ráða at sinni. Þá mælti konúngr: hvat villtu nú tilvinna, jarl! at ek láta þik fara í friði, hvert er þú vill, heilan ok úmeiddan? Jarl spyrr, hvers hann beiddi. Konúngr svarar: engis annars, enn þèr farið or landi ok gefi oss svâ upp ríki yðvart, ok sverið þess eiða, at þèr skuluð aldrí halda bardaga ígegn mèr. Jarl lèzt þetta gera mundu, svâ sem konúngr beiddi. Síðan vinnr Hákon jarl Ólafi konúngi eiða, at hann skyldi aldrí síðan berjast ímóti honum, ok eigi verja Noreg fyrir honum nè sækja hann af honum. Þá gaf Ólafr konúngr honum grið ok öllum mönnum hans, tók jarl þá við skipi því, er hann hafði haft áðr, róa nú íbrott leið sína; þessa getr Sigvatr skáld:

Ríkr kvað[1] sèr, at sækja,
Sauðúngs[2], konúngr, nauðir,]
frægðar[3]-gjarn, í fornu,
fund Hákonar, sundi;
strángr[4] hitti þar þengill
þann jarl, er var[5] annar
æztr, ok ætt gat bezta
úngr á danska túngu.

---

1) lèt, *E.* 2) *hèr sleppr E um sinn.* 3) fremdar, *K, S.* 4) *hèr byrjar aptr C.* 5) varð, *B, C, D, F, S.*

Eptir þat bjóst jarl sem skjótast or landi, ok sigldi vestr til Englands, ok hitti þar móðurbróður sinn, Knút konúng, ok segir honum allt, sem farit hafði með þeim Ólafi konúngi; Knútr konúngr tók við honum forkunnar vel, ok setr Hákon jarl innan hirðar með sèr, ok gefr honum mikit ríki; dvaldist Hákon jarl þar lengi með Knúti konúngi.

45. Þá er Sveinn ok Hákon jarl rèðu landi, gjörðu þeir sætt við Erlíng Skjálgsson, ok var bundin með því, at Áslákr, son Erlíngs, fèkk Gunnhildar, dóttur Sveins jarls; svâ skyldu þeir feðgar Áslákr ok Erlíngr hafa þá veizlur þær allar, er Ólafr Tryggvason hafði veitt Erlíngi; gjörðist Erlíngr þá fullkominn vin Sveins jarls, ok bundu þeir þat svardögum sín á meðal.

46. Ólafr konúngr snèri nú austr með landi eptir þetta, ok átti þíng við bændr, ok gengu margir til handa honum, en sumir mæltu ímóti, þeir er voru vinir eða frændr Sveins jarls; fór Ólafr konúngr fur því skyndiliga austr til Víkr, ok hèlt liði sínu inn í Víkina, ok setti þar upp skip sín, en hann sótti síðan á land upp; ok er hann kom á Vestfold, þá fögnuðu honum þar vel margir menn, þeir er verit höfðu vinir föður hans, þar var ok mikit ætterni hans; hann fór um haustit á Upplönd[1] á fund Sigurðar konúngs sýrs, stjúpföður síns, ok kom þar snimma dags. En er Ólafr konúngr var kominn nærr

[1]) land upp, *B*, *C*, *G*.

konúngsbænum, þá ljópu þjónustusveinar fur heim til bæjarins, þeir gengu inn í stofu; Ásta, móðir Ólafs konúngs, sat þar inni ok margar konur með henni; þá sögðu sveinarnir henni um ferð Ólafs konúngs, ok þat, at hann var þá nærr kominn bænum. Ásta stendr upp þegar, ok heitir á karla ok konur at búast um sem bezt; hún lèt 4 konur taka búnað stofunnar ok búa hana tjöldum ok bekkjum: 2 karlar báru hálm á gólf, 2 settu trapizu ok skaptker, 2 settu borð, 2 báru fram vistina, 2 sendi hún braut af bænum til fundar við Sigurð konúng, 2 báru inn ölit; en allir karlar ok konur þá bjöggust ímót Ólafi konúngi. En sendimenn fóru ok báru með sèr tignarklæði Sigurðar konúngs, ok hest hans með gyltum söðli, ok bitullinn var settr dýrum steinum[1]. Fjóra menn sendi Ásta fjögra vegna í bygðina, ok bauð til sín öllu stórmenni at þiggja veizlu at sèr, er hún gerði fagnaðaröl ímóti syni sínum; alla menn, er fur voru, lèt hún taka hinn bezta búnað sinn, er til áttu, en fèkk þeim klæði, er eigi áttu sjálfir.

47. Sigurðr konúngr sýr var þá staddr úti á akri einum, er sendimenninnir komu til hans ok sögðu honum þessi tíðendi, ok allt þat, er Ásta lèt athafast heima á bænum; hann hafði þar marga menn hjá sèr, sumir skáru[2], sumir hlóðu í hjálma eptir ok í löður, en hann sjálfr ok 2

[1]) ok gyltr *b. v. B, K, S.* [2]) korn, en sumir bundu, sumir óku (báru *C.*) heim korninu, *b. v. C, D, G, H, K, L.*

menn með honum gengu stundum á akrinn, þar er laðit var korninu. Svâ er sagt frá búnaði Sigurðar konúngs, at hann hafði kyrtil blán ok blár hosur, uppháfa skó, bundna at legg, grá kápu ok þófa[1]-hatt grán víðan, staf í hendi ok á ofan silfrhólkr gyltr ok silfrhríngr í. Svâ er sagt frá lunderni Sigurðar konúngs, at hann var búsýslumaðr góðr, ok sjálfr skipaði hann til um fè sitt, rèð hann sjálfr bûnaði sínum; engi var hann skartsmaðr ok heldr fámálugr, manna var hann vitrastr, þeirra er þá voru í Noregi, ok auðgastr at lausafè; hann var friðsamr ok úágjarn við aðra; Ásta, kona hans, var ör ok ríklunduð; þessi voru börn þeirra: [Gunnhildr var elzt, þá Guthormr[2] ok Hálfdán ok Íngiríðr[3], þá Haraldr. Þá mæltu sendimenn við Sigurð konúng: þau orð bað Ásta at við skyldim bera þèr, at henni þótti allmiklu máli skipta, at þèr tækist nú stórmannliga, ok bað þess, at þú skyldir nú meirr líkjast í ætt Haralds ens hárfagra ok hans skaplyndi, enn Nereið jarli hinum gamla eðr Hranamjónef, móðurföður þínum, þóat hann væri spekíngr mikill at viti. Konúngr mælti: tíðendi mikil berið þið, enda flytið þið allákafliga, ok víst er þat satt at segja, at látit hefir Ásta yfir þeim mönnum vel furr, er henni var minni vandi á, enn taka vel við syni sínum þvílíkum, tekr hún þetta ok með miklum ákafa, ok ef hún

---

[1]) *v. í hin.* [2]) Guttormr var elztr, þá Gunnhildr, *hin.* [3]) Sigurðr, *C, L.*

leiðir hann svâ út, sem nú leiðir hún hann inn, ok sè þat með þvílíkri stórmennsku, þá er víst vel um ráðit, ef þat endist með því móti; en svâ lízt mèr, við þat er ek em áhugalítill, ef svâ skal útgánga, at þeir, sem sik veðsetja í þetta mál, munu hvârki fursjá fè sínu nè fjörvi, þvíat þessi maðr, Ólafr, brýzt í miklu ofrefli, ef hann heldr þessu fram, þvíat á honum ok á hans ráðum liggr reiði bæði Dana konúngs ok Svía konúngs. Þá settist Sigurðr niðr ok lèt taka af sèr skóklæðin, en dró á fætr sèr kordúnu hosur, ok batt með gyltum sporum, þá tók hann af sèr kápuna[1], ok girði sik við búnu sverði, setti hjálm gullroðinn á höfuð sèr, steig þá á hest sinn; hann gerði verkmenn í bygðina, þá sem nærst var, ok tók sèr þar 30 vaska menn ok vel búna, ok riðu þeir með honum heim á bæinn, ok er hann reið í garðinn fur stofuna, þá sá hann, at öðrum megin í garðinn brunaði fram merkit ok þar með herrann sjálfr, Ólafr konúngr, ok hundrað manna, ok allir vel búnir, þá var ok allt skipat mönnum milli húsanna. Fagnaði Sigurðr konúngr þegar af hesti Ólafi konúngi, stjúpsyni sínum, ok öllu liði hans, ok bauð honum með sèr at dveljast ok heimilt allt þat, er hann mátti veita honum, bæði land ok lið. Ólafr konúngr þakkaði honum vel orð sín; stigu þeir af baki ok gengu inn. Þá gekk Ásta at syni sín-

---

1) ok kyrtilinn, en klæddist síðan með pellsklæðum ok yzt skallatskápu, *b. v. hin.*

um ok mynntist við hann, ok bað hann velkominn, ok honum heimilt allt þat, er hún mætti veita honum, ok leiddi hann til hásætis inn í stofuna. Sigurðr konúngr fèkk menn til at varðveita klæði þeirra ok gefa korn hestum þeirra, en hann gekk til hásætis síns, ok var veizlan gjör með hinu mesta kappi.

48. Nú er Ólafr konúngr hafði[1] lengi dvalizt með Sigurði konúngi, mági sínum, þá var þat einn dag, at Ólafr konúngr heimti hann til tals við sik ok Ástu, móður sína, ok Hrana, fóstra sinn. Þá tók Ólafr konúngr til máls: svâ er, Sigurðr mágr! sem yðr er kunnigt, at ek er kominn híngat til lands þessa, ok hefir ek nú verit áðr lánga hríð utanlands, hefir ek ok mínir menn haft þat eina til framflutníngs oss, er vèr höfum sótt í hernaði ok í mörgum stöðum vorðit út at hætta bæði lífi ok sálu, hefir margr orðit fur oss saklauss at láta bæði líf ok aura; en yfir þeim eignum sitja útlendir menn, er átti minn faðir ok hans faðir, ok hverr eptir annann vârra frænda, ok er ek óðalborinn til, ok láta þeir sèr þat þó eigi einhlýtt, heldr hafa þeir undir sik tekit allar eigur vârra frænda, þeirra er komnir eru at lángfeðga tali frá Haraldi konúngi enum hárfagra, ætla þeir sumum lítit af, en sumum alls ekki; nú skal því upplúka fur yðr, er mèr hefir lengi í skapi búit, at ek ætla at heimta föðurarf minn, ok mun ek hvârki fara at finna

[1]) þar eigi, *b. v. hin.*

Svía konúng nè Dana konúng, at biðja þar neinna muna um, þóat þeir hafi nú kallat sína eign um hríð þat, er átt hefir Haraldr konúngr hinn hárfagri, ætla ek heldr yðr satt frá at segja, at sækja oddi ok eggju frændleifð mína, ok kosta þar til allra frænda minna ok vina, ok þeirra manna allra er at því ráði vilja hverfa með mèr; skal ok þetta svâ upptaka tilkallit, at annathvârt skal vera, at ek skal eignast til forráða allt þat ríki, er þeir feldu frá Ólaf konúng Tryggvason, frænda minn, eðr ek skal hèr falla á frændleifð minni. Nú vænti ek svâ góðs af yðr, Sigurðr mágr! ok öðrum þeim mönnum í landinu, sem óðalbornir eru til konúngdóms at lögum þeim, er setti Haraldr konúngr hárfagri, þá mun yðr eigi svâ mikilla muna ávant, at þèr munið eigi vilja upphefjast ok reka af hendi frændaskömm þessa, at eigi munið þèr alla muni tilleggja við þann, er forgángsmaðr vill at vera, at hefja upp ætt vâra; en hvârt sem þèr villð hèr, Sigurðr mágr! nokkurn manndóm ásýna, eðr engan, við oss um þenna lut, þá veit ek þó skaplyndi alþýðunnar, at til þess væri þó öllum tídt, at komast undan þrælkan útlendra höfðíngja, þegar menn bera traust til ok fá sèr nokkura höfuðbendu; hefi ek þetta mál fyri þá sök fur engan mann uppborit, furr enn þik, at þú ert vitr maðr ok kannt forsjá til þess, hvern veg reisa skal frá upphafi til enda þessar ætlanir, hvârt þat skal furst fara í hljóði, ok reifa þetta fur nökk-

urum vitrum mönnum, eða skal þat í fjölmenni ok fur alþýðu uppbera; hefi ek ok nokkut roðit tönn á þeim, þá er ek tók höndum Hákon jarl, ok er hann nú or landi stokkinn, ok gaf hann mèr með svardögum þann luta lands, er hann þóttist eiga; nú ætla ek, at oss muni lèttara falla at eiga um við Svein einn, enn þeir væri báðir til landvarnar. Sigurðr konúngr svarar þá: eigi býr þèr lítit í skapi, ok þessi ætlan er meirr af kappi enn forsjá, at því er ek virði, enda er þat vân, at lángt muni ímilli vera lítilmennsku minnar ok þess hins mikla áhuga, er þèr býr í brjósti nú, fur því, at þá er þú vart lítt af barnsaldri kominn, vart þú þegar fullr af kappi ok ójafnaði í öllu því, er þú máttir, ert þú nú ok reyndr í orrostum ok samit þik eptir siðum útlendra höfðíngja; nú veit ek, at svâ fremi muntu þetta hafa uppkveðit, at ekki mun stoða at letja þik, er ok vârkunn[1] á, at þvílíkir lutir liggi í miklu rúmi, þeim er nokkurir eru í skapi, at öll ætt Haralds hins hárfagra falli niðr ok konúngdómr; en í engum heitum vil ek bindast, furr enn ek veit ætlan ok tiltekjur annarra Upplendínga konúnga; en vel hefir þú þat gjört, er þú lèzt mik furr vita þessa ætlan, enn þú bærir hana í hámæli fur alþýðu manna, ok heita vil ek þèr umsýslu minni við þá konúngana, ok svâ við aðra höfðíngja eða landsfólk; svâ skal þèr ok heimilt at hafa til traustս þèr fè, svâ sem þú

[1]) vankunn, C.

þarft. En svâ fremi vil ek, at vèr berim þetta mál fur alþýðu, er ek sè, at nokkurr sturkr fæst til þessa stórræðis, fur því at svâ skaltu tilætla, at mikit er í fáng tekit oss, ef þú vill kappi deila við Ólaf Svía konúng ok Knút konúng hinn ríka, er nú er konúngr yfir Danmörk ok Englandi, ok mun rammar skorður þurfa við at reisa, ef hlýða skal; en ekki þikkir mèr úlíkligt, at þèr verði gott til liðs, þvíat alþýðan er gjörn til nýúngarinnar; fór þat svâ furr, þá er Ólafr Tryggvason kom til ríkis, at allir urðu því fegnir, naut hann þó eigi lengi konúngdómsins. Þá tók Ásta til orða: svâ er mèr gefit, son minn! at ek em þèr fegin vorðin, ok því fegnust, er þinn þroski mætti sem mestr verða, en heldr vildi ek þó, at því væri at skipta, at þú virðir yfirkonúngr yfir Noregi, þóat þú lifðir eigi lengr í konúngdóminum, enn Ólafr konúngr Tryggvason, enn hitt at þú virðir eigi meiri konúngr enn Sigurðr konúngr sýr er, ok vyrðir þú ellidauðr. Eptir þat slitu þeir málstefnunni; dvaldist Ólafr konúngr þar um hríð með öllu liði sínu. Sigurðr konúngr veitti þeim annann hvern dag at borðhaldi fiska ok mjólk, en annann hvern dag slátr ok munngát.

49. Ólafr konúngr heyrði menn sína hallmæla Sigurði, mági sínum, um þat er þeir drukku annann hvern dag mjólk, en eigi munngát, ok fur þat ávítaði hann þá mjök, ok segir, at Sigurðr

1) *hèr byrjar E aptr.*

konúngr gerði þat spakliga: þvíat sárum mönnum hentir betr mjólk enn munngát. Nú líðr ímót jólum; þá lèt Sigurðr konúngr búa veizlu dýrðliga með öllum hinum beztum faungum, er til voru þar í landi, bæði at drykk ok vistum ok fjölmenni. Ásta lèt ok búa eina stóra höll, er Sigurðr konúngr átti með dýrðligum herbúnaði, ok lèt þar gera virðuligt hásæti, sem sómdi, er Ólafr skyldi sitja í um jólin. Jólakvöld hit fursta fylgði Ásta Ólafi í hásætit ok öllu liði hans, ok skipaði honum göfugligt hásæti, sem sómdi; ok er hann var þar kominn með sínu föruneyti, þá kom Sigurðr konúngr í höllina með öllu sínu föruneyti, skrýddr öllum konúngsskrúða; hann gekk fur Ólaf konúng, ok kvaddi hann ástsamliga, ok bauð honum ok öllum hans mönnum til þess fagnaðar, er hann hafði búa látit, ok bað hann með sèr vera svâ lengi sem hann vildi, ok fór um þat mörgum fögrum orðum; síðan gekk hann til sætis hjá Ólafi; þá tókust konúngarnir at talast við mart spakliga, ok drukku með mikilli gleði ok skemtan. Sigurðr konúngr hafði verit nokkut fárr öndverðan vetr, en nú var hann glaðr ok spurall, bæði um ferðir Ólafs konúngs ok um hernað þann, er hann hafði haft útanlands; en Ólafr ok menn hans sögðu ok mart merkiligt frá hans ferðum, sem efni voru til. Nú er Sigurðr hafði heyrt sagt frá bardagum þeim, er Ólafr hafði haft í Austrlöndum ok í Suðrríki, í Germaníi ok vestr á Spanía, þá þótti Sigurði kon-

úngi mikils um vert, ok varð af þessu öllu saman hin mesta gleði með vitrligum undirtektum Sigurðar konúngs. Liðu nú svâ jólin af höndum, at Sigurðr konúngr þótti vaxa mikit af þessi veizlu ok sinni stórmennsku. Haraldr, son Sigurðar ok Ástu, var þá svâ úngr, at hann lá í vöggu, ok mátti eigi mæla; Ásta bar sveininn fur Ólaf konúng, ok mælti: hèr er sveinn sá, er við Sigurðr konúngr eigum, ok vildi ek, son minn! at þú legðir góðan hug til þessa bróður þíns, ok lagði sveininn á knè Ólafi; hann leit á sveininn ok þagði. Ásta mælti þá: þat vildi ek, at þú segðir mèr, hvârt nokkut vit ætlar þú í honum mun verða. Ólafr mælti: hverr ábyrgist þat, móðir! at góðráðr verði, ek mun ábyrgjast, at eigi mun heimskr verða, ef lífinu heldr. Þá tók Ásta sveininn íbrott.

50. Þá voru Upplendínga konúngar margir, þeir er fur fylkjum rèðu, ok voru þeir flestir komnir af ætt Haralds hárfagra; fur Heiðmörk rèðu bræðr 2, hèt annar Hrærekr, en annar Ríngr. Yfir Guðbrandsdölum rèð sá konúngr, er Guðrekr[1] hèt; var ok konúngr á Raumaríki, ok hafði hann til forráða Þotn ok Haðaland; á Valdresi var ok konúngr. Sigurðr konúngr átti nú stefnulag við þessa alla konúnga uppi á Haðalandi; þar var ok á þeirri stefnu Ólafr konúngr Haraldsson. Þá bar Sigurðr konúngr upp fur þá kon-

[1]) Guðröðr, *hin.*

úngana ráðastófnan Ólafs konúngs, mágs síns, ok biðr þá styrktar bæði at liði ok ráðum at samþykkja þeim um þetta mál, telr þat upp furst, hver nauðsyn þeim var á, at reka af höndum þat undírbrot, er bæði hafa Danir ok Svíar þá undirbrotit; segir at nú mun fást maðrinn til at gánga fur þessu máli, telr þá upp mörg stórvirki ok snildarbrögð Ólafs konúngs Haraldssonar, er hann hafði gjört bæði í Norðrhálfunni ok suðr í löndum ok svâ í Vestrlöndum, ok allstaðar þar sem hann herjaði, þvíat Ólafr konúngr hafði jafnan haft gagn ok sigr, hvar sem hann herjaði frá únga aldri, at þess er þá var komit. Þá svarar Hrærekr konúngr: satt er þat, at mjök er niðrbrotit ríki Haralds konúngs hárfagra, er engi skal hans ættmanna vera yfirkonúngr at Noregi; nú hafa menn hèr í landi ýmiss viðfreistat: var Hákon Aðalsteinsfóstri konúngr yfir landi þessu nokkura hríð, ok undu allir því vel, en er Gunnhildar synir rèðu fur, þá varð mönnum svâ leidt þeirra ofrríki ok ójafnaðr, at menn vildu heldr hafa útlenda höfðíngja yfir sèr, ok vera sjálfráðir, þvíat útlendir höfðíngjar voru jafnan fjarri um at vanda háttu manna, höfðu þeir ok slíkan af landi, sem þeir skildu sèr, ok höfðu þaðanaf engar pyndíngar á mönnum; en er þeir vurðu úsáttir Haraldr Dana konúngr ok Hákon jarl, þá herjaðu Jómsvíkíngar í Noreg, reis þá ímóti þeim allr landsmúgr ok margmenni ok hrundu þessum úfriði af sèr; eggjaðu

menn þá Hákon jarl þess, at halda skatti fyri Dana konúngi, ok verja honum landit oddi ok eggju; en þegar jarl þóttist fullkominn til ríkis af landsmönnum, þá gerðist hann svâ frekr ok harðr við landsfólkit, at menn þoldu honum eigi újafnað sinn, ok drápu þrændir hann sjálfir, en hófu til ríkis Ólaf konúng Tryggvason, er óðalborinn var til konúngdóms hèr í landi, ok var fur allra luta sakir vel tilfallinn, geystist þá at því allr múgr, at vilja hann hafa konúng yfir sèr ok reisa hann upp af nýju til þess ríkis, er átt hafði Haraldr konúngr hárfagri; ok er hann var fullkominn í ríki, þá var fur honum engi maðr sjálfráði, gekk hann þá at með frekju við oss smákonúnga, at heimta undir sik þær eignir allar, er átt hafði Haraldr konúngr hárfagri, ok sumt miklu frekara, ok at síðr voru menn sjálfráðir fur honum, at engi rèð því, á hvern guð trúa skyldi; en er hann var frá landi tekinn, þá höfum vèr nú haldit vináttu við Dana konúng, höfum vèr síðan haft af honum mikit traust um alla luti, þá er vèr þurfum at krefja, en í annann stað sjálfræði ok hóglífi, en ekki ofríki; nú er þat at segja frá mínu skaplyndi, at ek uni vel við svâ búinn, veit ek þat eigi, þóat minn frændi sè konúngr yfir í landi þessu, hvârt nokkut skal minn rèttr batna við þat eða ekki; nú er þat víst at segja, at ek á engan lut í þessi ráðagerð, ef ekki skal minn sómi aukast við þat, heldr neiti ek henni. Þá mælti Ríngr, bróðir hans: birta

mun ek mitt skaplyndi: betra þikkir mèr, þótt ek hafa hit sama ríki ok eignir, sem nú hefir ek, at minn frændi sè konúngr yfir Noregi, enn útlendir konúngar, þeir er hèr eigu enga tiltölu til ríkis, ok mætti enn hèr í landi heldr aukast vâr ætt; er þat ok mitt hugboð um þenna mann, Ólaf, at auðna hans ok hamíngja mun mestu umráða, hvârt konúngr skal ríki hafa eða eigi; nú ef hann verðr einvaldskonúngr yfir Noregi, mun eigi sá þá þikkjast betr hafa, er stærri luti á til at telja við hann um vináttu? mun þá engi þikkjast hafa ófúss til hans gert; nú hefir hann í engan stað meiri kosti undir sèr, enn einhverr vârr, nema því minni, at vèr höfum hèr land til forráða ok ríki, en hann hefir alls ekki, eru vèr ok eigi síðr enn hann óðalbornir til ríkis þess ok konúngdóms enn hann; nú ef vèr viljum gerast honum svâ miklir liðsinnismenn, at vèr unnim honum hinnar æztu tignar hèr í landi, ok fylgja honum til ríkis með öllum vârum styrk ok leggja þar sjálfa oss í hættu fur hans sakir, ok allt þat, er vèr eigum, hví mun hann oss þat eigi góðu launa, ok síðan lengi muna með góðu, ef hann er svâ mikill manndómsmaðr, sem aðrir segja, ok ek hygg at hann sè? nú munu vèr á þá hættu leggja, ef ek ráða, ok binda við hann vináttu, ok gera eptir því, sem ek beiði. Eptir þat stóð upp hverr at öðrum þeirra konúnganna ok talaðu, ok kom þó mjök í einn stað niðr, at flestir snèru hèr

hug sínum eptir, sem Hríngr konúngr talaði, ok voru þeir fleiri fúsari, at binda fèlagsskap sinn við Ólaf konúng. En þó at Hrærekr væri þessa ófúss ok letjandi, þá kunni hann eigi at gjörast einlagi um þetta, er hann sá þó, at aungvir vildu eptir honum gánga, ok mælti svâ: þèr munuð þessu ráða, at taka Ólaf yfir land þetta einvaldskonúng, ok setja svâ sjálfa yðr í hættu við Dana konúng ok Svía konúng, ok allt þat er þèr eigið, en ekki er ek forspárr, en þat er hugboð mitt, at þeir sem þetta mál flytja nú mest, ok vilja nú ekki 'annat heyra enn gefa Ólafi konúngi svâ mikit vald at taka hann yfirmann yfir sik ok þarmeð yfir allan Noreg, at eigi munu margir vetr líða, áðr enn þèr munuð þessa iðrast, ok svâ allir vèr, er nú gjöldum jákvæði til þess, en ekki vil ek einn rísa ímóti því, er allir aðrir vilja vera láta; en þóat þèr, Ólafr frændi! þikki ek ekki mjök vingaðr hafa verit yðr í þessi ráðagerð, þá skal þó enginn þeirra konúnganna, sem nú eru hèr komnir, veita þèr meira styrk enn ek, ef vèr skulum þó undir þik víkjast. Þá gengu þessir allir 6 konúngar til handa Ólafi konúngi, ok játaðu honum öllum sínum styrk ok hefja hann til ríkis með öllum sínum mætti; en hann hèt þeim ímóti sinni vináttu fullkominni ok rèttarbótum, ef hann vyrði einvaldskonúngr yfir Noregi, ef þeir kynni til at gæta; bundu þeir þetta nú með svardögum sín ímillum.

51. Nú eptir þetta stefna konúngarnir þíng; þá bar Ólafr konúngr þetta mál fur alþýðu, ok sína ráðagjörð ok allt sitt tilkall, þat er hann hafði þar til ríkis, biðr hann bændr sèr þá viðtöku til konúngs yfir allt landit, ok heitr þeim þar ímóti fornum lögum, ok því at verja land fur útlendum höfðíngjum, ef þeir sækja til, talar þarum lángt ok snjalt; fèkk hann góðan róm at máli sínu. Þá stóðu upp konúngarnir, ok talaði hverr at öðrum, ok fluttu þetta mál fur lýðnum; varð þat at lyktum, at Ólafi var gefit konúngsnafn yfir öllu landi ok dæmt honum land at upplenzkum lögum. Þá hóf Ólafr konúngr upp ferð sína, ok lèt bjóða upp veizlur fur sèr, þar sem konúngsbú voru fur, fór hann furst um[1] Haðaland ok svâ norðr um Guðbrandsdali; fór þá sem Sigurðr konúngr sýr hafði tilgetit, at lið dreif til hans svâ mart, at hann þóttist eigi þurfa hálft af at hafa, ok hafði hann þá þó nærr [hálft 3ðja hundrað[2] manna; þá endust honum þó ekki veizlunnar, sem ákveðit var, þvíat þat hafði siðvenja verit, at konúngar fóru um Upplönd með 60 manna eða 70, en aldrei meirr enn með hundrað; fór hann þá skjótt yfir ok var eina nótt í sama stað; en er hann kom norðr til fjalls, þá byrjaði hann ferð sína norðr um fjallit.

52. Þórðr[3] Sigvalda-skáld hafði verit með

[1]) *hèr sleppr E aptr.* [2]) meirr enn 3 hundruð, *G*; 3 hundruð, *hin.* [3]) son, *b. v. G, K.*

Ólafi konúngi furr, þá er hann var í hernaði. Sighvatr hèt son Þórðar, hann var at fóstri með Þorkatli at Apavatni [á Íslandi; Sighvatr þótti seinligr maðr í uppvexti. Í Apavatni èr fiskiveiði mikil; þar var á vist með Þorkatli Austmaðr nokkr, vitr maðr ok dæmafróðr; þeir sátu á ísinum, ok sá framkoma mikinn fisk ok fagran, ok gátu eigi veiddan. Þá bað Austmaðr Sighvat fara á vatnit, ok bjó til veiðarfæri hans, þvíat honum líkaði til Sighvats vel; en er Sighvatr hafði litla stund setit, þá dró hann þann enn fagra fisk; ok er þeir komu heim, var soðinn fiskrinn. Þá mælti Austmaðr, at Sighvatr skyldi eta furst höfuðit af fiskinum, ok kvað þar vit hvers kvikendis ífólgit. Sighvatr át höfuðit ok allan fiskinn, ok þá kvað hann vísu þessa:

Fiskr gengr oss at óskum
eitr, sem vèr höfum leitat
lýsuvángs or lýngvi
leygjar orm at teygja;
atrenis má annars
aungul gripinn fánga,
vel hefir, örriða, at erja
agngagli mèr fagnat.

Sighvatr var síðan skírr maðr ok fór utan[1]; ok er hann kom til Noregs, fór hann á fund Ólafs konúngs, ok beiddist at færa honum kvæði; konúngr svarar: at hann vill ekki heyra kvæði hans, ok hann vill ekki láta yrkja um sik. Sighvatr kvað þá vísu:

[1]) *frá [ v. í hin, nema H.*

Hlýð mínum brag, meiðir[1]
myrkblakks[2], því ek kann yrkja,
alltíginn, mátt þú eiga
eitt skáld[3], drasils tjalda!
þótt[4] öllúngis allra
allvaldr lofun[5] skálda,
þèr fæ ek hróðr at hvâru
hlít, annarra nítit.

Ólafr konúngr gaf Sighvati at bragarlaunum gullhríng, er stóð hálfa mörk. Sighvatr gerðist þá hirðmaðr Olafs konúngs; hann kvað þá enn:

Ek tók lystr, nè[6] ek lasta
leyíð, iðn var þat síðan,
sóknar njörðr! við sverði,
sá er minn vilì, þínu;
þollr fèkktu húskarl hollan,
höfum ráðit vel báðir,
linns[7], en ek lánardrottinn,
lands[8] blóða, mèr góðan.

Þá er Sighvatr kom af Íslandi til Ólafs konúngs, þá kvað hann þetta:

Gjörbæninn[9] [mun ek[10] gunnar[11]
[gamms hnykkjandum[12] þikkja[13],
áðr þágum vèr ægis
eld, en[14] nú bið ek feldar[15];

[1]) beiðir, *B.* [2]) myrblans, *B*; myrkbjarls, *C*; myrkhals, *D*, *F*, *L*; myrkblás, *K*, *S.* [3]) spjald, *B.* [4]) þvíat, *C*, *F*, *L.* [5]) lofum, *K*, *L.* [6]) *þannig leiðrètt*; *v. í A*, *F*, *L.* [7]) látrs, *hin.* [8]) linns, *hin.* [9]) gjörbænn, *hin.* [10]) maðr ok, *B.* [11]) göfgum, *G.* [12]) gunnteitundum, *B*; gamteitandum, *D*, *G*, *S*; gamsreit-erum, *F*, *L.* [13]) heitinn, *B*, *D*, *K*, *L*; veita, *G.* [14]) ef, *B*, *G*, *K*, *S.* [15]) felda, *hin.*

landaura veit þú, lýru[1]
láð[2] þverrandi! af knerri,
en ófángan[3] engjar[4]
ek hefi sjálfr kraft hálfa[5].

53. Ólafr konúngr kom liði sínu í Uppdal, ok fór svâ ofan til Orkadals; hann átti þá þíng við bændr, ok beiddi, at þeir skyldi taka við honum til konúngs; hann lèt þá bera vitni þau, er við höfðu verit, þá er Hákon jarl hafði fengit honum með svardögum þann luta lands, er hann þóttist eiga ok fyrr hafði Eiríkr jarl, þat voru 4 fylki: Orkdælafylki, Gauldælafylki, Strindæla[6]-fylki, Eynafylki; margir menn veittu honum þar góðar viðtökur, en sumir flýðu undan, sumir mæltu ímóti. Sveinn jarl var inní Þrándheimi at Steinkerum, ok lèt þar búa til jólaveizlu, þvíat þar var þá kaupstaðr mikill. Einarr Þambarskelfir spurr til ferða Ólafs konúngs, hann fór þá uppí Gaulardal með húskarla sína; hann sendi menn til Niðaróss, ok lèt taka þar róðrarskútu, er hann átti, fóru þeir menn eptir firði, ok koma einn dag síðla inn til Steinkera, ok bera njósn Sveini jarli um ferð Ólafs konúngs. Jarl átti lángskip mikit, er flaut tjaldat fur bænum; hann lèt þegar um

1) lundi, *D*, *F*, *L*; lúru, *G*, *K*, *S*. 2) læ, *G*; leið, *L*. 3) oflánga, *B*, *D*, *F*; afgánga, *G*; áfánga, L. 4) engann, *B*, *C* *K*, *S*; engum, *D*; úngum, *F*; engi, *G*. 5) hálfra, *G*; Sighvatr var lengi með Olafi konúngi; hann var eigi hraðmæltr dagliga, en skáldskapr var honum svâ tiltækr, sem hann mælti annat mál, *b. v. L*; *vísuna v. í C.* 6) Strinda, *hin.*

kveldit flytja á skipit lausafè sitt allt ok klæðnað manna, drykk ok vist, svâ sem skipit tók upp, rèru þá þegar út um nóttina ok komu í lýsíng í Karlsund[1]. Ólafr konúngr hafði ráðit sèr til skipa í Orkadal, tók bóndaför ok hafði 5 skip, hèlt hann þegar inn eptir firði. Þá snèri jarl at landi fur[2] Masarvík, þar var þykkr skógr; þeir lágu svâ nærr berginu, at lauf ok limar tóku ofan á sjó, svâ at ekki sá skipit fur liminu, var ok eigi alljóst norðan, þá er konúngr rèri inn um, var ok þá logn veðrs; þá rèri konúngr inn um eyna, ok sá þeir eigi skipit; en er fal sýn ímilli þeirra, þá reyri jarl út á fjörðinn at Frostu, ok lagði þar at landi, þvíat þar var ríki hans. Sveinn jarl sendi útí Gaulardal eptir Einari Þambarskelfi, mági sínum. En er Einarr kom til jarls, þá segir hann honum allt um ferð sína, ok svâ at hann vill liði samna, ok fara til móts við Ólaf konúng, ok berjast við hann. Einarr svarar svâ: vèr skulum nú ráðum at fara, herra! segir hann, en rasa nú eigi fur ráð fram: skulu vèr nú furst halda njósnum til, hvat Ólafr ætlast fur, látum hann þat eina spyrja, at vèr sèim kyrrir, kann þá vera, at hann setìst at Steinkerum inn um jólin, ef hann spurr engan liðsamnað vârn, þvíat þar er nú vel furbúit, en ef hann spyrr, at vèr höfum liðsamnað, þá mun hann þegar stefna út eptir firðinum, höfum vèr hans þá alls ekki.

[1]) Skarsund, *B*, *K*, *S*; Skarasund; *C*; Karmsund, *G*; Karfsund, *D*. [2]) frá, *hin*.

Svâ var þá gjört, sem Einarr mælti: fór jarl á veizlur til bónda um Stjóradali[1]. Ólafr konúngr kom inn til Steinkera, ok þá tók hann upp veizluna, ok lèt bera á skip sín, ok aflaði til byrðínga, ok lèt bera á bæði vist ok drykk, ok bjóst íbrott sem skjótast, ok hèlt allt út til Niðaróss; þar hafði Ólafr konúngr Tryggvason efnat til kaupbæjar ok húsat þar konúngsgarð, en áðr var þar [einn bær[2] í Niðarósi; en Sveinn jarl lèt búa til kaupbæjar at Hlöðum, sem faðir hans hafði haft atsetu, en hann úrækdi hús þau, er Ólafr konúngr hafði gera látit við Nið, voru þau þá sum niðrbrotin, en sum stóðu, ok þó heldr hrörlig. Ólafr konúngr hèlt nú út skipum sínum í Nið, lèt þar þegar umbúast í þeim stað ok í þeim húsum, er uppstóðu, en reisa þau upp, er niðr voru fallin, ok hafði þar at fjölda manns, lèt þá ok flytja upp í húsin bæði vist ok drykk, ok ætlaði þar at sitja um jólin. En er þat spurr Sveinn jarl ok Einarr þambarskelfir, þá samna þeir liði ok fara út til Gaulardals hit efra, ok stefna svâ út til Niðaróss, ok höfðu nærr 20 hundruð manna. Menn Ólafs konúngs voru á njósn útá Gaularási ok hèldu [vörð á hesti[3]; þeir vurðu nú varir, er herrinn fór utan um Gaulardal, ok báru þeir njósn konúngi um miðnætti; stóð þá konúngr upp þegar ok lèt vekja liðit; gengu menn nú þegar út á skipin, ok báru út öll klæði sín ok vâpn, ok þat er þeir fengu meðkomizt, róa nú út or ánni; kom

[1]) Orkadal, *K.*  [2]) einbæli, *hin.*  [3]) hesivörð, *E*, *C*, *D*, *G.*

þá jarl þegar til bæjar, ok tóku þar þá jólavist alla, en brendu húsin öll. Ólafr konúngr rèri nú út eptir firði til Orkadals, ok gekk þar af skipum, fóru síðan upp eptir dalnum allt til fjalls ok austr yfir fjallit til Dala. Frá þessu er sagt, er þeir Sveinn jarl brendu bæinn í Niðarósi í flokki þeim, er [ortr er um Klæng Brúsason[1], hann var þá með Sveini jarli:

Brunnu allvalds inni,
eldr hykk at sal feldi,
eimr[2] skaut[3] á her[4] hrími,
hálfgjörr, á[5] Nið sjálfa.

Ólafr konúngr fór þá norðr eptir Guðbrandsdölum ok þaðan út á Heiðmörk, ok fór at veizlum.

54. Ólafr konúngr samnaði her saman, er áleið vetrinn, hann hafði mikit lið af Heiðmörk, er konúngarnir fengu honum, fóru þaðan lendir menn margir ok ríkir bændr; í þeirri ferð var Ketill af Ríngunesi[6]; Ólafr konúngr hafði ok lið af Raumaríki; Sigurðr konúngr sýr, mágr hans, kom ok til liðs við hann með mikla sveit manna; sækja þeir nú út til sjóvar, ok ráða síðan til skipa, ok búast svâ innan í Víkina[7], ok höfðu mikit lið. Sveinn jarl samnar liði um Þrándheim allan þegar eptir jólin, býðr út leiðángri bæði at skipum ok mönnum. Í þenna tíma var í Noregi fjöldi lendra manna, voru þeir margir ríkir ok

1) orti Klængr Bjarnason, (Brúsason *F*) *G*, *H*. 2) ærnir, *C*. 3) stökk, *C*, *L*. 4) hús, *H*. 5) við, *hin*. 6) Rínga, *C*; Hríngaríkisnesi, *K*. 7) or Víkinni, *hin*.

svâ ættstórir, at þeir voru komnir af konúngaættum, ok áttu skamt til at telja, voru þeir ok stórauðgir, var þar ok allt traust konúnganna eða jarlanna, er fur landinu rèðu, sem lendir menn voru, þvíat svâ var í hverju fylki, sem lendir menn rèði fur bóndamúgnum. Vel var Sveinn jarl vingaðr við [bónda lýðinn[1], varð honum gott til liðs; Einarr Þambarskelfir, mágr hans, var þar með honum ok margir aðrir lendir menn; þeir fóru, þegar þeir voru búnir, ok hèldu suðr með landi, ok drógu á árum út or firðinum; þeim samnaðist lið or hverju fylki; en er þeir komu suðr til Rogalands, þá kom til móts við þá Erlíngr Skjálgsson með mikit lið ok frítt, voru með honum margir aðrir lendir menn, hèldu síðan öllu liðinu austr til Víkr. Þat var er áleið lángaföstu, er Sveinn jarl hèlt inní Víkina; jarl hèlt liði sínu inní Grenjar, ok lagðist við Grenjar[2] með herinn; þá hèlt Ólafr konúngr innan eptir Víkinni, ok var þá skamt ímilli þeirra, ok vissu þá hvârir til annarra. Ólafr konúngr hafði þat skip, er Karlhöfði var kallaðr, þar var skorit á framstafninum konúngs[3] höfuð, hann sjálfr hafði þat skorit; þat höfuð var lengi síðan haft til sýnis í Noregi. Þat var laugardaginn fur Pálmsunnudag er þeir lágust svâ nærr, sem nú var frásagt.

55. Sunnudags morgininn, þegar er lýsti, stóð Ólafr konúngr upp ok klæddist, ok gekk

---

1) lenda menn, *B, C, D, G.* 2) Grenmar, *B, C, D, K, S.* 3) manns, *C.*

síðan á land, ok lèt blása öllu liðinu til land-gaungu; þá átti hann tal við höfðíngja, ok sagði alþýðu, at skamt mun vera ímilli þeirra Sveins jarls: skulu vèr nú, segir hann, umbúast sem vænligast þykkir, vâpnist menn nú ok búi sik ok sitt rúm hverr maðr, þar sem áðr er skipat, svâ at allir sè þá búnir, er ek læt blása til brottlögu; róum vèr síðan samfast, fari engi skip furrenn allr ferr herrinn, dvelìst engi þá ok eptir, er ek ræ or höfninni, þvíat eigi megu vèr vita, hvar fund vârn berr saman ok orrosta tekst með oss, hyggjum þá at því, at vârir menn heimti skip sín saman ok sè búnir til saman at tengja; hlífum oss furst ok gætum vâpna vârra, at vèr kastim eigi á glæ[1] til ónýts, en er festist orrostan ok skipin hafa saman bundizt, gjörum þá sem harðasta hríðina, ok dugi þá hverr sem mannligast. Olafr konúngr hafði á skipi sínu hundrað manna, ok höfðu allir hríngabrynjur ok valska hjálma, flestir menn höfðu hvíta skjöldu, ok lagðr á hinn helgi kross með gulli, eða rauðum steini eða blám; kross lèt hann draga í enni á öllum hjálmum með bleikju, hann hafði ok[2] merki þat, er var ormr at sjá; síðan lèt hann sýngja sèr allar tíðir ok messu; síðan gekk hann út á skip, ok bað menn snæða nokkut; þá lèt hann blása herblástr ok leggja út or höfninni, reyru þá þegar at leita Sveins jarls; ok er þeir komu fur höfnina, þá er jarl hafði legit í, þá var lið jarls vâpn-

[1]) sæ, *B.* [2]) hvítt, *b. v. hin.*

at, ok ætlaði þá at róa út or höfninni; en er þeir sjá konúngs lið, þá tóku þeir at tengja saman skip sín, ok settu upp merki sín ok bjuggust vel um; en er Ólafr konúngr sá þat, þá greiða þeir atróðrinn. Ólafr konúngr lagði sitt skip ímóti jarls skipi, tókst þar þegar orrosta ok var hin ákafasta; svâ segir Sighvatr:

Veitti sókn, þar er sótti[1],
siklíngr fírum mikla,
blóð fèll raudt [í rjóða[2]
rein í höfn at Sveini;
snjallr hèlt at sá, er olli,
eirlaust konúngr, þeirra,
en Sveins liðar, sínum,
saman [bundu lið, fundi[3].

Hèr segir þat, at Ólafr konúngr hèlt at orrostu, en Sveinn jarl lá fur í höfn. Sighvatr skáld var þar í orrostunni, ok kvað þá þegar Nesja-vísur eptir bardagann, ok segir þar vandliga frá þessum atburðum; þar segir ok svâ:

Þat er ofkunnt, hve kennir
Karlhöfðann lèt jarli,
eggja[4] frosts, fur austan
Agðir nærr of lagðan.

Orrostan var hin snarpasta, ok var þat lánga hríð, er ekki mátti yfirsjá, hvern veg hníga mundi,

[1]) sætti, *C.* [2]) á rauða, *B, D, G*; á roða, *C, K, S*; á roðna, *F, L*; í rauða, *H.* [3]) bundust (bundu, *F, L*), skip sundi, *C*; bundust skip fundi, *D, G, H, K, S.* [4]) odda, *hin.*

fèll þá mart af hvârumtveggjum, en þó varð fleira sárt; svâ segir Sighvatr skáld:

Vara svinnhuglum[1] Sveini
sverðagnýrs at frýja,
gjóðs nè gildrar[2] hríðar
gunnreifum Óleifi;
þvíat kvistíngum[3] kostu[4],
komat herr í stað verra,
áttu sín[5], þar er sóttust,
seggir hvârirtveggju.

Jarl hafði ok lið meira, en Ólafr konúngr hafði einvalalið á skipi sínu, þat er honum hafði fylgt lengi í hernaði, ok búit forkunnar vel, sem fyrr var sagt, at hverr maðr hafði hríngabrynju, ok vurðu þeir nærr ekki sárir; svâ segir Sighvatr skáld:

Teitr sá ek [okkr í[6] ítru,
allvalds liði falla,
[þá var[7] harðr[8] um herðar
hjördynr[9], svalar brynjur;
en mín at flug fleina
falsk[10] und hjálm hinn valska,
okkr vissa ek svâ sessi,
svört skör, við her[11] gjörva[12].

En er lið tók at falla á skipum jarls, en sumt var sárt, ok þynntist þá skipan á borðum, þá rèðu

1) sigmána, *B, C, G, H, K, S*; sigmara, *D, F, L.* 2) góðrar, *B, C, F, G, L*; *hèr byrjar J.* 3) kvistíngar, *hin.* 4) köstu, *B, G, H*; kosta, *hin.* 5) svâ, *C, D, F, L.* 6) ört á, *G, H, J.* 7) gerðist, *hin.* 8) hörð, *B.* 9) hjördyns, *B.* 10) falk, *B.* 11) hjör, *H, J.* 12) *vísuna v. í C, D, F, L.*

menn Ólafs konúngs til uppgaungu; var þá komit merki Ólafs konúngs á þat skip, er næst var jarls skipi, en konúngr sjálfr fylgði fram merki sínu; svâ segir Sighvatr skáld:

Staung óð gylt, þar er gengu[1]
göndlar[2]-serks und merkjum
gnýss, með göfgum ræsi,
greiðendr, í böð[3], reiðir;
þeygi var sem þegnum[4]
þengils á jó[5] strengjar,
mjöð, fur málma-kveðjur
mær, heiðsæfum[6], bæri[7].

Þá var snörp orrosta ok fèllu mjök Sveins menn, en sumir ljópu fur borð; svâ segir Sighvatr skáld:

Vèr drifum hvatt[8], [en heyra[9]
hátt vâpnabrak mátti[10],
rönd klufu roðnir brandar,
reiðir [upp á skeiðir[11];
en fur borð þar[12] er börðust,
búin [fengust skip, gengu[13],
nærr[14] flaut ört við eyri
úfár, bændr[15] sárir.

Ok enn kvað hann þetta:

1) gengum, *H*, *S*. 2) gunna, *C*, *G*, *H*, *J*. 3) skip, *hin*. 4) þessir, *B*; þessum, *hin*. 5) jós, *B*. 6) heiðþægum, *B*, *F*, *L*, *S*; heitþægum, *C*; heiðþægnat, *D*; heitdrögum, *G*, *H*, *J*. 7) *vísuna v. í K*. 8) hart, *G*, *H*, *J*. 9) at herja, *C*. 10) knátti, *C*, *D*, *G*, *S*. 11) upp í skeiðar, *B*, *J*, *S*. 12) þeir, *C*. 13) fengu skip drengir, *F*, *L*. 14) nár, *C*, *F*, *S*. 15) á mar, *C*.

Öld vann ossa[1] skjöldu[2],
auðsætt var þat, rauða,
hljóm, þar er hvítir komum,
hríng miðluðum[3] þíngat[4];
þar hykk úngan gram gengu,
gunnsylgs[5], en vèr fylgðum,
blóð[6], fèll[7] sjór[8] þar er sæfðust[9]
sverð, upp í skip, gerðu.

Þá tók at snúa mannfallinu í lið Sveins jarls; sóttu þá konúngsmenn at jarlsskipinu, ok var þá við sjálft, at þeir mundu uppgánga á skipit jarls. En er jarl sá, í hvert óefni komit var, þá hèt hann á frambyggja, at þeir skyldu höggva tengslin ok leysa skipin út; þeir gerðu svâ; þá færðu konúngsmenn stafnljá á skeiðarkylfin ok hèldu þeim; þá mælti jarl, at stafnbúar skyldu höggva af kylfin, ok svâ gerðu þeir; svâ segir Sighvatr skáld:

Sjálfr bað[10] svartar kylfur
Sveinn harðliga skeina,
nærr var áðr í ora[11]
oll-vân[12] róit hânum;
þá er til góðs[13] en gjóða[14]
gjört fengum, hræ svörtum

1) oss á, *B, C, G, J, L, S.* 2) skjöldum, *G, J.* 3) miðlöndum; *B, C, F, K, S*; miðlöngum, *G, J.* 4) híngat, *B.* 5) gunnsilg, *B, C, D, G, J, K, S.* 6) bráð, *C, D, F, L.* 7) fèkk, *hin.* 8) gammr, *C*; svanr, *D, G, H, J*; svart, *K, L.* 9) slæddust, *C, F, K, L, S*; slæfðust, *D, H, J.* 10) bauð, *G, J, L.* 11) ærna, *C.* 12) auðvàn, *C, D, F, G, J, S.* 13) gjóðs, *L.* 14) gjóði, *C, F, G, S*; góði, *L.*

Yggs lèt herr of höggvit[1],
hrafni, skeiðar stafna.

Einarr Þambarskelfir hafði lagit sitt skip á annat borð jarlsskipinu, þá kastaði hann akkeri í jarlsskipit í stafninn fram, ok fluttust svâ allir saman útá fjörðinn; eptir þat flýði allt lið jarls ok reyri út eptir firðinum. Bersi Skáld-Torfuson var í furrúmi á jarlsskipinu; en er skipit jarls seig fram hjá konúngsskipinu, þá mælti Ólafr konúngr hátt, er hann kendi Bersa, þvíat hann var hverjum manni auðkendri: vænn maðr ok búinn allvel at klæðum ok vopnum! farit heilir, Bersi! segir konúngr ok brosti at lítinn þann; hann svarar: verit heilir, konúngr! Svâ segir Bersi í flokki þeim, er hann orti síðan, þá er hann kom á vald Ólafs konúngs ok sat í fjötrum:

Hróðrs[2] bað[3] heilan líða
hagkennanda þenna,
en snarrækinn[4] slíku
[svarat unnu[5] vèr, gunnar;
orð[6] seldum þau[7], elda,
út hauðrs[8] - [boða trauðir[9]
knarrar hapts[10], sem keyptag
kynstórr[11] á vit brynju.

Ok þessa aðra:

---

[1]) höggvinn, *G.* [2]) hlóðr, *B*; hróðr, *K*, *S.* [3]) bar, *C*, battu, *G*, *J*, *S.* [4]) snarræki, *B*, *H*, *S*; svarbræði, *C*; sjá rekkr, *D*; snarlæti, *G*, *J.* [5]) svart unnu, *B*; svaran unn, *C.* [6]) auð, *G*, *J.* [7]) vèr, *G*, *J*, *S.* [8]) ythauðs, *J*; útauðs, *G.* [9]) bjóða rauða, *L.* [10]) happs, *B*, *F*; knapps, *C.* [11]) kynstórs, *B*, *G*, *J*, *K*, *S*

Sveins raunir hefi ek sènar,
snart[1] ræķjandi[2], bjartar[3]
þar er svaltúngur súngu
saman voru[4] við, stórum[5];
elgs mun ek eigi fylgja[6]
útskíðs[7] boða[8] síðan
[heldr at hvâru vildag[9]
hranna dýrra manni[10].

Ok enn:

Krýp[11] eigi svâ, sveigir[12]
sára-linds! í ári[13]
búum ólítinn úti
öndr, þèr til handa[14];
at ek, herstefnir! hafna,
heiðmildr, [nè ek[15] þá leiðumst[16],
úngr kunna ek [þat þraungvir[17]
þín[18], hollvini mína[19].

Sumir menn jarls flýðu á land upp, en sumir gengu til griða, en jarl sjálfr reyri útá fjörðinn ok mestr luti liðsins, ok lögðu þar saman skipin; töluðu höfðíngjar þá milli sín, þvíat jarl leitaði ráða undir lenda menn, hvern upp skal taka; [þá mælti jarl[20], at þeir skyldi sigla norðr í land

1) svart, *D, G.* 2) rekninga, *B, G, J, S*; rækínga, *C, D, F, L.* 3) hjarta, *C, D, F*; hatta, *J.* 4) fóru, *hin.* 5) stórir, *B, D, K, S*; stórar, *hin.* 6) sylgja, *B.* 7) útríðanda, *D*; úthríð, *hin.* 8) *v. í D.* 9) helzt, (hest, *C, D, F, G, J*) á hvârum kosti, *hin.* 10) manna, *C, K, L.* 11) ek, *b. v. B, C, D, F, K, L, S.* 12) síðan, *C, K.* 13) vári, *C, D, F, L.* 14) halda, *S.* 15) eða, *C, D, F, K, L, S*; èr ek, *G*; en ek, *J.* 16) leiðumk, *C.* 17) þá þraungvi, *C, D, F, L, S*; þá þröngar, *G, J.* 18) þinn, *B, D.* 19) minna, *B, D*; *báðar þær síðarstu vís. v. í H.* 20) Erlíngr Skjálgsson rèð þeim, *hin.*

ok fá sèr þar lið, at berjast enn við Ólaf konúng, þegar þeim þætti færi á; en flestir höfðíngjar löttu þess, ok þótti þeim þúngt veitt hafa, svâ gott lið ok mikit sem þeir höfðu haft nú, en höfðu nú látit mikit lið, ok þótti ósýnt, at þeir fengi í annat sinn meira afla, enn svâ nökkvat þar í landi, ok fýstu af því flestir, at jarl færi or landi furst svâ búit ok á fund Svíakonúngs, mágs síns, ok efldist þaðan at liði, ef hann vildi nökkurn styrk veita honum, ok fylgði Einarr Þambarskelfir því at um ráðin, þótti honum þeir engan styrk til hafa at berjast við Ólaf konúng í annat sinn. Sigldi jarl þá suðr yfir Foldina ok með honum Einarr, mágr hans, ok margir aðrir lendir menn, en þeir sem eigi flýðu óðöl sín, fóru norðr til heimila sinna; hafði Erlíngr um sumarit fjölmenni mikit um sik á Sóla.

56. Ólafr konúngr ok hans menn sjá, at jarl hefir samanlagit liðinu ok skipin í annat sinn; þá eggjaði Sigurðr konúngr sýr, at þeir skyldu leggja at jarli, ok láta þá til stáls sverfa með þeim. Ólafr konúngr svarar, segir, at hann vill furst sjá, hvat jarl tekr ráðs, hvârt hann heldr saman liðinu eða skilst þat við hann; Sigurðr kvað hann ráða mundu: en þat er mitt hugboð, segir hann, at við skap þitt ok ráðgirni, at seint tryggvir þú þá at þèr stórbokkana; varð nú ok ekki af atlögunni, sá þeir þá brátt, at lið jarls skildist við hann. Lèt Ólafr konúngr þá ransaka valinn, lágu þeir þar nokkurar nætr, ok skiptu herfángi; þá kvað Sighvatr vísur þessar:

Þess get ek meir, at missi
morðárr, sá er fór[1] norðan,
harða margr, í hörðum,
heimkvâmu styr þeima;
sökk af sundablakki
sunnu[2] mörg[3] til grunna;
satt var, at Sveini mættum
samknúta[4] vèr úti.
Frýrr[5] eigi oss í ári
innþraungs[6], þóat lið minna,
gjört hugða ek svâ snertu[7],
snotr[8] mær, konúngs væri;
brúðr mun heldr af[9] háði
hafa drótt, þá er framsótti,
fold ruðum[10] serks[11], sem[12] skyldi
seggi[13] aðratveggju.
Afli vex, þar[14] er efla
Upplendíngar sendi[15]
svinn[16], finnum[17] þat[18], þenna
þriðja[19] til konúngs[20] vilja;
raun er hins, at heynir
hrælinn[21] megu vinna,

1) kom, *G*, *J*, *S*. 2) sunnum, *D*, *L*, *S*. 3) *eða* morg; margr, *G*, *J*; margt, *S*. 4) sannknúta, *C*, *D*, *F*, *L*, *S*. 5) flýr, *C*, *D*, *F*, *J*. 6) innþrænzk, *hin*. 7) snóta, *B*. 8) snerr, *B*; snótar, *G*, *J*. 9) at, *hin*. 10) ruðu, *C*, *D*, *F*. 11) skers, *B*, *C*, *F*, *G*, *J*; sers, *K*, *S*; skær, *L*. 12) ef, *B*, *G*, *J*, *K*, *S*. 13) skeggi, *C*, *D*, *F*, *G*, *J*, *L*. 14) þat, *B*; þá, *G*, *J*; því, *hin*. 15) sendu, *B*. 16) Sveinn, *B*, *D*; Svein, *C*, *F*, *L*; Sveins, *G*, *J*, *S*. 17) funnut, *hin*. 18) þèr, *F*, *L*; þar, *hin*. 19) þikkblaks, *J*; þvílíka, *L*; þilblaks, *hin*. 20) konúngr, *C*, *G*. 21) hrælins, *C*, *D*, *G*.

þeir[1] áttu[2] flug[3] fleina[4]
[fólk-hrekks[5], enn öl drekka[6].

Ólafr konúngr gaf Sigurði konúngi, mági sínum, at skilnaði góðar gjafar ok svâ öðrum höfðíngjum þeim, er verit höfðu með honum; konúngr gaf Katli af Rínguncsi karfa einn fimtán[7]-sessu, ok flutti Ketill skipit út eptir[8] elfi ok svâ uppí Mjörs. Ólafr konúngr hèlt til njósnum um ferðir jarls; en er hann spurr þat, at jarl var or landi farinn, þá fór hann austr eptir Víkinni, dreif þá lið til hans ok var hann til konúngs tekinn á þíngum, hvar sem hann kom, fór hann svâ allt til Líðandisness; þá spurr hann þat, at Erlíngr Skjálgsson á Sóla hafði liðsamnað mikinn, dvaldist konúngr þá ekki á Norðr-Ögðum, þvíat hann fèkk raðbyri; fór hann þá sem skyndiligast norðr til Þrándheims, þvíat honum þótti þar megin landsins, ef hann fengi þar undir sik spanit, meðan jarl væri íbrottu. En er Ólafr konúngr kom í Þrándheim, þá var þar engi uppreist gjör ímóti honum, ok var hann þar til konúngs tekinn sem annarstaðar, ok settist hann þar um haustit í Niðarósi, ok bjó þar til vetrvistar, ok lèt hann þar húsa konúngsgarð ok setja þar Clemenskirkju í þeim stað, sem nú stendr hún; hann markaði tóptir til garða, ok gaf bóndum eða kaupmönnum, eða þeim öðrum er honum sýndist ok

1) þeim, *J.* 2) æskla, *C, F, L*; æskja, *D.* 3) faus, *C*; fals, *D*; fors, *F, L.* 4) fleiri, *C*; fleira, *D, F.* 5) fjallreks, *G, J*; fjölreks, *D, S.* 6) 2 *seinustu vísurnar v. í H.* 7) 20, *D, H, K.* 8) Raum, *b. v. hin.*

húsa vildu; hann sat þar fjölmennt, þvíat þeir treystu illa Þrændum um trúleik við sik, ef jarl kæmi til, voru berastir at því Innþrændir, at þeir vildu til jarls stunda, ok fekk konúngr þaðan engar skyldir af bóndum.

57. Sveinn jarl fór til Svíþjóðar á fund Ólafs konúngs, mágs síns, ok segir honum allt um skipti þeirra Ólafs konúngs digra, ok leitaði þá ráða af Svíakonúngi, hvern hann skal upptaka. Konúngr segir, at hann skal vera hjá honum, ef hann vill, ok hafa þar ríki slíkt til forráða, sem honum þikkir sæmiligt: en at öðrum kosti, segir hann, skal ek fá þèr góðan liðsafla, at þú megir sækja landit af Ólafi digra; þat kaus jarl, þvíat þess fýstu allir hans menn, þvíat þeir áttu margar stórar eigur í Noregi, er þá voru með jarli; þá sátu þeir yfir þessi ráðagerð um hríð, ok kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldu búast til um vetrinn eptir at fara landveg um Helsíngjaland ok Jámtaland, ok svâ ofan í Þrándheim, þvíat jarl treysti Innþrændum bezt um trúleik við sik ok staðfesti, ef hann kæmi þángat; gjöra nú þat ráð, at fara um sumarit í hernað í Austrveg at fá sèr svâ fjár. Sveinn jarl fór með liði sínu austr í Garðaríki ok herjaði; þar dvaldist hann um sumarit; en er haustaði, snèri hann aptr til Svíþjóðar liðinu, ok þá tók hann sótt þá, er hann leiddi til bana. Eptir andlát Sveins jarls fór hans lið, er honum hafði fylgt, aptr til Svíþjóðar, en sumir snèru til Helsíngja-

lands ok þaðan til Jámtalands, ok svâ austr um Kjöl til Þrándheims, ok sögðu þar þessi tíðendi, er gerzt höfðu í ferð þeirra; varð nú sannspurt andlát Sveins jarls[1] um allan Noreg. Einarr Þambarskelfir ok sú sveit, er honum fylgði, fór furst um vetrinn til Svíakonúngs eptir andlát Sveins jarls, ok voru þar í góðum fagnaði ok yfirlæti, þar var ok mart annarra manna þeirra, er fylgt höfðu Sveini jarli. Svíakonúngi líkaði stórilla til Ólafs digra, er hann hafði sezt í skattland hans, en rekit íbrott Svein jarl, mág hans, hèt hann þarfyrir Ólafi digra hinum mestum afarkostum, þegar hann mætti sèr svâ viðkoma; hann sagði þat jafnan, er um var rædt, at Ólafr digri mundi eigi svâ djarfr vera, at hann mundi taka undir sik þat veldi, er jarlar höfðu átt, en nú kallar Svíakonúngr sína eign þann luta lands, er Sveinn jarl hafði átt, sannaðu þetta margir hans menn með honum, at svâ mundi vera. En er Þrændr spurðu til sanns, at jarl var látinn, ok hans var ekki at vænta, þá snèrist öll alþýða til lýðni við Ólaf konúng; fóru þá margir menn innan or Þrándheimi á fund Ólafs konúngs ok gerðust hans menn, en sumir sendu orð ok jartegnir til, at hans menn vildu vera ok honum þjóna; fór hann þá um haustit inní Þrándheim ok átti þíng við bændr, var hann þá á hverju þíngi til konúngs tekinn; hann fór þá til Niðaróss, ok lèt þángat flytja allar konúngs skyldir, ok efnaði þar til vetrsetu.

---

1) *hèr sleppr J um sinn.*

58. Ólafr konúngr lèt húsa konúngsgarð í Niðarósi, þar var þá ok gjör mikil hirðstofa, ok dyr á báðum endum; hásæti var í miðri stofunni, en innarfrá skamt var hásæti Grímkels biskups, en þar innarfrá sátu kennimenn hans, en utarfrá honum sátu ráðgjafar hans; í öðru öndvegi gegnt honum sat stallari hans, Björn digri, en þarnæst gestir hans, eða ef göfgir menn komu til hans; við elda skyldi þá öl drekka; hann skipaði mönnum þá í þjónostur, sem siðr er konúnga til; hann hafði með sèr 60 hirðmanna ok 30 gesta, ok setti hann þeim mála ok lög, hann hafði ok 30 húskarla, er starfa skyldu í garðinum ok tilflytja slíkt, er þurfti; hann hafði ok þræla. Í garðinum var mikill skáli gjörr, er hirðmenn sváfu í, þar var ok mikil stofa, er konúngr hafði hirðstefnur í ok málstefnur ok sættarstefnur. Þat var siðr hans, at rísa upp[1] um morna ok klæðast ok taka handlaugar, ok gánga síðan til kirkju ok hlýða óttusaung ok morgintíðum, en gánga síðan á stefnur, ok sætta menn sína, ef þess þyrfti við, eða tala þat annat, er honum þótti skylt; hann stefndi til sín ríkum ok fátækum, ok þeim öllum er vitrastir voru; hann lèt upptelja fur sèr lög þau, er Hákon Aðalsteinsfóstri hafði sett í Þrándheimi; hann skipaði síðan lögum með ráði hinna vitrastu manna; lagði hann þará allan hug, at taka af heiðni ok fornar úvenjur, þær er honum þótti kristnispèll

[1]) snemma, *b. v. hin.*

í vera. Svâ kom, at bændr játtu at hafa þau lög, er konúngr setti þeim; svâ segir Sighvatr skáld:

Loptbyggjum[1] mátt leggja
landrètt, þann er skal standast
unnar, allra manna,
ýta[2] liðs, ímiðli.

59. Ólafr konúngr var maðr siðlátr vel, fályndr, örr ok fègjarn, ok þótti bæði gott at þiggja ok veita. Þá var þar með Ólafi konúngi Sighvatr skáld, sem fyrr segir, ok enn fleiri íslenzkir menn. Ólafr konúngr spurr vandliga, hvern veg kristinndómr væri haldinn á Íslandi; ok er hann vissi þat, þá þótti honum mikilla bóta ávant, at vel væri, þvíat þeir sögðu honum þat frá kristnihaldinu, at þat væri lofat á Íslandi at eta ross ok bera út börn, sem heiðnir menn gjörðu, ok enn fleiri lutir, þeir er kristnispèll væri í; þeir sögðu konúngi frá mörgu stórmenni því, er var á Íslandi; Skapti Þóroddsson hafði þá lögsögn á Íslandi. Víða af löndum spurði konúngr at siðum manna þá menn, er gjörla vissu, ok leiddi mest at spurníngum um kristinndóm, hversu haldinn væri, bæði í Orkneyjum ok á Hjaltlandi ok or Færeyjum, ok spurðist honum svâ til, sem víðast mundi mikit á skorta, at vel væri; slíkar ræður hafði hann optast í munni, ok taldi landsrètt eða lagasetníng.

60. Björn hèt maðr ok var kallaðr Hítdæla-

---

1) loptbyggvir, *C*, *F*, *K*, *L*, S; láðbyggvir, *G*. 2) eykja, *hin*.

kappi, hann var hirðmaðr Ólafs konúngs; Björn var harðgjörr maðr ok mikill fur sèr. Þat bar til einu sinni, þá er Björn var með Ólafi konúngi, at hann fór í laug með konúnginum; en sú gjörð var mönnum mjök tíð, at hafa silkibönd utan at hosum, ok vöfðu þar með leggina; nú fór Björn furr or lauginni enn konúngr, en klæði þeirra lágu öll saman, konúngs ok Bjarnar; nú geymir Björn eigi at, ok tók silkiræmu konúngs aðra, ok batt um fót sèr; ok er konúngr kom or lauginni, fann hann, at Björn hafði skipt við hann; Björn bauð aptr at skipta, þegar hann vissi; konúngr segir, at þat skyldi þá hverr hafa, sem fengit hafði. Ólafr konúngr gaf Birni sverð gott, er hann kallaði Mæríng. Björn fór til Íslands, ok eru miklar frásagnir frá skiptum þeirra Þórðar Kolbeinssonar, áðr Björn fèll fur Þórði, þar sem Hvítíngshjalli heitir í Hítardal. Björn var grafinn á Völlum, þvíat þar var þá kirkja, hvíldi Björn þar lengi síðan, þartil er staðr efldist at Húsafelli, var þá upptekin kirkjan á Völlum ok grafinn garðrinn, ok öll bein færð í Hítardal, þau er þar höfðu jörðut verit. Björn hafði í klæðum verit niðrsettr; ok er bein hans voru upptekin, þá var allt hold hans fúit ok öll klæði, svâ at engan stað sá, nema sú ein silkiræma, er Ólafr konúngr hafði átt, hún var heil ok úsökuð, svâ sem hún hefði aldrí í jörð komit; nú sýndist í þessum atburð mikill heilagleikr Ólafs konúngs, at sá einn lutr var

ófúinn í jörðu á beinum Bjarnar, er helgazt hafði af líkama Ólafs konúngs; sú silkiræma var síðan höfð til messufata-linda, ok er nú á þeim bæ, er í Görðum heitir á Akranesi. Nú, svâ margir höfðíngjar ok harðfengir hirðmenn sem konúnginum fylgðu, þá var hann þó sjálfr öllum þeim æðri at öllum lutum. Ólafr konúngr var allra manna vitrastr, ok sá hvert ráð, sem eptir gekk, ef hann lèk í tómi við, en ef hann var bráðum borinn, þá var þat nökkut hætt. Ólafr konúngr virði mikils kirkjur ok kennimenn ok allan kristinndóm, ok gæddi gjöfum góða menn, klæddi hann kalna, en gaf fè föðurlausum, auðræði ekkjum ok útlendum þeim, er fátækir voru, huggaði hann hrygga, en studdi alla ráðvanda menn, bæði í heilræðum ok öðrum tillögum þeim, er þeir þurftu; hann var harðr við hermenn, stríðr við stuldamenn, óþýðr við alla ósiðamenn; hann refsaði rán ok hegndi hart allt þat, er guðs rètti var raskat, en furgaf linliga allt þat, er við hann var misgjört; misjafn orðrómr var á hans ráði, þá er hann lifði í þessum heimi: margir menn kallaðu hann ríklundaðan ok ráðgjarnan, harðráðan ok heiptúðigan, fastan ok fègjarnan, ólman ok óðan, metnaðarmann ok mikillátan, ok þessa heims höfðíngja fur alls sakir; en þeir er gjörr vissu, kallaðu hann linan ok lítillátan, hægan ok huggóðan, mildan ok mjúklyndan, vitran ok vingóðan, tryggvan ok trúlyndan, forsjálan ok fastorðan, gjöflan ok

góðgjarnan, frægan ok fályndan, góðan ok glæpavaran, stjórnsaman ok stiltan vel, geyminn at guðs lögum ok góðra manna, ok hafa þeir rètt sagt, er svâ sögðu; optliga hepti hann sinn vilja, en gjörði guðs vilja, ok leitaði meirr guðs vilja enn sinnar virðíngar at alþýðu ok rèttsýnna manna tilliti.

61. Þann sama vetr komu austan or Svíþjóðu sendimenn Ólafs Svíakonúngs, ok voru bræðr 2 fur þeim, hèt annar Þorgautr skarði, ok (hinn) Ásgautr ármaðr, ok voru þeir saman 24; en er þeir komu austan um Kjöl í Veradal, þá stefndu þeir þíng við bændr ok talaðu við þá, heimtu síðan skatt af hendi Svíakonúngs. En bændr báru ráð sín saman ok talaðust við, ok kom þat ásamt með þeim, at þeir mundu gjalda slíkt, sem Svíakonúngr beiddi, ok heimti Ólafr digri engar skyldir af þeim fur sína hirð, en sögðust eigi vilja gjalda tvennar landsskyldir; ok þetta þótti sendimönnum sannligt; fóru síðan brott ok út eptir dalnum, ok á hverju þíngi, er þeir áttu, fengu þeir af bóndum hin sömu svör, en ekki fè; fóru síðan út á Skön, ok áttu þar þíng ok kröfðu þar enn skatta, ok fór allt á sömu leið sem furr; þá fóru þeir í Stjóradal ok kröfðu þar þínga, en bændr voru þar því stærri enn annarstaðar, at engi vildi tilkoma, ok vildu ekki skvaldr þeirra á sèr; þá sá sendimenninnir, at þeirra erendi varð ekki; vildi Þorgautr þá fara aptr, ok þótti ekki atskapast. Þá mælti Ás-

gautr: ekki þikkir mèr vèr enn rekit hafa konúngs erendi svâ búit, ok vil ek fara á fund Ólafs konúngs digra, er þó skjóta bændr þángat sínu máli. Nú rèð hann, ok fóru þeir út til bæjar ok tóku sèr þar herbergi í bænum; þeir gengu um daginn eptir fur konúng, er hann sat yfir borðum, ok kvöddu hann, ok sögðu at þeir fóru með erendum Svía konúngs. Konúngr bað þá koma um morgininn eptir fur sik. Annann dag eptir, er konúngr hafði hlýdt tíðum, gekk hann til þínghússins, ok lèt þángat kalla menn Svía konúngs ok bað þá bera upp erendi hans. Þá talar Þorgautr ok sagði furst frá því, hverra erenda þeir fóru, ok þat síðan hvern veg þeir hefði tekit Innþrændirnir þeirra erendi; eptir þat beiddi hann konúng veita orskurð, hvert þeirra erendi skyldi verða. Konúngr svarar, er stund leið: meðan er jarlar rèðu hèr fur landi, þá var þat ekki undarligt, at landsmenn væri þeim lyðskyldir, þvíat þeir voru hèr ættbornir til ríkis, ok var þó rèttara at jarlar hefði veitt þeim konúngum lýðni, er rèttbornir voru hèr til ríkis, heldr enn þat at lúta til útlendra konúnga ok hefjast upp með úfriði í móti rèttum konúngum, ok fella þá frá landi, sem þeir gerðu við Ólaf konúng, frænda minn; en ef Ólafr konúngr svænski kallar til Noregs, þá veit ek eigi hverja tiltölu hann hefir hèr til, þá er rèttlig er eðr sannlig, en hitt mætti vèr

muna, hvern mannskaða vèr höfum beðit af honum ok hans frændum. Þá svarar Ásgautr: eigi er undarligt at þú sèr kallaðr Ólafr digri, allstórliga svarar þú erendum þvílíks höfðíngja, en ógjörla veizt þú, hversu þúngbær þèr verðr reiði hans, ok hefir svâ vorðit þeim, er meira krapti hafa stýrt, enn mèr sýnist at þú munir vera; en ef þú vill þráliga halda ríki þessu, þá gef ek þèr þó annat ráð heldr enn deila kappi við Ólaf Svía konúng: far heldr á fund hans með lítillæti ok gerst hans maðr ok honum lyðskyldr, munu vèr þá biðja með þèr, at hann fái þèr land þetta til forráða ok at láni. Þá svarar Ólafr konúngr ok tók hógliga til máls, sem hann var jafnan vanr, þá er honum þótti mjök í móti skapi: ek vil ráða þèr annat ráð, Ásgautr! segir hann, farið nú aptr austr til konúngs yðvars, ok segið honum svâ, at snemma í vâr mun ek búast ok fara austr til landamær-is þess, er at fornu hefir skilit ríki Svía kon-úngs ok Noregs konúngs, má hann þá þar koma, ef hann vill, at vèr gjörim sætt okkra, ok hafi þat ríki hvârr okkarr, sem óðalborinn er til. Þá snúa sendimenn í brott ok furst heim til herbergis, ok bjöggust sem tíðast; en kon-úngr gekk þá til borða; sendimenn gengu þá til konúngs garðs, ok vildu finna konúng, áðr þeir færi; en er durverðir sá þá, sögðu þeir konúngi, hann bað þá ekki sendimenn inn láta, þvíat vèr viljum nú ekki við þá tala; fóru þá

sendimenn í brott; segir Þorgautr at hann mun aptr ok hans menn, en Ásgautr svarar, at hann vill enn reka erendi konúngs síns, sem hann má; þá skiljast þeir bræðr, ferr þá Þorgautr inn á Strönd[1], en Ásgautr ok þeir 12 saman snúa upp til Gaulardals ok svâ út til Orkadals; ætlar hann at fara suðr á Mæri ok reka sýslu Svía konúngs. En er Ólafr konúngr spurr þessi tíðindi, sendi hann gesti sína út eptir þeim, ok fóru ok tóku þá höndum ok bundu ok leiddu þá inn á Gaularás, ok reistu þar gálga ok hengðu þá þar alla, svâ at sjá mátti utan af firði af þjóðleið. Þorgautr spurr þessi tíðindi, áðr hann fór aptr or Þrándheimi, fór hann þá alla leið, þartil er hann fann Svía konúng, ok segir honum þat er gerzt hafði í ferð þeirra. Konúngr varð allreiðr, er hann heyrði þessa sögn, ok skorti þar eigi stór orð.

62. Eptir um vârit bauð Ólafr konúngr liði sínu útor Þrándheimi, ok bjóst at fara austr í land; þá bjóst ok or Þrándheimi Íslandsfar; þá sendi Ólafr konúngr með þeim orð ok jartegnir Hjalta Skeggjasyni, ok stefndi honum til sín; hann sendi ok orð ok jartegnir Skapta lögmanni ok öðrum þeim mönnum, er mest rèðu á Íslandi lögum þeirra; hann sendi þeim til þess orð at taka or lögum þeirra þat, er honum þótti mest kristnispèll í vera; þar með sendi hann ok vingjarnlig orð öllum lands-

[1]) Strind, *hin.*

mönnum jafnsaman. Konúngr fór þá suðr með landi ok dvaldist í hverju fylki, ok þíngaði við bændr; en á hverju þíngi, þá lèt hann lesa upp kristin lög, ok þau boðorð er þar fylgðu, tók hann þegar af við lýðinn margar úvenjur ok heiðindóm, þvíat jarlar höfðu haldit forn lög ok landsrètt, en um kristnihaldit hirðu þeir ekki svâ mjök, ok lètu þat gera hvern eptir því sem vildi, ok sjálfum þótti skapfeldast; var þá svâ komit at flestir menn voru skírðir víðast um sæbygðir, en kristin lög voru mönnum úkunnig, en í dölum upp ok fjallbygðum þá var víða alheiðit með öllu, þvíat þegar er lýðrinn var sjálfráði, þa festist þeim þat helzt í minni um átrúnaðinn, er þeir höfðu í æskunni numit, ok feðr þeirra ok mæðr hefðu þeim kent, en þeir menn sem eigi vildo við skipast orð konúngs um kristnihaldit, þá hèt hann afarkostum bæði ríkum ok úríkum. Ólafr var til konúngs tekinn á hverju þíngi, ok mælti þá engi maðr í móti honum; ok þá er hann lá í Karlssundi[1], fóru menn í milli þeirra Erlíngs[2] Skjálgssonar, báðu menn þá at þeir skyldi sættast, ok var lagðr sáttarfundr með þeim í Hvítíngsey. En er þeir fundust þá töluðu þeir um sætt sína, ok þóttist Erlíngi konúngrinn allt stríðari enn honum var sagt. Erlíngr mælti til þess, at hafa veizlur þær allar, er Ólafr Tryggvason fèkk honum ok síðan jarlarnir,

[1]) Karmsundi *hin.* [2]) *hèr byrjar aptr I.*

Sveinn ok Hákon; ok mun ek þá gjörast þinn maðr ok hollr vin. Ólafr konúngr svarar: svâ lízt mèr, Erlíngr! sem eigi sè þèr verra, at taka af mèr jafnmikit vald, sem þú tókt af Eiríkí jarli, þeim manni sem þèr hafði gert þvílíkan mannskaða sem hann hafði þèr gert; en ek mun þik láta vera göfgastan mann hèr í landi, þóat ek miðla veizlurnar at sjálfræði mínu, en eigi láta, sem þèr lendir menn sèð hèr óðalbornir til ríkis í Noregi eðr ættleifðar minnar, eða ek skyldi margföldu verði kaupa at yðr þjónustu yðra. Erlíngr hafði eigi skaplyndi til at biðja konúng hèr nè einna muna um, þvíat hann sá at konúngr var ekki leiðíngamaðr, ok hann vildi þat eitt hafa, er honum kom í hug, sá hann ok at 2 voru kostir fyrir hendi, sá annar, at gera enga sætt við konúng ok hætta til hvernveg færi, eðr hitt, at láta konúng einn ráða fur. Þá mælti Erlíngr til konúngs: sú mun yðr, herra! mín þjónusta haldkvæmust, er ek legg sjálfráðr fram ok velviljandi, ok öll önnur af hendi. Stóð Erlíngr þá upp ok gekk í brott. Eptir þat gengu til frændr ok vinir Erlíngs, ok báðu hann tilláta við konúng ok færa vit við en eigi ofrkapp, munt þú, sögðu þeir, jafnan vera göfgastr lendra manna í Noregi, bæði at framkvæmdum þínum ok frændum ok fjárafla. Erlíngr fann at þetta var heilræði ok þeim kom góðvili til, er slíkt mæltu, gjörði hann þá ok svâ, at hann gekk til handa konúngi með þeim

skildaga, sem konúngr rèð fur at skilja. Skiljast eptir þat ok voru sáttir at kalla; fór Ólafr konúngr þá leið sína austr.

63. Þegar er Ólafr konúngr kom í Víkina, ok þat spurðist til sanns, þá fóru Danir í brott, þeir er þar höfðu haft sýslur af Dana konúngi, ok sóttu á fund konúngs til Danmerkr sem skjótast, ok vildu eigi dvelja ok eigi bíða Ólafs konúngs. En er Ólafr konúngr fór inn eptir Víkinni sem skjótast, þá átti hann þó þíng við bændr, ok fór þar sem annarstaðar, at allt fólk gekk undir hann, tóku hann þá allir til konúngs; tók Ólafr konúngr þá allar skyldir ok konúngstekjur; dvaldist hann í Víkinni um sumarit. Hann hèlt austr um Foldina ok allt austr um Svínasund, þá tók til ríki Svía konúngs, hafði hann þar sett yfir sýslumann, er Eilífr gauzki hèt, yfir hinn neyrðra lutinn, en Hróa skjálga yfir hinn eystra lut allt til Elfar, hann var ættaðr tveim megin Elfar, en átti bú stór í Hísíng, hann var ríkr maðr ok stórauðigr; Eilífr var ok stórauðigr. Ólafr konúngr kom í Raumaríki liði sínu, ok bað bændr viðtöku þar, sem annarstaðar höfðu menn gert í Noregi. Brynjólfr úlfaldi hèt einn göfugr bóndi, hann stóð upp af bónda hendi, ok talaði svâ: vitu vèr bændr, hvat rèttast er landaskipti meðal Noregs konúngs ok Svía konúngs at fornu, at Gautelfur hefir ráðit frá Væni[1] til sjávar, en Norðrmarkir til Eiðaskógs, en þaðan

[1]) *þannig hin*; Mæri; A.

Skill[1] allt norðr til Finnmerkr; svâ ok þat, at ýmsir hafa gengit á annarra ríki ok hafa hvârir viljat vera öðrum meiri ok ríkari, hafa Svíar haft laungum vald yfir allt til Svínásunds; en þó yðr satt at segja, herra! at ek veit þá marga menn hèr, at betra þætti at þjóna Noregs konúngi enn Svíum, en menn bera þó varla traust til þess, ok mun yðr þat þó þikkja nökkur vorkun, þar er Svía konúngs ríki er frá oss bæði austr ok suðr ok allt fur ofan, en þess[2] vân at þèr munuð brátt fara norðr í land, þar sem landsmegin er meira, ok höfum vèr þá engan afla til at halda deilu við Gauta; nú verðið þèr, herra! at sjá heilt ráð fur oss, en fúsir eru vèr at þjóna yðr ok gerast yðrir menn. En eptir þíngit var Brynjólfr í boði konúngs um kveldit, ok svâ annann dag eptir, ok töluðu þeir konúngr mart í milli sín um marga luti; fór þá konúngr austr eptir Víkinni. En er Eilífr spurr, at hann er þar kominn, þá lèt hann halda til njósnum um ferðir konúngs. Eilífr hafði 30 manna sinna sveitúnga, þeirra er honum fylgðu, hann var nú í [viðrbúníngi ok í mikilli önn[3] uppi við merkrnar, ok hafði þar mannsamnað mikinn. Margir menn komu til Ólafs konúngs, ok margir sendu orð ok vináttumál til hans. Þá fóru menn í milli þeirra Ólafs konúngs ok Eilífs, ok báðu bændr, at þeir legði stefnu með sèr, ok rèði frið sín í milli

---

1) Kilir, *hin*. 2) *hèr byrjár E. aptr.* 3) bygðinni ofanverðri, *K*, *S*.

með nökkuru móti; sögðu svâ Eilífi, at þeim væri þess vân af konúngi, ef ekki væri viðskipast hans orð, at af honum mundi vân stórra afarkosta, en sögðu Eilíf eigi skyldu skorta lið til fundar þessa við konúng. Ólafr konúngr sendi þá Þóri láng, gestahöfðíngja sinn, ok þá sjö[1] saman til Brynjólfs úlfalda, þeir höfðu brynjur undir kuflum en hjálma undir höttum. Eptir um daginn komu bændr fjölmennir ofan með Eilífi, þar var þá Brynjólfr ok hans menn, voru þeir Þórir þar með honum. Konúngr lagði skip sín at utan, þar sem voru klettar nökkurir ok gengu fram í sjó, gekk konúngr þar upp ok settist niðr ok lið hans á klettinn, en völlr slèttr var fur ofan, ok var þar bónda lýðrin; en menn Eilífs stóðu upp í skjaldborg fur honum. Björn stallari stóð upp, ok talaði lángt ok snjalt af konúngs hendi. En er hann settist niðr, þá stóð upp Eilífr ok tók til máls. Í því stóð upp Þórir lángi, ok brá sverði ok hjó til Eilífs á hálsinn, svâ at af tók höfuðit, þá ljóp upp bónda lýðrin, en hinir gauzku höfðu á rás undan, ok drápu þeir Þórir nökkura menn af þeim; en er hinir stöðvaðust, þá stóð Ólafr konúngr upp ok mælti, at bændr skyldu niðrsetjast; þeir gerðu svâ, var þá mart talat, en at lyktum varð þat, at bændr gengu til handa konúngi ok jataðu honum hlýðni, en hann hèt þeim því í móti, at vera þar til þess, er þeir Ólafr Svíakonúngr lyki sínum vand-

[1]) 6, *hin.*

ræðum á einn veg. Eptir þat lagði Ólafr konúngr undir sik alla hina neyrðri sýsluna, ok fór hann allt austr til Elfar ok tók allar landskyldir með sjófum ok um eyjar; en er áleið sumarit, snèri hann aptr í Víkina, ok lagði upp allt eptir Raumelfi til fors þess, er Sarpr hèt; nes gekk norðan at forsinum, þar lèt Ólafr konúngr girða með grjóti um þvert nesit ok með torfi ok viðum, ok grafa díki fur utan ok gera jarðborg mikla; en í borginni lèt hann efna til kaupstaðar, þar lèt hann húsa konúngsgarð ok gera Maríu kirkju, hann lèt þar ok marka tóptir til annarra garða, ok fèkk þar menn til at húsa; hann lèt þángat flytja um haustit öll þau faung, er þurfti til vetrvistar at hafa, ok sat hann þar um vetrinn með fjölmenni, en hafði menn sína í öllum sýslum; hann bannaði allar flutníngar or Víkinni uppá Gautland bæði síld ok salt, en þat máttu Gautar varla nýta[1]; hann hafði jólaboð mikit, bauð hann til sín or hèröðum mörgum stórbóndum. [Svâ segja menn, at þá er Ólafr konúngr var í Víkinni, kom hann á Geirstaði til haugs þess, er getit var furr í sögunni, þá spurr Ólaf einn vinr hans, sá er með honum var þá í för: segðu mèr, segir hann, hvârt þú hefir hèr grafinn verit. Ólafr svarar: aldrí hafði önd mín tvâ líkami ok eigi mun hún hafa, heldr mun hún einn líkama hafa nú, ok þann mun hún hafa á dómsdegi, þá er guð kemr at dæma allt

[1]) án vera, S.

mannkyn. Sá enn sami maðr mælti enn við konúng: þat segja menn, konúngr! at þú hafir svâ mælt furr, er þú komt til þessa staðar, þat vâr er hèr vârum ok hèðan kvâmum. Ólafr konúngr svarar: þat hefir ek eigi mælt ok þat mun ek aldrí mæla, ok ef ek játa annat enn ek mælti áðan, þá er eigi rètt mín trúa, ok þá keyrði hann hest sinn með sporum ok reið í brott. Ólafr konúngr var svâ prúðr, at alla hina beztu menn í landinu gerði hann sína hirðmenn ok sèr handgengna; hann hafði með sèr 2 dýrðliga kennimenn, Grímkel biskup ok Sigurð biskup, þeir voru báðir spekíngar miklir ok vel lærðir, trúfastir ok tryggvir, óhræddir menn ok hraustir í öllum mannraunum, málsnjallir ok mjúklyndir, rèttlátir í dómum síns kennimannsskapar.

64. Maðr er nefndr Eyvindr úrarhorn, ættaðr austan af Ögðum, hann var maðr ættstórr ok drengr góðr, hann var hermaðr mikill ok fór hvert sumar í hernað til ýmissa landa, en stundum í Austrveg eðr suðr til Políslands, hann hafði tuttögsessu ok velskipaða, þat var snekkja; hann hafði verit fyrir Nesjum með Ólafi konúngi, en er þeir skildust þá hèt Ólafr konúngr honum sinni vináttu, en Eyvindr konúngi liðsemd sinni, nærr sem hann vildi kraft hafa. Eyvindr var í jólaboði konúngs um vetrinn, ok þá þar góðar gjafar af konúngi; þá var ok með konúngi Brynjólfr úlfaldi, ok þá at honum í jólagjöf sverð gullbúit ok þar með bæ þann, er Vættaland hèt,

ok er þat hinn mesti höfuðbær. Brynjólfr orti vísu um gjafarnar, ok er þetta niðrlag á:

Bragníngr gaf mèr bæði
brand ok Vættalandit.

Þá gaf konúngr honum ok lends manns rètt, ok var Brynjólfr hinn mesti vin Ólafs konúngs allar stundir síðan. Þann vetr fór Þrándr hvíti or Þrándheimi austr á Jamtaland, at heimta skatt af hendi Ólafs konúngs, ok er hann hafði saman-dregit skattinn, þá koma at þeim menn Svía-konúngs ok drápu þá Þránd 12 saman, en tóku skattinn ok færðu Svía konúngi. Þetta spurði Ólafr konúngr í Noregi, ok líkar stórilla. Ólafr konúngr lèt boða kristni um Víkina ok þau lög er þar til heyra með sama hætti ok norðr í landi; ok gekk þat vel, þvíat Víkverjum voru kristin lög miklu kunnari enn þeim norðr í land, þvíat þar var bæði vetr ok sumar fjölment af kaup-mönnum, bæði Dönum ok Söxum; Víkverjar höfðust ok mjök í kaupferðum til kristinna landa, Englands ok Saxlands, Flæmíngjalands ok Dan-merkr, en sumir voru í víkíng, ok höfðu vetr-setur á kristnum löndum. Um vârit eptir sendi Ólafr konúngr orð Eyvindi úrarhorn at hann skyldi koma til hans; hann gerði svâ at finna þegar konúng. Þeir töluðu lengi einmæli. Eptir þat bjóst Eyvindr at fara í víkíng sem hann átti vanda til, hann sigldi síðan suðr eptir Vík-inni, hann lagði at útfrá Hísíng í Ekreyjum[1],

[1]) Eitreyjum *C*, *E*; Akreyjum, *G*, *J*; Sikreyjum, *K*.

þar spurr hann, at Hrói skjálgi var farinn norðr í Ostro[1], ok hafði þar samandregit leiðángr ok landsskyldir Svíakonúngs, ok var hans þá norðan vân; þá reyri Eyvindr inn til Agðasunda[2], en Hrói reyri þá at norðan, ok hittust þar í sundinu ok börðust þegar, þar fèll Hrói hinn skjálgi ok nær 30 manna með honum, en Eyvindr tók fè allt þat, er þeir Hrói höfðu haft, fór Eyvindr þá í Austrveg, ok var þar í víkíng um sumarit[3].

65. Maðr hèt Guðleikr[4] gerzki, hann var ættaðr af Ögðum í Noregi, hann var auðigr at fè ok farmaðr mikill, hann rak kaupferð til ýmissa landa, hann fór optliga austr í Garðaríki ok var hann fyrir þá sök kallaðr Guðleikr gerzki. Þat vâr bjó Guðleikr skip sitt, ok ætlaði at fara um sumarit austr í Garðaríki. Ólafr konúngr sendi þá orð Guðleiki, at hann vildi hitta hann. En er Guðleikr kom til konúngs, þá segir hann at hann vill leggja fèlag við hann, ok bað hann kaupa sèr dýrgripi þá, er hèr væri torogætir[5] í Noregi. Guðleikr segir, at þat skal á hans valdi vera; þá greiddi konúngr honum í hendr þat fè, sem hann skyldi gripina með kaupa; fór Guðleikr um sumarit í Austrveg, þeir lágu nökkura hríð við Gautland, varð þá sem opt kann verða, at eigi eru allir haldinorðir, ok urðu landsmenn varir þess, at hann

1) Orðost, C, E, G. 2) Augasunda, C, E, L, S; Haugasunda, *hin.* 3) *hèr sleppr E um sinn.* 4) Guðleifr, G, I. 5) torgætir, B.

var fèlagi Ólafs konúngs digra. Guðleikr fór þá ferða sinna, sem hann hafði ætlat, ok keypti hann þar marga góða gripi konúngi ok sèr, bæði pell, er hann ætlaði konúngi til tignarklæða, ok enn önnur ágætari klæði, svâ ok skinn dýr ok ágætan borðbúnað. Um haustit er Guðleikr fór austan, þá fèkk hann andviðri, ok lágu þeir mjök lengi við Eyland. Þorgautr skarði hafði njósnum tilhaldit um ferðir Guðleiks, ef þeir færi austan, ok er þeir lágu við Eyland, þá kom þar Þorgautr at þeim úvörum, ok barðist við þá; þeir Guðleikr vörðust vel ok lengi, en með því at liðsmunr var mikill, enda vurðu þeir ekki viðbúnir, þá fèll þar Guðleikr ok skipverjar hans allir, tók Þorgautr fè hans allt, ok svâ gersimar Ólafs konúngs. Þeir Þorgautr skiptu nú herfángi sínu öllu at jafnaði, en dýrgripina, segir hann, at hafa skal Ólafr Svía konúngr, ok er þat nökkurr lutr af skatti hans þeim, er hann á at taka af Noregi. Þorgautr fór þá austr til Svíþjóðar. Þessi tíðindi spurjast brátt. Eyvindr úrarhorn kom litlu síðarr til Eylands, en er hann spurr þessi tíðindi, þá sigldi hann þegar austr eptir þeim Þorgauti, ok hittust þeir í Svíaskerjum ok börðust þegar, þar fèll Þorgautr skarði ok flest lið hans, en sumt ljóp á kaf, þar tók Eyvindr fè þat allt, er hann tók af Guðleiki gerzka, ok mikit fè annat ok gersimar Ólafs konúngs allar. Fór Eyvindr um haustit aptr til Noregs, færði hann

þá Ólafi konúngi digra gersimar sínar. Ólafr konúngr þakkar honum mikilliga þessa ferð, ok hèt honum þá enn vináttu sinni af nyju; þá hafði Ólafr verit konúngr yfir Noregi 3 vetr.

66. Þat sumar hafði Ólafr konúngr leiðángr úti, ok fór þá allt austr til Elfar, þá fóru orðsendíngar milli Ólafs konúngs ok Rögnvalds jarls ok Íngibjargar Tryggvadóttur, konu jarls, hún gekk at með öllu kappi at veita Ólafi Noregs konúngi, þvíat hún var ákafamaðr mikill um þetta mál, hèlt þar til hvârttveggja, at frændsemi var mikil með þeim Ólafi konúngi ok henni, ok þat annat, at henni fyrndist aldrí fall Ólafs konúngs Tryggvasonar, bróður síns, við Ólaf Svía konúng, ok hún þóttist eiga at ráða fur Noregi, varð jarl af fortölum hennar mjök snúinn til vináttu við Ólaf digra, þó at hann væri hinum Ólafi lyðskyldr; kom svâ at þeir Ólafr konúngr ok jarl lögðu stefni sín í milli ok hittust við Elfvi, ræddu þeir þá marga luti ok mest um skipti þeirra Ólafs Svía konúngs ok Noregs konúngs, sögðu þeir báðir, sem satt var, at hvorumtveggjum, Víkverjum ok Gautum, var hin mesta landeyða í, er eigi skyldi vera kaupferð þar í milli, ok at lyktum settu þeir grið ok frið í milli sín ok sinna manna til annars sumars; gáfust þeir konúngr ok jarl gjafir at skilnaði ok mæltu til vináttu; fór konúngr þá norðr í Víkina, ok hafði þá enn konúngstekjur allar til Elfar, ok allt fólk hafði þá undir

hann gengit. Ólafr Svía konúngr lagði úþokka svâ mikinn til Ólafs konúngs Haraldssonar, at engi maðr skyldi þora at nefna hann rèttu nafni, svâ at konúngr heyrði, hann var þar kallaðr hinn digri maðr, ok voru honum þar veittar stórar átölur, þegar hans var at nökkuru getit.

67. Bændr í Víkinni ræddu sín í milli, at sá einn væri til at konúngar gerði frið ok sætt sín í milli, ok töldust illa viðkomnir, ef konúngarnir herjaði á þá, en engi þeirra þorði þó þenna kurr upp at bera djarfliga; þá báðu þeir Björn stallara at tala þetta mál fur konúngi, at hann sendi menn á fund Svía konúngs ok bjóða honum sætt af sinni hendi. Björn var trauðr til, ok mæltist undan lengi. En við bæn margra vina sinna, þá hèt hann at lyktum at tala þetta mál fur konúngi, en kveðst þó svâ hugr um segja at konúngr mundi þessu þúngliga taka, at hafa nökkur tillæti við Svía konúng. Þetta sumar kom utan af Íslandi Hjalti Skeggjason, at orðsendíngu Ólafs konúngs, fór hann þegar á fund Ólafs konúngs, ok tók hann vel við honum, ok bauð Hjalta með sèr at vera, ok vísaði honum til sætis hjá Birni stallara, ok voru þeir mötunautar, gjörðist þar brátt fèlagskapr góðr. Eitt sinn er konúngr var á stefnu sinni við bændr ok rèð landráðum, þá mælti Björn

stallari: hverja ætlan hafið þèr á, herra konúngr! um úfrið þann, sem er milli yðar ok Svía konúngs, nú hafa hvârirtveggju látit drepa menn fur öðrum lánga tíma, en öngvir vita nú gjörr enn áðr, hvat hvârr ykkarr konúnganna skal eiga at frjálsu; nú hafið þèr setit hèr í Víkinni einn vetr ok 2 sumur, en leggið landit allt at baki yðr norðr hèðan; nu leiðist mönnum hèr at vera þeim, er eignir eðr óðul eiga norðr í landi; nú er því vili bæði lendra manna ok annarra landsmanna ok bónda, at einnhvern veg skeri or. En með því at nú eru sett grið við Rögnvald jarl ok Vestr-Gauta, er hígat eru næstir, þá þætti mönnum þat helzt til, at þèr sendið menn til Svía konúngs ok bjóðið honum sætt af yðvarri hendi, ok munu margir menn vel undir þat standa, þeir sem (með) Svía konúngi eru, þvíat þat er hvârumtveggjum mikit gagn, at sættir verði með Svíum ok yðr. At ræðu Bjarnar gerðu menn góðan róm. Þá mælti konúngr, ok tók seint ok stilliliga til orða: ráð þetta, Björn! er þú hefir hèr uppborit, þá mun þat vera makligast at þú hafir fur þèr gjört, ok skaltu fara þessa sendiför, njót þú þá, ef vel er ráðit, en ef öðruvís er ráðit, þa veldr þú enn miklu um sjálfr, en víst munu sumir menn kalla þat forsendíng, er eigi er háskasamligri enn þessi ferð er, er þat ok þín þjónusta at flytja konúngs erendi ok tala í fjölmenni slíkt, er ek

vil tala láta. Þá stóð konúngr upp ok gekk til kirkju ok let sýngja sèr hámessu, gekk síðan til borða. Um daginn eptir mælti Hjalti til Bjarnar: hví ert þú svâ úkátr, vinr? ertu reiðr manni nökkrum? Björn segir honum þá frá ræðu þeirra konúngs, ok sagði þetta vera hina mestu forsendíng. Hjalti svarar: svâ er konúngum at þjóna, at þeir menn hafa metnað mikinn ok eru virðir framarr enn aðrir menn, en opt verða þeir í lífsháska at vera, ok verðr hvârutveggja vel at kunna. En mikit má konúngs gæfa um slíka luti, enda mun mikill frami fást í ferðinni, ef vel tekst til. Björn mælti: all auðveldliga tekr þú á um ferðina, ok munt þú vilja fara með mèr, þvíat þat mælti konúngr, at ek skyldi kjósa menn með mèr í ferð þessa af mínum sveitúngum. Hjalti svarar: fara skal ek at vísu með þèr, ef þú vill, þvíat vânfenginn mun mèr þikkja sessunautrinn, ef við skiljum.

68. Fám dögum síðarr, þá er Ólafr konúngr var á stefnu, kom þar Björn stallari ok þeir 12 saman, hann segir konúngi at hann er þá búinn at fara sendiförina, ok hestar þeirra stóðu þá úti söðlaðir hjá stofunni. Nú vil ek vita, segir Björn, með hverjum erendum vèr skulum fara, eðr hvert ráð þú leggr fur oss. Konúngr svarar: þèr skuluð bera Svía konúngi þau mín orð, at ek skal frið setja í milli landa

vårra til þeirra takmarka, sem Ólafr konúngr Tryggvason hafði fur mèr, ok sè þat bundit fastmælum, at hvârigir gángi þar um fram, en um mannalát þat, er hvârir hafa beðit fur öðrum, þá þarf þess eigi at geta, ef sættast skal, þvíat Svía konúngr færr oss þat ekki með fè bætt þann mikla mannskaða, er vèr höfum fengit af Svíum. Þá stóð konúngr upp ok gekk út með þeim Birni, hann tók þá sverð búit ok fíngrgull ok fèkk Birni. Konúngr mælti: sverð þetta gef ek þèr, en mèr gaf þat í sumar Rögnvaldr jarl, til hans skuluð þèr furst fara, berið honum þau mín orð, at hann leggi til ráð með þèr ok sinn styrk, at þú komir fram erendum mínum; þikkir mèr þá vel flutt, ef þú heyrir orð Svía konúngs, ok segi hann annathvârt já eðr nei, en fíngrgullit fær þú Rögnvaldi jarli; þessar jartegnir mun hann kenna. Hjalti gekk þá at konúngi ok kvaddi hann ok mælti: þess þurfu vèr mjök, herra! at þèr leggið á ferð þessa yðra hamíngju, ok hittumst heilir! Konúngr spurr hvârt hann ætlaði at fara með Birni. Já, segir hann. Konúngr svarar: vit þú þat víst, Hjalti! at ek skal allan hug á leggja at yðr takist vel til, ok tilleggja at vísu mína hamíngju, ef þat vegr nökkut, ok bæta mun þat þessa ferð, at þú farir, Hjalti! með þeim, þvíat þú hefir opt reyndr verit at hamíngju. Þeir Björn stallari riðu nú leið sína eptir þat, ok er ekki getit um ferð þeirra

furr enn þeir komu til hirðar Rögnvalds jarls, var þeim þar vel fagnat. Björn var frægr maðr ok mörgum kunnigr at sýn ok máli, þeim öllum er sèð höfðu Ólaf konúng, þvíat Björn var því vanr á hverju þíngi at standa upp ok tala konúngs erendi. Íngibjörg, kona jarls, gekk at Hjalta, ok hvarf til hans, þvíat hún kendi hann glöggt, hann var þá með Ólafi konúngi Tryggvasyni, bróður hennar, er hún var heima, ok taldi hún frændsemi við Vilborgu, konu Hjalta, þvíat þeir voru bræðr synir Víkínga-Kára, lends manns í Noregi, Eiríkr bjóðaskalli, faðir Ástríðar, móður Ólafs konúngs Tryggvasonar ok Íngibjargar ok Böðvarr, faðir Ólafar, móður Gizurar hvíta, föður Vilborgar, ok voru þeir Björn þar í góðum fagnaði.

69. Einn dag gengu þeir Björn ok Hjalti at tala við jarl ok Íngibjörgu, þvíat hún var í öllum umráðum með þeim, þá berr Björn upp erendi sín fur þau, ok sýndi þeim jartegnir. Jarl svarar: hvat hefir þik þess hent, Björn! er konúngr vill dauða þinn, er þèr at síðr fært með þessi orðsendíng, at ek hygg at engi muni sá vera, ef þessum orðum mælir fur Svía konúngi, at refsíngarlauss muni í brott komast, ef hann má ráða; miklu er Ólafr Svía konúngr skapstærri, heldr enn fur honum sjálfum megi þèr ræður hafa, er honum sè mjök í móti skapi.

þá svarar Björn: engir lutir hafa þeir tilborit um hagi mína, at konúngr megi mik neins kunna, eðr hann hafi mèr reiðst um, en mörg er sú ráðagerð konúngs fur sèr ok mönnum sínum, at hætta mun á þikkja, hversu tiltekst, þeim mönnum, er allhræddir eru um sik, en öll ráð konúngs hafa til hamíngju snúizt enn hèr til, ok væntu vèr enn at svâ muni fara. Nú er þat yðr at segja, herra jarl! at ek mun fara á fund Svía konúngs, ok eigi furr aptrhverfa, enn ek hefi hann heyra látit öll þau orð, er Ólafr Noregs konúngr mælti við mik, at ek skyldi frambera fur Svía konúngi, nema mèr banni hel, eðr ek sè svâ heptr, at ek mega eigi framkoma ferð minni, mun ek á þat hætta, hvârt sem ek fær af yðr nökkurn styrk eðr engan fur konúngs orðsendíng. Þá mælti Íngibjörg: skjótt mun ek birta mitt skaplyndi, mun þat hèr sannast, sem mælt er til vor kvenna, at vèr lítum jafnan skjótt á þat er tilberi, en af litilli vizku eðr hyggjandi; vil ek, jarl! at þèr leggið allan hug á at koma fram orðsendíng Ólafs konúngs, ok þetta eyrendi gjörist svâ, at Birni getist at, hver svör sem Svía konúngr vill hafa fur sèr; nú þó at þar liggi við reiði Svía konúngs eðr öll eign vor, þá vil ek þó miklu heldr til þess hætta, enn hitt spyrist á önnur lönd, at þú leggist undir höfuð orðsendíng Ólafs konúngs Haraldssonar fur hræðslu sakir við Svía konúng, hefir þú ok burði til þess ok frænda styrk, at vera hèr frjáls

í Svíaveldi, at mæla mál þitt, þat er jafnvel samir sem þetta, ok öllum skal þikkja áheyriligt, hvârt sem til hlýða margir eðr fáir, ríkir eðr fátækir, ok þóat sjálfr konúngr heyri á. Jarl svarar: ekki er þat blindt, hvers þú eggjar, nú má ok vera, at þú ráðir þessu, at ek heita konúngs mönnum því, at fylgja þeim, svâ at þeir nái fyrir því at flytja eyrendi konúngs síns fur Svía konúngi, ef þeir hafa þá djörfung til at bera upp fur honum, hvârt sem konúngi líkar þat þá vel eðr illa, en mínum ráðum vil ek láta framfara, hvert tilstilli hafa skal, en ekki vil ek laupa at ákafa Bjarnar eðr annars manns um svâ mikit vandamál, sem mèr sýnist þetta vera, vil ek at þèr dvelìzt með mèr til þeirrar stundar sem mèr þikkir[1] nökkuru líkast at fram megi komast þetta erendi. En er jarl hafði því upplokit, at hann mundi fylgja þeim at þessu máli ok leggja til þess sinn styrk, þá þakkaði Björn honum vel ok kveðst gjarna vilja hans ráðum framfara. Dvöldust þeir Björn mjök lengi með jarli; var Íngibjörgu forkunnarvel til þeirra; Björn talaði opt fur honum sín erendi, kveðst illa þikkja at dveljast skyldi svâ lengi; þau Hjalti talaðu þetta opt öll saman, ok eitt sinn er þau talaðu þetta, þá mælti Hjalti: ek mun fara til konúngs, ef þèr vilìð, ek er ekki norrænn maðr, ok er ek þar úkunnigr flestum mönnum, megu Svíar

[1]) *hèr byrjar E aptr.*

mèr engar sakir gefa, en ek hefi spurt, at með Svía konúngi eru íslenzkir menn í góðu yfirlæti, kunníngjar mínir, ok eru þat skáld konúngs, Gizur svarti ok Óttarr svarti, mun ek þá forvitnast, hvers ek verða viss af Svía konúngi, hvârt þetta mál mun svâ úvænt horfa, sem nú taka allir á, eðr eru þar enn í nökkur efni önnur, enn nú er hèr sagt; mun ek finna mèr þat til erendis sem mèr sýnist; þetta þótti þeim Birni ok Íngibjörgu vera hit mesta snjallræði, rèðu þau þetta til fasta með sèr. Býr nú Íngibjörg ferð Hjalta, ok fèkk honum 2 menn gauzka til fylgðar, ok bauð þeim svâ, at þeir skyldu honum fylgja ok vera honum aflèttir bæði um þjónustu ok svâ ef hann vildi senda þá; Íngibjörg fèkk þeim til skots silfrs 20 merkr vel vegnar, hún sendi ok orð með honum ok jartegnir til Íngigerðar, dóttur Ólafs Svía konúngs, at hún skyldi allan hug á leggja hans mál, hvers sem hann þyrfti hana at krefja í nauðsyn; ferr Hjalti nú þegar hann er búinn. En er hann kom til Ólafs konúngs, þá fann hann þau skáldin Gizur ok Óttar, ok verða þeir honum fegnir, gengu þegar með honum fur konúnginn, ok sögðu konúngi at þar var sá maðr kominn, er samlendr var við þá ok mestr virðíngamaðr er á voru landi einhverr, þeir báðu konúng taka vel við honum; hann gerði svâ. Skáldin voru opt á tali fur konúnginum ok Hjalti með þeim, þeir voru allir menn máldjarfir; virðist konúngi Hjalti

vitr maðr ok margfróðr, ok talaði laungum við hann, ok spurði hann margs af Íslandi.

70. Þá er Björn fór heiman, beiddi hann Sighvat skáld til farar með sèr, hann var þá með Ólafi konúngi, en til þessarar ferðar voru menn ekki fúsir [at fara, því at flestum þótti hættuferð hin mesta í at fara[1], en þar var vingott með þeim Birni ok Sighvati. Hann kvað þá:

Áðr hefi ek gott við góða
grams stallara alla
átt, þá er orum drottni,
ógndjarfs, fur knè hvarfa;
Björn [átt þú[2] opt at árna
íss[3] fur mèr at vísu,
góðs[4] meguð gott[5] of ráða,
gunnrjóðr! því at vel kunnið.

Sighvatr fór þessa ferð með Birni, en er þeir riðu upp á Gautland, þá kvað Sighvatr vísur þessar:

Kátr var ek opt, þá er úti
örðigt veðr á fjörðum
vísa segl í vási
vindblásin skók[6] innan[7];
hestr óð kafs [á köstu[8],
kilir ristu haf lista;
út þá er eisa lètum
undan skeiðr á sundi.

[1]) *v. i. K. S.* [2]) fáztu *C, D, E, F, G, H.* [3]) is, *hin.* [4]) gjóðs, *F. L.* [5]) gutt, *C.* [6]) skóf, *E, F, L, S.* [7]) strindar, *hin.* [8]) af köstum, *hin.*

Snjalls lètum skip skolla
skjöldúngs við ey tjöldut
fur ágætum[1] úti
öndverdt sumar landi;
en í haust, þá et hestar
hafþorns[2] á mó sporna,
fèkk[3] ýmissar ekkjur
iðit[4], hlýt ek at ríða.

En er þeir riðu upp um Gautland, þá kvað Sighvatr vísu:

Jór renn aptan Skærur[5]
allsvángr götur lángar,
völl kná hófr til hallar
höfum lítinn dag slíta;
nú er þat, er blakkr um bekki
berr mik, Dönum ferri,
fákr laust drengs í díki
dægr mætast nú fæti.

Þá riðu þeir um kaupstaðinn í Skörum[6] ok fram um strætit at garði Rögnvalds jarls; þá kvað Sighvatr vísu:

Út munu ekkjur líta
allsnúðula prúðar,
fljóð sjá reyk, hvar ríðum
Rögnvalds í bý gegnum;
keyrum hvatt[7], svâ at heyri
harða lángt at garði

---

1) ágætu, *hin.* 2) hagþorns, *C, D, G, I.* 3) tæ ek, *B, C, D, E, G, I.* 4) iðnir, *B, C, E, F, H, L;* iðir, *D, K, S;* iðil, *G, I.* 5) Skjæru, *hin.* 6) Skaurum, *A.* 7) hest, *B;* hross, *hin.*

hestarás or húsum,
hugsvinn konan, innan.

71. Einn dag gekk Hjalti enn fur konúnginn ok skáldin með honum, þá tók Hjalti til máls: svâ er, herra konúngr! sem yðr er kunnigt, at ek er hèr kominn[1] á yðvarn fund, ok hefi ek farit lánga leið ok torsótta at því er mèr þikkir, en síðan er ek kom yfir hafit ok ek spurði til yðarrar tignar, þá þótti mèr ófróðligt at fara við þat aptr til míns lands, at eigi hefði ek sèð yðr, svâ mikit sem mèr var af yðr sagt, en þat eru lög milli Íslands ok Noregs, at vèr gjaldum landaura Íslendíngar, er vèr komum til Noregs, en er ek kom yfir hafit, þá tók ek við landaurum allra minna skipverja, en fur því at ek vissi at þat var rètt at þèr hefðið, þvíat þèr eigið þat ríki, er í Noregi er, þá fór ek fur því mest á yðarn fund, at ek vildi færa yðr landaurana; sýndi hann þá konúngi silfrit, ok helti í skikkjuskaut Gizurar svarta 10 merkum silfrs. Konúngr mælti: fáir hafa os slíkt fært or Noregi um hríð, vil ek nú, Hjalti! kunna þèr mikla þökk í fur ok öfúsu, fur þat er þèr hafið svâ mikla stund á lagit at færa oss landaurana heldrenn gjalda úvinum vorum, en nú vil ek at þetta fè þiggir þú af oss at gjöf ok vináttu vâra með. Hjalti þakkaði konúngi mörgum fögrum orðum, ok er þat eigi logit af yðr sem sagt er, at þèr eruð engum konúngi líkir at

[1]) *hèr vanta nokkur blöð í G.*

rausn ok örleik ok allri stórmenzku; þaraf kom Hjalti sèr í hina mestu kærleika við konúng, ok var opt á tali við hann, þótti konúngi, sem var, at Hjalti var vitr maðr ok orðsnjallr. Hjalti segir þeim skáldunum, at hann var sendr með jartegnum til Íngigerðar konúngs dóttur til traustș ok vináttu, ok bað þá koma sèr til tals við hana; þeir sögðu sèr lítit fur því, ok gánga einn dag til húsa hennar, sat hún þar með marga menn ok drakk; hún fagnar vel skáldunum, þvíat henni voru þeir kunnigir. Hjalti bar henni kveðju Íngibjargar, konu Rögnvalds jarls, ok sagði at hún hafi sendt hann þángat til hennar til traustș ok vináttu, ok bar fram jartegnir; konúngsdóttir tók því vel ok kvað honum heimila skyldu sína vináttu; sátu þeir þar lengi dags ok drukku; spurði konúngsdóttir margra tíðinda Hjalta, ok bað hann þar opt koma til tals við sik; hann gerði svâ, kom þar optliga ok talaði við konúngsdóttur, hann sagði henni ok í trúnaði af ferð þeirra Bjarnar ok erendum, ok spurr hvat hún ætlaði, hversu Svía konúngr mundi taka því máli, at sætt væri gjör með konúngunum. Hún svarar, kveðst þat hyggja at þess mundi ekki gera at leita, at faðir hennar sættist við Ólaf digra, sagði hann svâ vorðinn honum reiðan at engi skyldi þora at nefna hann konúng eðr Ólaf, heldr hinn digra mann, ok ekki ræð ek þèr, Hjalti! at þú flytir þetta mál fur feðr mínum.

72. Þat var einn dag at Hjalti gekk fur konúng ok talaði við hann, konúngr var þá allkátr ok drukku mikit, þá mælti hann við Ólaf konúng: allmikla rausn má hèr sjá margskonar, var eigi þess vân at þat mundi logit vera, er frá yðr er flutt um öll lönd, hvar sem yðvar er getit, er mèr nú at sýn vorðit yðart ágæti, er ek hefi áðr spurn til eins, at engi konúngr væri yðr ágætari á öllum Norðrlöndum; allmikill harmr er þat, er menn skulu svâ lángt eiga at sækja híngat ok meinfært, fyrst hafsmegin mikit, en þó eigi friðsamligt at fara um Noreg þeim mönnum, er hígat vilja með vináttu sækja á yðvarn fund, eðr hvârt leita menn ekki um sættir með yðr Ólafi digra? mjök var þat rædt í Noregi ok svâ í Vestra-Gautlandi, at allir mundu þess búnir vera, at friðr vyrði á milli landanna, ok þat var mèr sagt með sannindum frá orðum Ólafs konúngs Haraldssonar, at hann vildi sættast, ok er þat rètt at vânum, þvíat hann mun slíkt sjá kunna, at hann hefir miklu minna styrk undir sèr enn þèr hafið, ok því mun hann ekki meiga bera reiði yðra, er hann ok svâ vitr maðr at hann mun slíkt seá kunna; svâ var ok þat rædt at hann ætlaði at biðja Íngigerðar, dóttur yðvarar, heyrði ek ok slíkt talat, at þat væri líkast til heilla sátta, þvíat hann er hinn mesti merkismaðr, at því er flestir tala um. Þá svarar konúngr: hætt þú, hætt þú, Hjalti! segir hann, ekki skaltu þess hins digra manns geta

fur mèr, eðr kalla hann konúng í minni hirð, eru til hans, ok miklu minni ráða skot enn margir láta yfir, ok mun þèr svâ þikkja, ef ek segi þèr gjörla frá, ok eigi mun þèr, Hjalti! sú mægð þikkja maklig þeim hinum digra manni, þvíat ek er nú hinn 10di konúngr á Uppsölum, svâ at hverr hefir eptir annann tekit konúngdóm vârra frænda, ok verit einvaldskonúngr yfir öllu Svíaveldi ok yfir mörgum öðrum stórlöndum, ok verit allir yfirkonúngar annarra konúnga á Norðrlöndum, en í Noregi er lítil bygð ok þó sundrlaus, en fólk fátækt; hafa ok margir þar smá konúngar verit; var Haraldr konúngr hárfagri mestr konúngr í því landi, ok átti hann skipti við fylkiskonúnga ok braut þá undir sik, kunni hann sèr þá þann fagnað[1], at girnast ekki á Svía konúngs veldi, lètu Svía konúngar hann því sitja í friði, ok enn bar þat til, at þar var frændsemi mikil þeirra í milli; en þá er Hákon Aðalsteinsfóstri rèð Noregi, sat hann í friði, þar til er hann herjaði í Gautland ok í Danmerk, en síðan var efldr flokkr í móti honum ok var hann feldr frá landi; Gunnhildar synir voru ok af lífi teknir, þegar þeir gerðust úhlýðnir Dana konúngi, lagði þá Haraldr Gormsson undir sik Noregs ríki ok skattgildi, ok þótti oss þó Haraldr Gormsson miklu minni fur sèr enn Uppsala konúngar, þvíat Styrbjörn frændi minn kúgaði hann, ok gerðist Haraldr hans maðr ok honum

[1]) farnat, *J; hèr sleppr C um sinn.*

skattgildr, en Eiríkr konúngr hinn sigrsæli, faðir minn, steig þó yfir höfuð Styrbirni, þá er þeir reyndu sín í millum; ok er Ólafr Tryggvason kom til Noregs, ok kallaðist konúngr, þá lètu vèr honum þat eigi hlýða, fóru vèr Sveinn konúngr til ok tókum hann frá ríki, nú hefi ek eignast Noreg síðan, ok eigi með minna ríki enn nú mátt þú heyra, ok eigi verr at komizt enn svâ, at ek sótta hann með orrostu ok sigraðak konúng þann sem áðr rèð fur; nú mátt þú ætla at þat mun fara fjarri, at ek láta laust þat ríki fur þeim hinum digra manni, ok er þat undarligt, er hann man eigi þat, er hann komst nauðuligast út or Leginum, þá er vèr Svíar höfðum hann inni burgt í Leginum, hygg ek at honum væri þá annat í hug, ef hann kæmist með fjörvi í braut, enn þat at deila kappi við oss; nú skaltu, Hjalti! eigi hafa optarr í munni þessar ræður fur mèr. Hjalta þótti þá úvænt áhorfast, at konúngr mundi vilja tillýða sátta umleitan; hann hætti þá þessu tali ok tók aðra ræðu. Nökkuru síðarr var hann á tali við Íngigerði konúngs dóttur, hann segir henni þá ræðu þeirra konúngs, hún kvað sèr slíkra svara vân af honum, hann bað hana leggja til nökkur orð við konúng, ok sagði þat helzt tjá mundu. Hún kvað konúng ekki mundu áhlýða, hvat sem hún mælti, en um má ek ræða, segir hún, ef þú vill. Hjalti kvaðst þess þökk kunna. Íngigerðr konúngsdóttir var á tali við föður sinn einn dag,

en er hún fann, at konúngi var skaplètt, mælti hún: hverja ætlan hafið þèr á, faðir! um deilu ykkra Ólafs digra, margir menn kæra þat vandræði, kallast sumir hafa látit fè, sumir frændr fyrir Noregs mönnum, en allir vârir menn friðlandit, ok engum yðrum manni kvæmt í Noregi at svâ búnu, var þat ok mjök at ósynju, er þèr kallaðuð til ríkis í Noregi, er land þat fátækt ok íllt yfirfarar, en fólk ótrútt, vilja menn raunar þar í landi hvern konúng annann yfir sèr heldrenn yðr; nú ef ek skyldi ráða, mundir þú láta kyrt at kalla til Noregs, en brjótast heldr í Austrveg til ríkis þess, er höfðu hinir furri Svía konúngar, ok nú enn fur litlu lagði undir sik Styrbjörn, frændi vârr, en sættast heldr við Ólaf digra ok láta hann ná frændleifð sinni. Konúngr svarar með mikilli reiði: þat er þitt ráð, Íngigerðr! at ek láta af ríki í Noregi ok gipta þik Ólafi digra; nei, segir hann, annat skal furr, heldr skal hitt í vetr á Uppsalaþíngi, at ek skal þat bert gera fur öllum Svíum, at almenníngr skal úti at liði ok skipum, þegar ísa leysir af vötnum, skal ek fara í Noreg ok eyða land þat með oddi ok eggju, ok brenna allt ok bæla, ok gjalda þeim svâ ótrúleik sinn; var þá konúngr svâ æfr ok ærr, at hún mátti þá engu orði svara, gekk hún þá í brott. Hjalti hèlt þá vörð á, er hún gekk í brott ok þau skildu talit, gekk hann þegar at finna hana, spurr hann þá, hvert erendi hennar varð til konúngs. Hún segir, at svâ fór sem

hana varði, at öngum orðum mátti við hann koma, ok hann heitaðist í mót, ok bað hún hann aldrí geta þessa máls optarr fyrir konúngi, ok segir honum eigi ella endast mundu. Íngigerðr ok Hjalti talaðu þetta mál opt sín í milli ok ræddu um Ólaf digra, sagði hann henni opt frá honum ok hans háttum, ok lofaði sem hann kunni, ok var þat þó sannast af at segja; hún lèt sèr þat allt vel skiljast. Ok enn eitt sinn er þau talaðu, mælti Hjalti: hvârt skal ek í orlofi tala, konúngsdóttir! þat sem mèr er í hug. Hún svarar: mæl þú svâ, at ek heyra ein. Þá mælti hann: hvern veg mundir þú svara, ef Ólafr konúngr Haraldsson sendi menn til þín þeirra eyrenda at biðja þín. Hún roðnaði á at sjá, ok mælti stilliliga: ek hefir ekki hugfest, Hjalti! svör fur mèr um þetta mál, þvíat ek ætla at ek muna eigi þurfa til at taka þeirra svara; en ef Ólafr er svâ ágætr um alla luti, sem þú segir frá honum, þá mundi ek eigi kunna at æskja annann veg minn mann, ef eigi er þat, Hjalti! at þú hafir heldr hóli gildt í marga staði. Hjalti svarar, at engan lut hafi hann betr látit um konúng enn efni voru til; þau áttu þetta tal optliga sín í milli. Íngigerðr bað hann varast at tala þetta mál fur öðrum mönnum, þvíat konúngr mun verða okkr reiðr, ef hann veit slíkar ræður. Hjalti segir skáldunum Óttari ok Gizuri; þeir segja þetta verá hit mesta happa ráð, ef framkvæmt mætti verða. Óttarr var maðr máldjarfr við

höfðíngja, kemr hann brátt at þessu máli við konúngs dóttur, tala þau optliga þetta sín í milli öllsaman, ok talaði Óttarr slíkt hit sama fur henni sem Hjalti um mannkosti Ólafs konúngs. En er Hjalti var sannfróðr vorðinn um erendislok sín, þá sendi hann aptr hina gauzku menn, er honum höfðu þángat fylgt, ok lèt þá fara aptr með sínum erendum ok Íngigerðar konúngsdóttur; Hjalti lèt ok koma veðr á þau jarl ok Íngibjörgu um þær ræður, er hann hafi uppi haft við Íngigerði, ok svâ um svör hennar um bónorðit hver voru; komu sendimenn til jarls nökkuru fyrir jól.

73. Þá er Ólafr konúngr Haraldsson hafði sendt þá Björn á Gautland, þá sendi hann ok aðra menn til Upplanda með þeim erendum at boða upp veizlur fur sèr, ok ætlar hann þann vetr at fara at veizlum um Upplönd, þvíat þat hafði verit siðvenja hinna furri konúnga at fara at veizlum um Upplönd hinn 3ja hvern vetr; hóf hann þá ferðina um haustit, fór furst um Víngulmerk, hvataði hann þá ferðinni, hann tók veizlu í nánd markbygðum, ok stefndi þá til sín öllum bygðarmönnum ok þeim öllum vandligast, er first bygðu megin hèruðum; hann ransakaði þá um kristnihaldit ok þar er honum þótti ábótavant, þá kendi hann þeim rètta trú ok kristni, ok lagði svâ ríkt við, ef nökkurir væri, þeir er eigi vildi viðskiljast ok láta af heiðninni, at suma rak

hann á brott or landi, suma lèt hann höggva eðr hengja, en engan lèt hann úhegndan þann, er eigi vildi guði þjóna, fór hann svâ um allt þat ríki ok fylki; jafnt hegndi hann ríka sem úríka, hann fèkk þeim kennimenn ok setti þá svâ þykt, sem honum þótti bezt sama; hann hafði 3 hundruð vígra manna, þá er hann fór uppí Raumaríki, hann fann þat brátt á, at því minna var kristnihaldit, sem hann sótti meirr á landit upp, hann hèlt þó hinu sama fram ok snèri öllum lýð á rètta trú, en veitti stórar refsíngar þeim, er eigi vildu lýða hans orðum. En er þetta spurr konúngr sá, er rèð fur Raumaríki, þá þótti honum gerast mikit vandkvæði í þessu er ágnúði, þvíat hvern dag komu menn til hans ok margir vinir hans, er þetta kærðu, sumir ríkir en sumir úríkir. Konúngr tók þá þat ráð, at hann fór uppá Heiðmörk á fund Hræreks konúngs, þvíat hann var þar vitrastr konúngr, en er konúngarnir tóku tal sín í milli, þá kom þat ásamt með þeim at senda orð Guðröði konúngi norðr í Dala, ok svâ á Haðaland til þess konúngs, er þar var, ok biðja þá koma á Heiðmerk til fundar við þá Hrærek konúng. Konúngarnir lögðust þessa ferð eigi undir höfuð, ok hittust þessir 5 konúngar á Heiðmerk, þar sem heitir á Ríngisakri[1]; Ríngr var þar hinn 5ti konúngr, bróðir Hræreks konúngs. Þeir konúngarnir gengu nú á eintal

[1]) Hríngsakri, *D*, *E*, *J*.

allir samt; tók sá furst til orða, er kominn var af Raumaríki, ok segir þeim frá yfirferð Ólafs digra ok þeim úfriði, er hann gjörði bæði í manna aftökum ok manna meiðslum, suma rekr hann or landi en suma meiðir hann, en tekr upp fè fur öllum þeim, er nökkut mæla í móti honum, en hann ferr með of manns yfir landit, en ekki eptir því sem lög vor standa til, hann kveðst ok fur þeim ófriði hafa flýit þángat, ok marga ríka menn aðra, segir hann, þenna úfrið flýit hafa bæði eignir ok óðöl af Raumaríki, en þóat nú sè þetta vandræði mèr næst, þá mun þó eigi lángt til, at þèr munuð undir slíku áfelli eiga at standa, ok er fur því vænst, at vèr ráðim um allir samt, hvert ráð nú skal taka. En er hann lauk sinni ræðu, þá viku konúngarnir allir til svara Hræreks konúngs, þvíat hann var þeirra vitrastr. Hann tók til máls: nú er þat framkomit, sem mik grunaði at verða mundi, þá er vèr áttum stefnu á Haðalandi, ok þèr voruð allir ákafastir, at vèr skyldum Ólaf hefja upp yfir oss, ok þèr vilduð ekki annat heyra, en mèr kom þá þetta sama í hug, at oss mundi hann verða harðr í horn at taka, þegar hann vyrði einvaldi yfir landi. Nú sýnist mèr 2 kostir fur höndum, sá annarr, at vèr farim allir á fund Ólafs konúngs ok látim hann einn ráða, ok skapa ok skera allt vâr í millum, ok ætla ek yðr sá þikkja harðr, en þó hygg ek oss þann beztan af at taka; en sá er annarr, at rísa nú í móti,

meðan hann hefir eigi víðara yfir landit farit; en þóat hann hafi 3 hundruð manna eðr 4 hundruð, þá er þat ekki ofrefli við at eiga, ef vèr erum allir at einu ráði, en optast sigrast þeim verr, er fleiri eru ok allir jafnríkir, heldrenn hinum, er einn er oddviti fur liðinu, ok sannast þat hit fornkveðna, at sitt ráð tekr hverr, er í svörfinn ferr; nú ferr þat svâ optast, þegar allir eru jafnríkir, ok skal engi ríkari eðr einn foríngi heldrenn annarr, at þá tekr hverr sitt ráð, er í kreppíngar kemr ok at sverfr, en hirðir þá ekki um hvat hverigum hentir eðr til ráðs liggr, ok er þat heldr mitt ráð, at hætta eigi til at etja hamíngju við Ólaf konúng Haraldsson. En eptir þat þá talaði hverr þeirra konúnganna slíkt er sýndist, löttu sumir uppreistar, en sumir fýstu, ok varð engi órskurðr ráðinn, töldu þeir á hvârntveggja sína andmarka. Þá tók til orða Guðbrandr[1] Dala konúngr ok mælti svâ: undarligt þikkir mèr, er þèr vefið svâ mjök þetta mál fur yðr, ok eruð þèr þegar vorðnir gagn hræddir við Ólaf þenna, nú veittu vèr honum styrk at berjast við Svein jarl fur Nesjum, ok hefir hann með vorum afla eignast land þetta, nú ef hann vill furmuna hverjum vorum þess hins litla ríkis, er vèr höfum nú haft um hríð, ok veita oss pyndíngar ok kúgan, þá kann ek þat frá mèr at segja, at ek vil færast undan þrælkan konúngs, ok kalla

[1]) Guðröðr, *D*, *E*, *F*, *H*, J.

ek þann yðarn ekki at manni vera, er nökkut æðrast um þetta, at vèr takim Ólaf þenna af lífi, ef hann ferr hígat í hendr oss uppá Heiðmerk, fur því at þat er yðr satt at segja, at aldrí strjúkum vèr frjálst höfuð, meðan Ólafr þessi lifir. Ok eptir eggjun þessa snúast þeir allir at einu ráði. Þá mælti Hrærekr: svâ lízt mèr á ráðagerð þessa, er nú er helzt staðráðin með oss, at vèr munum þurfa at gera ramligt samband, ef hlýða skal, at engi skjöplist í einurðinni við annann, þar sem vèr erum í framkomnir vandan áðr; nú ætlið þèr þat þá, er Ólafr konúngr kemr hígat á Heiðmerk, at veita honum atgaungu í ákveðnum stað, þá vil ek ei þann trúnað undir yðr eiga, at þèr sèð þá sumir norðr í Dölum, en sumir[1] út á Heiðmerk, vil ek, ef þetta skal framfara ok staðfestast með oss, at vèr sèim allir samt nótt ok dag, þartil er þetta ráð verðr framgengt, ef auðna fellr til. Þessu játa þeir, ok fara nú allir samt; þeir láta nú boða upp veizlur fur sèr á Ríngisakri, ok drekka þar hvirfíng, ok gera njósnir frá sèr út á Raumaríki, svâ at þeir vita dag ok nótt um ferðir Ólafs konúngs ok um fjölmenni hans, láta þegar aðra njósnarmenn út fara, er aðrir fara aptr. Ólafr konúngr fór nú utan um Raumaríki, sem hann hafði ætlat, at veizlum, ok aptr með þvílíkum hætti, sem furr var sagt. En er veizlunnar endust eigi, eptir því sem ákveðit var, fur fjölmennis sakir þess er hann hafði, þá

[1] *hèr byrjar C aptr.*

lèt hann þá þar til leggja, at auka veizlunnar sem búin voru, þvíat honum þótti nauðsyn til bera at dveljast ok bæta um siðu manna, en sumstaðar dvaldist hann skemmr enn ætlat var, ok verðr ferðin hans skjótari enn ætlat var upp til vatnsins. En er konúngarnir höfðu þetta ráð fest með sèr, þá sendu þeir orð ok stefndu til sín lendum mönnum ok ríkum bóndum or öllum þeim fylkjum, er þeir áttu vald yfir; en er þeir komu þar, er orð voru send, þá eiga konúngarnir stefnu við þá eina saman, ok gera bert fyrir þeim sína ráðagerð, ok kveða á stefnudag, nærr þessi ætlan skal framkoma; á þat kveða þeir ok, at hverr þeirra konúnganna skal hafa 4 hundruð[1] manna; sendu nú aptr hina lendu menn, til þess at samna liði, sem ákveðit var, ok koma síðan til móts við þá konúngana at ákveðnum tíma í nefndan stað. Sjá ráðagjörð líkaði flestum vel, en þó var hèr enn, sem mælt er, at hverr á sèr vin með úvinum. Á þessari stefnu var Ketill af Rínguunesi, en er hann kom heim af stefnunni um kveldit, þá mataðist hann, síðan klæddist hann ok húskarlar hans, ok fóru ofan til vatnsins, tók þar karfann er Ólafr konúngr gaf honum, settu fram skipit, ok var þar í naustinu allr reiði skipsins, skipaðust síðan til ára ok róa út eptir vatninu; Ketill hafði 40 manna allvel búna at vopnum ok klæðum. Ketill kom þar er

[1]) 3 hundruð, *hin.*

Ólafr konúngr var á veizlu, þá er hann gekk frá óttusöng, hann gekk fur konúng ok kvaddi hann; konúngr tók honum vel; Ketill segir, at hann vill tala við hann skjótt, þeir gánga báðir samt á tal 2 einir saman, þá segir Ketill, hvert ráð þeir hafa í millum handa konúngarnir ok alla tilætlan þeirra, er hann var viss vorðinn. En er konúngr var þessa viss, þá kallar hann menn sína til sín, sendir hann suma í bygðina, ok biðr hann stefna til hans reiðskjótum þeim er fengist, suma sendi hann upp til vatnsins, at taka róðrar skip þau er þeir fengi, ok hafa í móti konúngi; en hann gekk þá til kirkju ok lèt sýngja sèr messu, gekk síðan til borða; en er hann var mettr, bjóst hann sem skyndiligast, ok fór til vatnsins upp, komu þar menn hans í móti honum með skipum, steig hann sjálfr á karfann með Katli ok svâ mart manna með honum, sem hann tók upp, enn hverr annarra fèkk sèr þar far, sem helzt gat, ok um kveldit er áleið lètu þeir frá landi, logn var á veðrs; þeir rèru um nóttina upp eptir vatninu, konúngr hafði nær 3 hundruð[1] manna. Fyrr enn dagaði kom hann upp til Ríngisakrs, vurðu varðmenn eigi furr varir við, enn liðit kom upp til bæjar. Þeir Ketill ok hans menn vissu glöggt í hverjum herbergjum konúngarnir sváfu, þar sem þeir höfðu þaðan farit áðr annat kveldit, lèt konúngr þá taka öll þau herbergi, svâ at engi maðr

[1]) 4 hundruð, *C*, *E*.

kvæmist þaðan á brott, ok biðu svâ lýsíngar. Konúngarnir höfðu engan liðskost til varnar, ok voru þeir allir handteknir ok leiddir svâ fur Ólaf konúng, þvíat hann bannaði at bera vâpn á þá. Hrærekr þótti maðr forvitri ok harðráðr, þótti Ólafi konúngi hann vera ótrúligr, þótt hann gerði nökkura sætt við hann, því lèt hann blinda Hrærek báðum augum, ok hafði hann með sèr síðan, en hann lèt skera túngu or Guðrauði Dala konúngi, en Hríng ok 2 aðra lèt hann sverja sèr eiða, at þeir skyldu fara í brott or Noregi ok koma aldrí aptr síðan, en lenda menn ok bændr, þá er sannir voru at þessum svikum, rak hann suma or landi, suma lèt hann meiða at höndum eðr fótum, af sumum tók hann sættir; frá þessu segir Óttarr svarti[1]:

Lýtandi[2] hefir ljótum[3]
landráðandum branda
um stillíngar allar
ifla folds[4] um goldit;
hafa lèzt þú heiðskra[5] jöfra
herskorðandi forðum
mundángs laun, þá er meinum,
mætr gramr! um[6] þik sættu[7]
Braut hafið, böðvar þreytir
branda rjóðr, or landi,
meirr fannst þinn enn þeirra

1) Sighvatr skáld, *H, J.* 2) *hèr sleppr E um sinn.* 3) ljótir, *B, D, J, K, S*; ljótan, *hin.* 4) fold, *C, F, L.* 5) heimska, *B, D, F, L*; hætzka, *J, S.* 6) við, *hin.* 7) *vísuna v. í H.*

þrekr, döglínga rekna;
stökk, sem þjóð of þekti,
þèr hverr konúngr ferri,
heptuð jer énn eptir
orðreyr þess er sat norðast.
Nú ræðr þú fur þeirri,
þik remmir guð miklu,
fold, er forðum hèldu
fimm bragníngar, gagni;
[breldr er[1] austr til Eiða
[ættland und sik randa[2],
aungr sat elda slöngvir[3]
áðr at slíku láði[4].

Ólafr konúngr lagði þá undir sik allt þat ríki, er þessir 5 konúngar höfðu átt, tók hann þá gislar af lendum mönnum ok bóndum, hann tók veizlur ok gjöld norðan or Dölum ok víða um Heiðmerk, ok snýr þaðan útá Raumaríki ok þaðan vestr á Haðaland. Þann vetr andaðist Sigurðr konúngr sýr, mágr Ólafs konúngs, á Ríngaríki, ok gerði Ásta, móðir hans, veizlu mikla í móti honum; þá bar Ólafr konúngr einn konúngsnafn í Noregi öllum.

74. Svâ er sagt þá er Ólafr konúngr var á veizlu með Ástu, móður sinni, at hún leiddi fram börn sín fur hann ok sýndi honum; konúngrinn setti á knè sèr Guthorm, bróður sinn, en á annat knè sèr Hálfdán bróður sinn, konúngr

[1]) breið eru, *hin.* [2]) ættlönd und þèr (viðr þik, *J*) göndlar, *hin.* [3]) þraungvir, *B*, *D*, *F*, *J*, *L*, *S.* [4]) ráði, *C.*

sá á sveinana um hríð, þá ýglist hann ok leit reiðuliga til þeirra; þá glúpnaðu sveinarnir, síðan fóru þeir í brott, þá leiðir Ásta til hans hinn ýngsta son sinn, er Haraldr hèt, hann var þá þrèvetr, konúngr setti hann þá á knè sèr ok ýgldist á hann, en Haraldr sá á hann, upp í móti honum, ok starði á konúnginn, þá tók konúngr í hár sveininum ok kipti stundar hart, sveinninn tók þá í kamp konúnginum ok hnykti sem hann mátti. Þá mælti konúngr: hefnisamr munt þú síðarr, frændi! Annann dag reikaði konúngr úti um bæinn ok Ásta móðir hans með honum, þá gengu þau at tjörn einnihverri, þar voru þá sveinarnir, synir Ástu, Guthormr ok Hálfdán, ok lèku sèr, þar voru gjörvir bæir ok kornlöður, naut mörg ok sauðir, þat voru leikr þeirra sveinanna, sem jafnan er tídt úngmennum; skamt þaðan við tjörnina var Haraldr einnsaman hjá leiruvík nökkurri, hann hafði þar trèspánu marga, ok flutu þeir þar við landit. Konúngr spurr, hvat þat skyldi; Haraldr kvað þat skyldu vera skip sín. Konúngr hló ok mælti: vera kann þat, frændi! at þar komi þinnar æfi, at þú ráðir fur skipum. Þá kallaði konúngr þángat Guthorm ok Hálfdán, hann spurr þá Guthorm: hvat vildir þú flest eiga, frændi? Akra, segir hann. Konúngr mælti: hversu víða akra vildir þú eiga? Hann svarar: þat vildi ek at nes þetta væri sáð hvert sumar, er hèr gengr útí vatnit, en þar stóðu tíu bæir í nesinu. Kon-

úngr mælti: víst væri þat mikill akr. Þá spurr hann Hálfdán, hvat hann vildi flest eiga? Kýr, segir hann; hversu margar vildir þú þær eiga? segir konúngr; Halfdán mælti: þá er þær færi til vatns, skyldu þær sem þykkvast standa mega umhverfis vatnit. Konúngr svarar: bú stór vildið þið eiga, er þat ok líkt feðr yðrum, væri ok takanda þeirri sátt, at þið vyrðið þvílíkir menn, sem hann var. Þá spurr konúngr Harald: hvat vildir þú flest eiga? Húskarla, segir hann. Konúngr mælti: hversu marga vildir þú eiga húskarla? Hann svarar: þat vilda ek at þeir væri svâ nökkuru margir, at þeir æti at einu máli kýr Halfdánar, bróður míns. Þá hló konúngr ok mælti til Ástu, móður sinnar: hèr muntu konúng uppfæða, móðir! segir hann; eigi var þá getit fleiri orða þeirra.

75. Í Svíþjóð var þat forn lands siðr, meðan heiðni var, at höfuðblót skyldi vera at Uppsölum at gói vetrar, skyldi þá blóta til árs ok friðar ok sigrs konúngi sínum, ok skyldu menn þángat sækja um allt Svíaveldi, skyldi þar vera þíng allra Svía, þar var þá ok markaðr ok kaupstefna, ok stóð viku markaðrinn; en nú síðan kristni var alsiða, en konúngarnir afræktust at sitja at Uppsölum, þá var færðr markaðrinn ok hafðr kyndilmessu, ok hefir þat haldizt síðan, er nú hafðr eigi lengri enn stendr 3 daga, ok er þar þá þíng Svía, ok sækja þeir þá þángat um allt landit. Svíaveldi liggr í mörgum lutum, einn lutr

Svíþjóðar er Vestra-Gautland ok Vermaland ok Markland ok þat er þar liggr til, ok er þat svâ mikit ríki, at undir þann biskupsstól, er þar er, eru 12[1] hundruð kirkna; annarr luti lands er Eystraland[2], þeim biskupsdómi fylgir Gautland ok Eyland, ok er þat allt saman miklu meira biskupsveldi. Í Svíþjóð sjálfri er einn luti lands, er Suðrmannaland heitir, þat er einn biskupsdómr; þá heitir Vestmannaland eðr Fjaðrundaland[3]; þá heitir Tíundaland[4]; hinn fjórði lutr Áttanda[5] land; þá er Sjáland ok þat er þar liggr til, þat liggr hit eystra með hafinu. Tíundaland er göfgast ok bezt bygð í öllu Svíaveldi, þvíat þágat lýtr til allt ríkit, þar eru Uppsalir, þar er konúngs atseta, þar er erkistóll, þar er viðkendr Uppsala auðr, þágat skulu tilleggjast allar skyldir um allt land til Uppsala; yfir hvern luta lands er skipaðr lögmaðr, ok ræðr hann mestu við bændr, þvíat þat skulu lög vera, sem þeir vilja uppkveða eðr segja; en ef konúngr eðr jarl eðr biskup ferr yfir landit, ok eigu þíng við bændr, þá svarar lögmaðr af hendi bónda ok sezt fur öll þeirra mál, ok fylgja honum svâ bændr, at ofreflismenn þora varla at koma á þíng lögmanna, ef eigi vilja bændr eðr lögmaðr; en ef lögin skilr á, þá skulu öll hallast til móts við Uppsala lög; allir lögmenn aðrir skulu vera undirmenn þess lögmans, er á Tíundalandi er.

[1]) 11, *C, F, J, K, S*; 10, *L.* [2]) Eystra-Gautland, *C, D, F, J, K, L, S.* [3]) Fjórðúngaland, *D.* [4]) enn þriði luti Svíþjóðar, *b. v. in.* [5]) Attjánda, *C, D, F.*

76. Þá var á Tíundalandi lögmaðr sá, er Þorgnýr hèt, faðir hans var nefndr Þorgnýr Þorgnýrsson, þeir lángfeðgar höfðu þar[1] verit yfirlögmenn um margra konúnga æfi á Tíundalandi. Þessi Þorgnýr var þá kallaðr vitrastr maðr í öllu Svíaveldi, hann var frændi Rögnvalds jarls ok fóstrfaðir hans. Nú er þar til máls at taka, er furr var frá horfit, at þeir menn komu til Rögnvalds jarls, er þau Íngigerðr konúngsdóttir ok Hjalti Skeggjason sendu austan með brèfum, báru þeir fram sín erendi fur jarl ok Íngibjörgu, konu hans, ok sögðu at konúngsdóttir hefði opt rædt fur Svía konúngi um sætt þeirra Ólafs konúngs ok Noregs konúngs, ok henni þótti úvænliga horfa at svâ búnu. Jarl sagði nú Birni, hvat hann hefði austan spurt, ok bað hann aptr fara við svâ búit ok hætta eigi meirr á. Björn sagði, at hann skal at vísu framhalda sinni ferð, þartil er hann hittir Svía konúng, ef hann má framkomast, en veizt þú þat, jarl! at þú hefir því heitit at fylgja mèr á konúngs fund? Jarl játti því. Nú líðr fram vetrinn, ok þegar á bak jólum býr jarl ferð sína, hann hafði 60[2] manna, þar var með honum Björn stallari ok hans förunautar; fór jarl nú austr í Svíþjóð, en er hann sótti uppí landit, þá sendi hann menn fur sèr til Uppsala, ok sendi orð Íngigerði konúngsdóttur, at hún skyldi koma í mót honum útá Ull-

[1]) *hèr sleppr I um sinn.* [2]) 40, *C.*

arakr[1], þar átti hún bú stór. En er konúngsdóttur komu orð jarls, þá fór hún ok vildi þá för eigi undir höfuð leggjast, hún fór fjölmenn, þar var Hjalti Skeggjason með henni; en áðr hann fór, gekk hann fúr konúng ok kvaddi hann ok mælti: sit þú nú allra konúnga heilastr! ok er þat satt at segja, at ek hefir þess hvergi komit, at ek hafi alslíka tign sèð, sem hèr með yðr, skal ek ok þat orð frá bera, hvar sem ek kemr, vil ek þess biðja þik, konúngr! at þú sèr vinr minn. Konúngr svarar: hví lætr þú svâ brautfúsliga, Hjalti! Hann svarar: ek ríð nú furst út á Ullarakr með Íngigerði, dóttur yðarri. Far þú vel ok heill, Hjalti! segir konúngr, vitr maðr ertu ok velsiðaðr, ok kannt vel at vera með tignum mönnum. Gekk þá Hjalti leið sína, ok reið þá útá Ullarakr með Íngigerði konúngsdóttur, hún fór til búss síns, ok lèt þar búa veizlu mikla í móti Rögnvaldi jarli. Síðan kom jarl þar, ok var honum vel fagnat. Dvaldist jarl þar nökkurar nætr; þau konúngsdóttir talaðust mart við, ok flest um þá Noregs konúng ok Svía konúng, segir hún, at henni þikkir úvænt horfa um sættir með þeim konúngunum. Þá mælti jarl: hvern veg er þèr þat gefit, frændkona! ef Ólafr Noregs konúngr biðr þín, sýnist oss þat helzt til heilla sátta ok einhlítast, ef mægðir mátti takast með konúngunum, þvíat oss lízt þessi maðr Ólafr úlíkr flest-

[1]) Aullarakr C.

um mönnum, en ek vil með engu móti með því gánga. Hún svarar: faðir minn skal sjá ráð fyrir mèr, en þá ert þú svâ minna frænda annarr, at ek vil helzt mitt mál undir eiga, þat er mèr þikkir svâ miklu máli skipta, eðr hversu ráðligt þikkir þèr þetta? Þat þikkir mèr allráðligt, segir jarl; taldi hann þá upp marga mannkosti um Ólaf konúng, þá er stórvegligir voru, sagði hann henni þá frá atburðum þeim, er þá höfðu fur skemstu gerzt, ok hann hafði þá ný spurt af Noregi, er Ólafr konúngr hafði handtekit 5 konúnga á einum morni, þá er allir vildu aðr sitja um líf hans, ok rak þá alla af ríkjum sínum, en lagði undir sik eignir þeirra ok jók með því sitt ríki ok veldi. Margt ræddu þau um þetta mál ok urðu á allar sínar ræður vel sátt; fór jarl í brott, þá er hann var búinn; Hjalti fór með honum.

77. Rögnvaldr kom einn dag at kveldi til búss Þorgnýrs lögmanns, þar var mikill bær ok stórkostligr, voru þar margir menn úti, er þeir komu; þeir fagnaðu vel jarli ok tóku við hestum þeirra ok reiða, þeir gengu inní stofu, þar sat í öndvegi maðr gamall, engan mann höfðu þeir Björn sèð jafnmikinn, skegg hafði hann bæði mikit ok breidt ok sídt, svâ at þat lá í knjám hans ok breiddist um alla brínguna, hann var vænn maðr ok göfugligr. Jarl gekk fur hann ok heilsaði honum; Þorgnýr fagnar vel jarli, ok bað hann setjast í rúm sitt,

þar er hann var vanr at sitja; Jarl settist þá öðrum megin í öndvegi gegnt Þorgnýri, þar dvaldist jarl nökkurar nætr, áðr hann bar upp erendi sín, ok einn dag beiddi hann Þorgný, at þeir skyldu gánga í málstofu; þeir Björn gengu þángat með jarli ok hans förunautar. Þá tók jarl til máls ok sagði frá því, er Ólafr konúngr hafði sendt þágat menn sína með þeim erendum, at hann vill sættast við Ólaf Svía konúng, talaði jarl þarum lángt eyrendi, hvert vandræði Vestr-Gautum var af deilum konúnganna ok þeirra úþykkju; hann sagði ok Þorgný frá því, at hann hafði heitit sendimönnum Ólafs Noregs konúngs at fylgja þeim á fund Svía konúngs, svâ at þeir mætti flytja úhræddir eyrendi sín fur þá sök; jarl sagði honum ok þat, at Svía konúngr tók þessu máli svâ þúngliga, at hann lèt engum manni hlýða skyldu, at gánga með þessu máli. Nú er svâ, fóstri minn! sem optarr, at ek verð mèr eigi einhlítr at þessu máli, hefi ek ok því sótt á þinn fund, at ek væntir þar enn heilla ráða ok þíns trausts ok liðsinni. En er jarl hætti ræðu sinni, þagði Þorgnýr lánga stund, en er hann tók til máls, þá mælti hann svâ: undarliga skiptið þèr til, girnizt at taka tignarnafn en kunnið yðr engi forráð eðr furhyggju, þegar þèr komið í nökkurn vanda; hví skyldir þú eigi hyggja at því, áðr þú hèzt þessari ferð, at þú hafðir ekki ríki til þess at mæla nè eitt orð í

móti Ólafi Svía konúngi, þikkir mèr hitt eigi úvirðíngar vænna, at vera í bónda tali, ok vera frjáls orða sinna, at mæla slíkt er þú vill. Jarl þakkaði honum vel orð sín, ok dvaldist hann þar um hríð, ok reið með þeim Þorgnýr til Uppsala þíngs, ok kom þar allmikit fjölmenni; þar kom Ólafr konúngr með hirð sinni.

78. Hinn fursta dag er þíngit var sett, sat Ólafr konúngr á stóli ok þar hirð hans umhverfis, en annann veg á þíngit sátu þeir á einum stóli Rögnvaldr jarl ok Þorgnýr lögmaðr, en á bak þeim stóli stóð bóndamúgrinn ok allt umhverfis í hríng, sumir fóru á hóla eðr hæðar, at heyra hvat talat var; en er talat voru konúngs erendi, þau er siðr er til at tala á þíngum, ok er því var lokit, þá stóð upp Björn stallari hjá stóli jarls, ok mælti hátt vel ok snjalt: Ólafr konúngr sendi mik híngat þess eyrendis, at hann vill bjóða sætt af sinni hendi Ólafi Svía konúngi, ok þat landa skipti sem at fornu hefir verit milli Noregs ok Svíþjóðar. Björn mælti svâ hátt, at Svía konúngr heyrði gjörla, en furst er Svía konúngr heyrði nefndan Ólaf konúng, þá hugði hann, at sá maðr mundi flytja nökkut hans eyrendi, ok bað menn gefa hljóð til; en er hann heyrði rædt um sætt ok landaskipti milli Noregs ok Svíþjóðar, þá skildi hann af hverjum lotum vera mundi; þá ljóp hann upp ok kallaði hátt, at sá maðr skyldi sem skjótast þegja, ok kvað slíkt ekki gera mundu. Björn settist

þá niðr. En er hljóð fèkst í annat sinn, þá stóð jarl upp ok mælti, hann sagði furst frá orðsendíngu Ólafs digra ok sættarboðum til Svía konúngs, ok frá því at Vestr-Gautar sendu Ólafi konúngi öll orð, til þess at sætt væri gjör við Noregs konúng ok Norðmenn; taldi jarl upp hvert vandræði Vestr-Gautum var at því, at missa þeirra luta allra af Noregi, sem þeim var mest árbót í at hafa, en í annann stað sitja fur áhlaupum Víkverja ok hernaði, ef Noregs konúngr samnaði her saman ok herjaði á þá; jarl sagði ok, at Noregs konúngr hafði þángat menn senda þeirra erenda, sem sæmilig er. upp at bera, at hann vill biðja Íngigerðar dóttur hans. En er jarl hætti at tala, þá stóð upp Ólafr Svía konúngr, ok var allreiðiligr, hann svarar þúngliga um sættina, en veitti jarli stórar átölur ok þúngar um þá dirfð, er hann hafi gert frið við þann hinn digra mann ok lagt við hann vináttu, taldi jarl fur þat sannann at landráðum við sik; sagði ok þat makligt, at hann væri rekinn or ríki, ok sagði at slíkt [væri allt[1] af áeggjan Íngibjargar konu sinnar, ok taldi þat vera hit úsnjallasta ráð, er hann hefir fengit at girndum svâ stórborinnar konu ok ríkrar; hann talaði lángt ok snèri þá enn ræðunni at lyktum á hendr þeim hinum digra manni. En þegar hann settist niðr, þá var furst hljótt um hríð, þá stóð

[1]) hlaut hann, *hin.*

upp Þorgnýr lögmaðr, en þegar hann stóð upp, þá stóð upp allr bóndamúgrinn, þeir er áðr höfðu setit, ok þustu at allir þangat, þeir er áðr höfðu annarstaðar setit, ok vildu heyra, hvat Þorgnýr talaði, þá var furst gnyr mikill af fjölmenni ok vâpnum, en er hljóð fèkkst, mælti Þorgnýr:

79. Annann veg er skaplyndi manna[1], enn furr hefir verit; Þorgnýr, föðurfaðir minn, mundi glögt Eirík Uppsala konúng Eymundarson, ok sagði hann þat frá hans háttum, at meðan honum var sem lèttast, herjaði hann hvert sumar, ok hafði leiðángr úti, ok fór til ýmissa landa, ok hann lagði undir sik Finnland ok Kirjálaland[2], Eistland ok Kúrland, ok svâ víða um Austrlönd, ok mun enn sjá þær jarðborgir ok stórvirki, er hann lèt gera; ok var hann þó eigi svâ stolts eðr stór, at hann hlýddi eigi mönnum, ef skylt áttu at tala við hann. Þorgnýr, faðir minn, var með Birni konúngi lánga æfi, voru honum hans siðir kunnir, stóð um æfi Bjarnar konúngs hans ríki með miklum styrk en engum skort eðr þurð; var hann þó góðr ok dæll sínum mönnum. Ek má muna Eirík konúng hinn sigrsæla, var ek með honum í mörgum herförum, jók hann ríki Svía konúngs, en varði harðfengliga, ef á var leitat hans ríki, varð oss þó gott orðum við hann at koma. En konúngr þessi, er nú er yfir landi, lætr engum manni hlýða at mæla við sik, nema þat eina, er hann vill vera láta, ok

[1]) Svíakonúnga, *D, F, H, L.* [2]) Kyrjáli, *C.*

hefir við þat allt kapp, en hann lætr skattlönd sín undan sèr gánga af eljanarleysi ok þrekleysi; hann girnist ok til þess at halda Noregs veldi undir sik, er enginn Svía konúngr hefir girnzt, ok gjörir hann í því mörgum mönnum mein ok únáðir. Nú er þat vilì vârr bónda, at þú, Ólafr konúngr! gerir sætt við Ólaf konúng digra, ok þat með at þú giptir honum Íngigerði, dóttur þína. En ef þú vill vinna aptr undir þik ríki þau í Austrveg, er frændr þínir hafa átt ok forellrar, þá viljum vèr allir fylgja þèr ok styrkja þik til þess. Meðr því at þú vill eigi hafa þat, er vèr mælum, þá munu vèr veita þèr atgaungu hèr þegar á þínginu ok drepa þik, ok þola þèr eigi úfrið ok úlög þau, er þú gerir ok tekr til; ok hafa svâ gert hinir furri frændr vârir ok forellrar, þá er þeir steyptu 5 konúngum í eina keldu á Múla þíngi, sem þú munt heyrt hafa, er áðr höfðu uppfylzt ofmetnaðar, sem nú hefir þú við oss; seg nú, hvârn kost þú vill upptaka! Þá gjörði bóndalýðrinn þegar gný mikinn ok vâpnabrak. Ólafr konúngr stendr þá upp ok mælti, segir at allt vill hann svâ vera láta, sem bændr vilja, segir at svâ hafa gert hinir furri konúngar, at þeir hafa bændr látit ráða með sèr, því er þeir vildu. Staðnaði þá kurr bóndanna. Eptir þat tala þeir allir saman höfðíngjarnir, konúngr ok jarl ok Þorgnýr, ok gera frið ok sætt af Svía konúngs hendi, eptir því

sem Noregs konúngr hafði orð til sent. Var á því þíngi þat ráðit, at Ólafr konúngr Haraldsson skyldi fá Íngigerðar, dóttur Ólafs Svía konúngs, tók þá Rögnvaldr jarl festar af Svía konúngi, ok var þessu nú til staðar ráðit. Slitu þeir nú þínginu at svâ mæltu. Fór jarl þá heim, ok hitti konúngsdóttur, ok talaðu þau margt um þetta mál; hún sendi Ólafi konúngi slæður af pelli mjök gullsaumaðar[1], ok silkiræmur. Fór jarl þá í brott við svâ búit, ok þeir Björn með honum, dvaldist Björn þar þá litla hríð, ok fór síðan aptr til Noregs með sínu föruneyti. En er hann hitti Ólaf konúng, sagði hann honum erendislok sín, þau sem voru. Ólafr konúngr þakkaði honum vel ferðina, ok segir sem satt var, at Björn hafði gæfu tilborit í slíkum úfriði sem var, at koma fram erendi sínu. Ólafr konúngr fór, er vâraði, út til sjóvar, ok lèt búa skip sín, ok stefndi til sín liði sínu, ok fór um vârit út allt eptir Víkinni til Líðandisness ok allt norðr á Hörðaland, sendi þá orð lendum mönnum, ok nefndi til alla hina ríkastu menn or hèraðum, ok bjó þessa ferð at öllu sem vegligast, er hann ætlaði at fara í móti festarmeyju sinni; veizlan skyldi vera um haustit austr við Elfvi við Landamæri.

80. Ólafr konúngr hafði með sèr Hrærek blinda, en er hann var gróinn sára sinna, þá

[1]) gullskotnar, C.

fèkk Ólafr konúngr honum 2 menn til fylgðar ok þjónustu við hann, ok lèt hann sitja í hásæti hjá sèr, ok hèlt hann at klæðum ok drykk engum mun verri, enn hann hafði áðr haldit sik sjálfr. Hrærekr konúngr var maðr fámálugr, en svarstuttr þá er menn orkaðu orða á hann; þat var venja hans hvern dag, at hann lèt leiða sik úti um daga frá öðrum mönnum í brott, þá barði hann knapann svâ at hann stökk í brott, þá sagði Hrærekr til Ólafs konúngs, at sá sveinn vildi ekki honum þjóna; þá skipti Ólafr konúngr um þjónustumenn við hann, ok fór allt á sömu leið, at engi þjónustumaðr hèlzt við með Hræreki; þá fèkk Ólafr konúngr til fylgðar ok gæzlu við hann þann mann, er Sveinn hèt, ok var frændi Hræreks konúngs, ok hafði verit hans maðr áðr. Hrærekr hèlt teknum hætti um stríðleika ok svâ um einfarar, en er þeir voru 2 saman staddir, þá var hann kátr ok málreitinn, hann minntist þá á marga luti, þá er fur höfðu verit ok um hans daga höfðu atborizt, ok hverr brugðit hafi hans ríki ok sælu, en gjört hann at ölmusumanni: en hitt þikkir mèr þó þúngast at vita, segir hann, er þú eðr aðrir frændr mínir skulu ekki at manni verða ok svâ miklir ættlerar, at engrar svívirðíngar skulu þora at hefna, þeirrar er gjörvar eru á ætt vârri þvílíkar hörmúngartölur hafði hann fur Sveini, frænda sínum. Sveinn svarar: at þeir áttu við ofrefli um at eiga, en þeir höfðu litla kosti

sjálfir. Hrærekr svarar: til hvers skulu vèr lengi lifa við skömm ok meiðslur, nema svâ beri til, at vèr sigrimst blindir á þeim, er oss sigraði sofandi, heilir svâ drepum hann Ólaf hinn digra, hann uggir nú ekki at sèr, kann vera at nú leggist lítit fur hann, ek skal ráðin til setja, ok ei vildi ek hendrnar til spara, ef ek mætti þeim viðkoma, en þat má ek eigi fur sakir blindleiks, ok skaltu fur því bera vâpnin á hann; en þegar Ólafr er drepinn, þá veit ek af forspám mínum, at þá hverfr ríkit undir úvini hans; nú kann vera at ek verði þá konúngr, þá skaltu vera jarl minn. Svâ kom fortölum hans, at Sveinn játaði at fylgja þessu ûráði. Svâ var ætlat ráðit, at þá er konúngr gekk til aptansöngs, stóð Sveinn í svölunum úti fur konúngi, ok hafði sverð brugðit undir yfirhöfn sinni, ok þá er konúngr gekk út or stofunni, bar hann skjótara at enn Svein varði, ok sá hann í andlit konúnginum, er hann gekk út, ok bliknaði hann, ok varð fölr sem nárr, ok fèllust honum hendr, er betr var. Konúngr fann þat þegar, at honum bjó nökkut íllt í skapi, ok mælti: hvat er nú, Sveinn! vill þú svíkja mik? Sveinn kastar af sèr kápunni ok í brott frá sèr saxinu, ok fèll til fóta konúngi ok mælti: allt á guðs valdi ok yðru, herra! Konúngr bað menn sína taka hann, ok var hann settr í járn; þá lèt Ólafr konúngr færa sæti Hræreks á annann pall, en hann gaf grið Sveini, ok fór hann í brott or landi. Konúngr fèkk þá annat herbergi at

sofa í, enn þat er hann svaf í. Konúngr fèkk til 2 menn af hirð sinni at fylgja Hræreki dag ok nótt, þeir menn höfðu áðr lengi þjónat Ólafi konúngi ok sýnt honum mikin trúleika jafnan. Hrærekr gerði nú ýmist, at hann var einteiti, ok svâ glaðr ok kátr at hann lèk við fíngr sèr, ok fèkk hvatvitna til skemtanar, eðr hitt at hann þagði upp mörgum dægrum saman, svâ at hann mælti við engan mann, stundum mælti hann margt ok þó íllt, svâ var ok at stundum drakk hann hvern mann af stokki, ok gerði alla úfæra þá er nær honum voru, en optast drakk hann lítit. Ólafr konúngr fèkk honum vel skotssilfr. Opt gerði Hrærekr þat, þá er hann fór til herbergis, áðr hann fór til svefns, at hann lèt taka inn mjaðarbyttur nökkurar, ok gaf þeim at drekka þá öllum herbergismönnum, ok af slíku varð hann þó þokkasæll.

81. Maðr er nefndr Finnr litli, upplenzkr maðr, en sumir segja hann finnskan at ætt, hann var manna minnstr ok allra manna fóthvatastr, svâ at engi hestr tók hann á rás, hann kunni manna bezt við skíð ok boga, hann hafði verit lengi þjónustumaðr Hræreks konúngs ok farit opt erenda hans, þeirra er trúnaðr lá undir, hann kunni alla vegu um Upplönd, hann var ok málkunnigr öllu stórmenni; en síðan Hrærekr var tekinn í fángelsi, þá slóst Finnr í ferð með knöpum ok þjónustumönnum, ok hvert sinn er hann mátti, kom hann sèr í tal ok í þjónustu við Hrærek, ok var opt á tali við hann.

Hrærekr vildi ekki, at þeir talaði laungum samfast, ok þótti sem þá munði síðr í ráðit; en er á leið vârit, ok þeir sóttu útí Víkina, þá hvarf Finnr í brott frá liðinu nökkura daga, kom hann þá enn aptr, er stund leið, ok dvaldist þá enn þar um hríð, ok fór svâ enn fram optarr, at Finnr hvarf í brott, en stundum kom hann aptr, ok var at þessu engi gaumr gefinn, þvíat margir voru umrennendr með liðinu. Ólafr konúngr kom til Túnsbergs nökkuru fur páska, ok dvaldist þar lengi um vârit, þá kom þar til bæjarins mart manna, bæði Saxar ok Danir, austan or Vík ok norðan or landi, var þar þá mikit fjölmenni; þar var þá ár mikit, ok höfðu menn drykkjur miklar. Þat barst at á einu kveldi, þá er Hrærekr var kominn í herbergi þat, er hann (var) vanr at sofa í, þat var síð um kveldit, ok höfðu menn þá drukkit mjök, hann var þá allkátr, þá kom þar Finnr litli með mjaðar byttur 2, ok var þat grasaðr mjöðr ok hinn styrkasti; þá lèt Hrærekr konúngr gefa öllum þeim, er inni voru, allt til þess er hverr sofnaði í sínu rúmi; Finnr var þá í brott genginn, ljós brann hverja nótt í herberginu, þá vakti Hrærekr upp menn sína, þá er vanir voru at fylgja honum[1], ok sagði at hann vill gánga til garðs, þeir höfðu með sèr skrilljós, þvíat myrkr var á mikit; salerni var í garðinum, þá heyra þeir at maðr mælti: högg þú fjandann! þá heyrðu þeir brest mikinn, ok dett sem nökkut fèlli, salernit stóð á stólp-

[1]) *hèr byrjar E aptr.*

um, ok var rið upp at gánga til duranna, en er þeir sátu í garðinum, þá heyrðu þeir þessi orðtök út, sem nú var sagt. Hrærekr mælti: eigi er drykkjan svâ góð sem oss þikkir, en þat er satt at segja, at þeir hafa fulldrukkit, er þar eigust við, farið nú út ok skilið þá! þá bjuggust þeir út hirðmenninnir sem skyndiligast, ok ljópu út, þá voru þar komnir menn Hræreks konúngs, Sigurðr hít, er verit hafði hirðmaðr Hræreks konúngs, ok þeir 15 saman, þar var þá ok Finnr litli í för með þeim, en er hirðmennirnir komu út, þá var sá furr höggvinn, er síðarr gekk, ok þó drepnir báðir, þeir voru dregnir upp á milli húsanna, en tóku Hrærek til sín ok höfðu með sèr, ljópu svâ á skip út, er þeir áttu, ok rèru þá í brott sem tíðast. Sighvatr skáld svaf í herbergi Ólafs konúngs, hann stóð upp um nóttina ok skósveinn hans með honum, ok gengu til hins mikla garðhúss, en er þeir skyldu aptr gánga ok ofan fur loptriðit, þá skriðnaði Sighvatr ok fèll á knè, ok stâkk niðr höndunum, ok fann at þar var vâtt undir; þá mælti Sighvatr: þat hygg ek at nú í kveld hafi konúngr fengit oss mörgum karfafótinn, ok hló at, en er þeir komu í herbergit, brann ljós; þá spurr skósveinninn: hví ert þú í blóði einu allr, eðr ert þú skeindr? Hann svarar: ekki er ek skeindr, en þó mun þetta tíðindum gegna; þá vakti hann upp Þórð Fólason, merkismann Ólafs konúngs, þeir voru rekkjufèlagar, síðan gengu þeir út,

ok höfðu með sèr skriðljós, ok fundu þegar blóðit, þeir fundu ok brátt líkin, ok kendu þegar mennina, þá er vegnir voru; þeir sá at þar lá trèstobbi mikill, ok í mikit skýlihögg, ok spurðist þat síðan, at þat hafði gert verit til ólíkinda at höggva trèstobban, at teygja þá svâ út er inni voru, ok hafði Hrærekr hèr sett öll ráð til þessar meðferðar. Þeir Sighvatr tala nú með sèr, at nauðsyn væri at konúngr vissi þessi tíðindi sem bráðast; þeir sendu nú sveininn til herbergis þess, er Hrærekr skyldi hafa sofit í, ok vita hvat þar væri tíðinda, þar sváfu menn allir, en Hrærekr konúngr var í brottu; sveinninn vakti þá menn alla, er þar voru inni, ok sagði þeim tíðindin; þá stóðu menn upp ok fóru þágat í garðinn, sem líkin voru; en þó at nauðsyn væri at vekja konúnginn ok hann vyrði sem furst viss þessara tíðinda, þá þorði þó engi at vekja konúnginn, ok segja honum þessi tíðindi. Þá mælti Sighvatr: mikit er enn eptir nætrinnar, ok kann vera, áðr dagat sè, at Hrærekr hafi fengit sèr þat fylskni, at hann sè ekki mjök auðfundinn síðan, en þeir munu enn ekki lángt komnir, þvíat líkin voru enn ekki köld; skal oss aldrí þá skömm henda, at vèr látim eigi konúnginn vita þessi svik. Þá mælti Sighvatr til Þórðar: hvârt villt þú, lagsmaðr! vekja konúnginn eðr segja honum tíðindin? Þórðr svarar: fur engan mun þori ek at vekja konúnginn, en segja má ek honum tíðindin, ef þú vill, enda vekir þú hann.

Sighvatr mælti: gakk nú upp í herbergit ok bíð mín þar! Þórðr gerði svâ, sem hann bauð. Þá fór Sighvatr til kirkju, ok vakti upp klokkarann, ok bað hann hríngja fur sál hirðmanna konúngs, ok nefndi hirðmennina þá er vegnir voru. Klokkarinn gerir sem hann bauð. Konúngrinn vaknar við hríngíngina, ok settist hann upp, hann spurr þá, hvârt óttusaungsmál væri. Þórðr svarar þá: verri tíðindi eru enn svâ, herra! Hrærekr er í brottu, en drepnir hirðmenn yðrir 2, þeir er hans skyldu gætt hafa; þá spurr konúngr vandliga eptir atburðum þeim, er þar höfðu vorðit. Þórðr sagði af slíkt, er hann vissi. Þá stóð konúngr upp, ok lèt blása til hirðstefnu, en er lið kom saman, þá nefndi konúngr til menn, at leita Hræreks allavega frá bænum. Þórir[2] lángi gestahöfðíngi tók skútu, ok fór með sveit sína, at leita Hræreks konúngs frá bænum við 30 manna, en er lýsa tók, þá sá þeir at skútur 2 litlar reyru fur þeim, en er hvârir sá aðra, þá rèru hvârirtveggju sem mest máttu þeir, þar var þá Hrærekr konúngr, ok hafði 30 manna; en er samandró með þeim, þá snèru þeir Hrærekr at landi, ok ljópu á land upp allir nema Hrærekr konúngr, hann settist upp í lyptíngina, ok mælti til sinna fèlaga, bað þá heila fara ok heila hittast; því nærst rèri Þórir at landi, þá skaut Finnr litli öru, ok kom sú á Þóri miðjan, ok fèkk hann þegar bana, en

[1]) Klukkarinn, *C, E.* [2]) Þórðr, *C, E, F, L.*

Sigurðr hít ok hans fèlagar ljópu þegar í skóginn, ok lètu hann hlífa sèr, en menn Þóris tóku lík hans ok svâ Hrærek konúng, fluttu nú út til Túnsbergs. Ólafr konúngr tók þá enn við valdi Hrærek konúng, ok lèt vandliga gæta hans, ok galt nú mikinn varhuga við svikum hans, þvíat hann sá at hann sat um þat dag ok nótt, fèkk hann nú menn til at gæta hans nótt ok dag. Hrærekr var nú svâ kátr, at hann lèk við fíngr sèr, ok fann engi maðr á honum, at eigi líkaði honum allt sem bezt. Þat barst at uppstigníngardag at Ólafr konúngr gekk til hámessu, þá gekk biskup með processío um kirkju, ok leiddi konúnginn, en er þeir komu aptr í kirkjuna, þá leiddi biskup konúnginn til sætis síns fur norðan dyr í kórinn, en er Ólafr konúngr hefir niðr sezt, þá tók Hrærekr konúngr á öxl Ólafi konúngi ok þrýsti, hann mælti þá: pellsklæði hefir þú nú, herra! Ólafr konúngr svarar: nú er hátíð mikil haldin í dag, sem þú munt vita, í minníng þess, er Jesús Kristus steig upp til himins af jörðu. Já, sagði Hrærekr, svâ má vera, en ekki skil ek af, svâ at mèr hugfestist, þat er þèr segið frá Kristi yðrum, þikkir mèr mart þat heldr útrúligt, er þèr segið þar frá, en þó hafa margs dæmi vorðit í forneskjunni. En er messan var upphafin, þá stóð Ólafr konúngr upp, ok hèlt höndunum yfir höfuð sèr, ok laut til altaris, ok bar yfirhöfnina aptr af herðum

honum, er hann hafði lotit undan. Hrærekr sprettr þá upp hart ok tídt; hann lagði þá til Ólafs konúngs saxknífi þeim, er Rytníngr er kallaðr; lagit kom í yfirhöfnina uppi við herðarnar, er hann hafði lotit undan, skárust mjök klæðin, en konúngr varð ekki sárr. En er Ólafr konúngr fann þetta tilræði, þá ljóp hann við fram á gólfit. Hrærekr lagði þá þegar í annat sinn til hans knífinum ok misti; þá mælti Hrærekr: flýr þú nú, Ólafr digri! fur mèr[1] blindum. Ólafr konúngr bað sína menn taka hann ok leiða hann út or kirkjunni, ok svâ var gjört. Eptir þessa atburði eggjaðu menn Olaf konúng at hann lèti drepa Hrærek: ok er yðr þat, sögðu þeir, hin mesta gæfuraun, at hafa hann jafnan hjá yðr, hverjar úhæfur sem hann tekr til, en hann sitr um þat nótt ok dag, at veita yðr líflát, en þóat þèr sendið hann nökkut í braut frá yðr, þá sjám vèr engan mann til þess, at svâ fái hann geymt, at hann komist eigi á brott, en ef hann kemst í brott ok verðr lauss, þá mun hann þegar hafa flokk uppi ok gera margt íllt. Konúngr svarar: rètt er þat mælt, at margr hefir tekit dauða fur minni tilgjörðir, enn Hrærekr hefir gert, en trauðr em ek at týna þeim sigri, er ek fèkk á Upplendínga konúngum, þá er ek tók 5 konúnga á einum morni, ok náða ek svâ ríki þeirra, at ek þurfti engis þeirra banamaðr at verða, þvíat þeir voru allir frændr mínir, en

[1]) *hèr sleppr E aptr.*

þó fæ ek nú varla sèð fur mun um, hvârt Hrærekr mun eigi fá nauðgat mèr til at láta drepa sik eðr eigi. Hrærekr hafði fur því tekit á öxl konúngi, at hann vildi vita, hvârt hann væri í brynju, ok vildi eigi til ráða, nema hann ætlaði at yfirtæki.

82. Maðr er nefndr þórarinn Nefjólfsson, hann var íslenzkr maðr ok ættaðr fur norðan land, ekki var hann ættstórr maðr, hann var allra manna vitrastr ok orðdjarfastr við tigna menn, hann var farmaðr mikill ok var laungum á Íslandi annann vetr, en annann í Noregi. þórarinn var manna ljótastr, ok var þat þó mest fur, hversu illa hann var limaðr, hann hafði hendr miklar ok ljótar, en fætr hafði hann miklu ferligri. þórarinn var þá staddr í Túnsbergi, er þessi tíðindi gerðust, er nú hefir verit frásagt um hríð, hann var þá málkunnigr Ólafi konúngi; þórarinn bjó þá kaupskip sitt, ok ætlaði til Íslands um sumarit; Ólafr konúngr hafði hann í boði sínu nökkura daga ok talaði við hann margt, svaf þórarinn í konúngs herbergi; þá var þat einn morgin snemma, at konúngr vakti, en aðrir menn sváfu í herberginu, þá var sól lítit farin ok var ljóst mjök inni; konúngr sá at þórarinn svaf ok hafði rètt annann fótinn undan klæðunum, konúngr sá á fótinn um hríð, síðan vaknaðu menn í herberginu. Konúngr mælti: þórarinn! segir hann, vakat hefir ek um hríð, ok hefir ek um hugleidt þá sýn, er

mèr hefir fur augu borit, ok mèr þikkir mikils um vert, en þat er manns fótr sá, er ek hefir engan slíkan sèð, ok þat hygg ek at enginn muni hèr í kaupstaðnum finnast ljótari fótr, ok bað nú aðra menn at hyggja, hvårt nökkut sýndist svâ, en allir sannaðu er sá, at svâ var sem konúngr sagði. Þórarinn svarar, ok sá hvar til konúngr mælti: fátt er svâ, herra! einhverra luta, at örvænt sè at finnist annat þvílíkt, ok þat er líkazt, at hèr sè enn svâ. Konúngr mælti: heldr vil ek hinu at fylgja, at eigi muni jafnljótr fótr finnast, ok svâ þóat ek skyldi veðja um. Þá mælti Þórarinn: búinn er ek at veðja um við yðr, herra! at ek skal finna í kaupstaðnum ljótara fót. Konúngr svarar: þá skal svâ vera, ok skal sá okkarr kjósa bæn at öðrum, er sannara hefir; svâ skal vera; segir Þórarinn, hann brá þá öðrum fætinum undan klæðunum, ok var sá engum mun fegri, en þar var af hin mesta táin. Þá mælti Þórarinn: sè hèr nú, herra! annann fót, ok er sá því ljótari, at hèr er af ein táin, ok á ek nú veðfèit. Konúngr svarar: er hinn því öllu ljótari at þar eru 5 tær ferligar á þeim, en hèr eru 4 einar, ok á ek víst at kjósa bæn at þèr; þat er þó mælt, herra! segir Þórarinn, at þat sè jafnan ljótara, er eigi er með þeim hætti, sem Kristr hefir skapat fur öndverðu, en hèr mun sannast hit fornkveðna, at dýrt er drottins orð, eðr hverja bæn vilið þèr at mèr kjósa eðr þiggja? Konúngr svarar: þá, at þú flytìr Hrærek konúng

út til Grænlands, ok færir hann Leifi í Brattahlíð. Þórarinn svarar: ekki hefir ek siglt til Grænlands. Konúngr svarar: þá er þèr (nú) mál at sigla til Grænlands, slíkr siglíngamaðr sem þú ert, ef þú hefir þar eigi fyrr komit. Heyra mun ek yðr láta, herra! hvers ek mundi yðr biðja, ef mèr bærist veðfèit; já, svarar konúngr, þat er víst til; ek vil biðja yðr hirðvistar, ok ef þèr veitið mèr þetta, þá verð ek miklu skyldari at leggjast þessa ferð eigi undir höfuð eðr þat annat, er þèr vilið kraft hafa. Konúngr játti honum þessu, gerðist Þórarinn þá hirðmaðr Ólafs konúngs, játti Þórarinn þá at taka við Hrærek, ok bjó síðan skip sitt, ok er hann var albúinn, þá tók hann við Hrærek konúng, en áðr þeir Ólafr konúngr skildu, þá mælti Þórarinn: nú berr svâ til, herra konúngr! sem opt verðr, at vèr komim eigi fram Grænlands ferðum, berr oss til Íslands eðr annarra landa, hversu skal ek skiljast við Hrærek konúng, svâ at yðr líki? Konúngr svarar: kemr þú til Íslands, þá skaltu selja hann í hendr Guðmundi Eyjólfssyni eðr Skapta lögmanni eðr öðrum höfðíngjum þeim, er við honum vilja taka fyr mína vináttu, ok haf þartil jartegnir mínar, hvar sem þik kann at atbera; en ef þik berr at öðrum löndum þeim, er hèr eru nálægri, þá haga þú svâ til, at þú vitir víst, at Hrærekr komi aldri[1] aptr í Noreg, en gjör þat því at eins, at engi sè önnur faung á.

[1]) lífs, *b. v. C, D.*

En er byri gaf, hèlt hann útleiði fur utan eyjar allar norðr til Líðandisness, síðan stefndi hann útá aðalhaf, honum byrjaði ekki vel, hann varaðist þat mest, at koma hvergi við Noreg, hann sigldi fur sunnan Ísland, ok hafði vita af landi, ok svâ vestr um landit í Grænlands haf, fèkk hann þá rettu[1] stóra ok válk mikit, en er á leið haustit, tok hann Ísland í Breiðafirði. Þorgils Arason kom til þeirra furstr virðíngamanna; Þórarinn sagði honum orð ok vináttumál Ólafs konúngs ok jartegnir þær, er fylgðu viðtöku Hræreks konúngs. Þorgils varð við vel, ok tók þegar við Hræreki konúngi, ok var hann með Þorgilsi Arasyni um vetrinn á Reykjahólum; Hrærekr undi þar eigi lengr enn þann vetr, ok beiddi hann Þorgils, at hann skyldi láta fylgja honum til Guðmundar á Möðruvöllum. Þorgils gerði svâ. Guðmundr tók við honum fur sakir konúngs orðsendíngar, ok var hann með honum annann vetr, þá undi hann þar eigi lengr, fèkk Guðmundr honum þá vist á litlum bæ, er hèt á Kálfskinni, ok var þar fátt hjóna, þar var Hrærekr 3 vetr, ok sagði hann svâ, at síðan hann lèt af konúngdómi, at honum hefði þar bezt þótt á Kálfskinni, þvíat hann var þar af öllum mest metinn. Þá tók Hrærekr konúngr sótt, þá er hann leiddi til bana; svâ er sagt at hann einn konúnga hvíli á Íslandi. Þórarinn Nefjólfs-

[1]) retti, C.

son hafðist síðan lengi í kaupferðum, en stundum var hann með Ólafi konúngi. Þat sumar er Þórarinn Nefjólfsson fór til Íslands með Hrærek konúng, þá fór Hjalti Skeggjason ok til Íslands, ok leiddi Ólafr konúngr hann með vingjöfum í braut, er þeir skildust. Þat sumar fór Eyvindr úrarhorn í vestrvíkíng, hann kom um haustit til Írlands, ok gekk til handa Konofögr Íra konúngi. Þeir hittust um haustit í Úlfreksfirði[1] Íra konúngr ok Einarr jarl or Orkneyjum, ok varð þar orrosta mikil, hafði Konofögr Íra konúngr lið miklu meira ok fèkk hann sigr. Einarr jarl flýði undan einskipa, ok kom um haustit heim í Orkneyjar, ok hafði þar látit flestallt lið sitt ok herfáng allt, þat er þeir höfðu fengit um sumarit, ok undi jarl stórilla við sína ferð, ok kendi þat mest Norðmönnum þeim, er verit höfðu með Konofögr Íra konúngi í orrostu, en þat var Eyvindr úrarhorn ok hans sveitúngar.

83. Nú er þar til máls at taka er Ólafr konúngr Haraldsson fór brúðlaupsferð sína, at sækja festarmey sína Íngigerði, dóttur Ólafs Svía konúngs, hann hafði lið mikit ok valit svâ mjök, at honum fylgði allt stórmenni, þat er hann mátti ná, hann hafði valit lið með sèr bæði at ættum ok svâ at gjörviligleikum; lið þat var ok búit með hinum beztum faungum at skipum ok vâpnum ok klæðum. Þeir hèldu nú austr til Konúngahellu, ok er þeir komu

[1]) Ulfkelsfirði, *B*, *D*, *K*, *S*.

þar, þá spurr Ólafr konúngr ekki til Svía-konúngs, voru þar ok aungvir menn komnir af hans hendi. Ólafr konúngr dvaldist þar lengi um sumarit, ok leiddi at spurníngum ok njósnum um, hvat menn kynni at segja honum frá ferð eða ráðaætlan Svía konúngs[1], en engi kunni honum þar nè eitt af at segja; þá gerði hann menn sína upp í Gautland til Rögnvalds jarls, ok spyrja eptir hvat tilbar, er Svía konúngr kom eigi, eptir því sem ákveðit var, til stefnu við Ólaf konúng. Jarl segir at hann vissi þat eigi: en ef ek verð þess viss, þá mun ek þegar senda menn til Ólafs konúngs, ok láta hann vita, hvert efni í er, ef dvöl þessi er fur nökkut annat enn af fjölskyldu þeim, er opt kann tilbera um ferðir Svía konúngs, er jafnan dvelst meirr enn hann ætlar.

84. Ólafr Svía konúngr átti furst frillu, er hèt Eðla, hún var dóttir jarls af Vindlandi; börn þeirra voru þau Emundr ok Ástríðr ok Hólmfríðr; Eðla hafði verit hertekin af Vindlandi, ok var hún kölluð konúngs ambátt; enn gátu þau son, ok var hann fæddr á Jacobsmessu[2] dag, en er skíra skyldi sveininn, þá lèt hún hann heita Jacob, en þat nafn líkaði Svíum illa, ok kallaðu at aldrí hefði Svía konúngr Jacob heitit; öll voru börn Svía konúngs mannvænlig ok fríð sýnum ok vel viti borin. Drottn-

[1]) *hèr byrjar G aptr.* [2]) Jacobsvöku, *hin.*

ing var ríklunduð ok ekki vel til stjúpbarna sinna. Konúngr sendi Emund son sinn til Vindlands, ok fæddist hann þar upp með móðurfrændum sínum, ok hèlt vel[1] kristni lánga hríð; en Ástríðr konúngsdóttir fæddist upp í Vestra-Gautlandi at göfugs manns, er Egill hèt, hún var kvenna fríðust sýnum ok bezt orðfarin, glaðmælt ok lítillát, mild af fè, ok var hún af því allra kvenna vinsælust; en er hún var fullkomin at aldri, þá var hún með Ólafi konúngi, föður sínum, ok þokkaðist þar hverjum manni vel. Ólafr konúngr var maðr ríklundaðr ok óþýðr, bæði í máli ok svâ í skaplyndi; honum líkaði stórilla þat, er landherr hafði gjört at honum þys á Uppsala þíngi ok heitit honum afarkostum, ok kendi þat mest Rögnvaldi jarli; engan tilbúnað lèt hann hafa um brúðferðina, eptir því sem mælt var, at gipta Íngigerði, dóttur sína, Ólafi Noregs konúngi, nè svâ at fara um sumarit til landamæris, at finna Noregs konúng; en er á leið sumarit ok fur vân var komit at Svía konúngr mundi þá stefnu sækja, eptir því sem mælt var, þá gjörðist mörgum manni forvitni á, hverja ætlan konúngr mundi á hafa, hvârt hann mundi halda sætt við Noregs konúng, eðr mundi hann ætla at rjúfa. Margir voru við þetta hugsjúkir, en engi var svâ djarfr at þyrði at spurja konúnginn máls at um þetta, en margir kærðu þetta fur Íngigerði konúngs dóttur, ok báðu hana til at

[1]) ekki, *F*, *G*.

verða vísa, hverja tilætlan konúngr mundi hafa; ófús em ek þess, segir hún, at tala þar til um skipti þeirra föður míns ok Ólafs digra; henni fèkk þetta mikillar áhyggju, ok var hèr laungum hugsjúk um ok úkát, þvíat henni var hèr ok mikil forvitni á, hverja ætlan konúngr mundi hafa, ok hvat hann mundi upptaka, grunaði hana þó þat meirr, at hann mundi eigi halda orð sín við Noregs konúngs, þvíat þat fannst á í hverju sinni, er Ólafr digri var konúngr kallaðr, at Svía konúngr varð reiðr.

85. Þat var einn dag at Svía konúngr reið með hauka sína ok hunda ok margt manna með honum; en er þeir fleygðu haukunum, þá drap konúngs haukr í einu renzli tvâ orra, ok þegar eptir þá rendi hann enn fram ok drap þá enn 3 orra; hundarnir ljópu niðri undir jafnfram, ok tóku hvern fuglin er á jörð kom ok færðu konúngi; konúngr tók við fuglunum, ok hældi nú mjök veiði sinni, ok sagði svâ: lángt mun yðr til flestum, at þèr veiðið svâ; þeir sannaðu at svâ mundi vera, ok sögðu engan konúng mundi slíka gæfu tilbera (um) sína veiði sem hann. Reið konúngr nú heim í garðinn, ok allir þeir. Konúngsdóttir var þá gengin út or herbergi sínu ok var glöð vel, en er hún sá at konúngr reið í garðinn, þá snèri hún þegar ok heilsar honum; hann fagnar henni hlæjandi, ok bar þegar fram veiði sína, sýndi henni fuglana. Hann mælti: hvar veizt þú þann konúng, dóttir! segir hann,

er jafnmikla veiði hafi fengit á lítilli stundu? Já, segir hún, góð morginveiðr er þetta, er þèr hafið tekit fimm orra, en meira ágæti var þat, er Ólafr Noregs konúngr tók fimm konúnga á einum morni, ok eignaðist svâ allt ríki þeirra. En er konúngr heyrði þetta, þá hljóp hann af hestinum, ok snèrist við henni, ok mælti: vit þú þat, Íngigerðr! svâ[1] mikla ást sem þú hefir á þeim hinum digra manni ok elsku við hann lagt, þá skaltu hans aldrí njóta ok hvârki ykkart annars, skal ek heldr gipta þik þeim manni nökkurum, er mèr sè vel vinátta við eigandi, en ek má aldrí vera vin þess manns, er ríki mitt hefir gert svâ at herfángi ok kastat á sinni eign, ok gert mèr skömm ok skaða bæði í manndrápum ok ránum. Slitu þau svâ sinni ræðu, at hvârttveggja var blóðreidt, gekk þá sína leið hvârt þeirra. Íngigerðr konúngs dóttir var nú vís vorðin hins sanna um furætlan Svíakonúngs, ok gerði hún sendimenn ofan í Vestra-Gautland til Rögnvalds jarls, ok lèt segja honum, hvat tídt var með Svía konúngi, at brugðit var öllu sáttmáli við Noregs konúng, ok bað jarl varast ok aðra Vestr-Gauta, ok sagði þeim mundu ósýnan friðin af Noregs mönnum. En er jarl hafði spurt þessi tíðindi, þá sendi hann orð ok boð um allt sitt ríki, ok bað menn viðvarast, ef Noregs konúngr vildi herja á þá; jarl gjörði ok sendimenn til Ólafs konúngs digra ok lèt segja

[1]) *hèr byrjar E aptr.*

honum, at hann vill halda öllu sáttmáli ok vináttu[1], ok allt þat er þeir höfðu bezt viðmælzt, ok beiddi þess með, at hann skyldi eigi herja á ríki hans. En er þessi orðsendíng kom til Ólafs konúngs, varð hann reiðr mjök ok hugsjúkr, ok var þat þá nökkura daga at engi maðr fèkk orð af honum; en eptir þat átti hann húsþíng við lið sitt, hvern upp skyldi taka, hvârt herja skyldi þegar á Vestr-Gauta, er þeir voru þar næstir, ok á ríki Rögnvalds jarls. Þá stóð upp Björn stallari ok talaði, hóf þar furst er hann fór til friðgjörðarinnar um vetrinn, ok sagði frá því, hversu jarl hafði honum vel fagnat, hann segir ok hversu þúngliga Svía konúngr hafði tekit þeim málum í furstu[2], en sú sætt, er gjör var, segir hann, þá var þat meirr af styrk fjölmennis ok ríki Þorgnýrs ok liðveizlu Rögnvalds jarls, enn þat væri af góðvilja Ólafs Svía konúngs, ok þikkist ek af því vita, at konúngr mun því valda, er sættinni er brugðit, en þat er ekki jarli at kenna, þvíat hann reyndi ek sannan vin yðvarn, konúngr! Síðan talaðu margir menn, ok kom í einn stað niðr at lyktum, at allir lattu hernaðar, ok sögðu svâ: Þóat vèr hafim lið mikit ok frídt, þá er hèr saman samnat ríkum mönnum ok göfugum, en til hernaðar eru bezt fallnir úngir menn, þeir er gott þikkir at afla sèr fjár ok metnaðar, er þat ok háttr ríkra manna, ef

[1]) *Hèr sleppr D um sinn.* [2]) *Hèr byrjar J aptr.*

þeir skulu fara í hernað eðr orrostur, at þeir hafa með sèr marga menn til hernaðar ok hlífðar, berjast ok opt þeir eigi verr, er lítit fè eigu, enn hinir er ríkari eru ok auðigri eru uppfæddir. Ok at fortölum þeirra var þat ráðs tekit at rjúfa leiðángrinn, gaf konúngr þá hverjum manni heimfararleyfi, en lýsti því at annat sumar skyldi hann leiðángr úti hafa frá öllu landi, ok halda þá til móts við Svía konúng, ok hefna þessa lausmælis. Þetta líkaði öllum höfðíngjum vel. Fór þá Ólafr konúngr norðr í Víkina ok settist um haustit í Borg, ok lèt þágat tildraga öll faung þau, er hann þurfti til vetrar, ok sat þar um vetrinn fjölmennr.

86. Menn mæltu allt misjafnt til Rögnvalds jarls, töldu sumir hann sannan vin Ólafs konúngs, en sumum þótti þat ekki trúligt mjök, ok kölluðu hann ráða mundu því við Svía konúng, at hann hèldi orð sín við Noregs konúng ok sáttmál. Þat er sagt, at Sighvatr skáld var mikill vin Rögnvalds jarls í orðum sínum, ok talaði opt fur konúngi um vináttu jarls, hann bauð konúngi at fara austr á fund Rögnvalds jarls ok njósna um, hvers hann vyrði viss frá Svía konúngi, hvat hann bærist fur, eðr freista, ef hann mætti nökkurri sætt við koma. Ólafi konúngi líkaði þat vel, þvíat honum þótti gott fur trúnaðar mönnum sínum at tala til Íngigerðar konúngsdóttur. Öndverðan vetr fór Sighvatr skáld ok þeir 3 saman or Borg, ok austr

um Markir ok svâ til Gautlands, en áðr þeir skildu, þeir Ólafr konúngr, þá kvað Sighvatr vísur þessar:

Nú sit þú heill, en hollir[1]
hèr finnumst, meirr þinnar
aptr[2] unds ek kem vitja,
Ólafr konúngr! mála;
skáld biðr hins, at halda[3]
hjálm-drífu[4] stafr[5] lífi,
endist leyfð, or[6] landi
lýk ek vísu nú þvísa.

Nú eru [mál þau er mæla[7]
meir kunnum skil fleiri
orð þau er oss of varða
alls mest konúngr flestra;
guð láti þik gæta,
geðharðr konúngr! jarðar,
víst hefig þann, þvíat þinnar
þú ert tilborinn, vilja[8].

Síðan fóru þeir til Eiðaskógs, ok fengu íllt far yfir ána, eikjukarfa nökkurn, ok komust nauðuliga yfir. Sighvatr kvað:

Lèt ek til Eiðs, þvíat óðumst
aptrhvarf, dreginn karfva,
vèr stiltum svâ, valtan,
vátr, til glæps á báti;

---

1) hallar, *C, E, G, K, L, S*; hallir, *J.* 2) atti, *C*; at, *E, G, L, S.* 3) haldi, *C, E, G, J, L.* 4) hjálmdrífr, *C, E, S*; hríngdrífr, *G, H, J.* 5) viðr, *B, E, K, S*; þú, *C*; frömu, *G, J.* 6) ok, *C, E, G, J, S*; í, *L.* 7) mælt en mála, *hin.* 8) *vís. v. í H.*

taki hlægi-skip hauga[1]
herr, sákat ek far verra,
lèt ek til hafs[2] á hrúti
hætt, fór betr enn ek vætta[3].

Síðan fóru þeir um Eiðaskóg; Sighvatr kvað:

Vara furst, er ek rann rastir,
reiðr, um skóg frá Eiðum,
menn[4] [veit at ek mæti[5]
meini, tólf ok eina;
hykk á fót, en flekkum[6]
fèll sár á il hvára,
[hvat gegnir þat þángat[7],
þann dag, konúng manna.

Síðan fóru þeir um Gautland, ok komu á þann bæ, er Hof heitir, þar var hurð aptr, ok komust eigi menn í húsin, sögðu at þar var heilagt ok engum manni lofat inn at koma; brott hurfu þeir þaðan; Sighvatr kvað:

Rèð ek til Hofs at hæfa,
hurð var aptr, en ek spurðumst,
inn setta ek nef nenninn[8]
niðr[9] lútr, fur útan;
orð gat ek furst[10] [at furstum[11]
flögð bað ek, en þau þögðu[12],
hnektust[13] heiðnir rekkar,
heilagt, við þau deila.

---

1) hörga, *B.* 2) heims, *hin.* 3) *vís. v. í H.* 4) of, *b. v. hin.* 5) veita för mætum, *J.* 6) flestum, *C, E, G, L.* 7) hvatt gengum þó þíngat, *hin.* 8) nætinn, *J.* 9) mjök, *b. v. C.* 10) föst, *B, G*; fæst, *C, S*; flest, *J.* 11) af fyrðum, *hin.* 12) sögðu, *E, F, L.* 13) hnektumst, *B, E, K, S*; hnækþumk, *C, G.*

þá kom hann at öðrum garði, ok stóð þar húsfreyja í durum úti, ok bað þá eigi þar inn koma, sagði at þau bóndi áttu þar inni álfa blót; Sighvatr kvað:

Gakkattu inn, kvað ekkja,
armi drengr hinn! lengra,
hræðumst ek við Óðins,
erum heiðin við, reiði;
rýgr kveðst inni eiga
óþekk, sú er mèr hnekkði,
álfablót, sem úlfi[1]
[at vins, á bæ sínum[2].

Annat kveld kom hann til 3gja bónda, ok hèt hverr þeirra Ölver, ok ráku þeir hann allir út; þá kvað Sighvatr vísu[3]:

Nú hafa hnekt, þeir er hnakka,
heinflets, við mèr settu,
þeigi bella, þollar,
þrír samnafnar tíri;
þó sjámst[4] hitt, at hlæði[5]
hafskíðs muni síðan
út, hverr er Ölver heitir,
alls mest reka gesti.

þá fóru þeir enn um kveldit, ok hittu hinn 4ða bónda, ok var sá beztr þegn þeirra; út rak sá Sighvat; hann kvað þá vísu:

Fór ek at finna báru,
friðs vætta ek mèr, síðan,

---

1) úlfr, *G.* 2) óttvin í, *B*, *C*; út vin í, *E*, *K*, *L*; ot vin á, *G*, *S*; otuin í, *J*. 3) *hèr sleppr E um sinn.* 4) sjáamk, *C.* 5) hlæðir, *hin.*

brjót, þann er bragnar lètu,
bliks vildastan miklu;
grefs[1] leit við mèr gætir,
gestr þá er illr hinn vesti,
lítt reiði[2] ek þó lýða
last[3], ef sjá er hinn bazti.
Mista ek fur austan
Eiðaskóg á leiðum
Ástu buss, þá er æstag
ókristinn hal vistar;
ríks fannka ek son Saxa[4],
saðr var aungr fur þaðra,
út var ek eitt kveld heitinn,
inni[5], fjórum sinnum.

Ok er þeir komu til Rögnvalds jarls, kvað hann þá haft hafa erfviða ferð; Sighvatr kvað vísu:

Átt hafa sèr, þeir er sóttu,
sendimenn, fur hendi,
Sýgna grams, með sagnir
siklínga, för mikla;
spurðist[6] færst[7], en[8] furða[9]
faung eru stór viðgaungu,
vörðr veldr[10] nýtr því, er norðan,
Noregs, þinnig fórum.
Drjúg gengit varð drengjum,
drengr magnar lof þengils,
æztr[11], til jöfra þrýstis

[1]) greps, *J.* [2]) reifi, *F.* [3]) löst, *B, C, G, J, K, S.* [4]) slíkan, *B.* [5]) innann, *G, J, S.* [6]) spörðumst, *B, G, L*; spörðust, *C*; spurðumst, *hin.* [7]) flest, *C, F, J, L*; fæst, *hin.* [8]) nè *B*; er, *J.* [9]) firða, *hin.* [10]) rèð, *hin.* [11]) austr, *hin.*

Eiðaskógs á leiðum;
[seldir mest[1], áðr mildan
minn drottinn kem[2] ek finna,
hlunns af hilmis runnum
hnekkt[3] dýrliga[4] bekkjar.

Rögnvaldr gaf Sighvati gullhríng, þá tók til orða kona ein, ok kvað hann hafa gengit til nökkurs með þau hin svörtu augun; hann kvað þá vísu:

Oss hafa augun þessi
íslenzk, konan! vísat
brattan stig at baugi
björtum lángt, hin svörtu;
sá hefir, mjöð-nannan! manni,
minn[5], ókunnar þínum,
fótr[6] á fornar brautir
fulldrengila gengit.

En er Sighvatr kom heim til Ólafs konúngs, ok gekk inní höllina ok sá á hallarveggina, hann kvað þá:

Búa hilmis sal hjálmum
hirðmenn, þeir er val[7] grenna
hèr sè ek bens [á búnum[8]
beggja kost á veggjum;
þvíat úngr konúngr engi,
ygglaust er þat, byggva[9],
húsbúnaði [at hrósa[10],
höll er dýr með öllu.

1) skyldit mèr, *hin.* 2) kom, *B, F, L.* 3) hnekkr, *C, F.* 4) dýrloga, *G.* 5) mín, *B, C, F, J, L, S.* 6) fætr, *B, C, F, L, S.* 7) svan, *hin.* 8) ok brynju, *hin.* 9) dyggva, *hin.* 10) á hrósa, *C*; hrósar, *H, J.*

Síðan sagði hann frá ferð sinni, ok kvað:

Hugstóran[1] bið ek heyra,
[hvers fórst[2], jöfur[3], þessar,
þolda ek vas, ok[4] vísur,
verðúng, um för gerðag;
sendr var ek upp af[5] öndrum
austr, svaf ek fátt í hausti,
til Svíþjóðar, síðan,
svanfángs[6] í för lánga[7].

Ok þá er hann talaði við Ólaf konúng, kvað hann vísur þessar:

Lèt ek við yðr, hinn itri
Ólafr! hugat[8] málum
rètt ok, ríkan hittag
Rögnvald, konúngr! haldit;
deilda ek máls [hins milda[9]
málma vörðu[10] Hörða[11]
[mögr! nè ek heyrði hèðra[12]
heið manns tölur greiðri.

Þik bað [stála stökkvir[13]
sinn halda[14] vel, Rínar,
hvern þann er híngat árnar
húskarl, nefi jarla!
en hverr, er austr vill sinna,

---

[1]) hugstóra, *hin.* [2]) hvers fors; *B*; hresslynds, *G*; hress fors, *S*; hressför, *J*; hresslyndr, *hin.* [3]) jöfurs, *B*, *G*, *J*, *K*, *S.* [4]) en, *G*; hve, *hin.* [5]) frá, *B.* [6]) svanvángs, *G*, *J.* [7]) *vís. v. í H.* [8]) hugar, *B*, *C*; hygg at, *L.* [9]) enn milda, *B*, *C*; við mildan, *G.* [10]) vörðs, *B*; vörð, *C*, *G*, *H*, *J*, *K*, *L.* [11]) í Görðum, *hin.* [12]) Hörða mögr (mágr *B*) nè ek heyrða, *B*, *C*; harða mörg nè ek heyrða, *hin.* [13]) sólar sökkvir, *hin.* [14]) halda inn, *C*, *F*, *L.*

jafnvíst er þat, lista
þengill! þinna drengja,
þar á hald und Rögnvaldi.

Ok enn kvað hann:

Fólk rèð um sik, fylkir!
flest, er ek kom vestan,
ætt, sem [yðr of hittag[1],
Eiríks Svía[2] fleiri[3];
en því at[4] jarla frænda
eins þat er rètt[5] af Sveini
yðr kveð ek jörð[6] þá er áttuð[7]
Úlfs bróður lið stóðust.
Spakkr lèzt[8] Úlfr[9] meðal ykkr[10]
Ólafr! rekit[11] málum,
þau fengu [vèr þángat
þat eru svör, konúngr! gerva[12];
[þá er[13] lèt jöfra[14] rýrir
þær sem öngvar væri
riptar reknar heiptir
Rögnvaldr gefit[15] aldar.

Öndverðan vetr fór Sighvatr or Borg, sem fur var ritat, ok þeir 3 saman austr um Merkr ok svâ til Gautlands, ok fèkk hann í þeirri ferð optliga illar viðtökur. Sighvatr skáld kom til Rögnvalds jarls, ok var þar í góðum fagnaði lánga hríð, þá spurr hann þat til Íngigerðar, dóttur Ólafs Svía

1) áðr um hvatti, *hin.* 2) svika, *H, J, K, S.* 3) þeirra, *hin.* 4) er, *b. v. B.* 5) tókt, *hin.* 6) orð, *J.* 7) náðu, *J*; náðut, *hin.* 8) lèt, *hin.* 9) Ulf, *C.* 10) okkar, *K.* 11) tekit, *B, C, H, J, L.* 12) svör sætta, sakar leggit þit beggja, *hin.* 13) þar, *F, L*; þèr, *hin.* 14) þjófa, *C, G, H, J, K, L, S.* 15) kveðit, *C, G, L.*

konúngs, at komit höfðu til föður hennar sendimenn Jarizleifs konúngs austan or Hólmgarði þess erindis, at biðja Íngigerðar til handa Jarizleifi konúngi, ok þat með, at Ólafr Svía konúngr tók þessu máli allvænt; þá kom ok til jarls, meðan Sighvatr var þar, Ástríðr, dóttir Ólafs Svía konúngs, var þar þá fögur veizla gjör. Gjörðist Sighvatr þá brátt málkunnigr konúngsdóttur, kannaðist hún brátt við hann, þvíat Óttarr svarti, systurson Sighvats, hafði þar lengi verit í kærleikum miklum með Ólafi Svía konúngi, föður hennar; þá var þar margt talat. Jarl spurr þá Sighvat, hvat hann ætlaði, hvârt Ólafr Noregs konúngr mundi fá vilja Ástríðar: ok ef hann vill þat, segir jarl, þá munu vèr ekki at því spurja Svía konúng um þetta mál, hvârt sem honum líkar betr eðr verr. Slíkt hit sama sagði Ástríðr konúngsdóttir. Eptir þat fóru þeir Sighvatr heim, ok komu heim litlu fur jól til Borgar á fund Ólafs konúngs. Brátt sagði Sighvatr Ólafi konúngi þau tíðindi sem hann hafði spurt, varð hann furst fárr ok ókátr, er Sighvatr sagði honum bónorð Jarizleifs konúngs, ok sagði konúngr svâ, at honum var ílls vân af Svía konúngi, nærr sem vèr fáim honum þat goldit með nökkuru móti. En er frá leið, þá spurr konúngr margra tíðinda austan af Gautlandi. Sighvatr segir honum mikit af fríðleik Ástríðar konúngsdóttur ok málsnild hennar, konúngi fèll þat vel í eyru. Sagði Sighvatr honum þá allar ræður

þeirra Rögnvalds jarls ok Ástríðar konúngsdóttur, er þau öll saman hafa talat sín í milli, ok fannst konúngi mart um, ok mælti svâ: eigi mun Svía konúngr þat hyggja, at ek muni þora at fá dóttur hans utan hans vilja; en ekki var þetta mál borit fur alþýðu at svâ búnu. Ólafr konúngr ok þeir Sighvatr 2 saman töluðu opt um þetta mál sín á milli. Ólafr konúngr spurr Sighvat eptir vandliga, hvat hann kannaði af um Rögnvald jarl, hverr vinr hann er vârr. Sighvatr segir sem var, at jarl var hinn mesti vinr Ólafs konúngs; þá kvað Sighvatr vísu þessa:

Fast skaltu ríkr við ríkan
Rögnvald, konúngr! halda,
hann er þýðr af þinni
þörf nátt ok dag, sáttum;
þann veit ek, þínga kennir!
þik beztan vin miklu
á Austrvegu eiga
allt með rauða salti.

87. Eptir jól fór Þórðr skotakollr, son[1] Sighvats, ok annar skósveinn hans[2] með honum leyniliga frá hirðinni, þeir fóru austr á Gautland, þeir höfðu báðir áðr um haustit farit austr þannig með Sighvati. En er þeir komu til hirðar jarls, þá báru þeir fram jartegnir þær, er þeir jarl höfðu gjört með sèr at skilnaði; ok þegar jafnan skjótt býst jarl til ferðar, ok með

[1]) systurson, C, F, G, J, L. [2]) Sighvats, L.

honum Astríðr konúngsdóttir, ok höfðu nærr hundrað manna ok valit lið at vâpnum ok klæðum ok hestum; riðu síðan leið sína norðr í Noreg til Sarpsborgar, ok komu þar at kyndilmessu. Ólafr konúngr hafði látit viðbúazt, var þar allskonar drykkr, er beztan mátti fá, ok öll önnur föng voru hin beztu; ok hann hafði þá stefnt til sín or hèraðum mörgum göfgum mönnum. En er jarl kom þar liði sínu, þá fagnaði konúngr honum vel, ok voru jarli fengin herbergi stór ok góð ok búin ítarliga, ok þar með þjónustumenn, ok þeir menn er þar skyldu fur sjá, at engan lut skyrti þann, er veizlu mætti prýða. En er sú veizla hafði staðit nökkura daga, þá gekk konúngr ok jarl ok konúngsdóttir á málstefnu, leitaði Ástríðr konúngsdóttir marga vega eptir spakliga um sætt milli föður hennar ok Ólafs konúngs, en Ólafr konúngr sagðist gjarna vilja sættast, ef Svía konúngr hèldi orð sín, ok gipti honum Íngigerði dóttur sína. Ástríðr svarar: sá einn lutr er svâ, at faðir minn tekr þvert at gipta þèr Íngigerði, þvíat hann kallar ykkr þat girndar ráð; nú megum vèr eigi ráða um hennar gjaforð, en þat er til vor kemr um ráðahag, þá mun þat eigi hèr hnekkja, at þetta megi girnda ráð heita. Konúngr svarar: göfgann ráðahag ætla ek at fá yðvarar, en þó hafða ek mèr hinn ætlat. Þau Ólafr konúngr ok Ástríðr töluðu allan þann dag; um kveldit fór Ástríðr til síns herbergis, ok jarl með henni. Annann

dag fór Ástríðr til tals við konúng, ok leitaði enn um sættir meðal þeirra konúnganna, ok komu engu til vegar; enn 3ja dag kom hún til fundar við Ólaf konúng, ok leitaði friðar, ok kveðst ætla at faðir hennar mundi unna honum þess ráðs, at fá hennar, en konúngr lèt sèr ekki um þat finnast. Nú er Ástríðr hefir marga vega spakliga eptirleitat um sætt milli konúnganna, ok sá at Ólafr vildi því at einu sættast, ef hann fengi Íngigerðar, þá mælti hún við konúng: eigi mun ek optarr þessa erendis koma á yðvarn fund, at biðja yðr, herra! friðar, þvíat ek hefir allt tillagit í mínum orðum, þat er ek hefir vit til haft, ok mundi ek eigi svâ framt talat hafa, ef ek sæi eigi, hversu mikit viðlægi; nú fel ek yðr á hendr alla ábyrgð yðvarra mála, ok hygg at, svâ vitr maðr sem þú ert af öllum taldr, hvat þú gefr í milli tveggja systra, þeirra er sumir menn kalla eigi svâ mikinn mun vera, er þú vill berjast til annarrar, en nítir annarri, þó at náliga bjóðist þèr, er þess ok meiri vân, at þèr gefið mjök margra kristinna manna líf við yðvarri þrályndi. Ok er hún hafði svâ mælt, þá segir svâ, at hún reið í brott með sínu föruneyti; þá gekk konúngr á einn haug, er þar var skamt á brott, ok kvað vísu þessa:

Fjögr stóð ek meðan bar brúði
blakkr ok sag' á sprakka

[1] sat, *L.*

oss lèt yndis missa
augfögur kona af haugi;
[keyrði gefn[1] or garði
góðlát vala slóðar[2]
eyk ek en eitt mein sækir
jarl hvern konan snarlig.

Satt er þat, segir konúngr, er Ástríðr sagði, at mikill glæpr er þat, at gefa margra kristinna manna líf í milli tveggja systra, ok þó eigi ráðit hvart vèr næðim þeirri, er oss er meiri hugr á, ok skal nú sækja Ástriði, ok vil ek enn tala við hana. Var þá svâ gjört, kom hún enn til konúngs, ok sátu þau jarl öll samt á tali, ok kom þat upp af tali þeirra, at sú ráðagerð var höfð, at Rögnvaldr jarl fastnaði Ólafi konúngi Ástríði, dóttur Ólafs Svía konúngs, með þeirri allri heiman fylgju, er haft skyldi hafa Íngigerðr, systir hennar; var nú veizlan aukin af nýju, ok var þá drukkit brúðkaup Ólafs konúngs ok Ástríðar drottníngar með vegsemd mikilli. Eptir þat fór Rögnvaldr jarl aptr til Gautlands, ok at skilnaði veitti Ólafr konúngr jarli góðar gjafar, ok skildust hinir kærastu vinir, ok hèldu því meðan þeir lifðu báðir.

88. Eptir um vârit komu til Svíþjóðar sendimenn Jarizleifs konúngs austan af Hólmgarði, ok fóru at vitja mála þeirra, er Ólafr konúngr hafði áðr um sumarit heitit, at gipta dóttur sína Íngigerði Jarizleifi konúngi. Hún

[1]) þey var gefit, *L.* [2]) slóðir, *L.*

segir svâ, þá er Ólafr konúngr leitaði þeirra mála við hana, ok sagði þat vera sinn vilja: ef ek skal gipíast Jarizleifi konúngi, segir hún, þá vil ek hafa í tilgjöf mína Aldeigjuborg, ok þat[1] ríki er þar liggr til, vil ek ok þá ráða fyrir því ríki, er þar liggr, slíkt er mèr líkar, ok skipa þeim yfir, er ek vil. Sendimenn játtu þessu af hendi Garða konúngs. Þá mælti Íngigerðr til Ólafs konúngs, föður síns: ef ek skal fara austr í Garðaríki, ok gera þat eptir þínum vilja, faðir! þá vil ek kjósa mann þann or Svíaríki, er ek vil, ok mèr þikkir bezt tilfallinn mèr at fylgja, vil ek ok þat tilskilja við yðr alla saman, at sá maðr hafi eigi minni nafnbót austr þar enn hèr, ok í engann stað minni metorð nè verra rètt, enn hann hefir hèr í Svíþjóð. Þessu játti konúngr ok allir þeir, seldi konúngr ok sendimenn trú sína til þessa máls. Þá spurr konúngr Íngigerði, hverr sá maðr væri í hans ríki, er hún vill kjósa til fylgðar við sik. Hún svarar: sá maðr er Rögnvaldr jarl Úlfsson, frændi minn. Konúngr svarar: annann veg hefi ek ætlat at launa honum drottinssvikin þau, er hann fór til Noregs í vetr með dóttur mína, ok seldi hana til frillu þeim hinum digra manni, er hann vissi mestan áðr vârn úvin, ok skal hann heldr fur þá sök uppi hánga þetta sumar. Íngigerðr bað þá föður sinn efna orð sín ok halda trú sína, er hann

[1]) jarls, *K*, *S*.

hafði áðr selt henni; kom þá svâ af fortölum hennar ok bæn, at konúngr sagði at Rögnvaldr jarl skyldi fara í griðum á brott or Svíaveldi, ok koma eigi í Svíþjóð meðan Ólafr væri konúngr fyrir Svíaveldi. Íngigerðr sendi þá menn á fund Rögnvalds jarls, ok lèt segja honum þessi tíðindi, ok gerði honum stefnulag, hvar þau skyldu hittast. Jarl bjóst þegar til ferðar, ok reið upp í Eystra-Gautland, fèkk sèr þar skip ok hèlt liði sínu til móts við Íngigerði konúngsdóttur, fóru þá síðan öll saman austr í Garðaríki, var Rögnvaldr jarl þar lengi síðan, ok þótti ágætr maðr. Synir hans voru þeir Úlfr ok Eilífr jarl.

89. Maðr er nefndr Emundr[1] af Skörum, hann var lögmaðr á Vestra-Gautlandi, hann var vitr maðr ok orðsnjallr, hann var frændmargr ok stórauðigr, hann var kallaðr undirhyggjumaðr ok meðallagi trúr, hann var þá ríkastr maðr í Vestra-Gautlandi, er Rögnvaldr jarl var í brottu. Þat vâr, er Rögnvaldr jarl fór í brott af Gautlandi, áttu Gautar jafnan þíng, ok kærðu optliga sín á milli, hvat Svía konúngr mundi tiltaka; þeir spurðu þat til sanns, at hann var þeim reiðr fur þat, er þeir höfðu vingast við Ólaf Noregs konúng, heldrenn haldit deilum viðhann, hann bar ok sakir á þá menn, er fylgt höfðu Ástríði dóttur hans í Noreg; mæltu þat margir, at þeir skyldu leita sèr trausts til Nor-

[1]) Eyvindr, *C*; Eymundr, *F*, *G*, *K*, *L*, *S*.

egs konúngs ok bjóða honum sína þjónustu; sumir löttu þess, ok sögðu, at Vestr-Gautar höfðu ekki styrk til þess at halda deilu ok úfrið ímóti Svíum: en Noregs konúngr verðr oss fjarri, sögðu þeir, þvíat landsmegin hans er oss fjarri, ok er hinn til furst, at gera mann til Svía konúngs, ok freista, ef sætt kemr á við hann, en ef þat fæst eigi, þá er oss kostr at leita trausts til Noregs konúngs. Báðu menn Emund at fara þessa ferð, en hann kvað já við, ok fór síðan, er hann var búinn, með 30 manna, ok komu fram í Eystra-Gautlandi, ok voru þar fur margir frændr hans ok vinir, fèkk hann þar góðar viðtökur; hann átti þar tal við alla hina vitrastu menn um þetta mál ok vandkvæði þat, er á þeim lá, ok kom allt ásamt með þeim, ok þótti mönnum mikit um siðleysu þá, er konúngr gjörði, ok þóttust trautt bera mega. Fór Emundr uppí Svíþjóð, ok átti þar tal við marga ríkismenn, ok kom þat allt í einn stað niðr, at allir urðu samþykkir við hann. Hann heldr fram ferð sinni til þess, er hann kom aptan dags til Uppsala, þar sem var konúngs atseta, tók sèr þar gott herbergi, ok dvöldust þar um nóttina; eptir um daginn gekk Emundr á konúngsfund, þá er hann sat á stefnu ok fjölment um hann; Emundr gekk fur konúng, ok kvaddi ok hneigði honum ok kvaddi hann tíguliga. Konúngr sá í móti honum, ok heilsaði honum, ok spurr hann at tíðindum. Emundr svarar: smá ein eru tíðindi

með oss Gautunum, en þat þikkir oss ný tíðindi, er Atti[1] hinn dælski á Vermalandi fór í vetr uppá mörk með skíð sín ok boga, hann köllum vèr þángat mestan veiðimann, ok nú fèkk hann á fjallinu svâ mikla grávöru, at hann hafði fyllt skíðsleða sinn, svâ sem mest gat hann flutt eptir sèr; þá snýr hann heim af mörkinni, þá sá hann einn dag einn íkorna[2], þá varð Atti svâ reiðr, at hann lèt lausan sleðann, en rendi eptir íkornanum, en íkorninn kom sèr jafnan þar, sem þykkastr var skógrinn ok verst var eptir honum at sækja, stundum í viðarrætr, en stundum í limar upp, þá sigldi hann stundum í milli limanna ok annat trè or öðru, en er Atti skaut at honum, þá flaug æ fur neðan eðr ofan, en aldrí fór íkorninn svâ lángt undan, at eigi sæi Atti hann einart: honum varð svâ mikit kapp á þessari veiði, at hann skreið þar eptir allan daginn, en eigi at heldr gat hann veidt þenna íkorna; en er myrkva tók af nótt, þá kastaði hann sèr niðr á ísinn, þar sem hann var vanr á nætrnar, veðr var[3] ádrífanda ok kalt, en um morgunin, er ljóst var, fór Atti at leita sleða síns, ok fann aldrí, síðan fór hann heim við svâ búit. Slík eru mín tíðindi, herra! Konúngr svarar: lítil tíðindi, ef ekki eru meiri eðr merkiligri frá at segja. Emundr svarar: var enn fur skömmu þat, er tíðindi má kalla, at

[1]) Atli, *C, F, alstaðar.* [2]) í viðinum ok skaut at honum ok misti, *b. v. hin.* [3]) *Hèr sleppr I um sinn.*

Gauti Tófvason fór með 5 herskipum út[1] eptir Gautelfi, en er hann lá i Ekreyjum[2], þá komu þar Danir 5 kaupskipum stórum; þeir Gauti lögðu þegar at þeim, ok vunnu skjótt 4 kaupskipin, svâ at þeir lètu öngan mann, en fengu of fjár, en hit 5ta skip komst á haf út, ok komu segli við ok drógu undan; Gauti fór eptir þeim einskipa, ok dró furst bezt eptir, þá tók veðrit at vaxa, ok gekk þá meira kaupskipit, sóttist þá mjök hafit, vildi Gauti þá aptr snúa, þá gerði á storm sem mestan, braut hann þá skip við Hlèsey, týndist þar fè allt, þat er á skipinu var, ok mestr luti manna, en aðrir hans förunautar skyldu bíða hans í Ekreyjum; þá komu at þeim Danir með 15 kaupskipum, ok drápu þar hvert mannsbarn, en tóku fè allt til sín, þat er hinir höfðu áðr fengit; nú gafst þeim svâ ágirnin. Konúngr svarar: þetta eru mikil tíðindi ok frásögulig. Hvert er þitt erendi hígat? Eymundr svarar: ek fer, herra! at leita úrskurðar við yðr um vandræði vârt Gautanna, en þat er með því mótí, at lög vâr skilr á ok Uppsala lög. Hvat er þat, segir konúngr, er þú vill kæra? Emundr svarar: þar voru 2 menn eðli bornir, þeir voru jafnbornir at ætt, en újafnir at eignum[3] ok skaplyndi, þeir deildu um jarðir, ok gerði hverr öðrum skaða lánga hríð, ok gerði sá meiri skaða, er ríkari var áðr, en þeirra deila var um síðir niðrsett ok dæmt um mál

[1]) upp, *S.* [2]) Eikreyjum, *B*, *C*, *G*, *K*, *S.* [3]) *þannig hin*; ætt, *A.*

þeirra á allsherjar þíngi, ok laut sá at gjalda, er ríkari var, þvíat sá þótti meira hafa afgjört, en honum líkaði þat þó lítt. En at fursta sali, þá galt hann[1] gagl fur gás, en grís fur gamalt svín, en fur mörk gulls brends greiddi hann hálfa merk gulls, en aðra hálfa merk af leiri ok moldu, en á þat ofan hèt hann honum afarkostum þeim, er heimti fèit, ok tók hinn þó af honum þetta í sína skuld, ok þikkir oss slíkt ekki mjök rèttligt, eða hvat dæmið þèr um þetta mál, herra! þvíat yðvarn dóm skulu vèr halda um alla luti hèr í Svíaveldi? Konúngr svarar: gjaldi hann fullum gjöldum, slíkt er dæmt var í furstunni, en konúngi sínum 3 slík, en ef eigi er þetta fè goldit fur jafnlengð, þá skal hann fara útlægr af allri eign sinni, falli þá fè hans hálft í konúngsgarð, en hálft til þess, er sökina átti. Emundr skírskotar þeim konúngsdómi til þeirra laga, er gengu á Uppsalaþíngi. Eptir þat heilsaði Emundr á konúng, ok þakkaði honum sinn orskurð. Eymundr gekk þá út eptir þat, en þá hófu aðrir menn sínar kærur, ok sat hann þar lengi dags yfir málum manna. En er hann kom til borðs um daginn, þá spurr hann, hvar Emundr lögmaðr væri; honum var sagt, at hann var heima í herbergi. Þá mælti konúngr: hann skal vera í boði mínu í dag; þvínæst komu inn sendíngar, ok þar eptir

[1]) *hèr sleppr G um sinn.*

fóru inn leikarar með hörpur ok gígjur ok önnur saungtól, var þá konúngr hinn kátasti, ok hafði marga ríka menn í boði sínu um daginn, ok gáði þá ekki Emundar, drakk hann þann dag allan, ok svaf af nóttina; en at morni, er konúngr vaknaði, þá hugsaði hann, hvat Emundr hafði talat um daginn, en er hann var klæddr lèt hann kalla til sín spekínga sína; Ólafr konúngr hafði jafnan 12 hina mestu spekínga, þeir sátu yfir dómum með honum, ok rèðu vandamálum, þat var þó eigi vandalaust, þvíat konúngi líkaði illa, ef dómum var hallat frá rèttu, en eigi hlýddi at mæla í móti honum. A þeirri málstefnu tók konúngr svâ til orðs, bað þángat kalla Emund lögmann; en er sendimenn komu aptr, mæltu þeir svâ: herra! sögðu þeir, Emundr lögmaðr reið í brott í gær dags, þegar hann hafði snædt. Þá mælti konúngr: segið þèr, góðir höfðíngjar! hvat vissi lagafrètt sú, er Emundr spurði í gær. Þeir svöruðu: þèr munuð þat hugsat hafa, ef þat kom nökkut til annars enn þess, sem hann mælti. Konúngr mælti: þeir 2 menn eðli bornir, er hann sagði frá at úsáttir hefði verit, ok þó annar ríkari enn annar, ok gerði hvârr öðrum skaðā, þat sagði hann frá okkr Ólafi digra. Svâ er rètt, herra! sem þèr segið, segja þeir. Konúngr mælti[1]: en hvar kom þat til at hann sagði, at goldit væri gagl fur gás, en grís fur gamalt svín,

[1]) Dómr var á voru máli á Uppsala þíngi *b. v. hin.*

eðr leir ok mold fur hverja merk gulls? Arnviðr[1] blindi svarar: herra! hvat er úlíkara enn raudt gull ok mold, en meira skilr þó konúng ok þræl eðr þý, þèr hètuð Ólafi digra dóttur yðvarri Íngigerði, er konúngborin er í allar hálfur af Uppsvía ætt[2], er tignust er á Norðrlöndum, þvíat sú ætt er komin af goðunum sjálfum, en nú hefir Ólafr fengit Ástríðar, en þóat hún sè konúngborin, þá er þó ambátt móðir hennar ok þó vindversk; mikill munr er þeirra konúnga, er annar tekr slíkt[3] með þökkum, en annar lætr sem slíkt skuli eigi svâ gjört hafa, ok er þess at vân, at eigi megi nè einn maðr[4] jafnast við Uppsala konúng; gjöldum þar allir þökk fyrir at þetta haldist, þvíat goðin hafa lengi haft rækt mikla á ástmönnum sínum, þóat nú úrækist margir þann átrúnað. Þeir voru bræðr 3, Arnviðr blindi, hann var sýndr svâ lítt, at varla var hann herfærr[5], hann var manna snjallastr; annar hèt Þorviðr stami, hann fèkk eigi mælt tveim orðum lengra samfast, svâ var hann stamr, hann var þar maðr djarfastr ok einarðastr; þriði hèt Freyviðr daufi, hann heyrði ekki nema æpt væri at honum; þeir bræðr voru allir auðigir menn, ríkir ákafliga ok kynstórir, forvitrir voru þeir allir ok kærir konúngi. Þá mælti konúngr: hvat vitið þèr til, hví Eymundr sagði frá Atta dælska? Þá svarar engi, ok leit hverr þeirra

---

1) Arnfiðr, *C.* 2) *hèr byrjar J apr.* 3) *hèr byrjar E uptr.* 4) Norðmaðr, *hin.* 5) hestfær, *C, E.*

hræðra til annars. Konúngr mælti: segið nú. Þá mælti Þorviðr stami: atti, atti, atzsamr[1], ágjarn, illgjarn, dælskr, fólskr. Hverr á þessa sneið, segir konúngr? Þá svarar Freyviðr daufi: herra! mun nú berara, ef þat skal í orlofi yðru vera. Konúngr svarar: tala nú í orlofi, Freyviðr! slíkt er þú vill talat hafa. Freyviðr tók þá til máls: Þorviðr, bróðir minn, er vor er vitrastr, þann kallar hann allan einn atta ok atsaman[2], dælskan ok fólskan, þann kallar hann svâ, er leiðr er friðrinn, svâ at hann keppist til smárra luta, ok færr þó eigi, en hann lætr þar fur farsælliga luti stóra, sem Atti gerði; nú er ek svâ daufr, at ek heyri varla hvat mælt er hjá mèr, en svâ hafa nú þó margir mælt, at ek hefir vel mátt skilja, at mönnum líkar illa, bæði ríkum ok allri alþýðu þat, er þèr haldið eigi orð yður við Noregs konúng, ok hitt annat, er þèr rufuð allsherjar dóm, þann er dæmdr var með yðr Ólafi digra á Uppsalaþíngi, en ek ætla yðr satt at segja, at eigi þurfið þèr at hræðast Noregs konúng eðr Dana konúng ok engan annann, ef Svía herr vill fylgja yðr, en ef landsfólk snýst á hendr yðr með einu samþykki, þá sjám vèr vinir yðrir engi ráð þau, er víst sè at duga muni. Konúngr svarar: hverir gjörast höfuðsmenn at því, at ráða land undan mèr. Freyviðr mælti: allir vilja hèr lög ok fullan rètt sinn, en mönnum þikkir þat fara

[1]) azamar, *C.* [2]) azam, *C, J, K, S*; azan, *E.*

heldr fjarri fur ofríki yðru ok kappi; en þar er Emundr fór með laga frètt, þá kom þar til yðvar Ólafs digra, Noregs konúngs, ok ykkara skipti, hefir þú þar dæmt sjálfr um mál ykkart, ok þann sama dóm ætla höfðíngjar nú at þèr skuluð hafa ok þola verða; lítið nú á, herra! hversu margir höfðíngjar yðrir sitja hèr nú yfir ráðagerðum með yðr; ek ætla hitt, satt at segja, at vèr sèim eigi fleiri enn 6, er þèr kallið ráðgjafa yðra, en allir aðrir hygg ek at í brott sè farnir ok riðnir í heröð með einu samþykki, ok eiga þíng við landsfólkit, ok yðr satt at segja, þá er hèr ör uppskorin ok send um allt landit ok stefnd yðr refsíng[1] fur stærð ok siðleysu, þá er þú þikkir tiltaka, ok vilja menn þat eigi lengr þola yðr; allir vèr bræðr höfum verit beðnir til at eiga lut í ráðagerð þessari, en engi vârr vildi eiga þat nafn, at heita drottinssviki, þvíat eigi var svâ vârr faðir. Konúngr tók þá til máls: hvert orráð skulu vèr nú hafa, þvíat vandi mikill er til handa borinn, gefið nú ráð til, góðir höfðíngjar! þat er ek fái haldit landi mínu ok sæmd ok konúngdómi ok föðurarfi mínum, en ekki má ek deila kappi við allan Svía her. Arnviðr blindi svarar: þat sýnist mèr helzt ráð, at þèr ríðið ofan í Árós með þat lið, sem yðr vill fylgja, takið þar skip yður ok farið furst út í Löginn ok gætið yðvar þar, stefnið þá til yðvar fólkinu, slíku sem fara vill, farið nú ekki með stórleik, bjóðið

[1]) refsiþíng, *C*, *F*, *J*.

mönnum lög ok landsrètt, drepið svâ niðr herörinni, því́at hún mun enn ekki svâ lángt komin, er stund hefir verit sköm, en sendið menn yðra í annann stað, þá sem þèr trúið bezt til fundar við þá, er þetta ráð hafa meðal handa, ok freista, ef þessi herr[1] mætti með nökkru móti niðrsetjast. Konúngr sagði, at hann vill þetta ráð gjarna þiggja: vil ek, segir hann, at þèr bræðr farið ferð þessa, því́at ek trúi yðr bezt af mínum mönnum öllum. Þá mælti Þorviðr stami: ek ek mun eptir vera, en en Jacob fari, þess þess þarf. Þá mælti Freyviðr daufi: gjörum svâ, herra! segir hann, sem Þorviðr mælti, hann vill eigi við yðr skiljast í þessum háska, en hann vill at við Arnviðr farim, ok farim með Jacob hinn únga, son þinn. Þessi ráðagerð var höfð, at Ólafr konúngr fór til skipa sinna ok hèlt út í Löginn, ok samnaðist brátt fjölmenni til hans, því́at hann var blíðr ok hægr, ok bauð hverjum manni lög ok rèttindi. En Freyviðr ok Arnviðr riðu furst útá Ullarakr, ok höfðu með sèr Jacob konúngsson, ok drógu þó heldr dul á hans ferð; þeir vurðu brátt varir við, at þar var fur samnaðr ok herlaup, ok bændr áttu þíng bæði dag ok nótt. En er þeir Freyviðr hittu þar fyrir frændr sína ok vini, segja þeir at þeir vilja ráðast í flokkinn, en því́ taka allir feginsamliga, var þá þegar ráðum til þeirra skotit, ok dróst þá þegar til þeirra mikit fjölmenni, ok mæla þó enn

[1]) kurr, *C*, *E.*

allir eitt, ok segja svâ, at þeir skulu aldrí lengr Ólaf at konúngi hafa yfir sèr: ok viljum vèr eigi lengr þola honum ólög ok ofdramb, þvíat hann vill engis manns máli hlýða, þóat stórhöfðíngjar segi honum sannindi. En er Freyviðr fann ákafa lýðsins, þá sá hann, í hvert óefni komit var, hann átti þá stefnu við landshöfðíngja, ok talaði fur þeim ok segir svâ: svâ lízt mèr, ef þetta stórvirki skal framfara, at taka Ólaf konúng fra ríkinu, sem vèr Uppsvíar múnu fur því skulu vera um þetta mál, hefir hèr svâ jafnan verit, at þat sem Uppsvía höfðíngjar hafa staðfest sín í millum, þá hafa hlýtt þeim ráðum aðrir landsmenn; eigi þurftu vârir frændr at þiggja ráð at Vestr-Gautum um Svía landstjórn, nú verðum vèr ok eigi þeir ættlerar, at Emundr af Skörum þurfi oss ráð at kenna, vil ek at vèr bindum saman ráð vârt, frændr ok vinir, þvíat hèr mun vera hverr öðrum trúr ok tryggr. Þessu játuðu þeir allir, ok þótti þetta vel mælt. Eptir þat snýst allr fjöldi liðsins til þess sambands, er Uppsvía höfðíngjar tóku með sèr, voru þeir bræðr þá höfðíngjar fyrir liðinu, Freyviðr ok Arnviðr, en er Emundr fann þat, þá grunaði hann, hvert þetta mundi verða framgengt, fór hann þá til fundar við þá bræðr, ok áttu þeir tal saman, spurr þá Freyviðr Emund: hverja ætlan hafið þèr um þat, ef Ólafr Eiríksson er tekinn af lífi, sem nú er ætlat, hvern konúng vilið þèr þá hafa yfir yðr? Emundr svarar: þann er þá sýnist bezt

tilfallinn, hvårt sem hann er af konúnga ætt eðr eigi. Freyviðr svarar: eigi viljum vèr Uppsvíar þat samþykkja, at konúngdómrinn gángi or ætt lángfeðga enna fornu konúnga á vorum dögum, meðan svâ góð faung eru á, sem nú er. Ólafr konúngr á tvâ sonu, ok viljum vèr annann þeirra til konúngs kjósa, þvíat sjaldan gefst þat vel, ef þeir menn eru til valdsmanna teknir, er ekki eru til þess ættbornir, ok kunna öngir menn sik ógjörr enn þeir jafnan. At þessum orðum ok orskurð varð mikill rómr, ok völdu allir Jacob til konúngs. Þá mælti Emundr af Skörum: Þèr Uppsvíar hafið nú vald til at ráða þessu at sinni, en hitt mun ek segja, sem eptir mun gánga, at þeir sumir, er nú vilja ekki annat heyra enn konúngdómr hèr í Svíþjóð gángi eigi or lángfeðgatölu eðr ætt, þá munu þeir hinir sömu lifa ok játa þá, er konúngdómrinn mun í aðrar ættir koma, ok mun þat betr gegna. Eptir þat lètu þeir bræðr Freyviðr ok Arnviðr leiddan verða fram á þíngit Jacob konúngsson, ok lètu honum þar gefa konúngsnafn, ok þarmeð gáfu Svíar honum Önundarnafn, ok var hann svâ kallaðr, meðan hann lifði, þá var hann 11[1] vetra eðr 12. Eptir þat fèkk Önundr konúngr sèr hirð, ok valdi með sèr höfðíngja, ok höfðu þeir allir saman lið svâ mikit, sem honum þótti þurfa, en hann gaf þá heimfarar leyfi bóndamúgnum. Eptir þat fóru menn í milli þeirra

[1]) 10, *hin.*

konúnganna, ok þvínæst kom svâ, at þeir hittust báðir ok gerðu sætt sína, skyldi Ólafr vera konúngr yfir landi, meðan hann lifði, hann skyldi ok halda frið ok sætt við Noregs konúng ok svâ við alla þá menn, er í þessari ráðagerð höfðu verit, hann skyldi vera mjúkr ok linr ok hægr við alla sína menn; Önundr skyldi ok konúngr vera, ok hafa slíkt af landinu til forráða, sem þá semdist með þeim feðgum, en vera skyldr at fylgja þeim bóndum, ef Ólafr konúngr gerði þá nökkura luti, er bændr vildu eigi þola honum. Eptir þat voru menn sendir til Noregs á fund Ólafs konúngs með þeim erendum, at Svía konúngr vill at þeir tryggi þar sættir sínar, ok hann færi í stefnuleiðángr til Konúngahellu til móts við hann. En er Ólafr konúngr digri heyrði þessa orðsendíng, þá var hann enn sem fyrr gjarn til sátta ok friðarins, ok ferr hann með liði sínu sem ákveðit var, kom þar ok Ólafr Svía konúngr, en er þeir mágar fundust, þá binda þeir sætt ok frið með sèr, var þá Ólafr Svía konúngr góðr viðmælis ok mjúklyndr. Svâ segir [Þorsteinn fróði[1], at bygð[2] sú lá í Hísíng, er fylgt hafði ýmist til Noregs eðr Gautlands. Þá mæltu konúngarnir sín í milli, ok urðu sáttir, at þeir skyldu luta um eign þá, hvârr þeirra eiga skyldi, ok kasta til teníngum, skyldi sá hafa, er stærra kastaði. Þá kastaði Svía konúngr furr, hann kastaði 6 tvö, ok mælti at Ólafr kon-

[1]) Fróði, *C*; menn, *E*; Ari prestr, *F*. [2]) ey, *E*.

úngr þyrfti eigi at kasta; hann svarar ok hristi teníngana í hendi sèr: enn eru tvö sex á teníngum, ok er guði, drottni mínum, lítit fur enn at láta þat upphorfa; þá kastaði hann ok kom upp sex tvö; síðan kastaði Svía konúngr sex tvö, ok kvað þá þó fur allt eitt koma mundu. Ólafr Noregs konúngr kastaði eigi at síðr, var þá enn sex á öðrum, en annar hraut í sundr í tvö, ok voru þar á 7 augun, ok hafði Ólafr konúngr nú kastat 13, ok eignaðist hann svâ bygðina. Ekki höfum vèr heyrt getit fleiri tíðinda á þessum fundi. Skildust konúngarnir nú sáttir.

90. Eptir þessi tíðindi, sem nú hefir verit frásagt um hríð, snèri Ólafr konúngr Haraldsson liði sínu aptr í Víkina, fór þó furst til Túnbergs, hann dvaldist þar litla hríð, ok fór þá norðr í land, ok um haustit norðr allt í Þrándheim, ok lèt þar búa til vetrvistar, ok settist þar um vetrinn; þá var hann einvaldskonúngr yfir landi öllu; en Haraldr konúngr enn hárfagri hafði marga fylkiskonúnga undir sèr; hann hafði nú með friði fengit þann luta lands, er Svía konúngr hafði haft, en þann luta lands, er Dana konúngr hafði haft, tók hann með valdi, ok rèð fyrir þeim luta rètt sem annarstaðar í landi. Knútr Dana konúngr rèð fur Englandi í þenna tíma ok svâ Danmörk, ok sat hann sjálfr lengstum í Englandi, en setti höfðíngja til landsstjórnar í Danmerk, ok veitti hann ekki tilkall í Noreg í þenna tíma.

91. Svâ er sagt, at á dögum Haralds konúngs hins hárfagra bygðust Orkneyjar, en áðr voru þar víkínga bæli. Sigurðr hèt hinn fursti jarl í Orkneyjum, hann var son Eysteins glumru ok bróðir Rögnvalds Mæra jarls. En eptir Sigurð var jarl í Orkneyjum Guthormr son hans einn vetr. Eptir hann tók jarldóm í Orkneyjum Torf-Einarr, son Rögnvalds jarls af Mæri, ok var hann lengi jarl yfir Orkneyjum, ok var ríkr maðr. Hálfdán háleggr, son Haralds hins hárfagra, fór á hendr Torf-Einari ok rak hann á brott or Orkneyjum; Einarr kom aptr litlu síðar, ok drap þá Einarr Hálfdán hálegg í Rínansey[1]. Eptir þat fór Haraldr herför í Orkneyjar, en Einarr flýði þá upp á Skotland. Haraldr konúngr lèt Orkneyínga sverja sèr öll óðöl í Orkneyjum fur aftöku Hálfdánar. Eptir þat sættust þeir konúngr ok Einarr jarl, gjörðist þá jarl hans maðr, ok tók þá löndin í lèn af konúngi, ok skyldi þó enga gjalda skatta af, þvíat þar var herskátt mjök. Jarl galt konúngi 60 marka gulls, þá herjaði hann[2] á Skotland, svâ sem getit er í Glymdrápu[3]. Eptir Torf-Einar rèðu landi synir hans, Arnkell ok Erlendr ok Þorfinnr hausakljúfr; á þeirra dögum kom í[4] Noreg Eiríkr blóðöx, ok voru þá jarlar honum lyðskildir; Arnkell og Erlendr fèllu í hernaði, en Þorfinnr rèð þá löndum, ok varð gamall; synir hans voru

[1]) Rínalsey, *J.* [2]) Haraldr, *hin.* [3]) Glámsdrápu, *B, C, E.*
[4]) af *B, C, S.*

þeir Arnfinnr[1], Hávarðr, Ljótr ok Skúli; móðir þeirra var[2] Gróa, dóttir Þorsteinsrauðs. Ofarliga á dögum Þorfinns jarls komu af Noregi synir Eiríks blóðaxar, þá er þeir flýðu fur Hákoni Adalsteinsfóstra, var þá í Orkneyjum mikill yfirgángr þeirra. Þorfinnr jarl varð bráðdauðr[3]; Eptir þat rèðu löndum synir hans, ok eru frá þeim miklar sögur[4]; Hlöðver lifði þeirra lengst, ok rèð þá einn landi. Son hans var Sigurðr digri, er jarldóm tók eptir hann, hann var hermaðr mikill; á hans dögum fór Ólafr konúngr Tryggvason or vestrvíkíng með herliði sínu, hann lagði til Orkneyja, ok tók höndum Sigurð jarl í Rögnvaldsvâgi, hann lá þar fyrir einskipa. Ólafr konúngr bauð jarli þá fjörlausn, at hann skyldi taka skírn ok rètta trú, ok gerast hans maðr, ok bjóða trú um eyjarnar, ok því játaði jarl. Ólafr konúngr tók í gislíng son jarls, er hèt Hvelpr eðr Hundi; þaðan fór Ólafr konúngr til Noregs, ok var þar konúngr, sem menn vitu; Hundi var með Ólafi konúngi nökkura vetr, ok andaðist þar, en síðan veitti jarl honum enga lyðskyldu, ok fèkk dóttur Melkólfs[5] Skota konúngs, ok var þeirra son Þorfinnr, en synir Sigurðar jarls hinir ellri voru þeir Sumarliði ok Brúsi ok Einarr rángmuðr[6]. Fimm vetrum eðr

---

[1]) Hlöðver *b. v. hin.* [2]) Grelöð (Grelaug *C, K*) dóttir Dúngaðar jarls af Katanesi, móðir hennar var, *b. v. hin.* [3]) sóttdauðr, *hin.* [4]) *hèr sleppr E um sinn.* [5]) Melkólms, *K, S.* [6]) ok Rögnvaldr *J.*

fjórum eptir fall Ólafs Tryggvasonar fór Sigurðr jarl til Írlands, en hann setti sonu sína hina ellri lands at gæta, en Þorfinn sendi hann til Skota konúngs, móðurföður síns, ok í þeirri ferð fèll Sigurðr jarl í Brjáns orrostu; en er þat spurðist til Orkneyja, þá voru synir hans til jarla teknir, Sumarliði, Brúsi ok Einarr, ok skiptu landi í þriðjúnga með sèr. Þorfinnr Sigurðarson var þá 5 vetra, er Sigurðr jarl fèll; en er þat spurðist til Skota konúngs, þá gaf hann Þorfinni, frænda sínum, Katanes ok Suðrland, ok jarlsnafn með, ok fèkk mann til at gæta ríkis með honum. Þorfinnr jarl varð þegar bráðgjörr í uppvexti ok öllum þroska, hann var mikill ok styrkr, ljótr sýnum, ok þegar honum vóx aldr, var þat auðsýnt, at hann var ágjarn maðr, harðr ok grimmr ok forvitri. Þess getr Arnór jarla skáld:

Gjörr lèt grund at verja
geðfrækn ok til sækja.
æri[1] Einars[2] hlýri[3]
aungr mann und ský ranni[4].

Þeir bræðr Einarr ok Brúsi voru úlíkir í skaplyndi; Brúsi var hóglyndr ok samsmaðr mikill, vitr ok vinsæll ok málsnjallr; Einarr var maðr stríðlyndr, fálátr ok óþýðr, ágjarn ok fègjarn ok hermaðr mikill. Sumarliði var líkr Brúsa at skaplyndi, ok var elztr, ok lifði þeirra skemst bræðra, hann varð sóttdauðr. Eptir andlát hans

[1]) orr *K*. [2]) annars *J*. [3]) hlýra *B*, *K*, *L*. [4]) *vís. v. í. C.*

taldi Þorfinnr jarl til síns luta í Orkneyjum. Einarr svarar því, at Þorfinnr hefði Katanes ok Suðrland, ok þau ríki er þar fylgja, ok átt hafði Sigurðr faðir þeirra; ok taldi hann þat miklu meira enn þriðjúng í Orkneyjum, ok vildi því eigi unna Þorfinni skiptis; en Brúsi lèt uppi skipti fyrir sína hönd: ok vil ek ekki, segir hann, ágirnast meira af landi, enn þann þriðjúng, er ek á at frjálsu. Þá tók Einarr undir sik 2 luti eyja, gerðist hann þá ríkr maðr en meðallagi vinsæll, hann skorti þá eigi fjölmenni, hann var í víkíngu hvert sumar ok herjaði, ok hafði útboð mikil í landinu, en allmisjafnt varð til fjár í víkíngunni; þá tók bóndum at leiðast þat starf ok sá kostnaðr, er þeir höfðu af þessu, en jarl hèlt fram hinusama með frekju allt at einu, ok lètengum manni lýða í móti at mæla, en jarl var hinn mesti ofstopamaðr; þá gerðist hallæri mikit í hans ríki af starfa þeim, er hann hafði á mönnum ok fèkostnaði þeim, er þar fylgði, ok undu bændr illa við; en í þeim luta lands, er Brúsi var ok hafði, þá var ár mikit ok hóglífi bóndum; varð hann af slíku vinsæll.

92. Ámundi hèt maðr ríkr ok auðigr, hann bjó í Hrosseyju í Sandvík á Laupandanesi; Þorkell hèt son hans, var hann allra manna gerviligastr í Orkneyjum. Ámundi var hin vitrasti maðr, faðir hans var ok manna mest virðr í Orkneyjum. Þat var eitt vår at Einarr jarl hafði útboð mikil enn, sem hann var vanr, en

bændr kurruðu þá enn illa, ok báru þetta mál fur Ámunda, ok báðu hann mæla sèr nökkura forstoð við jarl. Hann svarar: jarl þessi, er vèr eigum, er óhlýðinn hvat sem talat er fur honum, ok vill þat eina hafa, er honum kemr í hug; mun ekki stoða at biðja hann nè einnar bænar hèr um þetta mál, en vinátta vor jarls er góð at svâ búnu, en mèr þikkir við vâða búit, ef vèr verðum missáttir við hann, við skaplyndi þat, sem hvârir hafa; mun ek mèr hèr engu afskipta. Þá ræddu þeir þetta mál við Þorkel son hans, hann var trauðr til, ok hèt þó um síðir við áeggjan manna. En er jarl átti þíng, þá mælti Þorkell af hendi bónda, ok bað jarl vægja mönnum um álögur, ok taldi upp nauðsyn bónda; en jarl svarar vel ok segir at hann skyldi mikils virða orð Þorkels: ek hafði ætlatat hafa 6 skip or landi, en nú skal eigi meirr hafa enn 3; en þú, Þorkell! bið eigi optarr þessar bænar! Bændr þakkaðu vel Þorkatli liðveizlu sína; fór jarl í víkíng ok kom aptr um haustit. Eptir um vârit hafði jarl útboð, sem hann var vanr, ok átti þíng við bændr; þá talaði Þorkell af hendi bónda, ok bað hann vægja bóndum. Jarl svarar þá reiðuliga ok segir, at lutr bónda skal versna mikit við hans ræðu; gjörði hann sik þá svâ óðan ok reiðan at hann segir at þeir skyldu eigi annat sumar báðir heilir á þínginu, ok sleit svâ því þíngi. En er Ámundi varð þessa viss, hvat þeir Þorkell ok jarl höfðu við átzt, þá bað

Ámundi Þorkel fara brott or eyjunum; fór hann þá yfir á Nes til Þorfinns jarls, en sumir flýðu til Noregs, en sumir til ýmissa landi, þeir sem voru vinir hans. Þorkell var lengi með jarlinum, ok elskaðist at honum, ok því var hann kallaðr Þorkell fóstri, ok var hann ágætr maðr. Margir menn flýðu óðöl sín or Orkneyjum, ríkir ok ágætir; en er Þorfinnr jarl rosknaðist, þá sendi hann sættarboð til Einars jarls, bróður síns, ok beiddist af honum ríkis þess, er hann þóttist eiga í Orkneyjum, en þat var þriðjúngr í eyjunum. Einarr tók því óbratt, at mínka ríki sitt; en er Þorfinnr jarl spurr þat, þá býðr hann liði út af Katanesi, ok fór síðan út í eyjarnar; en er Einarr jarl varð þessa varr, samnar hann liði ok ætlar at verja eyjarnar. Brúsi samnar ok liði, ok fóru til móts við þá bræðr sína, ok bar sáttmál í milli þeirra, varð þat at sætt, at Þorfinnr jarl skal hafa þriðjúng landa í Orkneyjum, svâ sem hann átti at rèttu; en Brúsi ok Einarr lögðu saman sinn luta landa, skyldi Einarr einn hafa forræði fur þeim í landvörn; en ef misdauði þeirra vyrði, þá skyldi sá þeirra land taka eptir annann, er lengr lifði; en sá máldagi þótti ekki mjök vera jafnligr, þvíat Brúsi átti son þann, er Rögnvaldr hèt, en Einarr jarl var sonlauss. Setti Þorfinnr jarl þá sína menn at varðveita ríki þat, er hann átti í Orkneyjum, en hann var optast á Katanesi. Einarr jarl var enn optast í hernaði til Írlands eðr

Skotlands eðr Bretlands. Þat var eitt sumar er Einarr jarl herjaði á Írlandi, at hann barðist í Úlfkelsfirði við Konofögr Íra konúng, svâ sem fyrr var ritat, at Einarr jarl fèkk þar úsigr mikinn ok mannlát. Annat sumar eptir fór Eyvindr úrarhorn vestan af Írlandi, ok ætlaði til Noregs, en er stormr var veðrs, en straumar úfærir, þá snýr hann til Ásmundar vâgs, ok lá þar veðrfastr nökkura hríð; ok er þat spurr Einarr jarl, þá hèlt hann þángat miklu liði, tók hann þar Eyvind úrarhorn ok lèt drepa, en lèt gefa grið öllum mönnum hans, ok fóru þeir austr til Noregs á fund Ólafs konúngs, ok sögðu honum aftöku Eyvindar. Konúngr svarar hèr fá um, en þó fannst þat á, at honum þótti þetta mikill mannskaði ok mótgerð við sik, en um flest var hann fáræðinn, þat er honum þótti sèr mjök í móti skapi. Þorfinnr jarl sendi Þorkel fóstra út í Orkneyjar at heimta þaðan skatta sína. Einarr jarl kendi mjök Þorkeli uppreist þá, er Þorfinnr jarl hafði haft tilkall í Orkneyjar; fór Þorkell þá skyndiliga or eyjunum ok yfir á Nes, hann sagði Þorfinni at hann var þess viss vorðinn, at Einarr jarl vildi dauða hans, ef eigi hefði frændr hans ok vinir honum njósn borit: þar mun ek þann á baugi[1] eiga, segir hann, at láta þann verða fund okkarn, at um skipti með oss, en þann annann, at fara lengra í braut, ok þannig sem ekki er hans vald yfir; jarl fýsti

1) áhuga, *H*, *J*.

þess, at Þorkell skyldi fara á fund Ólafs konúngs: munt þú, segir hann, mikils metinn með tignum mönnum, hvar sem þú kemr, en ek veit skaplyndi ykkart jarls beggja, at skamma stund mundizt þið til. Bjóst þá Þorkell fóstri til Noregs um haustit á fund Ólafs konúngs, ok var þar um vetrinn í kærleikum miklum með Ólafi konúngi; konúngr hafði Þorkel mjök við mál sín, þótti konúngi, sem var, at Þorkell var vitr maðr ok skörúngr mikill; fannst konúngi þat brátt í ræðum Þorkels fóstra, at hann misjafnaði mjök með þeim jörlunum í frásögnum sínum, ok var mikill vin Þorfinns jarls, en lagði þúngt til Einars jarls. Ok snemmendis um vârit sendir Ólafr konúngr skip ok menn vestr til Þorfinns jarls um haf með þeirri orðsendíng, at hann skuli koma á hans fund. Þorfinnr jarl lagðist þá ferð eigi undir höfuð, þvíat vináttumál fylgðu orðsendíngunni.

93. Þorfinnr jarl fór nú austr[6] á konúngs fund til Noregs, ok fèkk þar allgóðar viðtökur, ok dvaldist þar lengi um sumarit; en er hann bjóst vestr, þá gaf Ólafr konúngr honum lángskip gott ok mikit með öllum reiða. Þorkell fóstri rèðst þá til vestrfarar með jarli, ok gaf hann honum þat skip, sem hann hafði vestan um sumarit, skildust þeir konúngr ok jarl með hinum mestum kærleikum. Þorfinnr jarl kom um haustit til Orkneyja; enn er Einarr jarl spurr þat, þá hefir hann fjölment, ok lá á skip-

[6]) *þannig hin*; austan, *A.*

um. Brúsi jarl fór þá enn til móts við þá báða bræðr sína, ok bað þá sættast, kom hann þá enn því við, at þeir sættust, ok bundu þat eiðum. Þorkell fóstri var þá ok í sætt tekinn við Einar jarl, ok var þat mælt, at hverr þeirra skyldi sækja veizlu til annars, ok skyldi jarl furri sækja til Þorkels í Sandvík; en er jarl var þar á veizlunni, þá veitti Þorkell hit kappsamligasta, en jarl var ekki kátr; þar var skáli mikill, er þeir drukku í, ok dyrr á báðum endum.

94. Þann dag er jarl skyldi í brott fara, þá skyldi Þorkell fara með honum til veizlu. Þorkell sendi þá menn fram á veginn fur, þar er leiðin lá, ok þeir skyldu fara um daginn; en er þeir komu aptr, sögðu þeir Þorkeli, at þeir höfðu fundit þrennar sátir: ok hyggjum vèr svik vera, segja þeir, þvíat þeir menn voru allir með vâpnum, sem til bardaga væri búnir. En er Þorkell heyrði þetta, þá frestaði hann heldr búnaðinum, ok grunaði hann, at honum mundi eigi þángat til öls boðit, sem látit var; heimtir Þorkell nú at sèr menn sína; jarl bað þá búast, ok segir þeim mál at ríða; Þorkell kveðst eiga margt at annast, hann gekk stundum út en stundum inn; eldar voru á gólfi í skálanum, ok sátu menn þar við ok drukku; þá gekk Þorkell inn um aðrar dyr, ok sá maðr með honum, er nefndr er Hallvarðr, íslenzkr[1] maðr, hann lèt aptr hurðina eptir

[1]) ok austfirðskr at ætt, *b. v. C.*

þeim; þorkell gekk innar milli eldsins ok þess er jarl sat. Jarl mælti: ert þú eigi búinn enn? þorkell svarar: nú er ek búinn; þá hjó hann til jarls í höfuðit. Jarl steyptist fram á eldinn; þá mælti Íslendíngr: hèr sá ek alla versta fángaráðs, er engi dregr jarl af eldinum; hann keyrði þá til spurðuna[1], er hann hafði í hendi, undir hnakkabeinit, ok kipti jarli upp at bekkinum. þorkell ok þeir fèlagar gengu út aðrar dyr, enn þeir höfðu inn gengit, stóðu þar þá fur durunum menn þorkels alvâpnaðir; en jarls menn tóku til hans, ok var hann þá dauðr, en öllum fèllust hendr at hefna hans, var ok þat, at bráðum bar, ok engan varði þessa verks af þorkeli, þvíat þeir hugðu at þat mundi allt fast, er mælt var með þeim jarli ok þorkeli, voru þar ok flestir vâpnlausir inni ok vinir þorkels margir; bar ok svâ til með því at honum varð lengra lífs auðit, hafði hann ok, þá er hann kom út, engum mun færra liðs enn jarls menn, fór hann þá til skips síns, en jarls menn á brott. þorkell sigldi þegar austr í haf, ok var þat eptir vetrnætr, kom hann með heilu ok höldnu til Noregs, ok fór þegar á fund Ólafs konúngs sem skyndiligast. Konúngr tók við honum forkunnar vel, ok lèt vel yfir verki þessu. Var hann þar um vetrinn í kærleikum miklum.

95. Eptir[2] víg Einars jarls tók Brúsi Jarl

[1]) spörðu, *J, S.* [2]) *Hèr byrjar E aptr.*

undir sik þann luta landa, sem hann hafði haft, þvíat þat hafði á margra manna vitorði verit, hversu þeir höfðu fèlag sitt gert bræðr, ef misdauði þeirra vyrði, en Þorfinni jarli fannst þat rèttast, at hálfar eyjar hefði hvârr þeirra; en þó hafði Brúsi þann vetr tvâ luti landa. Eptir um vârit kallaði Þorfinnr jarl til við Brúsa bróður sinn, at hann vill hafa helmíng landa í eyjunum[1], en sagði þat með, at Brúsi þurfti eigi at hafa meirr enn þriðjúng at því skaplyndi sem hann hafði. Undi ek því, segir Brúsi, at hafa þriðjúng landa, þann sem ek tók í arf eptir föður minn, kallaði ok engi til þess mèr í hendr; en nú hefir ek tekit annann þriðjúng í arf eptir bróður minn at rèttum máldögum; enn þó at ek sè mjök vanfærr til at deila kappi við þik, bróðir! þá mun ek þó annars íleita enn[2] þess, at játa af mèr með lítilmensku ok úeinurð; mun ek ok eigi ætla mèr at deila kappi við þik, bróðir! meðan ek er traustlauss, slíkt traust sem þú hefir af Skota konúngi, móðurföður þínum. Brúsi jarl rèðst þá til ferðar, ok fór or landi austr til Noregs á fund Ólafs konúngs, ok hafði með sèr Rögnvald, son sinn, var hann 10 vetra. Ok er jarl hitti konúng, tók hann vel við honum; þá bar jarl upp erendi sín fur konúng, ok

[1]) en Brúsi galt eigi jákvæði til þess, áttu þeir þá þíng ok stefnur at þessum málum, gengu þá at vinir þeirra, at semja þetta mál, ok kom svâ at Þorfinnr lèt sèr ekki annat líka enn hafa helmíng eyjanna, *b. v. hin.* [2]) *hèr sleppr I um sinn.*

segir honum allt, sem farit var með þeim bræðrum, ok bað hann styrks, til at hann gæti haldit ríki sínu fyrir Þorfinni jarli, bauð þar í mót fulla vináttu sína. Konúngr svarar, ok tók þar fyrst til, er Haraldr hárfagri eignaðist óðul öll í Orkneyjum, en jarlar höfðu haft síðan land í lèn, en aldrí at eign: er þat til marks um, segir konúngr, at þá er Eiríkr blóðöx var í Orkneyjum ok synir hans, þá voru jarlar þeim lyðskyldir; en er Ólafr Tryggvason, frændi minn, kom til Orkneyja, þá gerðist Sigurðr hans maðr, faðir þinn; en nú hefi ek tekit arf allan eptir Ólaf konúng, vil ek gera þèr þann kost, at þú gerist minn maðr, mun ek þá fá þèr eyjarnar í lèn, skulu við þá freista, ef ek veiti þèr styrk, hvârt at haldi kemr þat traust þèr, eðr Þorfinni jarli traust Skota konúngs; en ef þú vill eigi þennann kost, þa mun ek leita eptir þeim eignum, er ek á vestr þar, ok vârir lángfeðgar hafa átt. Jarl íhugaði þetta mál fur sèr, ok bar fur vini sína, ok leitaði ráðs við þá, hverju hann skyldi um svara, hvârt hann skyldi sættast at þessu við konúng ok gerast hans maðr, en hitt er mèr úsýnt, hverr minn lutr verðr at skilnaði vorum, segir jarl, ef ek kveð hèr nei við, þvíat konúngr hefir nú gjört bert tilkall um löndin, þau er hann þikkist eiga í Orkneyjum; en við stórræði hans, ok þat at vèr erum nú komnir í greipr honum, þá mun honum lítt fyrir þikkja at gera slíkt af vorum kosti, sem honum

sýnist. En þó at jarli þætti á hvârttveggja andmarki, þá tók hann þann kost af at leggja allt á konúngs vald ok ríki sitt; tók þá konúngr vald yfir jarli ok forráð yfir öllum erfðalöndum hans. Gerðist jarl þá konúngsmaðr ok, batt þat svardögum.

96. Þorfinnr jarl spurr nú þat, at Brúsi bróðir hans var farinn austr til Noregs á fund Ólafs konúngs, at sækja sèr traust þángat; en fur því at Þorfinnr jarl hafði verit furr á fund Ólafs konúngs ok komit sèr þar í vináttu, þá þóttist hann eiga þar vel fyrir búit, ok vissi at þar mundu margir fulltíngsmenn um hans mál, en þó vænti hann at fleiri mundi vera, ef hann kæmi sjálfr; gjörir hann þat ráð fur sèr, at hann býst sem skyndiligast, ok siglir austr til Noregs, ok ætlaði at minni mundi vorðinn misfari þeirra bræðra, enn svâ sem var; hugði hann at erenði Brúsa skyldu eigi lyktut eðr yfirtekin, þá er hann kvæmi á konúngs fund; en þat varð annann veg enn hann ætlaði, þvíat þá er Þorfinnr jarl kom á konúngs fund, var lokit ok greidt um allt sáttmál konúngs ok Brúsa jarls; vissi ok Þorfinnr jarl eigi at Brúsi hefði uppgefit ríki sitt, furrenn hann var áðr kominn á fund Ólafs konúngs. En þegar er þeir fundust Ólafr konúngr ok Þorfinnr jarl, þá hóf konúngr upp þat hit sama tilkall við Þorfinn jarl, sem hann hafði haft við Brúsa jarl

[1]) af S.

um Orkneyjar, ok beiddi hann þess hins sama, at hann skyldi játa konúngi þeim luta landa, er hann átti áðr. Jarl tók vel orðum konúngs ok stilliliga, sagði þat at honum þótti miklu máli skipta um vingan konúngs, ok ef þèr, herra! þikkist liðs þurfa ímóti yðvarri vináttu, þá hafið þèr áðr fullt til þess unnit af mèr; en mèr er eigi hent at veita yðr lyðskyldu, þar sem ek er handgenginn Skota konúngi. En er Ólafi konúngi fannst undandráttr í svörum jarls um þessa málaleitan, er hann hafði upphafit, þá mælti konúngr: ef þú, jarl! vill ekki gjörast minn maðr, þá er hinn kostr, at ek setja þann mann yfir eyjarnar, sem ek vil; en ek vil at þú sverir mèr þess, at veita ekki tilkall landa þeirra, ok láta þá í friði vera af þèr, er ek set til landsgæzlu; en ef þú vill hvârngan þenna kost, þá mun þeim svâ þikkja, er löndin varðveita, sem úfriðar muni af yðr vân, má yðr þá eigi þikkja undarligt, þóat dalr mæti hóli. Jarl svarar, bað konúng gefa sèr frest til at hugsa þetta mál; konúngr játti því, ok gaf jarli stund góða til umráða ok orlof at ráða um þetta við menn sína. Þá[1] beiddi jarl þess, at konúngr skyldi ljá honum fresta til annars sumars um þetta mál, ok færi hann þá fyrst heim, sagði heima vera hit bezta ráðuneyti sitt, en kveðst bernskr vera mjök fur aldrs sakir.

[1]) *hèr byrjar G aptr.*

Konúngr bað hann þá þegar kjósa annattveggja. Þorkell fóstri var þá með Ólafi konúngi; hann sendi menn til Þorfinns jarls leyniliga, ok bað hann eigi þat fur berast, hvat sem honum bjó í skapi, at skiljast svâ við Ólaf konung at sinni, at þeir væri eigi sáttir, svâ sem hann væri þá kominn í hendr honum. Af slíkum áminníngum þóttist jarl sjá, at einn mun kostr fur höndum, at láta konúng ráða, þar sem komit var; þá þótti honum hinn eigi kjörligri, at eiga enga vân sjálfr sinnar ættleifðar, ok veita svardaga til þess, at þeir skyldu hafa í ró ríki hans, er ekki vóru tilkomnir. En fur því at honum þótti úvíst um brautferð sína, þá kaus hann þat af, at gánga til handa Ólafi konúngi ok gerast hans maðr, svâ sem Brúsi hafði gjörzt. Konúngr fann þat, at Brúsi var miklu úskapstærri enn Þorfinnr jarl, þóttist konúngr sjá, at hann kunni illa öllu yfirboði, ok því trúði hann verr Þorfinni jarli enn Brúsa at halda sættina. Sá konúngr þat, at Þorfinnr jarl þóttist eiga trausts vân af Skota konúngi, þótt hann tæki þessu sáttmáli. Skildi konúngr þat af vizku sinni, at Brúsi jarl gekk tregliga at öllu sáttmáli, en mælti þat eina um, er hann ætlaði sèr at halda; en þar er Þorfinnr jarl var, þá er hann hafði ráðit fur sèr, hvern hann skyldi upptaka, þá gekk hann skjótt ok gladt at öllum skildögum, ok dró um þat engan lut, sem konúngr beiddi í furstu ok hann ákveddi; en þat grunaði konúngr at hann mundi eptir ætla at gera sumar sættirnar.

97. Þá er Ólafr konúngr hafði hugsat allt sáttmál þeirra, þá lèt hann blása til fjölmennrar stefnu, ok lèt kalla þángat jarla. Þá mælti konúngr: sáttmál vârt Orkneyínga jarla vil ek nú birta fur alþýðu; þeir hafa nú játat mínu eiginorði yfir öllum Orkneyjum ok Hjaltlandi, ok gjörast báðir mínir menn, ok hafa báðir bundit þat svardögum. Nú vil ek gefa Brúsa í lèn þriðjúng landa, en Þorfinni annann þriðjúng, svâ sem þeir hafa áðr haft; en þann þriðjúng, er átt hefir Einarr rángmuðr, bróðir þeirra, þann læt ek falla í minn garð fur þat, er hann drap Eyvind úrarhorn, hirðmann minn ok kæran fèlagsmann; vil ek sjálfr ráða fur þeim þriðjúngi landa, þat er ek vil, ok þat vil ek tilskilja við ykkr jarla báða, at þið takið sættum við Þorkel fóstra Ámundason fur aftöku Einars, bróður ykkars; vil ek ok, at sá[1] dómr sè undir mèr, ef þið vilið því játat hafa. En þat var sem annat, at jarlar játaðu því öllu, sem konúngr vildi; gekk þá Þorkell fóstri fram, ok festi konúngsdóm á þessu máli. Sleit svâ þessu þíngi. Ólafr konúngr dæmdi fur víg Einars jarls, sem fur 3 lenda menn, en fyrir sakir skyldi niðrfalla þriðjúngr gjalda. Síðan bað Þorfinnr jarl sèr orlofs af konúngi til brautferðar, en þegar þat fèkkst, þá bjóst jarl sem skjótast, ok er hann var albúinn, var þat einn dag, þá er jarl drakk á skipi sínu, at þar

[1]) *hèr byrjar D aptr.*

kom Þorkell Ámundason våveifligá, ok lagði höfuðit í knè jarli, ok bað hann þá afgera slíkt er hann vildi. Jarl spurr, hví hann fór svâ: vèr erum sáttir at konúngsdómi, ok statt þú upp, Þorkell! Hann gerði svâ. Þorkell mælti: sætt sú, er konúngr gerði í milli vor Brúsa, þá mun ek henni hlíta, en þat er til þín kemr af, þá skaltu einn ráða, hvat sem þar er áðr um mælt. Nú þó at konúngr hafi skilit mèr eignir eðr landsvist í Orkneyjum, þá kann ek svâ skaplyndi þitt, at mèr er þágat úfært, nema ek fari í fullum yðrum trúnaði, en ella vil ek þat festa yðr, at koma aldrí til Orkneyja, hvat sem konúngr hefir þar um mælt. Jarl þagnaði, ok tók seint til máls: vilt þú heldr, Þorkell! at ek dæma um okkur mál enn hlíta konúngs dómi, þá mun ek þat hafa upphaf at[1] sætt okkarri, at þú skalt nú þegar fara með mèr til Orkneyja ok vera með mèr, ok skilja eigi við mik, nema mitt sè lof til, vera ok skyldr til at verja land mitt ok allra þeirra verka, er ek vil fur þik leggja, meðan við erum á lífi báðir. Þorkell svarar: þat skal á yðru valdi sem annat, þat er ek má ráða. Gekk þá Þorkell í annat sinn til jarls, ok festi honum þat, sem hann kvað á. Jarl segir, at hann mun síðarr ákveða um fègjöld, tók hann þá svardaga af Þorkeli til þessa máls, ok rèðst hann þá til ferðar með jarli. Fór Þorfinnr jarl þegar í brott, er honum gaf, ok sjást þeir Ólafr konúngr aldrí

[1]) *Hèr byrjar J, aptr.*

síðan. Brúsi jarl dvaldist þá enn eptir, ok bjóst meirr í tómi; en áðr hann færi í brott, þá átti Ólafr konúngr stefnu við hann, ok mælti svâ: þat lízt mèr sem ek muni þik, jarl! hafa at trúnaðar manni vestr þar, ætla ek svâ til, at þú skalt hafa 2 luti landa til forráða ok þarmeð traust mitt, svâ at þú megir vel halda þik fur Þorfinni, bróður þínum, at rèttu. Brúsi tók þat með þökkum at hafa 2 luti landa; dvaldist Brúsi jarl þá ekki lengi þaðan frá í Noregi, ok kom um haustit vestr til Orkneyja. Rögnvaldr, son hans, var austr eptir með Ólafi konúngi, hann var allra manna fríðastr sýnum, hárit mikit ok gult sem silki, hann var snemma mikill ok sterkr ok manna gerviligastr bæði sakir vits ok framgaungu; hann var lengi síðan með Ólafi konúngi[1].

98. Þá er þeir bræðr komu vestr til Orkneyja, Þorfinnr jarl ok Brúsi jarl, þá tók Brúsi tvâ luti landa til forráða, en Þorfinnr þriðjúng; hann var laungum á Katanesi eðr á Skotlandi, en setti mann yfir eyjarnar, hafði Brúsi þá einn landvörn yfir eyjunum; en í þann tíma var þar herskátt mjök, þvíat Danir ok Norðmenn herjaðu mjök í vestrvíkíng, ok komu þá opt í eyjarnar, er þeir fóru[2] vestr eðr vestan, ok námu þar nesnám. Brúsi jarl taldi at því við Þorfinn, bróður sinn, er hann hafði öngvar útgerðir eðr

[1]) *C, D, E, F, G, H, J, S, b. hèr við vísu, sjá Hkr. Ol. S. h. Kap.* 108. [2]) *Hèr sleppr E um sinn.*

landvörn fur eyjunum ok Hjaltlandi, en hafði skatta ok skyldir af sínum lut; þá bauð Þorfinnr jarl at hafa 2 luti landa, en Brúsi jarl hefði þriðjúng: ok mun ek þá einn hafa landvörn alla sem hann. En þóat þetta skipti færi eigi fram bráða fángs, þá segir þó svâ í jarla sögunum, at þat gekk við um síðir, at Þorfinnr jarl hafði 2 luti, en Brúsi jarl þriðjúng, ok þó eigi furr enn Knútr konúngr hafði lagt unðir sik Noregsveldi, en Ólafr konúngr var fráfallinn. Þorfinnr jarl hefir verit göfgastr jarla í Orkneyjum ok haft mest ríki allra Orkneyínga jarla; hann eignaðist Hjaltland, Orkneyjar, Suðreyjar, hann hafði ok mikit ríki á Skotlandi ok Írlandi[1], hann var hinn mesti hermaðr; hann tók jarldóm 5 vetra gamall, ok rèð jarldóminum 60 vetra eðr meirr; hann varð sóttdauðr á ofanverðum dögum Haralds konúngs Sigurðarsonar, en Brúsi jarl andaðist á dögum Knúts hins ríka, litlu eptir fall Ólafs konúngs hins helga.

99. Nú skal þar taka til sögunnar, sem furr var frá horfit, at Ólafr konúngr hafði frið gjört við Ólaf Svía konúng, ok þat með at Ólafr konúngr fór þaðan norðr til Noregs í Þrándheim, hann hafði þá verit konúngr 5 vetr; þat haust bjó hann til vetrvistar í Niðarósi, ok sat þar um vetrinn. Þann vetr var með Ólafi konúngi Þorkell fóstri, sem furr var ritat. Ólafr konúngr leiddi þá mjök at spurníngum um kristnihald, hvert

[1]) *C og þau fylg. b. v. stöku hèr, sjá Hkr. Ol. S. h. Kap.* 109.

væri í landinu, ok frèttist honum svâ til, sem ekki væri kristnihaldit í, þegar norðr sótti á Hálogaland, ok þó skorti mikit á, at vel væri um Naumudali ok inn um Þrándheim. Maðr er nefndr Hárekr, hann var son Eyvindar skáldaspillis, hann bjó í eyju þeirri, er Þjótta heitir, þat er fur Hálogalandi. [Eyvindr, faðir hans, hafði verit fèsterkr maðr, ættstórr ok[1] skörúngr mikill. Í Þjóttu bjöggu smá bændr ok eigi allfáir; Hárekr keypti þar bæ furst í eyjunni ok eigi mikinn, ok bygði þar; en á sömum[2] misserum hafði hann rudt í brott öllum bóndum þeim, er þar bjöggu áðr, svâ at hann átti þá einn alla eyna, ok gerði þar þá höfuðbæ mikinn. En Hárekr varð brátt vellauðigr ok spekíngr mikill at viti, hann hafði haft metnað mikinn af konúngum; hann var ok í frændsemistölu við Noregs konúnga, ok því hafði hann haft vináttu af Noregs höfðíngjum. Gunnhildr, föðurmóðir Háreks, var dóttir þeirra Hálfdánar jarls ok Íngibjargar, dóttur Haralds hins hárfagra. Hárekr var þá heldr á efra aldri, er þetta var tíðinda; Hárekr var þá mestr virðínga maðr á öllu Hálogalandi, hann hafði haft lánga hríð finnferðir ok konúngssýslur upp á Mörkina, hafði hann haft stundum einn, en stundum aðrir menn með hon-

[1]) Eyvindr hafði verit maðr ekki fèsterkr, hann var ættstórr ok *C*, *F*; Eyvindr hafði verit maðr ekki fèsterkr ok litt eignaðr, maðr ættstórr ok, *C*, *G*, *L*; Eyvindr hafði ekki verit auðigr maðr nè ættstórr, en, *J*. [2]) fám, *hin*.

um; ekki hafði Hárekr komit á fund Olafs konúngs, en þau orð höfðu farit í milli þeirra, er vingjarnlig voru, ok þann vetr, er Ólafr konúngr sat í Niðarósi, fóru enn menn í millum þeirra ok orðsendíngar; þá lýsti konúngr yfir því, at hann ætlaði at fara um sumarit norðr til landsenda, en þeir Háleygirnir hugðu all misjafnt til yfirferðar Ólafs konúngs.

100. Ólafr konúngr bjóst um vârit með 5 skipum, ok hafði nærr 3 hundruð manna, en er hann var búinn, þá byrjaði hann ferð sína norðr með landi, en er hann kom í Naumdæla fylki, stefndi hann þíng við bændr, var hann þá til konúngs tekinn á hverju þíngi; hann lèt þá ok upplesa lög þau, er hann bauð mönnum þar í landi kristni at halda, ok lagði við líf ok limar ok aleigu sök hverjum manni, er eigi vildi halda kristin lög; veitti konúngr mörgum stórar refsíngar, ok lèt þat gánga einn veg yfir ríkan ok fátækan; skildist hann svâ við í hverju fylki, at allt fólk hèt at halda kristin lög ok rètta trú; en flestir ríkir menn ok stórbændr þá gerðu veizlu í móti konúngi, fór hann allt norðr á Hálogaland. Hárekr í Þjóttu veitti konúngi kappsamliga, ok var þar allmikit fjölmenni, ok veizla hin prýðiligsta; gjörðist Hárekr þá lendr maðr Ólafs konúngs, fèkk konúngr honum þá veizlur svâ stórar, sem hann hafði haft áðr af hinum fyrrum höfðíngjum.

101. Maðr er nefndr Grankell eðr Gran-

ketill, auðigr bóndi, ok var þá heldr við aldr; en er hann var á únga aldri, hafði hann verit í víkíngu ok verit hermaðr mikill, hann var ok atgervimaðr mikill um flesta alla luti, þá er íþróttum gegndi. Ásmundr hèt son hans, ok var hann um flesta luti líkr feðr sínum eðr nökkuru framarr, þvíat þat er margra manna mál, at fur flestra luta sakir, fróðleiks ok afls ok allra íþrótta, at hann hafi hinn þriðì maðr verit bezt at sèr búinn í öllum Noregi, var hinn fursti Hákon Aðalsteinsfóstri, en annar Ólafr Tryggvason. Grankell bauð Ólafi konúngi til veizlu, ok var þar veizla hin kappsamligasta, ok veitt hit sköruligasta, leiddi Grankell konúng út með stórgjöfum. Konúngr bauð Ásmundi til sín, ok lagði til þess mörg orð, en Ásmundr vildi eigi brjótast við gæfu sinni, ok rèðst hann til ferðar með konúngi, ok gerðist síðan hans maðr, ok komst í hina mestu kærleika við konúng. Ólafr konúngr dvaldi mestan luta sumars á Hálogalandi, ok fór þar í allar þínghár, ok kristnaði þar allan lýð. Þá bjó í Bjarkey Þórir hundr, hann var ríkastr maðr norðr þángat, hann gerðist lendr maðr Ólafs konúngs. Margir ríkir bónda synir rèðust til ferðar með Ólafi konúngi. Þá er áleið sumarit, kom hann norðan, ok snèri þá inn eptir Þrándheimi til Niðaróss, ok sat þar um vetrinn; ok þann vetr kom Þorkell fóstri Ámundason vestan af Orkneyjum, eptir er hann hafði drepit Einar jarl[1]. Þat haust var í Þránd-

[1]) rángmunn, *b. v. D, G, J, L, S.*

heimi hallæri mikit at korni, en þar hafði verit áðr góð árferð, hallærit var allt norðr í landit, ok því meira, er norðarr var, en korn var gott norðan austr[1] í land ok svâ um Upplönd; en þess naut mjök við um Þrándheim, at þar voru mikil korn forn.

102. Þat gerðist til tíðinda[2], at Ólafi konúngi var sagt, at bændr höfðu veizlur stórar ok fjölmennar at vetrnóttum, voru þá drykkjur stórar; konúngi var sagt, at þar væri minni öll signuð Þór ok Óðni, Freyju ok Ásum, allt eptir fornum sið, þat fylgði ok þeirri sögn, at þar væri drepin naut ok ross, ok roðnir stallar með blóði ok framit blót berligá, ok veittr sá formáli, at þat skyldi vera til árbótar; þat fylgði þar, at öllum mönnum þótti þat sýnt, at goðin höfðu reiðzt því, er Háleygir höfðu til kristni horfit. En er konúngr spurr þessi tíðindi, þá sendi hann menn inn í Þrándheim, ok stefndi til sín bóndum þeim, er hann vildi tilnefna. Maðr er nefndr Ölver á Eggju, hann var kendr við bæ þann, er hann bjó á, ríkr maðr ok ættstórr, hann var höfuðsmaðr ferðar þessar af bónda hendi til konúngs. En er þeir komu á konúngs fund, þá bar konúngr á hendr þeim þessi kennsl; en Ölver svarar af bónda hendi, sagði at bændr hefði engar veizlur haft þat haust, nema gildi sín ok hvirfíngs drykkjur, en sumir vinaboð:

[1]) *Hèr sleppr J um sinn.* [2]) innan or Þrándheimi, *b. v. C, D, G, L.*

en þat, herra! segir Ölver, sem yðr er sagt, frá orðtökum vorum Innþrænda, þá kunna þat allir menn sèr at varast slíkar ræður, en eigi kann ek synja fyrir heimska menn eðr ölóða, hvat þeir mæla. Ölver var maðr málsnjallr ok máldjarfr, enda var hann vitr maðr, ok varði allar þessar sakir fur bændr; ok at lyktum mælti konúngr, at Innþrændir sjálfir skyldu bera sèr vitni um, hversu þeir væri trúaðir; fengu þá bændr allir orlof af konúngi til heimfarar; fóru þeir þá ok þegar þeir máttu.

103. Síðarr um vetrinn var konúngi sagt at bændr höfðu fjölment á Mærinni, ok voru þar blót stór at miðjum vetri, ok blótaðu þeir þá til friðar ok til vetrarfars góðs; en er konúngr þóttist sannfróðr um þetta, þá sendi hann menn til Þrándheims, ok stefndi enn bóndum út til bæjar, nefndi hann enn til þá, er honum sýndist, ok honum þótti vitrastir. Bændr áttu þá enn stefnu ok tal sín í millum um orðsendíng þessa, voru þeir allir ófúsastir nú til ferðarinnar, er farit höfðu áðr um vetrinn; en við bæn bónda allra, þá varð Ölver enn tilskyldaðr. Ok er hann kom til bæjar, fór hann brátt á konúngsfund, ok talaðu þeir mál sín með sèr; bar konúngr enn á hendr bóndum, at þeir hefði miðsvetrarblót. Ölver svarar, at bændr eru vanir at hafa allir saman jóladrykkjur víða í hèraðum! ætla bændr sèr eigi svâ [nærr jafnan[1] um jölaveizlurnar, at

1) hnept til *C*, *G*, *L*, *S*.

eigi verði þat jafnan stór aflaup ok afgángr; nú var enn svâ, herra! at vèr drukkum þat lengi síðan, en á Mærinni er mikill höfuðstaðr, sem þèr vitið, en bygð mikil umhverfis, þikkir mönnum þat gott til gleði at drekka mörgum saman. Konúngr svarar fá um, ok var heldr styggr, því-at hann þóttist vita annat sannara, enn þá var uppborit; bað konúngr bændr aptr fara: en ek mun viss verða af stundu, segir hann, hvat satt er, þó at þèr gángið eigi við, en hversu sem hèr til hefir verit, þá gerið eigi slíkt optarr! Fóru þá bændr heim, ok sögðu sína ferð, ok svâ þat at konúngr var heldr reiðr.

104. Ólafr konúngr hafði veizlu mikla um vârit á páskum, ok hafði marga menn í boði sínu, bændr ok bæjarmenn; en eptir páskana lèt konúngr setja fram skip sín ok bera til reiða ok árar, lèt þilja skipin ok tjalda, ok lèt fljóta albúin fur bryggjum. Ólafr konúngr sendi menn eptir páskana inní Veradal. Maðr er nefndr Þóraldi, ármaðr konúngs, hann varðveitti konúngsbú at Haugi; konúngr sendi honum orð, at hann skyldi koma út þángat sem skjótast til hans. Þóraldi fór at orðsendíngu konúngs út til bæjarins þegar með sendimönnum konúngs. Konúngr heimti hann á tal við sik, ok spurði hvat satt var um þat, er honum var sagt af siðum Innþrænda, hvârt svâ er ferliga, at þeir snúast til blóta með öllu. Þóraldi svarar: þat vil ek segja þèr, at ek flutti hígat til bæjarins börn mín ok

konu ok lausafè allt þat, er ek mátti með komast, en ef þú vill hafa þessa sögu af mèr, þá skal þat vera á yðru valdi, munuð þèr þá sjá ráð fyrir mèr ok mínu hyski, mun mèr þat ok allvel gegna. Konúngr mælti: seg þú þat, er ek spur, ekki skal gera á luta þinn. Þat er yðr satt at segja, herra! segir Þóraldi, at ek skal rètt eptir því segja sem er, at inn um Þrándheim má kalla allt fólk heiðit í átrúnaði, þóat sumir menn sè þar skírðir at kalla; en þat er siðr þeirra at hafa blót á haustum, ok fagna þá vetri, annat blót hafa þeir at miðjum vetri, en hit 3ja at sumri, þá fagna þeir sumari; eru at þessu Eynir ok Sparbyggjar, Verdælir ok Skeynir; tólf menn eru formenn at þessu um blótveizlurnar, ok á nú í vor at hafa blótveizluna Ölver bóndi af Eggju, hann er nú í starfi miklu á Mærinni, ok þágat eru nú tilflutt öll faung þau, sem þarf til veizlunnar. En er konúngr varð viss hins sanna um þetta mál, þá lèt hann blása saman liði sínu, ok lèt segja mönnum, at til skipa skal gánga. Konúngr nefndi menn til skipstjórnar, eðr hvert hvergi skyldi til skips gánga; var þá búizt skjótt. Konúngr hafði 5 skip ok 3 hundruð[1] manna, hann hèlt inn eptir firði, var á góðr byr, ok töldu snekkjurnar ekki lengi fjörðin fur vindinum; en þessa varði engan mann, þann sem fur var, at konúngr mundi svâ skjótt koma inn þángat á þá. Konúngr kom um nóttina inn á Mæri,

[1]) 4 hundruð, *G.*

var þá þegar sleginn hríngr um húsin, var Ölver þar handtekinn ok drepinn ok margir menn aðrir, en konúngr tók upp veizluna alla, ok lèt flytja til skipa sinna ok svâ lausafè allt, bæði húsbúníng ok klæði ok gripi, er menn höfðu haft þángat, ok lèt konúngr skipta því með mönnum sínum; konúngr lèt fara heim at þeim mönnum ok bóndum, er honum þóttu mest lut hafa átt at þessum ráðum, voru sumir handteknir ok í járn settir, en sumir komust undan með hlaupi, fur mörgum var fèit upptekit. Síðan stefndi konúngr þíng við bændr, en sakir þess at konúngr hafði marga ríka menn höndum tekit, ok hafði þá í sinni varðveizlu, þá sýndist þat ráð frændum þeirra, at játa konúngi hlýðni, heldrenn þeir væri drepnir, ok var engi uppreist gjör í móti konúngi þat sinn í Þrándheimi; snèri konúngr þar öllu fólki á rètta trú, ok setti þar kennimenn ok lèt kirkjur vígja. Konúngr lagði Ölvi úgildan, en kastaði sinni eign á lausafè allt, þat er hann hafði átt, en þá menn aðra, er honum þóttu mest vera sakbitnir við sik, lèt hann suma drepa, suma hamla at höndum eðr fótum, suma rak hann or landi, en tók fèit at sumum. Fór konúngr síðan út aptr til Niðaróss.

105. Maðr er nefndr Árni Armóðsson[1], hann átti Þóru, dóttur Þorsteins gálga. Þessi voru börn þeirra: Kálfr, Finnr, Þorbergr, Á-

[1]) Arnmóðsson, *S.*

mundi, Kolbjörn ok Arnbjörn, Árni hèt hinn ýngsti. Ragnhildr hèt dóttir þeirra, hana átti Hárekr or Þjóttu. Árni var lendr maðr, ríkr ok ágætr, ok mikill vinr Ólafs konúngs; þá voru með konúngi synir hans, Kálfr ok Finnr, ok voru þeir báðir í miklum kærleikum við hann. Kona sú, er átt hafði Ölver á Eggju, var úng ok fríð sýnum, ættstór ok auðig af fè, hún þótti kostr góðr, en konúngr hafði þá forráð hennar; þau Ölver áttu 2 sonu únga. Kálfr Árnason beiddist þess af konúngi, at hann gipti honum konu þá, er Ölver hafði átt, en fyrir vináttu sakir veitti konúngr honum þat, ok þarmeð veitti konúngr honum eignir þær allar, er Ölver hafði átt, ok gjörði hann þá lendan mann sinn, ok fèkk honum umboð sitt inn um Þrándheim; gjörðist Kálfr þá höfðíngi mikill ok var forvitri.

106. Þá hafði Ólafr verit konúngr yfir Noregi 7[1] vetr. Þat sumar komu til hans jarlar or Orkneyjum, Þorfinnr ok Brúsi, eignaðist Ólafr konúngr þá lönd þau, er þeir fóru með, svâ sem fyrr er ritat. Þat sumar fór Ólafr konúngr um Mæri hvâratveggja ok um Raumsdal inn. Um haustit[2] lèt hann þar taka alla hina beztu menn, bæði á Lesjum ok á Dofrum, ok vurðu þeir at taka við kristni eða þola dauða ella, eða rýma land ella, þeir er því komu við;

[1]) fjóra *G.* [2]) þar gekk hann af skipum sínum, ok fór þá til Upplanda, ok kom fram á Lesjar, *b. v. hin.*

en þeir er við kristni tóku, fengu konúngi sonu sína í gislíngar ok til trúnaðar. Konúngr var þár um nótt, sem Borrar[1] hèt á Lesjum, ok setti þar presta yfir; síðan fór hann yfir Orkadal ok um Gaulardál[2], ok kom niðr þar, er heitir Stafabrekka, en á sú fellr eptir dalnum, er Ótta[3] heitir, ok eru bygðir tveimmegin árinnar, ok er kölluð bygðin Lóar. Konúngr mátti þá sjá eptir endilángri bygðinni, konúngr mælti þá: skaði er þat, er brenna skal bygð svâ fögr, ok stefndi ofan í dal liði sínu, ok var á bæ þeim um nóttina, er Nes heitir, ok tók konúngr sèr þar herbergi í lopthúsi einu, ok þar svaf hann sjálfr, ok þat lopthús stendr enn í dag, ok hefir ekki verit gjört at því síðan. Konúngr var (þar) 5 nætr, ok skar upp herboð, ok stefndi til sín bæði af Vaga ok af Lóni[4], ok lèt þat fylgja þessu herboði, at þeir skulu annathvârt halda bardaga við hann eðr þola bruna af honum, eðr taka við kristni ok fá honum sonu sína í gislíng. Síðan komu þeir á konúngs fund, ok gengu á hönd honum, en sumir flýðu undan í Dala.

107. Dala-Guðbrandr hèt maðr, en svâ segja menn at hann væri sem konúngr yfir Dölunum, ok var þó hersir at nafnbótum; honum jafnaði Sighvatr skáld við Erlíng Skjálgsson, þá er hann kvað svâ:

---

1) Bærar, *B*; Borur, *C*; Bær *D*; Bora, *K*; Lóar, *S*; Borar, *hin.* 2) Ljórdal, *hin.* 3) Orká, *S.* 4) ok Stedal, *b. v. C, D, G, L.*

Einn vissa ek þèr annann
jarls brík-töpuðr[1]! líkan,
vídt[2] rèð gumna gætir,
Guðbrandr hèt sá, landi[3];
ykkr kveð ek jafna þikkja,
ormlaðs[4] háti! báða
lýgr hinn at[5] sèr lægir[6]
láðsetrs[7], er telst betri.

Guðbrandr átti son einn, svâ at hèr sè getit. Þá er Guðbrandr frá þessi tíðindi, at Ólafr konúngr var kominn á Lesjar[8], ok nauðgaði fólk til at taka við kristni, þá skar hann upp herör, ok stefndi til sín mönnum or öllum Dölum til bæjar þess, er Húnþorp[9] heitir, ok þar komu þeir allir, ok var þat ógrynni liðs; þar liggr vatn eitt nærr, er Lángr[10] heitir, ok mátti vel á skipum fara til þessa fundar. Guðbrandr átti þíng við þá, ok sagði at sá maðr var kominn á Lesjar, er Ólafr hèt: ok vill oss bjóða sið annann enn vèr höfum, ok brjóta goð vor í sundr, ok segir hann svâ, at hans er miklu máttugara guð enn vâr ok meira fur sèr, ok er þat furða, er jörðin brestr eigi undir honum, er hann þorir slíkt at mæla, eðr goð vor láta hann lengr gánga,

1) toput, *B, C, D, F, L.* 2) vitr, *D, F.* 3) landum, *hin.* 4) orðláðs, *C.* 5) er, *K. L.* 6) leggir, *K.* 7) læggsetrs, *B, C, D, F, S*; linnsetrs, *G. L.* 8) Lóar, *hin.* 9) Gunnþorp, *D*; Hundþorp, *hin.* 10) Lögr, *hin.*

ok veit ek, ef vèr berum út Þór or hofi sínu ok blóthúsi, er hann stendr í á þeima bæ, ok oss hefir jafnan vel dugat í nauðsynjar, ok sèr hann Ólaf ok hans menn, þá mun guð hans bráðna í sundr, ok svâ hann sjálfr, ok verða at alls engu, ok mun hann ekki eiga stað við sjónum hans. Þá æptu þeir upp allir senn ok mæltu, at Ólafr þessi skyldi aldrí þaðan heill koma eðr lífs, ef hann mætti þángat á fund þeirra, ok eigi mun hann þora at fara lengra suðr eptir Dölunum enn nú er hann kominn. Síðan ætlaðu þeir til, at fara skyldi 7 hundruð manna norðr til Breiðu, en fur því liði var sonr Guðbrands 18 vetra gamall, ok margir aðrir með honum ágætir menn, ok voru þeir 3 nætr á bæ þeim, er Hof heitir; kom þar margt lið til þeirra, þat sem flýit hafði af Lesjum ok Lóne[1], ok eigi vildi undir kristni gánga, en konúngr ok Sigurðr erkibiskup settu eptir kennimenn á Lóne ok Vaga; síðan fóru þeir yfir Urguröst, ok komu niðr á Usu[2], ok voru þar um nóttina, ok frágu þar þau tíðindi, at lið var mikit fur þeim, ok þat með at bændr á Breiðum bjöggust til bardaga á móti konúngi. Ok er konúngr stóð upp um morgininn, þá herklæadist hann, ok fór suðr eptir Usudölum[3], ok lètti eigi furr enn hann kom á Breiðuna, ok sá þeir þar mikinn her fur, svâ sem búinn til bardaga.

---

[1]) ok Vaga, *b. v. hin.* [2]) Lísu, *C, F*; Ausu, *G*; Lesjum, *L.*
[3]) Súvöllum, *C, G, K, S.*

Síðan fylkti konúngr liði sínu, ok rèð sjálfr fylkíngunni, hann orti orða á bændr, ok bauð þeim at taka við kristni; en þeir svöruðu: þú munt öðru þurfa við at koma í dag enn gabba oss ok æptu þegar heróp, ok börðu vâpnunum á skjölduna. Konúngsmenn ljópu þá ok fram, ok skutu spjótum til bónda; en bændr snèru þegar á flótta, svâ at fátt varð eptir; varð þá sonr Guðbrands höndum tekinn, ok gaf Ólafr konúngr honum grið, ok hafði hann með sèr; þar var konúngr 3[1] nætr; þá mælti konúngr við son Guðbrands: far þú aptr til föður þíns, ok seg honum, at ek mun brátt þar koma. Síðan fór hann heim aptr, ok sagði feðr sínum þessi tíðindi, at þeir höfðu háit bardaga við Olaf konúng: en lið vârt flýði þegar, svâ at aldrí stóð maðr eptir, en ek varð handtekinn, segir hann, ok gaf konúngr mèr grið, ok bað mik fara á þinn fund, ok segja þèr, at hann kemr hèr brátt; nú ræð ek þèr þat, faðir minn! at þú berìst eigi við þenna mann. Skilja má þat, segir Guðbrandr, at barit er or þèr hjarta allt: ok fórt þú fá heilli heiman, ok mun sjá ferð þín lengi uppi vera, ok trúir þú þegar á [úráð þau[2], er þessi maðr ferr með, er þèr hefir mikla hneykíng gjört ok þínu liði. Ok um nóttina eptir dreymdi Guðbrand, at maðr kom at honum mikill ok ljóss, svâ at hann þóttist engan slíkan sèð hafa; af honum stóð mikil ógn, ok mælti

[1]) 4, *hin.* [2]) órar þær, *C, D, G, S.*

hann: son þinn fór enga sigrför, Guðbrandr! móti Ólafi konúngi, en miklu skaltu meiri skömm fara fur honum, ef þú ætlar at berjast við hann, ok muntu falla sjálfr ok allt lið þitt, ok munu vargar draga hræ yður, ok hrafnar slíta. Hann varð hræddr við ógn þessa, ok sagði Þórði ístrumaga, er þá var mestr höfðíngi annar yfir Dölunum. Hann svarar: slíkt hit sama dreymdi mik í nótt, ok mun þetta vera nökkut. Ok um morgininn lètu þeir blása öllu liðinu til þíngs, ok segja svâ, at þeim þótti þat ráðligt at eiga furst þíng við þann mann, er norðan fór með ný boðorð, ok vita með hverjum sannindum hann færi. Síðan mælti Guðbranðr við son sinn: þú skalt nú fara á fund konúngs þessa, er þèr gaf grið í bardaganum, ok 12 menn með þèr, ok seg honum svâ, at vèr viljum furst eiga þíng við hann, ok sjá, með hverju hann ferr, ok gera þá síðan slíkt af sem oss sýnist. Þeir fóru á fund konúngs, ok sögðu honum þessi tíðindi, at bændr vildu hafa furst þíng við hann, ok setja grið til þessa fundar milli konúngs ok bónda. Konúngr segir sèr þat vel líka, ok bundu síðan grið til þessa einkamála, þartil er þessi stefna væri liðin; fóru þeir aptr við svâ búit, ok sögðu þeim Guðbrandi, at grið voru sett, ok konúngr fór þá til bæjar þess, er Liðstaðir heita, ok voru þar um nóttina; þá fór konúngr til þíngs, ok átti tal við bændr;

en væta var á mikil um daginn, síðan þíngit var sett; þá stóð konúngr upp, ok sagði at þeir á Lesjum ok á Lóni[1] höfðu við kristni tekit ok brotit blóthús sín niðr ok goð, og trúa nú á sannan guð, þann er skóp himin ok jörð, ok alla luti veit, þá er liðnir eru, ok eigi síðr hina er eigi eru framkomnir; ok síðan settist konúngr niðr. En Guðbrandr svarar: eigi vitum vèr, um hvern guð þú ræðir, kallar þú þann guð, er þú mátt eigi sjá ok enginn annarra; en vèr eigum þann guð, er hvern dag má sjá, ok er mikill fur sèr, væntir ek at yðr skjóti þá skelk í bríngu[2], ef hann kemr á þíngit; en með því at þèr segið, at guð yðvarr sè svâ mikill ok máttugr, at hann megi allt, þá lát þú hann svâ gera, at á morgin sè skýjat veðr, en regn ekki, ok finnumst hèr þá! Konúngr fór þá heim til herbergis, ok fór með honum sonr Guðbrands í gislíng, en konúngr fèkk þeim annann mann í móti. Um kveldit spurr konúngr son Guðbrands, hversu goð þeirra var gert; hann segir at þat var merkt eptir Þór, hefir hann hamar í hendi, ok mikill[3] vexti, svâ at ekki eru þeir menn, at honum sè meiri; hann er holr innan ok gjörr [undir honum[4], svâ sem stallr[5] sè, ok stendr hann þar á ofan, þá er hann er úti; eigi skortir hann gull á sèr ok silfr, fjórir hleifar[6] eru honum færðir hvern dag, ok þar

[1]) ok á Vaga, *b. v. C og fylg.* [2]) *Hèr sleppr D um sinn.* [3]) *Hèr byrjar E, aptr.* [4]) innan *C.* [5]) hjallr *B, C, E, G.* [6]) brauðs *b. v. C. E, G.*

með slátr at því skapi, ok leifir hann þess ekki. Síðan fóru menn í rekkjur, en konúngr vakti lengi um nóttina, ok var á bænum; en er dagr kom, stóð konúngr upp ok klæddist, ok fór til kirkju, og lèt sýngja sèr tíðir ok messu, ok fór síðan til borða ok þá til þíngs; veðri var svâ farit, sem Guðbrandr hafði beidt. Á þessu þíngi stóð upp Sigurðr biskup, hann hafði yfir sèr kantara kápu ok biskupsmítr á höfði, en bagal í hendi sèr, ok taldi trú fur bóndum, ok sagði margar jarteinir, er guð gerði bæði fur písl sína ok eptir, ok lauk biskup sínu máli vel ok fagrliga. Þá svarar Þórðr ístrumagi: margt mælir hyrníngr sjá, er staf hefir í hendi, ok uppi á sem sè veðrarhorn bjúgt; nú með því at þið fèlagar segið guð ykkarn svâ miklar jarteinir gjört hafa, þá mælið þið við hann, at á morgin láti hann vera sólskin ok heiðviðri, ok skíni sól gladt vel, ok finnumst þá enn hèr! gjörum þá annattveggja, at vèr sættumst um þetta mál, eðr höldum bardaga, ok skiljumst við þetta at sinni.

108. Kolbeinn sterki hèt maðr, er var með Ólafi konúngi, hann var kynjaðr or Fjörðum, hann hafði þann búníng jafnan, at hann var gyrðr sverði, ok hafði ruddu mikla í hendi, er sumir menn kalla klumbu. Konúngr mælti við Kolbein, at hann skyldi standa nærr honum um daginn á þínginu; síðan mælti hann við menn sína: gángið þèr þángat, sem skip bónda eru, í nótt, ok borið á raufar neðan, svâ at eigi sè sæfær,

en ríðið í brott eykjum þeirra, þeim sem þèr náið. En konúngr var alla þá nótt á bænum, ok bað þess guð, at hann skyldi leysa þetta vandræði með sinni mildi ok miskunsemi; en er þeir konúngr ok biskup höfðu lokit tíðum í móti degi, þá fór hann til þíngs, en er hann kom þar, þá voru bændr öngvir komnir, þá sá þeir mikinn fjölda fara til þíngs, ok báru mikit mannlíkan í milli sín, þat var glæst allt af gulli ok silfri; ok er þat sá bændr, þeir er (á) þínginu voru, þá ljópu þeir upp allir ok lutu því skrimsli; síðan var þat sett á miðjan þíngvöllinn, sátu öðrumegin at bændr, en öðrumegin konúngr ok hans menn. Þá stóð upp Dala-Guðbrandr, ok mælti: hvar er nú guð þinn, konúngr! þat ætla ek, at hann beri nú heldr lágt hökuskeggit, ok svâ þikkir mèr, sem nú sè minna kapp þitt ok þess hyrníngsins, er þar sitr hjá þèr, er þèr kallið biskup, enn var hinn furra dag, þvíat nú er sá kominn, er ykkr mun kyrra, ok ræðr hann öllum heimi, ok lítr hann á ykkr hvössum augum, ok sèr ek gjörla, at þið eruð yfirkomnir ok felmsfullir, ok þorið varla augum upp at sjá; nú fellið niðr hindrvitni ykkra ok hègóma, ok trúið á guð vârt, er allt hefir í hendi ráð ykkart! ok lauk svâ ræðunni. Konúngr mælti við Kolbein sterka, svâ at bændr heyrðu eigi: ef svâ berr til í ræðu minni, at bændr líti frá guði sínu, þá skaltu ljósta hann þat högg, sem mest mátt þú. Eptir þat stóð konúngr upp, ok mælti: margt

hefir þú, Guðbrandr! mælt til vor í myrgin, ok lætr þú undarliga yfir því, er þú mátt eigi sjá guð minn, en vèr væntum at hann komi nú brátt til vor; þú ógnar oss guði þínum, er bæði er blindr ok daufr, ok má hvârki bjarga sèr nè öðrum, ok kemst hvergi or stað, nema borinn sè, ok væntir ek at honum sè skamt til ílls; lítið þèr nú í austr, þar ferr nú guð vârr með ljósi miklu! þá rann þar sól upp, ok litu bændr allir þágat til; en í því bili laust Kolbeinn svâ goð þeirra, at þat brast allt í sundr ok ljópu þar or mýss svâ stórar, sem kettir væri ok nöðrur[1] ok ormar; en bændr vurðu svâ ræddir, at þeir flýðu, hverr sem mátti, sumir flýðu til skipanna, en er þeir hrundu fram skipunum, þá ljóp þar þegar inn vatn, ok máttu þeir hvergi þeim fara, en þeir er til eykjanna ætlaðu, þá fundu þeir eigi þá. Síðan lèt konúngr þágat kalla bændr til sín, ok segir at hann vill eiga tal við þá, hurfu þeir þá aptr, ok sátu þíng í annat sinn. Ólafr konúngr stóð þá upp, ok talaði: eigi veit ek, hvat skal harki þessu ok herlaupi, er þèr hafið, en nú megið þèr sjá, hvat guð yðvart mátti sèr, er þèr báruð á gull ok gersimar, ok sjáið þèr nú, hverir neytt hafa þess, sem þèr hafið honum gefit, þat eru ormar ok pöddur ok mýss: nú eru þeir heimskir, er á slíkt trúa, ok eigi vilja láta af heimsku slíkri; nú takið upp gull yðvart og gersimar, er nú ferr hèr um völlinn, ok hafið heim

1) eðlor *B*, *G*, *K*, *S*; æyðlur *C*; ætlar *E*.

til kvenna yðvarra, ok berið aldrí síðan á stokka eðr steina; en nú eru hèr 2 kostir fur hendi minna vegna, sá annar, at þèr takið við kristni þegar í stað, eðr þèr haldið upp bardaga við mik, ok beri þeir sigr af öðrum, er guð vill, sá er ek trúi á. Þá stóð upp Dala-Guðbrandr, ok mælti: skaða mikinn höfum vèr beðit nú um guð vårt; en nú með því at hann mátti eigi sèr bjarga nè viðhjálpa, þá trúi ek, at aldrí mun hann heldr mega oss hjálpa, þá viljum vèr nú heldr trúa á þann guð, konúngr! sem þèr trúið á, ok þið biskup; þá tóku allir við kristni, ok skírði biskup Guðbrand ok son hans, ok setti konúngr þar eptir kennimenn, ok voru þeir nú vinir, er áðr voru úvinir. Dala-Guðbrandr lèt gera kirkju á bæ sínum í Dölum.

109. Ólafr konúngr fór síðan út á Heiðmörk, ok kristnaði þar, þvíat þá er hann hafði tekit konúngana, þá treystist hann eigi þegar eptir slík stórvirki at fara víðara yfir landit, varð þá óvíða kristnat í þeirri ferð; en í þessari ferð lètti konúngr eigi furr, enn um Heiðmerk var allt alkristnat, ok þar vígðar kirkjur ok kennimenn tilfengnir. Þaðan fór hann út á Þotn ok Haðaland, ok bætti þar siðu manna; þaðan fór hann á Ríngaríki, ok gengu menn þar allt undir kristni. Síðan frágu Raumar, at Ólafr konúngr bjóst upp þángat, ok samnaðu saman her manns, ok mæltu svâ sín í milli: at þat er þeim eimuni[1] sú yfir-

[1]) einmuna *E*; auðmunat, *G*.

för, er Ólafr konúngr hafði þar næstum farit, ok sögðu hann aldrí svâ skyldu fara optarr. En er Ólafr konúngr fór um Raumaríki með liði sínu, þá kom ímóti honum bónda samnaðr við á þá, er Móra[1] hèt, ok höfðu her manns; ok er þeir fundust, þá ortu bændr þegar á um bardaga, en þó brann brátt þeirra lutr við, ok hrukku þeir þegar fur sem viðihæll, ok voru þeir barðir til batnaðar, þvíat þeir báðu þá at hafa frið við konúng ok taka við kristni; fór þá konúngr yfir þat fylki, ok skildist eigi furr við, enn þat var alkristnat ok flestir menn skírðir. Þaðan fór hann austr í Sóleyjar, ok kristnaði þar þá bygð, þar kom þá til móts við konúng Óttarr skáld svarti, ok beiddist at gánga á hönd Ólafi konúngi. Þann vetr hafði andazt Ólafr Svía konúngr; þá var Önundr Ólafsson konúngr yfir Svíþjóðu. Ólafr konúngr snèri aptr á Raumaríki, var þá mjök álíðinn vetrinn, hann stefndi þá þíng fjölment í þeim stað, er síðan hefir Heiðsefisþíng verit, setti hann þat í lög síðan, at til þess þíngs skyldu sækja Upplendíngar, ok Heiðsæfislög skyldu gánga um öll Upplönd, ok svâ víða annarstaðar, sem síðan hefir haldizt. En er vâraði, sótti hann út til sjófarins, lèt hann þá búa skip sín, ok fór um vârit út til Túnsbergs, ok sat þar um vârit, meðan þar var fjölmennast, ok þágat var mestr flutníngr til bæjarins af öðrum löndum; var þar þá árferð góð um Víkina, ok at góðri hlít allt norðr til Staðs, en hallæri mikit allt norðr þaðan.

[1]) Nicia, *C, E, G, S, L.* [2]) Heitsæfis þíng, *C.*

110. Ólafr konúngr sendi orð á Agðir ok allt norðr um Rogaland ok svâ um Hörðaland, at konúngr vill hvârki malt nè korn nè mjöl þaðan í brott láta selja, lèt þat ok fylgja, at hann mun þágat koma með lið sitt ok fara at veizlum, svâ sem siðvenja er til. Fór þetta boð um þessi fylki öll, en konúngr dvaldist um sumarit í Víkinni, ok fór allt austr til landsenda. Einarr þambarskelfir hafði verit með Ólafi Svía konúngi, síðan er Sveinn jarl andaðist, mágr hans, ok gerðist hans maðr, ok hafði tekit af honum lèn mikit; en er Ólafr Svía konúngr var andaðr, þá fýstist Einarr at leita sèr griða af Ólafi konúngi digra, ok höfðu þar farit orðsendíngar í milli þeirra um vârit; en er Ólafr konúngr lá í Elfinni, þá kom þar Einarr þambarskelfir með nökkura menn, ræddu þeir konúngr þá um sætt sína, ok samdist þat með þeim, at Einarr skyldi fara norðr til Þrándheims, ok hafa eignir sínar allar, ok svâ þær jarðir, er Bergljótu höfðu heiman fylgt. Fór Einarr þá norðr leið sína, en konúngr dvaldist lengi í Borg um sumarit.

111. Erlíngr Skjálgsson hèlt ríki sínu, svâ at allt norðan frá Sognsæ ok austr til Líðandisness rèð hann einn öllu við bændr, en veizlur konúngs hafði hann miklu minni enn fyrr; en sú stóð ógn af honum, at enginn lagði í aðra skál, enn hann vildi; konúngi þótti ofgángr at um ríki hans. Maðr er nefndr Áslákr fitjaskalli,

hann var mikill vin Ólafs konúngs, kynstórr maðr var hann ok ríkr. Þórólfr[1] skjálgr, faðir Erlíngs ok[2] faðir Áslaks, voru bræðrasynir. Ólafr konúngr setti hann niðr á Sunn-Hörðalandi, fèkk honum þar lèn mikit ok veizlur stórar, ok bað konúngr hann halda sik til móts við Erlíng, en þat varð ekki á þá leið, þegar konúngr var eigi nærr, varð þá Erlíngr einn at skapa ok skera ímilli þeirra, svâ sem hann vildi; Erlíngr var ekki at mjúkari við Áslák, þótt hann hèldi sèr fram til móts við hann, fóru þeirra skipti svâ, at Áslákr hèlzt eigi við í sýslunni, fór hann þá á fund Ólafs konúngs, ok segir honum frá skiptum þeirra Erlíngs. Konúngr bað Áslák vera með sèr: þar til er við Erlíngr finnumst. Ólafr konúngr gjörði orð Erlíngi, at hann skyldi koma til móts við hann um vârit; en er þeir fundust, þá áttu þeir stefnu með sèr; konúngr mælti þá: svâ er mèr sagt, Erlíngr! frá ríki þínu, at enginn maðr sè sá norðan frá Sognsæ til Líðandisness, er frelsi sínu haldi fur þèr, eru þeir þó margir menn, at óðalbornir þikkjast til vera at hafa rèttindi af jafnbornum mönnum sèr, hefir slíkr ofsi jafnan illa gefizt; nú er hèr Áslákr, frændi þinn, ok þikkir mèr, sem hann þikkist nokkut kulda af kenna um yðr viðskipti; nú veit ek eigi, hvârt heldr er, at hann hefir sakir til þess, eðr skal hann hins at gjalda, er ek hefir hann sett yfir minn varnað; en þó at ek nefna hann til þessa,

---

1) *v. í hin.* 2) Askell, *b. v. hin.*

þá kæra þó slíkt margir fur oss, bæði þeir er í sýslum sitja, ok svâ hinir, er búin varðveita ok veizlurnar skulu veita mèr ok liði mínu. Erlíngr svarar: því skal skjótt svara, segir hann, at þat skal neita, at ek gefa Ásláki eðr öðrum mönnum þær sakir, at í yðvarri þjonustu sè; en hinu skal játa, at þat er nú, sem lengi hefir verit, at hverr vârr frænda vill öðrum meiri vera; hinu öðru skal játa, at ek geri þat lostigr at beygja hálsinn fyrir yðr, konúngr! en hitt mun mèr örðigra þikkja, at lúta til Selþóris, er þrælborinn er í allar ættir, þótt hann sè nú ármaðr yðvarr, ok þjóna til hans eðr annarra þeirra, er hans makar eru[1], þóat þèr leggið metorð á. Þá lögðu til ræðu þeirra beggja vinir, ok báðu at þeir skyldu sættast, sögðu sem satt var, at konúngi var at engum manni meiri styrkr enn Erlíngi þar í landi, ef hann vildi vera vinr konúngs. Í annann stað mæltu þeir svâ til Erlíngs, at hann skyldi vægja til við konúng, ok segja svâ, ef hann hèldist í hlýðni við konúng ok vináttu, at honum mundi þá verða all auðveldt, at koma fram því, sem hann vildi, ef þeirra vinátta hèldist. Lauk svâ stefnu þessari, at Erlíngr skyldi hafa hinar sömu veizlur, sem furr hafði hann haft, ok settust niðr allar sakir, þær er konúngr bar á Erlíng; skyldi þá ok fara til konúngs Skjálgr, son Erlíngs, ok vera með honum; fór ok þá Áslákr fitjaskalli aptr til búa sinna, ok voru þeir þá sáttir allir at kalla.

[1]) *Hèr sleppr E um sinn.*

112. Sigurðr hèt maðr Þórisson, hann var bróðir Þóris hunds í Bjarkey, hann átti Sigríði, dóttur Þórólfs skjálgs af Jaðri, systur Erlíngs. Ásbjörn hèt son þeirrá, hann þótti allmannvænligr í furstu; hann[1] bjó í Ömdr[2] á Þrándarnesi, hann var stórauðigr ok virðíngamaðr mikill, hann var handgenginn konúngi. Þórir þótti þó fur þeim bræðrum, þvíat hann var lendr maðr konúngs, en heima í búnaði þótti Sigurðr í engan mun minni rausnarmaðr; hann var því vanr, meðan heiðni var, at hafa þrenn blót hvern vetr, eitt at vetrnóttum, annat at miðjum vetri, þriðja at sumri; en síðan kristni var alsiða, hèlt hann teknum hætti um veizlurnar, hafði hann þá um haustit vina veizlu, en jólaboð á vetrinn, ok bauð þá enn mörgum mönnum til sín; þriðju veizlu hafði hann at páskum, ok hafði þá enn fjölment; slíku hèlt hann fram, meðan hann lifði. Sigurðr varð sóttdauðr, þá var Ásbjörn á tvítögsaldri, tók hann þá arf eptir föður sinn, hèlt hann teknum hætti um veizlurnar, hafði hann þrennar á hverjum misserum, sem faðir hans hafði gjört; en í þenna tíma sem faðir hans var andaðr, en Ásbjörn tók við fjár forráðum, tók at versna árferð ok sæði manna. Ásbjörn naut þá þess við, at þar voru mikil forn korn ok önnur faung þau er hafa þurfti. En er þau misseri liðu af, en önnur komu, þá voru korn engum mun betri enn hin furri, þá vildi Sigríðr, móðir hans, at af væri teknar veizlurnar

[1]) Sigurdr, *hin.* [2]) Ömd, *hin.*

sumar eðr allar; Ásbjörn vildi þat eigi, ok fór til vina sinna, ok keypti korn þar sem hann gat, en þá af sumum at gjöf. Fór enn svâ fram þau misseri, at Ásbjörn hèlt öllum veizlum sínum; en eptir um sumarit fengust lítil sæði, þvíat eigi gat [forn korn[1] at kaupa; ræddi Sigríðr þá um, at fætta skyldi húskarla, en taka af veizlur allar; Asbjörn vildi ekki þát ok hèlt fram hinu sama í öllu þat sumar; korn var heldr úvænligt, þat fylgði þá ok, at þat var sagt sunnan or landi, at Ólafr konúngr bannaði þaðan at selja korn ok malt ok mjöl, þá þótti Ásbirni vandast um tilfaungin bússins, var þat þá ráð hans, at hann lèt setja fram burðíng, er hann átti, hann var haffærandi at vexti, skipit var ok vandat at reiða, þar fylgði stafat segl með vendi. Ásbjörn rèðst nú til ferðar ok með honum nærr 30[2] manna, fóru síðan suðr með landi um sumarit, ok er ekki sagt frá ferð þeirra, furr enn þeir komu suðr við Körmt[3] aptan dags, ok lögðu við Ögvaldsnes, þar var konúngsbú ok ágætr bær; þar rèð furr Þórir selr, hann var ármaðr Ólafs konúngs; Þórir var maðr ættsmárr, ok hafði mannast vel, hann var starfsmaðr mikill, snjallr í máli, áburðarmaðr mikill; þeir Ásbjörn lágu þar um nóttina, en um morgininn, er ljóst var, gekk Þórir til skips ofan, er hann sá at komit var, ok nökkurir menn með honum; Þórir hafði mann margt um sik; hann spurr, hverr fur skipi rèði því hinu fagra? Ásbjörn segir

[1]) frækorn, *hin.* [2]) 20, *C, F, G, K, L, S.* [3]) Karmsund, *hin.*

til sín ok föður síns. Þórir spurr hvert hann skyldi fara hit lengsta, eðr hvat honum var at eyrindum. Ásbjörn segir at hann vildi kaupa sèr korn ok malt ok mjöl, sagði at hallæri var mikit norðr í landit: en oss er sagt at hèr sè vel ært, eða vilt þú, bóndi! selja os korn nökkut? ek sèr at hèr eru hjálmar stórir, væri oss þat góð órlausn, at þurfa eigi at fara lengra, eðr rekast at. Þórir svarar: ek skal gera þèr órlausn, at þú skalt eigi þurfa lengra at fara at kornkaupunum, eðr víðara at at rekast hèr um Rogaland. Ek kann þèr með sannindum at segja, at þú mátt hèr vel aptr hverfa, fur því at þú munt hèr hvergi korn fá, hvârki hèr nè í öðrum stöðum, þvíat konúngr bannar, at hèðan skuli seljast norðr í land, ok far aptr, Háleygr! sá mun þinn hinn bezti. Asbjörn svarar: ef svâ er, sem þú segir, bóndi! at vèr munim eigi fá kornkaupin, þá mun þó eigi verða minna eyrendi mitt, en hafa kynnisvist á Sóla, ok sjá hýbýli Erlíngs, frænda míns. Þórir mælti: hversu mikla frændsemi átt þú við Erlíng? Hann svarar: hann er móðurbróðir minn. Þórir mælti: vera kann þá, at ek hafi talat ekki varliga, ef þú ert systurson hans Rýgja konúngs. Ásbjörn svarar: ekki er ek orðsjúkr, fèlagi! Þá kastaðu þeir af sèr tjöldunum, Ásbjörn ok hans menn, ok snèru út skipinu. Þórir mælti: farið nú vel ok komið hèr, er þèr farið aptr. Ásbjörn svarar, at svâ skal vera. Fara þeir þá leiðar sinnar,

ok koma einn aptan dags síð á Jaðar; fór Ásbjörn til húss með 15da mann, en aðrir 15[1] gættu skips; en er Ásbjörn kom heim til bæjarins, fèkk hann þar góðar viðtökur, setti Erlíngr hann hit næsta sèr, ok spurr hann margs norðan or landi, ok var hinn kátasti. Ásbjörn segir honum hit ljósasta af um eyrendi sín. Erlíngr segir, at hann var þá eigi allvel atkominn, fur því at konúngr bannar mönnum kornsölur; veit ek eigi, segir hann, þeirra manna vân, er traust muni til hafa at brjóta orð konúngs. Ásbjörn svarar: seint er satt at spurja, mèr hefir svâ kent verit á únga aldri, at móðir mín væri frjáls borin í allar hálfur, ok svâ þat með, at Erlíngr á Søla væri ríkastr ok göfgastr allra frænda hennar: en nú heyri ek þik þat segja, at þú sèr eigi svâ frjáls hèr á Jaðri fur þrælum konúngs, at þú megir gera af korni þínu, þat er þú vill afgera. Erlíngr sá til hans, ok glotti við tönn, ok mælti: minna vitið þèr til konúngs ríkissins Háleygirnir, enn vèr Rýgirnir, en örorðr muntu heima, frændi! er þú ert svâ á búi, átt þú ok ekki lítt til þess varit, ok drekkum furst, frændi! en sjám á myrgin, hvat þá líðr um[2] erendi þín; þeir gerðu svâ, ok voru allkátir um kveldit, ok drukku lángt á nótt fram. En eptir um daginn talast þeir við frændr, Erlíngr ok Ásbjörn; þá segir Erlíngr, at hann hefði hugsat ráð um korn-

[1]) 10, *C, F, G, K, L, S.* [2]) *Her byrjar D aptr.*

kaup Ásbjarnar: eðr hversu vandr muntu vera um kaupunauta? segir hann. Ásbjörn svarar, at hann hirði aldrí, at hverjum hann keypti, þegar honum var heimilt selt. Erlíngr mælti: Þat þikkir mèr líkara, at þrælar mínir muni eiga korn svâ mikit, at þeir megi gera þik fullkaupa, þeir eru ekki í lögum eðr í öðrum landsrètt við aðra menn, ok hygg ek, segir hann, at konúngr eigi enga sök á því. Ásbjörn svarar, at hann vill þenna kost gjarna. Var þá sagt þrælunum til um þessa kaupstefnu, lètu þeir þá þegar fram kornit ok svâ maltit, ok seldu Ásbirni; hlóð hann skip sitt af korni ok malti. En er Ásbjörn var í brott búinn, leiddi Erlíngr hann út með vingjöfum, ok skildust þeir með kærleikum; fèkk Ásbjörn byrleiði gott, ok lagði at um kveldit í Körmt á Ögvaldsnesi, ok lágu þar um nóttina. Þórir selr hafði þegar spurn af um kveldit um farar Ásbjarnar, ok svâ þat, at skip hans væri hlaðit. Þórir stefnir þá til sín liði um nóttina, svâ at hann hafði fur dag 60 manna; hann fór þá á fund Ásbjarnar, þegar lítt var lýst, gengu þeir þegar út á skipit, þá voru þeir Ásbjörn mjök klæddir, ok heilsaðu vel Þóri. Þórir spurr, hvat þúnga þeir hefði í skipi. Ásbjörn segir, at korn ok malt var á skipi. Þá mælti Þórir: þá mun Erlíngr enn gera eptir vana, at hafa fur hègómamál orð Ólafs konúngs, ok leiðist honum enn eigi þat, at vera mótstöðumaðr hans í öllu, ok er

þat furða, er konúngr lætr honum hvatvetna hlýða, hverigar úhæfur sem hann tekr til. Þórir er þá málóði um hríð, en er (hann) þagnaði, þá svarar Ásbjörn: engi sök er á Erlíngi um þetta mál, þvíat þrælar hans seldu mèr kornit. Þórir svarar þá snellt, ok kveðst ekki hirða um prett þeirra Erlíngs: ok er nú hitt til, Ásbjörn! segir hann, at þèr gángið á land, meðan vèr ryðjum skipit, ella færum vèr yðr alla útbyrðis, þvíat vèr viljum öngva þraung taka af yðr, meðan vèr flytjum farminn af skipinu, en ekki munuð þèr lengra fara með faung þessi. Ásbjörn sá þá, at hann hafði ekki liðskost við Þóri, ok gengu þeir Ásbjörn á land upp ok hans förunautar, en Þórir lèt flytja farminn allan af skipinu. Þórir mælti: furðu gott segl hafa þeir Háleygirnir, taki byrðíngssegl vârt hit forna ok fái þeim, þat er þeim fullgott, er þeir sigla lausum kili; svâ var gjört at þeir voru ræntir seglinu; fór Ásbjörn við svâ búit, ok stefndi norðr með landi, ok lètti eigi furr enn hann kom heim; var þat öndverðan vetr, ok varð sjá ferð allófræg; varð þá starf allt tekit af Ásbirni at búa veizlurnar. Þórir hundr bauð Ásbirni, frænda sínum, til jólaveizlu, ok mönnum hans þeim öllum, er hann vildi at færi. Ásbjörn vildi eigi fara, ok sat heima. Þat fannst á Þóri, at honum þótti Ásbjörn gera úvirðíng til sín ok til boðs síns, ok hafði Þórir mjök í skaupi um farar Ásbjarnar: bæði er, segir Þórir, at mikill

er virðíngamunr frænda Ásbjarnar, enda gjörir hann at því, slíkt starf sem hann lagði á at sækja kynnit til Erlíngs á Jaðar í sumar, en vill nú eigi fara hèr í næsta hús til mín; veit ek eigi þat, hvårt hann ætlar at Sel-Þórir muni fyrirbúa í hverju holti. Slík orð frètti Ásbjörn frá Þóri, frænda sínum, ok önnur þvílík. Ásbjörn undi stórilla við sinn lut, ok enn verr þá, er hann heyrði slíkt talat ok haft at hlátri ok spotti; var hann heima um vetrinn, ok fór hvergi til heimboða.

113. Ásbjörn átti lángskip, þat var snekkja tvítögsessa, stóð þat í nausti miklu. [Um vetrinn eptir jól ok eptir Maríumessu[1] lèt Ásbjörn setja fram skip þetta ok bera reiða til, síðan stefndi hann til sín mönnum, vinum sínum ok frændum, ok hafði nærr 9 tigu[2] manna ok alla vel våpnaða; en er hann var búinn, ok byr gaf, þá sigldi hann suðr með landi, ok fóru þeir ferðar sinnar, ok byrjaði þeim vel ok heldr seint, en er þeir sækja suðr í landit, þá fara þeir meirr útleið enn þjóðleið, þegar er svå mátti. Ekki varð til tíðinda í ferðum þeirra, furr enn þeir koma at kveldi fimta dags í páskaviku utan at Körmt; eyjunni er þannig farit, at hún var mikil ey ok laung, en ekki víðast breið, liggr við þjóðleið fur utan, þar er mikil bygð í eyjunni, ok þó er hún víða úbygð, þat er útliggr til hafsins. Þeir Ásbjörn lendu utan at eyjunni, þar er úbygt er, en er þeir höfðu tjaldat, þá mælti Ásbjörn:

1) Eptir Kyndilmessu, *hin.* 2) 10 tigu, *C, F, L.*

nú skúluð þèr hèr vera eptir, en ek mun gánga upp á eyna[1]. En er hann kom á hæð nökkura, þar er hann sá heim til bæjar á Ögvaldsnesi, ok svâ þaðan á Karmssund, þá sá hann manna ferðir miklar, bæði á sjá ok á landi, ok sótti þat fólk heim til bæjar á Ögvaldsnesi; honum þótti þat undarligt; síðan gekk hann heim til bæjar, þar sem þjónustusveinar bjuggu mat, heyrði hann þá þegar, ok skildi á ræðum manna, at Ólafr konúngr væri kominn þar til veizlu, svâ ok þat með, at konúngr var þá til borða genginn. Ásbjörn snèri þá til stofunnar, en er hann kom í forstofuna, þá gèkk þar annar maðr út, en annar inn einart, ok gaf engi maðr at honum gaum. Opin var hurðin, hann sá at Þórir selr stóð fur konúngs borðinu, þá var mjök áliðit matmálit. Ásbjörn heyrði til at menn spurðu Þóri at viðskiptum þeirra Ásbjarnar, ok svâ þat, at Þórir sagði þaraf lánga sögu, ok var honum all lètt mælt þarum. Ásbirni þótti hann mjök halla sögunni; þá heyrði hann at maðr frètti: hvern veg varð Ásbirni við, þá er þèr rudduð skipit? Þorir svarar: bar hann sik at nökkurri hlít, meðan vèr ruddum skipit, en er vèr tókum seglit af honum, þá grèt hann sem barn. En er Ásbjörn heyrði þetta, þá fèkk hann eigi staðizt, brá

[1]) at njósna um hvört títt sè í eyjunni, því at vèr höfum ekki umspurt áðr, hvat hèr er títt. Asbjörn hafði vândan búnað ok hött síðan, fork í hendi, en gyrðr sverði undir klæðum; hann gekk uppá land ok yfir eyna, *b. v. hin*,

hann þá sverðinu hart, ok ljóp svâ í stofuna innar, ok þegar hann ætlaði at sverðit mundi taka til þóris, þá hjó hann til hans, ok kom höggit á hálsinn, svâ at þegar tók af höfuðit, fèll höfuðit á borðit fur konúnginn, en bolrinn á fætr honum, vurðu borðdúkarnir í blóði einu bæði uppi ok niðri; konúngr bað taka manninn ok leiða út, var svâ gjört at Ásbjörn var tekinn höndum ok leiddr út or stofunni, en síðan voru teknir brott dúkarnir ok allr borðbúnaðrinn, ok borðin í braut tekin, svâ var í braut borit lík þóris, ok sópat þat er blóðugt var; konúngr var allreiðr ok stilti sik þó vel, sem hann var vanr jafnan, þá er honum þótti mjök ímóti sèr gjört.

114. Skjálgr Erlíngsson stóð þá upp, ok gekk fur konúng, þvíat hann var þá með konúngi. Hann mælti: svâ mun nú sem jafnan, herra! segir hann, at þar er til umbóta at sjá, sem þèr eruð, ek vil bjóða fè fur þenna mann svâ mikit, sem þèr villð gert hafa, til þess at hann haldi lífi sínu ok limum, en þèr, konúngr! skapið ok skerið einn um allt annat. Konúngr svarar: er eigi þat dauða sök, at brjóta páskafriðinn; ok sú önnur, er hann drap mann í konúngs herbergi; sú hin 3ja, er yðr föður þínum mun lítilsverð þikkja, er hann hefir fætr mína fur höggstokkinn? Skjálgr svarar: illa er þat, herra! er yðr mislíkar, en ella væri verk þetta hit bezta unnit, þvíat ærin var nauðsyn til þessa verks; en þóat yðr, herra! þikki mjök í móti skapi, ok

mikils um þetta verdt, þá væntir ek þó góðs, at ek þiggi mikit af yðr fur mína þjónustu; munu margir ok þat mæla, herra! at yðr sè þat vel geranda. Konúngr svarar: þó at þú sèr mikilsverðr, Skjálgr! þá mun ek þó eigi fur þínar sakir brjóta lögin nè konúngstignina eðr svâ landsrèttinn. Skjálgr snarast þá út or stofunni, ok sá at hann fèkk ekki af konúngi; tólf menn höfðu þar verit með honum, ok fylgðu honum allir ok margir aðrir með honum. Þá mælti Skjálgr við Þórarinn Nefjólfsson: ef þú vill hafa mína vináttu, þá legg þú á allan hug, at Ásbjörn, frændi minn, sè eigi drepinn fur sunnudag; ekki er ek þess ráðandi, segir Þórarinn; því býð ek þèr þó þetta mál, segir Skjálgr, heldr, enn öðrum mönnum, at mèr þikkir þú líkastr til, fur vitru sakir ok dirfðar, at koma þessu fram. Skjálgr fór síðan í brott ok hans menn, ok tóku róðrarskútu, er hann átti, ok róa suðr með landi, sem af mátti taka, ok koma í nætrelding á Jaðar; gengu síðan þegar upp til bæjarins á Sóla, ok til lopts þess, er Erlíngr svaf í; Skjálgr ljóp á hurðina svâ hart, at þegar brotnaði at nöglunum Erlíngr vaknaði við, ok þeir aðrir sem inni voru, hann varð skjótastr á fætr, ok greip skjöld sinn ok sverð, ok ljóp til duranna, ok spurr, hverir svâ ákafliga fari um nætr. Skjálgr segir til sín, ok bað uppláta hurðina. Erlíngr svarar: þat var ok líkast, ef allferliga ferr; eðr fara menn eptir yðr, svâ at þèr sè hætt? Var þá upplátin hurðir.

þá mælti Skjálgr: þat væntir ek, þó at þèr þikki ek ákafliga fara, at Ásbirni, frænda þínum, þikki þat eigi, þar er hann sitr norðr á Ögvaldsnesi í fjötrum, ok er þat mannligra at duga honum, enn at veita mèr átölur. Síðan eigast þeir feðgar orð við, segir Skjálgr föður sínum allan atburð um víg Sel-þóris, ok svâ frá orðtaki þeirra Ólafs konúngs.

115. Ólafr konúngr settist, þá er braut var rudt ok umbúit í annat sinn í stofunni, ok var allreiðr. Hann spurr hvat leið um vegandann; honum var sagt, at hann var úti í svölunum í gæzlu hafðr. Konúngr mælti: hví er hann eigi drepinn? þá svarar þórarinn Nefjólfsson: herra! segir hann, kallið þèr þat eigi morðverk, at drepa menn um nætr? Konúngr mælti: þá seti hann í fjötra, ok drepi hann á morgin. Síðan var Ásbjörn fjötraðr, ok byrgðr einn í húsi um nóttina; en eptir um daginn hlýddi konúngr tíðum, síðan gekk hann á stefnu, ok sat þar framan til hámessu; ok er hann gekk frá messunni, mælti hann til þórarins: mun nú vera sólin svâ há, at Ásbjörn, vin yðvarr, mun hánga mega fur þat? þórarinn svarar, ok laut konúngi: þat sagði biskup furra frjádag, herra! at sá konúngr, er þá var píndr fur vârar sakir, at hann þoldi skammraunina[1], ok er sá sæll, er eptir honum má líkja, heldr enn hinum, er þá ollu manndrápinu, eðr þeim er

[1]) skapraunina, *hin.*

þá dæmdu manninn til dauða; nú er eigi svâ lángt til morgins, ok er þá sýkn dagr hjá því sem nú er. Konúngr leit við honum, ok mælti: ráða muntu þessu, Þórarinn! at hann skal eigi í dag drepa, skaltu nú varðveita hann, ok vit þat til sanns, at hèr liggr við líf þitt, ef hann kemst í brott með nökkuru móti. Gekk Þórarinn þá leið sína, þartil er hann fann Ásbjörn í járnum, lèt Þórarinn þá af honum fjötrin, ok fylgði honum í eina litla stofu, ok lèt fá honum þar mat ok drykk, ok segir hann, hvat konúngr hafi álagt við hann, ef hann kemst í brott. Ásbjörn svarar, bað Þórarinn þat ekki óttast, ok lèzt ekki til brautlaups ætla mundu. Sat Þórarinn þar lengi um daginn hjá honum, ok svâ svaf hann þar um nóttina eptir. Laugardaginn stóð konúngr upp ok hlýddi morgintíðum, síðan gekk hann á stefnur, ok var þar fjölment komit af bóndum, ok áttu mart at kæra, sat konúngr þar lengi dags yfir málum, ok var síð gengit til hámessu; eptir þat gekk konúngr til borðs, ok er hann hafði matazt, drakk hann um hríð, svâ at borðin voru uppi. Þórarinn gekk þá til prests þess, er þar var heimaprestr, ok kirkju varðveitti, ok gaf honum 2 aura[1] silfrs til þess, at hann hríngði til helgar jafn skjótt sem konúngsborð væri ofan. En er konúngr hafði drukkit um hríð, þá voru borðin upptekin. Þá mælti konúngr, sagði, at þá

[1]) mërkr, *C*; skillínga, *K*.

væri ráð at þrælar færi með vegandann ok dræpi hann; í því bili var hríngt til helgar; þá gekk Þórarinn fur konúng, ok mælti: grið mun sjá maðr hafa skulu um helgina, herra! þótt hann hafi illa tilgert. Konúngr svarar: gæt þú hans þá, Þórarinn! svâ at hann komist eigi á braut, ok ertu jafnan hvatabuss mikill. Þá gekk konúngr til nónu, en Þórarinn sat enn um daginn hjá Ásbirni. Sunnudagsmorgininn gekk Sigurðr biskup til Ásbjarnar, ok skriftaði honum, ok lofaði honum um daginn at hlýða hámessu. Þórarinn gekk þá til konúngs, ok bað at hann skyldi fá mann til að varðveita vegandann: vil ek nú skiljast við, sagði hann, ok vera or allri áburgð um hans mál. Konúngr bað hann hafa þökk fur þat; fèkk konúngr þá mann til at gæta hans; var hann enn settr í fjötr; en er til hámessu var gengit, þá var Ásbjörn leiddr til kirkju, ok stóð hann úti fur kirkju, ok þeir er hann varðveittu; konúngr ok alþyða stóðu at hámessu.

116. Nú er þar til máls at taka, er furr var frá horfit, at Erlíngr ok Skjálgr, son hans, gera ráð sín um þetta vandkvæði, ok staðfesta þat með sèr, við áeggjan Skjálgs ok annarra sona hans, at þeir samnaðu liði, ok skáru herör upp, komu þar saman brátt hermenn margir, ok rèðu sèr til skipa, ok var þá skorut nærr 15 hundruð manna; þeir fóru síðan með þat lið, ok komu sunnudagsmyrgininn í Körmt á Ög-

valdsnesi, gengu síðan til bæjar með öllu liði sínu, ok komu í þann tíma, er guðspjalli var lokit; þeir gengu þegar upp at kirkjunni, tóku þegar í burtu af Ásbirni fjötrin. En við gný þenna ok vâpnabrak, er út var at heyra, þá er svâ frásagt, at allir menn litu út or kirkjunni nema konúngrinn einn, hann var á bæn sinni ok sást ekki, en þeir er áðr voru úti fur kirkjunni, ljópu allir inní kirkjuna. Þeir Erlíngr skipuðu liði sínu tveimmegin strætissins, þess er lá frá stofunni til kirkjunnar, stóð Erlíngr ok synir hans næst stofunni; en er allar tíðir voru súngnar, þá gekk konúngr þegar út or kirkju, gekk konúngr furst fram í kvína, ok þá hverr at öðrum hans manna; en er konúngr kom heim at durunum, þá gekk Erlíngr fyrir dyrnar, ok laut konúngi. Konúngr svarar, ok bað guð geyma hans. Þá tók Erlíngr til máls: svâ er mèr sagt, herra! at Ásbjörn, frænda minn, hafi hent glæp mikinn, ok er þat illa, herra! ef yðr er misþokkat; nú er ek af því hèr kominn, at bjóða fur hann sætt ok yfirbætr þvílíkar, sem yðr er sæmd ok vilì til, en þiggja í móti líf hans ok limar ok landsvist. Konúngr svarar: svâ lízt mèr, Erlíngr! sem þèr munið nú þikkjast hafa vald á um mál vâr ímilli. Erlíngr svarar: þèr skuluð ráða, herra! ok ráða svâ, at vèr skiljumst sáttir. Konúngr mælti: ætlar þú at hræða mik, Erlíngr! hefir þú fyrir því lið svâ mikit? Nei, segir hann, eigi

verðr þèr þat; en ef annat býr undir, þá munum vèr nú or stað bíða. Erlíngr svarar: ekki þarft þú at minna mik á þat, at þeir hafa verit fundir okkrir hèr til, at ek hefi lítinn liðskost haft við þèr; en nú skal ekki leyna þik því, er mèr býr í skapi, at ek vil gjarna, at við skiljumst sáttir, ella mun mèr vân, at ek hætta eigi til fleiri funda okkra. Erlíngr var þá rauðr sem blóð í andliti. Þá gekk fram Sigurðr biskup, ok mælti til konúngs: herra! segir hann, ek býð þik í hlýðni fur guðs sakir, at þèr sættizt við Erlíng, eptir því sem hann býðr, at maðr sjá hafi lífs grið ok lima, en þèr ráðið öllu sáttmáli. Konúngr svarar: þèr skuluð ráða, herra biskup! þvíat þèr vilið vel. Þá mælti biskup við Erlíng: Erlíngr! segir hann, fáið nú konúngi festu, þá er honum líki. Síðan gekk[1] Ásbjörn til griða ok á konúngsvald. Erlíngr fèkk þá festur konúngi[2]; snèri þá Erlíngr á braut með liði sínu, varð þá ekki at kveðjum með þeim konúngi at skilnaði; gekk þá konúngr inn í stofuna ok Ásbjörn með honum. Síðan lauk konúngr upp sættar gerðinni, ok mælti svâ: þat skal upphaf sáttargjörðarinnar, Ásbjörn! at þú skalt gánga undir [þá sömu þjónostu[3], er Sel-Þórir hefir haft, ok ráðit hèr

[1]) gángi, *hin.* [2]) 'en konúngr tók við; síðan gekk Asbjörn til griða ok á konúngsvald, ok kysti á hönd konúngs, *b. v. hin.* [3]) landslög þau, at sá maðr, er drepr þjónustumann konúngs, þá skal hann gánga undir þá sömu þjónustu, ef konúngr vill; nú vil ek at þú takir upp ármenníng þessa, *b. v. hin.*

fyrir búinu á Ögvaldsnesi. Ásbjörn segir, at svâ skyldi vera, sem hann vildi, verð ek þó furst, segir hann, at fara heim til búss míns, ok skipa þar til sem mèr líkar; lèt konúngr sèr þat vel líka. Fór konúngr þáðan til annarrar veizlu, en Ásbjörn rèðst til ferðar með förunauta sína, þeir höfðu legit í Leyruvâgum alla þá stund, er Ásbjörn hafði í járnum setit, ok njósnat heim á bæinn, hvat tídt var um hans ráð, vildu þeir eigi furr í braut fara, enn þeir vissi hvat þar rèðst af. Síðan snèrist Ásbjörn til heimferðar, ok lètti eigi furr um vârit, enn hann kemr norðr til búss síns; hann var síðan kallaðr Ásbjörn selsbani. En er Ásbjörn hafði[1] lengi heima verit, hittust þeir frændr, Ásbjörn selsbani ok Þórir hundr, ok talast við; spurr Þórir vandliga eptir um ferðir hans ok alla atburði, þá er þar höfðu vorðit til tíðinda; en Ásbjörn sagði sögu þá, sem gengit hafði. Þórir hundr svarar: þá munt þú nú þikkjast af hendi hafa rekit svívirðíng þá, er þú vart ræntr á hausti. Svâ er, frændi! segir hann, eðr hversu þikkir þèr? Þat skal skjótt segja þèr, segir Þórir, at sú ferð hin furri, er þú fórt suðr í land, ok þú vart ræntr, var hin svívirðligasta, ok stóð þó sú til nökkurrar umbótar, en þessi för er bæði þín skömm ok svâ allra frænda þinna, ef þat skal framgengt verða, at þú gerist konúngs þræll, ok komir í stað hins versta manns Sel-Þóris; nú gjör þú svâ vel ok menniliga, at

[1]) eigi, *b. v. hin.*

þú ver hèr heldr at eignum þínum á Þrándarnesi, skulu vèr frændr þínir veita þèr styrk til þess, at þú komir aldrí síðan í slíkt farrak[1]. Ásbirni þótti þetta vera allsannligt, er Þórir hafði mælt, ok áðr þeir skildust, þá staðfestist þat með þeim, at Ásbjörn skyldi[2] heima sitja í búi sínu, ok fara ekki á konúngsfund, ok svâ gerði hann, at hann settist heima um kýrt í búi sínu.

117. Eptir þat er Ólafr konúngr ok Erlíngr höfðu skilit á Ögvaldsnesi, þá hófst með þeim af nýju sundrþykki, ok vóx þat til þess, er fullr fjandskapr var í milli þeirra. Ólafr konúngr fór at veizlum á Hörðaland, ok þá fór hann út á Vors, þvíat hann spurr, at fólk var þar lítt siðat; hann átti þá þíng við bændr, þar sem Vors[3] heitir, komu þar bændr fjölment ok með alvæpni, bauð konúngr þeim at taka við kristni, en þeir buðu honum bardaga ímóti. Síðan fylktu hvârirtveggju liði sínu, var þá svâ bóndum þegar í framför, at þeim skaut skelk í bríngu, ok vildi þá engi furstr standa; varð þat þá at lyktum, er þeim gegndi betr, at þeir gengu til handa konúngi, ok tóku við kristni; skildist konúngr þar eigi furr við, enn þar var allt alkristit vorðit[4]. Þá fór Ólafr konúngr útá

1) öngþveiti *C, S.* 2) *Hèr byrjar I aptr.* 3) á Vángi *hin.* 4) þat var einn dag at konúngr reið leið, hafði súngit sálma sína, en er hann kom jam gegnt haugunum, nam hann staðar ok mælti: þau skal segja mín orð maðr manni, at ek kalla ráð at aldrí fari síðan Noregs konúngr i millum þessa hauga, er þat ok

Ostrarfjörð til skipa sinna, þá fór konúngr norðr í Sogn, ok tók þar veizlur um sumarit; en er haustaði, snèri hann inní Fjörð ok þaðan uppá Valdres, þar var þá alheiðit; konúngr fór sem ákafligast upp til bæjar, kom hann þar á úvart bóndum, ok tók skip þeirra öll, gekk hann þar á sjálfr með öllu liði sínu, síðan skar hann þar upp þíngboð, ok setti þíng svâ nærr vatninu, at hann átti allan skipa kost undir sèr, ef hann vildi. Bændr snèru þegar þágat með her manns ok alvæpni; konúngr bauð þeim kristni, en þeir æptu ímót, ok báðu hann skjótt þegja, gjörðu þegar gný mikinn ok vâpnabrak; en er konúngr sá, at þeir vildu eigi til hlýða þess, er hann kendi þeim, ok þat annat, at þeir höfðu her manns, þann er ekki stóð við, þá snèri hann ræðunni, ok spurr, ef nökkurir væri þeir, er sakar ættist við, eðr þeir vildi at hann sætti þá; fannst þat brátt í orðum þeirra, at margir voru þar missáttir bændr, þóat þá hefði þeir samhlaupa vorðit at þessu úráði, at mæla ímót kristni. En þegar bændr tóku at kæra sik, þá aflaði hverr þeirra sèr sveitar at flytja fram sitt mál; gekk því fram allan þann dag; at kveldi var slitit þínginu. Þegar er bændr höfðu spurt, at konúngr færi um Valdres, ok hann var kominn í bygðina, þá höfðu þeir látit fara herboð, ok stefnt saman þegn ok þræl, fóru síðan með

sögn manna, at konúngar hafi þat varazt síðan, *b. v. C, F, G, I, K, L, S.*

her manns í móti konúngi, var þá alþýða úvíða heima í bygðinni. Bændr hèldu samnaðinum eptir þíngit, þess varð konúngr viss, en er hann kom í annat sinn á skip sín, þá lèt hann róa um nóttina yfir þvert vatnit, þá lèt hann gánga upp ok brenna ok ræna, svâ sem þeir komust við. Eptir um daginn rèru þeir nes frá nesi, lèt konúngr þar allt brenna ok bæla; en þeir bændr, er í samnaðinum voru, þá er þeir sá reyk ok loga heim til húsa sinna, þá vurðu þeir lausir í flokkinum, stefndi þá hverr at öðrum, til þess er allt riðlaðist í sundr í smá flokka, en konúngr rèri þá um vatnit aptr, ok brendi þá þeim megin, sem áðr hafði verit bóndaherinn; þá komu bændr til konúngs, ok báðu sèr miskunar, buðu þá konúngi handgaungu; svâ gaf konúngr hverjum manni grið, er til þess komu, ok svâ fè þeirra, þegar þeir vildi á hönd gánga, mæltu þá ok margir ekki ímót kristninni, lèt konúngr þá skíra fólkit, ok tók gislar af bóndum; dvaldist konúngr þar lengi um haustit, hann lèt draga skipin uppi yfir eiðin milli vatnanna, fór konúngr lítt um landit upp frá vatninu, þvíat hann trúði þar lítt bóndum, ef hann gefr færi á sèr, hann lèt þar kirkju gera ok vígja, ok setti kennimenn til; en er honum þótti vân frera, þá sótti hann upp á landit, ok kom þá fram á Þotn. Þess getr Arnórr jarlaskáld:

Gengr at[1] þar[2] er ýngvi
Upplendínga brendi,
þjóð galt ræsis reiði,
[rann, sá[3] er fremstr er manna;
vildut [öflgra alda[4]
áðr var stýrt til váða,
grams dólgum fèkkst gálgi,
gagn[5] prýðanda hlýða.

118. Síðan fór Ólafr konúngr norðr um Dali allt til Fjalls, ok nam eigi fyrr stað enn hann kom í þrándheim ok allt til Niðaróss, ok bjó til vetrvistar; sá var hinn 10[6] vetr konúngdóms hans. Áðr um sumarit fór Einarr þambarskelfir or landi, ok fór vestr til Englands, hitti hann þar Hákon, mág sinn, dvaldist Einarr þar með honum um hríð. Síðan fór Einarr á fund Knúts konúngs, ok þá af honum góðar gjafar. Eptir þat fór Einarr austr um sæ, ok allt suðr til Róma[7] borgar, ok kom aptr annat sumar eptir, fór hann norðr þá til búa sinna; hittust þeir Ólafr konúngr þá ekki.

119. Álfhildr hèt kona, er kölluð var konúngs ambátt, hún var þó af góðum ættum komin, hún var þá með Ólafi konúngi. En þat var til tíðinda, at Álfhildr var með barni, en þat vissu trúnaðarmenn Ólafs konúngs, at hann mundi

---

1) í ætt, *hin.* 2) þat, *B*, *C*, *G*, *L.* 3) ravnn þèr, *B*, *G.* 4) öflgar aldir, *C*, *D*, *G*, *I*, *S.* 5) gagl, *H*, *I.* 6) 11, *C*, *F.* 7) *þannig* *C*, *H*, *K*; Rúma, *B*, *G*, *S*; Mána, *A.*

vera faðir at barninu, er hún fór með. Svâ bar at eina nótt, at Álfhildr tók sótt, ok var fátt manna viðstadt, konur nökkurar ok prestr, ok Sighvatr skáld ok fáir menn aðrir. Álfhildr var þúngliga at tekin, ok gekk henni nærr dauða, ok um síðir fæddi hún sveinbarn, ok var þat um hríð, at þau vissu úglögt, hvârt líf væri með barninu eðr eigi; en er barnit skaut upp öndunni ok all ómáttliga, þá bað hann prestrinn fara at segja konúngi, hversu háttat var. Sighvatr svarar: þat þorî ek fur engan mun at vekja konúnginn, þvíat hann bannar þat hverjum manni, at hann sè vaktr, furrenn hann vaknaði sjálfr. Prestr svarar: nauðsyn er þetta, at barnit fái skírn sína, þvíat mèr sýnist þat úmáttuligt, ok lítil vân lángs lífs. Sighvatr mælti: heldr vil ek til þess hætta, at þú skírir barnit, enn ek vekja konúnginn, ok mun ek sitja fur svörunum, ok gefa nafn sveininum. Svâ gera þeir, ok var skírðr sveinninn ok kallaðr Magnús. Eptir um morgininn, er konúngr var klæddr, var honum sagt frá þeim atburð. Konúngr bað Sighvat kalla þángat, ok fundu menn at hann var reiðr; ok er Sighvatr kom þángat, þá mælti konúngr: hví vart þú svâ djarfr maðr, at þú lèzt skíra barn mitt, furr enn ek vissi? Sighvatr svarar: því, herra! at ek vildi heldr gefa tvâ menn guði, enn einn fjandanum. Konúngr mælti: fur hví liggr þat við? Sighvatr svarar: þvíat barnit

var at dauða komit, ok mundi þat fjandans maðr, ef þat dæi úskírt, en nú er þat sannliga guðs maðr; hitt er ok í annann stað, at ek vissi, þó at þú værir mèr reiðr, at þar mundi eigi meira viðliggja enn líf mitt, ok ef þèr vilið, at ek týna lífi mínu fur þessa sök, þá vænti ek ok at ek sè[1] guðs maðr, slíkt sem mèr gekk til. Konúngr mælti: en fur hví lèzt þú sveininn Magnús heita? ekki er þat vârt ættnafn. Sighvatr svarar: ek lèt hann heita eptir Karla-Magnúsi konúngi, þvíat hann vissi ek frægastan konúng í frásögn. Þá mælti konúngr: gæfumaðr mikill ert þú, Sighvatr! segir hann, ok er þat eigi undarligt, þó at gæfa[2] fylgi vizku; hitt er undarligt, er þó kann stundum verða, at sú gæfa fylgir úvitrum manni, at úvitrlig ráð snúast til hamíngju. Var þá konúngr allglaðr. Sveinninn fæddist þar upp, var hann brátt efniligr, er aldr fór yfir hann.

120. Þat vâr hit sama fèkk Ólafr konúngr Ásmundi Grankelssyni sýslu norðr á Hálogalandi, hálfa til móts við Hárek or Þjóttu, en hann hafði áðr haft alla, suma at veizlu, en suma at láni. Ásmundr hafði skútu, er hann átti, ok á nærr 30 manna ok vel vâpnaðir. Ásmundr hafði áðr lengi verit með Ólafi konúngi í miklum kærleikum ok metorðum. En er

---

[1]) *Hèr byrjar E aptr.* [2]) *þannig leiðrètt eptir hinum handritunum*; gæfu, *A.*

Ásmundr kom norðr, þá hittust þeir Hárekr, sagði Ásmundr þá Háreki, hversu skipt var sýslunni, ok þar fylgja með jarteinir konúngs, at þetta var hans ákvæði. Hárekr segir, at konúngr mundi ráða, hverr sýslu hefði, en ekki gerðu hinir furri konúngar svâ, at mínka vârn rètt, er ættbornir erum til ríkissins at hafa, en fá þeim í hendr bónda sonum, er slíkt hafa eigi furr með höndum haft. En þóat þat fyndist á Háreki, at honum þætti þetta mjök í móti skapi, þá lèt hann Ásmund taka við sýslunni, sem konúngr hafði orð tilsendt; fór Ásmundr þá heim til föður síns, ok dvaldist þar litla hríð, áðr hann fór í sýslu sína norðr á Hálogaland. En er hann kom í Lángeý, þá bjöggu þar bræðr 2, hèt annar Gunnsteinn, en annar Karli, þeir voru báðir auðigir menn ok virðíngamenn miklir, hvârtveggi þeirra var íþróttamaðr mikill um marga luti. Gunnsteinn var ellri þeirra bræðra, ok búsýslumaðr mikill. Karli var fríðr maðr ok skartsmaðr mikill. Ásmundr fèkk þar góðar viðtökur, ok dvaldist hann þar um hríð, ok heimti saman or sýslunni þar, slíkt er fèkkst. Karli ræddi þat fur Ásmundi, at hann vildi fara suðr með honum á fund Ólafs konúngs, ok leita sèr þar hirðvistar. Ásmundr fýsti hann þessa ráðs, ok hèt honum umsýslu sinni, at Karli fengi sitt eyrendi við konúng. Rèðst Karli þá til ferðar með Ásmundi. Ásmundr hafði spurn af því, at Ásbjörn selsbani

var farinn suðr í Vâgastefnu, ok hafði byrðíng er hann átti, ok nærr 20 menn á, ok hans var þá sunnan vân. Þeir Ásmundr fóru nú leið sína suðr með landi, ok höfðu andviðri ok þó vindlítit; þá sigldu skip í móti þeim, þau er voru af Vâga flotanum. Þeir spurja í hljóði at um ferðir Ásbjarnar, ok var þeim sagt, at hann var þá sunnan á leið. Þeir Ásmundr ok Karli voru rekkjufèlagar, ok var þar hit kærasta. Þat var einn dag, er Ásmundr rèri fram eptir sundi nökkuru, þá sigldi skip í móti þeim, var þat skip auðkendt, þar var [birt allt hlýrit[1] bæði hvítum steini ok rauðum, þeir höfðu segl stafat með vendi. Þá mælti Karli við Ásmund: opt hefir þú umrædt, at þèr væri forvitni á at sjá hann Ásbjörn selsbana, en eigi kann ek skip at kenna, ef eigi siglir hann hèr nú í móti oss. Ásmundr svarar: gjör svâ vel, lagsmaðr! ef þú kennir hann, at þú seg mèr; þá rendust hjá skipin, ok mælti Karli: þar sitr hann Selsbani við stýri í blám kyrtli. Ásmundr svarar: ek skal fá honum þá rauðan kyrtil. Síðan skaut Ásmundr spjóti til Ásbjarnar selsbana, ok kom á hann miðjan, svâ at fast stóð í fóta[2] fjölinni, ok flaug þegar í gegnum hann; fèll Ásbjörn dauðr frá stýrinu. Fóru þá hvârirtveggju leið sína, ok fluttu þeir lík hans norðr á Þránd-

[1]) búit allt hlýrit, steint, *B*; hlýrbjart ok steint, *C*, *E*; hlýr bjart stein, *D*; hlýr birt ok steint, *G*, *I*, *S*; voru hlýr björt steind, *F*, *L*. [2]) höfða, *hin*.

arnes, lèt Sigríð þá senda til Bjarkeyjar eptir Þóri hund, kom hann til ok lèt búa um líkit eptir siðvanda. En er menn fóru í brott, valdi Sigríð öllum mönnum góðar gjafar, hún leiddi Þóri til skips, en áðr þau skildi, mælti hún: svâ er, Þórir! segir hun, at Ásbjörn hlýddi ástráðum þínum, nu vannst honum eigi líf til þess at launa þèr þat, eptir því sem vert var; nú þóat ek sè verr tilfær at launa þèr, sem vert er, enn hann mundi vera, þá skal ek þó viljann til hafa; nu er hèr gjöf, er ek vil gefa þèr, ok vildi ek at þèr kæmi vel í hald; þetta spjót stóð í gegnum Ásbjörn, frænda þinn, son minn, ok er þar enn blóðit á, mátt þú þá heldr muna, at þat mun saman hæfa ok sár þau, er Ásbjörn frændi þinn hafði, ok þú sátt á honum, hvílík voru; nú vyrði þèr þá sköruliga ok mikilmannliga, ef þú lètir þetta spjót svâ af höndum selt, at þat stæði í gegnum Ólaf hinn digra; nú mæli ek þat um, segir hún, at þú verðir hvers manns níðíngr, ef þú hefnir eigi Ásbjarnar bróðursonar þíns. Snèri hún þá heimleiðis, en Þórir varð svâ reiðr orðum hennar, at hann mátti engu svara, ok eigi gáði hann spjótit laust at láta; hann gáði eigi bryggnanna, ok mundi hann á kaf gengit hafa, ef eigi hefði menn hans tekit ok studt hann, er hann gekk útá skipit; þat var málaspjót ekki[1] mikit ok gullrekinn falrinn allr. Rèru þeir Þórir nú á braut ok heim

[1]) *v. í. B.*

heim til Bjarkeyjar. Ásmundr ok hans fèlagar fóru leið sína, til þess er þeir komu í Þrándheim á fund Ólafs konúngs; sagði Ásmundr konúngi, hvat til tíðinda hafði gerzt í ferð hans, ok þakkaði honum vel verkit. Gjörðist Karli þá hirðmaðr Ólafs konúngs, hèldu þeir vináttu sína; en ordtök þau, er þeir Karli höfðu mælt við víg Ásbjarnar, þá fór þat ekki svâ leynt, þvíat þeir sjálfir sögðu frá því konúngi; en þat var, sem mælt er, at [ferr orð er mun líðr[1]; voru þeir þar sumir, er slíkt hugfestu, ok brátt kom til Þóris hunds í Bjarkey.

121. Ólafr konúngr fór um sumarit suðr með landi, ok átti þíng við bændr, skipaði landit, ok setti menn yfir, ok tók konúngs skyldir þar sem hann fór. Hann ferr um sumarit allt austr til landsenda, ok hafði þá kristnat landit, þar sem hèraðin[2] voru; þá hafði hann skipat lögum um allt landit, eptir því sem hann vildi vera láta. Hann hafði þá undir sik lagt Orkneyjar, sem furr var ritat; hann hafði ok gert sèr marga menn at vinum bæði á Íslandi [ok Orkneyjum[3], á Grænlandi ok í Færeyjum. Ólafr konúngr hafði sendt til Íslands kirkjuvið, ok var sú kirkja gjör á Þíngvelli, þar sem alþíngi er, hann sendi með kirkjuviðinum klokku mikla, þá sem þar er enn; þat var eptir at Íslendíngar höfðu fært lög sín, ok sett kristinn rètt, eptir því sem Ólafr

---

[1]) hverr á sèr vin með óvinum *C, D, E, F, G, J, K, L, S.*
[2]) stórhèruð, *hin.* [3]) *v. í. hin.*

konúngr hafði þeim orð tilsendt. Síðan fóru af Íslandi margir metorðamenn, þeir er handgengnir gerðust Ólafi konúngi, var þar einn Þorkell Eyjólfsson, Þorleikr[1] Bollason, Þórðr Kolbeinsson, Þórðr Barkarson, Þorgeir Hávarðsson, Þormóðr Kolbrúnar-skáld Bersason. Ólafr konúngr hafði sent vingjafir til Íslands mörgum höfðíngjum, en þeir sendu honum þá luti, er þeir fengu, ok þeir væntu at honum mundi sendíng í þikkja; en í þessu vináttumerki, er konúngr gerði til Íslendínga, bjoggu enn fleiri lutir undir, þeir er síðarr urðu berir.

122. Ólafr konúngr sendi þat sumar Þórarinn Nefjólfsson til Íslands með erendum sínum, ok hèlt hann skipi sínu út or Þrándheimi, er Ólafr konúngr fór suðr á Mæri; sigldi Þórarinn þá á haf út, ok fèkk svâ mikit raðbyri, at hann sigldi á 8 dægrum, til þess er hann tók eyjar[2] á Íslandi, ok fór þegar til alþíngis, ok kom þar at lögbergi, ok gekk þegar til lögbergs; en er menn höfðu mælt lögskilum, þá tók Þórarinn til máls: ek skildumst fur 4 nóttum við Ólaf konúng Haraldsson, sendi hann kveðju híngat til lands öllum höfðíngjum ok landsstjórnarmönnum, ok þar með allri alþýðu karla ok kvenna, úngum ok gömlum, sælum ok veslum, guðs ok sína, ok hann vill vera yðvarr drottinn, ef þèr vilið vera hans þegnar, en

1) Þorlákr *C*; Þorkell *D*; Þorleifr *G*. 2) Eyrar *B*, *D*, *E*, *G*, *J*, *K*, *S*.

hvârir annarra vinir til allra góðra luta. Menn svöruðu vel máli hans, og sögðust vilja vera vinir hans, ef hann væri þeirra vinr. Þá tók Þórarinn til máls: þat fylgir kveðjusendíng konúngs, at hann vill beiðast í vingjöf af Norðlendíngum, at þeir gefi honum útsker, er liggr fur Eyjafirði, er menn kalla Grímsey, vill hann þarímóti varðveita yðr þau gæði af sínu landi, er menn kunnu honum orð til at senda; en hann sendi til þess orð Guðmundi ríka at flytja þetta mál, þvíat konúngr hefir þat spurt, at Guðmundr ræðr mestu fur norðan land. Guðmundr svarar: fúss er ek til vináttu við Ólaf konúng, ok ætla ek mèr þat miklu meira til gagns enn útsker þat, er hann beiðist til; en þó hefir konúngr þat eigi rètt spurt, at ek eiga meiri ráð á eyjunni enn aðrir, þvíat þat er nú at almenníngi gert; nú munu vèr eiga fund ok stefnu vor í milli, ok þeir menn er mest hafa gagn af eyjunum. Gánga menn síðan heim til búða. Eptir þat áttu Norðlendíngar stefnulag sín í milli, ok tala þetta með sèr, lagði þá hverr til er sýndist, var Guðmundr mjök flýtandi[1] þessa máls, ok snèru þar margir eptir. Þá spurja menn, hví Einarr legði ekki til, bróðir hans: þikkir oss, segja þeir, hann kunna glöggst at sjá. Þá svarar Einarr: því er ek fáræðinn um þetta mál, at enginn maðr hefir mik atkvaddan; en ef (ek) skal segja mína ætlan,

[1]) flytjandi *D, E, G, K.*

þá gángið til ok hyggið at, landsmenn! at gánga undir skattgjafar Ólafs konúngs ok allar álögur, slíkar sem menn hafa í Noregi, ok munu menn þat úfrelsi eigi at eins gjöra oss til handa, heldr ok sonum vorum ok þeirra sonum, ok allri ætt vârri[1] síðan, ok öllum þeim er þetta land byggja, ok mun sú ánauð aldrí hverfa af landi þessu síðan. [Þá kvað Einarr vísu þessa:

Trautt erumst lausa at láta,
leið er oss konúngsins reiði,
gjarn er gramr at árna;
Grímsey und trauð fleyja;
höldum vèr fur hildar
hann er dýrr konúngr stýri
hólmgerðar fremst hilmir
hagli pettu nagla[2].

En þótt konúngr þessi sè góðr maðr, sem ek trúi vel at svâ sè, þvíat þeir segja bezt frá honum, sem hann er kunnastr, þá mun hann þó verða eigi ellri enn gamall, þá mun þat fara hèðan af sem hèrtil, þá er konúnga skipti verðr, at þeir eru sumir góðir en sumir illir; nú ef landsmenn vilja halda frelsi sínu, því er haft hafa, síðan land þetta bygðist, þá mun sá til vera, at ljá engis fángstaðar á sèr, hvârki um landa eignir hèr á Íslandi, nè um þat, at gjalda hèðan ákveðnar skuldir, þær er til lyðskyldu megi metast, en hitt kalla ek vel fallit, at menn sendi konúngi vingjafar þær, er þeir vilja gert

[1]) *Hèr sleppr E um sinn.* [2]) *frá [ v. í hin.*

hafa, hauka eðr hesta, tjöld eðr segl, eðr aðra þá luti er sendíngar eru í; en um Grímsey er þat at tala, ef þaðan er enginn hlutr fluttr [til matfánga[1], sá er þar er, þá má þar vel fæða her manns, ok slíkt nökkut get ek konúng hugsa hèr; nú ef þar er útlendr her, ok fari þeir þaðan með lángskipum, þá ætla ek mörgum kotkörlunum munu þikkja ærit þykkt fur durunum, þar sem þeir róa at húsi. Ok þegar Einarr hafði þetta mælt ok innt allan þenna útveg, þá var öll alþýða með einu samþykki snúin, at þetta skyldi aldrí fást. Sá Þórarinn[2] eyrindislok sín hèrum.

123. Þórarinn Nefjólfson gekk til lögbergis annann dag, ok mælti enn konúngs eyrindi, ok hóf svâ mál sitt: Ólafr konúngr sendi orð vinum sínum hígat til lands, nefndi hann til þess Guðmund Eyjólfsson, [Snorra goða, Þorkel Eyjólfsson[3] Skapta lögsögumann, Þorstein Hallsson; hann sendi yðr til þess orð, at þèr skylduð fara á hans fund, ok sækja þángat vináttuboð; mælti hann, at þèr skylduð eigi þessa ferð undir höfuð leggjast, ef yðr þætti nökkut undir hans vináttu. Þeir svöruðu svâ þessu eyrendi, at þeir þakkaðu konúngi, en sögðust þá mundu segja Þórarni um ferðir sínar, er þeir hefði ráðit fur vinum sínum, hverju hèr skal um svara. En þeir höfðíngjarnir tóku

1) sá er til föstu mata fánga er, *G.* 2) *Hèr sleppr I aptr.* 3) *v. í A.; tekið úr hinum.*

tal sín í milli, þá sagði hverr sem sýndist um ferðir sínar. Snorri goði ok Skapti löttu þess, at leggja á þá hættu við Norðmenn, at allir senn færi af landi til Noregs, þeir er mest rèðu fur landi, sögðu þeir, at af þessari orðsendíngu þætti þeim heldr grunir ádregnir um þat, er Einarr hafði umgetit, at konúngr mundi ætla til pyndínga nökkurra við Íslendínga, ef hann mætti ráða. Guðmundr ok Þorkell Eyjólfsson fýstu mjök at skipast við orðsendíng konúngs, ok töldu þat sæmdarför mikla verða mundu; en er þeir knýaðu[1] þetta með sèr, hvern upp skyldi taka, þá staðfestist þat með þeim, at þeir sjálfir mundu eigi fara, en hverr þeirra skyldi gera mann af sinni hendi, þann er þeim þótti bezt tilfallinn, ok skildust á því þíngi við svâ búit, ok vurðu engar utanferðir á því sumri; en Þórarinn fór tvívegis á því sumri, ok kom um haustit á fund Ólafs konúngs, ok segir honum sitt eyrendi, slíkt er vorðit var, ok svâ þat at höfðíngjar mundu koma af Íslandi, svâ sem hann hafði orð tilsent, eðr varnaðarmenn þeirra.

124. Þat sumar hit sama kom utan af Færeyjum at orðsendíngu Ólafs konúngs Gilli lögsögumaðr ok Leifr Özurarson, Þórálfr or Dímun, ok margir aðrir bóndasynir. En Þrándr or Götu bjóst til ferðar, hann var einhverr mest virðr í eyjunum, en er hann var til ferðar búinn, ljóp fæli[2] sótt at honum, ok mátti hann hvergi

[1]) kasaðu, *C.* [2]) felli, *C, F, K, L, S.*

fara, ok dvaldist hann eptir. En er þeir Færeyíngar komu á fund Ólafs konúngs, þá kallaði hann þá á tal við sik, ok átti stefnu við þá, lauk hann þá upp fur þeim eyrendum sínum, er undirbjöggu ferðinni, ok segir, at hann vill skatt hafa af Færeyjum, ok svâ þat, at Færeyíngar skyldu hafa lög þau, er hann setti þeim á stefnu þessari; fannst þat í orðum konúngs, at hann mundi taka festu til þessa mála af þeim Færeyíngum, sem þá voru þar komnir, ef þeir vildi þat mál svardögum binda, bauð ok þeim, er þá voru þar komnir, at gerast handgengnir, ok þiggja af sèr vináttu ok metorð; en þeim hinum færeyskum mönnum virðist svâ í orðum konúngs, at þeim var hinn mesti grunr á, hvern veg ferð þeirra mundi til snúast, ef þeir vildi eigi undir þetta játast, sem konúngr beiddi þá; ok þóat til þessa væri fleiri stefnur lagðar, aðr enn lyktaðist, þá varð þat þó at lyktum allt framgengt, er konúngr beiddi; gengu þeir til handa konúngi, ok gerðust hirðmenn hans, Leifr ok Gilli ok Þórálfr, en allir veittu svardaga til þess, förunautar þeirra, at halda í Færeyjum lög þau, er hann bauð þeim, ok setti landsrètt, ok skattgildi þat, er hann kvað á. Síðan bjöggust þeir hinir færeysku til heimferðar, en áðr þeir skildist, þá veitti konúngr þeim vingjafir, er honum gerðust handgengnir. Fóru þeir síðan ferðar sinnar, er þeir voru búnir, en konúngr lèt búa skip, ok fèkk menn til, ok sendi þá menn

til Færeyja, ok skyldu þeir taka við skatti þeim, er Færeyíngar skyldu gjalda honum. Þeir vurðu ekki snembúnir, ok er þat frá ferð þeirra at segja, at þeir komu aldrí aptr, ok engi skattr á því sumri, er næst var eptir; komu þeir ekki til Færeyja, ok hafði þar engi maðr skattheimtan.

125. Ólafr konúngr fór um haustit at áliðnu inn í Víkina, ok gerði orð til Upplanda, ok lèt boða veizlur fur sèr, ætlaði hann um vetrinn at fara um Upplönd. Síðan byrjar hann ferð sína, ok fór til Upplanda, dvaldist Ólafr konúngr þann vetr á Upplöndum, ok fór þar at veizlum, ok leiðrètti þá luti þar, er honum þótti ábótavant, ok samdi hann þá enn kristnina, þar sem honum þótti helzt viðþurfa. Þat gerðist til tíðinda, þá er konúngr var á Heiðmörk, at Ketill[1] af Ríngunesi hóf upp bónorð sitt, ok bað Gunnhildar, dóttur Sigurðar konúngs sýrs ok Ástu, var Gunnhildr systir Ólafs konúngs, átti konúngr svör ok forráð þessa máls; hann tók því vænliga, var þat fur þá sök, at hann vissi um Ketil, at hann var maðr ættstór ok auðigr, vitr maðr ok höfðíngi mikill, hann hafði ok lengi áðr verit mikill vinr Ólafs konúngs, svâ sem hèr segir furr. Slíkt allt saman bar til þess, at konúngr unni honum þessa ráðs, varð þetta ráð framgengt, at Ketill fèkk Gunnhildar; var Ólafr konúngr at þessi veizlu. Ólafr konúngr fór síðan norðr í Guðbrandsdali, hann

[1]) kálfr, *b. v. hin.*

tók þar veizlur, þar bjó sá maðr, er Þórðr hèt Guthormsson, á þeim bæ er á Steigh heitir. Þórðr var maðr ríkastr norðr þar í hinum neyrðra lut Dalanna; en er þeir hittust, þá hóf Þórðr upp bónorð sitt, ok bað Ísríðar, móðursystur Ólafs konúngs, ok átti hann enn svör þessa máls; en er at þessum málum var setit, þá var þat afráðit, at þessi ráð tókust, ok fèkk Þórðr Ísríðar, gjörðist hann síðan ölúðarvin Ólafs konúngs, ok margir aðrir frændr hans ok vinir, þeir er eptir honum hurfu. Fór Ólafr konúngr þá suðr aptr um Þotn ok Haðaland, þá á Ríngaríki ok þaðan út í Víkina; fór hann um vârit til Túnsbergs, ok dvaldist þar, meðan mestr var tilflutníngr, ok þar var kaupstefna mest; lèt síðan búa skip sín, ok hafði með sèr fjölmenni mikit.

126. Þetta sumar komu af Íslandi at orðsendíngu Ólafs konúngs Steinn Skaptason lögsögumanns, Þóroddr[1] son Snorra goða, Gellir son Þorkels Eyjólfssonar, Egill, son Síðu-Halls, bróðir Þorsteins. Guðmundr Eyjólfsson hafði andazt áðr um vetrinn. Þeir hinir íslenzku menn fóru, þegar þeir máttu viðkomast, á fund Ólafs konúngs, en er þeir hittu konúng, fengu þeir þar góðar viðtökur, ok voru allir með honum um vetrinn eptir. Þat sumar hit sama spurr Ólafr konúngr, at skip þat var horfit, er hann hafði sent til Færeyja hit furra sumarit, ok þat hafði hvergi til landa komit, svâ at spurt væri. Kon-

[1]) *þannig hin;* Þ'ðr, *A.*

úngr fèkk þá annat skip til, ok menn með, ok sendir til Færeyja eptir skatti. Fóru þeir menn, ok lètu í haf, en síðan spurðist ekki til þeirra heldr enn hinna furri, ok voru þar margar getur á, hvat af skipum þeim mundi vorðit hafa.

127. Knútr hinn ríki, er sumir menn kallaðu [hinn gamla[1] Knút, hann var konúngr yfir Englandi ok yfir Danaveldi. Knútr hinn ríki var son Sveins tjúguskeggs Haraldssonar; þeir lángfeðgar höfðu lengi ráðit Danaríki. Haraldr Gormsson, föðurfaðir Knúts konúngs, hafði skattgildi allan Noreg eptir fall Haralds Gunnhildarsonar, ok tók þaðan skatta af. [Eptir þat eignaðist Knútr Norvegsveldi, ok kallaði erfðaland sitt, sem önnur þau er eignazt hafði Haraldr konúngr Gormsson, afi hans; setti Knútr konúngr[2] þar til landsgæzlu í Noregi Eirík jarl Hákonarson; rèðu þeir bræðr þá landi ok Sveinn jarl Hákonarson, til þess er Eiríkr jarl fór vestr til Englands at orðsendíngu Knúts konúngs, mágs síns, ok setti hann þá eptir til ríkis í Noregi Hákon jarl, son sinn, ok systurson Knúts hins ríka; en síðan Ólafr konúngr kom til Noregs, þá tók hann Hákon jarl höndum, ok setti hann af ríki sínu, sem furr er sagt, fór þá Hákon til Knúts konúngs, móðurbróður síns, ok hafði verit með honum alla þessa stund, til þess er nú er komit sögunni. Knútr hinn ríki hafði unnit

[1]) Engla, *S.* [2]) setti þar til landsgæzlu Hákon jarl enn ríka; Sveinn Danakonúngr rèð fyrir Noregi, ok setti yfir, *C*, *D*, *G*, *S*.

(England) með orrostum ok barizt til, ok hafði haft lángt starf, áðr landsfólkit hafði honum hlýðit vorðit; en er hann þóttist þar fullkominn til landstjórnar, þá minntist hann hvat hann þóttist eiga þess ríkis, er hann hafði eigi sjálfr hönd at eðr varðveizlu, en þat ríki var í Noregi, er hann þóttist eiga at taka at erfðum[1], en Hákon, systurson hans, þóttist eiga suman, ok þat með at hann þóttist með svívirðíng látit hafa; sá var hinn þriði lutr til þess, at þeir Knútr ok Hákon höfðu kyrru fur haldit um tilkall í Noregi, ok þá furst, er Olafr konúngr kom í land, ljóp upp allr múgr ok margmenni, ok vildi ekki annat heyra, enn Olafr væri konúngr yfir Noregi; en nú síðan er menn þóttust vera úsjálfráðir fur ríki hans, þá leituðu sumir or landi braut, höfðu farit margir ríkismenn eðr bóndasynir á fund Knúts konúngs hins ríka, ok fengit sèr ýmist til erenda; en hverr þeirra, er kom á fund Knúts konúngs, ok hann vildu þýðast[2], þá fengu allir af honum fullar hendr fjár, mátti þar ok sjá tign miklu meiri enn annarstaðar, bæði at fjölmenni því, er þar var sídægris, ok umbúnaði þeim öllum, er þar var í þeim herbergjum, er hann var sjálfr í. Knútr konúngr hinn ríki tók skatt ok skyld af þeim þjóðlöndum, er auðgast voru híngat á Norðrlönd, en þeim öllum mun, sem hann átti meiri eignir at taka enn allir aðrir

[1]) allan Noreg, *b. v. hin.* [2]) *Hèr byrjar aptr J.*

konúngar, þá gaf hann því öllu meira enn hverr annarra. Í öllu hans ríki var svâ góðr friðr, at enginn þorði þar annars granda, en sjálfir landsmenn höfðust því frið við ok fullan landsrètt í alla staði. Af slíku fèkkst honum frægð mikil um öll lönd; en þeir er af Noregi komu, þá kærðu fur honum um frelsi sitt, ok talaðu þat fur Hákoni jarli, en sumir fur Knúti konúngi sjálfum, ok sögðu at þeir mundu þá búnir vera at hverfa aptr undir Knút konúng eðr Hákon[1] jarl, ok þiggja af þeim frelsi sitt. Þessar ræður fèllu Hákoni jarli vel í skap, ok talaði slíkt fur konúngi, ok bað hann leita eptir, ef Ólafr konúngr vildi gefa upp fur þeim ríkit eðr miðla þeim með nökkuru sáttmáli; voru þar margir menn með jarli um þetta mál ok honum í sinni, ok fýstu mjök konúnginn at kalla til Noregs. Knútr konúngr sendi menn vestan af Englandi litlu síðarr til Noregs, ok var þeirra ferð búin allvegliga, höfðu þeir brèf ok innsigli Knúts, Englands konúngs. Þeir komu á fund Ólafs konúngs um vârit í Túnsbergi; en er Ólafi konúngi var sagt, at þar voru komnir sendimenn Knúts konúngs hins ríka, þá varð hann styggr við, ok sagði svâ, at Knútr konúngr mundi þángat enga menn senda með þeim eyrendum, at honum eðr hans mönnum mundi gagn í vera; ok var þat nökkura daga at sendimenninnir náðu eigi fundi konúngsins. En er þeir fengu

[1]) *þannig leiðrètt samkvæmt hinum; Eirík, A.*

lof til at tala við hann, þá gengu þeir fur hann, ok báru fram brèf Knúts konúngs, ok sögðu þarmeð eyrendi þau, er fylgðu, at Knútr konúngr kallar sína eign allan Noreg, ok telr þat at hans forellrar hafi þat ríki haft fur honum; en fur þá sök at Knútr konúngr vill frið bjóða til allra landa, þá vill hann ok eigi herskildi fara til Noregs, ef annars er af kostr; en ef Ólafr konúngr vill vera konúngr yfir Noregi, þá fari hann á fund Knúts konúngs, ok taki landit í lèn af honum, ok gerist hans maðr, ok gjaldi honum skatta af slíka, sem jarlar guldu fyrrum, Sveinn ok Hákon. Síðan báru þeir fram brèf, ok sögðu þau slíkt hit sama. Þá svarar Ólafr konúngr: þat hefi ek heyrt sagt furr í fornum frásögnum, at Gormr konúngr hinn gamli þætti gildr konúngr fur sèr, ok rèð hann fyrir Danmerk einni; en þessum Dana konúngum, er síðan hafa verit, þikkir sèr þat eigi einhlítt, ok er nú svâ komit, at Knútr konúngr ræðr fur Danmerk ok Englandi, ok hefir nú þó brotit undir sik mikinn luta Skotlands; nú kallar hann til ættleifðar minnar í hendr mèr, kunna skyldi hann hóf at um síðir um ágirni sína, eða mun hann einn ætla at ráða fur Norðrlöndum öllum? eðr mun hann einn ætla at eta kál allt á[1] Englandi[2]? furr mun hann því afla, enn ek færa honum

[1]) af, *C.* [2]) Norðrlöndum, *J.*

höfuð mitt, eðr ek veiti honum nè eina lotníng; nú skuluð þèr honum segja þau orð mín, at ek mun verja oddi ok eggjum Noreg, meðan ek endumst til, en gjalda engum manni skatt af ríki mínu, meðan guð vill at ek ráði fur. Eptir þenna orskurð fóru sendimenn Knúts konúngs á brott, ok vurðu eigi sínu eyrendi fegnir. Sighvatr skáld hafði verit með Knúti konúngi, ok gaf Knútr konúngr honum gullhríng þann, er stóð hálfa merk; þá var ok með Knúti konúngi Bersi[1], ok gaf konúngr honum 2 gullhrínga, ok stóð hvârr hálfa merk, ok þarmeð sverð gullbúit; þá kvað Sighvatr vísu þessa:

Knútr hefir okkr hinn ítri,
alldáðgöfugr! báðum
hendr, er hilmi fundum,
[húns skrautliga[2] búnar;
þèr gaf hann mörk eðr meira
margvitr[3] ok hjör bitran,
gulls, ræðr gjörva öllu[4]
guð sjálfr, en mèr hálfa.

Sighvatr gerði sèr at hvarfi sendimenn Knúts konúngs, ok spurr þá vandliga tíðinda; þeir segja honum ok slíkt er hann spurr, þeir sögðu honum ok frá viðræðum þeirra Ólafs konúngs ok eyrendislokum sínum, sögðu at konúngr hefði þúngliga svarat þeirra málum: ok vitum vèr

1) Þórarinn loftúnga, *C*, *F*; Ottarr svarti, *G*; Brúsi, *J*. Skáldtorfuson, *b. v. D*, *J*, *L*, *S*. 2) húnskrautligast, *C*, *D*, *F*, *K*, *S*. 3) mannvitr, *C*. 4) heillum, *J*.

eigi, segja þeir, af hverjum hann hefir traust til at neita því, at gerast maðr Knúts konúngs, ok fara svâ ríkir höfðíngjar, sem hann er, á konúngs fund, ok mundi hans kostr sá beztr, þvíat Knútr konúngr er svâ mildr, at aldrí gera þeir svâ mikit af við hann, at eigi gefi hann þeim þegar allt upp, ef þeir sækja konúngs fund, ok veita honum lotníng; var þat nú fur litlu, er til hans komu 2 konúngar norðan af Skotlandi af Fífi[1], ok færðu honum höfuð sín, ok gaf hann þeim upp reiði sína, ok svâ lönd þau öll, er þeir höfðu átt, ok þarmeð á ofan stórar vingjafir; nú mundi sjá konúngr fara slíka sæmdarför eðr meiri, ef hann kynni at þekkjast, ok vildi hann stunda til Knúts konúngs; þá kvað Sighvatr vísu:

Hafa allframir jöfrar
út sín höfuð Knúti
færð or Fífi norðan,
friðkaup var þat, miðju[2];
seldir[3] Ólafr aldrí,
opt vâ sigr hinn digri,
[hausi hilmir[4] þvísa
hann engum svâ manni.

Sendimenn fóru síðan aptr leið sína á fund Knúts konúngs, ok byrjaði þeim vel um haustit, ok segja honum erendislok sín, ok svâ þau ályktarorð Ólafs konúngs, er hann mælti. Knútr kon-

1) Fifr, *J.* 2) miðjum, *C, F, K.* 3) seldi, *hin.* 4) haus í heimi, *hin.*

úngr mælti: eigi getr Ólafr konúngr þess rètt, ef hann ætlar at ek muni eta einn kál allt hèr á Englandi, heldr mundi ek hitt vilja, at hann fyndi þat, at mèr býr fleira innan rifja enn kál eitt, þvíat honum skulu hèðan köld ráð koma undan hverja rifi, ef ek má ráða. Þat sama sumar komu af Noregi til Knúts konúngs, Áslákr ok Skjálgr, synir Erlíngs af Jaðri, ok fengu þeir þar góðar viðtökur, þvíat Áslákr átti Sigríði, dóttur Sveins jarls Hákonarsonar; voru þau bræðrabörn ok Hákon jarl Eiríksson; fèkk Knútr þeim stórar veizlur með sèr.

128. Ólafr konúngr stefndi til sín lendum mönnum sínum, ok fjölmenti mjök um sumarit, þvíat þau orð fóru um, at Knútr hinn ríki mundi fara um sumarit vestan af Englandi með herskildi til Noregs; þóttust menn þat spurja af kaupskipum þeim, er vestan komu, at Knútr mundi samandraga her mikinn á Englandi; en er á leið sumarit, þa sannaði þat annar, er vestan kom, en annar synjaði, at hinir mundi koma. En Ólafr konúngr var um sumarit í Víkinni, ok hafði menn á njósn, ef Knútr konúngr kæmi til Danmerkr. Ólafr konúngr sendi menn um haustit til Svíþjóðar á fund Önundar konúngs, mágs síns, ok lèt segja honum orðsendíng Knúts konúngs, ok tilkall hans til Noregs, ok lèt þat fylgja, at þat var ætlan konúngs, ef Knútr konúngr legði undir sik Noreg, at Önundr konúngr mundi litla hríð þaðan frá í friði sitja, eðr halda Svíaveldi, ok kallaði hann þat

ráðligast, þeir byndi saman lag sitt ok fèlagskap, eptir því sem tengðir þeirra voru til, ok rísa ímóti, ok segja at þá skortir eigi styrk til at halda deilu eðr úfrið við Knút konúng. Önundr konúngr tók vel þessu máli, ok sendi þau orð í móti, at hann vill leggja fèlagskap við Ólaf konúng, eptir því sem hann hafi orð til sent, svâ at hverr þeirra veitti öðrum styrk af sínu ríki, hvârr sem furr þarf; þat var ok með orðsendíng þeirra, at þeir skyldi finnast, ok gera þá ráð með sèr; ætlaði Önundr konúngr at fara um vetrinn yfir Vestra-Gautland, en Ólafr konúngr efnaði til vetrsetu í Sarpsborg. Knútr konúngr kom þat haust til Danmerkr, ok sat þar um vetrinn með allmikit fjölmenni; honum var sagt, at orðsendíng hafi farit milli Svía konúngs ok Noregs konúngs, ok þar mundi stórræði undir búa. Knútr sendi þá menn um vetrinn til Önundar konúngs í Svíþjóð, ok sendi honum stórar vingjafar ok vinmæli; sagði hann svâ, at vel mætti hann sitja hjá deilum þeirra Ólafs digra: þvíat þú, Önundr! skalt í friði vera fyrir mèr, ok svâ ríki þitt. En er sendimenn komu á fund Önundar konúngs, þá báru þeir fram gjafar þær, er Knútr konúngr sendi honum ok vináttu hans með. Önundr konúngr tók þeim málum vel ok ekki fljótliga, ok þóttust sendimenn skilja, at Önundr konúngr mundi mjök snúinn til vináttu við Ólaf konúng, mág sinn; fóru þeir aptr ok segja Knúti konúngi þat, er þeir þóttust vísir hafa vorðit um Önund konúng, hverr hann

mundi vera í málum þeirra Ólafs konúngs, ok báðu hann engrar vináttu vænta af Önundi Svía konúngi.

129. [Eptir þenna hinn sama vetr[1] sat Ólafr konúngr í Sarpsborg, ok hafði fjölmenni mikit; þá sendi hann Karla hinn háleyska norðr í land með erendum sínum; fór Karli furst til Upplanda, síðan norðr um Fjall, ok kom fram í Niðarósi, tók þar fè konúngs svâ mikit, sem hann hefir orð til sent ok skip gott, þat er honum þótti vel til fallit þessar ferðar, sem hann hafði fur ætlat, en þat var at fara norðr til Bjarmalands; var svâ ætlat, at Karli skyldi hafa fèlag við Ólaf konúng, ok eiga hvârr hálft fè. Karli hèlt skipinu norðr á Hálogaland snemma um vârit; rèðst þá til ferðar með honum Gunnsteinn, bróðir hans, ok hafði hann sèr kaupeyri, þar var nærr hálfum þriðja tigi manna á skipi; þeir fóru þegar um vârit snemmendis norðr á Mörkina. Þórir hundr spurr þetta, hann gerði þegar menn ok orðsendíngar á fund þeirra bræðra, ok þat með at hann ætlar ok um sumarit til Bjarmalands, ok vill hann at þeir hafi samflot, ok hafi at helmíngi hvârir við aðra, slíkt er fæst ok til fengjar berr. Þeir Karli sendu þau orð ímóti, at Þórir skyldi hafa jafnmarga menn, ok hafa hálfan 3ja tög, svâ sem þeir höfðu; vilja þeir þá síðan, at þá sè skipt fè milli skipanna at jafnaði, fur utan kaupeyri þann, er

---

[1]) vetr þann, *hin.*

menn hafa. En er sendimenn Þóris komu aptr, þá hafði Þórir látit framsetja lángskipsbuzu mikla, er hann átti, ok látit búa, hann hafði til þess húskarla sína, ok voru á skipi nærr 80 manna; hafði Þórir einn forráð liðs þessa, ok svâ afla þess alls, er verðr í ferðinni. En er Þórir var búinn, hèlt hann skipinu norðr með landi, ok hittust þeir Karli norðr í Sandvík[1]; síðan fóru þeir allir samt, ok byrjaði þeim vel. Gunnsteinn ræddi um við Karla, bróður sinn, þegar er þeir fundust, at honum þótti Þórir vera ærit fjölmennr, ætla ek þat ráðligra, segir hann, at hverfa aptr, ok fara eigi við svâ búit, at Þórir eigi alla kosti við oss, þvíat ek trúi honum illa. Karli svarar: eigi vil ek aptr hverfa, þvíat þat mun oss vera lagt til ámælis; en þó er þat satt, ef ek hefði vitat þetta, þá er ek var heima í Lángey, at Þórir hundr mundi koma í ferð vâra með svâ marga menn, at vèr mundum þá haft hafa fleiri menn með oss, enn svâ sem nú er. Þeir bræðr ræddu þetta við Þóri, ok spurðu hví hann hefði lið miklu fleira, enn svâ sem mælt var, ok orð höfðu um farit með þeim. Þórir svarar: vèr höfum skip svâ mikit ok liðskýflt[2], at þar má ekki litlu liði við hlíta, þikkir mèr ok í háskaferðum slíkum eigi góðum dreng um aukit. Nú fóru þeir um sumarit optast eptir því sem skip þeirra gengu til; þá er byrlítit var, gekk meira skip þeirra bræðra, ok sigldu þeir þá undan, en þegar hvassara var,

[1]) Sandveri, *B*, *C*, *D*, *F*, *K*, *L*, *S*. [2]) liðskylmt, *L*.

gekk meira skip Þóris, ok sóttu þeir þá eptir; voru þeir sjaldan allir saman, en vissust þó til jafnan. Ok er þeir komu til Bjarmalands, þá lögðu þeir til kaupstaðar, ok tókst þar þegar kaupstefna með þeim Björmum, fengu þeir þar fullræði fjár, er fè höfðu til at verja; Þórir fèkk ok grávöru marga, bæði bjór ok safala; Karli hafði ok allmikit fè, hann keypti ok skinnavöru mikla; þá hèldu þeir út or ánni Vínu, var þá í sundr sagt friði við landsmenn. En er þeir voru komnir til hafs út, ok áttu þar skiparastefnu, þá spurr Þórir, ef mönnum sè nökkurr hugr á at fá sèr fjár. Menn svöruðu ok lètust þess búnir, ef fèfaung lægi brýn fur. Þórir svarar ok segir, at fèit mundi fást, ef ferð sú tækist vel, en eigi örvænt at mannhætta gerðist í ferðinni. Allir sögðu, at til vildu hætta, ef fèvân væri. Þórir segir, at þannveg væri þar háttat: þá er auðigir menn önduðust, at lausafè skyldi skipta með hinum dauða ok örfum, skyldi hinn dauði hafa hálft eðr meira, stundum þriðjúng eðr minna; þat fè skyldi bera út í skóga, ok stundum voru haugar at gjörvir eðr hús, þar skyldi hræra allt saman mold ok silfr. Þórir segir at þeir skyldi til ferðarinnar búast at kveldi dags; svâ var mælt, at engi skyldi renna frá öðrum, engi skyldi ok eptir vera, þá er stýrimaðr segði, at í brautskyldi leggja. Þeir lètu menn eptir at gæta skipsins, síðan gengu þeir á

land upp, ok voru furst vellir slèttir, er þeir komu á landit, en þar næst mörk mikil; Þórir gekk fur, en þeir bræðr síðast. Þórir bað menn fara hljóðliga ok hleypa af trjánum berki, svâ at hvert trèit sjái frá öðru, at vèr farim hina sömu leið aptr. Þeir komu síðan í rjóðr eitt mikit, en í rjóðrinu var skíðgarðr hárr, hurð var fur skíðgarðinum, ok var hún læst; sex menn af landsmönnum skyldu vaka yfir skíðgarðinum hverja nótt, sinn þriðjúng nætr hverir 2. Þá er þeir Þórir komu til skíðgarðsins, voru þeir vökumenn heimgengnir, en þeir, er vaka skyldu næst, voru eigi komnir á vörðinn; Þórir gekk at skíðgarðinum ok krækti öxi sinni uppá, ok las sik uppeptir, fór svâ þar til er hann kom á upp ok inn um skíðgarðinn öðrumegin; þá kom ok Karli at öðrumegin, ok komu jafnsnemma at hliðinu, ok tóku frá lokurnar ok svâ slagbrandana, ok luku upp hurðina, gengu menn þá inn í garðinn. Þá mælti Þórir: í garði þessum er gjörr haugr af gulli ok silfri ok moldu, hrært allt saman, skulu menn nú fara þar til, ætli menn sèr eigi svâ þúngt, at eigi megi fara fullum fetum frá því; í garðinum er goð Bjarma, er Jómali heitir, ok verði engi svâ djarfr, at við þat glettist eðr hann ræni at nökkuru. Síðan gánga þeir á hauginn, ok tóku fèit sem mest máttu þeir, báru í klæði sín, fylgði þar þó mold mikil, sem vân var at, er skjótt var upptekit. Síðan

mælti Þórir, at menn skyldu í braut fara, ok segir svâ: nú skuluð þið bræðr, Karli ok Gunnsteinn! fara furst, en ek mun gánga síðast, ok gæta liðs vârs; snèru þeir þá allir út til hliðsins, ok er þeir förunautar voru allir komnir út at skíðgarðinum, þá snèri Þórir aptr, ok veik at Jómalanum, ok tók silfrbolla, er stóð í knjám honum, hann var fullr af silfrpeníngum, steypti Þórir þá silfrinu í kiltíng sèr, en dró hödduna á hönd sèr, er var yfir bollanum, gekk Þórir þá út at hliðinu; þeir förunautar vurðu þá varir við, at Þórir var aptrhorfinn; Karli hvarf þá aptr at leita Þóris, ok hittust þeir þá fur innan hliðit; Karli sá þá, at Þórir hafði silfrbollann; síðan rann Karli at Jómalanum, hann sá at digrt men var á hálsinum, hann reiddi upp öxina, ok hjó í sundr týgilinn aptan á hálsinum[1], varð þat högg svâ mikit, at höfuðit tók af Jómalanum, varð brestr svâ mikill[2], at öllum þótti undr at, tók Karli þá menit, fóru þeir þá í braut; ok jafnskjótt sem brestrinn varð, komu fram í rjóðrit varðmenninnir, ok blèsu þegar í lúðra sína, því næst heyrðu þeir alla vega frá sèr lúðrblástra, sóttu þeir Þórir fram at skóginum ok í skóginn; þá heyrðu þeir aptr í rjóðrit óp ok káll ok gaulun illiliga, voru þeir Bjarmar þá þar komnir. Þórir hundr gekk síðast allra manna liðs þeirra, tveir menn gengu fur honum, ok báru sekk nökkurn milli sín, þar var í

[1]) er menit var fest með, *b. v. C.* [2]) *Hèr byrjar E aptr.*

því líkast sem aska, þar tók Þórir í hendi sèr ok seri þar[1] eptir í slóðina sem þeir fóru, stundum kastaði hann því fram yfir liðit; fóru svâ fram or skóginum á völluna; þeir heyrðu at herr Bjarma fór eptir þeim með ópi ok kalli ok gaulun illiligri, þustu þeir þá fram á völluna hjá þeim á tvær hliðar, en hvergi komu þeir svâ nærr þeim eða vâpn þeirra, at þeim vyrði mein at, en þat þóttust þeir Karli helzt af kanna, at Bjarmar sæi þá eigi; en er þeir komu út til skipanna, gánga þeir Karli útá skipin fyrstir, þvíat þeir voru áðr fremstir, en Þórir var lengst á landinu. Þegar þeir Karli voru búnir, þá kastaðu þeir tjöldunum af sèr, ok slógu festum, síðan drógu þeir upp segl sitt, gekk skipit þá út á haf brátt; en þeim Þóri tókst allt seinna, ok var skipi þeirra óhógviknara[2], ok er þeir tóku til segls, voru þeir Karli komnir lángt undan landi; sigldu þá hvârirtveggju[3] nætr ok daga, allt til þess er þeir Karli lögðu aptan dags at eyjum nökkurum, lögðu þeir þá seglit, ok kastaðu akkerum ok biðu straumsfalls, þvíat mikil röst var fur þeim; þá komu þeir Þórir eptir, lögðust þeir ok um akkeri, síðan skutu þeir báti, gekk Þórir á bátinn ok menn með honum, rèru þeir Þórir til skips þeirra bræðra, Þórir gekk uppá skipit, þeir bræðr heilsaðu honum vel; Þórir var heldr fáligr, hann bað

[1]) því, *K*, *S*. [2]) óauðráðnara, *hin*. [3]) yfir Gandvík, nótt var þá enn ljós, sigldu þeir þá bæði, *b. v. hin.*

Karla fá sèr menit, þat er hann tók af Jómalanum: þikkjumst ek makligastr at hafa kostgripi þá, er þar voru teknir, þvíat mèr þótti þèr mín við njóta, er þèr komust í braut með engum mannskaða, en mèr þóttir þú, Karli! stýra oss í hinn mesta vâða. Þá svarar Karli: Ólafr konúngr á fè þetta allt at helmíngi, er ek afla í þessi ferð, ok ætla ek honum menit; nú far þú á konúngsfund, kann vera at hann fái þèr menit, ef hann vill fur því eigi hafa þat, er ek tók þat af Jómalanum. Þá segir Þórir, at hann vill at þeir fari þá á land upp, ok skipti þar fengi sínum. Gunnsteinn svarar ok segir, at þá væri strauma skipti, ok mál væri at sigla. Síðan draga þeir strengi sína, ok heimta upp akkeri sín; en er þeir Þórir sá þat, þá fara þeir ofan í bátinn, ok rèru til skips síns; þeir Karli höfðu þá uppdregit segl sitt, ok voru þá lángt komnir, áðr þeir Þórir kæmi yfir sik seglinu; fóru þeir þá til þess er þeir komu í Geirsver, þar er furst bryggjulægi, er norðan ferr; þar komu þá hvârirtveggju aptan dags, ok lögðu þar á bryggjulægi, lágu þeir Þórir innarr í höfninni, en hinir í utanverðri; en er þeir Þórir höfðu tjaldat, þá gekk hann á land upp, ok hans menn mjök margir saman, þeir fóru til skips Karla, höfðu þeir þá umbúizt; Þórir gekk þá út at skipinu ok kallaði, bað stýrimann á land gánga. Þeir bræðr gerðu svâ, gengu á land ok nökkurir menn með þeim, þá hóf Þórir

hina sömu ræðu ok furr, at hann bað alla menn á land gánga, ok bera til skiptis, þat sem menn höfðu aflat at herfángi; þeir bræðr sögðu enga nauðsyn at skipta, furr enn þeir kvæmi heim í bygð. Þórir segir, at þat var ekki siðvandi at skipta eigi fyrr herfángi enn heima, ok hætta svâ til um trúleik manna ok einurð. Þeir ræddu um þetta nökkurum orðum, ok þotti sinn veg hvârum; þá snèri Þórir í brott, ok er hann var skamt genginn, þá veik hann aptr, ok mælti, at förunautar hans skyldu bíða hans, kallaði hann á Karla: ek vil tala við þik einmæli, segir hann; Karli gekk þegar í móti honum; en er þeir fundust, þá lagði Þórir spjóti á honum miðjum, svâ at í gegnum hann stóð; þá mælti Þórir: kenna muntu þar, Karli! einn Bjarkeyínginn, hugða ek ok at þú mundir kenna spjótit Selshefni. Hann dó þegar, en þeir Þórir gengu þá til skips síns. Þeir Gunnsteinn sá fall Karla, ok runnu þeir þegar þángat til, og sá, þeir vegs ummerki, tóku líkit, ok báru til skips, ok brugðu tjöldum ok svâ bryggjum, ok heimtust frá landi, þegar þeir máttu; síðan drógu þeir segl upp, ok sigldu leið sína; ok er þeir Þórir sá þat, þá reka þeir af sèr tjöldin sem ákafast, en er þeir drógu upp seglit, þá gekk í sundr dragreipit, fór þá ofan seglit þverskipa, varð þeim Þóri þat dvöl mikil, áðr þeir kvæmi upp seglinu í annat sinn, voru þeir Gunnsteinn þá lángt komnir, áðr þeir Þórir voru seglbúnir, ok skriðr

varð at skipi þeirra; gjörðu þeir Þórir þá hvârttveggja, at þeir sigldu ok rèru undir; slíkt hit sama gjörðu þeir Gunnsteinn; fóru nú hvârirtveggju sem aftók mest, bæði nætr ok daga, ok dró seint saman með þeim[1], þvíat þegar eyjasundin tóku til, þá varð mjúkara at víkja skipi Gunnsteins, en þó dró Þórir eptir svâ fast, at þá er þeir komu fur Lengjuvík[2], snèru þeir Gunnsteinn at landi, ok ljópu á land upp; en litlu síðarr komu þeir Þórir þar, ok ljópu á land upp, ok eltu þá; kona ein (gat) hólpit Gunnsteini ok fólgit hann, ok er þat sagt, at hún var mjök fjölkunnig; fóru þeir Þórir aptr til skipa, ok tóku fè þat allt, sem á var skipinu Gunnsteins, en báru grjót í staðinn[3]; síðan fóru þeir Þórir heim til Bjarkeyjar. Þeir Gunnsteinn fóru furst huldu höfði, ok fluttust á smáskipum, fóru um nætr en lágu um daga, fóru svâ allt þartil er þeir komu fram um Bjarkey; fóru þeir Gunnsteinn furst heim í Lángey, dvaldist hann þar þá litla hríð, áðr hann fór suðr með landi, ok lètti eigi furr enn hann kom suðr í Þrándheim, ok hitti þar Ólaf konúng, ok segir honum tíðindin, slík sem vorðin voru í Bjarmalandsferðinni. Konúngr lèt illa yfir ferð þeirra, en bauð þó Gunnsteini með sèr at vera, ok sagðist leiðrètta skyldu mál hans, þegar hann mætti sèr svâ viðkoma. Gunnsteinn þakkaði kon-

1) *Hèr sleppr E um sinn.* 2) Launguvík, *G.* 3) fluttu skipit útá fjörðinn, ok hjuggu rauf á, ok söktu niðr, *b. v. hin.*

úngi vel boð sín, ok þekktist þat, ok dvaldist hann með Ólafi konúngi um hríð.

130. Svâ er sagt furr, at Ólafr konúngr sat þann vetr í Sarpsborg, er Knútr hinn ríki sat í Danmörk. Önundr Svía konúngr reið þann vetr yfir Vestra-Gautland, ok hafði [mikinn her, 30 hundruð[1] manna; fóru þá menn ok orðsendíngar milli þeirra mága, gjörðu þeir þá stefnulag sín ímilli, at þeir skyldu hittast við Konúngahellu; þeir frestaðu fundinum fur þá sök, at þeir vildu frètta, hvat Knútr konúngr hefðist at; en er áleið vârit, þá bjóst Knútr konúngr vestr til Englands með liði miklu, hann setti eptir í Danmerk Hörðaknút, son sinn, ok þar með honum Úlf jarl, son Þorgils sprakaleggs. Úlfr átti Ástríði, dóttur Sveins konúngs, en systur Knúts konúngs hins ríka; þeirra son var Sveinn Úlfsson, er síðan var konúngr yfir Danmerk. Úlfr jarl var hinn mesti merkismaðr. Knútr konúngr fór nú vestr til Englands, sem furr var sagt; en er þat spurðu konúngarnir, Ólafr ok Önundr, þá fóru þeir þegar til stefnunnar, ok hittust við Konúngahellu, varð þar fagnafundr ok vináttumál mikil, svâ at þat varð bert fur alþýðu, en þó ræddu þeir þá marga luti, er þeir vissu 2 einir, ok varð þat síðan sýnt ok augljóst fur mönnum; en at skilnaði skiptust þeir gjöfum

[1]) meirr enn þrjár þúsundir (M M M) *G*, *I*; þrjú hundruð, *L*.

við, ok skildust vinir; fór þá Önundr konúngr uppá Gautland, en Ólafr konúngr norðr í Víkina, ok síðan norðr á Gaular ok út á Agðir, ok þaðan norðr með landi; hann lá mjök lengi í Eikundasundi, ok beið þar byrjar; honum var sagt at Erlíngr Skjálgsson lá í samnaði, ok þeir Jaðarbyggjarnir, ok höfðu her manns. Þat var þá einn dag at konúngsmenn ræddu um með sèr, hvârt væri sunnanveðr eðr útsynníngr, eðr hvârt þat veðr væri segltækt eðr eigi fur Jaðar, töldu þat flestir at úsiglanda væri; þá svarar Haldórr Brynjólfsson: þat mundi ek ætla, ef Erlíngr Skjálgsson hefði búit yðr veizlu á Sóla, at þetta veðr mundi þikkja siglanda fur Jaðar. Þá mælti Ólafr konúngr, at menn skyldu reka af sèr tjöldin, ok leggja út skipunum or höfninni, ok svâ var gjört; sigldu þeir þann dag fur Jaðar, ok dugði veðr hit bezta, lögðu at um kveldit í Hvítíngsey; fór konúngr þá norðr á Hörðaland[1], ok fór þar allt at veizlum, er fur honum voru gjörvar.

131. Þetta vâr hafði farit skip af Noregi út til Færeyja, voru á því skipi orðsendíngar Ólafs konúngs til þess at koma skyldi utan af Færeyjum einnhverr hirðmanna hans, Leifr Özurarson eðr Gilli lögmaðr eðr Þórálfr or Dímun. En er þessar orðsendíngar komu til Færeyja, ok þeim var sagt sjálfum, þá ræddu þeir með sèr, hvat undir mundi búa orðsendíng þessi, ok kom þat

[1]) Hálogaland, *C, D. F.*

ásamt með þeim, at konúngr mundi vilja spurja eptir um þau tíðindi, er sumir höfðu fur satt, at þar hefði misfarizt í eyjunum þeim tveim skipshöfnum, er engi maðr hafði afkomizt. Þeir rèðu þat af með sèr Færeyíngarnir, at Þórálfr skyldi fara; rèðst hann síðan til ferðar, ok bjó byrðíng, er hann átti, ok aflaði þar til manna, voru þar til 10 menn eðr 12 samt. En er þeir voru búnir ok biðu byrjar, þá var til tíðinda í Austrey, at Þrándr í Götu gekk til stofu einn veðrdag góðan, en þar í stofunni í þverpallinum lágu þeir frændr hans, Sigurðr ok Þórðr, þeir voru Þorlákssynir[1], ok hinn þriði var Gautr hinn rauði, þat var ok frændi þeirra. Allir voru þeir frændr gjörviligir menn, Sigurðr var þeirra elztr ok mestr fyrir þeim í öllu. Þórðr átti kenníngarnafn, ok var kallaðr Þórðr hinn lági[2], hann var þó[3] manna hærstr, ok var þat þó meirr frá, at hann var þrekligr ok rammr at afli, svá at trautt vissu menn afl hans, hversu styrkr hann var. Þá mælti Þrándr: margt skipast á manns æfi; útídt var þat, er vèr vorum úngir, at menn skyldu sitja inni ok liggja góða veðrdaga, þeir er úngir voru, mundi þat eigi þikkja líkligt hinum furrum mönnum, at Þórálfr or Dímun mundi þikkja meiri þroskamaðr enn þèr; en byrðíngr sá, er ek á ok hèr stendr í nausti,

[1]) Aslákssynir, *I hèr og frv.* [2]) lángi, *C, D, G hèr og frv.* [3]) *v. í C, D, G.*

ætla ek at nú gjörist svâ forn, at hann fúni sundr undir bráðinu, hèr er ok hvert hús fullt af ullu, ok verðr ekki til verðs haldit; nú mundi ek svâ fara, ef ek væri nökkurum vetrum ýngri. Sigurðr spratt þá upp, ok hèt á Þórð ok Gáut, ok kveðst eigi vilja þola frýju Þrándar, gánga síðan út ok þar til er húskarlar voru, fóru síðan til skips, ok settu fram byrðínginn, ok lètu flytja til farminn, ok hlóðu skipit, skorti þar eigi til farminn heima, þar var ok reiði allr með skipinu, bjöggu þeir skipit á fám dögum, stigu þar á síðan 10 menn eðr 12 á byrðínginn Þrándar. Þrándr karl átti ok lengi eintal við þá Sigurð ok Þórð, áðr þeir fóru heiman. Þeir Þórálfr tóku eitt veðr út allir, ok vissust til jafnan í hafinu; mæltust þeir þat við, at hvârir skyldu öðrum vera liðsinnaðir hvers sem við þyrfti; þeir [tóku Noreg í Hereyjum[1], þat var síð dags, lögðu þeir Sigurðr at utarr við ströndina, ok var þó skamt í milli þeirra; þat varð til tíðinda um aptaninn síð, er myrkt var vorðit, ok þeir Þórálfr ætluðu til rekna at búast, þá gekk Þórálfr á land upp álfreka ok maðr með honum, þeir leitaðu sèr staðar[2]; ok er þeir ætlaðu ofan at gánga, þá segir sá svâ, er honum fylgði, at hann fann eigi furr enn kastat var klæði yfir höfuð honum, síðan var hann tekinn upp af jörðunni, í því heyrði hann brest mikinn, síðan var gengit

[1]) komu at Hernum aptan dags, *C*, *D*, *G*; Hernu, *F*. [2]) at gánga örna sinna; *b. v. I.*

með hann sem með barn, ok reiddr til falls, en þar var undir sjór kolblárr, ok var hann keyrðr á kaf; en er hann komst á land, fór hann þar til, er þeir Þórálfr höfðu skilit, hitti hann þar á Þórálf, ok var hann klofinn í herðar niðr, ok var þá dauðr. En er skipverjar[1] Þórálfs vurðu þessa varir, þá báru þeir lík hans á skip út, ok náttsettu þar um nóttina. Þá var Ólafr konúngr á veizlu í Lygru[2], þat er skamt þaðan, voru honum þegar orð gjör um myrgininn, lèt Ólafr konúngr þegar stefna örvarþíng, konúngr var þar á þínginu, hann hafði ok þángat stefnt Færeyíngum af hvárutveggja skipinu, ok voru þeir til þíngs komnir; en er þíngit var sett, þá stóð konúngr upp ok mælti: þau tíðindi eru hèr vorðin, er slík eru sjaldgæt er betr er; hèr er af lífi tekinn góðr drengr, ok hyggjum vèr, at saklaus hafi verit, eðr er nökkurr sá maðr hèr, er kunni at segja, hverr þessu verki veldr? En þar gekk engi maðr við því. Þá mælti konúngr: ekki mun ek því leyna, hverr áhugi minn er um verk þetta, at ek horfi á hendr þeim sjálfum Færeyíngum, þætti mèr þannveg helzt at unnit, sem Sigurðr Þorláksson muni hafa vegit manninn, en Þórðr hinn lági muni hafa fært hinn á kaf; en þat fylgir ætlan minni, at ek mundi þess geta til, at þat mundi til saka fundit, at þeir mundu eigi vilja at Þórálfr segði eptir þeim ódáðir þær, er hann mun hafa vitat at sannar

[1]) skiparar, *C, G, I.* [2]) Lyggro, *S.*

munu vera, en oss hefir lengi grunat um morð þau ok illvirki, er sendimenn mínir hafa myrðir verit þar í eyjunum. En er konúngr hætti ræðunni, þá stóð upp Sigurðr Þorláksson ok mælti, hann tók svâ til orðs: ekki hefir ek furr talat á þíngum, ætla ek mik munu þikkja ekki mjök orðfiman, en þó sè ek nú ærna nauðsyn tilbera, at svara nökkuru um þetta vandkvæði, sem nú er til handa borit, ok áfelli þat sem konúngr drap oss skúta um; vil ek þess tilgeta, at ræða sjá, er konúngr hefir uppi haft, muni vera komin undan túngurótum þeirra manna, er miklu eru úvitrari ok verri enn svâ sem hann er, er þat ok úlíkliga mælt, at ek mundi vilja vera skaðamaðr Þórláfs, þvíat hann var fóstbróðir minn ok hinn mesti vin, en ef þar væri nökkuð önnur efni í, ok væri sakar til milli okkar Þórálfs; þá er ek svâ viti borinn, at ek mundi heldr til þess verks hætta heima í Færeyjum, heldr enn hèr undir handarjaðri yðr, konúngr! nú vil ek þess verks sannliga synja fur mik, ok svâ fur alla oss fèlaga ok skipverja, vil ek þar bjóða fur eiða, sem lög yðr standa til; en ef yðr þikkir hit fullara, þá vil ek flytja járnburð, ok vil ek, herra konúngr! at þèr sèð sjálfir við skírsluna, þikkir mèr því betr, er hún er frekari gjör, ok ek gæti þessu illmæli sem skjótast rudt ok hrundit, svâ at þat sè öllum góðum mönnum ljóst, at vèr fèlagar sèim þessu máli lognir; vil ek ok líkt hrinda hvârutveggja málinu, ok því er konúngr stakk

oss fèlögum sneið um, at vèr mundim hafa myrða menn hans til fjár. En er Sigurðr hætti máli sínu, þá áttu margir menn lut at, at hann næði undanfærslu um þetta mál, sögðu Sigurð hafa vel talat, ok töldu hann úsannan at þessu máli mundu vera, sem honum var kent. Konúngr svarar: um þenna mann [hefr svâ stórum[1], ef hann er loginn þessu máli, þá mun hann vera góðr maðr, en at öðrum kosti mun hann vera nökkuru djarfari enn dæmi finnist til, ok er eigi síðr þat mitt hugboð at svâ muni vera; en þess get ek at hann beri sjálfr vitni um af stundu. En við flutníng ok bæn manna þá varð þat, at konúngr tók festu af Sigurði til járnburðar; skyldiSigurðr eptir um daginn koma í Lygru[2], ok skyldi biskup þar gera skírslu; ok sleit með því þínginu; fór konúngr um kveldit í Lygru, en Sigurðr ok þeir fèlagar[3] til skips, tók þá brátt at myrkva af nótt. Sigurðr mælti þá við förunauta sína: þat er satt at segja, at vèr höfum komit í mikit vandkvæði, ok höfum vorðit fur mikilli álýgi, er konúngr sjá vælráðr ok brögðóttr, mun nú auðsèn vârr kostr, ef hann skal ráða, hefir hann furst látit drepa Þórálf, vin vârn ok fèlaga, en nú vill hann gera oss at óbótamönnum, ok bera á oss þetta níðíngsverks; er honum lítit fur at villa járnburð þenna; nú ætla ek þann hafa litla miskun, er til þess hættir;

[1]) mun stórum skipta, ok, *hin.* [2]) Lifru, *C, G, I, S.* [3]) *hèr byrjar E aptr.*

en nú leggst innan fjörðinn fjarðagol[1] nökkut, ræð ek at vèr vindum segl vårt, ok stefnum á haf út, fari þrándr sjálfr annat sumar ok seli ull sína, ef hann vill, en ef ek komumst nú á brott klakklaust at sinni, þá þikkir mèr meiri vân, at ek koma aldrí síðan til Noregs, víst meðan sjá er konúngr yfir landi, enda sè ek sjálfráði. þeim förunautum hans þótti þetta hit mesta snjallræði, taka nú ok draga upp segl sitt, láta svâ gánga um nóttina á haf út, sem mest mega þeir, lètta þeir eigi furr enn þeir koma í Færeyjar, ok síðan heim í Götu; lèt þrándr illa yfir ferð þeirra fur alþýðu; þeir svöruðu ok eigi vel, ok voru þó heima með honum eigi at síðr. þeir sögðu mönnum þessi tíðindi til Færeyja, víg þórálfs or Dímon, ok hversu þar höfðu atburðir vorðit, lètu þat ok fylgja, at þeir ætlaðu at konúngr mundi hafa ráðit hann, ok þótti þat hinn mesti mannskaði þar í eyjunum.

132. Brátt eptir þetta spurði Ólafr konúngr, at Sigurðr var í brottu, ok lagðist þúngr orðrómr á um mál þeirra, voru þá margir þeir er þess kölluðu vân, at Sigurðr mundi sannr at sökum, er áðr hafði synjat fur hann ok mælt í móti konúngi. Olafr konúngr var all fáræðinn um þetta mál, ok kallaði nú eigi hafa farit fjarri getu sinni, þóttist nú vita þat, er áðr hafi hann grunat um til þeirra Færeyínga. Fór konúngr

[1]) fjalla gol, *C*, *G*.

þá ferðar sinnar, ok tók veizlur þar sem fur honum voru gjörvar. Ólafr konúngr heimti til tals við sik þá menn, sem komnir voru af Íslandi, ok furr voru stefndir: Þórodd Snorrason, Gelli Þorkelsson, Stein Skaptason Egil Hallsson. Þá tók konúngr til máls: Þèr hafið jafnan þat mál haft uppi við mik í sumar, at þèr vilduð fara út til Íslands, en ek hefir þarum veitt engan orskurð; nú vil ek segja yðr, hvern veg ek ætla til: Þèr, Gellir! ætla ek at fara til Íslands, ef þú vill þángat bera eyrendi mín, en aðrir íslenzkir menn þá munu ekki fara til Íslands, furr enn ek veit, hvern veg þeim málum er tekit, er þú ferr með, Gellir! En er konúngr hafði þetta uppborit, þótti þeim, er fúsir voru ferðarinnar, en bannat var út at fara, höfð við sik hin mestu svik, ok þótti ill seta sín ok úfrelsi. Nú fór Gellir til Íslands um sumarit, ok hafði með sèr orðsendíngar Ólafs konúngs, þær er hann flutti fram annat sumar á þíngi; en sú var orðsendíng Ólafs konúngs, at hann beiddi þess Íslendínga, at þeir skyldu taka við þeim lögum, sem hann hafði sett mönnum í Noregi, en veita honum af landinu þegngildi ok nefgildi, penníng fur hvert nef, þann er 10 væri fur alin vaðmáls; þat fylgði ok því, at hann hèt mönnum hèr ímót vináttu sinni fullkominni, ef menn vildi honum þessu játa, en elligar afarkostum, þegar hann mætti viðkomast. Yfir þessu tali sátu menn lengi, ok rèðu um lengi sín ímilli, ok

kom þat ásamt með þeim at lyktum at allra samþykt, at þeir neituðu þeim lögum ok svâ skattgjöfum ok öllum þeim álögum, er konúngr beiddi; ok fór Gellir utan þat sumar, ok á fund Ólafs konúngs, ok hitti hann þat haust í Vík austr, þá er hann var kominn ofan af Gautlandi, svâ sem ek vænti at enn muni sagt verða síðan í sögu Ólafs konúngs. Þá er á leið haustit sótti Ólafr konúngr norðr í Þrándheim, ok hèlt liði sínu inn til Niðaróss, ok lèt þar búa til vetrsetu sèr; sat Ólafr konúngr þann vetr í Kaupángi, sá var hinn 13di[1] vetr konúngdóms hans.

133. Ketill jamtr[2] hèt maðr, hann var son Eymundar[3] jarls or Sparbúi[4] or Þrándheimi, hann flýði fur Eysteini konúngi hinum illráða austr um Kjöl, hann ruddi mörkina ok bygði þar sem nú er síðan Jamtaland; austr þángat flýði ok fjöldi annarra manna or Þrándheimi fyrir þeim úfriði, þvíat Eysteinn skattgildi Þrændi, ok setti þar til konúngs hund[5] sinn, er Saurr[6] hèt. Sonarson Ketils jamtar var Þórir helsíngr, við hann er kennt Helsíngjaland, þar bygði hann furst manna, en er Haraldr hárfagri ruddi sèr til ríkis, þá stökk enn fjöldi manna or landi fur hans ofríki, Þrændir ok Naumdælir, ok fjölgaðust þá enn bygðir austr þar á Jamtalandi, ok sumir fóru allt á Helsíngjaland austr frá hafinu, ok voru þeir lyðskyldir

1) átti, *C*, *D*, *L*; tíundi, *F*. 2) jamti, *hin*. 3) Önundar, *hin*. 4) Sparrabúi, *C*.; Sparabúi, *hin*. 5) son, *C*, *D*, *G*, *H*, *I*, *K*. 6) Sörr, *B*, *C*, *D*, *H*, *L*; Serr, *I*; Sörkvir, *K*.

undir Svía konúng. En er Hákon Aðalsteinsfóstri var fur Noregi, þá settist friðr ok kaupferð or Þrándheimi til Jamtalands, en sakir vinsælda Hákonar konúngs, þá sóttu Jamtar austan á fund hans, ok játaðu honum hlýðni sinni, ok guldu honum skatta, setti hann þeim lög ok landsrètt; vildu þeir heldr þýðast Noregs konúng enn stunda til Svía konúngs, þvíat þeir sögðust af Noregi ættaðir, ok svâ gjörðu Helsíngjar allir, þeir er ættaðir voru norðan um Kjöl, ok hèlzt þat síðan, allt til þess er Ólafr digri ok Ólafr sænski deildu um landaskipti, þá hurfu Jamtar aptr ok svâ Helsíngjar[1] undir Svía konúng, ok rèð þá landaskipti austr Eiðaskógr, en þá Kilir allt norðr til Finmerkr, tók þá Svía konúngr skatt af Helsíngjalandi ok svâ Jamtalandi, sem at fornu hafði verit, ok þó hafði þat svâ lengi staðit, at Jamtr[2] höfðu Svía konúngi skatt goldit, ok þaðan voru sýslumenn yfir landinu; vildu Svíar þá ok ekki heyra annat, enn undir Svía konúng hyrfi allt landit austr þaðan, þat er lá fur austan Kjölu; var þar þá, sem opt eru dæmi til, þó at mágsemd ok vinátta væri með konúngum, at þó vildi hvârr hafa ríki allt, þat er eiga þóttist, ok hann þóttist nökkura tiltölu hafa; hafði Olafr konúngr ok látit fara orð um til Jamtalands, at þat var hans vili, at Jamtr veitti honum lyðskyldu, ok hèt þeim elligar afarkostum, en Jamtr gerðu ráð sín, ok sögðust vildu hlýðni veita Svía konúngi.

1) *Hèr sleppr E um sinn.* 2) *þannig.*

134. Þóroddr Snorrason ok Steinn Skaptason undu illa sínum lut, er þeir fóru eigi sjálfráða, hvert er þeir vildu. Steinn var manna fríðastr sýnum, ok bezt at sèr gjörr um allar íþróttir, hann var ok skáld gott, skartsmaðr mikill ok metnaðarfullr. Skapti faðir hans hafði ort drápu um Ólaf konúng, ok hafði kennt Steini, var svå ætlat at hann skyldi færa konúnginum kvæðit. Steinn mátti eigi orða bindast at ámæla konúngi bæði með sundrlausum orðum ok samföstum. Báðir voru þeir Þóroddr óvarmæltir, þeir sögðu at konúngr vildi verr hafa enn þeir, er sonu sína eðr frændr höfðu sent honum til trúnaðar, ok sögðu slíkt hin mestu svik, er konúngr lagði þá í úfrelsi, ok lèt þá eigi skyldu vera sjálfráða ferða sinna. Konúngr reiddist þessu mjök. Þat var einnhvern dag at Steinn gekk fur konúng, ok spurr hann, ef hann vildi hlýða drápu þeirri, er Skapti faðir hans hafði ort um hann. Konúngr svarar: hitt mun furst ráð, Steinn! at þú kveðir þat, er þú hefir ort um konúng þinn. Steinn segir, at þat var ekki, er hann hafi ort: þvíat ek er ekki konúngs skáld, en þó at ek kynni at yrkja, þá mundi yðr þat þikkja, sem annat um mik, heldr lítit vegligt; gekk Steinn þá í brott, ok þóttist vita, hvat[1] til horfði, ok talaði ekki fleira við konúng. Þorgeirr hèt ármaðr Ólafs konúngs, ok rèð fur búi hans í Orkadal, hann var þá þar, ok heyrði orð þeirra konúngs ok Steins, fór hann heim

[1]) *Hèr sleppr I um sinn.*

síðan. Þat var á einhverri nótt, at Steinn ljópst í braut or bænum, ok skósveinn hans með honum, fóru þeir furst uppá Gaularás, ok svâ út síðan, til þess er þeir komu í Gaulardal[1], ok at kveldi komu þeir til konúngs búss þess, er Þorgeirr rèð fur, bauð Þorgeirr Steini þar at vera um nóttina, ok spurr, hverju gegni um farar hans. Steinn bað hann fá sèr hest ok sleða með; sá hann at þar var heimlekit korni með. Þorgeirr svarar: eigi veit ek, hvern veg afstendst um farar þínar, hvârt þú ferr nökkut at konúngs leyfi, þótti mèr [svâ at eins[2] mjúkt fara með ykkr hinn furra dag. Steinn svarar: þótt ek sè at engu sjálfráði fur konúngi, þá skal ek þó eigi svâ fur þrælum hans; hann brá þá sverði ok drap ármanninn, síðan tók hann hestinn, ok bað svein sinn á bak laupa, en Steinn settist í sleðann; fóru þeir þá leið sína, ok óku um nóttina alla, þar til er þeir komu um myrgininn á Mæri í Súrnaðal; síðan fá þeir sèr flutníng yfir fjörðu, ok fóru sem ákafast, ok sögðu[3] víg þetta þar sem þeir fóru, en köllnuðust vera konúngsmenn, ok fengu af því góðan forbeina, hvar sem þeir komu; þeir komu at kveldi eins dags í Gizka til búss Þorbergs Árnasonar, hann var eigi heima, en kona hans var heima, hún hèt Ragnhildr, ok var dóttir Erlíngs Skjálgssonar, fekk Steinn þar allgóðar viðtökur, þvíat þar voru kunnleikar miklir með

[1]) Orkadal, *hin.* [2]) ekki, *hin.* [3]) þeir ekki, *b. v. hin.*

þeim. Sá atburðr hafði vorðit áðr, þá er Steinn hafði farit til Noregs furr, átti hann þá sjálfr skipit, ok var hann formaðr á skipinu, at hann kom af hafi utan at Gizka, ok lágu þeir þar út við eyna, þá lá Ragnhildr á sængar rekkju, ok skyldi verða lèttari, ok kom allhart niðr, en prestr var engi á eyjunni, ok engi allnærr, var þá komit til kaupskipsins, ok spurt hvárt nökkurr var prestr á skipinu; þar var einn prestr á skipi, sá er Bárðr[1] hèt, vestfirzkr, úngr ok lærðr heldr lítt. Sendimenn báðu prest fara til húss með sèr, at finna húsfreyju; presti þótti sem þat mundi vandi mikill, en vissi fákunnandi sína, ok vildi eigi fara; þá lagði Steinn orð sín til við prest, ok bað hann fara. Prestr svarar þá: fara mun ek, ef þú ferr með mèr, þvíat mèr þikkir mikit traust at þèr til umráða, hvárs sem við þarf. Steinn segir, at hann vill þat gjarna til leggia, ef hann vill þá fara heldrenn áðr. Síðan fara þeir til bæjar, ok þar til er Ragnhildr var; litlu síðarr fæddi hún barn, þat var meybarn ok var allúmáttuligt, þá skírði prestr barnit, en Steinn hèlt meyjunni undir skírn, ok hèt sú mær þóra. Steinn gaf meyjunni fíngrgull, er hann hafði á hendi sèr. Ragnhildr hèt Steini vináttu sinni fullkominni, ok bað hann á sinn fund koma, ef hann þættist hennar þurfa. Steinn segir, at hann mundi eigi fleirum meyjum undir skírn halda,

[1]) Brandr, *C*, *D*, *G*, *K*, *L*, *S*.

ok skildust þau at svâ búnu. En nú er þar komit, er Steinn heimtir þessi vinmæli at Ragnhildi, ok segir hvat hann hefir hent, ok svâ þat at hann mun vorðinn fur konúngs reiði. Hún segir [mátt at magni skulu[1] um liðveizluna við hann; bað hann þar bíða Þorbergs bónda, hún skipaði honum hjá Eysteini orra, syni sínum, hann var þá 12 vetra. Steinn gaf gjafir þeim Eysteini ok Ragnhildi. Þorbergr hafði spurt allt um ferðir Steins, áðr hann kom heim, ok var hann heldr úfrýnn. Ragnhildr gekk til máls við hann, ok segir honum allt um hag Steins, hversu farit var, ok bað hún hann taka við Steini, ok sjá á mál hans. Þorbergr svarar: ek hefir spurt allt um ferðir Steins, ok konúngr hefir átt örvarþíng eptir Þorgeir ármann sinn, ok er Steinn útlægr gjörr fur endilángan Noreg, dræpr ok tiltækr, hvar sem hann verðr staðinn, svâ ok þat at konúngr er hinn reiðasti, ok kann ek mèr meiri svinnu enn takast á hendr einn útlendan mann, ok hafa þar fur konúngs reiði; ok lát þú Stein fara í brott sem skjótast. Ragnhildr svarar, at þau Steinn skyldu bæði í braut fara, eðr vera þar bæði ella. Þorbergr bað hana fara, hvert er hún vill: vænti ek þess, segir hann, þó at þú farir, at þú komir skjótt aptr, þvíat hèr í Gizka munu vera mest þín metorð. Þá gekk fram Eysteinn, son þeirra, hann mælti

[1]) at máttr skal at megni, *hin*,

svâ, at hann mundi eigi eptir vera, ef móðir hans færi í braut. Þorbergr sagði þau lýsa mikla þrályndi í þessu ok ákaflyndi, ok er þat vænst, segir hann, at þið ráðið þessu, er ykkr þikkir þó allmiklu máli varða, en of mjök er þèr ættgengt, Ragnhildr! segir hann, ok yðr frændlíngum, at virða lítils orð Ólafs konúngs. Ragnhildr svarar: ef þèr vex allmjök í augu, at halda Stein, þá farðu með honum á fund Erlíngs föður míns, eðr fá honum þat föruneyti, er hann komist þágat í friði fyrir þá sök, þá vænti ek, at hann taki við honum skjótt fur mín orð. Þorbergr segir, at hann mun ekki Stein þángat senda, ok mun Erlíngi þó ærit margt tilbera, þat er konúngi er misþokkat, þó at þat leiði eigi af mèr til. Var Steinn nú þar um vetrinn; en eptir jól komu til Þorbergs sendimenn Ólafs konúngs með þeim erendum, at Þorbergr skal koma á fund hans fyrir miðja föstu, ok var lagt ríkt við þá orðsendíng. Þorbergr bar þetta fur vini sína, ok leitaði ráðs við þá, hvârt á þat skyldi hætta, at fara til móts við konúng at svâ förnu máli; en flestir löttu hann þess, ok kölluðu þat ráðligra at láta Stein furri af höndum, enn fara á fund konúngs. En Þorbergr var fúsari at leggjast þessa ferð eigi undir höfuð. Nökkuru síðar fór Þorbergr til fundar við Finn, bróður sinn, ok bar þetta mál fur hann, ok bað hann til ferðar með sèr. Finnr svarar: íllt þikkir

mèr ofkvæni slíkt, at þora eigi fur konu sinni at halda einurð sinni við lánardrottinn sinn. Kost muntu eiga, segir þorbergr, at fara eigi nema þú vilìr, en þó ætla ek at þú letìzt meirr fur hræðslu sakir enn hollustu við konúng. Skildust þeir bræðr reiðir, fór þorbergr síðan til fundar við Árna, bróður sinn, ok bað hann fara með sèr til móts við konúng, og segja honum, hversu háttat var. Árni svarar: undarligt þikkir mèr um svâ vitran mann, sem þú ert ok furleitinn, er þú skalt hafa rasat í svâ mikla úhamíngju, at þú skalt hafa vorðit fur konúngs reiði, þar sem enga bar nauðsyn til; þat væri nökkur vorkunn, at þú hèldir frændr þína eðr fóstbræðr, en þetta er alls engi, at hafa tekizt á hendr íslenzkan mann, ok halda útlaga konúngs, ok hafa nú þar fur í veði fè þitt ok fjör ok allra frænda þinna, þeirra er þínu máli vilja fylgja, ok svâ vina þinna. þorbergr svarar: svâ er sem mælt er, at einn er ökvisi[1] ættar hverrar, sú er mèr auðsænst úhamíngja föður míns, hversu honum glapnaði sona eignin, er hann átti þann síðarst, er engi líkindi hefir vârrar ættar, ok daðlaus er með öllu; mundi þat ok sannast, ef mèr þætti eigi skömm við móður mína mælt, at ek mundi þik aldregi kalla vàrn bróður. Snèri þorbergr þá heimleiðis ok heldr úkátr. Síðan sendi hann menn

[1]) aukvisi, *afskriftirnar.*

norðr til Þrándheims á fund Kálfs, bróður síns, ok bað hann koma til Agðaness í móti sèr. Ok er sendimenn komu, ok hittu Kálf, þá hèt hann þegar ferðinni, ok hafði engi orð fur. Ragnhildr sendi menn austr á Jaðar til Erlíngs, föður síns, ok bað hann senda sèr menn. Þaðan fóru synir Erlíngs, Sigurðr ok Þórir, ok hafði hvàrr þeirra tvítögsessu vel skipaða[1]; fóru nú síðan leið sína, til þess er þeir komu í Gizka; hèldu þeir Þorbergr þaðan norðr með landi, þá lá þar fur þeim Finnr ok Árni með tvær tuttögsessur[2]; síðan fóru þeir með því liði öllu norðr til Þrándheims, ok var Steinn þar í för með þeim; ok er þeir komu til Agðaness, þá var þar fyrir Kálfr Árnason, ok hafði tvítögsessu velskipaða; síðan fóru þeir með liði sínu öllu inn til Niðarhólms[3], ok lágu þar um nóttina. Eptir um morgininn áttu þeir tal sín í milli ok ráðagerðir, vildi Kálfr ok synir Erlíngs, at þeir færi þá öllu liðinu inn til bæjarins, ok lèti þá skeika at sköpuðu, en Þorbergr vildi þat eigi, lèzt vilja furst fara at með vægð, ok láta bjóða konúngi sæmilig boð; samþykktist Finnr því ok svâ Árni; var nú þat ráðs tekit; fóru þeir Finnr ok Árni á konungs fund fáir saman. Konúngr hafði þá spurt um fjölmenni þat, er þeir höfðu, ok var hann heldr styggr í ræðunni. Finnr bauð fur Þorberg ok Stein boð þau, at konúngr skyldi gera

1) ok á 9 tigu manna, *C, G, K, S*; ok á 30 manna, *D.* 2) *Hèr byrjar E aptr.* 3) Niðaróss, *G, L*; Hólms, *D, G.*

fè svâ mikit, sem hann vildi sjálfr, en Þorbergr hefði landsvist ok veizlur slíkar, sem hann hafði áðr, en Steinn lífsgrið ok lima. Konúngr svarar: svâ lízt mèr, sem þessi för muni svâ heiman búin, at þèr munuð nú þikkjast hafa ráð við mèr eða heldr meirr, en þess mundi mik þó sízt vara af yðr bræðrum, at þèr munduð[1] fara með her ímóti mèr, enda kenni ek ráð þessi, at þeir Jaðarbyggvarnir munu hèr upphafsmenn at vera; en ekki þarf mèr fè at bjóða. Þá svarar Finnr: ekki höfum vèr bræðr fur þá sök lið samandregit, at vèr munim yðr, herra! bjóða nökkurn úfrið, má ok þetta ok ekki kenna Jaðarbyggjum, þvíat vèr báðum þá liðs, heldr berr hitt til um fjölmenni vârt, at vèr vildim yðr bjóða furst vâra þjónostu, en ef þat stoðar ekki, ok vilið þèr því neitá, ok ætlið Þórbergi nökkura afarkosti at bjóða, þá munu vèr nú fara með lið þat, sem vèr höfum samandregit, á fund Knúts konúngs hins ríka, ok vita hvârt hann vili oss af höndum vísa, en til hins gerumst vèr ekki, at bjóða yðr nè einn úfrið. Konúngr leit við honum, ok mælti: ef þèr bræðr vilið sverja mèr þat, at fylgja mèr utanlands ok innanlands, ok skiljast eigi við mik, nema mitt sè lof eðr leyfi; eigi skuluð þèr leyna mik, ef þèr vitið mèr svikræði veitt, þá vil ek taka sættir af yðr. Síðan fór Finnr til liðs síns, ok sagði,

[1]) *Hèr byrjar I aptr.*

hverja kosti konúngr hafði þeim gerva. Bera þeir síðan saman ráð sín; sagði Þorbergr, at hann vill þenna kost fur sína hönd: er ek ófúss at flýja af eignum mínum, ok sækja til útlendra höfðíngja, ætla ek mèr þat til sæmdar verða munu, at fylgja Ólafi konúngi, ok at vera þar, sem hann er. Þá svarar Kálfr: enga mun ek eiða vinna Ólafi konúngi, en vera þá eina hríð hèr í landi, er ek held veizlum mínum ok metorðum, ok konúngr vill vera vin minn, ok er þat minn vili, at svâ gerim vèr allir. Finnr svarar: til þess er ek ráðinn, at láta konúng einn ráða skildögum okkarr í milli. Árni Árnason mælti: til þess er ek ráðinn, at fylgja þèr, Þorbergr bróðir! þó at þú vilir berjast í móti Ólafi konúngi, þá mun ek eigi nú við þik skiljast, allra helzt er nú tekr þú svâ gott ráð upp, ok mun ek fylgja ykkr Finni, bróður mínum, ok taka þann kost upp, sem þið sjáið ykkr til handa. Gengu þeir bræðr 3 í eitt skip, Þorbergr, Finnr ok Árni, ok rèru inn til bæjarins, ok gengu síðan á konúngs fund; fór þá fram þetta sáttmál, at þeir bræðr svörðu konúngi eiða; þá leitaði Finnr[1] Steini sætta við konúng, en konúngr sagði, at Steinn skyldi í friði fur honum fara, hvert er hann vildi: en ekki mun hann með mèr vera, segir konúngr síðan, mun hann þat ok ekki lasta. Þá fór Þorbergr út til liðs síns. Fór Kálfr þaðan útá Eggju til búss síns,

[1]) Þorbergr, *C, D, E, G, I, K, L, S.*

en Finnr fór til konúngs, en Þorbergr ok Árni ok annat lið þeirra fór heim. Steinn fór suðr með sonum Erlíngs; ok um vârit snimma fór Steinn vestr til Englands, ok gekk síðan til handa Knúti konúngi hinum ríka, ok var með honum í góðu yfirlæti.

135. Þá er Finnr Árnason hafði litla hríð dvalizt með Ólafi konúngi, þá var þat einnhvern dag, at konúngr kallaði Finn til máls við sik, ok enn fleiri menn, þá er hann var jafnan vanr at hafa við ráðagerðir sínar. Þá mælti konúngr, ok segir svà: sú ráðagerð staðfestist í skapi mèr, at ek ætla mèr í vâr at bjóða út leiðángri af öllu landi, bæði at liði ok skipum, ok fara síðan með her þann allan, er ek má fá, ímóti Knúti konúngi hinum ríka, þvíat ek veit um þat tilkall, er hann hefir hèr í hendr mèr til ríkis, at hann mun þat eigi at engu hafa ætla; nú er þèr þat at segja, Finnr Árnason! at ek vil, at þú farir sendiför mína norðr á Hálogaland, ok hafir þar útboð, bæði at skipum ok liði, ok stefnir öllu því liði til móts við mik til Agðaness; síðan nefndi hann aðra menn til, ok sendi suma í Þrándheim, en suma suðr í land, svâ at hann lèt þetta boð fara um allt land. Þat er at segja frá för Finns, at hann hafði skútu, ok á nærr 30 manna; en er hann var búinn, þá fór hann ferðar sinnar, til þess er hann kom á Hálogaland, þá stefndi hann þíng við bændr, ok bar þá upp eyrendi sín, ok krafði leiðángrs fur hönd Ólafs konúngs;

bændr áttu í hèraði stór skip ok leiðángrsför; skipaðust[1] þeir vel við orðsendíng konúngs, ok bjöggu skip sín þegar. En er Finnr sótti norðr á Hálogaland, þá átti hann þíng við bændr, en sendi menn sína nökkura fur sèr, at krefja útboðs, sem honum sýndist. Finnr sendi menn sína í Bjarkey til Þóris hunds, ok lèt þar krefja leiðángrs sem annarstaðar; en er Þóri komu þessi boð konúngs, þá bjóst hann þegar til ferðar, ok skipaði húskörlum sínum á þat hit mikla skip, er hann hafði haft áðr um sumarit til Bjarmalands, bjó hann þat með síns eins kostnaði. Finnr stefndi saman öllum Háleygjum þeim, er norðr voru þaðan; kom þar saman um vârit lið mikit, ok biðu til þess, er Finnr kom norðan; var þar ok þá kominn Þórir hundr, þá er Finnr kom; lèt hann blása til húsþíngs leiðángrs liðinu öllu; á þínginu sýndu menn vâpn sín, svâ sem siðvandi er til, var svâ ok ransakat útboð í skipreiðu hverri; en er þetta var atgjört, þá mælti Finnr: þik vil ek at þessu kveðja, Þórir hundr! hver boð viltu bjóða Ólafi konúngi fyrir aftöku Karla hirðmanns hans, eða fur rán þat, er þú tókt fè hans norðr í Lengjuvík? nú hefi ek konúngs umboð um þetta mál, en nú vil ek vita svör þín. Þórir litast um, ok sá hann til beggja handa sèr standa marga menn, kendi hann þar Gunnstein, bróður Karla, ok marga frændr hans ok vini; þá mælti Þórir hundr: skjót eru boð mín, Finnr!

[1]) *hèr sleppr E um sinn.*

at ek vil ſesta allt mitt mál undir konúng ok hans dóm, þat er honum þikkir at við mik. Finnr svarar: þat er nú mest vân, at þèr sè nú minni sæmdar af unnt eðr virðíngar, þvíat nú beint munt þú verða at festa á minn dóm, ef sættast skal. Þórir svarar: þá ætla ek þat enn allvel komit, ok skal þat þá enn ekki undan draga. Gekk Þórir þá til festu, ok skildi Finnr þat mál allt fur; síðan segir Finnr upp sættina, at Þórir ſkyldi gjalda konúngi 10 merkr gulls[1], en Gunnsteini [aðrar 10 merkr, en þeim frændum[2] hinar þriðju 10 merkr fur rán ok fèskaða, ok gjalda nú upp þegar í stað[3]; ok þat með, segir Finnr, at þú skalt nú framselja menit þat hit mikla ok hit góða, er þú tókt af Karla dauðum. Þórir kveðst ekki men tekit hafa. Þá gekk Gunnsteinn fram, ok sagði at Þórir hefði tekit menit af Karla dauðum, ok sagði at Karli hefði menit á hálsi sèr, er hann gekk til fundar við Þóri, en þá var af honum, er vèr tókum lík hans. Þórir lèzt ekki hugleidt hafa um men þat: en þóat verit hafi nökkut men, þá mun þat heima liggja í Bjarkeyju. Þá setti Finnr spjótsoddinn fur brjóst Þóri, ok mælti, at hann skyldi þá framselja menit, þótt honum þætti allmikit fur.

---

[1]) silfrs, *C.* [2]) ok þeim frændum (feðgum, C) aðrar 10 merkr, en fyrir rán ok ſèskaða, *hin.* [3]) Þórir svarar: þetta er mikit fègjald. Hinn er annar kostr, at lokit sè sætt allri. (*þat fyrif. v. i B, G.*) Þórir mælti, sagði at Finnr mundi ljá honum fresta at leita lána af sveitúngum sínum. Finnr bað hann gjalda þegar í stað, *b. v. hin.*

Þórir tók þá menit af hálsi sèr, ok seldi Finni. Síðan snèri Þórir í braut, ok á skip sitt, ok mart manna með honum; Finnr gekk útá skipit eptir honum, ok tóku þeir upp rúm, þeir fundu undir þiljum niðri við siglu tunnur 2 svâ miklar, at þeim þótti öllum mikil undr at vera, hve miklar voru. Finnr spurr Þóri, hvat í tunnum þeim hinum stóru væri. Þórir segir, at þar væri í drykkr hans. Finnr svarar: hví gefr þú oss ekki at drekka, fèlagsmaðr! svâ mikinn drykk sem þú hefir? Þórir mælti, at renna skyldi or tunnunni í bolla, ok gefa þeim. Síðan var þeim Finni gefit at drekka, ok var þat hinn bezti drykkr. Þá bað Finnr Þóri greiða fèit af höndum, eðr segja, ef hann vildi eigi greiða. Þórir bað hann gánga á land upp, ok kveðst þar mundu greiða. Gekk Finnr þá á land upp ok hans menn, þá kom Þórir þar, ok greiddi fèit, var þá reidt or einum sjóði 10 merkr vegnar, lèt hann þá fram knýtiskauta marga, var í sumum merk vegin, en í sumum hálfmerk, sumum aurar nökkurir. Þá mælti Þórir: þetta er lánsfè, er ýmsir menn hafa lánat mèr, þvíat uppi ætla ek nú skotssilfr þat, er ek átti. Síðan gekk Þórir á skip út, en er hann kom aptr, þá reiddi hann silfrit smám ok smám, þá leið á daginn; en þegar er þíngit sleit, þá gánga menn til skipa sinna, ok bjöggust til brottlögu, tóku menn þá at sigla, hverr svâ sem búinn var; kom þá svâ at flestir höfðu í brott siglt, sá

Finnr þá at þyntist liðit um hann, kölluðu menn þá á hann, ok báðu hann verða búinn, var þá eigi greiddr enn einn þriðjúngr fjárins. Þá mælti Finnr: seint gengr gjaldit, Þórir! sè ek at þèr þikkir fur at gjalda fèit, skal nú ok kyrt láta furst við þik at sinni, skalt þú nú ok greiða konúngi slíkt fèit, sem eptir er. Stóð Finnr þá upp, ok snèri á braut. Þórir mælti: vel þikkir mèr þat, Finnr! at nú skilì með okkr furst at sinni, en við skal ek leita at gjalda þessa skuld[1], svâ at konúngi ok báðum ykkr þikki eigi vargoldin. Þá gekk Finnr til skipa sinna, ok sigldi eptir liði sínu. Þórir varð seint búinn or höfninni, ok er segl þeirra komst upp, þá hèldu þeir út [or Vestrafirði[2], síðan á haf út, ok suðr með landi, svâ at sjárr var í miðjum hlíðum, en stundum vatnaði land, lèt hann svâ gánga suðr allt, þar til er hann lèt í Englandshaf, ok kom fram í Englandi; fór hann síðan á fund Knúts konúngs, ok tók hann vel við honum; kom þat þá upp, at Þórir hafði of lausafjár, hafði hann þar þá allt lausafè þat, er hann hafði haft af Bjarmalandi hit furra sumarit, ok svâ þat er hann tók af þeim Karla; en í tunnum þeim hinum miklu, þá var botn fur innan þann botninn, ok allskamt í milli, ok var þar drykkrinn í milli, en hvârtveggi tunnan sjálf var reyndar full af [gulli[3] ok grám skinnum, bjór ok safvala. Var Þórir síðan með Knúti konúngi um hríð; en Finnr fór með

[1]) *Hèr byrjar E aptr.* [2]) um Vestfold, *D.* [3]) *v. í hin.*

þat lið, er hann fèkk, til móts við Ólaf konúng, ok segir honum allt af ferðum sínum, ok svâ þat með at hann kveðst þat hyggja, at Þórir væri or landi stokkinn, ok vestr til Englands á fund Knúts konúngs: ok ætla ek hann oss óþarfan vera. Konúngr svarar: trúi ek því, at Þórir mun oss vera úvin, hvar sem hann er, ok þikkir mèr hann jafnan betr firr mèr enn nærr.

136. Ásmundr Grankelsson hafði verit þann vetr á Hálogalandi í sýslu sinni, ok var heima með föður sínum Grankeli. Þar liggr til hafs útver, er bæði er selver ok eggver gott, fuglver ok fiskâver, hafði þat lengi at fornu legit til bæjâr Grankels ok þeirra feðga, en Hárekr or Þjóttu veitti tilkall, var nú svâ komit, at hann hafði haft af verinu öll gögn nökkur misseri; en þá þóttist Ásmundr ok þeir feðgar hafa traust konúngs til allra rèttra mála, fóru þeir þá báðir feðgar á fund Háreks um vârit, ok sögðu honum jarteinir Ólafs konúngs, er Ásmundr fór með, at hann skyldi láta af tilkalli um verit. Hárekr tekr því þúngliga, sagði undr, at Ásmundr færi með slíku rógi ok öðru til konúngs: hefi ek öll sannindi til míns máls, en þú, Ásmundr! skyldir kunna at ætla þèr hóf um síðir, hvat þèr hæfir, þóat nú þikkist þú mikill, fur því er þú hefir konúngs traust, er þá ok svâ, ef þèr hlýðir at drepa suma höfðíngja eðr ræna, ok gera at óbótamönnum, en ræna oss, er furr þóttumst kunna at halda lut

mínum til fulls, þóat oss væri jafnbornir menn, en nú er þat allfjarri, at þèr sèð oss jafnbornir menn fur ættar sakir. Ásmundr svarar: þess kenna margir af þèr, Hárekr! at þú ert ættstórr ok ofreflismaðr við at eiga, sitja því margir yfir skörðum lut fur þèr, en þó þikkir mèr þat nú líkara, at þú, Hárekr! verðir annarstaðar til at leita, at hafa fram újafnað þinn, enn hèr við oss, eðr taka svâ mjök aflaga, sem þetta er. Skildust síðan við svâ búit. Nökkuru síðarr sendi Hárekr húskarla sína 10 eðr 12 saman til versins með róðrarskútu eina mikla. Þeir fóru síðan í verit, tóku þar allskonar veiðiskap, ok hlóðu ferjuna, en er þeir voru í braut búnir, kom at þeim Ásmundr Grankelsson með 30 manna, ok bað þá láta laust fángit allt, þat er þeir höfðu fengit. Húskarlarnir svöruðu úbrátt um. Síðan veittu þeir Ásmundr þeim atgaungu, kendi þá liðsmunar, voru húskarlar Háreks sumir barðir, sumir særðir, sumir á kaf reknir, en farmrinn af þeim tekinn, ok færðr braut af skipinu, ok höfðu þeir Ásmundr hann; komu húskarlar Háreks heim við svâ búit, ok sögðu Háreki ferð sína; hann svarar: tíðindi þikkja nýnæmi öll, þat hefir ekki furr verit gert, at berja menn mína. Nú var þetta mál kyrt, ok lagði Hárekr eigi orð í, ok var hinn kátasti. Hárekr lèt búa um vârit snekkju tvítögsessu, ok skipaði húskörlum sínum, ok var þat skip búit allvel, bæði at mönnum ok öllum reiða; fór Hárekr um vârit í leið-

ángr, en er hann fann Ólaf konúng, þá var ok þar fur Ásmundr Grankelsson, kom konúngr þá stefnulagi á með þeim Ásmundi, ok sætti hann þá, var fest á konúngsdóm um mál þeirra; síðan lèt Ásmundr flytja vitni til þess, at Grankell hafi átt verit, ok þá dæmdi konúngr, sem vitni báru, vurðu þá skökk málaefnin, ok vurðu húskarlar Háreks bótalausir, en dæmt verit til handa Grankeli. Hárekr segir, at honum var skammlaust at hlíta konúngsdómi um mál þeirra, hvern veg sem enn vildu þau mál skipast síðan.

137. Þóroddr Snorrason hafði dvalizt með Ólafi konúngi, þá er Gellir Þorkelsson fèkk leyfi af konúngi at fara til Íslands, sem furr var ritat, ok var hann þá með Ólafi konúngi, ok undi stórilla ófrelsi því, er hann skyldi eigi fara í frelsi, hvert er hann vildi. Öndverðan þann vetr, er Ólafr konúngr sat inní Niðarósi, lýsti hann því jafnan, at hann vildi senda menn til Jamtalands, at heimta skatt, en til þeirrar ferðar voru menn ekki fúsir, þvíat af lífi voru teknir sendimenn Ólafs konúngs, þeir er hann hafði furr senda, Þrándr hvíti ok þeir 12 saman, svâ sem enn var furr ritat, ok höfðu Jamtar síðan haldizt í hlýðni við Svía konúng. Þóroddr Snorrason bauðst til þessarar ferðar, þvíat hann hirði ekki um, hvat yfir leið, ef hann færi sjálfráða; þat þekktist konúngr, ok fóru þeir Þóroddr síðan 16[1] saman, ok komu fram austr á Jamtalandi, ok sóttu heim

1) 12, *hin*.

þann mann, er Þórarr[1] hèt, hann var þar lögmaðr ok mestr metorðamaðr, þvíat hann var settr þar stjórnarmaðr yfir þeim; þeir fengu þar góðar viðtökur, en er þeir höfðu þar litla hríð dvalizt, þá báru þeir upp erendi sín við Þórar[1]; hann segir, at fur þeim svörum rèðu engum mun síðr aðrir landsmenn ok höfðíngjar enn hann, ok kveðst mundu þíngs kveðja til slíkra mála; var svâ gert, at þíngboð var uppskorit ok stefnt þíng fjölment; fór Þórarr til þíngs, en sendimenn dvöldust at hans meðan. Þórarr bar þetta mál fur alþýðu, en þat var afráðit, at þeim skyldi halda þar, til þess er sýslumaðr Svía konúngs kvæmi austan, skyldu þeir þá stafa fur þeim, slíkt er hann vildi, með ráði landsmanna, en gera hitt yfirbragð á fur þeim, at þeir væri fur því dvaldir, at þeir skyldi skattsins bíða, til þess at hann væri samandreginn til handa þeim, ok skyldi skipa þeim á vistir 2 [eðr 3[2] saman. Þóroddr var við annann mann at Þórars, þar var jólaveizla mikil ok samburðaröl, margir voru þar bændr or þorpinu, ok drukku þeir allir saman um jólin; þaðan var eigi lángt annat þorp, þar bjó mágr Þórars, ríkr ok auðigr, þeir mágar drukku saman jólin, þeir mágar drukkust á, en Þóroddr ok bonda son, ok var kappdrykkja, ok síðan fóru í kappmæli, ok mannjafnað um Norðmenn ok Svía, ok því nærst þrættu þeir um Noregs konúng ok Svía konúng,

[1]) þórir, D, E, F, L; þórarinn, S. [2]) og 2, C, D, E, G, S.

ok svâ um þá, er furr höfðu verit, ok um skipti konúnga, ok svâ um rán þau, er furr höfðu verit, ok þá voru. Ef konúngar vârir, segir bóndason, hafa fleiri menn látit fur Norðmönnum, þá munu menn Svía konúngs þessu jafna, ef þeir koma austan eptir jólin, með 12 manna fjörvi, ok vitið þèr ógerla vesalir menn, til hvers þèr eruð dvaldir. Þóroddr hugsar nú sitt mal, en margir drógu at glott, ok fengu þeim mörg hnæfilyrði, ok svâ konúngi þeirra, ok mælti þá ölit með þeim, ok fór þat þá óleynt, er áðr var leynt með þeim Jamtum, ok þá Þórodd hafði áðr ekki grunat um. Eptir um daginn tóku þeir Þóroddr, ok förunautr hans, klæði sín ok öll vâpn sín, ok lögðu til handargagns sèr, ef þeir vildi skjótt tiltaka; um nóttina, er menn voru sofnaðir, ljópu þeir í brott til skógar. Um morgininn, er menn vurðu varir við brautlaup þeirra, fóru menn eptir þeim með sporhunda, ok fundu þá í skóginum, þar sem þeir höfðu fólgizt, þeir færðu þá heim í eina skemmu með sèr, þar var gröf ein í skemmunni, var þeim Þórodd þar kastat í niðr, ok var þar hurð læst fur, þar höfðu þeir lítinn mat[1], en engi klæði, nema þau ein, er þeir stóðu í; ok er þeir komu í gröfina, settust þeir niðr á hálm; þá fór Þórarr ok allir frelsíngjar hans til mágs síns, ok skyldu þeir þar drekka þá, þat sem eptir var jólanna. Þrælar Þórars skyldu gæta grafarinn-

[1]) *Her sleppr 1 um sinn.*

ar meðan; þeim þrælum var ætlaðr drykkr nógr, en þeir stiltu litt drykkinum, þegar þeir skyldu sjálfir fur sjá, ok gerðu sik þegar ölóða hit fursta kveld, er bóndi var heiman farinn; en er þeir þóttust vera fulldrukknir þrælarnir, þá mæltu þeir sín ímilli, er mat skyldu færa grafarmönnum, at þá skyldi eigi skorta; þeir gerðu ok svâ. Þóroddr kvað þeim kvæði, ok skemti þeim, en þeir sögðu hann mundu vera virðíngamann mikinn, ok gáfu honum kerti mikit niðr í gröfina, ok ljós á kertinu; þá komu út þeir þrælarnir, er áðr höfðu inni verit, ok kallaðu ákafliga, at hinir skyldu þá inn fara, en hinir hvârirtveggju voru þá svâ ölóðir, at þeir hvârigir luku aptr skemmuna nè gröfina; þá ristu þeir Þóroddr í sundr fetla[1] sína í strengi, ok knýttu saman, [undu síðan fra öðrum endanum í hnoða[2], ok kastaðu upp í skemmugluginn ok á gólfit, þar til er þat vafðist um arkar[3] fót einn; þeir leitaðu þá til upp at fara, lypti Þóroddr upp föronaut sínum, til þess er hann stóð á öxlum honum, síðan las hann sik uppí skemmuna, þá skorti þar eigi reip, ok lèt hann þau síga ímóti Þóroddi, ok er hann skyldi Þórodd upp draga, þá fèkk hann ekki atgert; þá mælti Þóroddr at hann skyldi kasta reipinu yfir bita þann, er í var skemmunni, en gera lykkju á endanum, ok bera þar í viðu ok grjót, svâ at

1) feldi, *hin.* 2) gerðu snúða (snyð, *D*) á endanum, *C, D, E.* 3) örku, *C, E, S.*

þat væri meirr enn jafnvægi hans; hann gerði svâ, fóru þá sígin niðr í gröfina, en Þóroddr upp; þá tóku þeir sèr klæði í skemmuni, sem þeir þurftu, þar voru nökkur hreinstökkur ok skáru þeir af fitjarnar, ok bundu undir sik öfgar, en áðr þeir fóru í brottu, lögðu þeir eld í kornlöðu eina mikla, hljópu síðan í braut í niðamyrkri; hlaðan brann öll, ok mart annara húsa í þorpinu; þeir Þóroddr fóru um alla nóttina, en fálust at degi. Um morgininn var þeirra saknat, var þá farit þegar með sporhunda, at leita þeirra allavega frá bænum, en[1] hundarnir röktu sporin aptr til bæjarins, þvíat þeir kendu af hreinstökkunum, ok rökdu þegar sporin, sem klaufirnar höfðu vitat á hreinsfitjunum, ok varð ekki leitat þeirra. Þeir Þóroddr fóru lengi um eyðimerkina, ok eitt kveld komu þeir at einum litlum bæ, ok gengu þeir þar inn; þar sat inni karlmaðr ok kona við eld, nefndist hann Þórir: en þetta er kona mín, er hèr sitr við eldinn, hann kvað þau eiga húsakotin; bauð hann þeim þar at vera um nóttina, þat þágu þeir; hann segir þeim þat, at hann var því þar kominn, at hann hafi flýit or bygðum fur víga sakir. Þeim Þóroddi var þar unninn hinn bezti beini, ok mataðust þau þar öll við eldinn; síðan var búit um þá Þórodd þar í sætinu, ok bjöggust þeir til svefns, þá var enn log á eldinum; Þóroddi varð ekki mjök svefnsamt, ok vakti hann um hríð,

1) *Her sleppr E um sinn.*

en föronautr hans sofnaði þegar; þá sá Þóroddr, at þar gekk fram einn úngr maðr svâ mikill, at þann þóttist engan sèð hafa jafn mikinn, sjá maðr var í skarlats kyrtli rauðum öllum hlaðbúnum í fald niðr, öll voru hans klæði við gull búin, svâ var hann ok hinn vænligasti sýnum sjálfr. Þóroddr heyrði at hann ávítaði þau um þat, er þau tóku við gestum, þar er þau höfðu sèr varla matbjörg. Húsfreyja svarar: ver þú eigi reiðr, bróðir! sjaldan hefir þetta at borit, veit þú þeim heldr nökkura hjálp eðr gagnsmuni, þvíat þú ert betr tilfærr enn við. Þóroddr heyrði þat, at þau nefndu hann Arnljót gellina, ok svâ þat at húsfreyja var systir hans. Þóroddr hafði ok heyrt getit Arnljóts gellina fyrrum, ok svâ þat með at Arnljótr var hinn mesti ránsmaðr ok spellvirki ok stigamaðr, lá úti á skógum, ok drap hann til fjár sèr. Nú sváfu þeir Þóroddr af nóttina, þvíat þeir voru mjök mæddir af gaungu, en er lifa mundi þriðjúngr nætr, þá kom þar Arnljótr gellini, bað hann þá uppstanda ok búast ferðar sinnar; þeir Þóroddr spruttu á fætr, ok klæddust, var þeim fenginn dagverðr sinn; síðan fèkk Þórir þeim skíð hvârumtveggja; Arnljótr rèðst ok til ferðar með þeim, steig hann ok á skíð, ok voru þau bæði laung ok breið. En þegar Arnljótr laust við skíða geislanum[1], þá var hann þegar hvar fjarri þeim, þá beið hann ok sagði,

[1]) gislanum *G.*

at þeir mundu hvergi komast at svâ búnu, bað hann þá stíga á skíðin með sèr; þeir gerðu svâ. Stóð Þóroddr nærri honum, ok hèlt sèr tveim höndum undir belti Arnljóts, en förunautr Þórodds hèlt undir belti honum, skreið Arnljótr þá svâ hart, sem hann væri lauss, þeir komu til sælu[1] húss nökkurs, svâ at þriðjúngr var af nótt, drápu þeir sèr upp eld, ok bjöggust til matar, ok er þeir mataðust, mælti Arnljótr, bað þá engu niðrkasta af matnum, hvârki mola nè beinum. Arnljótr tók or serk sèr einn silfrdisk, ok mataðist hann þaraf, en er þeir Arnljótr höfðu matazt, hirðir Arnljótr leifar þeirra; síðan bjöggust þeir til rekna; í annann enda hússins var lopt uppi á þvertrjám, fóru þeir Arnljótr þar upp á loptit, ok lögðust þar til svefns. Arnljótr[2] hafði í hendi höggspjót mikit, var falrinn allr gullrekinn, en skaptit var eigi hærra, enn taka mátti hendi til fals, hann var gyrðr sverði gullbúnu, þeir höfðu vâpn sín ok klæði á loptinu hjá sèr. Arnljótr bað þá vera hljóðsama, hann lá fremstr á loptinu; litlu síðarr enn þeir höfðu umbúizt komu þar til hússins menn 12 saman, voru þat kaupmenn, ok ætlaðu til Jamtalands með varníng sinn; en er þeir komu í húsit, gerðu þeir um sik glaum mikinn, ok voru kátir, gerðu þeir furr sèr elda stóra, ok er þeir mataðust, þá kastaðu þeir niðr bæði molanum ok beinum öllum út or húsinu; síðan bjöggust

1) *sálu C, S.* 2) *Hèr sleppr G um sinn.*

þeir til svefns, ok lögðust niðr í sætinu upp frá eldinum; en er þeir höfðu litla hríð sofit, þá kom þar inn tröllkona ein mikil, ok er hún kom inn, sópaðist hún um fast, ok tók þat allt, er henni þótti ætt, ok sló því öllu í munn sèr; síðan greip hún mann þann, er næstr henni var, reif þann allan í sundr, ok kastaði börmunum[1]; þá vaknaðu aðrir, ok eigi við góðan draum, ok ljópu upp, en hún færði til heljar hvern at öðrum, þartil er einn var eptir, ljóp sá inn undir loptit, síðan kallar hann til bjargar sèr, ef nökkut væri þess á loptinu, at duga honum mætti, seildist Arnljótr ofan or loptinu eptir honum, ok tók í hendr honum, ok kippti honum uppí loptit hjá sèr; þá slóst hún at fram eldinum, ok tók at eta þá menn, er henni þóttu steiktir vera; þá stóð Arnljótr upp, ok hefr upp spjótit, ok setr milli herða henni, er hún laut at eldinum, svå hart at útkom oddrinn um brínguna, hún brast hart við, ok kvað hún hátt ok illiliga, ok ljóp út; Arnljóti varð laust spjótit, ok hafði hún þat með sèr. Arnljótr ruddi út hræum manna, þeim er hún hafði leift, setti hann síðan hurð fur skálann ok gætti, þvíat hún hafði þat allt frábrotit, er hún ljóp út; sváfu þeir þar um nóttina þat sem eptir var, en er lýsti stóðu þeir upp, ok átu furst dagverð sinn, ok er þeir höfðu matazt, mælti Arnljótr: nú munu vèr hèr skilj-

[1]) *þannig A*; á eldinn, *hin.*

ast, skuluð þèr nú fara at slóð þessi, er þeir fóru híngat ígær kaupmenninnir, en ek mun leita spjóts míns, mun ek hafa[1] at verkkaupi þat, er mèr þikkir fèneytt af því fè, er þessir fóru með kaupmenninnir; skaltu, Þóroddr! bera Ólafi konúngi kveðju mína, ok seg honum þat, at hann er svâ allra konúnga á Norðrlöndum, at ek vildi helzt þjóna ok sem bráðast finna, ok meiri vân þikkir mèr, at nökkut sinn finna ek hann, en kveðja mín mun honum lítilsverð þikkja; síðan tók hann silfrdiskinn, ok strauk hann vandliga með dúkinum, ok mælti: fær þú konúngi disk þenna, ok seg honum, at þetta er kveðja mín, ok bið hann hafa lítillæti til at taka með, ok fur hans sakir hefi ek veitt ykkr þenna forbeina ok liðsinni. Síðan bjöggust hvârirtveggju til ferðar, ok skildu þar við svâ búit, fór Þóroddr þá leið sína ok þeir förunautar, fór sá með þeim, er undan hafði komizt af þeim kaupmönnum; fór Þóroddr, til þess er hann fann Ólaf konúng í Kaupángi, ok segir konúngi af ferðum sínum allt sem farit hafði, sagði at Arnljótr heilsaði honum, ok færði honum silfrdiskinn. Konúngr segir, at þat var illa, er Arnljótr hafði eigi þá þegar farit á hans fund með þeim Þóroddi: ok er þat mikill skaði, segir konúngr, er svâ íllt skal leggjast fyrir vaskan ok góðan dreng, ok svâ merkiligan mann sem hann er. Þóroddr var nu[2] síðan með Ólafi konúngi þat

[1]) *Hèr byrjar Æ aptr.* [2]) *Hèr skiptir rithöndum í A.*

sem eptir var vetrar, ok fèkk þá leyfi af honum at fara til Íslands um sumarit eptir, ok skildu þá með vináttu.

138. Ólafr konungr bjóst um vârit or Niðarósi, ok dróst lið at honum mikit, bæði þar or Þrándheimi ok svâ norðan or landi; en er hann var búinn, fór hann með liði því suðr á Mæri, ok heimti þar saman leiðángrslið, ok svâ or Raumsdal. Síðan fór hann á Sund-Mæri, hann lá í Hereyjum, ok beið svâ liðs síns, átti þá optliga húsþíng, kom þá margt til eyrna honum, þat er honum þótti ráða við þurfa. Þat var á einu þíngi, er hann átti, at hann hafði þat mál uppi, at hann sagði frá mannskaða þeim, er hann hafði menn sína látit í Færeyjum: en skattr sá, er þeir höfðu mèr heitit, kemr eigi, segir hann; nú ætla ek enn þángat menn at senda eptir skattinum. Víkr konúngr þessu máli nökkut til ýmissra manna, at til þeirrar ferðar skyldi ráðast; en þar kvâmu þau svör á móti, at menn töldust undan ferðinni. Þá stóð upp maðr á þínginu, mikill ok fríðr sýnum, sá hafði rauðan kyrtil ok hjálm á höfði, ok gyrðr sverði ok höggspjót í hendi; hann tók til máls: Þat er satt at segja, segir hann, at hèr er mikill manna munr, þèr eigið konúng góðan, en hann þegna illa, er nei kveða við sendiferð hans, er hann biðr yðr, en hafið áðr þegit at honum vingjafir, ok marga aðra sæmliga hluti; en ek hefi verit hèrtil engi vinr konúngs þessa, hefir

hann ok verit úvin minn, ok segir hann at sakir sè til þess. Nú vil ek bjóða yðr, konúngr! at fara ferð þessa, ef eigi eru vildri faung á. Konúngr mælti: hverr er maðr þessi hinn drengiligi, er svarar máli mínu? gjörir þú mikinn mun öðrum mönnum þeim, er hèr eru, er þú býðst til þessarar ferðar, en þeir töldust undan, er ek hugða at vel mundu viðskipast; en ek veit á þèr engi deili, ok eigi veit ek nafn þitt. Hann svarar: nafn mitt er ekki vant, en þat væntir ek, at þèr hafið mik heyrt nefndan, ek er kallaðr Karli hinn mærski. Konúngr mælti: svâ er víst, Karli! at ek hefi þín heyrt getit, ok er þat satt at segja, at verit hafa þær stundir, ef fundi okkra hefði saman borit, at þú mundir [sagt hafa[1] frá tíðindum; en nú vil ek eigi verr hafa enn þú, er þú býðr mèr liðsemd þína, vil ek þar leggja í mót þökk ok öfúsu; skaltu, Karli! koma til mín, ok vera í boði mínu í dag, skulu vèr þá tala þetta mál. Karli segir at svâ skal vera.

139. Karli inn mærski [hafði verit víkíngr ok inn mesti ránsmaðr, ok hafði konúngr mjök opt gert menn til hans, ok vildi hann af lífi taka, en þess varð eigi auðit. Karli var maðr ættstór ok mikill athafnamaðr, íþróttamaðr hinn mesti, ok atgervimaðr um marga hluti. En er Karl var ráðinn til ferðar þessar, þá tók konúngr hann í sætt við sik, ok gaf honum upp reiði sína,

[1]) ekki kunna at segja, *hin.*

ok þvínæst tók konúngr hann í hinn mesta[1] kærleika við sik, ok lèt búa ferð hans sem bezt, voru þeir á skipi nær 20 menn. Hann gjörði orð til vina sinna í Færeyjar, ok sendi Karla til halds ok traustz, þar er var Leifr Össurarson ok Gilli lögsögumaðr, sendi til þess jartegnir sínar; fór Karli þegar er hann var búinn, byrjaði þeim vel, kvâmu til Færeyju, ok lágu í Þórshöfn[2] í Straumeyju; síðan var þar þíng stefnt, ok kom þar fjölmenni mikit; þar kom Þrándr or Götu með mikinn flokk; þar kom Leifr ok Gilli með mikla sveit manna; en er þeir höfðu tjaldat ok umbúizt, þá gengu menn til fundar við Karla mærska, voru þar kveðjur góðar; síðan bar Karli fram orð ok jartegnir Ólafs konúngs ok vinmæli til þeirra Leifs ok Gilla; (þeir tóku því vel, ok buðu Karla til sín ok at flytja eyrindi hans, ok veita honum slíkt traust, sem þeir höfðu faung á). Hann tók því þakksamliga. (Litlu siðar kom þar Þrándr or Götu, ok fagnar vel Karli: em ek, segir hann, feginn, er slíkr drengr hefir oss heimsótt ok farit híngat til lands[3] vârs, ok er oss í slíku mikil sæmd ger), með eyrindi konúngs vârs, er vèr erum allir skyldir (til at stunda; vil ek ekki annat, Karl! enn þú) farir til mín til vetrvistar, ok þat allt

[1]) *þat sem hèr stendr frá [ er tekið úr B, því það er máð í A, og allt það, sem í þessum kapítula stendr innan þessa () strika, er af sömu orsök tekið úr B.* [2]) *þannig hin;* þurshöfn, *A.* [3]) *hèr sleppr E um sinn.*

með þèr þíns liðs, er þá er þinn vegr meiri enn áðr[1]. Karl segir, at hann var ráðinn áðr at fara til Leifs, ella munda ek, segir hann, fúsliga þiggja þetta boð; þá mun Leifi enn verða auðit vegsmuna af þessu; en eru nökkurir þeir hlutir aðrir, er ek mega svâ gera, at yðr sè liðsemd at? segir Þrándr. Karl segir, at honum þótti mikit í veitt, at Þrándr dragi saman skattinn um Austrey, ok svâ um allar Norðreyjar. Þrándr segir, at þat var skyldt ok heimilt at hann gjörði þann greiða fyrir konúngs orð, sem hann mátti. Gekk Þrándr þá aptr til búðar sinnar; varð á því þíngi ekki fleira til tíðinda; fór Karli til vistar með Leifi Össurarsyni, ok var með honum um vetrinn; heimti Leifr saman skatt um Straumey[2] ok um allar eyjar suðr þaðan. Um vârit eptir fèkk Þrándr vanheilsu mikla, tók augnaverk strángan, ok þó aðrar kramar miklar; en þó bjóst hann at fara til þíngs, sem hann var vanr; en er hann kom á þíngit, þá var búð hans tjölduð með svörtum tjöldum innan, til þess at þá væri síðr skírdræpt[3]; en er liðnir voru nökkurir dagar af þínginu, þá gengu þeir Leifr ok Karli til búðar Þrándar, ok voru fjölmennir, þeir kvomu

---

1) þvíat ek kalla þat hina mestu virðíng, at slíkr maðr þiggi heimboð at mín, sem þú ert; nú kann ek alla þökk, at þú þiggir heimboð mitt, ok drepir eigi hendi við, muntu þat ok áfinna, at mèr þikkir þetta allmiklu máli skipta *b. v. B, C, F, K, S.* 2) *þannig hin; sèst ekki meira enn* Straum í *A.* 3) skíðdræpt, *B, C, H.*

at búðinni, þá voru þar úti nökkurir menn. Leifr spurði, hvert Þrándr væri í búð; þeir kváðu hann þar vera. Leifr mælti, at þeir bæði Þránd útgánga: eigu við Karli eyrindi við hann. En er þeir kvâmu aptr, sögðu þeir Þrándr þann augnaverk hafa, at hann mátti eigi útkoma, ok bað hann at Leifr skyldi inngánga. Leifr mælti við förunauta sína, at þeir skyldi fara varliga, er þeir kvæmi í búðina, ok þraungvast eigi, ok gángi sá fyrstr út, er síðast gengr inn. Leifr gekk fyrstr ok þeir Karli ok hans förunautar, ok fóru með alvæpni, sem þá er þeir skyldu til bardaga búast. Leifr gekk at hinum svörtum tjöldum, ok spurði þá, hvar Þrándr væri; hann svarar ok heilsar Leifi; Leifr tók vel kveðju hans, ok spurði, hvârt hann hefði nökkurn skatt samanheimt af Austreyjum[1], eðr hverr greiði á mundi verða um silfrit. Þrándr segir, at honum hefir þat eigi or hug horfit, er við Karli töluðum, ok segir, at greiði mundi á verða um silfrit: ok er hèr, Leifr! sjóðr, er þú skalt viðtaka, ok er fullt af silfri. Leifr sást um, ok sá at fátt var manna í búðinni, ok lágu menn í pöllum, en fáir sátu upp. Síðan gekk Leifr til Þrándar, ok tók við sjóðinum, ok bar utar í búðina, þar er ljóst var, ok steypti silfrinu ofan á skjöld sinn, rótaði með hendinni, ok mælti, at Karli skyldi sjá silfrit. Þeir litu á silfrit, þá spurr Karli: hversu lízt þèr silfrit,

[1]) Norðreyjum, *B, C, F, H, L.*

Leifr? Hann svarar: Þat hygg ek, at hverr peníngr át illr er í Norðreyjum, at sá sè hèr kominn. Þrándr heyrði þetta, ok mælti: lízt þèr eigi silfrit, Leifr? Svâ er, segir hann. Þrándr mælti: eigi eru þeir þó meðal níðíngar, frændr mínir, er þeim má til engis trúa; ek hefi sent þá í vâr, at heimta saman skatt norðan or eyjum, þvíat ek var til engis færr, en þeir hafa tekit mútur af bóndum at taka slíkt fals, er eigi er tækt; nú er þat vænst, Leifr! at sjá þat silfr, er goldizt hefir í landskyldir mínar; bar Leifr þá aptr silfrit, en tók við sjóð öðrum, ok bar þann til Karla; þeir ransökuðu þat fè. Síðan spurr Karli, hversu Leifi lítist á þat fè? fè þetta er vânt, segir hann, en eigi örvænti ek, segir hann, um þær skuldir, at úvant er fyrir mælt, at eigi sè slíkt þá tekit; en eigi vil ek slíkt fè taka til handa Ólafi konúngi. Maðr einn kastaði klæði af höfði sèr, er lá í pallinum, ok mælti: satt er þat hit fornkveðna, at svâ ergist hverr, sem hann eldist; svâ er þèr ok, Þrándr! er þú lætr Karla hinn mærska reka fè fyrir þèr í allan dag; þar var Gautr rauði. Þrándr hljóp upp við orð hans, ok var málóði, ok veitti þeim stórar átölur frændum sínum; en at lyktum mælti Þrándr, at Leifr skyldi selja honum þat silfr: en taka hèr viðr sjóði, er landsetar mínir hafa goldit mèr, ok fært mèr heim í vâr, ok þótt ek sè óskygn, þá er hverjum sjálfs hönd hollust. Maðr reis upp við olboga í pallinum, þar var

Þórðr lági, ok mælti: eigi hljótum vèr meðal orðaskak[1] af honum Mæra-Karli, ok væri hann launa fyrir verðr. Leifr tók enn við fènu, ok bar fyrir Karl, sá þeir þat fè; þá mælti Leifr: eigi þarf lengr at líta á þetta fè, er hèr hverr peníngr öðrum betri, ok viljum vèr þetta fè hafa: ok fá þú til, Þrándr! mann at sjá, at vegit er fèit. Þrándr segir, at honum þótti þá bezt til fengit, at Leifr sæi reizlur fyrir hans hönd. Gengr Leifr þá út ok skamt frá búðinni, settust niðr ok vágu þá silfrit. Karli tók hjálminn af höfði sèr, ok steypti þar í silfrinu, er vegit var; þeir sá mann gánga hjá sèr, ok hafði refði í hendi, ok hatt[2] síðan á höfði, ok heklu græna, berfættr ok knýtt línbrók at beini; hann setti niðr refðit í völlinn, ok gekk frá, ok mælti: sè þú við refði mínu, Mæra-Karl! at þèr verði eigi mein at. Litlu síðar kom þar maðr hlaupandi, ok kallandi á Leif Össurarson, ok bað hann fara sem skjótast til búðar Gilla lögmanns: maðr hljóp inn um tjaldskör Sigurðar Þorláks-sonar, ok hefir særðan búðarmann hans til ólífis. Leifr hljóp þegar í brott, ok til fundar viðr Gilla, gekk með honum allt búðarlið hans, en Karli sat eptir, þvíat Austmenn stóðu mjök um hann. Gautr rauði hljóp at, ok hjó yfir herðar mönnum með handöxi; kom höggit í höfuð Karli, ok var þat sár ekki mikit; Þórðr lági greip upp refðit, er stóð í vellinum, ok laust ofaná

[1]) orðaskark, *C.* [2]) *Hèr byrjar aptr E.*

öxarhamarinn, svâ at öxin stóð í heila; þusti þá fjöldi manna út or búð Þrándar. Karli var þá þaðan dauðr borinn. Þrándr lèt illa yfir þessu verki, en bauð fè til sætta fyrir frændr sína. Leifr ok Gilli gengu at eptirmáli, ok kom þar eigi fèbótum fyrir, varð Sigurðr útlægr fyrir áverka þann, er hann veitti búðarmanni Gilla, en Þórðr ok Gautr fyrir víg Karla mærska. Austmenn bjuggu skip sitt, þat er Karli hafði þángat haft, ok fara austr á fund Ólafs konúngs; líkaði honum stórilla þetta verk, en þess varð eigi auðit fyrir þeim ófriði, er gjörðist í Noregi, at hefnt yrði þessa; enn munu vèr hèr frá segja síðan, ok er nökkut[1] at segja fra þeim tíðindum, er Ólafr konúngr heimti skatt af Færeyjum; en þá gjörðust deilur miklar í Færeyjum síðan eptir víg Karls mærska, ok áttust þeir við, Þrándr í Götu ok Leifr Össurarson, ok eru þar frásögur miklar.

140. Nú er frá því at segja, sem fyrr var frá horfit, at Ólafr konúngr fór með liði sínu, ok hafði leiðángr úti fyrir landi, fylgðu honum þá allir lendir menn norðan or landi, nema Einar þambaskelfir, hann hafði um kyrt setit at búum sínum, síðan er hann kom í land, ok þjónaði ekki konúngi; átti Einar stórmiklar eignir, ok hèlt sik stórmannliga; hann hafði aungvar konúngs veizlur. Ólafr konúngr hèlt liði sínu suðr um Stað, dróst lið enn til hans víða or hèröðum; þá hafði Ólafr konúngr skip þat, er hann

1) Iokit, *B, C, D, E, H, L.*

hafði gjöra látit áðr um vetrinn, er Vísundr var kallaðr, ok allra skipa mest; var á framstafninum vísundarhöfuð gullbúit; þess getr Sighvatr:

Lýngs var[1] fiskr[2] til fengjar
flugstyggs sonar Tryggva
gelnar[3] gulli mölnu,
guð vildi svâ mildi[4];
annann lèt á unnir[5]
Ólafr, búinn hala,
lögr þó[6] drjúgt, hinn digri,
dýrs horn, Vísund sporna[7].

Fór konúngr þá suðr á Hörðaland; hann spurði þá tíðindi, at Erlíngr Skjálgsson var or landi farinn, ok hafði haft lið mikit, fjögur skip eða 5, hann hafði sjálfr skeið sína hina miklu, en synir hans[8] tvítugsessur, ok hafði hann siglt vestr til Englands á fund Knúts konúngs ríka; fór þá Ólafr konúngr austr með landi, ok hafði allmikit lið, hann hèlt frèttum til, ef menn vissi nökkut til Knúts ríka; en þat kunnu allir at segja, at hann var á Englandi, þat var ok sagt með, at hann hafði leiðángr úti, ok ætlaði til Noregs, en fyrir þá sök at Ólafr konúngr hafði lið mikit, en hann fèkk eigi hitt sannspurt, hvert hann skyldi stefna til móts við Knút konúng, en mönnum þótti sèr illa gegna dvöl í einum stað með her svâ

1) bar, *hin.* 2) fystr, *C*; frekr, F. 3) gjolnar, *B*, *D*. *E*. 4) roðnar, *B*, *C*, *D*, *E*. 5) unnar, *B*, *D*, *S*. 6) þau, *C*. 7) vís, *v. í H.* 8) þrjár, *b. v. B*, *D*, *E*, *F*, *H*, *K*, *S*; 2, *C*, *L*.

mikinn, þá ræðr konúngr þat af, at sigla með herinn suðr til Danmerkr, ok hafði hann þat lið allt með sèr, er bezt var búit, en gaf hinum heimfarar leyfi, svâ sem kveðit er:

Ólafr knýr und árum
orðsnjallr[1] Vísund norðan,
brýtr annar gramr úti
unnheim dreka sunnan[2].

Nú fór þat lið heim, er honum þótti minni fylgð[3] í; hafði Ólafr konúngr mikit lið ok frítt, voru þar flestir lendir menn or Noregi, nema þeir, sem áðr var sagt, ok or landi voru farnir, eðr eptir höfðu setit heima.

141. Nú siglir Ólafr konúngr til Danmerkr, ok hèlt til Sjólands, en er hann kom þar, tók hann at herja, ok veitti uppgaungur, ok var landsfólkit rænt, en sumt var drepit, sumt var handtekit ok bundit, ok flutt svâ til skipa, en allt flýði, þat er því kom við, ok varð engi mótstaða; gjörði Ólafr konúngr þar hit mesta hervirki. En er Ólafr konúngr var á Sjólandi, þá spurði hann þau tíðindi, at Önundr konúngr hafði her úti, ok fór með þann her austan fyrir Skáney, ok herjaði hann þar, var þá breytt[4] um ráðagjörð þá, er Olafr konúngr ok Önundr konúngr höfðu haft í Elfi, er þeir gjörðu samband sitt[5], at (þeir) skyldu báðir vera mótstöðumenn Knúts konúngs; fór Önundr konúngr til

1) orðsæll, *A.* 2) *vís. v. í H.* 3) veig, *C.* 4) bert, *hin.*
5) *Hèr sleppr E um sinn.*

þess er hann fann Ólaf konúng, mág sinn; en er þeir hittust, þá gera þeir bert bæði fyrir sínu liði ok landsfólkinu, at þeir ætla undir sik at leggja Danmörk, ok beiða sèr viðtöku af landsmönnum, en þat var, sem víða finnast dæmi til, at þar landsfólk verðr fyrir hernaði, ok fá eigi styrk til mótstöðu, þá játa flestir þeim álögum, er sèr kaupa friðinn með; var þá svâ, at margir gengu til handa þeim konúngunum, ok játuðu þeim lyðskyldu, lögðu þeir víða undir sik landit, þar sem þeir fara, en herjaðu at öðrum kosti. Þessa hernaðar getr Sighvatr skáld í drápu þeirri, er hann orti um Knút konúng:

Knútr var und himnum
hugg ek [æztr at-fæstr[1]
[harraláðs ok hèt
full[2] vel duga;
lèt hýrlátr[3]
suðr or Nið
Ólafr jöfurr
at-sæll[4] fara.
 Þorðu[5] norðan
namst þat með gram
til Sles[6] svalir
[Sælunds skilit[7];

---

[1]) hætt (rètt, *C*, *L*; ætt, *D*, *F*.) at frètt, *B*, *C*, *D*, *F*, *S*, *L*. [2]) Haralds í her, hug (hygg, *D*; hugir, *F*, *L*); *B*, C, *D*, *F*, *L*. [3]) lýrgotu lið *B*, *H*; luðrgota lið, *C*; lýð, Gota lið, *D*; lýðr Gauta, lið, *F*, *K*, *L*. [4]) ársæll, *hin*. [5]) þorðut, *F*, *K*, *L*; þurðu, *H*. [6]) Slætz, *D*; Sljetz, *F*, *H*, *L*. [7]) sílundir kilir, *B*. Sílunds (Sælunds, *D*; Selunds, *K*) kilir, *hin*.

en með annann
Önundr[1] Dönum
á hendr [at há[2]
herr sænskan ferr.

142. Knútr ríki hafði spurt vestr til Englands, at Ólafr Noregs konúngr hafði leiðángr úti, ok svå þat at hann fór með liðinu til Danmerkr, ok var þar úfriðr mikill í ríki hans; lèt þá Knútr konúngr liði samna, dróst þá brátt saman her mikill, ok var Hákon jarl annar höfðíngi yfir herinum. Sighvatr skáld kom þat sumar vestan or Rúðu til Englands, ok sá maðr með honum, er Bergr hèt, þeir höfðu þannveg farit kaupferð hit fyrra sumarit. Sighvatr orti flokk þann, er kallaðr eru Vestrfarar vísur, ok er þetta upphaf:

Bergr höfum minnst hve marga[3]
morgun Rúðuborgar[4]
[lèt ek í för í fyrða[5]
fest[6] við arminn vestra.

En er Sighvatr kom til Englands, þá fór hann á fund Knúts konúngs, ok bað sèr orlofs at fara til Noregs; Knútr konúngr hafði sett bann fyrir kaupskip öll, fyrr enn hann hefði búit her sinn. En er Sighvatr kom til konúngs, gekk hann til herbergis hans, ok var þat læst, ok stóð hann

[1]) *Hèr sleppr C um sinn.* [2]) *þannig, B, D, H, S*; fara, *A, K*; honum, *F, L.* [3]) margan, *hin.* [4]) Röðuborgar, *D.* [5]) borð (borgir, *S*); lèt ek í förðu, *B, D*; börð lèt ek í för fyrðu, *F, H, L.* [6]) flest, *F. L.*

lengi úti, en er hann hitti [konúng, þá fèkk hann lof sem hann vildi. Sighvatr kvað:

Utan[1] varð ek, áðr[2] Jóta
annspilli[3] fèkk stillis[4]
meld[5] sá [herr fyrir haldi[6]
húss dyrr [spökum hlýra[7];
enn eyrindi oru
áttúngr[8] í sal knátti
grams[9], ber ek opt[10] á[11] armi
örstúka[12], vel lúka.

Enn er Sighvatr varð þess varr, at Knútr konúngr byrjar ferð sína á hendr Ólafi konúngi, en hann vissi, hversu mikinn styrk Knútr konúngr hafði, þá kvað hann vísu:

Örr tegast Ólaf gjörva
allt hefir sá er fjör[13] valtan,
konúngs dauða mun ek kvíða,
Knútr ok Hákon, úti;
haldist[14] vörðr, þó at valdit[15],
varla [Knúts ok jarli[16],
dælla er fyrst á[17] fjalli
fundr, ef hann sjálfr kemst undan.
Átti jarl at sætta

[1]) nátt, *D.* [2]) þá er, *F*, *K.* [3]) andspillni, *L.* [4]) ek stillir, *B*; stillir, *D*, *F*; ek stillis, *H*, *S.* [5]) millz, *L.* [6]) er herför höldi, *B*; ek her fur höldum, *H*; fèkk herr um haldit, *L.* [7]) fyri spyrjast, *hin.* [8]) áttugr, *D.* [9]) Gorms, *B*, *H*, *K*, *L*, *S.* [10]) orms, *B.* [11]) frá, *L.* [12]) járnstúkur, *hin.* [13]) för, *D*; fiðr, *L.* [14]) Haraldr, *L.* [15]) vildit, *B.* [16]) Knútr ok jarlar, *B*, *K*, *L.* [17]) af, *B.*

allframr bændr gamla,
ok þeir[1] er optar[2] tóku
Ólaf af[3] því máli;
þèr[4] hafa fyrr [af[5] fári,
framt[6] er Eiríks kyn, meira
höfðu[7] keypt[8] enn heiptir
Hákon saman mundi.[9]

143. En er Knútr ríki hafði búit her sinn or landi, hafði hann of liðs ok skip stór; hann sjálfr hafði dreka þann, er sextugr var at rúma tali, voru þar á höfuð gullbúin. Hákon jarl hafði annann dreka, ok var sá fertögr at rúma tali, voru þar ok gylt höfuð á, en segl bæði voru stöfuð með blá ok rauðu ok grænu; öll voru skip þeirra steind fyrir ofan sjá, allr skipa búnaðr var hinn glæsiligsti, mörg önnur skip höfðu þeir stór ok vel búin. Þess getr Sighvatr i Knúts drápu:

Knútr var und himnum,
herr austan ferr,
fríð fylkis nið[10]
fráneygr Dana;
skeið[11] vestan[12] veðr[13]
var [glæst sjá er bar[14]
unz[15] andskota
Aðalráðs þaðan.

---

1) þat, *D.* 2) optast, *hin.* 3) at, *D, F, K, L, S.* 4) þeir, *hin.* 5) einfæri, *L.* 6) framit, *L.* 7) höppum, *B*; höfðum *D, S.* 8) kept, *D.* 9) bundit, *F, K, L*; *báðar vís v. i. H.* 10) niðr, *B, S*; lið, *F. H.* 11) skreið, *hin.* 12) austan, *B.* 13) viðr, *hin.* 14) glæstr sá, *hin.* 15) út, *B, D, L, S*; utan, *F, K.*

Ok báru í byr,
blá segl við rá,
dýr var döglíngs för,
drekar[1] landreka;
en þeir, er kvamu
kilir vestan til,
um leið liðu
Limafjarðar brimi[2].

Svâ er sagt, at Knútr konúngr hèlt her þeim vestan af Englandi; ok kom öllu heilu liðinu til Limafjarðar, var þar fyrir samnaðr mikill landsmanna.

144. Úlfr jarl Sprakaleggsson[3] hafði settr verit til landvarnar í Danmörk, þá er Knútr konúngr fór til Englands, hafði hann selt í hendr Úlfi jarli son sinn, þann er kallaðr var Hörða-Knútr, var þat hit fyrra sumarit, sem fyrr var ritat. En þegar Knútr konúngr var í brottu, segir Úlfr jarl, at Knútr konúngr hefði boðit honum þat eyrindi at skilnaði þeirra, at hann vildi at þeir tæki til konúngs yfir Danaveldi Hörða-Knút, son sinn, fèkk hann oss fyrir þá sök hann í hendr: hefi ek þat ok, segir hann, ok margir aðrir landshöfðíngjar kært optliga fyrir Knúti konúngi, at mönnum þikkir vandi hèr í landi at sitja konúngs lausir, en hinum fyrrum konúngum Dana þótti þat fullræði at hafa konúngdóm yfir Danaveldi einu; en er hin fyrri

[1]) dreka, *B, D, F.* [2]) brim, *hin.* [3]) þorgilsson sprakaleggs, *D.*

æfi var, rèðu margir konúngar þessu ríki, en þó gjörist þat nú meira vandkvæði enn fyrr hefir verit, þvíat vèr höfum[1] náð hèrtil í friði at sitja fyrir útlendum höfðíngjum, en nú spyrjum vèr hitt, at Noregs konúngr ætlar at herja á oss, ok er mönnum þó grunr á, at Svía konúngr muni til ferðar ráðast; er Knútr konúngr enn á Englandi. Síðan bar jarl fram brèf ok innsigli Knúts konúngs, þau er sönnuðu allt þetta, er jarl bar upp; þetta eyrindi studdu ok margir aðrir höfðíngjar, ok af þeirra fortölum allra landsmanna rèð landsfólkit þat af, at taka Hörða-Knút til konúngs, ok var þat gjört á því sama þíngi. En at þessi ráðagjörð var upphafsmaðr Emma drottníng, hafði hún látit gera brèf þessi ok látit innsigla, hafði hún með brögðum náð innsigli konúngs, en hann sjálfr var leyndr þessu öllu. En er þeir Hörða-Knútr ok Úlfr jarl vurðu þess varir, at Ólafr konúngr var kominn norðan or Noregi með her mikinn, þá fóru þeir til Jótlands, þvíat þar er megin mest Danaveldis, skáru þar upp herör, ok stefndu saman her miklum; en er þeir Hörða-Knútr ok Úlfr jarl vurðu þess varir, at Önundr konúngr var þar kominn með her sinn, þá þóttust þeir eigi hafa styrk til at halda til orrostu við þá báða, síðan hèldu þeir samnaðinum á Jótland, ok ætluðu at verja land fyrir konúnginum, en skipaherinn allan drógu þeir saman í Limafirði; síðan gjörðu þeir sendimenn

[1]) *Hèr byrjar E aptr.*

til Emmu drottníngar, ok báðu hana vissa verða, hvârt Knútr konúngr væri þeim reiðr, var hann þá kominn vestan til Limafjarðar. Drottníng ræddi þetta mál fyrir Knúti konúngi. Knútr konúngr svarar: frètt hefi ek, hvat þeir hafa til tekit. Hún segir, at Hörða-Knútr, son þeirra, vill heita öllu því, er Knútr konúngr vildi, þóat hann hefði þat gjört, at konúngi væri í móti skapi. Konúngr svarar, at Hörða-Knútr hefði ekki hans raðum framfarit; hefir þetta svâ til tekizt, sagði hann, sem vân var, (er) hann var barn ok óviti, at hann vildi konúngr heita, þegar vanda nokkurn bar til handa honum, at land þetta mundi herskildi farit, ok leggjast undir útlenda höfðíngja, ef eigi kvæmi vârr styrkr til; nú ef hann vill nökkura sætt gjöra við mik, þá leggi hann niðr hègóma nafn þat, at hann lèt sik konúng kalla. Sendi nú drottníng þessi sömu orð til Hörða-Knúts, ok þat með at hann skyldi þessa ferð eigi undir höfuð leggjast, sagði sem var, at hann mundi eigi styrk til þess fá at standa í mót feðr sínum. En er þessi orðsendíng kom til Hörða-Knúts, þá leitaði hann ráða við jarl ok aðra höfðíngja, þá er með honum voru; en þat fannst brátt, þegar landsfolkit heyrði at Knútr konúngr, var kominn, þá dreif til hans allr landsmúgr ok þótti þar traust sitt allt. Sá jarl þá ok aðrir fèlagar hans tvâ kosti fyrir höndum, annathvârt at fara á fund Knúts konúngs, ok leggja allt á hans vald, eðr stefna or landi á

brott ella, en allir fýstu Hörða-Knút at fara á fund feðr síns, enda gjörði hann ok svâ. En er þeir hittust, fèll hann til fóta konúnginum, ok lagði innsigli í knè honum, þat er konúngs nafn fylgði. Knútr konúngr tók í hönd syni sínum, ok setti hann í þat sæti, sem fyrr hafði hann setit. Úlfr jarl sendi Svein, son sinn, til Knúts konúngs; hann var systurson konúngs, hann bað griða feðr sínum ok sátt af konúngi, ok bauð at setja í gislíng af hendi jarls sjálfan sik; voru þeir jafn gamlir, Sveinn ok Hörða-Knútr. Knútr konúngr sendi þau orð[1] jarli, at hann samnaði her ok skipum, ok færi svâ til fundar við konúng, en síðan ræddi þeir um sættir sínar. Jarl gjörði nú ok svâ.

145. En er Ólafr konúngr ok Önundr konúngr spyrja, at Knútr konúngr er vestan kominn, ok þat með at hann hafði þá her óflýjanda, þá sigldu þeir austr fyrir Skáney, tóku þá at herja ok brenna hèröð, sækja þá austr fyrir til móts við ríki Svía konúngs. En þegar landsfólkit vissi at Knútr konúngr var vestan kominn, þá varð ekki af handgaungu við konúnga. Þessa getr Sighvatr skáld:

Gátut drottnar
Danmörk spanit[2]
undir sik, sökvum[3]
[svâ ok[4] herfarar;

[1]) Svini *vyrðist hèr rángt og ofaukit í A.* [2]) spann, *B.* [3]) sökum, *hin.* [4]) svarir, *D*; snarir, *hin.*

þá hèt[1] skarpla[2]
Skáney Dana
hlöðr[3] herjaða,
höfuð-fremstr jöfurr.

þá sóttu konúngar austr fyrir landit, ok lágu þar, er heitir áin helga, ok dvöldust þar um hríð, þeir spurðu at Knútr konúngr fór með her sinn austr eptir þeim, ok bera þeir ráð sín saman, ok tóku þeir þat til ráðs, at Ólafr konúngr fór með sumu liðinu, gekk á land upp ok allt á markir til vatns þess, er áin helga fèll or, ok gjörðu þar í árósinum stíflu með torfi ok viðum, ok stemdi svâ uppi vatnit, ok svâ skáru þeir stór díki, ok hleyptu saman fleirum vötnum, ok gjörðust þar víðir flóar, enn í árveginn hjöggu þeir stór viðu; þeir voru í þessu starfi marga daga, ok hafði Ólafr konúngr tilstilli um alla þessa ráðagjörð, en Önundr konúngr hafði ráðagjörð fyrir skipa herinum. Knútr konúngr spurði til ferða þeirra mága, ok svâ skaða þann allan er þeir höfðu gjört í ríki hans, hèlt hann þá til móts við þá, þar er þeir lágu í áinni helgu, ok hafði hann meirr enn hálfu meira lið enn þeir; þess getr Sighvatr skáld:

Lèzt at[4] jöfurr
ættmanna fannst[5]
Jótlands etast
ílendr af því;

1) lèt, *hin*. 2) skarðla, *B*; snarpla, *E*, *F*, *L*; skjóta, *H*. 3) höldr, *D*, *F*. 4) lèttist, *B*; lètat, *D*, *E*. 5) fannz, *öll*.

vildi[1] foldar
fæst[2] rán[3] Dana
hlífskjöldr[4] hafa,
höfuð-fremstr jöfurr.

146. Þat var einn dag at kveldi, at njósnarmenn Önundar konúngs sá siglíng Knúts konúngs, ok átti hann þaðan eigi lángt, þá lèt Önundr konúngr blása herblástr, ráku menn tjöld af sèr ok herklæddust, ok reyru út or höfninni ok austr fyrir landit, lögðu þá saman skip sín ok tengðu, ok bjöggust til bardaga. Önundr konúngr hleypti njósnarmönnum á land upp, fóru þeir á fund Ólafs konúngs, ok sögðu honum þessi tíðindi; þá lèt Ólafr konúngr brjóta stífluna, ok hleypa áinni í farveginn, en hann fór um nóttina ofan til skipa sinna; en er Knútr konúngr kom fyrir höfnina, þá sá hann, hvar lá herr þeirra konúnganna búinn til bardaga, þótti honum sem þá mundi vera síð dags at leggja til bardaga um þat at lið hans væri allt búit, þvíat flokkr[5] hans þurfti rúm mikit á sjánum til at sigla, ok var lángt ímillum hins fyrsta ok hins síðasta, svâ ok þess er nærst fór landi ok hins er first fór; veðr var lítit. Knútr konúngr sá at Svíar ok Norðmenn höfðu rudda höfnina, þá lagði hann inn til hafnar svâ öll skip sem rúm hafði, en þá lá meginherinn út á hafit. Um morguninn er mjök var ljóst, þá

---

1) valdr, *E*; valdi, *F*. 2) flest, *E*, *F*; föst, *L*. 3) rann, *E*, *L*. 4) hlífskjöld, *E*, *F*, *H*. 5) floti, *hin*.

var lið þeirra margt á landi uppi, en sumt á tali, en sumt at skemtan sinni, þá finna þeir eigi fyrr enn þar geysast at þeim vötn með fossfalli, þar fylgðu viðir stórir, ok rak at skipum þeirra, ok meiddúst skipin þarfyrir, en vötn flutu um alla völlu, týndist fólk allt, þat er á landi var, ok margt þat er á skipum var, en allt lið þat er því kom við, hjöggu festar sínar ok leystust út, ok rak skipin mjök sundrlaus; drekann mikla, er Knútr[1] konúngr var á, rak út fyrir strauminum, varð honum ekki auðsnúit með árum, rak hann út[2] at flota þeirra Önundar konúngs[3], ok er þeir kendu skipit, lögðu þeir at umhverfis, en fyrir þá sök at skipit var svâ mikit sem borg væri, en fjöldi manna á, ok valit hit bezta lið á, þá varð skipit ekki auðsótt, var ok stundin[4] eigi laung; ok er Ulfr jarl lagði at með sitt lið, var þar hörð orrosta; þvínæst dróst herr Knúts konúngs at öllu megin, sá þeir Ólafr konúngr ok Önundr konúngr, mágr hans, at þeir mundu hafa unnit at sinni þann sigr, sem þeim varð auðit, lètu þeir þá síga skip sín á hömlu ok lètu ok leystust í brott or herr Knúts konúngs; en fyrir þá sök at atlaga þessi hafði ekki svâ tekizt, sem Knútr konúngr hafði tilskipat, þá varð ekki af atróðrinum, ok kannaði Knútr konúngr þá lið sitt, ok tóku menn at binda sár sín ok skipa liðinu, ok bjöggust um;

---

1) *þannig, B, F, H*; Olafr, *rángt í A*; *v. í. D. E.* 2) *v. í. E, D, L*; inn, *hin.* 3) *Hèr byrjar aptr C.* 4) *þannig hin*; skuðin, *A.*

en er þeir höfðu skilit, ok sèr fór hvorr flokkrinn, þá könnuðu konúngar lið sitt, ok fundu þat at þeir höfðu ekki mannspèll fengit; þat sá þeir, ef þeir biði þess at Knútr konúngr hefði búit her sinn, þann er hann hafði, ok legði síðan at þeim, at liðsmunr var svâ mikill, at lítil vân var at þeir mundu sigr fá, en auðvitat ef orrosta tækist, at þar mundi verða hit mesta mannfall; nú var þat ráðs tekit, at róa liðinu öllu austr með landi; en er þeir sá, at floti Knúts konúngs fór ekki eptir þeim, þá reistu þeir viðu[1], ok settu upp segl sín. Óttar svarti orti um fund þenna í drápu þeirri, er hann orti um Knút konúng ríka:

Svíum[2] hnektir þú sökkva[3]
siklíngr örr hinn[4] mikla,
ýlgr[5] þar er áin helga
Úlfs beitu fèkk heitit[6];
hèltu þat[7] er hrafn[8] [nè svelta[9]
hvatráðr ertu láði
ógnarstafs[10] fyrir jöfrum
ýgr[11] tveimr við kyn beima.

[Þórðr svarta-skáld[12] orti [erfidrápu um Ólaf konúng hinn helga[13], ok [er kölluð Roðudrápa[14], þar er getit þessa fundar:

[1]) viðor, *C*, *E*. [2]) Snörum, *D*. [3]) sókna, *F*. [4]) en, *C*, *E*, *L*. [5]) úlfr, *D*, *E*. [6]) heiti, *B*, *H*; heitir, *F*, *D*, *E*, *L*. [7]) þar, *B*, *C*, *D*, *E*, *H*; nè, *L*. [8]) hrafni, *B*, *E*; hrafnar, *C*, *L*. [9]) sveltuð *C*, ; nè sveltað, *D*, *H*. [10]) ógnarstarfs, *B*; ógnarstafr, *C*, *D*, *L*; ógnarstaf, *E*, *F*. [11]) uggr, *E*. [12]) þóroddr skáld Sjáreksson, *B*; þórðr skáld Svartssón, *E*, *F*. [13]) drápu eptir Knút konúng, *B*. [14]) *v. í. B*; sú er kölluð Roðadrápa, C, *D*, *E*, *H*, *L*.

Átti Egða[1] drottinn
Ólafr þrimu stála
viðr ágætan Jóta
öðlíng[2] þann er klauf[3] hrínga;
skaut nær[4] skart[5] á[6] móti
Skánúnga gramr hánum
Sveins varat[7] sonr[8] at reyna
slær[9] þaut Úlfr of hræfi.

147. Ólafr konúngr ok Önundr konúngr sigldu austr fyrir Svía konúngs veldi, ok at kveldi dags lögðu þeir at landi því, er í Barvik heitir, lágu konúngar þar um nóttina, en þat fannst á um Svía, at þeim var títt heim at fara, þvíat mikill hluti Svía hers sigldi um nóttina austr með landi, ok lètti eigi fyrr sinni ferð, enn hverr kom til síns heimilis. En er Önundr konúngr varð þessa varr, ok lýsti, lèt hann blása til húsþíngs, gekk þá allt lið á land, ok var sett þíng. Önundr konúngr tók til máls: svâ er, Ólafr konúngr! sem þèr vitið, at vær höfum í sumar farit allir saman í hernað hèr um Danmörk, höfum vær fengit fè mikit, en ekki af löndum, ek hefir haft í sumar hálft fjórða hundrað skipa, en nú er eigi meirr eptir en hundrað skipa; nú lízt mèr svâ sem vær munum vinna ekki til sæmdar, með eigi meira her enn nú höfum vær, þóat þèr hafið haft 60 skipa, sem

1) Engla, *B.* 2) æðlíng, *C*; öðlíngr *E.* 3) klýfr, *B*, *E*; gaf, *F.* 4) at, *E*, *F.* 5) skarpt, *hin.* 6) at, *B*, *C*, *D*, *F*, *L.* 7) var, *L.* 8) son, *L.* 9) slægr, *F*; slæfr, *L.*

enn hafið þèr. Nú sýnist mèr þat ráðligast at fara aptr í ríki mitt, ok er gott heilum vagni heim at aka, vær höfum aflat í ferð þessi, en látit ekki. Nú vil ek, Ólafr mágr! at þèr farið með oss ok búum allir saman, takið slíkt af mínu ríki, sem þèr fáið yðr vel haldit, ok þat lið sem yðr fylgir, gjörum þá er [vær komum[1] slíkt ráð sem oss líkar, en ef þèr vilið heldr hinn kost, at hafa land vârt til yfirferðar, þá skal þat heimilt, ok vili þèr fara landveg í ríki yðvart norðr í Noreg.

148. Ólafr konúngr þakkaði Önundi konúngi vinsamligt boð, er hann bauð honum: en þó, ef ek skal ráða, segir hann, þá mun annat ráð tekit, ok munum vær halda saman her þeim, sem nú er eptir; hafða ek furst í sumar, er ek fór or landi hálft fjórða hundrað skipa, en áðr ek fór or landi, þá valda ek af her þeim öllum þat lið sem mèr þótti bezt, ok skipaða ek þessi 60 skipa, sem nú hefi ek; en nú lízt mèr svâ um yðvart lið, sem þat munu hafa í bruttu hlaupit sem dáðlausast er, ok verst fylgð var í, en ek sèr hèr alla hirðstjóra yðra ok höfðíngja, ok veit ek at þat lið allt er bezt til vâpns, sem hirðin er, höfum vær enn mikinn her ok skipakost goðan, svâ at vær megum vel liggja úti á skipum í allan vetr, svâ sem herkonúngar hafa fyrri gjört; en Knútr konúngr mun skamma stund liggja í áinni helgu, þvíat þar er engi

[1]) vâr kemr, (vârar) *hin.*

höfn skipafjölda þeim, er hann hefir, mun hann fara allt eptir oss, ok skulu vær fara allt undan, mun oss þá brátt lið samnast; en ef hann snýr aptr þannveg, sem hafnir þær eru, sem hann má liggja flota sínum, þá mun þar margt lið at öngvum mun síðr heimfýst enn hèr; væntir ek at vær höfum svâ umbúit í sumar, at þorpkarlinn[1] viti, hvat hann skal vinna bæði á sjá[2] ok svâ á landi[3], mun herr Knúts konúngs dreifast brátt víðsvegar, ok veit þá eigi, hvorum sigrs verðr auðit; höfum fyrst njósnir, hvert ráð hann tekr upp. Lauk Ólafr konúngr svâ sínu máli, at allir gjörðu góðan róm at hans máli ok var þat ráðs tekit, sem hann vildi vera láta; ok voru þá njósnir gjörvar til hers Knúts konúngs, en þeir lágu þar báðir konúngarnir.

149. Knútr konúngr sá þat, at Noregs konúngr ok Svía konúngr hèldu báðir austr með landi, þá gjörði hann þegar lið á land upp, lèt menn ríða hit efra dag ok nátt, svâ sem konúngar fóru hit ytra, fóru aðrir njósnarmenn aptr, en aðrir á fram; vissi Knútr konúngr á hverjum degi tíðindi af ferð þeirra, voru njósnarmenn í her konúnga; en er hann spurði at mikill hluti liðs þeirra var frá þeim farinn, þá hèlt hann her sínum aptr til Sjólands, ok lagðist í Eyrarsund[4] með her sinn allan, lá sumt liðit við Sjóland, en sumt við Skáni. Knútr konúngr reið

[1]) *þorparinn*, *B.* [2]) Skáni *B.* [3]) Sjálandi, *B.* [4]) Eyrasund, *E.*

upp til Hróaskeldu[1], ok með honum mikil sveit manna, en þar hafði veizlu gjört í móti honum Úlfr jarl, mágr hans, veitti hann allkappsamliga, ok var allkátr; konúngr var allfámáligr ok heldr úfrýnn, jarl orti orða á hann, ok leitaði þeirra málsenda, er hann ætlaði at konúngi mundi bezt líka. Konúngr svarar fá. Þá spurr jarl, ef konúngr vildi leika at skáktafli, hann játtaði því. Úlfr var allra manna skjótorðastr, ok úvæginn bæði í orðum ok öðrum hlutum, ok hinn mesti framkvæmdarmaðr um ríki sitt, ok er saga mikil af honum sögð. Úlfr jarl var maðr ríkastr í allri Danmörk, þegar konúng leið. Systir Úlfs jarls var Gyða, er atti Guðini jarl Úlfjaðsson[2], ok voru synir þeirra: Haraldr Engla konúngr, Tosti jarl, Valþjófr jarl, Möðrukári[3] jarl, Sveinn jarl. Gyða hèt dóttir þeirra, er átti Játvarðr hinn helgi[4] Engla konúngr.

150. En er þeir lèku at taflinu konúngr ok jarl, þá lèk konúngr fíngrbrjót mikinn, þá drap[5] jarl af honum riddara, konúngr bar aptr taflit, ok sagði at hann skyldi annat leika; jarl reiddist, ok skaut niðr taflborðinu, stóð upp ok gekk í brutt; renn þú nú, Úlfr hinn ragi! segir konúngr! Jarl svarar, ok snýr aptr við dyrrin, ok mælti: lengra mundir þú hafa runnit í ánni helgu, ef þú kvæmir því við, kallaðir þú þá eigi

1) Róiskeldu *C*, hinn næsta dag fyrir Michjálsmessu, *b. v. hin.* 2) Ulfnaðrs *B*, *D*, *H*; Ulfnaðs *hin.* 3) Mörukári, *hin.* 4) góði *B*, *C*, *E*, *L.* 5) skækti *B*; skákaði C, *L*; skætti, *E.*

Úlf hinn raga, er ek lagða til at hjálpa þèr, er Svíar börðu yðr sem hunda áðr. Gekk jarl eptir þat íbrott ok til svefns. Litlu síðar gekk konúngr at sofa. En eptir um morguninn, er konúngr klæddist, þá mælti hann við skósveinn sinn: gakk þú, sagði hann, til Úlfs jarls, ok drep hann! Sveinninn gekk, ok var í bruttu um hríð, ok kom aptr; þá mælti konúngr: drapt þú jarl? eigi, herra! þvíat hann var genginn til Lúcíukirkju.

151. Maðr hèt Ívarr hvíti, norrænn at kyni, hann var herbergismaðr Knúts konúngs ok hirðmaðr hans. Konúngr mælti til Ívars: gakk til ok drep Úlf jarl! Ívarr gekk til kirkju ok innarr í kórinn, ok lagði gegnum Úlf jarl, ok fèkk jarl þegar bana. Ívarr gekk aptr þegar til konúngs, ok hafði sverðit brugðit í hendi. Konúngr spurði: drapt þú Jarl? Hann svarar: nú drap ek hann; vel gjörðir þú þá, sagði konúngr. En eptir þat er jarl var drepinn, lètu múnkar læsa kirkjuna; þá var þat sagt konúngi, þá sendi hann menn til múnkanna, bað þá lata upp kirkjuna ok sýngja tíðir. Þeir gjörðu sem konúngr bauð, en er hann kom til kirkjunnar, þá keypti hann jarðir til kirkjunnar, svâ at þat var hèrað mikit, ok hófst sá staðr mjök. Síðan reið konúngr til skipa sinna, ok lá þar lengi um haustit með allmikinn her.

152. Þá er Ólafr konúngr ok Önundr konúngr spurðu, at Knútr konúngr hafði haldit til Eyrarsunds, ok lá þar með her sinn, þá áttu kon-

úngar húsþíng, talaði Ólafr konúngr at þetta hefði farit eptir getu hans, at Knútr konúngr hefði eigi lengi legit í ánni helgu, væntir ek at svâ muni fara fleira eptir getu minni af viðskiptum vorum Knúts, hefir hann nú lítit fjölmenni hjá því, sem hann hafði í sumar, en hann mun þó minna hafa síðarr, þvíat eigi er þeim úleiðara enn oss at liggja úti á skipum í haust síðan, ok mun oss sigrs auðit verða, ef oss skortir eigi tilræði, ok þetta hefir svâ farit í sumar, at vær höfum haft minna lið, en þeir hafa látit fyrir oss bæði fè ok menn. Þá sögðu Svíar at þat væri ekki ráð at bíða þar vetrar, þótt Norðmenn eggjuðu þess; vitu þeir ok ógjörla hver íslög hèr kunna at verða, er frýs haf allt óeskliga[1] á vetrum; viljum vær fara heim ok vera hèr ekki lengr; gjörðu Svíar kurr mikinn ok mælti hverr í orðastáð annars; var þat afráðit, at Önundr konúngr ferr þá íbrutt með allt lið sitt, en Ólafr konúngr var þá eptir.

153. En er Ólafr konúngr lá þar, átti hann opt tal ok raðagjörðir við lið sitt; þat var eina hverja nótt, er þeir áttu vörð at halda af konúngs skipi, Egill Hallsson ok sá mann, er hèt Tófi Valgautsson[2], kynjaðr af Vestra-Gautlandi, ættstór maðr; en er þeir sátu á verðinum, heyrðu þeir grát mikinn ok veinan, þeir sá hvar sat í böndum hernumit fólk, var þat bundit um nætr á landi uppi. Tófi sagði at honum þótti íllt at

[1]) optliga, *hin.* [2]) Valgarðsson, *D, E.*

heyra læti þeirra, ok bað Egil til at þeir skyldu fara til at leysa þetta fólk ok láta brutt hlaupa; þeir gjörðu þetta sama, fóru til ok skáru böndin, ok hleyptu brutt fólki því öllu, ok var þat verk allóvinsælt af liðsmönnum. Konúngr var þá ok svâ reiðr, at hèlt við voða sjálfan, ok síðan er Egill var sjúkr, þá var þat lengi at konúngr vildi ekki koma, at sjá hann, áðr margir menn báðu Egil iðrast þess, at hann hafði svâ gjört, at konúngi mislíkaði. Egill bað þá af sèr reiði, ok veitti konúngr honum þat um síðir. Ólafr konúngr lagði hendr sínar yfir síðu Egils þar er verkrinn lá undir, ok saung bænir sínar, en jafnskjótt tók or verkinn allan, eptir þat batnaði Egli. En Tófi kom sèr síðan í sætt, svâ sem sagt er, at hann skyldi þat tilvinna at koma föður sínum á fund Ólafs konúngs. Valgautr var maðr hundheiðinn, ok fèkk hann kristni af orðum Ólafs konúngs, ok andaðist þegar hann var ný skírðr. Ólafr konúngr á nú tal við lið sitt, þá leitar hann ráða við höfðíngja, hvat þeir skyldu upptaka. En þat kom lítt ásamt, kvað þat annar óráð, er öðrum þótti vænligt, ok velktu þeir þetta ráð mjök lengi fyri sèr. Njósnarmenn Knúts konúngs voru í her þeirra jafnan, ok kvâmu sèr í tal við marga menn, ok höfðu þeir fram fèboð ok vináttumál af hendi Knúts konúngs, en þar lètu margir eptirleiðast, ok seldu þar til trúnað sinn, at þeir skyldu gjörast menn Knúts

konúngs, ok halda honum til handa landi, ef hann kemr til Noregs; gjörðust margir at þessu berir, þóat þá færi leynt fyrst; sumir tóku þá þegar við fègjöfum, en sumum var heitit síðar, en hinir voru allmargir er áðr höfðu þegit at honum vingjafir stórar; fyrir því at þat var satt at segja frá Knúti konúngi, at hverr er á hans fund kom þeirra manna, er honum þótti nokkut mannsmót at, ok vildu hann þýðast, þá fèkk hverr af honum fullar hendr fjár, varð hann af því stórliga vinsæll, ok var mest um örleika hans viðr útlenda menn, ok við þá mest er lengst voru atkomnir.

154. Ólafr konúngr átti opt stefnur[1] við sína menn ok spurði at ráðagjörðum, en (er) hann fann, at sitt lagði hverr til, þá grunaði hann at þeir mundi sumir vera, at annat mundi tilleggja, enn þat er ráðligast þætti, ok guldu þá margir honum eigi rèttliga skuld um trúleika; þess eggjuðu margir, at þeir skyldu taka byr ok sigla til Eyrarsunds, ok svâ í Noreg, sögðu Dani eigi þora at þeim at leggja, þótt þeir lægi fyrir með mikit lið, en Ólafr konúngr var svâ vitr maðr, at hann sá þat at slíkt var ófæra, vissi þat at annann veg hafði gefizt Ólafi konúngi Tryggvasyni, þá er hann lagði fálíða til orrustu við Dani, at þeir þyrði þá eigi at berjast; vissi konúngr ok þat, at í herr Knúts konúngs var fjöldi Norðmanna, grunaði konúng þá, at

[1]) *Hèr byrjar I apir.*

þeir mundi Knúti konúngi hollari enn honum, er slíkt mæla; veitti Ólafr konúngr þá oss[1] orskurð, ok sagði svâ, at þeir menn skyldu búast, er honum vildu fylgja ok fara landveg um Gautland ok svâ til Noregs: en skip vâr, ok annann þúnga þann, er vær megum eigi með oss flytja, vil ek senda austr í Svíaveldi, ok láta þar varðveita oss til handa.

155. Hárekr or Þjóttu svarar máli konúngs: þat er auðsèð, segir hann, at ek má eigi á fæti fara í Noreg, er ek nú maðr gamall ok lítt færr ok vanr lítt gaungum, ætla ek mik ok munu trauðan at skilja við skip mitt, ok hefi ek lagt mikla stund á skip þetta ok á búnað þess, ok mun mèr leitt at leifa úvinum mínum skipit. Konúngr svarar: far þú með oss, Hárekr! vær skulum bera þik með oss, ef þú mátt eigi gánga; þá kvað Hárekr vísu:

Ráðit hefik at ríða
rinleiks hèðan mínum
láðs dynmari leiðar
laungum heldr enn gánga;
þótt leggfjötrs[2] liggi
lundr í Eyrarsundi[3],
kann þjóð keski minni,
Knútr herskipum úti.

Þá lèt Ólafr konúngr búa ferð sína, höfðu menn ígángs klæði sín ok vâpn, en þat er fèkkst af

---

[1]) *v. í hin.* [2]) leggfjöturr *D, E*; lögfjötrs, *L.* [3]) Eyrar sundum, *C, E.*

reiði skjótum var klyfjat af klæðum ok lausafè, en hann sendi menn, ok lèt flytja skipin austr[1] í Kalmarmar[2], settu þeir þar upp skip sín, ok fluttu reiða ok annann varníng til varðveizlu. Hárekr gjörði sem hann hafði sagt, at hann beið byrjar, ok sigldi vestr fyrir Skáney, til þess er hann kom austan at Hólunum[3] ok var þat aptan dags, en byr var at blásandi, ok lèt hann ofan leggja seglin ok svâ viðu, lèt taka ofan veðrvita, en sveipa skipit allt fyrir ofan sjá með grám tjöldum, ok lèt róa í nokkurum rúmum aptr ok fram, hann lèt flesta menn sitja lágt í skipi; nú sá varðmenn Knúts konúngs, ok ræddu um með sèr, hvat skip at þat mundi vera, ok gátu, at flutt mundi vera salt eðr síld, er þeir sá fá menn, en lítt róit, en skip sýndist þeim grátt ok bráðlaust, ok mundi skinit af sólu; þat sá þeir at skipit var hlaðit mjök; en er Hárekr kom fram í sundit um herinn, þá lèt hann reisa viðuna ok draga upp seglit hvítt sem dript[4], ok stafat blá með vendi; þá ræddu menn Knúts konúngs um siglíngina, ok sögðu meiri vân at þar sigldi Ólafr konúngr, en Knútr konúngr segir svâ, at Ólafr konúngr er svâ vitr maðr, at hann hefði eigi farit einskipa í gegnum her Knúts konúngs, ok þat líkara at þat muni vera Hárekr or Þjóttu eðr hans maki, ok því hafi menn frá-

---

1) *Hèr sleppr C.* 2) Karlmarnir *B, E, F;* Kalmarver, *D;* Kalmara *H;* Kalmarn *I;* Kalmanar *L.* 3) Hólundum *B;* Hælunum *D;* Hólmunum *E;* Hálshólunum *H, J, S.* 4) drif, *E I.*

sagt, at Knútr konúngr hafi vitat um ferð Háreks, ok hann mundi eigi farit hafa ella, ef eigi hefði vináttumál farit í millum áðr, ok þótti þat birtast síðan, þá er vinátta tókst með þeim Knúti konúngi ok Háreki. Hárekr orti vísu þessa, er hann sigldi norðr um Veðrey:

Lakkat[1] ek Lundar[2] ekkju[3]
læ baugs at því hlæja,
skjótum eik fur utan
ey, nè danskar meyjar;
jörð! at ek ei þyrða,
ífla flaustr[4] á hausti,
á flat-slóðar Fróða
fara aptr vali krapta.

Fór Hárekr þá ferða sinna, ok lètti eigi fyrr enn hann kom norðr á Hálogaland ok heim til búss síns í Þjóttu.

156. Ólafr konúngr fór fyrst um Smálönd, ok kom fram í Vestra-Gautlandi, ok fór spakliga ok friðsamliga, en landsmenn veittu honum góðan forbeina; fór konúngr til þess er hann kom ofaní Víkina, ok svâ norðr eptir Víkinni[5], til þess er hann kom í Sarpsborg, dvaldist hann þar ok lèt búa til vetrsetu; gaf konúngr þá heimfarar-leyfi mestum hluta liðsins, en hann hafði með sèr af lendum mönnum þat sem honum sýndist; þar voru þá með honum þeir allir Árnasynir, þeir voru mest virðir

1) lètkat, *B*, *I*; lekkat, *D*, *J*, *S*. 2) lindar *L*. 3) ekkjur, *hin*.
4) flaust, *E*, *J*, *K*, *L*. 5) *Hèr sleppr A aptr.*

af konúngi; þá kom til Ólafs konúngs Gellir Þorkelsson, ok hafði komit áðr um sumarit af Íslandi, sem áðr var ritat.

157. Sighvatr skáld var lengi með Ólafi konúngi, sem hèr er ritat, ok hafði konúngr gjört hann stallara sinn. Sighvatr var ekki hagmæltr[1] maðr í sundrlausum orðum, en skáldskapr var honum svâ tiltækr, svâ honum mælti af túngu fram (sem) annat mál, hann hafði verit (í kaupferðum) til Vallands, ok í þeirri ferð kom hann til Englands, ok hitti Knút konúng, ok þá af honum leyfi at fara til Noregs, sem fyrr var sagt; en er hann kom í Noreg, fór hann þegar á fund Ólafs konúngs, gekk hann fyrir konúng, er hann sat yfir borðum; hann kvaddi konúng; Ólafr konúngr leit við honum ok þagði. Sighvatr kvað vísu:

Heim erum híngat komnir,
hygg at, jöfurr skatna!
menn nemi mál sem ek inni
mín, [stallari, þínu[2];
seg þú, hvar sess hafið hugðan
seim[3], þjóð konúngr! beimum[4]
allr er [þekkr með[5] þollum
þinn skáli mèr innan.

Þá sannaðist hit fornkveðna mál, at mörg eru konúngs eyru. Ólafr konúngr hafði spurt allt um ferðir Sighvats, at hann hafði verit með

[1]) hraðmæltr *hin.* [2]) stallarar þínir, *hin.* [3]) seims, *D, H, K, L, S.* [4]) beima, *L.* [5]) þaktr með, *E;* þýðum, *L.*

Knúti konúngi. Þá mælti Ólafr konúngr til Sighvats: eigi veit ek nú, hvârt þú ætlar nökkut at vera minn stallari, eðr hefir þú nú eigi gjörzt maðr Knúts konúngs? Sighvatr kvað vísu:

Knútr spurði mik mæta[1]
mildr ef ek hánum vilda
hendi-lángr sem hrínga
hugreifum Óleifi;
ei[2] kvád ek senn at sönnu,
svara þóttumst ek drottni[3],
gjör[4] er gumna hverjum
gnóg dæmi, mèr sæma[5].

Þá mælti Olafr konúngr, at Sighvatr skyldi gánga til sætis þess, sem hann var vanr at sitja, ok hann hafði fyrr haft; kom Sighvatr sèr brátt í kærleika hina sömu, sem hann hafði áðr haft.

158. Erlíngr Skjálgsson ok synir hans höfðu verit um sumarit í her Knúts konúngs, ok í sveit með Hákoni jarli. Þórir hundr hafði ok metorð mikil. En er Knútr konúngr spurði, at Ólafr konúngr hafði farit landveg til Noregs, þá sleit hann leiðángr, ok gaf leyfi öllum mönnum til heimferðar, en lèt búa sèr til vetrsetu í Danmörk; var þá í Danmörk herr útlendra

---

1) mætra *B*, *D*, *H*, *K*, *S*; mætir, *E*, *F*, *L*. 2) einn, *hin*. 3) drottinn, *E*, *F*, *H*, *L*, *S*. 4) góð, *B*, *E*, *F*, *K*. 5) Ok enn þessa:

Eið látaþú ýtri
einn, þótt ek vera seinni,
jarðar alla verðar
auðarmildr, enn ek vilda;
éra fyri mál þat er mála
mann þú lætr her vándan
laung þörf mun gram gengit
gestr Knúts var ek flestum, *b. v. E.*

manna, bæði enskra manna ok Norðmanna, ok enn af fleirum löndum, er komit hafði til hersins um sumarit. Erlíngr Skjálgsson fór um haustit til Noregs með öllu liði sínu, ok þá af Knúti konúngi stórgjafir at skilnaði. Þórir hundr var eptir með Knúti konúngi; en með Erlíngi fóru norðr í Noreg sendimenn Knúts konúngs ok höfðu með sèr of lausafjár, fóru þeir víða um landit um vetrinn, en greiddu þá af höndum fè þat, er Knútr konúngr hafði heitit þeim um haustit til liðs sèr, þeir gáfu ok hinum mörgum, er þeir fengu með fè keypt vináttu Knúti konúngi, en þeir höfðu traust Erlíngs til yfirferðar; gjörðist þá svâ at fjöldi manna snèrist til vináttu við Knút konúng, ok hètu honum vináttu sinni, ok þat með at veita Ólafi konúngi mótstöðu, gjörðu þat sumir bert þegar, en hinir voru miklu fleiri, er leyndust at fyrir alþýðu. Ólafr konúngr spurði þessi tíðindi, ok kunnu margir at segja honum frá þessum tíðindum, ok var þat fært mjök í fjölmæli þar í hirðinni. Sighvatr skáld kvað:

Fjandr gánga þar þengils,
þjóð býðr[1] opt með sjóða
höfgan málm fyrir[2] hilmis
haus ófaldin[3] lausa;
sitt[4] veit hverr of[5] harra
hollan selr við gulli[6],

[1]) ferr, *H.* [2]) við, *B*, *L.* [3]) ófalan, *B*, *D*, *H*, *L*, *S*; of allan, *E*, *K.* [4]) sik, *D*, *H.* [5]) ef, *E*, *L*, *S*; er, *H.* [6]) golli, *E*, *H*, *L.*

[vert er[1] slíks í svörtu,
sinn, helvíti innan.

Ok enn kvað hann:

Kaup varð dapurt[2], þar[3] djúpan
drottinn rèð[4] [af sóttum[5]
þeim[6] er heim á himna[7]
háselds svikum beldu[8].

Opt var sú umræða þar í munni höfð, hversu illa samdi Hákoni jarli at fara með her á hendr Ólafi konúngi, er hann hafði honum líf gefit, þá er jarl hafði á hans vald komit, en Sighvatr var hinn mesti vin jarls, ok þá er Sighvatr heyrði ámælt jarli, þá kvað hann:

Gjörði[9] hilmir[10] Hörða[11]
húskarla[12] þá jarli,
of[13] við Ólafs fjörvi
úvægir[14] fè-þeygi;
hirð nam[15] hans at verða
háleggs[16] fyrir[17] því máli,
dælla er oss ef allir
Noregs[18] um svik slíkir[19].

Ólafr konúngr hafði jólaboð mikit, ok var komit til hans margt stórmenni. Þat var hinn átta[20]

1) verk eru, *B*, *D*. 2) döpr, *D*. 3) þaz, *D*, *E*, *S*. 4) rètt, *hin*. 5) um sóttu, *B*; af sóttan, *D*. 6) þeir, *E*, *F*, *K*, *L*. 7) himnum, *D*, *E*, *F*, *L*. 8) hèldu, *E*, *F*; *vís. v. í H*, *L*. 9) gjörð-ist, *B*, *H*, *S*. 10) hilmis, *B*, *H*, *S*. 11) *tekið úr B*; *gleymt í A*, *D*; harða *E*, *K*. 12) húskarlar, *hin*. 13) er, *B*, *D*, *L*; ef, *E*, *F*, *K*. 14) ofvægir, *B*, *D*, *S*; óvæginn *L*. 15) era, *B*, *S*; er, *D*, *L*; erat, *H*. 16) háleit, *hin*. 17) í, *L*. 18) erum vèr, *hin*. 19) skírir, *B*, *D*, *E*, *K*, *S*; skærir, *H*, *L*. 20) 7da, *D*, *E*, *F*, *K*, *S*; 5ta, *H*.

dag jóla, at konúngr gekk ok fáir menn með honum; Sighvatr fylgði honum dag ok nátt, hann var þá með honum; þeir gengu í hús eitt, þar voru hirðir í dýrgripir konúngs, hann hafði þá hafðan viðbúníng mikinn, sem vandi hans var til, at heimta saman dýrgripi at gefa hit átta kveld jóla; þar stóðu í húsinu sverð eigi allfá gullbúin; Sighvatr kvað þá:

Sverð standa þar[1], sunda
sárs leyfu vær árar,
herstilli[2] væri[3] hylli
hollust búin gulli;
viðtæka ek víka,
[var ek endr með þèr, sendir[4]
elds! ef þú eitthvert vildir
allvaldr gefa skáldi.

Konúngr tók eitthvert sverðit, ok gaf honum, þar var gulli búinn meðalkaflinn ok gullbúin hjölt; var þat gripr allgóðr, en gjöfin var eigi öfundarlaus, ok heyrði þat síðar. Þegar eptir jólin byrjaði Ólafr konúngr ferð sína til Upplanda, þvíat hann hafði fjölmenni mikit, en tekjur norðan or landi höfðu öngvar til hans komit þá um haustit, er leiðángr hafði úti verit um sumarit, ok hafði konúngr þar allan (kostnað) tillagðan, sem faung voru á, þá voru engi skip at fara með liðit norðr í land; hann spurði

[1]) hèr, *B*, *F*, *H*, *L*. [2]) herstillir, *B*; herstillis, *hin.* [3]) þarf ek, *S*; verðr, *hin.* [4]) vil ek enn með þèr kennir, *B*.

þat eitt norðan, er honum þótti ekki friðsamligt, ok ekki trúligt, ef hann færi eigi með liði miklu, rèð konúngr fyrir þá sök þess af, at fara á Upplönd, en eigi hafði svâ lángt liðit síðan at hann hafði þar farit at veizlum, sem lög stóðu til, eðr vandi konúnga hafði til verit. En er konúngr sótti upp á land, þá búðu honum lendir menn ok bændr ríkir, ok lèttu svâ hans sjálfs kostnaði.

159. Björn er maðr nefndr göfugr at kyni, hann var vinr ok kunníngi Ástríðar drottníngar ok nokkut skyldr henni, ok hafði hún fengit honum ármenníng á ofanverðri Heiðmörk; hafði hann ok yfirsókn í Eystri-Dali. Ekki er Björn kærr konúngi, ok ekki var hann þokkasæll af bóndum; þat hafði atborizt í[1] bygð þeirri, er Björn rèð fyrir, at þar vurðu hvörf stór ok stuldir miklir á haustum, þat voru naut ok sauðir, ok allskonar fènaðr. Björn lèt þar kveðja þíngs til, ok lýsti þar hvarfunum, hann kallaði þá líkasta til slíkra illbragða, er sátu i markbygðum fjarri öðrum mönnum, veik hann því máli til þeirra, er bygðu í Eystri-Dölum, sú bygð var mjök sundrlaus bygð við vötn eða rudd í mörkum, en úvíða bygðir saman.

160. Rauðr hèt maðr, er þar bygði í Eystri-Dölum. Ragnhildr hèt kona hans. Dagr ok Sigurðr hètu synir þeirra, þeir voru efn-

[1]) *Hèr sleppr E um sinn.*

iligir menn. Þeir voru staddir á þíngi því, ok hèldu upp svörum af hendi þeirra Dalamanna, ok báru þá undan sökum. Birni þótti þeir láta stórliga ok vera drambsmenn miklir at vâpnum ok klæðum. Björn snèri þá tölunni á hendr þeim bræðrum, ok taldi þá eigi úlíkliga til at hafa slíkt gjört. Þeir synjuðu fyrir sik, ok sleit svâ þínginu. Litlu síðar kom til Bjarnar ármaðr Ólafs konúngs með liði sínu, ok tók þar veizlu, var þat mál kært fyrir konúngi, sagði Björn, at honum (þóttu) Rauðs synir líkligstir til at valda slíkum ókynnum; þá var sent eptir Rauðs sonum, en er þeir hittu konúng, þá taldi hann þá úlíkliga til þjófnaðar, ok bar þá undan kennslum slíkum[1]. Þeir buðu konúngi til feðr síns, ok taka þar þriggja nátta veizlu með öllu liði sínu. Björn latti konúng ferðarinnar, en konúngr fór eigi at síðr. Hjá Rauð var hin prýðiligsta veizla; þá spurði konúngr, hvat manna Rauðr væri eða kona hans? Rauðr segir, at hann var sænskr maðr at ætt, auðigr ok kynstór: en ek hljóp þaðan í brott, segir hann, með konu þessa, er ek hefir átt síðan; hún er systir Hríngs konúngs Dagssonar. Þá

[1]) *Hèr bæta handritin B, D, E, F, H, I, K, L, S inni allángri frásögn um dvöl Olafs konúngs hjá Rauðúlfi, viðræðum þeirra ok því öðru, er þar tilbar. I bókar brotið endar at fullu i þeirri frásögn. E bæði byrjar og sleppr um sinn i henni.*

vaknaði konúngr við ættmenn þeirra beggja, fann hann þat at þeir feðgar voru menn vitrir, ok spurði hann þá eptir íþróttum sínum. Sigurðr sagði, at hann kynni at deila dægrafar, þóat eigi sæi himintúngl, ok at skilja drauma. Konúngr reyndi þessar íþróttir, ok var þat sem Sigurðr hafði sagt. En Dagr fann þat til íþrótta, at hann mundi sjá kost ok löst á hverjum manni, er honum bæri fyrir augu, ef hann vildi athyggja. Konúngr bað hann segja skaplöst hans, þann er hann sæi. Dagr fann þat til, er konúngi líkaði, ok honum þótti rètt vera. Þá spurði konúngr um Björn ármann, hvern skaplöst hann hefði. Dagr segir, at Björn var þjófr, ok þat með at hann segir hvar Björn hafði fólgit á bæ sínum, bæði bein, horn ok húðir af nautum þeim, er hann hafði stolit þá um haustit: ok er hann valdr, segir Dagr, allra þeirra stulda, er í haust hafa vorðit, ok hann hefir öðrum mönnum kent; segir Dagr öll merki á, hvar konúngr skyldi leita láta. En er konúngr fór frá Rauði, þá var hann með vingjöfum stórum útleiddr; voru synir Rauðs með konúngi. Fór konúngr fyrst til Bjarnar, ok reyndist honum allt svâ sem Dagr hafði sagt; síðan lèt hann Björn í brott, ok fór hann or landi, ok naut hann drottníngar at því, at hann hèlt lífi sínu ok limum.

161. Þórir, son Ölvis á Eggju, stjúpson Kálfs Árnasonar [ok systurson Þóris hunds[1], var manna fríðastr, mikill ok sterkr, hann var átján vetra gamall, hann hafði fengit gott kvânfáng á Heiðmörk ok auð fjár með, hann var vinsæll maðr, ok þótti vænn til höfðíngja; hann bauð konúngi heim til veizlu með lið sitt; konúngr þektist boðit, fór til Þóris, ok fèkk þar góðar viðtökur, ok var þar veitt hit stórmanligsta, en öll voru faung hin bestu. Konúngr ok menn hans ræddu þat sín í milli, at þeim þótti þat mjök saman fara húsakynni eða húsbúnaðr eða borðbúnaðr eða drykkr, eða maðrinn sá er veitti. Dagr lèt sèr ekki um finnast eða fátt. Ólafr konúngr var vanr at hafa ræður við Dag, ok spurði hann ýmissa hluta, reyndist honum þat allt með sannindum sem Dagr sagði, hvârt sem þat var liðit eða úkomit fram, festi þá konúngr trúnað mikinn á ræður hans; nú kallar konúngr Dag á einmæli, ok ræddi þá fyrir honum mjök marga hluti, þar kom niðr ræðu hans, at hann tjáði fyrir Dag, hversu skrautligr maðr Þórir var, er þeim veitti þá veizlu svâ virðuliga. Dagr lèt sèr fátt um finnast, ok lèt þat allt satt er konúngr sagði. Þá spurði konúngr, hverja skapsanmarka Þórir hefði. Dagr kveðst hyggja, at Þórir mundi vel skapi farinn, ef honum er þat svâ vel gefit, sem hitt er alþýðan má sjá.

[1]) *þannig hin*; Arni h. systrson Þoris h. *rángt í A.*

Konúngr bað hann segja þat er (hann) spurði, ok segir konúngr, at hann er þess skyldr. Dagr svarar: þá muntu, konúngr! þat vilja veita mèr, at ek ráða hefndinni, ef ek skal löstinn segja. Konúngr segir, at hann mun ekki dómum sínum undir aðra menn skjóta, en bað Dag segja þat er konúngr spurði. Dagr svarar: dýrt er drottins orð, þat mun ek til skaplasta finna Þóri, sem margan kann henda, at hann er maðr of fègjarn. Konúngr segir: er hann þjófr eðr ránsmaðr? Dagr svarar: eigi er þat, segir hann. Hvat er þá, segir konúngr? Dagr svarar: hann vann þat til fjár, at hann er drottins sviki, hann hefir tekit fè af Knúti konúngi, til þess at svíkja yðr. Konúngr svarar: hvernveg gjörir þú þat satt? Dagr svarar: hann hefir á hinni hægri hendi hríng digran fyrir ofan ölboga, er Knútr konúngr hefir gefit honum, ok lætr hann enga menn sjá. Eptir þat slitu þeir tal sitt, ok var konúngr reiðr mjök. Þá er konúngr sat yfir borðum, ok menn höfðu drukkit um hríð ok voru allkátir, þá gekk Þórir um beina, þá lèt konúngr kalla Þóri til sín, hann gekk framan at borðinu, ok tók höndunum uppá borðit; konúngr mælti: hversu gamall maðr ert þú, Þórir? ek er átján vetra, segir Þórir. Konúngr svarar: mikill maðr ert þú, Þórir! jafnúngr ok gjörviligr; tók þá konúngr hönd hina hægri, ok strauk upp af ölboga. Þórir mælti: tak þú kyrt þará!

ek hefi sull á hendinni! konúngr hèlt hendinni, ok kendi at þar var hart undir; konúngr mælti: hefir þú eigi spurt, segir hann, at ek er læknir, ok lát mik sjá sullinn! 'þórir sá at mundi ekki tjá at leyna'[1]. Konúngr lèt þóri taka höndum ok setja í járn; þá gekk Kálfr at, ok bað honum griða, ok bauð fyrir hann fè; margir menn studdu þat mál, ok buðu sitt fè fram. Konúngr var svâ reiðr, at engi mátti orðum við hann koma, sagði konúngr, at þórir skyldi slíkan dóm hafa, sem hann hafði honum ætlat. Síðan lèt konúngr drepa þóri; en verk þat [var með hinni mestu öfund[2] bæði þar um Upplönd ok engum mun síðr norðr um þrándheim, sem ætt þóris var flest. Grjótgarðr, son Ölvis, var bróðir þóris, hann var ellri þeirra bræðra, var hann ok hinn gerviligsti maðr, ok hafði sveit um sik, hann var þá staddr á Heiðmörk, er hann spurði aftöku þóris, þá veitti hann árásir þar er fyrir voru menn konúngs eðr fè hans, en at öðru hverju hafðist hann við í skógum eðr í öðrum fylsknum; en er konúngr spurði úfrið þenna, þá lèt konúngr njósnum tilhalda um ferðir Grjótgarðs, ok varð konúngr varr við, hvar Grjótgarðr hafði tekit náttstað, eigi lángt frá því er konúngr var; Ólafr konúngr fór þá þeg-

1) tók þá hrínginn ok lèt frammi. Konúngr spurði, hvert þat væri gjöf Knúts konúngs? þórir svarar, at ekki væri því at leyna; *b. v. B.* 2) mæltist illa fyrir, *H.*

ar um nóttina, kom þar þegar um nóttina áðr dagaði, ok sló mannhríng um stofuna, er þeir voru inni; þeir Grjótgarðr vöknuðu við mannagný ok vâpnabrak, tóku þeir þegar til vâpna sinna, hljóp Grjótgarðr út í forstofuna; hann spurði, hverr fyrir liði því rèði, honum var sagt, at þar var kominn Ólafr konúngr; hann spurði, hvârt hann mætti heyra orð hans. Konúngr stóð fyrir durunum; hann segir, at Grjótgarðr mætti mæla slíkt er hann vildi: ok heyri ek orð þín, segir konúngr. Grjótgarðr segir: ekki mun ek griða biðja. Hann hljóp þá út, ok hafði skjöld yfir höfði sèr, en sverð brugðit í hendi, lítt var ljóst, ok sá hann úgjörla, hann lagði til konúngs, en þar varð fyrir Ásbjörn[1] Árnason, kom lagit undir brynjuna, ok rendi uppí kviðinn, ok fèkk hann þegar bana; Grjótgarðr var ok þegar drepinn, ok flestallt lið hans. Eptir þenna atburð snöri konúngr ferð sinni suðr aptr til Víkrinnar. En er hann kom til Túnsbergs, þá gjörði hann menn frá sèr í allar áttir, ok krafði sèr liðs ok leiðángrs skipa, kostr hans var þá lítill; voru þá engi skip nema þau er bændr áttu, en lið dróst vel til hans þar úr hèruðum, en fátt kom um lengra, ok fannst það brátt at landsfólkit mundi þá vera snúit at einurðinni við konúng. Ólafr konúngr gjörði lið sitt á Gautland austr, ok sendi

[1]) Arnbjörn, *hin.*

þá eptir skipum sínum ok þeim varnaði, er þeir lètu þar eptir um haustit; en ferð þeirra varð sein, þvíat þá var eigi betra enn um haustit at fara í gegnum Danmörk, er Knútr kónúngr hafði her úti um vârit um alla Danmörk, ok hafði eigi færra enn 12 hundruð skipa.

# SAGA ÓLAFS KONÚNGS HINS HELGA.

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN

AD TILHLUTUN HINS
KONÚNGLIGA
NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

## SÍÐARI DEILD.

Kaupmannahöfn, 1830.
Prentuð í enni *Poppsku* prentsmiðju.

## Saga
# Ólafs konúngs helga.
### 162. Kapituli.

Það tíðindi spurðust í Noreg, at Knútr konúngr dró her saman óvígan í Danmörk, ok þat með, at hann ætlaði at halda liði því öllu til Noregs ok leggja þar land undir sik; en er slíkt spurðist, þá vurðu Ólafi konúngi því verri menn til taks, ok fèkk hann lítit lið af bóndum; konúngsmenn taluðu um þetta sín í millum, þa kvað Sighvatr:

Út býðr allvaldr sveitum
Englands, en vær fengum,
lítt sè ek lofðúng óttast,
lið-fæð[1] ok skip smærri;
ráð eru ljót, ef láta
landsmenn konúng þenna,
lætr[2] einorð fè firða,
ferð liðþrota verða.

Ólafr konúngr átti hirðstefnu en stundum húsþíng við lið sitt allt, ok spurði menn sína ráðs, hvat þeim þætti ráðligast: þurfu vær ekki at dyljast við, segir konúngr, at Knútr konúngr mun koma ok vitja vor í sumar, ok hefir hann her mikinn, sem þèr munið spurt hafa, en vær höf-

1) lið færra, *H.* 2) svíkr, *L.*

um lið lítit at svâ búnu til móts við lið hans, en landsfólk er oss nú ekki trúligt. En ræðu konúngs svara menn, er hann orti orða á, en hèr er sagt fra því, er Sighvatr sagði:

Fleira[1] getr, en frýju
fjandr leggr oss til handa,
verð ek fyrir æðru orði
allvalds, enn fè gjalda;
hvârr skal[2], þegn þótt þurfi[3]
þengils vina gengi,
[halda sik frá slíku,
siklíngs[4] hafa myklu.

163. Þat sumar gjörðust þau tíðindi á Hálogalandi, at Hárekr or Þjóttu minntist þess, at Ásmundr Grankelsson[5] hafði rænta ok barða húskarla hans; bjó hann skip, er hann átti, tvítugsessu, er flaut fyrir bæ[6] hans tjaldat ok þilit, gjörði hann þat orð á, at hann ætlaði at fara suðr til Þrándheims. Ok eitthvert kveld gekk Hárekr til skips með húskarla sína, ok hafði nær áttatígi manna, reyru þeir um nóttina ok kvâmu er mornaði til bæjar Grankels, slógu þeir hríng um bæin, ok veittu síðan atgaungu, ok lögðu eld í húsin; brann[7] Grankell inni ok menn hans, en sumir voru úti drepnir; lètust þar alls 30 manna. Fór Hárekr heim eptir þat verk, ok sat at

[1]) flýja, *B.* [2]) hefnden, *b. v. A.* [3]) þverri, *B, H*; þykkni, *D, F, L.* [4]) upp (Ulfs, *B*;) hvelfa (hvarfa, *B*; hvarflá, *K*;) svik sjálfum, sik lengst, *B, D, H, K, S.* [5]) *þannig leiðrett*; Gramkelsson, *hèr A.* [6]) *eða heldr* býæ (býi) *A.* [7]) *Hèr byrjar aptr E.*

búi sínu. Ásmundr var með Ólafi konúngi. Var þat bæði um þá menn, er á Hálogalandi voru, at enginn beiddi Hárek bóta fyri verk þat, enda bauð hann engar.

164. Knútr hinn ríki dró saman her sinn, ok hèlt til Limafjarðar, en er hann var þaðan búinn, þá sigldi hann þaðan öllu liði sínu til Noregs, fór skyndiliga, ok lá ekki við land austan fjarðar, sigldi þá yfir Foldina, ok lagði hann at Ögðum, og krafði þar þínga; koma bændr ofan ok hèldu þíng við Knút, var hann þar tekinn til konúngs yfir land allt, ok setti hann þar menn í sýslur, en hann tók gjöld af bóndum, mælti engi maðr í móti honum. Ólafr konúngr var þá í Túnsbergi, er her Knúts konúngs fór hit ytra um Foldina; Knútr fór þá norðr með landi, koma þá til hans menn or hèröðum ok játtuðu þá allir honum hlýðni. Knútr lá þá í Eykundasundi nokkura hríð, þá kom til hans Erlíngr Skjálgsson með lið sitt, þa bundu þeir Knútr konúngr og Erlíngr vináttu sína enn af nýju, var þat í heitum við Erlíng af hendi Knúts konúngs, at hann skyldi hafa land allt til forráða milli Staðs ok Rýgjarbits[1]. Síðan fór Knútr norðr leiðar sinnar, er þat skjótast frá at segja ferðum hans, at hann lètti eigi fyrr enn hann kom norðr í Þrondheim, ok hèlt til Niðaróss, stefndi hann þá í Þrondheimi átta

[1]) Rýgjarbotz, *B*; Rýjarbits, *E*.

fylkja þíng, ok var á því þíngi Knútr til konúngs tekinn um allan Noreg. Þórir hundr hafði farit or Danmörku með Knúti konúngi, ok þar var Hárekr or Þjóttu kominn; gjörðust þeir Þórir lendir menn Knúts konúngs, ok bundu svardögum; konúngr gaf þeim stórar veizlur, ok fèkk þeim finnferð, ok gaf þeim gjafir stórar á þat ofan; alla lenda menn, þá er til hans vildu snúast, gæddi hann bæði at veizlum ok lausafè, lèt þá alla hafa meira ríki enn þeir höfðu áðr.

165. Knútr konúngr hafði lagt land allt undir sik í Noregi; þá átti hann þíng fjölment bæði af sínu liði ok af landsmönnum, þá lýsti Knútr konúngr yfir því, at hann vill gefa Hákoni jarli, frænda sínum, at yfirsókn land þat allt, er hann hafði unnit í ferð þeirri, þat fylgði ok því, at hann leiddi í hásæti hjá sèr Hörða-Knút, son sinn, ok gaf honum konúngsnafn ok þarmeð Danaveldi. Knútr konúngr tók gisla af öllum lendum mönnum ok stórbóndum, tók sonu eðr bræðr eðr aðra frændr, eðr þá er þeim voru kærastir, ok honum þóttu bezt tilfallnir, festi Knútr konúngr svâ trúnað manna við sik, sem nú var sagt. En er Hákon jarl hafði tekit við ríki í Noregi, þá rèðst til lags með honum Einar Þambaskelfir, mágr hans, tók hann þá upp veizlur allar, þær er hann hafði fyrr haft, þá er jarlar rèðu fyri Noregi. Knútr konúngr gaf Einari stórar gjafir, ok batt hann í kærleikum við sik, svâ at Einar skyldi vera mestr maðr

ok göfgastr ótíginna[1] manna í Noregi, [ef eigi er jarl til eðr son hans[2], meðan hans vald væri yfir Noregi, ok lèt þat fylgja, at honum þótti hann bezt tilfallinn at vera tignarmaðr ok bera tignarnafn í Noregi, ef eigi væri jarl til, eðr son hans Eindriði, fyrir ættar sakir ok alls annars; þau heit þóttu Einari mikils verð, ok hèt þar í mót trúnaði sínum; hófst nú af nýju höfðíngsskapr Einars[3].

166. Þórarinn hèt maðr, ok var kallaðr loftúnga íslenzkr at kyni, hann var skaftsmaðr mikill ok skáld gott, hann hafði verit með konúngum eðr öðrum höfðíngjum, hann var með Knúti konúngi, ok hafði ort um hann lofkvæði, ok var þat flokkr; en er Knútr konúngr vissi at hann hafði ort flokk um hann, þá varð hann reiðr mjök, ok bað hann yrkja um sik drápu um daginn eptir, þá er konúngr sæti yfir borðum, en ef hann gjörði eigi svâ, þá sagði konúngr, at Þórarinn skyldi uppi hánga fyri dirfð sína, þá er hann hafði ort dræplíng um Knút konúng. Þórarinn orti þá stef í, ok setti í kvæðit, ok jók nokkurum vísum, ok er þetta stef:

Knútr verr grund, sem gætir
Grikkland[4] himinríkis[5],

Knútr konúngr launaði vel kvæðit, ok er sú drápa kölluð Höfuðlausn. [Þórarinn orti aðra drápu um Knút konúng, er kölluð er Tögdrápa[6], í þeirri drápu er sagt frá þessum ferðum Knúts

[1]) *Hér v. eitt blað í K.* [2]) *frá* [ *v. í hin.* [3]) *Hèr byrjar aptr C.* [4])Grikklands, *hin.* [5]) himinríki, *hin.* [6]) Togdrápa, *E, F, L.*

konúngs, er hann fórsunnan frá Danmörk til Noregs[1], ok er þetta einn stefja bálkr:

Knútr var[2] und sólar,
siðnæmr, með lið
fór mjök mikit
minn vinr þinnig;
færði or firði
fíra[3] gramr Lima
út ólítinn
otr heims flota.
Ygðu Egðir
auðbeiðis[4] för
svángs[5] sigrlana
[sökk runnr[6] mjök;
allt var gulli
grams [lið búit[7],
var sjón[8] sögu
slíks ríkari.
Ok fyri Lista
liðu fram viðir[9]
há gjálbrs[10] í haf
hart kolsvartir;
byggt var innan
allt brimgalta[11],
suðr[12] [sum skriðu[13],
sund, Eykund[14]

1) *Frá* [ *b. við hin, þykir gleymt úr A.* 2) er, *B, C, D, H, K, S.* 3) fimr, *B, L.* 4) örbeiði, *B, C, D, H, K, S.* 5) svans, *B, C, D, E, K, S.* 6) sökrammir, *hin.* 7) skip framit, *B, H, K, S.* 8) sèn, *E.* 9) *Hèr sleppr E, um sinn.* 10) hafgjálfrs *C, D*; brranndýrs, *H*; haggjálfrs, *F, L.* 11) brimgaltar, *hin.* 12) sverð, *D.* 13) sæ skíðum, *hin.* 14) Eykunda, *hin.*

Ok fyrir fornan[1]
frið menn liðu
haug Hjar-nagla[2]
haust[3], griðfastir[4];
þá er stórir[5] fyrir Stað
stafn klif[6] drifu,
varat eyðilig[7],
auðbeiðir[8]! för.
Knáttu súðir[9]
svángs mjök lángar
byr-rökn[10] bera
brim dyr[11] fyrir Stim;
svâ liðu sunnan
svöl heims völur[12]
at kom norðr í Nið
nýtr herflýtir.
Þá gaf sínum
snjallr gjörvallan
Noreg nefa
njótr [vegr Jóta[13];
ok[14] gaf sínum,
segi ek þat, megi
[dags! djúpliga[15]
Danmörk svana.

1) norðan, *B.* 2) Hjarnæla, *C.* 3) hvast, *hin.* 4) siðfastir, *L.* 5) stóð, *L*; stór, *hin.* 6) skrif, *C.* 7) auðilig *B*; æðilig, *C.* 8) örbeiðis, *hin.* 9) suðr, *B*, *C.* 10) rækn, *C.* 11) köld, *C.* 12) valir, *B*, *H*, *K.* 13) vegjóta, *B*, *C*, *D*, *K*, *S.* veg jótra, *F*, *L*; vegbrotar, *H.* 14) sá, *B*, *H*, *K*, *S.* 15) dals dökksalar (dökkvalar, *H*) *B*, *H*, *K*, *L*, *S*; dal djúpsala, *C*, *D*; dags djúpsala, *L.*

Hèr getr þess, at þeim var sjón sögu ríkari um ferð Knúts, er þetta kvað; Þórarinn hrósaði því, at hann hefði verit í ferð með Knúti konúngi, er hann kom í Noreg.

167. Menn þeir er Ólafr konúngr hafði sent austr í Gautland eptir skipum sínum, þá fóru þeir með þau skip, er þeim þóttu bezt, en brendu hin, ok höfðu með sèr reiða ok annann varnað, er konúngr átti ok menn hans. Þeir sigldu austan, þá er þeir spurðu at Knútr var farinn norðr í Noreg, sigldu þá austan um Eyra[1]-sund, ok svâ norðr til Víkrinnar ok svâ a fund Ólafs konúngs, ok færðu honum skip sín, var hann þá í Túnsbergi. En er Ólafr konúngr spurði, at Knútr konúngr fór liði sínu norðr fyrir land, þá hèlt hann inn í Öslarfjörð[2] ok uppí vatn þat, er Dröfn heitir, ok lá hann þar við, til þess er her Knúts konúngs var farinn út suðr um. En í þeirri ferð, er Knútr konúngr fór norðr[3] með landi, átti hann þíng í hverju fylki, var honum þar land svarit ok gefnar gislar. Síðan fór hann austr yfir Foldina til Borgar, var honum þar land svarit sem annarstaðar. Síðan fór Knútr konúngr til Danmerkr, ok hafði hann í þeirri ferð eignazt Noreg orrostulaust, rèð hann þá fyrir þrimr þjóðlöndum, svâ segir Hallfreðr háreksblesi[4], er hann orti um Knút konúng:

---

[1]) *þannig hin*, ytra, *A*. [2]) *þannig A*; Oslóar- *og* Oslarfjörð, *hin*. [3]) suðr, *B*, *K*, *S*. [4]) *þannig hin*; harkblesi, *A*.

Englandi rèð ýngvi
einn[1], hófst friðr at[2] beinni[3],
böðrakkr boðar[4] nökkut[5]
barkrjóðr[6] á[7] Danmörku;
ok hefir[8] varða[9] leiknar
jálmfrægr[10] und sik, hjálma[11]
hjaldr örr haukum þverrir
húngr [Noreg þrúnginn[12].

168. Ólafr konúngr hèlt skipum sínum [út til Túnsbergs[13], þegar hann spurði at Knútr konúngr var farinn til Danmerkr; síðan fór Ólafr konúngr með lið þat, er honum vildi fylgja, ok hafði hann þá 17[14] skip, síðan hèlt hann út eptir Víkinni, ok fèkk hann lítit af fè ok svâ af mönnum, nema þeir er bygðu eyjar eðr útnes, þeir fylgðu honum; gekk konúngr þá ekki á land upp, hafði slíkt af fè ok mönnum sem á leið hans varð, hann fann þat þá, at landit var spanit undan honum, fór hann sem honum byrjaði, var þat öndverðan vetr, at þeim byrjaði heldr seint, lágu þeir í Sóleyjum mjök lengi, ok spurðu þar tíðindi af kaupmönnum norðan or landi, var konúngi sagt, at Erlíngr Skjálgsson hafði samnað mikinn á Jaðri, ok skeið hans lá fyrir landi albúin, ok fjöldi annara manna átti þar skip albúin með Erlíngi; voru þar skútur

---

1) þeim, *C.* 2) ok, *C.* 3) heini, *B, C, D, K, S.* 4) bænar *D*; bónar, *hin.* 5) nökkva *B, H, K, S*; nacca, *C.* 6) brakrjóðr, *C.* 7) ok, *hin.* 8) hæifir, *C,* 9) odda, *hin.* 10) áimrjóðr, *H*; jálmfreyr, *hin.* 11) málmi, *D*; málma *hin.* 12) Noregi þrúngit, *hin.* 13) *b. v. hin.* 14) *þannig A*; 13 *hin.*

ok aðrar ferjur stórar; konúngr hèlt austan liðinu ok lá um hríð í Eykundasundi, spurðu þá hvârr til annarra, fjölmenti Erlíngr þá sem mest. Thómásmessu fyrir jól þegar í dagan tók konúngr útor hafninni, var þá góðr byrr ok heldr hvass, sigldu þeir þá norðr[1] fyrir Jaðar, var veðr vâtt nokkut; þegar ferr njósn hit efra fyrir Jaðar, er konúngr sigldi hit ytra; en er Erlíngr varð þess varr, at konúngr sigldi austan, þa lèt hann blása liði sínu öllu til skipa, dreif þá fólk allt til skipa ok bjóst til bardaga, en skip konúngs bar skjott norðr at Jaðri, þá stefnði hann leið, ætlaði hann svâ ferð sína at fara inní Fjörðu ok fá sèr þar lið. Erlíngr sigldi eptir þeim, ok hafði her manns ok fjölda skipa, ok voru skip þeirra örskreið, er þeir höfðu ekki á nema menn ok vâpn, gekk þá skeið Erlíngs miklu meira enn önnur skip, þá lèt hann hefla ok beið liðs síns.

169. Þá sá Ólafr konúngr at þeir Erlíngr sóttu eptir þeim, þvíat skip hans voru sett mjök ok sollin, er þau höfðu flotit á sjó um vetrinn ok allt sumarit þartil; ok er hann sá at liðsmunr mundi vera mikill, ef þeir mættu liði Erlíngs öllu senn, þá lèt hann kalla skip af skipi, at síga skyldi láta segl ok heldr seint, en svipta af handrifi, ok var svâ gjört. Þeir Erlíngr fundu þat, þá kallaði Erlíngr á lið sitt, ok bað þá sigla meira: sjái þèr, segir hann, at

[1]) *þannig hin*; norðan *A*.

nú lægir segl þeirra, ok draga þeir nú undan oss, lèt hann þá hleypa or heflum á skeiðinni, gekk hún þa fram brátt hjá öðrum skipunum; Ólafr konúngr stefndi fyrir innan Bokn[1], fal þá sýn millum skipanna; síðan bað konúngr leggja seglin ok róa fram í sundit, er þraungt var í sundinu, lögðu þeir þá saman skipunum, gekk kleppunes[2] fyrir utan, þá voru menn allir herklæddir. Erlíngr sigldi þá at sundinu, ok fundu þeir eigi fyrr, enn herr Ólafs konúngs lá fyrir þeim, ok þeir sá at menn Ólafs konúngs reyru öllum skipum í senn at þeim, þeir Erlíngr hleyptu ofan seglunum ok tóku til vâpna, en konúngs herinn lagði öllumegin at þeim, tókst þar orrosta ok var hin snarpasta, þá snöri brátt mannfalli í lið Erlíngs; Erlíngr stóð í lyptíngu á skipi sínu, hann hafði hjálm á höfði ok skjöld fyrir sèr, sverð í hendi. Sighvatr skáld hafði verit eptir í Víkinni, ok spurði þar þessi tíðindi, hann var hinn mesti vin Erlíngs, ok hafði þegit gjafir at honum ok hafði verit með honum. Sighvatr orti flokk um fall Erlíngs, ok er þessi vísa þar í:

Ótt[3] rèð Erlíngr skjóta
eik sá eldinn[4] bleiki[5],
iflaust er þat, jöfra[6]
arnarfót í móti;
[skeið hans lá svâ síðan

[1]) Bukn, *S.* [2]) kleppjunes, *C.* [3]) út, *hin.* [4]) er rèð (rauð *S.*) enn, *hin.* [5]) bleika, *B, C, D, S.* [6]) jöfri, *C, D.*

siklíngs í her miklum,
snarir börðust þar síðan
síbyrð við skip fyrða[1].

Þá tók at falla lið Erlíngs, ok þegar er áorti ok uppgángan gjörðist á skeiðina, þá fèll hverr í sínu rúmi[2]; konúngr gekk vel fram; svâ segir Sighvatr skáld:

Rakkr þengill hjó rekka,
reiðr gekk hann of skeiðir,
valr lá þraunt[3] á þiljum,
þúng var[4] sókn fyrir Túngum;
bragníngr rauð fyrir breiðum[5]
borðvöll Jaðar norðan;
blóð kom varmt á víðan,
vá frægr konúngr, ægi.

Svâ fèll vanliga lið Erlíngs, at engi maðr stóð upp á skeiðinni nema hann einn; var þat bæði, at hann[6] beiddi lítt griða, fèkk ok engi þótt beiddi, mátti ok ekki snúast á flótta, þvíat skip láu umhverfis skeiðina; svâ segir Sighvatr:

Öll var Erlíngs fallin,
úngs[7], fyrir norðan Túngur
skeið vann skjöldúngr auða,
skipsókn við þröm Bóknar[8];
einn stóð sonr á sínu
snarr Skjálgs, vinum fjarri,
í lyptíngu lengi
lætrauðr[9], skipi auðu.

1) fyrðar, *B, C.* 2) *frá* [ *v. í D.* 3) þykkt, *D.* 4) varð, *H, S.* 5) breiðan, *C, D, S.* 6) *hèr byrjar K aptr.* 7) úngr, *B.* 8) Býknar, *S.* 9) látrauðr, *K.*

þá var Erlíngr sóttr bæði í fyrirrúminu ok af öðrum skipum; rúm mikit var í lyptíngunni ok bar þat mjök upp frá skipunum öðrum, ok mátti aungu við koma þángat, nema skotum eða spjótalögum, ok hjó hann þat allt af sèr. Erlíngr varðist svâ prúðliga, at engi maðr vissi dæmi til, at einn maðr hefði staðit svâ lengi fyrir jafnmörgum mönnum í atsókn, en aldrí leitaði hann til griða eðr undankvâmu. Svâ segir Sighvatr skáld:

Rèð eigi grið, Gýgjar,
geðstirðs[1] konúngs firða,
skógs[2] þóat skúrir[3] væri[4],
Skjálgs-hefnir, sèr nefna;
enn varðkeri verðar[5]
við[6] Bókn, nè[7] kemr síðan,
gluggs[8] á gjálfri luktan[9],
geirs ofurhugi meiri.

Ólafr konúngr sótti þá aptr fyrir lyptínguna, ok sá hvat Erlíngr hafðist at; konúngr orti orða á hann: öndverðr horfir þú við í dag, Erlíngr! segir hann. Erlíngr svarar: öndverðir skulu ernir klóast, segir hann. Þessa getr Sighvatr skáld:

Öndverða bað jarðar,
Erlíngr, sá er vel lengi
geymdi, [halr nè hamdist

[1]) geðstirðr, *hin.* [2]) skers, *B, H, S*; skots, *C.* [3]) skýrir, *B, S.* [4]) þyrðit, *B*; vaxi, *C, D, K*; herðist, *S.* [5]) virðir, *B*; víðan, *C, D, K*; virða, *H*; varðat, *L.* [6]) *þannig hin*; víí *rángt skr. í A.* [7]) *b. v. hin.* [8]) glyggs, *B, C, D, K, S*; gauks, *H.* [9]) leygðan, *B, S*; lygðan, *C*; bygðu, *D*; loknu, *H.*

hand vörn[1], klóast örnu;
þá er hans[2] at svik[3] sönnu[4],
sá var áðr munuð[5] ráða
snjallr[6] við Útstein illra[7],
Ólafr [ok tók[8] málum.

Þá mælti konúngr: vilt þú á hönd gánga, Erlíngr? Þat vil ek, segir hann; þá tók Erlíngr hjálminn af höfði sèr, ok lagði niðr skjöldinn ok sverðit, ok gekk fram í fyrirrúmit. Konúngr stakk við honum öxarhyrnunni í kinnina, ok mælti: merkja skal drottins svikana[9]. Þá hljóp at Áslákr fitjaskalli, ok hjó með öxi í höfuð Erlíngi, svâ at stóð í heila niðri, var þat þegar banasár; lèt Erlíngr þar líf sitt. Þá mælti Ólafr konúngr við Áslák: högg þú allra manna armastr! nú hjóttu Noreg or hendi mèr. Þá segir Áslákr: illa var þat, konúngr! er þèr er meingjörð at þessu verki, ek þóttumst höggva í hönd yðr; en ef ek hefir yðr misgjört, herra! ok kunni þèr mèr óþökk fyrir þetta, þá mun mèr kostlaust vera þetta verk, þvíat hafa mun ek svâ margra manna fjandskap fyrir, at ek munda heldr þurfa yðvart traust ok vináttu. Konúngr segir at svâ skyldi vera. Síðan bað konúngr hvern mann gánga á skip sín sem hvatligast: ok munu vær, segir hann, ekki ræna val þenna, ok munu nú hafa hvârir, sem fengit

1) hann lystr nè lamdist landvörn, *hin.* 2) hann, *hin.* 3) sik, *B, H.* 4) sönnum, *B, C, D, S.* 5) búinn, *B, C, D, S*; numinn, *F, K*; unninn, *L,* 6) atz, *B, H, S.* 7) hitzi, *B, S.* 8) oftók, *B, D, S*; tekit, *F.* 9) svikann, *hin.*

hafa; gengu menn þá aptr á skip sín, ok bjöggust sem hvatligast; en er þeir voru búnir, þá rendi skip bænda sunnan í sundit, þá var sem opt berr raunir, þótt lið mikit komi saman, er menn fá slög stór ok láta höfðíngja sína, at mönnum verðr ráðfátt, ok sè þá höfðíngjalausir. Synir Erlíngs voru engir þar, því varð ekki af atlögu bænda, ok sigldu þeir konúngr norðr leið sína; bændr tóku lík Erlíngs ok bjöggu um, ok fluttu heim á Sóla, ok svâ val þann allan, er þar hafði fallit, ok var Erlíngr hit mesta harmaðr, ok hefir þat verit mál manna, at Erlíngr Skjálgsson hafi verit maðr göfgastr ok ríkastr í Noregi þeirra er eigi báru tignarnafn. Sighvatr kvað:

Erlíngr fèll, en olli
allríkr tapaðr[1] slíku[2],
biðiat[3] betri dauða
bragnínga konr[4] gagni;
mann veit ek eigi annann,
allbrátt af[5] fjör láta[6],
einn[7] þann[8], er allir[9] kunnu[10]
aldr fullara at halda.

Þat segir Sighvatr, at Áslákr hafi frændvíg vegit ok mjök úsynju:

Áslákr hefir aukit,
er[11] vörðr[12] drepinn Hörða,

1) skapat, B; skavpaðr, C; skapaðr, D; skipan, H; skipat, S. 2) slíkri, H. 3) biðar, C; biðr, D, H, K. 4) með, b. við B, D, H, K, S; at, C. 5) at, hin. 6) láti, B, C, D, K, S; látit, F, L. 7) enn, B, C, D, S. 8) sá, hin. 9) allan, hin. 10) kunni, hin. 11) ætt, B, D. 12) þannig hin; norðr, A.

fáir[1] skyldu svâ foldar
frændsekju styr vekja;
ættvígum má hann eigi,
[um bítast[2], þar[3] níta,
frændr munu[4] bræði bindast
bornir, málin fornu.

Synir Erlíngs voru sumir norðr í landi í Þrándheimi með Hákoni jarli, en sumir norðr á Hörðalandi, sumir inní Fjörðum, ok voru þeir þar í liðsamnaði; en er spurðist fall Erlíngs, þa fylgði þessi sögu útboð um Agðir austan ok svâ um Rogaland ok Hörðaland, var [þat útboð[5]; var þetta hit mesta fjölmenni, ok fór herr sá með sonum Erlíngs norðr eptir Ólafi konúngi. Þá er Ólafr konúngr fór frá bardaga þeirra Erlíngs, sigldi hann norðr um sund ok var þá dagr mjök liðinn. Svâ segja menn at hann orti vísur þessar:

Lítt mun [herr enn[6] hætta,
hrafn skeit[7] af ná peitu[8],
vær unnum gný gunnar[9],
glaðr[10] í nátt fyrir Jaðri;
verstillir hefir illa
ættgóðr um rof sætta,
Erlíngr beið til árla
andrán, getit hánum[11].

Lítt mun halrinn hvíti,

1) *Hèr byrjar E.* 2) álíti, *B, H, S.* 3) þat, *B, H, S.* 4) skyli, *hin.* 5) þar her boðit út, *hin.* 6) höldrinn; *D.* 7) sleit, *hin.* 8) beitu, *C, D, G.* 9) geira, *C, K.* 10) glaðir, *F.* 11) *vís v. í B, H, S.*

hrafn etr af ná getnum,
vær unnum gný gunnar,
glaðr[1] í nátt fyrir[2] Jaðri;
svâ hefir öllúngis illa,
ek gekk reiðr of skeiðar,
jörð veldr manna morði,
mitt rán getit hánum[3].

Fór konúngr síðan norðr með landi með lið sitt, hann spurði allt hit sanna um bónda samnað, þar voru þá með Ólafi konúngi margir lendir menn, þar voru þeir allir Árna synir. Þess getr Bjarni gullbrárskáld í kvæði því, er hann orti um Kálf Árnason:

[Vart þú[4] þar er vígs bað kosta
vígdjarfr[5] Haralds arfi,
kynnist[6] kapp þitt mönnum,
Kálfr! við Bokn austr[7] sjálfa;
gátut Gríðar sóta
gólig faung til jóla,
kendr vart þú fyrst[8] at falli[9]
flettu-grjóts eða[10] spjóta.
Öld fèkk íllt or gjöldum[11],
Erlíngr var þar fenginn,
óðu bleik[12] í blóði
borð fyrir Útstein norðan;
ljós er raun, at ræsir

1) glaðir, *C, F.* 2) á, *C, D.* 3) *vís v. í K.* 4) váttu, *E*; vástu, *F, H.* 5) vâpndjarfr, *hin.* 6) kunn þú, *E.* 7) of, *C.* 8) fyrstr, *B, C, D, E, H, K, S.* 9) fundi, *B, D, H, S.* 10) ok, *hin.* 11) deildum, *B, C, D, H, S.* 12) blökk, *B, H, S.*

ráðinn varð frá láði,
lögðust[1] lönd und Egða,
lið þeirra frá ek meira.

Fór Ólafr konúngr til þess at hann kom norðr um Stað, ok lagði til Hereyja, ok spurði þar þau tíðindi, at Hákon jarl hafði lið mikit í Þrondheimi. Síðan leitaði konúngr ráðs við lið sitt; Kálfr eggjaði mjök at leita til Þrondheims ok berjast við Hákon jarl, þótt liðsmunr væri mikill; því ráði fylgðu margir aðrir, var þá skotit til orskurðar konúngs.

170. Síðan hèlt konúngr til Steinavâgs, ok lá þar um nátt, en Áslákr fitjaskalli hèlt skipi sínu inn til Borgundar, dvaldist hann þar um náttina; þar var ok fyrir Vígleikr Árnason, en um morguninn, er Áslákr vildi gánga til skips síns, þá veitti Vígleikr honum atgaungu, ok hefndi Erlíngs. Nú koma menn til konúngs norðan or Frekeyjarsundi, hirðmenn konúngs, er heima höfðu setit um sumarit, ok sögðu honum þau tíðindi, at Hákon jarl ok margir menn með honum voru komnir um kveldit með mikit fjölmenni í Frekeyjarsund, ok vilja hann taka af lífi, ef þeir ætti vald á; en konúngr gjörði menn sína uppá fjall þat, er þar var; en er þeir kvâmu uppá fjallit, þá sá þeir norðr til Bjarkeyja[2], at norðan fór lið mikit ok mörg skip, ok fóru þegar ofan aptr, ok sögðu konúngi at herr mikill fór norðan, en konúngr lá

1) lögdot, *E*, *L*. 2) Bjarneyja, *C*, *E*, *D*, *H*; Frekeyja, *L*.

þar fyrir 12 skipum. Síðan lèt konúngr blása, ok tóku menn tjöld af skipum sínum, ok tóku menn til ára, en þá er þeir voru búnir ok þeir lögðu út or hafninni, þá fór herr Þrænda norðan fyrir Þjótandi, ok höfðu hálfan þriðja tög skipa; þá stefndi konúngr fyrir innan Nyrvi[1] ok inn um Húnkver[2]; en þá er þeir voru jafnfram Borgund, þá fór út skip ímóti þeim, er Áslákr hafði átt. En er hittu Ólaf konúng, þá segja þeir sín tíðindi, at Vígleikr Árnason hafði tekit af lífi Áslák fitjaskalla fyrir þat, er hann hafði vegit Erlíng. Konúngr lèt illa yfir þeim tíðindum, ok mátti hann þó eigi dvelja ferð sína fyrir úfriði, ok fór þá konúngr um Veggjarsund ok um Skot, þá skildist lið hans, fór þá Kálfr Árnason á brott ok margir aðrir lendir menn ok skipstjórnar menn, ok hèldu til móts við Hákon jarl, en Ólafr konúngr hèlt fram sinni ferð, ok lètti eigi fyrr enn hann kom á Róðrarfjörðinn[4] ok lagði at í Valdali[5], ok gekk hann þar upp af skipum sínum, ok hafði þá 6 skip, ok setti þar upp, ok fèkk þar til hirzlu segl ok reiða. Síðan setti hann þar landtjöld á eyrunum, sem Sult[6] heitir, ok eru þar fagrir vellir, ok reistu þar kross hjá á eyrunum; en

---

1) Nýtæfi, *D.* 2) Hundsver, *B*, *C*, *E*, *S*; Hundver, *K.* 3) Vegsund, *B*; Vígsund, *C*, *D*; Veigsund, *S*; Veggjaðarsund, *L.* 4) Róðarfjörð, *B*, *C*, *E*, *H*, *K*, *S.* 5) Valldali, *B*, *C*, *D*, *K*, *S.* 6) Sultr, *B*, *D*, *L.*

bóndi sá bjó á Mæri, er Brúsi hèt, ok var hann höfðíngi yfir dalnum; síðan kom Brúsi ofan ok margir bændr aðrir á fund Ólafs konúngs, ok fögnuðu vel konúngi, sem vert var, en hann gjörði sik blíðan ímóti fagnaði þeirra. Þá spurði konúngr, hvart fært væri þar or Dölunum ok á Lesjar. Brúsi segir, at urð sú var þar í dalinum, er Sefsurð heitir, ok er þar hvârki fært mönnum nè hrossum. Ólafr konúngr svarar: til munu vær hætta, Brúsi! tekst sem guð vill, ok komið hèr í morgin með eyki yðra ok sjálfa yðr, ok sjám, hverìr vextir á eru, þá er vær komum til[1] urðarinnar, hvârt vær megum þar nökkur brögð til sjá, at komast megi yfir með hrossum ok mönnum.

171. En er dagr kom þá fóru bændr ofan með eyki sína, svâ sem konúngr hafði mælt við þá, fluttu þeir þá í einu varnað sinn ok klæði, en allt liðit gekk ok svâ konúngrinn sjálfr, hann gekk þar til, er Njósbrekka[2] heitir, ok hvíldist er hann kom á brekkuna ok sat þar um hrið ok sá ofan í fjörðinn, ok mælti síðan: erfiða ferð hafa þeir fengit oss, lendir menn vorir, er nú hafa skipt um trúnaðinn, er um hríð voru vârir vinir ok fulltrúar; þar standa nú (krossar) 2 eptir í brekkunni, sem konúngr sat; konúngr stè þá á bak hesti, ok lètti eigi fyrr enn hann kom til urðar. Þá spurði konúngr Brúsa, hvârt

[1]) *Hèr sleppr E aptr.* [2]) Krossbrekka, *B*, *D*, *H*, *K*, *S*; Orósbrekka, *C*; Njósnbrekka, *F*; Moss, *L*.

nökkr sel væri þar, svâ at þeir mætti íbúa. Hann kvað vera. Konúngr setti landtjald sitt, ok voru þar um nóttina, en um morguninn þá bað konúngr menn sína fara til urðarinnar, ok freista ef þeir mætti koma vögnum yfir urðina; síðan fóru þeir til, en konúngr var heima; en at kveldi kvâmu þeir heim, hirðmenn konúngs, ok kváðust hafa haft mikit erfiði ok aungu á leið komit, ok sögðu þeir, at þar mundi aldrigi vegr yfir leggjast, ok voru þar aðra nátt, ok var konúngr á bænum alla þá nótt; en þegar er hann sá at dagaði, þá bað konúngr menn sína fara til urðarinnar, ok freista ef þeir gæti vögnum yfirkomit, þeir fóru ok voru trauðir ok segja at þeir mundu ekki geta atgjört; en er þeir voru farnir, þá kom sá maðr til konúngs, er rèð fyrir vistum þeirra, ok sagði konúngi, at eigi var vist meiri enn tvö nautaföll slátrs, en þú hefir nærr 4 hundruð þíns liðs. Þá mælti konúngr, at upp skyldi láta alla ketla ok í hvern ketil nokkut af slátri; ok svâ var gjört; en konúngr gekk til, ok gjörði yfir krossmark, ok bað þá búa mat; en konúngr fór til urðar, þar sem þeir skyldu veginn ryðja, en er konúngr kom þar, þá sátu þeir allir ok voru móðir af erfiði. Brúsi mælti: ek sagða yðr, herra! ok vildu þèr eigi trúa mèr, at ekki mætti vinna urð þessa. Síðan lagði konúngr af sèr skikkjuna, ok mælti, at þeir skyldu tilfara allir ok freista enn, ok var svâ

gjört, ok færðu nú þá steina þángat [20 menn[1], er þeir vildu [er áðr mátti eigi hræra hundrað menn[1], ok var vegrinn ruddr at miðjum degi, at fært var bæði mönnum ok hrossum, eigi verri með klyfjar, enn á slèttum velli. Síðan fóru þeir þángat sem vist þeirra var, ok nú heitir Ólafshellir; kelda er þar nær hellinum, ok þó konúngr sèr þarí; en er búfè manna verðr þar sjúkt í Dölunum ok drekkr þar af, þá batnar því skjótt. Síðan fór konúngr til matar, ok allt fólk hans, en þá er Ólafr konúngr var mettr, þá spurði (hann), hvârt nokkur sætur væri í dalinum upp frá urðinni ok nær fjallinu ok þeir mætti búa í um nóttina. Brúsi svarar: eru sel ok heita Gresúngar[2], ok má þar engi maðr vera um nótt fyrir tröllagángi ok meinvætta, er þar eru í sætrunum. Síðan mælti konúngr, at þeir skyldu fara ferðar sinnar, ok segir at hann vildi þar vera um náttina. Þá kom sá maðr til hans, er fyrir vistum rèð, ok segir at þar var úgrynni vista: ok veit ek eigi hvaðan komnar eru. Konúngr þakkaði guði sendíng sína, ok lèt gjöra margar byrðar bændum þeim, er ofan fóru eptir Dölunum, en konúngr var at sætrinu um nóttina, en at miðri nótt, er menn voru í svefni, þá lèt á stöðli afskræmiliga ok mælti: svâ brenna mik bænir konúngs, segir sú vættr, at eigi má ek vera at hýbýlum mínum, ok verð ek at flýja frá

[1]) *þannig hin, gjörmáð í A.* [2]) Grennìngar *og* Grenìngar, *hin.*

frá heimili mínu ok koma aldri hèr síðan; en um morguninn, er menn vökknuðu, þá fór konúngr til fjalls, hann mælti við Brúsa: hèr skal gjöra bæ, ok mun sá bóndi æ hafa sèr framdrátt, er hèr býr, ok aldri skal hèr frjósa korn, þótt bæði frjósi fyrir ofan ok fyrir neðan. Síðan fór konúngr yfir fjallit ok kom fram í Einbúa, ok var þar um nótt. Ólafr konúngr hafði þá verit konúngr yfir Noregi 15 vetr með þeim vetri, er þeir Sveinn jarl voru báðir, ok með þessum, er nú um hríð hefir verit frásagt, ok var þá liðit um jól fram, er hann lèt skip sín ok gekk á land upp, sem fyrr var sagt. Þessa grein konúngdóms hans ritaði Ari prestr Þorgilsson hinn fróði, er bæði var sannsögull ok minnigr, ok svâ gamall maðr at hann mundi þá menn ok hafði sögur haft af, at þeir voru svâ gamlir, at fyrir aldrs sakir máttu muna þau tíðindi, svâ sem hann hefir ritat á sínum bókum, ok nefndi þá menn til, er hann hefir fræði afnumit; en hitt er alþýðu sögn, at Ólafr konúngr væri 15 vetr konúngr yfir Noregi áðr hann fèll, en þeir er svâ segja, þá telja þeir Svein jarl til ríkis þann vetr, er hann var síðast í landi, þvíat Ólafr konúngr var síðan 15 vetr konúngr svâ at hann lifði.

172. Síðan er Ólafr konúngr hafði verit um nótt á Lesjum, þá fór hann um daginn eptir í Guðbrandsdali, en þaðan út á Heiðmörk, ok sýndist þá, hverir vinir hans voru,

þvíat þeir fylgðu honum, en hinir skildu við hann, er með minna trúskap honum höfðu þjónat, en sumir snèrust til úvináttu við hann ok fulls fjandskapar, sem bert varð, kendi þess mjök á um Upplendínga, at illa hafði þeim líkat aftaka Þóriss, sem fyrr var getit. Ólafr konúngr gaf heimfararleyfi mörgum mönnum sínum, þeim er bú áttu ok börn fyrir at hyggja, þvíat þeim þótti ósýnt, hverr friðr gefinn væri varnaði þeirra manna, ef landi brutt færi með konúngi; gjörði konúngr þá bert fyrir alþýðu, at sú var ætlan hans, at fara þá or landi, fyrst austr í Svíaveldi, ok gjöra þá ráð sitt, hvert hann sneyri þaðan, en bað svâ vini sína tilætla, at hann mundi þaðan ætla enn til lands síns aptr at leita ok til ríkis, ef guð lèði honum lángs lífs; sagði at þat var hugboð hans, at allt fólk í Noregi mundi enn vera allt þjónostubundit við hann: en ek munda ætla, sagði hann, at Hákon jarl muni litla stund hafa vald yfir landinu, ok mun mörgum mönnum eigi þikkja þat undarligt, þvíat Hákon jarl hefir fyrr skort hámíngju við mik; en hinu munu fáir trúa, þóat ek segi þat, er mèr býðr fyrir, er kemr til Knúts hins ríka, at hann mun á fárra vetra fresti vera dauðr ok farit allt ríki hans, ok mun eigi verða uppreist hans kynslóðar, ef svâ ferr, sem mín orð horfa til. En er konúngr hætti tali sínu, þá bjöggu menn ferð sína, ok snèri konúngr þá með þat lið, er honum fylgði, austr til Eiðaskógs,

þar var þá með honum Ástríðr drottníng, Úlfhildr ok Magnús son konúngs, Rögnvaldr Brúsason[1], þeir Árna synir, þorbergr, Finnr ok Árni[2] ok enn fleiri lendir menn, hafði hann gott mannval. Björn stallari fèkk heimfararleyfi, fór hann aptr til búss síns, ok margir aðrir vinir konúngs fóru aptr til búa sinna í leyfi konúngs; bað konúngr þess, at þeir skyldu hann vita láta, ef þau tíðindi gjörðist at hann bæri nauðsyn til at vita; býr konúngr þá ferð sína. Þat er at segja frá ferð Ólafs konúngs, at hann fór fyrst or Noregi austr um Eiðaskóg til Vermalands, en þaðan utí Vazbæ ok þaðan yfir skóg þann, sem leið liggr, ok kom fram á Neríki[3], þar var fyrir ríkr maðr ok auðigr, er hèt Sigtryggr; Ívar hèt son hans; Sigtryggr[4] var göfugr maðr; þar dvaldist konúngr lengi um vârit með Sigtryggi. En er sumraði þá bjó konúngr ferð sína ok fèkk sèr skip, fór hann um sumarit ok lètti eigi fyrr enn hann kom austr í Garðaríki á fund Jarazleifs konúngs ok þeirra Íngigerðar; Ástríðr drottníng ok Úlfhildr voru eptir í Svíþjóð, en konúngr hafði með sèr Magnús son sinn. Jarazleifr konúngr fagnar vel Ólafi konúngi, ok bauð honum með sèr at vera ok hafa þar land

1) Dagr ok Hríngr á Gautlandi, Finnr Haraldsson, Egill Hallsson, Tófi Valgautsson, þórðr digri systurson Einars þambarskelfis, þorsteinn Ragnhildarson, tveir íslenzkir menn, Einar ok þórðr, þorleifr kveikr og þorleifr hvíti, *b. v. F.* 2) ok Kolbeinn, Gissur gullbrárskáld, þormóðr kolbrúnarskáld, *b. v. F.* 3) Náriki, *F*, *L*; Anaríki, *K.* 4) er síðan, *hin.*

til slíks kostnaðar, sem hann þurfti at halda lið sitt með; þat þekkist Ólafr konúngr, ok dvaldist hann þar. Svâ var sagt at Ólafr konúngr var siðlátr ok bænrækinn til guðs alla stund æfi sinnar; en síðan er hann fann at mótstöðumenn hans efldust, en ríki eyddist, þá lagði hann allan hug á at gjöra guðs þjónostu; dvaldi hann þá ekki frá aðrar áhyggjur eðr þat starf, er hann hafði með höndum haft, þvíat hann hafði alla þá stund, er hann sat í konúngdómi sínum, starfat þat, er honum þótti mest nytsemi í vera, fyrst at friða ok frelsa landit af áþján útlendra manna ok höfðíngja, en síðan at snúa fólkinu á rètta trú ok þar með at setja lög ok landsrètt, ok þann hlut gjörði hann fyrir rèttlætis sakir at hegna þá er rángt gjörðu. Þat hafði verit mikill siðr í Noregi, at lendra manna synir eðr ríkir bændr fóru á herskipum ok öfluðu sèr svâ fjár, at þeir herjuðu bæði utanlands ok innanlands; en síðan er Ólafr tók konúngdóm, þá friðaði hann land sitt, svâ at hann tók af rán öll þar í landi, ok lagði svâ ríkt við, at hann lèt aungu öðru fyrir koma, enn þeir (lètu) líf eða limar, hvârki tjóði bæn manna nè fèboð þar fyrir. Svâ segir Sighvatr skáld:

Gull buðu opt, þeir er ollu
úthlaupum gram kaupast,
rètt[1] en ræsir atti[2]
ríklunduðum, undan[3];

[1]) rautt, *hin.* [2]) nitti, *C, F, H, K*; neitti, *hin.* [3]) slíku, *B.*

skör lèt[1] hann með hjörvi,
herland skal svâ verja,
raun[2] biðu rekka[3] trjónur[4]
rifsíng, konúngr[5] hnefsa[6].
Leiddi[7] mest sá er meiddi,
margdýrr konúngr vörgum[8]
hinna[9] ætt [at hlanna[10],
hann[11] stýfði[12] svâ þýfða;
þýðr lèt þerflast[13] bæði
þjóf hvern konúngr ernan,
frið bætti hann svâ, fóta,
fýkir[14] lands, ok handa.
Vissi heldr[15] þar er hvössum
hundmörgum lèt grundar[16]
vörðr með vâpnum skorna[17]
víkíngum skör ríkis;
mildr hefir mörgu[18] valdit
Magnúss faðir gagni,
frændr[19] Ólafs kveð ek frömdu[20]
flestan sigr, hins digra.

Hann lèt jafna refsíng hafa ríkan sem úríkan, en þat þótti landmönnum ofrefli ok fyltust

1) bar, *B*; bað, *C*, *D*, *H*, *S*. 2) rán, *C*, *D*, *H*, *K*, *S*. 3) rèttrar, *B*; rekkar, *hin*. 4) sýnar, *B*; sýna, *C*; sona, *D*, *S*; þínir, *H*. 5) fírum, *B*, *C*, *D*, *S*. 6) efsa, *B*; efla, *D*; ofsa, *S*. 7) fæddi, *B*, *C*, *D*, *H*, *K*, *S*. 8) várga, *B*, *C*, *D*, *H*, *K*, *S*. 9) vinna, *C*, hvinna, *hin*. 10) ok hlenna, *B*, *C*, *D*, *H*, *S*. 11) herr, *B*, *C*, *S*. 12) skýfði, *K*. 13) þarnast, *B*, *H*; þermlast, *C*, *F*; þrífast, *L*; þramlasc, *S*. 14) fylkis, *B*, *C*, *D*, *K*, *S*; fylkir, *F*. 15) helzt, *B*, *C*, *D*, *S*. 16) grandat, *K*. 17) skerða, *B*, *C*, *S*. 18) mörgum, *K*. 19) fremd, *F*, *L*; frægð, *H*. 20) fundu, *C*.

þeir fjandskapar í móti, er þeir lètu frændr sína at dómi konúngs, þótt sakir væri sannar; var þat upphaf til þeirrar uppreistar, er lendir menn höfðu í móti Ólafi konúngi, at þeir þoldu honum eigi rèttindi, en hann vildi heldr láta af tign enn af rèttlæti, en eigi var honum sú sök rèttfundin, at hann væri hnaggr[1] við sína menn, þvíat hann var hinn mildasti við vini sína; en þat bar til, at menn reistu ófrið ímóti honum at mönnum þótti (hann) harðr ok refsíngasamr. En Knútr bauð fram of fjár, en þó urðu stórir höfðíngjar af hinu (mest) blektir, er hann hèt hverjum tign ok ríki, ok þat með, at menn voru fúsir í Noregi at taka við Hákoni jarli, þvíat hann var hinn vinsælasti maðr af landsmönnum þá fyrr, er hann rèð fyrir landinu.

173. Hákon jarl hafði þá haldit liði sínu or Þrándheimi ok farit á mót Ólafi konúngi suðr á Mæri, sem fyrr var ritat; en er konúngr hèlt inn í fjörðinn, þá sótti jarl eptir honum, kom þá til móts við jarl Kálfr Árnason ok fleiri menn, þeir er skildust við Ólaf konúng; var Kálfi þar vel fagnat. Síðan hèlt jarl inn þángat at, sem konúngr hafði uppsett skip sín í Róðrarfjörð[2] í Valdal, tók jarl þar skip þau, er konúngr átti, ok lèt framsetja skipin ok búa, voru þar menn skipaðir til skipstjórnar. Sá maðr var með jarli, er Jökull hèt, íslenzkr maðr, son Bárðar Jökuls-

---

1) sparr, *C*; harðr, *K*; hnögg, *hin.* 2) þannig *B*, *D*, *K*, *S*, *og síðu* 19 *hèr at framan hefir A þat einnig*; Koðrafjörð *hèr A.*

sonar or Vazdal. Jökull hlaut at stýra Vísund, er Ólafr konúngr hafði átt; Jökull orti þá vísu þessa:

Hlaut ek frá[1] Sult, en sóta[2],
síðfregn at ek kvíða,
vân erum hreggs at hreini
hlýr-vags[3], skipi stýra;
því er óstrætis[4] atti,
Óleifr vala[5] kleifar,
gramr var sjálfr[6] á sumri
sigri ræntr, hinn digri.

Þat er hèr skjótast af at segja, er síðar varð miklu, at Jökull varð fyrir liði Ólafs konúngs ok varð hann handtekinn, ok lèt konúngr hann til höggs leiða, var vandr snúinn í hár honum, ok hèlt á maðr; settist Jökull niðr á bakka nokkurn, þá rèð maðr til at höggva hann, en er hann heyrði hvininn, rèttist hann upp ok kom höggit í höfuð honum, ok varð mikit sárit; sá konúngr at þat var banasár, bað hann þá hætta. Jökull sat þá upp ok orti vísu þessa:

Svíða sár af mæði
setit hefik opt við betra[1],
und er á oss, sú er sprændi,
ótrauðr[7], legi rauðum;
býss mèr blóð or hausi[8]

---

1) fyrir, *K.* 2) sæta, *hin.* 3) vísundi, *H*; vángs, *hin.* 4) ýstèttar, *B*, *H*, *S*; eistrætis, *C*; óstettar, *D.* 5) funa, *B*, *D*, *H*, *S*; haka, *hin.* 6) snjallr, *S.* 7) ótrauð, *hin.* 8) þessi, *B*, *C*, *H*, *S.*

ben, tè[1] ek við þrek venjast,
verpr hjálm-göfugr hilmir
heitsær[2] á mik reiði.

Ok þá dó Jökull þegar.

174. Kálfr Árnason fór með Hákoni jarli norðr til Þrándheims, ok bauð jarl honum til sín, at gjöra hann höfðíngja. Kálfr segir, at hann mundi fyrst fara inn á Eggju til bú síns, ok láta síðan gjöra ráð sín. Kálfr gjörði svâ; en er hann kom heim, þá fann hann þat brátt, at Sigríð, kona hans, var heldr stór, ok taldi upp harma sína, þá er hún þóttist hafa hlotit af Ólafi konúngi, þat fyrst, at hann lèt drepa bónda hennar Ölvi, en nú, segir hún, sonu mína tvâ, ok vart þú, Kálfr! at aftöku þeirra, ok mundi mik þess sízt vara. Kálfr segir, at þat var mjök at hans úvilja, er Þórir var af lífi tekinn; bauð ek, segir hann, fè fyrir hann; en þá er Grjótgarðr var feldr, lèt ek þá Ásbjörn[3], bróður minn. Hún svarar: vel er þat, segir hún, er þú hlauzt slíkt af konúngi, þvíat vera má þat, at þú vilir hans hefna, þóttu vilir eigi hefna minna harma, sátt þú þat, er Þórir var drepinn, stjúpson þinn, hversu mikils konúngr virði þik þá; þvílíkar harmtölur hafði hún jafnan uppi fyrir Kálfi. Hann svarar opt stuttliga; en þó varð hitt at lyktum at hann leiddist eptir fortölum hennar, ok hèt því at gjörast jarls maðr, ef hann vildi auka veizlur hans. Sigríð lèt senda

[1]) *skrifast* tæ *í B, L.* [2]) heiðsær, *hin.* [3]) Arnbjörn, *hin.*

orð jarli, ok segir hvar þá var komit um mál Kálfs. En þegar er jarl varð þess viss, þá sendi han orð Kálfi, at hann skyldi koma á fund jarls. Kálfr sagðist þá ferð eigi skyldu undir höfuð leggjast, ok fór litlu síðar til Niðaróss, ok fann þar Hákon jarl; fèkk hann þar góðar viðtökur, ok áttu þeir jarl tal sitt, kom allt ásamt með þeim, ok rèðu þeir þá, at Kálfr gjörðist handgenginn jarli, ok tók af honum veizlur stórar. Síðan fór Kálfr heim til búss síns; hafði hann þá mest yfirsókn allt inn í Þrondheim; en þegar er vâraði bjó Kálfr ferð sína, ok bjó skip sitt, er hann átti, en þá er hann var búinn, þá sigldi hann ok hèlt skipi sínu vestr til Englands, því at hann spurði þar til Knúts konúngs, at hann sigldi vestr til Englands; þá hafði Knútr konúngr gefit jarldóm[1] Haraldi, syni Þorkels háfa; Kálfr Árnason fór þegar á fund Knúts konúngs, er hann kom til Englands. Svâ segir Bjarni gullbrár skáld:

Austr rèð allvaldr rista
ótala-hafstáli,
varð at vitja garða
vígmóðr Haralds bróðir;
en um iðnir manna
emka[2] ek þarfr[3] at samna[4]
skrökkvi, at skilnað ykkarn
skjótt lèzt þú Knút of sóttan.

[1]) í Danmörku, *b. v. S.* [2]) emkat, *D.* [3]) tamr, *hin.* [4]) sanna, *B, F, L.*

En er Kálfr fór á fund Knúts konúngs, þá fagnaði konúngr honum vel, ok hafði hann á tali við sik, ok var þat í tali Knúts konúngs, at hann beiddi Kálf þess, at bindast fyrir at veita uppreist í móti Ólafi konúngi, ef hann leitaði aptr í land: en ek mun, segir Knútr konúngr, gefa þèr jarlsnafn ok láta þik ráða Noregi; en Hákon frændi minn skal fara til mín, ok er honum þat bezt fallit, þvíat hann er sá heilhugi, at ek ætla hann eigi einn skapti skjóta í móti Ólafi konúngi, þótt þeir finnist. Kálfr hlýddi á þat, er Knútr mælti, ok gjörðist hann fúss til tignarinnar, staðfestist sú ráðagjörð með Knúti konúngi ok Kálfi; bjóst Kálfr til ferðar, ok at skilnaði gaf Knútr konúngr honum gjafir góðar; þess getr Bjarni:

Allt[1] átt þú Englands drottni
ógnrakkr gjafir[2] þakka,
jarlsniðr[3]! komtu yðru
ótala-vel mali;
þèr lèt fold, áðr færir,
frest urðu þess, vestan,
líf þitt erat líttit,
Lundúnu-gramr fundit[4].

Síðan fór Kálfr aptr til Noregs ok kom heim til búss síns.

175. Hákon jarl fór þat sumar or landi ok vestr til Englands; en er hann kom þángat

1) *v. í hin.* 2) í guði, *C.* 3) jarlsvinr, *D.* 4) fundna, *B*, *H*, *S.*

fór hann á fund Knúts konúngs. Fagnaði konúngr honum vel. Jarl átti festarmey á Englandi, ok fór hann þess ráðs á vit, ok ætlaði at gjöra brúðkaup sitt í Noregi, en at afla til á Englandi þeirra fánga, er honum þótti torfengust í Noregi. Bjóst jarl til heimferðar um haustit, ok varð heldr síðbúit; sigldi hann í haf, þá er hann var búinn; en frá ferð hans var ekki at segja annat, enn skip þat týndist ok komst engi maðr af; en þat er sumra manna sögn, at skip hafi sèzt norðr fyrir Kathanesi síð dags í stormi miklum, ok stóð veðrit út at Petlandsfirði; segja þeir svâ, er slíku vilja fylgja, at skipit muni rekit hafa í svelginn, en hitt vita menn með sannindúm, at Hákon týndist í hafi, ok ekki kom á land, þat er í því skipi var. Þat sama haust sögðu kaupmenn þau tíðindi, at menn hugðu at jarl væri týndr, en hitt vissu menn, at hann kom eigi í Noreg á því hausti, ok land var höfðíngja laust.

176. Björn stallari var heima at búum sínum, síðan er hann hafði skilizt við Ólaf konúng. Björn var frægr maðr, ok spurðist þat brátt, at hann sat um kyrt; spurði þat Hákon jarl ok aðrir landráðamen; síðan gjörðu þeir menn ok orðsendíngar til Bjarnar, fóru þeir er sendir voru ok framkvomu, tók Björn vel við þeim; síðan kallaði hann sendimenn til sín, ok spurði eptir eyrindum; en sá, er fyrir þeim var,

mælti, ok bar kveðju Birni Knúts konúngs ok Hákonar jarls ok fleiri höfðíngja, ok þat með, segir hann, at Knútr konúngr hefir spurn mikla af yðr, ok svâ um þat, at þú hefir lengi fylgt Ólafi konúngi ok verit úvin Knúts konúngs, ok þikkir oss þat illa, þvíat hann vill vera vinr þinn, sem allra annarra dugandi manna, þegar er þú vill af hverfa at vera hans úvin, ok er þèr nú sá einn til, at snúast til hans trausts ok vináttu, sem nógt er at leita, ok láta allir menn sér þat sóma í Norðrhálfu heimsins; megu þèr þat líta, er fylgt hafið Ólafi konúngi, hversu hann hefir skilizt með yðr, er þèr eruð nú allir traustlausir fyrir Knúti konúngi ok hans mönnum, en þèr herjuðuð land hans hit fyrra sumarit ok drápuð vini hans, ok er með þökkum at taka þetta, er konúngr býðr sína vináttu, ok væri hitt makligra, at þú bæðir hann til eða byðir fè til vináttu. En er hann hafði lokit sínu máli, þá svarar Björn ok segir svâ: ek vil nú sitja um kyrt at búum mínum ok þjóna ekki höfðíngjum. Sendimaðr svarar: slíkt er konúngsmenn, sem þú ert, kann ek þèr þat at segja, at þú átt 2 kosti fyrir höndum, sá annar, at fara útlagi af eignum þínum, svâ sem nú ferr Ólafr fèlagsmaðr yðvarr; sá er kostr annar, er sýniligri mun þikkja, at taka við vináttu Knúts konúngs ok Hákonar jarls, ok gjörast þeirra maðr, ok selja til þess trú sína; en tak hèr mála þinn; steypti fram ensku

silfri or miklum sjóð. Björn var maðr fègjarn, ok var hann hugsjúkr mjök, ok þagnaði, er hann sá silfrit, hugði þá at fyrir sèr, hvat af skyldi taka, þótti mikit at láta eignir sínar, en þótti óviss uppreist Ólafs konúngs at verða mundi í Noregi. En er sendimaðr sá, at Birni gekst hugr við fèit, þá kastar hann gullhríng[1], ok biðr Björn viðtaka, ok sverja eiðinn: ek heit þèr því, at þetta fè er lítils vert hjá því, er þú munt fá, ef þú sækir heim Knút konúng; en af mikilleik fjárins ok heitum góðum, þá varð hann snúinn til fègirni, ok tók síðan upp fèit ok gekk til handgaungu ok eiða við Knút konúng ok Hákon jarl. Fóru sendimenn þá heim.

177. Björn stallari spurði þessi tíðindi, er sagt var, at Hákon jarl væri týndr, þá sneyrist skjótt skaplyndi hans; iðraðist hann þess, at hann hafði brugðit trú sinni við Ólaf konúng, þóttist hann þá lauss þeirra einkamála, er hann hafði veitt Hákoni jarli til hlýðni, þótti Birni þá nokkor vân uppreistar um ríki Olafs konúngs, ef hann kvæmi til Noregs, er þar var þá höfðíngjalaust fyrir. Býr Björn þá ferð sína skyndiliga, ok hafði með sèr nokkura menn, ok fór síðan dag ok nátt ferðar sinnar, þar til á hestum, er hann má þat, en þat á skipum, er svâ mátti, ok lètti eigi fyrr ferð sinni, enn hann kom um vetrinn á

[1]) gullhríngum 2 digrum, *hin.*

jólum í Garðaríki á fund Ólafs konúngs, ok varð konúngr allfeginn, er Björn hitti hann; spurði konúngr margra tíðinda norðan or Noregi. Björn segir konúngi at Hákon jarl var týndr, ok land var höfðíngjalaust. Þeim tíðindum urðu margir menn fegnir, þeir er Ólafi konúngi fylgðu or Noregi, ok þar höfðu átt eignir ok frændr ok vini, ok lèku landmunir at at fara aptr til Noregs. Mörg önnur tíðindi segir Björn or Noregi, þau er konúngi var mikil forvitni á at vita. Þá spurði konúngr Björn eptir vinum sínum, hvernveg at þeir hèldi trúnað við hann. Björn segir, at þat var misjafnt. Síðan stóð Björn upp ok fèll til fóta konúngi, ok tók um fót konúngi, ok mælti: allt á guðs valdi ok yðru, herra! ek hefir tekit fè af Knúts mönnum, ok svarit þeim trúnaðareiða, en nú vil ek yðr fylgja ok aldri við yðr skiljast, meðan við lifum báðir. Konúngr svarar: statt þú upp, Björn! sáttr skalt þú við mik, en bæt þú við guð þetta; vita má ek þat, at fáir munu þeir vera í Noregi, at einörð sinni haldi við oss, er slíkir brugðust viðr oss, sem þú ert, er þat satt, at menn sitja í miklum vanda, er ek er fjarri, en sitja fyrir úfriði fjandmanna vârra. Björn segir konúngi frá því, hverir mest bundust fyrir at reisa fjandskap í móti konúngi ok hans mönnum; nefndi hann til þess sonu Erlíngs á Jaðri ok aðra frændr þeirra, Einar Þambaskelfi ok Kálf Arnason, Þóri hund ok Hárek or Þjóttu.

178. Síðan er Ólafr konúngr var kominn

í Garðaríki, hafði hann stórar áhyggjur ok hugsaði, hvat ráð hann skyldi upp taka. Jarizleifr konúngr ok Íngigerðr drottníng báðu Ólaf konúng at dveljast þar ok taka upp ríki þat, er heitir í Valgaría[1], ok er þat einn hlutr af Garðaríki, ok var þat fólk allt heiðit í því landi. Ólafr konúngr hugsaði opt fyrir sèr þetta boð, en er hann bar þetta ráð fyrir vini sína, þá löttu allir at staðfestast þar, ok eggjuðu konúng at leita norðr til Noregs til ríkis síns; konúngr hafði þat enn í ráðagjörð sinni, at leggja niðr konúngsnafn ok fara út í heim til Jórdanar ok til Jórsala, eðr í aðra helga staði, ok gánga undir regluhald. Þat taldist optast í huginn at hugsa, ef nökkur mundi til verða, at hann næði aptr ríki sínu í Noregi, en er hann hafði þar á huginn, þá minntist hann þess, at hina fyrstu 10 vetr konúngdóms hans voru honum allir hlutir hagfeldir ok farsælligir, en síðan var honum hagr sinn þúnghrærðr ok torsótt allt, ifaði hann um fyrir þá sök, hvârt þat mundi vera vitrligt ráð at treysta svâ hamíngju með lítlum styrk í hendr úvinum sínum, er allr landsmúgrinn hafði tilslegizt at veita honum mótgaungu. Slíkar áhyggjur bar hann optliga í hug sèr, ok skaut til guðs sínu máli, ok bað hann þat láta uppkoma, er hann sæi at bezt gegndi; valkaði hann þat í huginum, ok vissi eigi hvat hann skyldi aftaka, þvíat honum sýndist mein[2]

[1]) Vúlgaria, *B*, *K*, *S*; Ulgaria, *C*, *H*. [2]) *þannig hin*; meiri, *A*.

auðsýn á því, semhann taldi upp fyrir ser. Þat var á einni nótt, er Ólafr konúngr lá í reykkju sinni, ok vakti lengi um náttina, ok hugði at ráðagjörð sinni, ok hafði stórar áhyggjur ískapi, en er hugrinn mæddist mjök, þá seig á hann svefn ok þó svå lauss, at hann þóttist vaka ok sjá öll tíðindi í húsinu, hann sá mann mikinn ok vegligan ok hafði klæðnað dýrligan; bauð konúngi þat í hug, at þar mundi vera konúngrinn Ólafr Tryggvason; sá maðr mælti við hann: ert þú mjök hugsjúkr um ráðagjörð þína, hvert ráð þèr skulið upptaka; þat þikki mèr undarligt, er þèr velkið þat ráð fyrir yðr þetta, ok ef þèr ætlið þat fyrir yðr, at leggja niðr konúngsnafn þat er guð hefir gefit yðr; slíkt hit sama sú ætlan, at vera hèr ok þiggja ríki af útlendum konúngi ok yðr úkunnum; fari þèr heldr aptr til ríkis yðvars, er þèr hafið at erfðum tekit ok ráðit lengi fyrir, með þeim styrk, er guð gaf yðr, ok lát eigi undirmenn yðra ráða yðr; þat er konúngs frami at sigrast á úvinum sínum, en vegligr dauði at falla í Noregi[1] með liði sínu; eða ifi þèr nokkut, at þèr hafið rètt at mæla í yðvarri deilu, eigi skulu þèr þat gjöra, at dylja yðr sjálfir sannleiks, fyrir því megi þèr djarfliga sækja til landsins, at guð mun bera yðr vitni, at þat er yðr eiga. En er konúngr vaknaði, þá þóttist hann sjá svip mannsins, er á brutt gekk; en þaðan ífrá herði hann huginn

[1]) orrostu, *B*, *D*, *H*, *K*, *L*, *S*.

ok einhverfði þá ætlan sína fyrir sèr at fara til ríkis síns í Noregi, svâ sem hann hafði áðr verit fúsastr[1], ok fann at allir hans menn vildu helzt vera láta; taldi hann þat í hug sèr, at landit mundi vera auðsótt, er höfðíngjalaust var, svâ sem hann hafði spurt; ætlaði, ef hann kvæmi sjálfr til, at margir mundu þá honum veita. En er konúngr birti ráðagjörð sína fyrir sínum mönnum, þá tóku því þakksamliga allir menn.

179. Þat er sagt, at sá atburðr varð í Garðaríki, þá er Ólafr konúngr var þar, at son einnar göfugrar ekkju fèkk kverkasull, ok sótti svâ mjök, at sveinninn mátti eigi mat neinum niðr koma, ok þótti hann banvænn vera; móðir sveinsins gekk til Íngigerðar, drottníngar, þvíat hún var kunn henni, ok sýndi henni sveininn. Drottníng segir, at hún kunni þar engvar lækníngar til at leggja: gakk þú, segir hún, til Ólafs konúngs, hann er hèr læknir beztr, ok bið hann fara höndum um kverkr sveinsins, ok ber til orð mín, ef hann vill eigi elligar. Hún gjörði svâ sem drottníng mælti, en er hún fann konúng, þá segir hún honum at sveinn hennar var banvænn af kverkasull, ok bað hann fara höndum um. Konúngr segir, at hann var eigi læknir, bað hana fara þángat sem læknar voru. Hún segir, at drottníng hafði henni þángat vísat: ok bað mik sín orð tilsenda, at þèr legð-

1) *Hèr sleppr C um sinn.*

uð lækníng til, sem þèr kynnið bezt, ok hún sagði mèr, at þèr kynnið bezt hèr í landi. Síðan fór konúngr til, ok fór höndum um kverkr sveininum, ok þuklaði sullinn, til þess er sveinninn hrærði munninn, þá tók konúngr brauð ok braut ok lagði í kross í lófa sèr, síðan lagði hann þat í munn sveininum, en hann rendi niðr, ok þaðan af tók or verkinn or kverkunum, ok varð hann á fám dögum alheill. Móðir hans varð feginn ok allir frændr; þá var furst á þann veg virt, at Ólafr konúngr hefði svâ miklar læknis hendr, sem mælt er um þá menn, er mjök er sú íþrótt lagin, at þeir hafi hendr góðar, en síðan er jartegnagjörð hans varð alkunn vorðin, þá tekit fyrir sannar jartegnir.

180. Síðan er Ólafr konúngr hafði ráðit fyrir sèr at hann mundi snúast til heimferðar, þá bar hann þat upp fyrir Jarazleif konúng ok Ingigerði drottníngu; þau löttu hann þeirrar ferðar, sögðu þau, at hann skyldi hafa í þeirra ríki þat veldi, er honum þætti sèr sæmiligt, en báðu hann eigi fara á vald úvina sinna með svâ lítinn liðskost, sem hann hafði þar; sagði Ólafr konúngr drauma sína ok þat með, at hann kvaðst hyggja, at þat væri guðs vili ok forsjá. En er þau fundu at hann hafði ráðit fyrir sèr at fara aptr til Noregs, þá buðu þau honum allan þann fararbeina, er hann vildi af þeim þiggja. Konúngr þakkar þeim með fögrum orðum sinn góð-

vilja, segir, at hann vill fúss þiggja af þeim þat er hann þarf til ferðar sinnar.

181. Þegar á bak jólum hèlt Ólafr konúngr á buníngi, hann hafði nær 2 hundruð manna sinna; fèkk Jarazleifr konúngr þeim öllum eyki ok þarmeðreiða, svâ sem þeir þurftu. En er konúngr var búinn, þá fór hann; leiddi Jarazleifr konúngr hann ok Íngigerðr drottníng út vegsamliga; Magnús son sinn lèt hann vera eptir hjá þeim; fór Ólafr konúngr austan fyrst at freyrum allt til hafs, en er vâraði ok ísa leysti, þá bjuggu þeir skip sín, en er þeir voru búnir ok byr gaf, þá sigldu þeir ok greiddist ferð þeirra vel, ok kom Ólafr konúngr skipum sínum við Gautland, spurðu þar tíðindi bæði af Svíaveldi ok Danmörk; ok norðan var spurt til sanns, at Hákon jarl var týndr, en land var höfðíngjalaust í Noregi; þótti konúngi þá ok hans mönnum vænt um sína ferð, sigldu þaðan, þá er byr gaf, ok hèldu til Svíþjóðar, lagði konúngr skipum sínum[1] inn í Lögin, ok hèlt upp í landit til Áróss, ok gjörði síðan menn á fund Önundar konúngs, ok lagði stefnu við hann. Önundr konúngr varð vel við orðsendíng mágs síns, ok fór til fundar Ólafs konúngs, svâ sem hann hafði orð til sendt; kom þá til Ólafs konúngs Ástríð drottníng með þá menn, er henni höfðu fylgt, varð þar fagna fundr. Fagnar Svía konúngr vel mági sínum, er þeir hittast.

182. Nú skal segja, hvat bændr höfðust at

[1]) *Hèr byrjar G aptr.*

í Noregi um þessar stundir. Þórir hundr hafði Finnferð haft þessa 2 vetr, ok hafði verit lengi hvârntveggja vetr á fjalli uppi, ok fengit óof fjár[1], hann hafði átt mörg kaup við Finna. Hann lèt gjöra sèr 12 hreinbjálba með svâ mikilli fjölkýngi, at ekki vâpn festi á, ok síðr myklu enn á brynju; en hit síðara sumarit bjó Þórir lángskip, er hann átti, ok skipaði húskörlum sínum; hann stefndi saman bændum, ok krafði leiðángrs allt um hina vestri[2] þíngá[3], ok dró saman mikit fjölmenni, ok fór hann norðan um vârit. Hárekr or Þjóttu hafði ok mikinn liðsamnað, ok fèkk mikit lið, ok urðu til ferðar þessarar miklu fleiri virðíngamenn, þóat þessir sè ágætastir, lýstu þeir yfir því, at þessi herr allr skyldi fara í móti Ólafi konúngi ok verja honum land, ef hann kvæmi austan. Einar Þambaskelfir hafði mest forráð um Þrándheim, síðan er lát Hákonar jarls spurðist, þvíat Einari þóttu þeir feðgar vera bezt komnir til eigna þeirra ok lausafjár, er jarl hafði átt; minntist Einar þá fyrirheita þeirra ok ummæla þeirra, er Knútr konúngr hafði veitt honum at skilnaði, lèt þá Einar búa skip gott, er hann átti, gekk hann þar á sjálfr ok mikit föruneyti; en er hann var búinn, þá hèlt hann skipi því á fund Knúts konúngs; fagnaði konúngr honum vel. Síðan bar Einar upp eyrindi sín fyrir Knút konúng, ok

1) *Hèr byrjar E aptr.* 2) næstu, *B, D, E, G, S.* 3) þínghá, *D, E, G, S.*

segir, at hann er kominn at vitja heita þeirra, er konúngr hafði mælt, at Einar skyldi bera tignarnafn yfir Noregi, ef jarls væri eigi við kostr. Knútr konúngr segir, at mál þat vissi allt á annan veg við: hefir ek nú, segir hann, (sent) menn ok jartegnir til Danmerkr til Sveins sonar míns, ok þat með, at ek hefir gefit honum ríki í Noregi, en ek vil halda við þik vináttu, skaltu hafa þvílíkar nafnbætr af mèr, sem þú hefir burði til, ok vera lendr maðr. Sá Einar þá hlut sinn, hvert hans eyrindi mundi verða, býst hann þá til heimferðar, en er hann vissi fyriræetlan Knúts konúngs, ok svâ at mikil vân var á, at Ólafr konúngr mundi koma austan, ok ekki væri friðsamligt í landi, kom Einari þat í hug, at eigi mundi undir at hrapa [ferðinni meirr enn svâ sem hagligast væri, ef þeir skyldi berjast við Ólaf konúng, en hafa[1] ekki til framkvæmdar ríkis[2] síns þá heldr enn áðr. Sigldi Einar þá í haf, þegar er hann var at því búinn, ok kom þá til Noregs, er fram voru áðr komin þau svik ok tíðindi, er þá gjörðist á því sumri.

183. Höfðíngjar í Noregi hèldu njósn austr til Svíþjóðar ok suðr til Danmerkr, ef Ólafr konúngr kvæmi austan or Garðaríki, fengu þeir þegar spurt, þá er Ólafr konúngr var kominn or Garðaríki til Svíþjóðar, en þegar er þat var spurt, þá fór herboð um landit allt, var stefnt

---

[1]) *þannig E og hin, v. í A; hèr sleppr K um sinn.* [2]) máls, *G.*

út almenníngi at liði, kom þar saman mikill herr; en þeir lendir menn, er voru af Ögðum ok Rogalandi ok Hörðalandi, þá skiptust þeir, snöru sumir norðr, en sumir austr, ok þótti hvartveggja liðs viðþurfa; snèru austr synir Erlíngs af Jaðri með lið þat allt, er austr var frá þeim, ok voru þeir þar höfðíngjar fyrir því liði; en norðr sneyri Áslakr af Finneyjum ok Erlendr or Gerði ok aðrir lendir menn, þeir er voru þaðan norðr; þessir, er nú voru nefndir, voru allir eiðsvarar Knúts konúngs til þess at ráða Ólaf af lífi, ef þeim gæfi færi á því.

184. En er þat spurðist í Noreg, at Ólafr konúngr var kominn austan til Svíþjóðar, þá sömnuðust saman vinir hans, er honum vildu lið veita; var í þeim flokki tignastr maðr Haraldr Sigurðarson, bróðir hans, hann var þá 15 vetra gamall, mikill maðr vexti ok málsnjallr; margt var þar annat göfugra manna; þeir fengu alls 6[1] hundruð manna, þá er [voru af[2] Upplöndum, ok stefndu með lið þat allt austr um Eiðaskóg til Vermalands; síðan stefndu þeir austr til Svíþjóðar, ok spurðust fyrir um ferðir Ólafs konúngs. Ólafr konúngr var í Svíþjóð um vârit, ok hafði hann þaðan njósnir norðr í Noregi, ok fèkk þaðan þá eina spurn, at úfriðsamligt mundi þángat at fara, ok þeir menn, er norðan kvâmu, löttu hann mjök at fara í landit; hann hafði einráðit fyrir sèr at fara sem áðr. Ólafr konúngr spurði Önund konúng, hvern styrk at hann

[1]) 5, *G*, *H*. [2]) þeir voru *í*, *G*, *H*, *L*; fóru af, *hin*.

mundi fá honum at sækja land sitt. Önundr sagði honum at [sumum mönnum[1] var lítit um at fara í Noreg herför, segir hann, at Norðmenn eru harðir ok orrostumenn miklir: skal ek eigi seint segja yðr, hvat ek vil tilleggja, mun ek fá yðr 4 hundruð manna, ok velja af hirðmönnum vorum góða hermenn ok velbúna til bardaga, síðan vil ek gefa yðr lof til, at þèr farið yfir land vort ok fáið slíkt lið allt, er þèr megið ok yðr vill fylgja. Ólafr konúngr tók þenna kost, bjóst síðan leiðar sinnar. Drottníng var eptir í Svíþjóð ok Úlfhildr konúngsdóttir.

185. En er Ólafr konúngr hóf ferð sína, þá kom til hans lið þat[2], er Svíakonúngr fèkk honum, var þat fjögur hundruð manna; ferr konúngr er Svíar kvâmu; fyrst stefndu þeir uppá land til Marka, ok kvâmu þar fram, er kallat er Járnberaland, kom þar í móti konúngi lið þat, er farit hafði af Noregi til móts við hann, sem fyrr var sagt, hitti hann þá Harald, bróður sinn, ok marga aðra frændr sína ok vini; var þar hinn mesti fagnafundr; höfðu þeir þá allir saman 12 hundruð manna.

186. Dagr er maðr nefndr, hann var son Hríngs konúngs, þess er land hafði flýtt fyrir Ólafi konúngi; en menn segja at Hríngr væri son Dags Hríngssonar, Haraldssonar hins hárfagra. Dagr var frændi Ólafs

[1]) Svíum, *hin.* [2]) *Hèr er E lokit að fullu.*

konúngs; þeir feðgar Hríngr ok Dagr höfðu staðfezt í Svíaveldi, ok höfðu þar fengit ríki til forráða. Um vârit er Ólafr konúngr var kominn austan til Svíþjóðar, sendi hann orð Dag, frænda sínum, at hann skyldi ráðast til ferðar með honum með þann styrk allan, sem hann hefði til, en ef þeir fá land í Noregi, þá skyldi Dagr hafa þat ríki í Noregi, en eigi minna, enn forellrar hans höfðu haft áðr; en er þessi orðsendíng kom til Dags, þá fèll honum þat vel í skap, ok lèku at landmunir miklir at fara aptr í Noreg, ok taka þar við ríki því, sem frændr hans höfðu átt fyrr, hann svarar skjótt þessu máli, ok hèt þessi ferð. Dagr var maðr skjótorðr ok skjótráðr ok ákafamaðr mikill ok engi spekíngr at viti. Síðan samnaði Dagr sèr liði, ok fèkk hann sèr nær 12[1] hundruð manna, fór hann með þat lið til funðar við Ólaf konúng.

187. Ólafr konúngr gjörði orð frá sèr í bygðina, ok sendi orð þeim mönnum, er þat vildu hafa til fèfángs sèr, at afla hlutskiptis ok hafa upptektir þar, er úvinir hans væri fyrir, þá skyldi þeir til hans koma ok honum fylgja. Ólafr konúngr flutti þá her sinn ok fór um markbygð en sumt um eyðimerkr ok optliga yfir vötn stór, þeir drógu skip eðr báru í milli vatnanna eptir sèr: fjöldi mikill fólks dreif til konúngs, markamanna ok stigamanna; er þar víða

[1]) 7, *H*; 15, *L*.

síðan kallaðar Ólafsbygðir[1] sem hann hafði náttstaði; lètti hann eigi fyrr ferð sinni, enn hann kom fram á Jamtalandi; fór konúngr þá norðr til Kjalar, ok skiptust menn hans í bygðirnar, ok fóru mjök sundrlaust, meðan þeir vissu engis úfriðar vân, en er þeir skildu lið sitt, fylgði konúngi Norðmanna lið; en Dagr fór í annan stað með lið sitt.

188. Menn 2 eru nefndir, þeir er annar hèt Gauka-Þórir, en annar Afrafasti, þeir voru stigamenn miklir ok hinir mestu ránsmenn, þeir höfðu með sèr 30 manna, sinna maka; þeir bræðr voru meiri ok sterkari enn aðrir menn, eigi skorti þá hug ok áræði. Þeir spurðu til þessa hers, er þar fór fyrir land, og mæltu sín ímilli, at þat mundi vera snjallræði at fylgja honum til lands síns, ok gánga í orrostu með honum ok reyna sik svâ, þvíat þeir höfðu ekki fyrr í bardaga verit, þeim er liði væri fylkt, var þeim því forvitni á at sjá konúngs fylkíng; þetta ráð líkaði þeim vel förunautum þeirra, gjörðu þá síðan ferð sína til fundar við Ólaf konúng, en er þeir kvâmu þar, þá gánga þeir með sveit sína fur Ólaf konúng, ok höfðu alvæpni sitt förunautar; þeir kvöddu konúng; hann spurði, hvat manna þeir væri, þeir nefndu sik ok sögðu, at þeir voru þar landsmenn, síðan báru þeir upp eyrindi sín ok buðu konúngi at fylgja honum. Kon-

1) Olafsbúðir, *G*, *H*.

úngr segir, at honum þætti svâ sem í slíkum mönnum mundi vera góð fylgð: ok erum vèr fúsir við slíkum mönnum at taka; eðr[1] hvart eruð þèr skírðir menn eða eigi? Gauka-Þórir segir, at hann er hvârki kristinn nè heiðinn: höfum vèr fèlagar engan átrúnað annan, enn trúum afli voru ok sigrsæli, ok vinnst oss þat at nógu. Konúngr svarar: þat er mikill skaði, er menn svâ liðmannligir skulu eigi á Krist trúa, skapara sinn. Þórir svarar: er nokkurr sá í yðru fóruneyti, konúngr! kristinn maðr, er meira hafi á degi vaxit enn við bræðr; konúngr bað þá skírast láta ok taka trú rètta þarmeð, ok fylgja þá oss síðan: skulu vèr þá gera yðr virðíngamenn mikla, en ef þið vilið þat eigi, farið aptr til iðna yðvarra. Afrafasti segir, at hann vill eigi við skírn taka. Snúa þeir síðan í brutt. Þá mælti Gauka-Þórir: þetta er skömm mikil, er konúngr gjörir oss liðrækja, þar kom ek aldri fyrr, er ek væra eigi hlutgengr við aðra menn, skal ek aldri aptr hverfa at svâ búnu. Síðan slógust þeir í sveit með öðrum marka mönnum ok fylgðu flokkunum. Sækir Ólafr konúngr þá vestr til landsins[2].

189. En er Ólafr konúngr fór vestr til landsins ok um Kjöl, ok sótti þá vestr af fjallinu, svâ at land lægði vestr at sjá; margt lið konúngs fór fyrr enn hann ok margt síðar, reið hann þar er rúmt var um hann, var hann

[1]) *Hèr sleppr G um sinn.* [2]) Kjalar, *B, D, H, S.*

hljóðr ok mælti ekki við aðra menn, ok reið svâ lengi dags at hann sást[1] um; þá reið at honum biskup ok mælti, ok spurði hvat hann hugsaði, er hann var hljóðr, þvíat konúngr var jafn glaðr ok margmálugr við menn sína í ferðum, ok gladdi þá jafnan, er nær honum voru. Konúngr svarar með áhyggju mikilli: undarliga hluti hefir fyrir mik borit um hríð, ek þóttumst sjá yfir Noreg, ek leit vestr af fjallinu, kom mèr þat í hug at ek hafða marga daga verit glaðr í því landi; mèr gaf þá sýn at ek sá um allan Þrondheim ok því næst um allan Noreg[2], ok svâ lengi sem sú sýn hafði verit fyrir augum mèr, þá sá ek því lengra, allt þartil sem var sjór ok land, þartil er ek sá um alla veröld, ek kenda ok gjörla þá staði, er ek hefir fyrr sèð ok komit jafnliga, sá ek ok þá staði, er ek hefir eigi fyrr sèð suma, þá er ek hafða spurn af, en jafnvel hina, er ek hefir eigi fyrr heyrt getit, bæði bygða ok úbygða, svâ vítt sem veröldin er. Biskup svarar, at sú sýn var stór, heilaglig ok merkilig.

190. Síðan er Ólafr konúngr sótti ofan af fjallinu, þá var bær sá fyrir honum, er á Súlu heitir, í ofanverðri bygðinni í Veradælafylki; en er þeir sóttu ofan at bænum, þá lágu akrar við veginn; konúngr bað menn fara spakkliga, ok spilla eigi ökrum fyrir bónda,

[1]) lítt. *b. v. B, D.* [2]) *hèr byrjar K aptr.*

gjörðu menn þat vel, meðan konúngr var við, en þeir er síðar fóru, gáfu at því engan gaum, ok hleyptu menn svâ um akrinn, at hann var allr lagðr við jörðu; sá bóndi, er þar bjó, er nefndr Þorgeirr flekkr, hann átti tvâ syni frumvaxta; Þorgeirr fagnaði vel konúngi ok hans mönnum, ok bauð honum allan þann forbeina, er hann hafði faung á. Konúngr tók því vel, ok spurði Þorgeir at tíðindum, ok hvat títt væri þar innan lands, eðr hvart samnaðr nokkurr muni þar gjörr vera í móti oss. Þorgeirr segir, at lið mikit var samandregit þar í Þrándheim, ok voru þar komnir lendir menn bæði norðan ok sunnan or landi: en eigi veit ek, segir hann, hvârt þeir ætla því liði at stefna yðr í móti eðr annarstaðar. Síðan kærði Þorgeirr fyrir konúngi skaða sinn ok úspekt konúngs manna, er þeir höfðu niðrbrotit akra hans alla. Konúngr segir, at þat var illa vorðit, er honum var mein gjört. Síðan reið konúngr þartil, sem akrinn hafði staðit, ok sá hann at allr var at jörðu lagðr; hann reið umhverfis, ok mælti svâ: þat væntir ek, bóndi! at guð muni leiðrètta skaða þinn, ok mun akr þessi betri á vikufresti, enn þá er spiltr var; varð þat hinn bezti akr, sem konúngr sagði; konúngr dvaldist þar um nátt, en at morgni bjó hann ferð sína, hann segir, at Þorgeirr bóndi skyldi fara með honum, en hann bauð til ferðar sonu sína. Konúngr segir, at hann skyldi fara með honum,

en sveinarnir vildu eigi eptir vera; konúngr bað þá eigi fara, en þeir vildu eigi letjast láta, þá vildu hirðmenn binda þá. Konúngr mælti, er hann sá þat: aptr munu þeir koma. Svâ fór, sem konúngr sagði um sveinana.

191. Nú flytja þeir her sinn út til Stafs, en er konúngr kom á Stafa mýrar, þá átti hann þar dvöl, þá[1] spurði konúngr til sanns, at bændr fóru með her í mót honum, ok þat með at hann mundi þá eiga orrostu brátt, þá kannaði hann lið sitt, ok var skorat manntal, þá fundu þeir 9[2] hundruð heiðinna manna, en er konúngr vissi þat, þá bað hann þá skírast láta, sagði svâ, at hann vill eigi heiðna menn hafa með sèr: munu vèr, segir hann, ekki mega treystast liðsfjölda, guði skulu vèr treystast, þvíat með krapti ok miskun munu vèr sigr fá, en eigi vil ek blanda heiðnu fólki við kristna menn; en er þetta heyrðu heiðíngjar, þá báru þeir saman sín ráð, ok at lyktum lètu skírast 4 hundruð manna, en fimm hundruð níttu kristni ok snèru þeir aptr til síns lands. Síðan gánga þar þeir bræðr fram með sitt lið, Gauka-Þórir ok Afrafasti, ok bjóða honum lið sitt, hann spurði, ef þeir hefði tekit skírn ok trú rètta. Gauka-Þórir segir, at þat var eigi; konúngr bað þá taka trú rètta eða fara á brutt at öðrum kosti. Þeir fóru þá í brott, ok taka tal sín á milli, ok töluðu, hvat ráð þeir skyldu

[1]) *Hèr byrjar aptr C.* [2]) 8. *H.*

upp taka; þá mælti Afrafasti: svâ er sagt frá mínu skapi, at ek vil eigi aptr hverfa, mun ek fara til orrostu, at veita lið öðrum hvârum, en eigi þikki mèr skipta í hvârra flokki at ek er. Þá svarar Gauka-Þórir: (ef) ek vil til orrostu fara, þá skal ek konúngi veita, þvíat honum er meiri liðsþörf, en ef ek skal á guð trúa nokkut, hvat er mèr verra at trúa á Hvíta-Krist enn á annat goð; nú er þat mitt ráð at vèr látim skírast, ef konúngi þikkir þat miklu máli skipta; förum þá síðan til orrostu með honum; þessu játta þeir allir, gánga síðan til konúngs, ok segja at þeir vilja láta skírast, voru þeir þá skírðir af kennimönnum ok biskupaðir. Konúngr tók þá í hirðlög með sèr, ok segir, at þeir skulu vera undir merki hans í orrostu. Ólafr konúngr hafði þá til sanns spurt, at skamt mundi vera til þess at hann mundi eiga orrostu við bændr; en síðan er hann hafði kannat lið sitt, ok skorat var manntal, ok hafði hann þá meirr enn 30 hundruð manna, ok þótti þat þá vera mikill herr at sjá á einum velli. Síðan talaði konúngr fyrir liði sínu, ok mælti svâ: vèr höfum mikinn her ok frítt lið, nú vil ek segja mönnum, hverja skipan er ek vil hafa á liði mínu: ek mun láta fara merki mitt[1] fram í miðju liði mínu, ok skulu þar fylgja hirðmenn ok gestir, ok þarmeð þat lið er til vâr kom á Upplöndum, ok svâ þat lið er hèr kom til vâr í Þrondheim; en til hægri

[1]) *þannig hin*; mín, *A.*

handar frá voru merki skal vera Dagr Hríngsson, ok með honum þat lið allt, er hann hafði til föruneytis við oss, ok skal hann hafa annat merki, en til vinstri handar frá voru merki skal vera lið þat, er Svía konúngr fèkk oss, ok allt þat lið er kom til vâr í Svíaveldi, skulu þeir hafa hit 3ja merki; vil ek nú, at menn skipist í sveitir ok heimtist saman frændr ok kunníngjar, munu þeir þá hverr annars bezt gæta ok hverr annan kenna; vær skulum marka lið vârt, ok gjöra herkuml á hjálmum vârum ok skjöldum, draga þar á með bleikju, en er vèr komum í orrostu, þá skulum vèr allir hafa eitt orðtæki: fram, fram, kristsmenn! krossmenn! konúngsmenn! vèr munum hljóta þunnar fylkíngar, þvíat vèr höfum lítit lið, þvíat ek vil eigi at þeir hríngi um oss liði sínu. Skiptist menn nú í sveitir, en síðan skal sveitum skipta í fylkíngar, ok gefi gaum at, hvert hann er frá merki því, er hann skal fylgja; vèr munum nú halda fylkíngum ok vera með alvæpni nátt ok dag, þar til at vèr vitum, hvârt funðr vârr mun verða ok bónda. Síðan er konúngr hafði talat fyrir herinum, þá fylktu þeir liði sínu, ok skipuðu eptir því sem konúngr hafði fyrir mælt. En eptir þat átti konúngr stefnur við sveitar höfðíngja, voru þá þar komnir menn, er konúngr hafði sent í hèrað ok krefja bændr liðs; þeir kunnu þau tíðindi at segja or bygðinni, þar sem þeir kvâmu, at þar var aleyða at vígum

mönnum, ok var þat fólk farit í bónda samnað; en þar er þeir hittu menn, vildu fáir þeim fylgja, en flestir svöruðu því, at fyrir þá sök sátu heima, at þeir vildu hvarigum fylgja, vildu eigi berjast í móti konúngi ok eigi ímóti frændum sínum, höfðu þeir fátt lið fengit. Þá spurði konúngr menn ráðs, hvat mönnum þætti tiltækiligast. Finnr Árnason svarar máli konúngs: sjá má ek, hversu gjört mundi vera, ef ek skyldu ráða: þá myndu vèr fara herskildi yfir allar bygðir ok ræna fè öllu, ok brenna svâ vannliga bygð alla, at aldri skyldi kot eptir, ok gjalda svâ bóndum svik sín, hygg ek at margir muni þá lausir við flokkinn, ef þeir sjá heim reyk til húsa sinna ok loga, en vita ógjörla, hvat títt er um börn eða konur eða gamla menn, feðr eða mæðr eða annat frændlið sitt; væntir ek, segir hann, ef nokkurir ráða til at rjúfa samnaðinn, at þá muni brátt rjúfast fylkíngarnar, þvíat svâ er bóndum gefit, at þat ráð, er þá er nýjast, at þat er þá öllum tíðast. Ok er Finnr lauk máli sínu, þá gjörðu menn þar at góðan róm, líkaði mörgum þat vel, at ráða til fèfánga, en öllum þóttu bændr makligir skaða, en þat líkligt, at Finnr sagði, at bændr mundi margir lausir í samnaðinum. Þormóðr Kolbrúnaskáld kvað vísu:

Brennum öll fyrir innan
Innaney[1] þau at vèr finnum,
lönd tegast[2] herr[3] með hjörvi,

[1]) Inney, *B*, *C*, *S*; inni, *D*, *K*, *L*. [2]) skulum, *F*. [3]) hverr, *F*.

herborg[1] fyrir[2] gram verja;
ýss, hafi[3] allra húsa
Innþrændir kol sinna,
ángr mun kveik í klúngri
köld, ef ek má valda.

En er Ólafr konúngr heyrði ákafa lýðsins, þá krafði hann sèr hljóðs ok mælti: hafa bændr verðleika til þess, at svâ væri gjört, sem þèr hafið heitit þeim, vitið þèr at ek hefir þat gjört, at brenna fyrir þeim bæi, ok veitt þeim aðrar stórar refsíngar, gjörða ek þat þá at brenna bæi fyrir þeim, er þeir gengu af rèttri trú, en tóku upp blót ok villu, ok vildu ekki láta at vorum orðum, ok áttu vær þá guðs rèttar at reka; ok er þessi drottins svik miklu minna verð, þótt þeir haldi eigi trú sína við oss, ok munu þessi þó nokkorum þikkja (eigi) allsmá þeim er manndómsmenn vilja vera; nú á ek hèr [nokkura vernd á[4] at veita nokkura frían, er þeir misgjöra við mik, en þá eigi, er þeir hötuðust við guð; nú vil ek at menn fari spakliga ok gjöri eigi hervirki; vil ek fara fyrst til fundar við bændr, nú sættumst vær, ok er þá vel, en ef þeir halda bardaga við oss, þá eru þar 2 kostir fyrir höndum; ef vèr föllum í orrostu, þá er þat vel ráðit, at fara þángat eigi með ránshendi, en ef vèr sigrumst, þá skulu vèr vera arftökumenn þeirra, er berjast í móti oss, þvíat þeir munu þar sumir falla en sumir flyja, ok

1) herdjarfun, *B*; hverborg, *C*, *D*; herbjörg, *H*; húsbjörg, *S*. 2) *v. í B.* 3) taki, *B.* 4) nokkuru heimilla, *hin.*

hafa hvârirtveggju fyrirgjört eigu sinni allri, er þá gott at gánga til stórra búa, en bæir vegligir, en þess nýtr engi maðr, er brent er; svâ ok ránsfè ferr at spèllum meiri hluti, enn þat er nýtt verðr; skulu vèr nú fara dreift út eptir Dölunum ok hafa með oss alla vígja menn, þá sem vèr kunnum at fá; skulu menn ok höggva bú ok aðra þá hluti, er menn þurfu at hafa at fæða sik við, en menn gjöri eigi spellvirki annat; vel þikki mèr at þèr drepið njósnarmenn bónda, ef þèr takið þá, skal Dagr fara hit neðra[1] ofan eptir Dölunum ok hans menn, en vær munum fara út þjóðveginn, ok hittumst at kveldi, ok höfum þá allir eitt náttból!

192. Svâ er sagt er Ólafr konúngr fylkti liði sinu, þá skipaði hann skjaldborg, er halda skyldi fyrir honum í bardaga, ok valdi þartil hina sterkustu menn ok þá er snarpastir voru; síðan kallaði hann skáld til sín, ok bað þá gánga í skjaldborgina: skulu þèr, segir konúngr, hèr vera ok sjá þau tíðindi, er hèr gjörast, ok er yðr þá eigi segjanz-saga til, hvat þèr skuluð frá segja ok yrkja um síðan; þar var þá Þormóðr Kolbrúnarskáld [ok Gizur gullbrárfóstri ok Hofgarða-Refr, son hans[2], ok hinn fjórði[3] Þorfinnr munnr[4]. Þá mælti Þormóðr til Gizurar gull-

[1]) neyrðra, *C*, *D*. [2]) gullbrárskáld fóstri Hofgarða-Refs, *B*, *K*, *S*; gullbrárfóstri Hofgarða-Refsson, *C*; gullbrárfóstri, Hofgarða-Refr, *J*; gullbrá, fóstri Hofgarða-Refs, *H*; gullbrá, fóstri Hofgarða-Refs ok son hans *L*. [3]) þriði, *B*, *H*, *S*. [4]) *frá fyrra [ v. í D*.

brárfóstr[1]: stöndum eigi svâ þraungt, lagsmaðr! at eigi nái Sighvatr skáld rúmi sínu, þá er hann kemr, hann (mun) vilja vera fyrir konúngi, ok eigi mun konúngi annat líka. Konúngr heyrði þetta, ok svarar: ekki þarf Sighvat at sneiða, þótt hann sè eigi hèr, opt hefir hann oss vel fylgt, hann mun nú biðja fyrir oss, ok munum vèr þess allmjök þurfa. Þormóðr svarar: vera má þat, konúngr! at yðr sè (nú bænanna) mest þörf, en þunt mundi nú um merkistaung yðra, konúngr! ef allir hirðmenn yðrir væri nú á Rómaveg, var þat ok satt, at vær töldum at því opt, at eigi fèkk rúm fyrir Sighvati, þóat mæla þurfti við yðr. Þá mæltu skáldin sín í millum, ok sögðu at þat væri vel fallit, at yrkja áminníngar vísur nokkorar um þau tíðindi, er þá mundi skjótt at hendi berast; þá kvað Gizur:

Skala[2] óglaðan[3] ífa
orð fengin[4] þau[5], borða
búist við þraung á þíngi,
þegns dóttir[6] mik[7] fregna;
þóat sigrrunnar svinnir
segi vân [Hèðins kvânar[8],
verum í óla[9] eli
austr bragnínga[10] trausti[11].

Þá kvað Þorfinnr vísu:

Rökkr at regni miklu

1) *v. í B, C, D, H, K, L, S.* 2) *þannig B, D, H, S;* skulu, *A og hin.* 3) óglöðum, *B;* óglaðr, *S.* 4) fregin, *B, D, H, K, L, S.* 5) þat, *B, C, D, H, S.* 6) dróttir, *L;* drottinn, *S.* 7) megi, *F.* 8) hèðankvâmu, *C.* 9) ála, *B, C, F, H, K, L, S.* 10) bragningi at, *B, C, D, F, H, K, S;* bragningi, *L.* 11) traustir, *L.*

randa garðs hins harða
vill við vísa snjallan
verðúnga[1] lið berjast;
verjum allvald örvan,
ölum teitan má sveita,
fellum þrændr í þundar,
þess eggjum nú hreggi.

þá kvað þormóðr Kolbrúnarskáld:

Ála þraungr at eli
örstiklandinn[2] miklu,
skyldu eigi skelknir höldar,
skalmöld vex nú, fálma;
búumst við sókn, en slæknir[3]
seggr skyli orð um forðast,
er at geirrþíngi gaungum
gunnreifr[4] með Oleifi.

Vísur þessar námu menn þá þegar.

193. Síðan bjó konúngr ferð sína, ok sótti út eptir dölunum, hann tók sèr náttból, ok kom þar saman allt lið hans, ok lágu um nóttina undir berum himni undir skjöldum sínum; en þegar er lýsti, bjó konúngr her sinn, fluttist þá enn út eptir dölunum, er þeir voru at því búnir; þá koma til konúngs bændr mjök margir, ok gánga flestir í lið með konúngi, ok kunnu allir eitt at segja, at lendir menn höfðu saman dregit her mikinn[5], ok ætluðu at halda ímót konúngi

---

1) Verdæla, *hin.* 2) eða örstiklandann, *A*; örstiklanda *og* örstiklandi, *hin.* 3) slækni, *B, C, D, H, K, S.* 4) gunnreifs, *B, H*; gunnreifir, *C, D, F*; gunnreifi, *K.* 5) ok hèldu at há, *er hèr ofaukið og að nokkru leiti inn- og undirstrikað í A.*

ok halda bardaga við Ólaf konúng; þá tók konúngr nokkorar merkr silfrs ok fekk í hendr einum bónda: fè þetta skaltu varðveita ok skipta síðan, leggja sumt til kirkna, sumt til at gefa kennimönnum, en sumt ölmösumönnum, ok gefa fyrir sál þeirra, er falla í orrustunni, ok berjast í móti oss. Bóndi spurr: skal þetta fè gefa fyrir sál yðvarra manna, konúngr? þá svarar konúngr: þetta fè skaltu gefa fyrir sál þeirra manna, at eru í orrostu með bóndum, ok falla fyrir vâpnum vârra manna, en þeir menn, er oss fylgja í orrostu ok falla þar, þá munu vær hjálpast allir saman.

194. Þá nátt er Ólafr konúngr lá í samnaðinum ok áðr var frásagt, vakti hann laungum, ok bað til guðs fyrir sèr ok öðrum ok liði sínu, ok svaf lítit, ok rann höfgi á hann ímóti deginum; en er hann vaknaði, þá rann dagr upp. Konúngi þótti heldr snemt at vekja herinn; þá spurði hann, hvârt Þormóðr Kolbrúnarskáld vekti; hann var þar nær, ok spurði, hvat konúngr vildi honum. Konúngr mælti: tel þú oss kvæði nokkut[1]! Þormóðr settist upp, ok kvað hann, svâ hátt at mjök svâ heyrði um allan herinn, hann kvað Bjarkamál hinu fornu, ok er þetta upphaf:

Dagr er uppkominn,

---

[1]) *Hèrvið stendr þessi staka utá spáziunni í K.*
Þormóðr kvað vísu:
Hve launa þèr þínir, austr bifast rengr í rostu,
þíngdjarfir höfðíngjar, reyn þú oss, konúngr! knossir?

dynja hana fjaðrir,
mál er vilmögum[1]
at vekja[2] erfiði;
vaki ok æ vaki
vina höfuð,
allir hinir æðstu
Aðils ofsinnar[3].
Hár hinn harðgreipi[4],
Hrólfr skjótandi,
ætt[5] góðir munu[6]
þeir er ekki flýja;
vekat ek yðr at víni[7]
nè at [vífs rúnum[8],
heldr vek ek yðr at hörðum
Hildar leiki.

Þá vaknaði herinn, ok er lokit var kvæðinu, þá þökkuðu menn honum kvæðit, ok fannst mönnum mikit um, ok þótti vel tilfundit, ok kölluðu Húskarlahvöt kvæðit; konúngr þakkaði honum kvæðit ok skemtan sína, síðan tók hann gullhríng, er stóð hálfa mörk, ok gaf honum; Þormóðr þakkaði konúngi gjöfina, ok mælti: góðan eigum vèr konúnginn, en vant er at sjá, hversu lánglífr verðr; en sú er bæn mín, konúngr! at þèr látið okkr hvârki skiljast lífs nè dauða. Konúngr svarar: allir munu vèr saman fara, meðan ek má ráða fyrir, ok þèr vilið

1) víkíngum, *B*, *F*, *L*. 2) vinna, *B*, *H*, *L*, *S*; vaka ok vinna, *F*. 3) ofsinna, *C*; ok Svía, *F*, *K*, *L*. 4) harðgeiri, K; harðgreppi, *L*. 5) ættum, *B*, *H*, *S*. 6) menn, *hin*. 7) vífi, *L*. 8) vífils rúnum, *C*, *F*.

eigi skiljast við oss. Þá mælti Þormóðr: þess væntir ek, konúngr! hvárt sem friðr er betri eða verri, at ek sè nær yðr staddr, meðan ek á þess kost, hvat sem vèr spyrjum til, [hvárir sigr hafa[1]; síðan kvað Þormóðr:

Þèr mun ek enn, unz öðrum,
allvaldr! náir skáldum,
nær vættir þú þeirra?
þíngdjarfr fyrir[2] knè hvarfa[3];
brott komumst vèr, þótt veitim
valtafn frekum hrafni,
vítz[4] eigi þat, våga
viggrunnr! eða þar liggjum.

195. Ólafr konúngr flutti nú herinn út eptir dölunum, fór þá enn Dagr með sínu liði aðra leið, konúngr lètti eigi ferðinni, fyrr enn hann kom út á Stiklastaði, þá sá þeir her bónda, ok fór þat lið dreift, ok var svå mikit at af hverjum stig dreif margt lið, en víða, þar er stórflokkar fóru saman; þeir sá, hvar sveit manna fór saman ofan or Veradal, ok höfðu þeir þar á njósn verit, ok fóru nær því er lið konúngs var, ok fundu eigi fyrr, enn svå skamt var í millum þeirra, at menn máttu kennast; þar var Hrútr af Viggju með 30 manna. Síðan mælti konúngr, at gestir mundi fara í móti Hrúti ok taka hann af lífi; voru menn

[1]) Sighvats fèlaga, hvar hann ferr með gullinn hjaltan, *b. v. B, D, H, K, S.* [2]) um, *C, D, F, L, S.* [3]) hvarfla, *F, K.* [4]) veizt, *D, L*; vizk, *K, S*; vinna, *H.* [5]) hèr, *B, C, D, H.*

til þess fljótir. Þá mælti konúngr til Íslendínga: svâ er oss sagt, at þat sè siðr yðvar, at bændr sè skyldir til á haustum at gefa húskörlum sínum slagasauð; nú vil ek þar gefa yðr hrút til slátrs. Þeir hinir íslenzku menn voru þess verks auðeggjaðir, ok fóru þegar at Hrúti með öðrum mönnum; var Hrútr drepinn ok öll sveit hans. Konúngr nam stað, ok stöðvaði herinn, er hann kom á Stiklastaði, bað konúngr menn stíga af baki hestum sínum ok búast þar við. Menn gjörðu sem konúngr beiddi; síðan var fylkíngu á skotit, ok settu upp merki. Dagr var þá enn eigi kominn með lið sitt, ok misti þess fylkíngar arms. Þá mælti konúngr, at þeir Upplendíngar skyldu þar uppgánga ok taka við merki: þikkir mèr þat ráð, segir konúngr, at Haraldr, bróðir minn, sè eigi í orrostu, þvíat hann er barn at aldri. Hann svarar: ek skal at vísu vera í orrostu, en ef ek er svâ ósterkr, at ek mega eigi valda sverði mínu, þá kann ek þar ráð til at binda skal hönd mína viðr meðalkaflann, engi skal vera viljaðr betr enn ek at vera úþarfr þeim bóndum, vil ek fylgja sveitúngum mínum. Svâ segja menn, at Haraldr kvæði þá vísu þessa:

Þora mun ek þann arm verja,
þat er ekkju[1] munr nokkr,
rjóðum vönd[2] af reiði
rönd, er ek[3] hlýt standa;
gengrat greppinn[4] úngi

1) etjil. *K.* 2) vèr, *hin.* 3) í, *b. v. C, D, H, K, L, S.* 4) greppr hinn, *hin.*

gunnblíðr, þar er þèr[1] ríða[2]
herða-[3] menn at morði
[mót, at[4] hæl fyrir spjótum.

Haraldr rèð því, at hann var í orrostu.

196. Þorgils álma[5] hèt maðr, bóndi sá er bjó á Stiklastöðum, hann var son[6] Gríms goða[7]. Þorgils bauð konúngi liðsemd sína, at vera í bardaga með honum. Konúngr bað hann hafa þökk fyrir boð sitt: en ek vil, segir konúngr, at þú bóndi verir eigi í bardaga; veit oss heldr hitt, at bjarga mönnum vorum eptir bardaga, þeim er sárir eru, en veit hinum umbúnað, er falla í orrostu; svâ ok ef þeir atburðir verða, at ek falla í bardaga þessum, veit umbúnað líki mínu sem nauðsýn ber til, ef þat er þèr eigi bannat. Þorgils hèt þessu konúngi, sem hann beiddi.

197. En er konúngr hafði fylgt liði sínu, þá talaði hann fyrir þeim, ok mælti svâ, at menn skyldi herða hugina ok gánga djarfliga fram, ef orrosta verðr, segir hann, höfum vèr lið gott ok mikit, en þótt bændr hafi meira lið nokkoru, þá mun þó auðna sigri ráða; er því fyrir yðr at lýsa, at ek mun eigi flýja or þessi orrostu, skal ek annathvârt sigrast á bændum eða falla hèr elligar; vil ek þess biðja, at sá hlutr komi hèr upp, at guð veit at oss gegnir bezt, skulu vèr því treystast at vèr höfum rètt-

1) slög, *hin.* 2) svíða, *B.* 3) herðir, *C.* 4) á, *hin* 5) Hámuson, *B*, *D*; hálma, *C*; Hjálmuson, *H*; Hálmuson, *S.* 6) faðir, *B*, *H*, *K*, *S.* 7) Eygoða jarls, *B.*

ara at mæla enn bændr, ok því með at guð muni frelsa oss eignir vârar eptir orrostu þessa, elligar veita oss myklu meiri laun fyrir þat allt lát, er vèr höfum hèr, enn vèr kunnim at æskja oss; en ef ek hlýt um at mæla eptir orrostona, þá skal ek gæða yðr hvern eptir sínum verðleikum, ok því sem hverr gengr fram í orrostu, mun þá ef vèr hljótum sigr, nógt bæði land ok lausir aurar at skipta því með yðr, en fara áðr með úvinir vorir; veitum sem harðasta atgaungu í fyrstu, skjótt mun umskipta, ef liðsmunr er mikill; eigum vèr sigrs vân af skjótum atburðum, en hitt mun oss þúngt falla, at vèr berjumst til mæði, svâ at menn verði fyrir þat óvígir, munu vèr eiga minna deildarlið enn þeir, er ýmsir gánga fram, en sumir hvílast ok hlífa sèr; en ef vèr gjörum svâ harða hríð, at þeir snúi undan, er fyrstir standa, þá mun falla hverr um þveran annan, verða þeirra ófarar þess at meiri, er þeir eru fleiri saman. En er konúngr hætti tölu sinni, þá gjörðu menn mikinn róm at máli hans.

198. Þórðr Fáluson[1] bar merki Ólafs konúngs, svâ segir Sighvatr skáld í erfidrápu þeirri, er hann orti um Ólaf konúng, ok stælti eptir uppreistar sögu[2]:

Þórð frá ek [þar svâ[3] herða,
þreifst sókn[4], með Óleifi,
góð fóru þar, geirum

1) Fólason, *B*, *H*, *K*, *S*. 2) drápu, *B*, *F*, *K*, *S*. 3) þat sinn, *B*, *H*, *S*. 4) ógn, *C*, *D*, *F*, *L*.

gört víg, saman hjörtu,
staung bar hátt fyrir, hrínga,
hjaldr móðum gram, bróður[1],
full vann[2] fagrla gylta,
framlundaðr[3] Ögmundar.

199. Ólafr konúngr var svâ búinn, at hann hafði hjálm gyldan á höfði, en hvítan skjöld ok lagðr á með gulli hinn helgi kross, í annarri hendi hafði hann kesju þá, er nú stendr í Krists kirkju[4] við altari, hann var gyrðr sverði því, er Hneitir var kallaðr, hit bitrasta sverð, ok gulli vafiðr meðalkaflinn, hann var í hríngabrynju; þess getr Sighvatr skáld:

Öld vann [Ólafr felda[5],
[opt vann[6] sigr hinn digri,
gekk sókn-þorinn sökkva[7]
synjur fram í brynju;
en[8] er austan stefna[9],
óx hildr, með gram mildum,
margt segig bert, í bjarta[10]
blóðröst Svíar óðu.

200. En er Ólafr konúngr hefir fylkt liði sínu, þá voru bœndr hvergi nær komnir. Þá mælti Ólafr kónúngr, at lið skyldi niðrsetjast ok hvíla sik; settist konúngr þá niðr ok allt lið hans, ok

---

1) bróðir, *B, C, H, K, S.* 2) ok, *H.* 3) fránlundaðr, *B.* 4) í Niðarósi *b. v. F.* 5) Olaf feldan, *B, D, H, K, S.* 6) öflgan, *hin.* 7) sækja, *hin.* 8) þeir *b. v. B, C, H*; þar, *D, S.* 9) nenna, *B, H, K, S*; nefna, *C, D, F, L.* 10) hjarta, *C.*

sátu fyrir[1], en hann hallaðist ok lagði höfuðit í knè Finni Árnasyni, þá rann á hann svefn, ok var þat um hríð, þá sá þeir her bónda, ok sótti liðit til móts við þá, ok höfðu uppsett merki sín, ok var þat hinn mesti múgr manna; þá vakti Finnr konúng, ok sagði at bændr sóttu þá at þeim mjök; en er konúngr vaknaði, þá mælti hann: hví vaktir þú mik, Finnr! ok lèzt mik eigi njóta draums míns? Finnr mælti: ekki mundi þik þess dreyma, at þèr mundi eigi skyldara at vaka ok búast við herinum, er at oss ferr, eða sjái þèr eigi, hvar nú er kominn bónda múgrinn? konúngr svarar: ekki eru þeir svâ nær oss, at eigi væri betr, at ek hefða sofit. Þá mælti Finnr: hvat dreymdi þik, konúngr! þess, er yðr þótti svâ mikil missa í, er þèr vöknuðuð eigi sjálfir? Þá sagði konúngr drauminn, at hann þóttist sjá stiga frá himnum, ok þóttist hann þar gánga eptir í lopt upp svâ lángt at hann sá at himininn opnaðist, ok þángat var stíginn til, var ek þá, segir konúngr, kominn í hit efsta stígit, er þú vaktir mik. Finnr svarar: ekki þikki mèr draumr yðvar svâ góðr sem yðr mun þikkja, ætla ek þetta munu vera fyrir feigð yðvarri, ef þetta er nokkut annat enn svefnórar.

201. Enn varð sá atburðr, þá er Ólafr konúngr kom á Stiklastaði, at maðr einn kom til hans þar or hèröðum, en því þótti þetta nýmæli,

[1]) at þeim svaldi sem bezt, *B*, *K*, *S*; *hèr endar B at fullu.*

at þessi maðr þótti eigi öðrum líkr, þeim er þá höfðu til hans komit; hann var maðr svâ hárr, at engi maðr tók betr enn í öxl honum, hann var allfríðr maðr sýnum ok fagr á hár, hann var vel vâpnaðr, hafði hjálm á höfði ok hríngabrynju, skjöld rauðan, ok gyrðr sverði búnu, hafði í hendi gullrekit spjót mikit, ok svâ digrt skaptit at handfyllur var í; sá maðr gekk fyrir konúng ok kvaddi hann, ok spurði hann, ef konúngr vildi þiggja lið at honum. Konúngr spurði, hvat manna hann væri, eða hvat hann hèti, eða kynferði eðr hvar hann var landsmaðr? Hann svarar: ek á kyn á Jamtalandi ok á Helsíngjalandi, ek er kallaðr Arnljótr gellini, kann ek yðr þat helzt at segja frá, at ek veitta forbeina mönnum yðrum, þeim er þèr senduð á Jamtaland at heimta þar skatt, fèkk ek þeim í hendr silfrdisk er ek senda yðr til jartegna, at ek vilda vera vin yðvarr. Þá spurði konúngr, hvârt Arnljótr væri skírðr eðr eigi; hann sagði þann átrúnað sinn, at hann trúði á mátt sinn ok meginn, hefir mèr, segir hann, sá átrúnaðr unnizt at fullu hèr til. Konúngr segir: nú ætla ek[1], at þú skulir trúa, at Jesus Kristr hefir skapat himin ok jörð ok menn alla, ok til hans skulu fara allir menn eptir dauðann, þeir sem góðir eru ok rèttlátir? Arnljótr svarar: heyrt hefir ek getit Hvíta-Krists, en ekki er mèr kunnigt um at-

[1]) *Hèr sleppr D um sinn.*

hæfi hans, eðr hvar hann ræðr; nú mun ek trúa því öllu er þèr segið mèr, vil ek fela allt mitt ráð yðr á hendi. Síðan var Arnljótr skírðr ok kent þat af trúnni, er konúngi þótti skyldast vera, ok skipaði honum í öndverða fylkíng ok fyrir merki sínu, þar er var Gauka-Þórir ok Afrafasti ok sveitúngar þeirra.

202. Frá því er nú at segja, er áðr var fráhorfit, at lendir menn ok bændr höfðu samandregit her úvígan, þegar er þeir spurðu at Ólafr konúngr var austan farinn or Garðaríki, ok hann var kominn til Svíþjóðar, ok þeir spurðu at hann var austan kominn til Jamtalands, ok hann ætlaði at fara austan um Kjöl til Vermalands[1], þá stefndu þeir herinum inní Þrándheim, ok sömnoðu þá saman allri alþýðu, þegn ok þræl, ok fara svå inn til Veradals, ok höfðu þeir svå mikit lið at engi maðr var þar sá, at sèð hefði jafnmikinn her samankominn, var þar sem jafnan kann verða í miklum her, at lið var all misjafnt, þar var margt lendra manna ok mikill fjöldi ríkra manna ok bónda, en þó var hitt allr múgr, er voru þorparar ok verkmenn; ok var þat allr meginn herinn, er þar í Þrondheimi hafði samansamnazt, var þat lið allmjök geyst til fjandskapar við Ólaf konúng.

203. En er Knútr konúngr hafði lagt land undir sik í Noregi, sem fyrr var ritat, ok þat með at hann setti þar yfir til ríkis Hákon jarl,

1) Veradals, *G*, *S*.

hann fèkk jarli hirðbiskup þann, er Sigurðr var nefndr, hann var danskr at kyni, ok hafði lengi verit hjá Knúti konúngi, var biskup sá ákafr í skapi ok sunðrgjörðamaðr í orðum sínum, ok veitti Knúti konúngi mikit fulltíngi í orðum sínum, allt þat er hann kunni, en hann var hinn mesti óvin Ólafs konúngs, sá biskup var optliga í her þessum ok taldi jafnan fyrir bóndum, ok eggjaði mjök uppreistar ímóti Ólafi konúngi.

204. Sigurðr biskup talaði á einu húsþíngi, þar var þá mikit fjölmenni, hann tók svâ til orða: hèr er nú samankomit lið mikit, svâ at í þessu hinu fátæka landi mun eigi kostr at sjá meira her innlenzkan, skyldi nú vel í hald koma þessi styrkr fjölmennis, þvíat nú er ærin nauðsýn til, ef Ólafr þessi ætlar enn eigi af at láta at herja á yðr, vandist hann því þegar á únga aldri at ræna fè en drepa menn, ok fór til þess víða um lönd, en at lyktum snèri hann híngat til lands, ok hóf svâ upp, at hann úvingaðist mest við þá, er beztir menn voru ok ríkastir, sem er herra Knútr konúngr, er allir eru skyldir til at þjóna sem kunna, ok settist hann í skattland hans, slíkt hit sama veitti hann Svíakonúngi, en jarlana Svein ok Hákon rak hann af ættleifðum sínum, en sjálfs síns frændum var hann þó grimmastr, er hann rak konúnga alla í brutt af landi, var þat þó vel sums kostar, þvíat þeir höfðu áðr brugðit trú sinni ok svardögum við Knút konúng, en fylgt þeim öllum óráðum, er

hann tók upp, nú sleit þeirra vináttu makliga, hann veitti þeim meizl, en tók undir sik penínga þeirra ok eignir ok ríki, ok eyddi svâ í landi öllum tignum mönnum, en síðar munu þèr vita, hversu hann hefir búit við lenda menn, drepit hina ágætustu, margir vorðnir landflótta fyrir honum; hann hefir ok víða farit um land þeirra með ránsmönnum, brent hèröðin en drepit ok rænt fólkit, eða hverr er sá hèr ríkra manna, at eigi munu eiga stórar sakir við hann? nú ferr hann með útlendan her, ok er þat flest markamenn ok stigamenn ok aðrir ránsmenn, ætli þèr hann nú munu linan, er hann ferr með slíkt illþýði, er hann gjörði þá slíkt hervirki, er allir löttu hann, þeir er honum fylgðu? kalla ek ráð at þèr minnizt nú orða yðvarra við Knút konúng, eðr hvat hann rèð yðr, ef Ólafr konúngr kvæmi enn aptr til lands, hvernig þèr skylduð halda frelsi yðru, því er Knútr konúngr hèt yðr, bað hann yðr standa í móti ok reka af höndum yðr óaldar flokka þessa; er nú sá til, at ráða í móti þeim ok drepa niðr illþýði þetta fyrir örn ok úlf, ok láta þar liggja hvern sem kominn er, nema þèr villð heldr draga hræ þeirra í holt ok í hreysar, verði engi svâ djarfr at þá flytì til kirkna, þvíat þeir eru víkíngar ok illræðismenn. En er hann hætti tölu sinni, þá gjörðu menn at róm mikin, ok guldu allir samkvæði at því at gjöra sem hann mælti.

205. Lendir menn, þeir er þar voru samankomnir, áttu stefnur ok tal sín á millim, ráða

þá ok skipuðu, hvernig fylkja skyldi, eðr hverir höfðíngjar vera skyldu fyrir liðinu. Þá mælti Kálfr Árnason: Þat er bezt fallit at Hárekr or Þjóttu gjörist höfuðsmaðr fyrir her þessum, þvíat hann er kominn af ættum Haraldar ens hárfagra, hefir konúngr á honum allþúngan hug fyrir sakir vígs Grankels, mun hann sitja fyrir hinum mestum afarkostum, ef Ólafr kemr til ríkis, en Hárekr er reyndr mjök í orrostu ok maðr metnaðargjarn. Hárekr segir, at þeir menn væri betr til þess fallnir, er þá voru á lèttasta aldri, en ek er nú maðr gamall ok ekki vel færr til orrostu, er frændsemi með okkr Ólafi konúngi, en þó at hann virði þat lítils við mik, þá samir mèr þó eigi at gánga framar í þenna úfrið enn einhverr annarra í móti honum, sá sem hèr er í vorum flokki: ert þú, Þórir! vel tilfallinn at vera höfuðsmaðr at halda bardaga við Ólaf konúng, eru þar nógar sakir til, bæði átt þú honum at hefna frændaláts, ok þess at hann rak þik or landi ok af eignum þínum, hefir þú því heitit bæði Knúti konúngi ok svâ frændum þínum, at hefna Ásbjarnar, eðr ætlar þú at betri færi muni á gefast við Ólaf konúng enn svâ sem nú er, at hefna þeirrar svívirðíngar allrar saman? Þórir svarar máli hans: ekki ber ek traust til þess, at reisa merki í móti Ólafi konúngi, eðr gjörast höfðíngi fyrir liði þessu, hafa Þrændir hèr mannmúg mestan, kann ek stórlæti þeirra, at þeir munu ekki mèr vilja

hlýða eðr öðrum háleyskum manni, en ekki mun þurfa at minna mik á sakir þær, er ek á at gjalda Ólafi konúngi, man ek þat mannlát, er Ólafr konúngr hefir af lífi tekit fjóra menn, ok alla göfga at metorðum ok kynferðum, Ásbjörn, bróðurson minn, Þori ok Grjótgarð, systursonu mína, ok Ölvi, föður þeirra, ok er ek hvers þeirra skyldr at hefna; nú er þat frá mèr at segja, at ek hefir valit af húskörlum mínum menn 11, þá er snarpastir eru, ok ætla ek at vær skulum ekki við aðra meta at skipta höggum við Ólaf konúng, ef vær komumst í færi við hann.

206. Kálfr Árnason tekr þá til máls: þess munu vèr þurfa um ráð þat er vær höfum upptekit, at gjöra nú eigi þat at hègómamálum, er herrinn er samankominn, munu vær annars við þurfa, ef vèr skulum halda bardaga við Ólaf konúng, enn þess at hverr drægi sik undan at taka upp vanda þenna, þvíat svâ megu vær tilætla, þóat Ólafr konúngr hafi eigi lið mikit hjá her þeim, at vèr höfum, þá er þar þó öruggr oddvitinn fyrir, ok mun allt lið hans vera honum trútt til fylgðar; en ef vèr æðrumst nú nokkut, er helzt skulum fyrir vera forstjórar liðs vors, ok viljum eigi nú treysta herinn ok eggja at veita fyrigaungu, þá mun þegar fjöldi hersins, þat at stall mun drepa or hjarta, ok þvínæst sèr hverr ráðs leita, en þótt hèr sè her mikill, þá munu vèr koma í þá raun, ef Ólafr konúngr ferr með her sinn at oss, er ósigr viss, nema vær sèem skelegir sjálfir í ráðum vorum,

en múgrinn geysist fram með einu samþykki, en ef eigi verðr svâ, þá er betra at hætta eigi til bardaga við Ólaf konúng, ok mun sá kostr þikkja líkastr at hætta til miskunnar Ólafs, ok var hann þá harðr, er minni voru sakir til, enn nú munu honum þikkja, en þó veit ek at svâ er skipat mönnum í hirð konúngs, at mèr mun þar griða kostr, ef ek vil þess leita; nú ef þèr vilið sem ek, þá skal Þórir ok þú, Hárekr! gánga undir merki þat, er vèr skulum uppsetja, ok fylkja síðan, gjörumst vèr snarpir allir ok skelegir í þessum ráðum, er vèr höfum upptekit, ok höldum svâ fram bónda herinum, at eigi megi á oss finna æðru, ok mun þat alþyðu frameggja, er vèr erum glaðir at fylkja ok eggja liðit. En er Kálfr hafði lokit at tala eyrindi sitt, þá vikust allir undir ræðu hans, ok sögðu at þeir vildu þat allt halda, er Kálfr sæi fyrir þeim; vildu þeir þá allir at Kálfr væri höfðíngi fyrir þeim, ok skipaði þar hverjum, sem hann vildi.

207. Kálfr setti upp merki, ok skipaði þar húskörlum sínum undir merkit, ok þar með Háreki ok liði hans, en Þórir hundr með sína sveit var í öndverðum fylkíngarbroddi fyrir merkinu, þar var ok valit af bóndum á tvær hliðar Þori þat er snarpast var ok bezt búit, var sú fylkíng bæði laung ok þykk, ok voru þar Þrændir ok Háleygir, en hinn hægra veg frá fylkíngunni var sett önnur fylkíng, ok til vinstri

handar frá aðalfylkíngunni[1] voru Rýgir, Hörðar, Sygnir[2], ok höfðu þeir hit 3ja merki[3].

208. Þorsteinn knararsmiðr er maðr nefndr, hann var kaupmaðr ok smiðr mikill, hann var mikill maðr ok sterkr, kaupmaðr mikill ok vígamaðr mikill; hann hafði vorðit úsáttr við Olaf konúng, ok hafði konúngr tekit af honum kaupskip nýtt ok mikit, er hann hafði gert, var þat fyrir úspektar sakir hans ok þegngildi, er hann átti at gjalda; Þorsteinn var þar þá í herinum, hann gekk fyrir framan fylkíng, ok þartil sem Þórir stóð, hann mælti svâ: hèr vil ek vera í sveit, Þórir! með yðr, þvíat ek ætla, ef við Ólafr hittumst, at bera vâpn á hann, ef ek má verða svâ nær staddr, at gjalda honum skiptöku, er hann rænti mik skipi því, er eitt var bezt haft í kaupförum. Þeir tóku við Þorsteini, ok var hann í sveit með þeim.

209. En er skipat var til um fylkíng bónda, þá töluðu lendir menn, ok báðu menn gaum gefa at um stöður sínar, hvar hverjum var skipat eðr undir hverju merki þá skyldi hverr vera, eðr hversu nær honum var skipat merkinu, báðu þá vera menn vakra ok skjóta at gánga í fylkíng, er lúðrar kvæði við ok herblástr kvæmi upp, ok gánga þá í fylkíng, þvíat þeir áttu þá enn leið lánga at flytja herinn, ok var þess vân at fylkíngar mundu berjast[4] í hergaungunni; síðan eggjuðu þeir liðit; ok mælti Kálfr at allir

1) *þannig hin*; aðalfylkíngunum, *A.* 2) Firðir *b. v. S.* 3) *þannig hin*; fylki, *A.* 4) möðask, C; berast, *F*; berast láta, *L.*

þeir menn, at harma sinna ætti at reka við Ólaf konúng, skyldu þá framgánga undir merki þat, er fram skyldi ímóti konúngs merki, ok vera minnigir þeirra meingjörða, er hann hefir þeim veitt, segir, at þeir mundu eigi komast í betra færi at hefna harma sinna, ok frelsa svâ sik frá þeirra ánauð ok yfirgángi ok þrælkun, er hèr hefir þá undir lagt: er sá nú, segir hann, bleyðimaðr er eigi berst nú sem drengiligast, þvíat eigi er sakleysi við þá, er í móti yðr eru, munu þeir ok eigi spara yðr, ef þeir komast í færi. At máli hans varð allmikill rómr, var þá kall mikit ok eggjan um allan herinn.

210. Síðan fluttu bændr herinn til Stiklastaða, þar var fyrir Ólafr konúngr með lið sitt; fóru þeir í öndverðu liðinu Kálfr Árnason ok Hárekr, en er þeir mættust, þá tekst eigi allskjótt árásin, þvíat bændr frestuðu atgaungu fyrir þá sök at lið þeirra fór hvergi jafnfram þeim, ok biðu þeir þess, er síðar fór. Þórir hundr hafði farit síðarst með sína sveit, þvíat hann skyldi gæta, at ekki slægist aptr liðit, þá er heróp kvæmi upp eða liðit sæist; biðu þeir Þóris. Bændr höfðu þat orðtak í her sínum at eggja lið sitt til orrostu: fram, fram, bændr! Ólafr konúngr gjörði eigi atgaungu, þvíat hann beið Dags; svâ er sagt at bændr höfðu eigi minna lið enn hundrað hundraða[1], en Sighvatr segir svâ:

[1]) 12 þúsundir, F.

Ólmr erumz[1] harmr sá er hilmir
hafði gulli vafðan
jöfr kærsti[2] sá er[3] austan
aflað[4] meðalkafla;
gagn fengu þar[5] þegnar,
þeir eru[6] hálfu fleiri[7],
[hvötuðr taldi[8] þar[9] hildar
hvârtveggi[10] frýu[11] voru[12].

211. Þá er lið hvârtveggja stóð, ok kendust menn, þá mælti konúngr: hví ert þú hèr, Kálfr! þvíat vèr skildumst vinir suðr á Mæri, illa samir þèr at berjast í móti oss, eðr skjóta geigu skot í móti oss, þvíat hèr eru nu[13] bræðr[14] þínir. Kálfr svarar: margt ferr nú annan veg enn bezt mundi sama, skildust þèr svâ við oss næstum, er nauðsyn bar til at friðast við þá er eptir voru, verðr þar nú hverr at vera sem staddr er; en sættast mundu við, ef ek skylda ráða. Þá svarar Finnr: þat er mark á um Kálf, ef hann mælir vel, þá er hann ráðinn til at gjöra illa. Konúngr mælti: vera kann, Kálfr! at þú vilir sættast, en ekki þikkir mèr þú friðsamliga láta. Þá mælti Þorgeirr af Kvistum[15]: þèr skulið nú hafa slíkan frið, sem margir hafa áðr af yðr haft, ok munu þèr nú þess gjalda.

---

1) erumc, *C*; *S*; er um, *F*; *hèr sleppr K um sinn.* 2) kreisti, *hin.* 3) *v. í C, S.* 4) aflfátt, *C, F, S.* 5) því, *hin.* 6) er, *C, F, L*; at, *S.* 7) voru, *b. v. L.* 8) hvötuð tældi, *hin.* 9) þat, *hin.* 10) hvârúngi, *hin.* 11) frá ek, *C, S*; frý ek, *F, L.* 12) *vís. v. í H.* 13) 4, *hin.* 14) *Hèr byrjar D aptr.* 15) Krístöðum, *D, S*; Kinnstöðum, *H.*

Konúngr svarar: eigi þarft þú at fýsast svâ mjök til vârs fundar, þvíat eigi mun þèr sigrs auðit verða á oss í dag, þvíat ek hóf þik til ríkis af litlum manni. Þórir hundr kom þá með sveit sína, ok gekk fram fyrir merkit ok kallaði: fram, fram, bóandmenn! þá lustu bændr upp herópi, ok skutu bæði örum ok spjótum. Ólafr konúngr mælti ok, at hans menn lysti ok upp herópi, æptu þá heróp hvârirtveggju, en er því var lokit, þá eggjuðust þeir, sem þeim var kent, ok mæltu svâ: fram, fram, kristsmenn! krossmenn! konúngsmenn! En er þetta heyrðu bændr, þeir er stóðu upp í arminn, þá mæltu þeir slíkt hit sama sem þeir heyrðu þá mæla; en er bændr aðrir heyrðu þat, hugðu þeir þat vera konúngsmenn, ok báru þeir þegar vâpn á þá, ok börðust þeir þá sjálfir, ok fèll þá lið margt, áðr þeir bændr vöknuðu við. Veðr var bjart ok skein sól í heiði, en er orrostan tókst, þá laust roða á himininn ok á sólina, ok áðr enn lètti, gjörði myrkt sem um nátt. Ólafr konúngr hafði fylkt þar er hæð nökkur var, ok steyptust þeir ofan á lið bónda, ok veittu svâ hart áhlaup á fylkíngu bónda, at hún bognaði svâ mjök, at þar stóð þá brjóst fylkíngar konúngs, sem áðr höfðu staðit þeir er efstir voru í liði bónda, ok var þá margt bónda lið búit til at flýja, en lendir menn ok lendra manna húskarlar stóðu fast, ok var þar hin snarpasta orrosta. Svâ segir Sighvatr skáld:

Vítt[1] er[2] fold und fótum,
friðbann var þat[3] mönnum,
þá rèð í böð bráða[4]
brynjat fólk at dynja;
þá er árliga, örvar[5]
álmr[6], með bjarta hjálma,
mikit[7] varð, á stað Stikla[8],
stál gustr, ofan þustu.

Bændr eggjuðu lið sitt ok knúðu til framgaungu; þess getr Sighvatr skáld:

Fór[9] í fylkíng þeirra
fram, iðrast nú, miðri,
snarir [fundust þá þrændir[10]
þess verks búendr, merki.

Þá sótti at bóndalið allumegin, hjuggu þeir er fremst voru, en þeir er þar voru næst, lögðu spjótum eða skutu örum eða köstuðu grjóti eða flettiskeptum[11], gjörðist þá mannskæðr bardagi, ok fèll margt lið af hvârtveggjum; í fyrstu hríð fèllu þeir Gauka-Þórir ok Afrafasti ok Arnljótr gellini, ok þeirra sveit öll, hverr þeirra hafði mann fyrir sik eða tvâ, en sumir fleiri; þá þyntist fylkíng frammi fyrir konúngi, bað konúngr Þórð bera fram merkit, en konúngr fylgði sjálfr merkinu, en sú sveit manna, er hann hafði til valit at vera þar nær í orrostunni, þat voru þeir

1) vætt, *H*; við, *L*. 2) var, *C*, *D*, *H*, *S*. 3) þar, *F*, *H*, *L*, *S*. 4) brakka, *L*. 5) ærir, *C*, *D*, *H*, *S*; ærit, *F*; æzta, *L*. 6) álms, *hin*. 7) mikill, *hin*. 8) Stiklar, *C*. 9) fèkk, *D*, *H*. 10) fundust þar þrænda, *C*, *L*, *S*; börðust þar sverðum, *D*, *H*. 11) skeptiflettum, *C*, *S*.

menn í hans liði, er vápndjarfastir voru ok bezt búnir; þess getr Sighvatr skáld:

Mest frá ek merkjum[1] vestan[2]
minn drottinn fram[3] sínum,
staung [ein var gram[4], gánga[5],
gnógr styrr var[6] þar fyrri.

Þá er Ólafr konúngr gekk fram or skjaldborginni ok í öndverða fylkíng, ok er bændr sáu í aúgu honum, þá hræddust þeir ok féllust þeim hendr; þess getr Sighvatr:

Geirs [hygg ek[7] grimmligt ríki[8],
gunnreifum Óleifi,
lofrækindum[9] líta
ljóns í[10] hvassar sjónir;
þorðut þrænskir virðar,
þótti hessa[11] drottinn
ógrligr[12], í aúgu
ormsfráns[13] sjá hánum[14].

Ok varð þar allhörð orrosta, gekk konúngr þá sjálfr fram í orrostunni; svá segir Sighvatr skáld:

Rauð í rekka blóði
rönd með, gumna, höndum,
dreyrug[15] sverð [þar er[16] dýrum[17]
drótt, þjóðkonúngr[18], sótti;

1) þar, *C.* 2) næstan, *hin.* 3) framan, *L.* 4) óð fyrir gram, *C, D, S*; varð gylt at, *F.* 5) gengum, *D, S.* 6) óx, *F, L.* 7) hykk, *C*; *v. í D, K.* 8) voru, *C, D, L, S*; væri, *F.* 9) lofrennundum, *D*; lofrætundum, *S.* 10) með, *C.* 11) hersa, *hin.* 12) ægiligr, *D, S.* 13) ormfrán, *C*, S; ormfráni, *L.* 14) *vísurn. v. í H.* 15) dreyrugt, *C, H.* 16) fyrir, *C*; þá er, *D, K.* 17) dyggvan, *D, K*; dýran, *hin.* 18) þjóðkonúng, *C, D, F, H, S.*

óttᵀ at járna[2] leiki
[Innþrændum lèt finnast[3],
[rekinn var[4] gramr, í reikar
rauðbrúnan[5] hjör túnum[6].

Ólafr konúngr barðist alldjarfliga, hann hjó til þorgeirs af Kvistum[7], lends manns, er fyrr var getit, um þvert annlit ok í sundr nefbjörg á hjálminum, ok klauf höfuðit fyrir neðan augun, svâ at nær tók af; en er hann fèll, þá mælti konúngr: hvort er þat satt, er ek sagða þèr, þorgeirr! at þú mundir eigi sigrast á oss í bardaga í okkrum viðskiptum. Í þeirri skýsvipan skaut þórðr niðr merkistaunginni svâ hart at stöngin stóð, ok hafði þórðr fengit banasár, ok fèll hann þar undir merkinu; þá fèllu ok þeir þorfinnr munnr ok Gizur gullbrárfóstri[8], ok höfðu hann sótt 2 menn, en hann drap annan þeirra en særði annan áðr hann fèll; svâ segir Hofgarða-Refr:

Einn hafði[9] gný gunnar
gull[10] báls[11] Hás[12] skála[13]
rimmu[14] askr við röskvan[15]
regndjarfr tvâ þegna;
dalsteypis[16] hjó Draupnis[17]

[1]) ok, *D*, *S*; jóku, *F*. [2]) ísarn, *D*. [3]) Innþrændir sókn stinna, *F*. [4]) rækinn, *hin*. [5]) rauð brúnu, *L*. [6]) *seinni part vís. v. í H.* [7]) Kvístöðum, *D*, *S*; Kinnstöðum, *H*. [8]) gullbrárskáld, *D*, *H*; gullbrá, *C*, *S*. [9]) í, *b. v. C.* [10]) gall, *C*, *D*, *H*, *S*. [11]) bál, *C*, *S*. [12]) Hár, *C*, *D*, *H*; Hárs, *F*, *L*, *S*. [13]) stála, *D*, *H*, *S*. [14]) runnu, *C*, *D*, *H*, *K*, *L*; runu, *F*. [15]) röskva, *C*, *D*, *F*, *H*. [16]) dalstýfis, *L*; dalsteypir, *hin*. [17]) *máð í A*.

draugs[1] frey bana höggvinn[2]
hann [rauð járn[3], en annan
árstrauma, vann sáran.

Þá varð þat er fyrr var sagt at himin var heiðr, en sól hvarf at sýn ok gjörði myrkt; þessa getr Sighvatr skáld:

Undr láta því[4] ýtar
eigi smátt, er mátta
[skýnjórúngum skotna[5]
skýlauss röðull hlýja[6];
drjúg[7] varð á því dægri,
dagr náði[8] lit fögrum,
orrostu frá ek austan
atburð konúngs spurðan[9].

Í þenna brum[10] kom Dagr Hríngsson með lið sitt, ok tók hann þá nú at fylkja liði sínu ok setti upp merki, en fyrir því at myrkr var mikit, þá varð ekki skjótt til atgöngu, þvíat (þeir) vissu eigi víst, hvat fyrir var, en þó snèru þeir þar at, er fyrir eru Rýgir ok Hörðar, voru þessir atburðir allir jafnsnemma eða sumir litlu fyrr enn sumir. Kálfr ok Ólafr hètu frændr Kálfs Árnasonar; þeir stóðu (á) aðra hönd þeirra, ok voru menn miklir ok rösk-

---

1) daggs, *C*; dögg, *D*, *F*, *H*, *S*. 2) höggvi, *hin*. 3) *máð í A*. 4) þat, *hin*. 5) skenjörðúngum skorðu, *C*, *S*; skýnjorðúngum skorðu, *F*, *L*; skein í örðugum skorðum, *H*. 6) hylja, *D*, *H*, *L*, *S*. 7) drjúgr, *C*; drög, *D*, *H*; drug, *S*. 8) náðit, *C*, *L*, *S*. 9) furða, *C*, *F*, *H*, *S*; furðu, *D*; funda, *L*. 10) *þannig A*, *C*, *L*; tíma, *hin*.

ir; [Kálfr var son[1] Árnfinns Árnasonar[2] Armóðssonar[3]; á aðra hönd Kálfi Árnasyni gekk fram Þórir hundr. Ólafr konúngr hjó til Þóris ok um þverar herðarnar; sverðit beit ekki, en svâ sýndist sem dust hryti or hreinbjálfanum; þessa getr Sighvatr skáld:

Mildr fann gjörst, hve galdrar,
gram[4] sjálfr[5], megin-rammar
fjölkunnigra Finna
fullstórum barg Þóri;
þá er hýr sendir, Hundi,
húna gulli búnu,
slætt rèð sízt at bíta,
sverði laust um herður.

Þórir hjó til konúngs, ok skiptust þeir þó við nökkurum höggum, ok beit ekki sverð konúngs, þar er hreinbjálfinn var fyrir, en þó varð Þórir sár á hendi. Enn kvað Sighvatr:

Þollr dylr sannrar snilli
seims, en þat veit[6] ek[7] heiman[8],
hverr[9] sèr[10] hunds verk stærra
hugstórs [enn vann[11] Þórir[12];
er, þvergarða[13], þorði
þrjótr[14] hinn, er fram um sótti,

1) þeir voru synir, *F.* 2) Armóðssonar, *C, S.* 3) sonarbróður Arnasona, *C*; bróðir Arna Arnasonar, *D, H*; bróðurson Arna Armóðssonar, *S.* 4) grams, *F*; gramr, *hin* 5) silfrs, *F, L.* 6) frá, *F.* 7) *v. i S.* 8) heima, *F.* 9) hvers, *L.* 10) sæi, *C, S*; sè, *D, H, L*; sjái, *F.* 11) er frýr, *D, H.* 12) Þóri, *D, H.* 13) þvergerða, *C.* 14) þróttr, *hin.*

gnýs[1], í gegn at höggva
gunnrakkr[2] konúngs-[3] manni.

Konúngrinn mælti til Bjarnar stallara: ber þú hundinn, er eigi bíta [járnin; Björn snèri öxinni í hendinni sèr ok laust með hamrinum, ok kom á öxlina, ok varð allmikit högg [ok hrataði Þórir við[5]; en eptir þetta snèri konúngr í móti þeim Kálfi frændum, ok veitti banasár Ólafi, frænda Kálfs; þá lagði Þórir hundr spjóti til Bjarnar stallara, ok á honum miðjum, ok veitti honum banasár; þá mælti Þórir: svâ bötu vèr björnuna. Þorsteinn knarrarsmiðr[6] hjó til Ólafs konúngs með öxi, ok kom á fótinn vinstra við knèit; Finnr Árnason drap þegar Þorstein; en við sár þat hneigðist konúngr við stein einn, ok kastaði sverðinu, ok bað sèr guð hjálpa; þá lagði Þórir hundr spjóti til konúngs, kom lagit neðan undir brynjuna, ok rendi upp í kviðin; þá hjó Kálfr til konúngs, kom þat [högg enum[7] vinstra megin á kálfann[8]; ok greinast menn á þat, hvârt Kálfr veitti konúngi sár; þessi þrjú sár hafði Ólafr konúngr til lífláts; eptir fall hans fèll sú sveit öll, er fram hafði gengit með Ólafi konúngi. Bjarni gullbrárskáld kvað þetta um Kálf Árnason:

Jörð rèttu vígi[9] at varða,

---

1) glýgs, *C, D, H, S.* 2) gunnranns, *C, D, H, S*; gunnrammr, *L.* 3) konúng, *C, D, F, S.* 4) *þannig hin; máð í A.* 5) *þannig hin; máð í A.* 6) *Hèr byrjar K aptr.* 7) *þannig hin; máð í A.* 8) hálsinn, *hin.* 9) vísi, *L.*

vígreifr! fyrir Óleifi
[brauta þú[1] við bragníng nýztan[2]
bág, þat kveð ek mik frágu;
fyrr[3] gekkst þú [í styr straungum[4]
stóð[5] verk, en óð merki,
satt er at sokn of veittir
snjallr, unz gramr var fallinn.

Sighvatr skáld kvað um Björn stallara:

Björn frá ek auð[6] at[7] ernum
endr stallarum[8] kendi[9],
hug (hve) halda dugði,
hann sótti fram drottinn;
fèll í her með hylli[10]
hann virðínga[11] manna[12]
frægr[13] at hilmis höfði
hróðr-auðugs sá dauði[14].

212. Dagr Hríngsson hèlt upp orrostu, ok veitti hina fyrstu atgaungu svâ harða, at bændr hrukku fyrir, en sumir stukku á flótta, þá fèll fjöldi liðs af bóndum; þessir lendir menn: Erlendr or Gerði ok Áslakr af Finneyjum[15], var þá merki niðr höggvit fyrir bóndum, er þeir höfðu áðr með farit; var þá orrosta hin ákafasta; köll-uðu menn þat Dagshríð, þá snöru þeir ímóti

1) brauztu, *hin.* 2) nyztum, *C.* 3) fram, *F.* 4) á stað Stikla, *C, D, H, S*; styrs uns stilli, *K.* 5) stór, *C, D, H, S.* 6) *v. í D, H.* 7) ok, *D, H*; af, *hin.* 8) stallara, *F, L.* 9) kendan, *C*; kenda, *K*; kendum, *L*; kendu, *S.* 10) hollum, *C, D, H, S.* 11) verðúngar, *hin.* 12) sverða, *C*; manni, *H.* 13) leyfðr, *C*; leyfðr er, *D, H, S.* 14) dauða, *C, H.* 15) Feneyjum, *D, H.*

Dag, Kálfr Árnason ok Hárekr or Þjóttu, Þórir hundr með þá sveit er honum fylgði, var þá Dagr ofrliði borinn, ok snèri þá á flótta, ok allt lið þat er eptir var, ok var þar dalr nokkur, er megin flokkrinn fór um, fèll þar þá margt lið, síðan dreifðist þá flokkrinn tveggja vegna í brutt; voru margir menn sárir mjök ok margir mæddir, svâ at til einskis voru færir. Bændr ráku skamt flóttan, þvíat höfðíngjar snèru aptr brátt, ok þar til at valrinn lá, þvíat margir áttu þar at leita eptir frændum sínum.

213. Þórir hundr gekk þar til, sem lá lík Ólafs konúngs, ok veitti þar umbúnað, lagði niðr líkit, ok rètti ok breiddi klæði yfir, ok er hann þerði blóðit af andlitinu, þá sagði hann svâ síðan, at andlit hans væri svâ fagrt ok roðinn í kinnunum, sem þá at hann svæfi, en miklu bjartara enn þá er hann lifði; þá kom blóð konúngsins á hönd Þóri, ok rann upp á greipina, þar er hann hafði áðr sár fengit, ok þurfti um þat sár eigi at binda þaðan frá, svâ grèri þat skjótt; vottaði Þórir þenna atburð sjálfr, þá er helgi Ólafs konúngs kom upp fyrir alþýðu, varð Þórir hundr fyrstr manna til þess, at halda upp helgi Ólafs konúngs, þeirra manna at þar höfðu verit í mótstöðuflokki hans.

214. Kálfr Árnason leitaði at bræðrum sínum, er þar voru fallnir, hann hitti Þorberg ok Finn Árnason, ok er þat sögn manna, at Finnr kastaði at honum saxi, ok vildi drepa hann, ok

mælti til hans hörðum orðum, ok kallaði hann griðníðíng ok drottinnsvika; Kálfr gaf ekki at því gaum, ok lèt hann Finn bera brott or valnum ok svâ Þorberg; var þá leitat um sár manna, ok höfðu þeir engi sár banvæn, höfðu þeir fallit fyrir vâpnaburð ok mæði; síðan lèt Kálfr flytja bræðr sína ofan til skips ok fór með þeim sjálfr; en þegar hann snèri á brutt, þá fór í brutt allt bónda lið, þat er þar átti heimili í nánd, nema þeir menn er þar störfuðu at frændum sínum, ok vinna þeim er sárir voru eðr at líkum þeirra er dauðir voru, ok voru menn fluttir heim á bæi, svâ at hvert hús var fullt af þeim, en tjaldat úti yfir sumum; svâ undarliga margt fólk sem samnazt hafði í bónda herinn, þá þótti þat eigi minnr frá líkindum, hversu skjótt samnaðrinn raufst, þar er til þess tók, ok bar þat mjök til at hitt mesta fjölmenni hafði þar samnazt or hèruðum, ok voru þeir mjök heimfúsir.

215. Bændr, þeir er heima áttu í Veradal, gengu þeir til fundar við höfðíngja Hárek ok Þóri, ok kærðu fyrir þeim sín vandræði, ok sögðu svâ: flóttamenn þessir, er hèr hafa undan komizt, munu fara upp um Veradal ok munu búa oss óþarfliga at heimilum vorum, en oss er ekki fært heim meðan þeir eru í dalnum; nú gjörið svâ vel farið eptir þeim ok látið ekki manns barn undan komast, þvíat slíkan kost munu þeir oss ætla, ef þeir hefði betr haft á vârum fundi, ok svâ munu þeir enn gjöra, ef vèr hittumst síð-

ar, svâ at þeir hafi meiri kosti, en vera kann at þeim dvelizt í dölum, ef þeir vita sèr eingis ótta vânir, munu þeir þegar fara óspakliga á bygðir vârar. Ræddu bændr mörgum orðum um þetta ok eggjuðu með ákafa miklum, at höfðíngjar skyldu fara ok drepa þat fólk, sem undan hafði komizt. Ok er höfðíngjar töluðu þetta sín í millim, þá þóttu þeim bændr hafa margt satt sagt í tölu sinni, rèðu þá þat at Þórir hundr rèzt til ferðar með Verdælum, ok hafði hann 6 hundruð manna, þat er hans lið var, fór síðan, tók þá at nátta, lètti Þórir eigi fyrr ferð sinni, enn hann kom um náttina uppá Súlu, ok spurði hann þar þau tíðindi, at um kveldit hafði þar komit Dagr Hríngsson ok margar aðrar sveitir af Ólafs konúngs mönnum, ok höfðu þeir haft þar náttverðar dvöl, en farit síðan á fjall upp; þá segir Þórir at hann mundi ekki rekast eptir þeim um fjöll, ok snèri hann þá aptr ofan í dalinn, ok fengu þeir fátt drepit; síðan fóru bændr til heimila sinna, síðan fór Þórir eptir um daginn til skipa sinna; en konúngsmenn, þeir er færir voru, forðuðu sèr, ok leyndust í skógum, sumir fengu hjálp af mönnum.

216. Haraldr Sigurðarson var sárr mjök, en Rögnvaldr Brúsason flutti hann til bónda eins um náttina eptir bardagan, tók þá bóndi við Haraldi, ok hafði hann á laun, ok lèt þar græða hann; síðan fèkk hann til son sinn at fylgja honum í brutt, foru þeir þá huldu höfði um

fjöll ok eyðimerkr ok koma fram á Jamtalandi; þá kvað Haraldr þetta:

Nú læt[1] ek skóg af skógi
skreiðast[2] lítils heiðar[3]
hverr veit nema ek verða
víða frægr um síðir.

217. Haraldr Sigurðarson, bróðir Ólafs konúngs, var þá 15 vetra gamall, er Ólafr konúngr fèll, á þat kveðr Þjóðólfr skáld í drápu þeirri, er hann orti um Harald konúng, er kölluð er Sexstefja:

Hvast frá ek, höggvi[4] næsta,
hlíf- èl á gram drífa[5],
en bolgera[6] brennir
bræðr sínum vel tæði[7];
skildist hann, ok huldi
hjálmsetrs[8], gamall vetra
tiggi tólf ok þriggja
trauðr við Ólaf dauðan.

Haraldr hitti Rögnvald á Jamtalandi, ok fóru þaðan til Svíþjóðar um haustit, ok var þar um vetrinn; annat sumar fóru þeir austr í Garðaríki til Jarazleifs konúngs, ok tók hann vel við þeim, dvaldist Haraldr þar lengi síðan ok svâ Rögnvaldr; svâ segir Bölverkr skáld í drápu þeirri, er hann orti um Harald konúng:

---

1) verð, *D*, *F*, *S*; fer, *H*. 2) skreiða, *H*. 3) *C skamstafar fyrri part vís. og sleppir seinni partinum.* 4) havki, *C*; hugi ið, *D*; huggi, haugi, *K*, *L*, *S*. 5) *þat fylgjandi af vís. v. í C.* 6) bolgara, *D*, *H*, *K*, *L*, *S*. 7) ræði, *L*. 8) hjálmsetr, *S*.

Mildíngr! straukt þú[1] um mækiss
munn, er lèzt af gunni,
hollr[2] vant þú hrafn um fyldan
hrás[3], þaut úlfr[4] í ási;
en gramr nè[5] ek frá fremra
friðskerðir þèr verða,
austr komt þú árit næsta
örðiglundr í Garða[6].

Þess getr Arnór jarlaskáld, at Rögnvaldr Brúsason var lengi síðan landvarnarmaðr í Garðaríki, ok átti þar margar orrostur:

Deildist af því[7] at aldri[8]
èls[9] grafnínga[10] þelar
gunnlar[11] njörðr í Görðum
gunnbráðr tíu háði.

218. Þormóðr kolbrúnarskáld var í orrostu undir merki Ólafs konúngs, ok er konúngr var fallinn, ok atsókn var sem hörðust, þá fèllu konúngs menn hverr um annan, en þeir voru flestir sárir, er upp stóðu. Þormóðr var sár mjök, gjörði hann svâ sem aðrir, flýði þaðan frá sem mestr þótti mannháski, en sumir runnu, þá hófst Dags orrosta, er Dagshríð er kölluð, sótti allt konúngs lið, þat er vâpnfært var, en Þormóðr kom þá ekki í orrostu, þvíat hann var ekki vâpnfærr, ok var þá

---

1) *þat fylgjandi af vís. v. í C.* 2) hollz, *D*, *S*; helzt, *H*. 3) hárs, *D*, *H*. 4) vargr, *D*, *H*, *S*. 5) *þannig hin*; en, *A*. 6) Görðum, *S*. 7) svâ, *hin*. 8) aldin, *S*. 9) jel, *hin*. 10) granminga, *C*, *K*. 11) göndlar, *C*, *S*.

óvigr bæði af mæði ok sárum, ok stóð hann hjá fèlögum sínum, þóat hann mætti ekki athafast, þá var hann lostinn með öru í síðu vinstri, braut hann af sèr örvar skaptit, ok gekk hann þá í brutt frá orrostunni ok heim til húsanna, var þar mikit hús fyrir honum; Þormóðr hafði bert sverð í hendi, ok er hann gekk inn, kom maðr í móti honum, sá mælti: furðu ill læti eru hèr inn at heyra, veinun ok gaulun; skömm mikil er karlmönnum röskum í slíku, at þeir skulu eigi þola sár, vera má ok at konúngsmenn hafi allvel framgengit, en illa bera þeir sárin. Þormóðr mælti: hvert er nafn þitt? hann nefndist Kimbi. Þormóðr svarar: vart þú í bardaga? var ek, ségir hann, með bóndum, er betr var; ert þú nokkut sárr, segir Þormóðr? lítt, segir Kimbi: eða hvârt vart þú í bardaga? Þormóðr segir: var ek með þeim, er betr höfðu. Kimbi sá at Þormóðr hafði gullhríng á hendi, hann mælti; þú munt vera konúngsmann, fá þú mèr gullhrínginn, en ek mun leyna þèr, bændr munu launa þèr úspekt þína, ef þú verðr á veg þeirra. Þormóðr mælti: haf þú hrínginn, ef þú kant at fá hann, þvíat látit hefir ek nú meira. Kimbi rètti fram höndina ok vildi taka hrínginn; Þormóðr sveipaði til sverðinu ok hjó hönd af Kimba, ok er sagt at Kimbi bar sár sitt öngan mun betr enn hinir, er hann hafði áðr áfært; fór Kimbi í brott, en Þormóðr settist

niðr í hlöðunni, ok sat þar um hríð ok heyrði á tal manna; þat var mest talat, at hverr sagði þat, er sèð þóttist hafa í orrostu, ok töluðu um framgaungur manna, lofuðu sumir mest hreysti Ólafs konúngs, en sumir nefndu aðra ekki síðr til; þá kvað Þormóðr:

Ört var Ólafs hjarta,
óð fram [gramr í blóði[1],
rekin bitu stál á Stikla-
stöðum, kvaddist[2] lið böðvar;
èlþolla leit[3] alla
jálmveðrs[4], nema gram sjálfan,
reyndr var flestr[5] í fastri
fleindrífu, sèr hlífa.

Þormóðr gekk síðan í brutt, ok kom til skemmu nökkurrar, gekk þar inn, ok voru þar margir menn aðrir sárir; var þar at kona nokkur at binda sár manna, eldr var á gólfinu, vermdi hún þar vatn til at fægja sár manna; en Þormóðr settist niðr við dyr utar, þar gekk annar maðr út, en annar inn, þeir er störfuðu at sárum manna, þá snèri einn maðr at Þormoði, ok sá á hann, ok mælti: hví ertu svâ fölr, ertu sár, eða hví biðr þú þèr eigi lækníngar? Þormóðr kvað þá vísu þessa:

Emka ek rjóðr, en rauðum
ræðr grönn[6] Skögul manni

[1]) gramr í valś blóði, *K*; í val blóði, *L*. [2]) kvaddi, *D*, *F*, *H*, *K*, *S*. [3]) ek, *b. v. F*; sá ek, *hin*. [4]) álmveðrs, *C*, *F*; jálfveðrs, *D*, *H*; Jálfóðs, *S*. [5]) um flest. *F*. [6]) gran, *C*; gunn, *D*, *H*.

haukasetrs[1] hin hvíta,
hyggr fár um mik sárann;
hitt veldr mèr at, meldrar,
morð venjandi[2] Fenju[3],
[draupnis dýrra[4] vâpna
Dagshríðar spor svíða.

Síðan gekk þormóðr at eldinum, ok stóð þar um hríð, þá mælti læknir til hans: gakk út maðr ok tak mèr skíðafang, er hèr liggr hjá dyrum úti. Hann gekk út ok bar inn skíðafángit, ok kastaði niðr á gólfit; þá sá læknir í annlit honum, ok mælti: furðu bleikr er þessi maðr, hví ert þú slíkr? þá kvað þormóðr vísu:

Undrast Öglis landa
eik, hví vær erim[5] bleikir,
fár verðr fagr af sárum,
fann ek örvadrif, svanni!
mik fló málmr hinn dökkvi
magni keyrðr í gegnum,
hvast beit hjartað næsta
hættligt járn, er ek vætti[6].

Lát mik sjá sár þín, ok mun ek veita umbönd. Síðan settist hann niðr, ok kastaði klæðum af sèr; en er læknir sá sár hans, þá leitaði hún um sár þat, sem hann hafði á síðunni, kendi þess at þar var járn í, en þat vissi hún eigi,

[1]) haukalátrs, *D*, *H*. [2]) morðvenandi, *D*, *H*; margsdeyjandi, *K*. [3]) Freyju, *K*. [4]) djúp ok danskra, *C*, *D*, *L*; drep ok danskra, *H*; drýpr danskra, *S*. [5]) sèm, *C*, *D*, *F*, *H*, *K*. [6]) ætla, *F*.

hvert þat hafði snúit, hún hafði (þar) gert í steinkatli af[1] lauk ok önnur grös, ok vellt þat saman, ok gaf at eta þeim hinum sárum mönnum, ok reyndi svâ, hvârt þeir höfðu hol sár, en þá kendi af laukinum út or sárinu því er á hol var; hún bar þat at Þormóði, bað hann eta; hann segir: ber brutt, ekki hefir ek grautar[2] sótt. Síðan tók hún spennitaung ok vildi draga út járnit, en þat var fast, ok gekk hvergi, stóð ok lítt út, þvíat sárit var sollit. Þá mælti hann: sker þú til járnsins svâ at vel megi ná með taunginni, fá mèr síðan ok lát mik kippa! hún gerði svâ; þá tók Þormóðr gullríng af hendi sèr, ok gaf lækninum, bað hana slíkt af gera er hún vildi: góðr er nautrinn, at Ólafr konúngr gaf mèr ríng þenna í morgin. Síðan tók Þormóðr taungina, ok kippti brutt örinni, en þar voru á krókar ok lágu á tágir af hjartanu, sumar hvítar en sumar rauðar, ok er þat sá Þormóðr, þá mælti hann: vel hefir konúngrinn alit oss, feitt er mèr um hjartarætr. Síðan hnè hann aptr, ok var þá látinn, ok lýkr þar frá Þormóði at segja.

219. Ólafr konúngr fèll miðvikudaginn hinn fjórða Kalendas Augustuss; þat var nær miðjum degi, er þeir hittust, ok heldr fyrir enn at miðjum degi hófst orrostan, en konúngr fèll fyrir nón, en myrkrit hèlzt frá miðmunda til

---

[1]) stappaðan, *C*; stappat, *D*, *H*, *K*; stappa, *S*. [2]) *þannig C. D, H, K, S*; *rifið af í A*; gras, *F*, *L*.

nóns; svâ segir Sighvatr skáld frá lyktum orrostunnar:

Hörð, [er, sízt[1] hermenn gjörðu
hlíf raufst[2] fyrir gram, lífi,
önd at Engla sendi[3]
ómjók, konúng sjúkan;
of[4] brá Ólafs fjörvi
öld, þar er herr klauf skjöldu,
fólks odda gekk[5] fylkir
fund, en Dagr hèlt undan.

Ok enn kvað hann:

Áðr vitu [eigi meiðar[6]
ógnar skers[7], nè hersa[8],
þjóð rèð þengils dauða,
þann styrk búand-manna;
er slíkan gram sóknum
sár elds viðir feldi,
mörg lá dýr í dreyra
drótt, sem Ólafr þótti[9].

Bændr ræntu ekki valinn, ok varð þegar eptir orrostuna svâ, at heldr sló ótta á marga, þá er móti Ólafi konúngi höfðu verit, en þó hèldu þeir illviljanum sín í millum, ok at allir þeir menn, er með konúngi voru ok höfðu fallit, skyldu hafa öngan þann gröpt eða umbúníng, er góðum mönnum semdi, ok kölluðu þá alla ráns-

[1]) var sú er, *L.* [2]) rauf, *D, H, K*; raufk, *S.* [3]) stríði, *C, D, H, K, L, S.* [4]) ok, *C, F, L*; ör, *D, H, S*; auk, *K.* [5]) fèkk, *H.* [6]) þat eigi, *D, H, S.* [7]) setrs, *D, H.* [8]) þessa, *C*: hersar, *F*; herða, *K.* [9]) sótti, *C.*

menn ok útlaga; en þeir menn er ríkir voru ok þar höfðu látit frændr í valinum, gáfu ekki gaum at því, ok fluttu þeir síðan frændr sína til kirkju ok veittu þeim umbúnað.

220. Þorgils[1] Álmoson[2] ok Grímr son hans fóru til valsins um kveldit, er myrkt var orðit, þeir tóku upp lík Ólafs konúngs ok báru þartil er var húskytja nokkur lítil ok auð annan veg frá bænum, höfðu þeir ljós með sèr ok vatn, tóku þá klæði af líkinu ok þógu því ok sveiptu þeir með líndúkum, ok lögðu þar niðr í húsinu ok huldu viðum, svâ at eigi mátti sjá, þótt menn kæmi í húsit, ok gengu burt síðan ok heim til bæjarins; þar hafði fylgt herinum margt stafkarla hvorumtveggja ok fátækis fólk, er sèr bað matar; en þat kveld eptir bardagann hafði þat fólk margt þar dvalizt, ok er náttaði leitaði þat sèr herbergis um öll hús bæði stór ok smá; þar var einn blindr máðr, sá er sagt er frá, hann var snauðr, ok fór sveinn einn með honum ok leiddi hann, þeir gengu úti um bæi ok leituðu sèr herbergis; þeir koma at því sama húsi, voru þar dyr svâ lágar at nær varð at krjúpa inn; ok er hinn blindi maðr kom í húsit, þá þreifaðist hann fyrir um gólfit, ok leitaði hvârt þar mundi nokkut mega niðr setjast; hatt hafði hann á höfði, ok steyptist hattrinn fyrir andlit honum, er hann laut niðr, hann kendi at tjörn var á

1) *þannig hin og A* kap. 195, *en hèr* Þorgeir. 2) hálma, *D, F, H.*

gólfinu, þá tók hann upp hendinni votri, ok koma fíngrnir við augun, en þegar brá kláða á hvarmana svâ miklum, at hann strauk með fíngrunum votum augun sín sjálfr; síðan opaði hann út or húsinu ok segir at þar mátti ekki inni liggja, þvíat þar var allt vott, ok er hann kom út or húsinu, þá sá hann þegar fyrst skil handa sinna ok allt er svâ nær var honum, er hann mátti sjá fyrir náttmyrkri; hann gekk þegar heim til bæjarins ok inní stofu ok segir frá öllum mönnum, at hann hafði sýn sína ok var hann þá skygn maðr, en þat vissu margir menn at hann hafði lengi verit blindr maðr, þvíat hann hafði þar áðr lengi verit ok gengit um bygðir; hann sagði at þá sá hann fyrst, er hann kom ut or húsi einu litlu ok vondu, ok var þar allt vott inni, segir hann, greip ek þar í höndum ok gnèra ek vâtum um augu mèr, hann segir ok hvar þat hús stóð; en þeir menn, er þar voru ok sá þessi tíðindi, undruðust mjök um þenna atburð, ok töluðu sín í milli, hvat þar mundi inni vera í því húsi[1]; en Þorgils bóndi ok son hans Grímr þóttust vita, hvaðan af þessi atburðr mundi vera; þeir ræddust mjök, at óvinir konúngs mundu fara ok rannsaka húsit; síðan leyndust þeir í burt ok fóru til hússins, ok tóku líkit ok fluttu þat burt út í hagann ok fálu þar, fóru þeir síðan til bæjarins, ok sváfu af nátt þá.

---

1) *Hèr byrjar G aptr.*

221. Þórir hundr kom fimtudaginn ofan or Veradal út á Stiklarstaði, ok fylgði honum lið margt, var þar ok fyrir margt lið bónda; var þá enn roðinn valrinn, fluttu menn í brutt frændr sína ok vini, en veittu björg sárum mönnum, þeim er menn vildu græða, en fjöldi manna þeirra hafði andazt, síðan er lokit var bardaganum. Þórir hundr gekk þartil, er konúngr hafði fallit, ok leitaði líksins, ok fann eigi; þá spurðist hann fyrir, ef nokkurir menn kynni at segja honum, hvar lík konúngs var komit, en þat vissi engi maðr at segja honum; þá spurði hann Þorgils bónda, ef hann vissi nokkut til, hvar lík konúngs var. Þorgils svarar: ekki var ek í bardaga, veit ek þaðan fá tíðindi, margar sögur fara nú, þat er nú sagt at Ólafr konúngr hafi hittr verit í nátt uppi hjá Staði[1] ok sveit manna með honum; en ef hann hefir fallit, munu sveitúngar yðrir hafa fólgit lík hans í holtum eðr hraunum; en þótt Þórir þættist vita ið sanna, at hann var fallinn, þá tóku margir undir, ok gjörðu þann kurr, at konúngr mundi hafa brutt komizt or orrostunni, ok skamt mundi til at hann mundi fá her ok koma aptr á hendr þeim; fór þá Þórir til skipa sinna ok síðan út eptir firði; þá tók at dreifast allt bóndalið, ok fluttu á brott hina sáru menn alla, þá er hrærandi[2] voru.

---

[1]) Staf, C, D, G, H, K, L, S. [2]) *þannig hin*; sárir, *A.*

222. Þorgils Álmuson[1] ok Grímr feðgar höfðu í sinni varðveizlu lík Ólafs konúngs, ok voru um þat mjök hugsjúkir, hvernig þeir fengi til gætt um lík Ólafs konúngs, at eigi næði úvinir hans at misfara líkinu, þvíat þeir heyrðu þat orðtæki bænda, at þat ráð mundi tilliggja, ef lík hans fyndist, at brenna þat eðr flytja út á sjó ok sökkva niðr; þeir feðgar höfðu sèð um nóttina svâ sem kertis ljós brynni þar yfir, sem lík Ólafs konúngs lá í valnum, ok svâ síðan er þeir höfðu fólgit, þá sá þeir jafnan um nætr ljós þángat til er konúngr hvíldi; þeir hræddust at úvinir konúngs mundu leita líks konúngsins þar er var, ef þeir sæi þessi merki; var þeim Þorgilsi ótt til at flytja líkit í brutt til þess staðar nokkurs, er þeim þótti vel kominn. Þeir Þorgils gjörðu kistu ok vönduðu sem mest ok lögðu þar í lík konúngsins, en síðan gjörðu þeir aðra kistu ok báru þar í grjót ok hálm, svâ at því skyldi meiri þúngi vera, ok luktu þá kistu vannliga; ok er bruttu var af Stiklastöðum allt lið bónda, þá bjöggu þeir ferð sína, Þorgils[2] ok Grímr, þeir fluttu lík konúngs til skips leyniliga, ok settu kistuna undir þiljur niðr, fèkk hann róðrar ferju nokkura, voru þeir saman 7 menn eðr 8, ok allir frændr hans eðr vinir; kistu þá höfðu þeir ok með sèr, er grjót var í, settu hana í skip, svâ at allir menn máttu sjá, fóru síðan út eptir firði, ok fengu gott leiði, ok kvâmu at kveldi er

1) hálma, *D*, *H*, *F*. 2) *hèr sleppr C um sinn.*

myrkva tók til Niðaróss, ok lögðu þar við konúngs bryggjur; síðan sendi Þorgils menn upp í bæinn, ok lèt segja Sigurði biskupi, at þar var komit lík Ólafs konúngs, en er þeir spurðu þessi tíðindi, sendi biskup menn sína ofan á bryggjur, þeir tóku róðrarskutu, ok lögðu at skipi Þorgils, báðu þá fá sèr lík konúngs; þeir Þorgils tóku kistu þá, er uppi stóð á þiljum ok báru í skútuna, síðan reyru þeir út á fjörðinn, ok söktu þar niðr kistunni, þá var myrkt af nótt; þeir Þorgils fóru upp eptir áinni til þess at þraut bæinn, ok lögðu þar at, er Saurhlið er kallat, þat var fyrir ofan bæinn, þar báru þeir upp líkit ok inn undir skemmu nokkura, er þar stóð upp frá öðrum húsum, vöktu þeir þar yfir líkinu. Þorgils gekk ofan í bæinn, fann hann þar menn at máli, er helzt höfðu þar verit vinir konúngs, ok spurði hann þá, ef þeir vildi taka við líki konúngs, þat þorði engi maðr at gjöra; síðan fluttu þeir Þorgils líkit upp eptir ánni, ok grófu þar niðr í sannmel þeim er þar var, ok bjöggu þar um, svâ at þar skyldi sem sízt ásjá nývirki, höfðu þeir þessu lokit öllu, áðr enn dagaði, fóru þá til skips síns, lögðu þá þegar út or ánni, fóru síðan ferðar sinnar, til þess er þeir kvâmu heim á Stiklastaði.

223. Sveinn konúngr Knúts son ok Alfífu, dóttur Alfinns[1] jarls, hafði sezt til ríkis á Vinn-

[1]) Alfrims eða Alfrunns, S.

landi í Jómsborg; en þá hafði komit til konúngs orðsendíng Knúts konúngs, föður hans, at hann skyldi fara til Danmerkr, ok þat með at hann skyldi fara síðan til Noregs ok taka við ríki þar, ok hafa þar með konúngsnafn yfir Noregi. Síðan fór Sveinn til Danmèrkr, ok hafði þaðan lið mikit; fór með honum Haraldr jarl ok margt ríkismanna; þess getr Þórarinn loftúnga í kvæði því, er hann orti um Svein konúng, (er kölluð er) Gæljúngs[1] kviða:

Þat var dullaust,
hve Danir gerðu
dökka[2] för
með döglíngi;
þar var jarl fyrst[3]
at upphafi,
ok hverr maðr[4],
er honum fylgði,
annar drengr[5]
öðrum betri.

Síðan fór Sveinn í Noreg, ok með honum Alfífa, móðir hans, ok var þá til konúngs tekinn á hverju lögþíngi, hann var þá kominn austan í Víkina, er orrosta var á Stiklastöðum, ok Ólafr konúngr fèll. Sveinn lètti eigi fyrr ferð sinni, enn hann kom um haustit norðr í Þrándheim, var hann þar til konúngs tekinn, sem í öðrum

[1]) Glælogns, *D, K, S*; Glælúngs, *F, G, L*; Glæsaungs, *H.*
[2]) dyggva, *D, H, K, S*; dýra, *G.* [3]) *v. í G.* [4]) drengr, *G.*
[5]) var, *G.*

stöðum. Sveinn konúngr hafði ný lög í landi um marga hluti, ok var þat eptir því sett, sem lög voru í Danmörk, en sum miklu frekari; engi maðr skyldi af landi fara nema í konúngs leyfi, en ef færi, fèll undir konúng eign þess; en hverr, er víg vægi, skyldi hafa fyrirvegit landi ok lausum eyri; en ef maðr var útlægr ok tæmdist honum arfr, þá eignaðist konúngr arf þann; at jólum skyldi hverr bóndi fá konúngi mæli malts af arni hverjum ok lær af uxa hverjum[1], ok var kallat vinatoddi[2], ok spann smjörs, ok húsfreyja hver [rýgjar tó[3], þat var lín [eigi rotit[4], ok svâ mikit at spent fengi lengsta[5] fíngri ok þumalfíngri[6]; bændr skyldu uppgjöra hús þau öll, er konúngr vildi hafa á bústöðum sínum; 7 menn skyldu gjöra einn liðfæran ok gjöra fyrir hvern 15[7] vetra gamlan, ok þar með hömlur leiga[8]; hverr maðr, er á haf rèri, skyldi gjalda konúngi landvörðu, hvaðan sem rèri[9], [en fiska[10] skip hvert, er færi[11] brott, skyldi gjalda konúngi rúm um þvert skip; maðr hverr, er færi til Íslands, skyldi gjalda landaura, þarlenzkr sem útlenzkr; þat fylgði þessu, at þá skyldu danskir menn hafa svâ mikin metnað í

1) þrevetrum, *D*, *G*, *K*, *L*, *S*; *b. v. F*, *H*. 2) vinartoddi, *D*, *G*, *H*, *S*. 3) rykkjar tó, *D*, *G*, *S*. 4) órent, *G*. 5) mesta, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 6) lengsta, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 7) 5, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*; 12, *L*. 8) eiga, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*; hverr maðr er færi af landi brott, þá skyldi gjalda konúngi rúm áðr, *b. v. G*. 9) at kæmi, *G*. 10) en þat voru 2 5,( *G*, *K*, *S*) fiskar, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 11) af landi, *b. v. hin*.

Noregi, at eins þeirra vîtni skyldi hrinda 10 Norðmanna vitni. En er þessi lagasetníng kom upp, ok birt var fyrir alþýðu, þá tóku menn þegar at reisa úlfúð í móti, ok gerðu kurur[1] sín í millum; mæltu þeir svâ, er eigi höfðu verit í mótferð við Ólaf konúng: taki þeir nú Innþrændir vináttu ok laun af Knytlíngum, þess er þeir börðust við Ólaf konúng ok feldu hann frá landi: yðr var heitit friði ok rèttarbótum, en nú hafi þèr ánauð ok þrælkun, ok þarmeð stórglæpi ok svívirðíng ok níðíngskap; þar var eigi gott til mótmæla; þá sá allir at úhæfiliga var ráðit, báru menn þá eigi traust til at gjöra uppreist móti Sveini konúngi, bar þat mest til þess, at menn höfðu gisla sent Knúti konúngi, sonu sína eðr aðra frændr sína, ok þat með, at þá varð engi formaðr til uppreistar. Brátt höfðu menn ámæli mikit til Sveins konúngs, ok kendu þat mest Alfífu, þat er í móti skapi þótti, en þá náðist samheldi[2] af mörgum mönnum til Ólafs konúngs.

224. Vetr þann hófst upp umræða sú af mörgum mönnum þar í Þrándheimi, at Ólafr konúngr væri maðr sannheilagr, ok jarteinir margar yrði at helgi hans, hófu þá margir áheit til Ólafs konúngs um þá hluti, er mönnum þótti mestu varða, fengu menn margir af þeim áheitum heilsubót, en sumir fararbeina eðr aðra hluti, þá er nauðsýn þótti tilbera.

[1]) kurr, *hin.* [2]) sammæli, *hin.*

225. Einarr þambarskelfir var þá heim kominn til búa sinna, ok hafði þær veizlur, sem Knútr konúngr hafði fengit honum, þá er þeir fundust í þrándheimi, ok jarlar höfðu gefit honum. Einar hafði ekki mjök verit í mótgaungu við Ólaf konúng, hrósaði hann því sjálfr. Einar minntist þess, er Knútr konúngr hafði heitit honum jarlsdómi yfir Noregi, ok svâ þat at konúngr endi ekki heit sitt. Einarr var fyrstr til ríkismanna, at (halda) upp helgi Ólafs konúngs.

226. Finnr Árnason dvaldist litla hríð á Eggju með Kálfi, þvíat hann kunni stórilla því, er Kálfr hafði verit í bardaga móti Ólafi konúngi, veitti Finnr jafnan harðar átölur af þeim sökum. þorbergr[1] Árnason var miklu betr stiltr enn Finnr, en þó fýstist þorbergr at fara heim til búss síns; fèkk Kálfr þeim bræðrum sínum lángskip gott með öllum reiða ok öllum búníngi, fèkk hann þeim ok gott föruneyti, fóru þeir heim til búa sinna. Árni Árnason lá lengi í sárum, ok varð heill ok örkumlálauss, fór hann síðan um vetrinn suðr til búss síns; tóku þeir allir sèr grið af Sveini konúngi, ok settust þeir heima allir bræðr um kyrt.

227. Eptir um sumarit gerðist mikil umræða um helgi Ólafs konúngs, ok snèri

[1]) *þannig hin*; þorgeirr, *A.*

öllum öðrum orðróm um Ólaf konúng, voru þeir þá margir, er þat sönnuðu, at Ólafr konúngr mundi heilagr vera, er fyrr höfðu af öllum fjandskap móti honum gengit ok látit hann eigi ná þá sannmæli; tóku menn þá at snúast til ámælis við þá menn, er mest eggjuðu mótgaungu við Ólaf konúng, var af því mikit kent Sigurði biskupi, gjörðust menn þar hans úvinir svâ miklir, at hann sá öngan annan sinn kost, enn fara á burt ok vestr til Englands á fund Knúts konúngs; síðan gjörðu Þrændir menn ok orðsendíngar til Upplanda, at Grímkell biskup skyldi koma norðr til Þrándheims; Ólafr konúngr hafði sent Grímkel biskup aptr til Noregs, þá er konúngr fór austr til Garðaríkis, hafði Grímkell biskup síðan verit á Upplöndum; en er þessi orðsendíng kom til biskups, þá bjóst hann þegar til ferðar þeirrar, bar þat ok mjök til, er hann fór, at biskup trúði at þat mundi með sannindum, er sagt var frá jarteignagjörð Ólafs konúngs ok helgi hans.

228. Grímkell biskup fór til fundar við Einar Þambarskelfi, ok tók Einarr feginsamliga við biskupi, mæltu þeir síðan marga hluti, svâ ok þau stórtíðindi, er þar í landi höfðu orðit, urðu þeir á marga hluti sáttir sín í millum. Síðan fór biskup inn til Kaupángs, tók þar öll alþýða vel við honum; hann fór eptir vandliga um tákn þau, er sögð voru frá Ólafi konúngi,

spurðist honum vel til þess. Síðan gjörði biskup orðsendíngar inn á Stiklarstaði til þorgils ok Gríms, sonar hans, ok stefndi þeim inn til bæjar á sinn fund. þeir feðgar lögðust þá ferð eigi undir höfuð, ok fóru út til bæjar á fund biskups, þá sýndu þeir öll þau merki, er þeir höfðu vísir orðit, ok þat hvar þeir hefðu komit líki hans. Síðan sendi biskup eptir Einari þambarskelfi, ok kom Einar til bæjarins, höfðu þeir biskup tal saman við konúng ok Alfífu, ok báðu at konúngr skyldi lof til gefa, at lík Ólafs konúngs væri tekit or jörðu; konúngr lagði þar lof til, ok bað biskup gjöra þar at slíkt er hann vildi; þá var mikit fjölmenni í bænum. Biskup ok Einar ok menn með þeim fóru þar til, er lík Ólafs konúngs var jarðat, ok lètu þar til grafa, kistan var þá mjök svâ komin upp or jörðu. þat var margra manna ráð, at biskup lèti lík konúngs grafa niðr í jörð at Clemens kirkju; en er liðit var frá andláti Ólafs konúngs 12 mánaðir ok fimm nætr, þá var upptekinn heilagr dómr hans, var þá kista Ólafs konúng spánósa[1], svâ sem nýskafin væri. Grímkell biskup gekk þá til, er upp var lokit kistu Ólafs konúngs, þar var dýrligr ilmr; þá beraði biskup andlit hans, ok var hvergi brugðit ásjón hans, litr ok roði í kinnum, sem þá mundi, er hann væri ný sofnaðr; en á því fundu menn mikinn mun, er sèð höfðu Ólaf konúng, þá er hann fèll, at síðan

[1]) hvít, *G*; spáný, *K*.

hafði vaxit hár hans ok negl, þvínæst sem þá mundi, ef hann hefði lífs verit hèr í heimi þá alla stund síðan er hann fèll. Þá gekk til at sjá lík Ólafs konúngs Sveinn konúngr ok allir þeir höfðíngjar, er þar voru; þá mælti Alfífa: furðu seint fúna menn í sandinum, ekki mundi svâ vera, ef hann hefði í moldu legit. Síðan tók biskup skæri, ok skar af kömpum hans ok svâ af hári hans, hann hafði haft lánga kampa, svâ sem þá var títt; biskup mælti til konúngs ok Alfífu: nú er hár konúngs ok kampar svâ sítt, sem þá er hann andaðist, ok þvílíkt vaxit sem nú megi þèr sjá. (Þá mælti Alfífa): þá þikki mèr þat heilagr dómr, ef þat brennr eigi í eldi, en opt höfu vær sèð hár manna vaxa, ok heilt ok úsakat þeirra er í moldu hafa legit lengr enn þessi maðr. Síðan lèt biskup taka sèr eld í glóðarkeri, ok blessaði reykelsi, ok þá lagði hann í eldinn hár Ólafs konúngs, en þá er brunnit var reykelsit allt, þá tók biskup hárit or eldinum óbrunnit, lèt biskup þetta (sjá) konúng ok aðra höfðíngja; þá bað Alfífa hárit leggja í óvígðan eld; þá svarar Einar Þambarskelfir, ok bað hana þegja, ok valdi henni mörg hörð orð; var þat þá biskups atkvæði ok konúngs samþykki ok dómr alsherjar, at Ólafr konúngr væri maðr sannheilagr; var líkami hans borinn í Clemens kirkju ok veittr umbúnaðr áðr yfir háaltari, var kista hans sveipt pelli ok tjaldat um

guðvef, urðu þá þegar margar jartegnir at helgi Ólafs konúngs.

229. Þar á melnum, sem lík Ólafs konúngs hafði legit, kom upp fagur brunnr, ok fengu menn bót meina sinna af því vatni, ok var veittr umbúnaðr, ok hefir þat vatn verit jafnan síðan vandliga varðveitt; kapella var þar fyrst gjör, ok sett þar altarit, sem (verit hafði) legit konúngsins, en nú stendr í þeim stað Krists kirkja, lèt Eysteinn erkibiskup þar setja háaltarit í þeim stað, sem konúngr hafði legit, þá er hann reisti þetta ið mikla musteri, hafði verit í þeim stað háaltarit til fyrri kirkju. Svâ er sagt at Ólafs kirkja standi þar nú, sem þá stóð eyðiskemma sú, er lík Ólafs konúngs var náttsett í; þar er nú kallat Saurlið[1], er heilagr dómr Ólafs konúngs var borinn af skipi, ok er þat nú í miðjum bænum; biskup varðveitti vandliga helgan dóm konúngs, skar hár hans ok negl, þvíat hvorttveggja vóx svâ sem þá er hann væri lifandi maðr í þessum heimi; sva segir Sighvatr:

Lýg ek Ólafi[2] eigi
ys[3] sem[4] kikvir tífar[5],
gæði ek helzt í hróðri
hárvöxt konúngs, ári[6];
en hèlzt[7] þeim, er son[8] seldi,
svörðr[9], þann er vóx í Görðum,

[1]) Hlið, *D*, *H*, *K S*; Olafshlið, *G*. [2]) *þannig D*, *F*, *L*; O..., *A*; nema Olafr, *G*, *K*, *S*. [3]) yſs, *G*. [4]) nè, *F*. [5]) trúar, *K*. [6]) áru, *hin*. [7]) heldr, *G*. [8]) sýn, *G*, *K*, *S*. [9]) suðr, *F*, *L*.

hann fèkk les[1] af, ljósum,
lausn Valdamar[2] hausi.

Þórarinn loftúnga orti[3] um Svein konúng (kvæði) þat, er Glælúngs[4] [kviða heitir[5], [ok eru þessar vísur í[6]:

Nú hefir Sveinn,
til[7] sess hagat,
þjóðkonúngr,
í Þrándheimi;
þar vill æ[8]
æfvi sína[9]
baugabrjótr[10]
bygðum ráða.

Þar Ólafr
áðan[11] bygði,
áðr hann hvarf
til himinríkis;
ok þar varð,
sem vitu allir,
[kykkvast hatr[12]
af[13] konúngmanni.

Hafði sèr
harðla ráðit
Haralds sonr[14]

---

1) læg, *D*; lavg, *H*. 2) Valhamars, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 3) *Hèr byrjar C aptr.* 4) Glælogns, *K*, *S*; Glæsogns, *H*. 5) kviðir heita, *C*, *D*. 6) Enn kvað Sighvatr um Olaf konúng, *D*, *H*; *v. í G.* 7) sèr, *hin.* 8) alla, *C*. 9) síðan, *C*. 10) baugnjótr, *K*. 11) óðal, *C*. 12) kykvað hár, *C*; kvikas höttr, *D*, *S*; kvika sett, *G*; kvikligr háttr, *F*. 13) á, *D*, *H*; or, *G*, *K*, *S*. 14) mögr, *C*.

til himinríkis;
áðr seimbrjótr
[at sætu[1] varð
[Kristi þekkr
konúngrinn æzti[2].
Þar svâ hann[3]
með heilu liggr,
lofsæll gramr,
líki sínu;
svâ at þar kná,
sem á kvikum manni,
hár ok negl
honum[4] vaxa.
Þar borðvegs[5]
bjöllur knegu[6]
yfir sæng hans
sjálfar hríngjast;
ok hvern dag
heyra þjóðir
klokkna hljóð
yfir konúngmanni.
En þar[7] af
altari
Kristi þæg
kerti brenna;
svâ hefir Ólafr,

[1]) sæti, *C.* [2]) *fr fyrra* [ *v. í D; H; frá siðara* [ *v. í C, F, K, L, S; vís. v. í G.* [3]) at hreinn , *C, D, H. K, S;* at heill, *G.* [4]) hátt um, *L.* [5]) boðvex, *D, H.* [6]) knèðu, *C;* hánga, *K.* [7]) upp, *b. v. hin.*

áðr hann andaðist,
syndalausn[1]
sálum[2] borgit[3].
Þar[4] kemr hveim[5],
er, heilagr er
konúngr sjalfr,
krýpr[6], at gagni;
ok beiðendr
blindir sækja,
þjóðir[7], máls,
er[8] þaðan heilir[9].
Bið þú Ólaf,
at hann árni[10] þèr,
hann er guðsmaðr[11],
grundar sinnar;
[hann of getr
af guði sjálfum
ár ok frið
öllum mönnum[12].
Þá er þú rèttir[13]
[fyrir regin-[14] nagla
bókka[15] máls
bænir þínar.

230. Sá atburðr varð á Stiklastöðum, sem fyrr var ritat, at Ólafr konúngr kastaði frá sèr

1) syndalauss, *hin.* 2) sálu, *C, D, G, H, K, S.* 3) brugðit, *G.* 4) ok þar, *b. v. C.* 5) sá, *C*; hverr, *F, G, L, S.* 6) krypum, *C.*; sèr, *b. v. G.* 7) þjóðar, *G, S.* 8) en, *hin.* 9) *vís. v. í D, H, K.* 10) unni, *C, D, G, H, K, S.* 11) vinr, *G.* 12) *frá* [ *v. í D, H.* 13) rekr, *D, G, H, K, S.* 14) rekin, *G.* 15) boga, *F, L.*

sverðinu Hneiti, þá er hann fèkk sár, en einn maðr svenskr hafði brotit sverð sitt, ok tók þá upp sverðit Hneiti, ok vâ með því, en sá maðr komst or bardaga, ok fór með öðrum flóttamönnum, kom hann fram í Svíþjóð heim til búss síns, hafði hann sverðit alla sína æfi, en síðan hans son ok hverr eptir annan þeirra frænda, ok fylgði þeim jafnan, at hverr sagði öðrum nafn sverðsins, ok svâ hvaðan komit var; en (þat var) miklu síðar á dögum Kirjalaks Miklagarðs keisara, at þar voru í Miklagarði margar sveitir Væríngja, þá bar sva at á einu sumri, at er konúngr var í herferð, ok lágu þeir í herbúðum sínum, Væríngjar hèldu vörð ok vöktu yfir konúngi, lágu þeir á völlum fyrir utan herbúðir, en þeir er áðr höfðu vakat, lögðust þá niðr, þeir voru allir alvopnaðir, þat var þá er þeir lögðust til svefns, at hverr hafði hjálm á höfði ok skjöld yfir sèr, en sverð undir höfði, ok skyldi leggja hina hægri hönd á meðalkafla, en hverr þeirra fèlaga, sá er hlotit hafði at sofna enn efra hlut nætrinnar, vaknaði hann í dögun, þá var sverð hans í brottu, en er hann leitaði, þá fann hann sverðit, hvar lá á vellinum lángt frá honum, hann stóð upp, ok tók sverðit, ætlaði hann at fèlagar hans, þeir er vakat höfðu, mundu gjört hafa til við hann, at væla frá honum sverðit; þeir synjuðu þess fyrir sik. Slíkir atburðir urðu um nætr þrjár, þá undraðist hann mjök sjálfr, ok svâ aðrir þeir, er þetta sjá ok heyrðu, ok spurðu menn

eptir, hverju þat mundi gegna; þá segir hann, at sverð þat var kallaðr Hneitir, ok Ólafr konúngr hafði átt ok borit sjálfr í Noregi á Stiklastöðum, hann segir ok, hvernveg farit hafði um sverðit; síðan var þetta sagt Kirjalaks keisara, þá lèt keisarinn kalla til sín þenna mann, er með sverðit fór, fèkk keisari honum gull þrenn (jafn)- vægi[1] sverðsins, en konúngr lèt bera sverðit í Ólafs kirkju, þá er Væríngjar halda, var þar síðan yfir altari sverðit. Eindriði úngi hèt lendr maðr í Noregi á dögum þeirra sona Haralds gilla, Ínga, Eysteins ok Sigurðar; Eindriði var þá í Miklagarði, er þessir atburðir gjörðust, ok sagði þessa sögu í Noregi, svâ sem Einar Skúlason vâttar í drápu þeirri, er hann orti um Ólaf konúng hinn helga, ok er þat kvæði kveðit um þenna atburð.

231. Sveinn konúngr Knútsson rèð fyrir Noregi nokkura vetr, hann var bernskumaðr mikill bæði at aldri ok ráðum. Alfífa móðir hans hafði mest þá landráð, ok voru landsmenn miklir úvinir hennar bæði þá ok jafnan síðan; danskir menn höfðu þá mikinn yfirgáng í Noregi, en menn kunnu því stór illa, þá er þessar ræður voru uppi hafðar, kendu landsmenn þat Þrændum, at þeir hafði mestu um valdit, er Ólafr konúngr hinn helgi var feldr frá landi, ok Noregs menn höfðu lagizt undir þetta illa ríki, er ánauð ok úfrelsi gekk

[1]) jafnvirði, *C, D, H.*

þar yfir allt fólk, bæði ríka menn ok alþýðu, kölluðu þeir Þrændr skylda til at veita umráð ok uppreist at hrinda ríki af landsmönnum þessu hinu illa, var þat ok virðíng manna at Þrændir hefði mestan styrk í Noregi at höfðíngjum ok fjölmenni; en er Þrændir vissu at landsmenn veittu þeim ámæli, þá könnuðust þeir við at þat var sannmæli, at þá hefði hent glæp mikinn, er þeir höfðu Ólaf konúng tekit af lífi, ok þat með at þeim var miklu illu goldit; höfðu höfðíngjar stefnu ok ráðagjörð sín í millum, var þar Einar þambarskelfir upphafsmaðr at þeim ráðum, svâ ok Kálfr Árnason, ok fann hann, í hverja snöru hann hafði gengit Knúts konúngs ok hans áeggjan; þau heit, er konúngr hafði heitit Kálfi, þá töpuðust þau öll, þvíat Knútr hafði Kálfi heitit jarldómi ok yfirsókn yfir allan Noreg, ok Kálfr hafði verit höfuðsmaðr at halda orrostu við Ólaf konúng ok fella hann frá landi, hafði Kálfr enga nafnbót þá meiri enn áðr, þóttist hann vera blektr mjök; fóru þá orð milli þeirra bræðra, Kálfs ok Finns, Þorbergs[1] ok Árna, ok samdist þá frændsemi þeirra.

232. Svâ segja menn, þeir er glöggligast telja, at Ólafr konúngr hinn helgi væri fyrir Noregi 15 vetr, síðan er Sveinn jarl fór or landi, en áðr um vetrinn tók hann konúngsnafn [á Upplöndum[2], segir Sigvatr:

[1]) *þannig hin*; Þorgeirs, *A.* [2]) af Upplendíngum, *H, K, S.*

Ólafr rèð ið efra
andprúðr[1], [fyrir því, landi
fulla vetr áðr fèlli
fimtán, af[3] því láni[4];
hverr hafi hæzt[5] enn[6] norðra
heims enda sèr[7] kendan,
skjöldúngr[8] hèlt[9] enn skyldi
skemr, landreki[10] fremri[11].

Ólafr konúngr var þá hálf fertugr at aldri, er hann fèll, at sögn Ara prests hins fróða, hann hafði átt 20 orrostur; svâ segir Sigvatr:

Sumir trúðu á guð gunnar[12],
grein var[13] liðs í miðli,
fólk orrostur fylkir
framráðr tigum[14] háði;
frægr (bað) hann á hægri
hönd kristins[15] liðs[16] standa
feðr Magnús bið ek fagna
[fljót-skjótum[17] guð drottinn[18].

Nú er sagðr nokkur hlutr sögu Ólafs konúngs frá þeim tíðindum, er gjörðust meðan hann rèð Noregi, ok svâ frá falli hans, um þat er helgi hans

---

1) auðframr, *D*; andprúdt, *C*, *G*, *K*, *S*; öndurt, *L* 2) höfuð, *C*, *D*, *K*, *S*; jöfurr, *G*, *H*. 3) á, *hin*. 4) láði, *D*, *F*, *L*, *S*; landi, *K*. 5) helzt, *C*; hæfst, *L*; fæðst, *F*; hans, *hin*. 6) hit, *F*. 7) svâ, *L*. 8) skjaldar, *G*, *H*. 9) helzt, *D*, *G*, *K*, *S*. 10) landrekann, *C*. 11) fremra, *C*. 12) gumnar, *hin*. 13) varð, *C*, *K*. 14) tigu, *C*, *F*, *G*, *L*; tögu, *D*; tugu, *H*; tjögu, *K*, *S*. 15) kristinn, *C*; kristit, *D*, *F*, *G*, *H*, *K*, *L*, *S*. 16) líð, *C*; lið, *D*, *F*, *G*, *H*, *K*, *L*, *S*. 17) flot-skjorrum, *C*, *H*, *K*, *S*; fljótt-skírum, *G*; fljótt-mætum, *F*. 18) drottni, *C*, *D*, *F*, *L*, *S*.

kom upp; en nú skal þat eigi niðri liggja, er honum er þó mest vegsemd í, at segja frá jarteigna (gjörð) hans.

233. Sveinn Alfífuson rèð Noregi fyrst eptir fall Ólafs konúngs, en er hann hafði ráðit fyrir landi 3 vetr, þá spurðust þau tíðindi at fyrir vestan haf efldi flokk Tryggvi, son Gyðu ensku. Sveinn konúngr bauð út leiðángri or landi norðr, ok fór til Víkr austr, ok Tryggvi fór með lið sitt at Hörðalandi, spurðu hvorirtveggju til annarra. Nú skal þat segja, sem fyrr var ritat, er Sveinn konúngr var í Þrándheimi, ok hann spurði þessi tíðindi, bauð hann þegar leiðángri út, ok gjörði orð til lendra manna, ok stefndi þeim til ferðar með sèr; Einar Þambarskelfir sat heima, ok vildi eigi fara með Sveini konúngi. Kálfr Árnason skipaði húskörlum sínum snekkju tvítögsessu, ok hèlt út eptir Þrándheimi, fyrr enn konúngr væri búinn. Kálfr fór suðr af Mæri, ok höfðu þeir stefnulag sín í millum. Sveinn konúngr fór liði sínu, er hann var búinn, hèlt suðr með landi; en er hann lá í Sveggjaðar sundi, þá rèru þeir Kálfr Árnason sunnan um sundit, þá kölluðust þeir á, báðu þeir þá at leggja ok verja land hans ok fylgja konúngi. Kálfr svarar: fullgjört hefi ek þat, ef eigi er ofgjört, at berjast við vâra landsmenn til ríkis Knytlíngum. Rèri Kálfr þá norðr með landi leið sína, ok fór til þess er hann kom heim á

Eggju. Engi þeirra Árnasona rèri þenna leiðángr með konúngi.

234. Sveinn konúngr hèlt liði sínu öllu sunnan með landi, ok Tryggvi hèlt norðr í móti, [sem hèr segir[1]:

Tír eggjaðr fór Tryggvi,
tókst morð af því, norðan,
en Sveinn konúngr sinni
sunnan ferð, at gunni;
nær var ek þösnum þeirra,
þat bar skjótt at móti
[herr týndi þar harða
hjör göll var þat fjörvi[2].

Svâ segir í Tryggva flókki, ok var fundr þeirra fyrir norðan Jaðar í Skónar[3] sundi fyrir innan Bokn, þar sem fallit hafði Erlíngr Skjálgsson:

Var á sunnudag, svanni!
seggr hnè margr und eggjar
morgin þann, sem manni
mær lauk[4] eða öl[5] bærri[6];
en Sveinn konúngr sína
samantengja bað drengi,
hrátt gafst hold at slíta
hrafni, skeiðar stafna.

Í þeirri orrostu fèll Tryggvi ok mikill hluti liðs hans, en Sveinn konúngr hafði sigr, rèð þá enn landi vetr hinn næsta.

---

1) svâ segir Sighvatr, *D*; svâ segir í Tryggvaflokki, *G*, *H*; svâ s. Sighvatr í Tryggvaflokki, *K*, *S*. 2) *þannig hin frá* [, *C*, *D*, *G*, *K*, *S*; hár týndi þá hára hjör gull vafðan fjörvi, *A*. 3) Sóknar, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 4) *þannig hin*; læk, *A*. 5) þá er, *C*. 6) *þannig hin* bæki, *A*.

235. Einar þambarskelfir ok Kálfr Árnason áttu þann vetr stefnu ok ráðagjörð, ok hittust þeir í Kaupángi; Sveinn konúngr var þá suðr í landi; þar kom til Kálfs Árnasonar sendimaðr Knúts konúngs, ok bar orðsendíng konúngs til þess, at Kálfr skyldi senda konúngi þrennar tylftir öxa ok láta vanda mjök. Kálfr svarar svâ: öngar öxar mun ek senda Knúti konúngi, segið honum at ek skal fá öxar Sveini syni hans, svâ at hann skal eigi skorta. Þat var snemma vors, at byrjaði ferð sína Einar þambarskelfir ok Kálfr Árnason, ok höfðu mikla sveit manna ok it bezta mannval, er til var í Þrændalögum; þeir fóru um vârit austr um Kjöl til Jamtalands, þá til Helsíngjalands, ok komu fram í Svíþjóð, rèðu þá til skipa, ok fóru um sumarit austr í Garðaríki, kvomu um haustit í Aldeigjuborg, gjörðu þá sendimenn til Hólmgarðs á fund Jarizleifs konúngs með þeim eyrindum, at þeir buðu Magnúsi, syni Ólafs konúngs hins helga, at taka við honum ok fylgja honum til Noregs ok veita honum styrk til þess, at hann næði föðurleifð sinni, ok (halda) hann til lands. En er þessi orðsendíng kom til Jarizleifs konúngs, ok tók hann ráðagerð við drottníngu ok höfðíngja sína, kom þat ásamt með þeim, at þeim voru orð gjör, ok stefnt þángat á fund Jarizleifs konúngs ok þeirra Magnúsar, voru þeim grið seld til þessar ferðar. En er þeir komu til Hólmgarðs, þá staðfestist þat með þeim, at Norð-

menn, þeir er þar voru komnir, gengu til handa Magnúsi, ok gjörðust hans menn, ok bundu þat svardögum við Kálf ok með alla þá menn, er í bardaga höfðu verit á Stiklastöðum í móti Ólafi konúngi, (at hann) skyldi þeim öllum tryggr ok trúr, þóat hans ríki yrði í Noregi, skyldi þá Magnús gjörast fóstrsonr Kálfs Árnasonar, en Kálfr vera skyldr til at gjöra þau öll verk, er Magnúsi þætti þá sitt ríki meira ok frjálsara þá heldr enn áðr.

236. Magnús Ólafsson byrjaði ferð sína eptir jól austan or Hólmgarði ofan til Aldeiguborgar, tóku þá at búa skip sín; þess getr Arnór jarla skáld í Magnúss drápu:

Nú hykk rjóðanda rèðu,
ráng[1] örs, þvíat veit gjörva,
þegi[2] seimbrjótr[3] seggja[4]
seggjum hneitis eggjar[5];
varat ellifu allra
ormsetrs hati vetra,
austr[6] þá er herskip geystust[7],
Hörða vinr, or Görðum.

Magnús hèlt um vârit austan til Svíþjóðar; svâ segir Arnór:

Þíngs bauð út hinn úngi
eggrjóðandi þjóðum[8],
fimt[9] bar hríð[10] [til hömlu[11]

[1]) rögg, *L*; róg, *hin.* [2]) þeima, *C.* [3]) seimbrota, *G*, *S.* [4]) segja, *D*, *H*, *K*, *L*, *S.* [5]) eggja, *D*, *G*, *K*, *S.* [6]) rekkr, *C*; hraustr, *hin.* [7]) glæsti, *hin.* [8]) þjóðar, *L.* [9]) fimr, *L*; fim, *in.* [10]) hirð, *D*, *G*, *H*, *K*, *S.* [11]) í hömlur, *G*, *K.*

her veðr ara bræðis;
salt skar húnn[1] heltum
hraustr þjóðkonúngr austan[2],
báru [brimlogs rýri[3]
brúnveðr[4] at Sigtúnum.
Rauðar báru[5] randir síðar[6]
rimmu yggr í svænskar[7] bygðir,
eigi gazt þú liðkost lágan,
landfólk[8] sótti þèr til handa;
austan þorðut[9] úlfa skerðir[10]
öldu[11] kunnr yfir[12] hvíta skjöldu
túngu[13] rjóðr yfir[14] tírar úngrar[15]
teknir menn en[16] [dörrinn rekna[17].
Austan kom þú með allra hæstum[18],
yggjar máls[19], í þrænskar[20] bygðir,
fiðri njörðr[21], en fjandmenn yðra
fálma kvoðu, ægis hjálmi;
undan[22] frá ek þik eyðir þröngva
úlfa gráðr[23] af[24] þeirra ráði[25],
[skjöldúngr stökk[26] með skæðan þokka
skeiðar brands fyrir þèr or landi.

Hèr segir þat, at Magnús kom austan um Kjöl

1) húfi, *hin.* 2) flaustum, *G.* 3) brimlogns hlýri, *K.* 4) brimveðr, *L.* 5) bárut, *G, S.* 6) síðan, *hin.* 7) þrændskar, *H.* 8) landherr, *G, H.* 9) þurðut, *G.* 10) ferðar, *hin.* 11) öldum, *hin.* 12) með, *hin.* 13) tuggu, *D.* 14) með, *G*; til, *hin.* 15) únga, *C, L*; þínga, *D, K, S*; þíngum, *G, H.* 16) ok, *hin.* 17) dör in reknu, *hin.* 18) allra hæstan, *G, H, S*; hæstum tíma, *D.* 19) málms, *C, K*; mál, *D*; márs, *H*; más, *S.* 20) sænskar, *K.* 21) rjóðr, *D, G, H, K, S.* 22) úngan, *D, G, H, R, S.* 23) gráðar, *hin.* 24) v. í *hin.* 25) ráða, *D, K.* 26) skyldir stökk, *G, K, S.*

til Þrándheims, ok lið mikit dreif til hans, en óvinir undan flýðu. Sveinn konúngr fór þegar or landi, er Magnús kom í Noreg, ok flýði hann til Danmerkr, þvíat hann fèkk eigi liðkost til mótstöðu við Magnús; var þá Magnús til konúngs tekinn í Noregi, lagði hann land allt undir sik, hann var kallaðr Magnús hinn góði.

237. Magnús konúngr lèt gjöra skrín ok búa gulli ok silfri ok steinum, en skrín þat var svâ gjört bæði at mikilleik ok öðrum vexti sem líkkista, ok svalir undir, en yfir upp[1] vaxit sem rjáfr ok þar uppaf höfuð ok bust á vættinu[2], ok lamar á bak, en hespur fyrir, ok þar læst með likli síðan lèt konúngr leggja í skrín Ólafs konúngs marga helga dóma, urðu þar margar jarteinir at helgum dómi Ólafs konúng; þá kvað Sigvatr:

Gjört er þeim er gott bar hjarta
gull[3] skrín of veg[4] mínum[5]
hrósa ek helgi ræsis
herr[6] sótti guð drottinn;
þar[7] gengr margr[8] frá mærum[9],
meiðr, þess konúngs reiði[10]
hreins með helgar[11] sjónir
hríngs, er blindr kom þíngat.

Þá var þat í lög tekit, at halda heilagt um allan

1) vætt, *b. v. D, G, H, K, S.* 2) veggjunum, *G, H.* 3) gullt, *C*; gulligt, *hin.* 4) *v. í hin.* 5) sínum, *E.* 6) hann, *D, G, H, K, S.* 7) ár, *C, D, G, H, S.* 8) mest, *G.* 9) mæru, *G, H, S*; mætu, *K.* 10) leiði, *C, D, G, H, K, S.* 11) heilar, *C, D, G, H, K, S.*

Noreg ártíð Ólafs konúngs, var sá dagr þegar svâ haldinn sem hinu stærstu hátíðir; þá kvað Sigvatr:

Oss dugir Ólafs messu,
jöfurr magnar guð, fagna[1]
meinalaust, í mínum[2],
Magnús föður, harmi;
skyldr em ek skilfíngs halda[3]
skoll-laust[4] þess, er bjó gulli,
helgi, handar tjálgur[5],
harmdauði[6], mèr rauðu[7].

238. Sighvatr skáld hafði þegit heimfarar leyfi, þá er Ólafr konúngr fór austr í Garðaríki, en annat sumar fór Sigvatr af landi ok suðr til Róms; þá kvað Sigvatr vísu:

Róms, [lèt ek, ok hèlt[8], heima[9]
hermóðr, af[10] för góðri,
gjallar vönd þann, er gulli
gaf mèr konúngr vafðan;
sult[11], þá er silfri hjaltað
sverð [dýrt þat, er, við þverðan[12]
lögðum, vopn [hinu vígðu[13]
[vers, ylgjar[14], staf fylgðum[15].

En um haustit er Sigvatr var sunnan á leið, þá

1) *þannig hin*; fagnar, *A.* 2) *eða* mönnum, *A.* 3) *þannig hin*; aldar, *A.* 4) skuldlaust, *C, G*; skullaust, *H, S.* 5) *þannig hin*; tálga, *A.* 6) harmdauða, *hin.* 7) *þannig hin*; rauðan, *A.* 8) hefig hafðan, *G.* 9) heiman, *G, H, K, S.* 10) á, *hin.* 11) sælt, *C.* 12) dýrt viðir þverðu, *F*; ok blátt með herðu, *G, H.* 13) en vígðum, *C, D, G, H, S.* 14) vèr sylgjar. *C, D, G, H, S.* 15) fylgðu, *F.*

spurði hann fall Ólafs konúngs, þá var honum þat hinn mesti harmr; hann kvað þá:

Stóð ek á Mót[1], er minntumst
mörg[2] brast[3] sunðr tjarga[4]
breið ok brynjur síðar,
borgum nær, um morgin;
munda ek þann[5], er hendi[6],
öndverðan[7], brym-löndum[8],
[ferð mín[9] var þá, þenna[10]
þordendr[11] konúng[12] vörðum[13].

Sighvatr gekk einn dag um þorp nokkut, ok heyrði at einnhverr bóndi veinaði mjök, er hann hafði mist konu sína, barði á brjóstit ok reif klæði af sèr, ok vildi gjarna deyja; Sigvatr kvað þá:

Fúss lèt[14] maðr, ef missir
meyjar faðms, at deyja,
keypt[15] er ást ef[16] eptir
oflátinn skal gráta;
en fullhuginn fellir
flot[17] styggr, sá er ann[18] drottinn[19]

---

1) Mont, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 2) hvar, *b. v.* *G*, *H*. 3) var, *C*; fló, *D*; flaug, *G*, *H*, *K*, *S*. 4) targa, *hin*. 5) þar, *S*. 6) undi, *C*, *G*, *H*; yndi, *D*, *K*, *S*; endi, *F*; hendi, *L*. 7) öndvarðar, *C*. 8) brúnlendum, *C*, *F*; brymsundum, *D*; brumlanda, *G*; brumlöndum, *H*, *K*, *S*. 9) faðir minn, *C*, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 10) þessa, *D*. 11) þorrændr, *C*; þoroðr, *D*; þorrauðr, *D*; þorræðr, *S*. 12) konúngr, *D*, *F*, *K*, *S*. 13) forðum, *hin*. 14) lèzt, *C*, *D*, S. 15) geyst, *K*. 16) *b. v.* *C*, *D*, *F*, *K*, *L*, *S*; ok, *G*; en, *H*; *v. í H*. 17) fljót, *F*, *G*; flott, *H*; flóð, *L*. 18) varr, *C*; var, *D*, *G*, *H*; varð, *K*, *S*. 19) drottni, *F*, *L*.

vart afrek[1] lízt verra[2],
vígtár, konúng árum.

Sighvatr kom heim í Noreg til búss síns, hann spurði þá at margir menn veittu honum ámæli, ok töldu at hann hafði illa skilit við Ólaf konúng; þá kvað hann vísu:

Hafa láti mik heita
Hvíta-Kristr at víti[3]
eld, ef ek Ólaf vilda,
em ek skírr um þat, firrast;
vatnærins[4] [ber ek[5] vitni,
vask ek til Róms í háska,
öld leynir[6] því aldri,
annarra þau[7] manna.

Síðan fór Sighvatr til hirðar Magnúsar konúngs, ok var með honum, ok gjörðist hann hirðmaðr hans, ok var konúngr vel til hans. Sveinn konúngr Knútsson fór til Danmerkr, ok tók þar við ríki með Hörða-Knúti, bróður sínum; Bjarni gullbrárskáld[8] segir svâ í Kálfs flokki:

Hafa lèzt þú únga jöfra[9]
erfð, en til rèð hverfa,
satt er at sitja kunni[10]
Sveinn á[11] Danmörk einni;
kendi[12] Kálfr til handa[13]

---

1) torek, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*. 2) vera, *D*, F. 3) vita, *D*. 4) vatnærit, *C*, *G*, *K*, *S*; vatnærin, *D*, *F*, *L*. 5) hefig, *hin*. 6) leyni ek, *C*, *D*, *G*, *L*; leyni, *F*, *L*. 7) svo, *C*, *F*; þó, *H*. 8) *þannig hin*; gullberaskáld, *A*. 9) *Hèðan frá v. vísuna í* C. 10) knátti, *D*, *G*, *H*, *K*, *S*; mátti, *F*. 11) at, *hin*. 12) kendr, *L*; kendut, *hin*. 13) landa, *H*, *K*, *S*.

kappfúsum Magnúsi,
ollu þèr at stillir,
jörð, [ok fèkk[1], or[2] Görðum.

Þann sama vetr varð Sveinn Alfífuson sóttdauðr í Danmörk, en Knútr hinn ríki andaðist þann vetr í Englandi drottinsdag[3] idus Novembris, þá hafði (hann) konúngr verit yfir þremr þjóðlöndum, Englandi, Danmörk, Noregi 7 vetr; yfir Englandi ok Danmörk fjóra ok tuttugu, en fyrst yfir Danmörk einni þrjá vetr; ok hafði verit konúngr alls 7 ok 20[4]. Eptir hann var konúngr í Englandi Haraldr son hans, hann átti Gunnildi, dóttur Heinriks[5], sú[6] andaðist barnlaus 3[7] vetrum síðar.

239. Þórir hundr fór af landi litlu eptir fall Ólafs konúngs; Þórir fór út til Jórsala, ok er þat margra manna sögn, at hann hafi eigi aptr komit. Sigurðr hèt son Þóris, [Þórir hèt[8] faðir Rannveigar, er átti Jón[9], son Árna Árnasonar; þeirra börn voru þau Viðkunnr [Jónsson í Bjarkey[10], ok Sigurðr hundr, Erlíngr ok Jarðþrúðr.

240. Hárekr or Þjóttu sat heima at búi sínu, allt þar til er Magnús Ólafsson kom í land, ok hann var konúngr, þá fór Hárekr í Þrándheim á fund Magnúsar; þá var með konúngi Ás-

1) hann fèkkst, *F.* 2) at, *G.* 3) *v. í hin.* 4) þá var hann at aldri (27, *C.*) 30 og 7 vetr, *G*, *H*, *K*, *S*; þá var hann at aldri hálf fertögr, *D.* 5) keisara, *b. v. C*, *D*, *G*, *H*, *K*, *S.* 6) hann, *G*, *H.* 7) 5, *G*, *H.* 8) hann var, *D*, *G*, *H*, *K*, *S.* 9) Jóan, *C.* 10) í Háreksey, *C*; ok Hárekr, *D.*

mundr Grankelsson, en er Hárekr gekk upp af skipi sínu, þá hjó Ásmundr hann banahögg, gjörði hann þat verk í trausti Magnúsar konúngs; síðan gaf Magnús konúngr Ásmundi lèn ok sýslu norðr á Hálogalandi, ok eru þar frásagnir miklar um skipti þeirra Ásmundar ok sona Háreks.

241. Kálfr Arnason hafði mest landráð með Magnúsi konúngi fyrst nokkura stund, þá gjörðust áminníngar menn við Magnús konúng, hvat Kálfr hafði unnit á Stiklastöðum; gjörðist Kálfi þá vangætt til skaps konúngs. Þat barst at eitt sinn, þá er fjölment var með konúngi, ok kærðu menn mál sín, þá kom fyrir hann með sín skyld eyrindi sá maðr, er fyrr var nefndr, Þorgeir flekkr or Veradal; konúngr gaf ekki gaum at orðum hans, ok hlýddi þeim er nærri voru. Þá mælti Þorgeir til konúngs hátt, svâ at þeir allir er inni voru heyrðu:

Mæl þú við mik,
Magnús konúngr!
var ek í fylgi[1]
með feðr þínum;
þá bar ek höggvinn
haus minn þaðan
er þeir yfir dauðan
döglíng stigu.
Þú elskar þá illa
ok arma þjóð[2]

[1]) fylkíng, *G, L.* [2]) *þannig D, v. í A.*

drottins svika,
er djöfulinn hlægðu.

Þá gjörðu menn at óhljóð, en sumir báðu Þorgeir útganga. Konúngr kallaði þá til sín Þorgeir, ok lauk síðan máli hans, svâ at honum líkaði, ok hèt honum vináttu sinni.

242. Þat var litlu síðar at Magnús konúngr var á veizlu á Haugi í Veradal, en er konúngr sat yfir matborði, þá sat á aðra hönd honum[1] Kálfr, en á aðra Einar þambarskelfir, þá var svâ komit at hann gjörði fæð á við Kálf, en virði þá Einar mest þambarskelfi. Konúngr mælti til Einars: við skulum ríða á Stiklastaði, ok vil ek sjá þau tíðindi, er þar hafa gjörzt. Einar svarar: eigi kann ek þar af at segja, látið þèr Kálf fósta yðvarn fara, hann mun þar frá tíðindum kunna at segja; en er borð voru ofan, bjuggust þeir til ferðar; hann mælti til Kálfs: þú skalt fara með mèr á Stiklastaði. Kálfr segir at þat var (ekki) skyllt. Þá stóð konúngr upp, ok mælti: fara skalt þú, Kálfr! Síðan gekk konúngr út; Kálfr klæddist skjótt ok mælti til skósveins síns: þú skalt ríða út á Eggju, ok bið húskarla mína hvert fat[2] hafa á (skipi) fyrir sólarfall. Konúngr reið á Stiklastaði, ok Kálfr með honum, ok stigu af hestum sínum, ok gengu þar til sem bardaginn hafði verit; þá mælti konúngr til Kálfs:

---

[1]) *hèr er komið á seinustu blaðsíðuna í C, og er þar eigi utan einstöku orð lesandi* [2]) húðfat, *G.*

hvar er sá staðr, er konúngrinn fèll? Kálfr svarar, ok rètti fram spjótit: hèr lá hann, segir hann. Konúngr mælti: hvar vart þú þá, Kálfr? hèr sem nú stend ek. Konúngr mælti, ok var þá rauðr sem dreyri: taka mundi þá auxs þín til hans. Hljóp Kálfr þá á hest sinn ok allir hans menn, en konúngr reið aptr til Haugs. Kálfr lètti eigi ferð sinni, fyrr enn hann kom heim á Eggju, var þá skip hans búit fyrir landi, ok ákomit lausafè allt ok skipat af húskörlum hans, hèldu þeir þegar um náttina út eptir firði, fór Kálfr síðan dag ok nátt sem byri gaf, sigldi hann þá vestr um haf, ok dvaldist þar lengi, ok herjaði á Skotland ok Írland ok Suðreyjar; þess getr Bjarni gullbrárskáld:

[Þèr brá[1] ek, Þorbergs hlýri!
þess gjörðust þèr verðir,
hèlt því, unz hann of spilti,
Haralds bróðurson góðan;
vöktu öfundmenn ykkrir
iðula róg í miðli,
óþörf lízt mèr arfa
Ólafs í þeim málum.

243. Magnús konúngr tók at harðna við bændr, svâ at margir sættu af honum stórum refsíngum bæði í ránum ok svâ í manndrápum, var mest þat við Þrændi; þá tóku bændr at gjöra kurr sín í millum, ok mæltu: hvat mun konúngr þessi fyrir ætlast, er hann brýtr lög á

[1]) þat frá, *G*; þèr frá, *H*; þik frá, *K*, *S*.

oss, þau er Ólafr konúngr setti enn góði, minnist þess lítt at vèr höfum jafnan eigi þolat vanrèttit, mun hann eigi vilja hafa farar föður síns eðr annarra höfðíngja þeirra, er vèr höfum af lífi tekit, þá er oss leiddist ofsi þeirra ok lögleysa? þessi kurr var víða í landinu. Sygnir höfðu liðsafnað, ok ætluðu at berjast við hann; þessa urðu varir vinir konúngs, ok gengu á málstefnu, ok samdist þat með þeim, at láta taka einn mann at segja konúngi þenna kurr, en svâ var tilstillt at Sigvatr hlaut.

244. Sigvatr orti flokk þann, er kallaðr er Bersöglis vísur, ok hefr þær fyrst um þat, at þeim þótti konúngr heldr harðr við bændr, ok þat at þeir heituðust at reisa ófrið móti honum; hann kvað:

Fregni ek, at suðr með Sygnum,
Sigvatr hefir gram láttan
fólk orrostu at freista[1],
ferr, ef þó skulum berjast;
förum í vâpn ok verjumst[2],
vel, tvist, konúngr, lystir,
hve lengi skal, hríngum,
hans grund, til þess fundar.

Í þessu kvæði eru þessar vísur:

Hèt sá, er fèll á Fitjum
fjölgegn ok rèð, þegna[3]
heiptar rán af[4] hánum,

[1]) fremja, *L.* [2]) verjum, *G.* [3]) hegna, *G, H.* [4]) ok, *hin.*

Hákon, fírar ráku[1],
þjóð hèlt fast á fóstra
fjölblíðs dögum[2] síðan,
en er[3] af því [at minnir[4],
Aðalsteins, bændr seinir.
Rètt hygg ek kjósa knáttu
kallsfólk, ok svâ jarlar[5]
af því at eignum höfðu[6]
Ólafr[7], frið-gáfu;
Haralds arfi[8], lèt halda,
högg-dyggr[9] ok svâ[10] Tryggva,
lög þau, er lýðir þágu
lauk jöfn af þeim nöfnum[11].
Skulu[12] ráðgjafar reiðast,
[ryð er[13] þat, konúngr! yðr[14],
um[15] drottins orð [til dýrðar[16],
döglíngr! við bersögli;
hafa kveða lög, nema ljúgi
land herr, búendr[17] verri,
endr í Úlfa sundum
önnur enn þú hèzt mönnum.
Hverr eggjar þik harri,
heiptar strángr! at gánga,
opt reynir þú þinna[18]

1) undu, *G, H, K, S.* 2) lögum, *G, H, K, S.* 3) eru, *hin.* 4) minni, *G.* 5) jarla, *G, H.* 6) lofða, *G, H, K, S.* 7) Olafar, *G, H, S.* 8) *þannig hin*; arfa, *A.* 9) hugdyggr, *L*; hvardyggr, *hin.* 10) son, *G, H, S.* 11) *vís. v. í K.* 12) skulut, *hin.* 13) ryðr, *hin.* 14) yðrir, *hin.* 15) *v. í hin.* 16) *þannig hin; gleymt í A.* 17) konúngr, *L.* 18) þínum, *hin.*

þunnstál, á bak málum?
fastorðr skuli fyrða
feng-sæll vera þengill,
hæfi heit at rjúfa,
hjáldr-magni[1]! þèr aldri.
Hverr eggjar þik höggva,
hjálm-gegnir[2]! bú þegna?
ofrausn er þat jöfri
innan lands at vinna;
öngr hafði[3] svâ úngum
áðr bragníngi ráðit[4],
rán hygg ek rekkum þínum,
reiðr er herkonúngr, leiðast.
Gjalt þú varhuga veltir
viðr þeim er nú ferr hèðra,
[þjófs skal ek hönd[5] í hófi,
hölda kvitt, of stytta;
[vinr sá er[6] varmra beima[7]
varnað[8] [býðr en ek hlýði[9]
tár mútaris[10] teiti[11]
til hvot búmenn vilja.
Hætt er [þat, er[12] allir ætla,
áðr skal við því ráða,
háir[13] menn en[14] ek heyri,

1) magnaðr, *D*, *G*, *S*. 2) hjaldr gegnir, *D*, *H*, *K*, *S*; hjaldr-gegna, *H*; hildr-gegnir, *L*. 3) hæfði, *G*. 4) ráða, *G*. 5) þjóð skal hverr, *G*. 6) vinr emk, *G*; vinr er, *H*; er sá er, *K*, *S*. 7) beina, *K*, *L*; benja, *hin*. 8) vörnuð, *D*, *G*. 9) býð ek en hlýðir, *G*; býð ek enn hlýðit, *D*, *H*. 10) muteris, *G*, *H*, *S*; musteris, *K*. 11) teitir, *K*, *S*. 12) þeim, *G*, *H*. 13) harir, *D*, *H*, *K*, *S*. 14) ef, *L*; er, *hin*.

hót, skjöldúngi á móti;
greyp[1] er þat[2] höfðum hneypta[3]
heldr niðr í felda[4],
slegit hefir þögn á þegna,
þíngmenn nösum stínga.
Eitt er mál, þat er mæla,
minn drottinn leggr sína
eign[5] á óðal þegna,
(öfgast[6]) búendr göfgir;
raun[7] mun seggr, er[8] sína
selr öðrum[9], í því telja,
flaums at felli dómi,
föðurleif konúngs greifum.

En eptir þessa áminníng skipaðist konúngr vel, fluttu margir aðrir þessa ræðu fyrir konúng, kom þá svâ at konúngr átti tal við hinu vitrustu menn, ok segir lög sín, þau er enn eru í Þrándheimi ok kölluð eru Grágás. Magnús konúngr gjörðist vinsæll ok ástsæll af öllu landsfólki, var hann fyrir þá sök kallaðr Magnús hinn góði.

245. Magnús Noregs konúngr ok Hörða-Knútr Dana konúngr höfðu fyrst missætti sín í milli, en landsmönnum leiddist þat bæði í Noregi ok í Danmörk, fóru þá menn í milli

---

[1]) greypt, *G*, *H*, *K*, *S*. [2]) vær, *L*. [3]) hnepta, *G*, *H*; hnypta, *L*. [4]) *þannig hin*; feldan, *A*. [5]) *þannig hin*; einn, *A*. [6]) öflgast, *G*. [7]) rán, *L*. [8]) ef, *G*, *H*. [9]) orð, *L*; út, *hin*.

þeirra með sættarboðum, kom svâ at konúngar fundust sjálfir í Elfi, ok gjörðu sætt sína, ok svörðust í bræðralag, ok kom þar, at hvorr þeirra skyldi taka eptir annan löndin, ef misdauði þeirra yrði, svâ at sá andaðist sonlaus. Haraldr Knútsson, Englands konúngr, andaðist 5 vetrum síðar eptir andlát Knúts hins ríka, föður síns; tók þá Hörða-Knútr ríki í Englandi, ok var konúngr bæði (yfir Englandi) ok í Danmörk 2 vetr, þá andaðist hann barnlaus.

246. Magnús konúngr Ólafsson tók konúngdóm yfir Danmörk eptir Hörða-Knút, rèð hann þá bæði Danmörk ok Noregi; var í þann tíma Danaveldi herskátt mjök, barðist þar til ríkis Sveinn konúngr Úlfsson, átti hann orrostur við Magnús konúng, ok hafði Magnús konúngr sigr.

247. Magnús konúngr gipti Úlfildi, systur sína, Ottu hertoga í Saxlandi; Magnús hèt son þeirra, þaðan er komin ætt mikil; hertogar þeir, er ráðit hafa fyrir Brúnsvík, telja þeir svâ kyn sitt til hins helga Ólafs konúngs. Magnús konúngr fór með her sinn til Vindlands, þar vann hann Jómsborg, ok brendi hana, ok þar víða land; síðan fór hann aptr til Danmerkr, ok fór þá herr frá honum, var þá konúngr eptir ekki fjölmennr.

248. Þat[1] sama haust fóru Vindir með ógrynni liðs, en er þat spurði Magnús konúngr,

[1]) *I þessum Kapít. endar C at fullu.*

þá safnaði hann her saman, ok fór móti þeim með þat lið er hann fèkk; þá kom til móts við hann Otta hertogi, mágr hans; þeir mættu her Vinda á Hlýrskógsheiði skamt frá Heiðabæ, þar lágu þeir Magnús konúngr úti um nátt undir berum himni á skjöldum sínum; eptir um daginn var Michaelsmessu aptan, þá kom til konúngs njósn hans, ok höfðu konúngs menn sèð her Vinda, sögðu þeir at konúngr hafði öngan hluta liðs við; gjörðist þá ótti mikill í liði hans, eggjuðu margir Magnús konúng at flýja, var hann þá all hugsjúkr, þvíat hann hafði aldregi á flótta komit, vildi hann berjast, ef mönnum þikkja þeir faung á hafa. Otta hertogi fýsti viðtöku; en er konúngr var í þessum áhyggjum, þá sofnaði hann, honum sýndist hinn helgi Ólafr konúngr, faðir hans: eru þèr óttafullir nú, sagði hann, er heiðíngjar hafa her mikinn, ekki skulu þèr þat óttast, þvíat ek mun fylgja yðr, standið upp ok ráðið til orrostu, þegar þèr heyrið lúðr minn, ok verið öröggir ok óttalausir! þá vaknaði konúngr, rann þá sól upp, þá segir konúngr draum sinn; urðu menn við þat glaðir mjök, ok herðu hugi sína; þá sá þeir her Vinda, fóru þá Vindar yfir Skotborgará, þá heyrðu liðsmenn Magnúsar konúngs allir í lopt upp yfir sik klokkuhljóð, ok allir þeir menn er verit höfðu í Niðarósi, þeir kendu hljóðit svâ sem Glöð væri hríngt; sú klokka er at Clemens kirkju í Kaupángi. Síðan steypti

Magnús konúngr af sèr brynju, ok tók í hönd sèr auxi Ólafs konúngs, er hann hafði haft, er Hel heitir, rèðst hann nú þegar fram móti Vinda hernum; svâ segir Arnór jarla skáld:

Óð með öxi breiða
ódæsinn[1] fram ræsir,
varð und[2] hilmi hörða
hjördynr, ok varp brynju;
þá er um skápt, enn skeptir[3]
skapvörð[4] himins jörðu,
[hel klauf hausa fölva[5],
hendr tveim[6] jöfurr spendi.

Þá gjörðu þeir Magnús konúngr svâ harða atgaungu, at Vindir hrukku fyrir, snèrust þeir á flótta, er fremstir stóðu, en þeir er síðar voru, stóðu svâ at hinir náðu eigi at flýja, fèll þá hverr um þveran annan; en konúngr ok hans lið hjuggu Vinda sem búfè; en þat er fróðra manna sögn, at þat hafi mannfall mest verit á Norðrlöndum, síðan er kristni kom, ráku þeir síðan flótta, ok drápu ógrynni liðs; svâ segir Þjóðólfr skáld:

Hykk í hundraðs flokki
Haralds bróðurson stóðu,
hrafn vissi sèr hvassast
húngr bànn, framast manna;
vítt lá Vinda flótti,
varð, þar er Magnús barðist,

1) ódræsinn, *D, H, L.* 2) um, *G*; of, *D, S.* 3) skipti, *G, H.* 4) skapvörðr, *hin.* 5) *þannig hin*; *v. í A.* 6) tvær, *K, S.*

högginn valr at hylja
heiði rastar breiða.

249. Guthormr hèt maðr, son Ketils kálfs af Ríngunesi ok Gunnhildar, systur Ólafs hins helga. Guthormr fór í vestrvíkíng, hann hafði friðland ok vestrsetu í Díflinni á Írlandi, ok var þar með kærleikum miklum með Margaði konúngi. Um sumarit fór Margaðr konúngr ok Guthormr með honum til Bretlands, ok fengu þar ógrynni fjár; síðan lögðu þeir í Aungulssund[1]; þá skyldu þeir skipta herfángi sínu, en er fram var borit þat mikla silfr ok allskonar gersimar, þá vildi konúngr einnsaman hafa þat fè, ok virði þá lítils vingun sína við Guthorm. Guthormi líkaði þat illa, ef hann skyldi vera hlutræníngr ok hans menn. Konúngr sagði, at hann skyldi (eiga) 2 kosti fyrir höndum; sá annar: at una því, sem vèr viljum vera láta; hinn annar: at halda bardaga með oss, ok hafi sá þá fè, er sigr hefir, ok þat með at þú skalt gánga af skipum þínum, skal ek þau hafa. Guthormi sýndist mikill vandi á báðar hendr, þóttist hann láta skip sín ok fè fyrir enga tilgjörð, þat var ok all háskasamligt at berjast við konúng ok þat mikla lið, er honum fylgði, en liðs þeirra var svâ mikill munr, at konúngr hafði 16[2] lángskip, en Guthormr 5 skip; þá bað hann konúng ljá sèr fresta um þrjár nætr til umráða við sína menn, hugðist hann á þeirri stundu

1) Aungulseyjarsund, *G, K, S* 2) 15, G.

mega mýkja konúngs skaplyndi, ok koma sínu máli í betri vingan við hann með fortölum sinna manna; en þat fekkst eigi af konúngi, sem hann mælti til; þat var Ólafsvöku aptan; þá kaus Guthormr sèr þann heldr, at deyja með drengskap eðr vega sigr, heldr enn hitt at þola skömm ok svívirðíng ok klækisorð. Þá kallaði hann á guð ok hinn helga Ólaf konúng, frænda sinn, bað þá fulltíngs ok hjálpar, ok hèt til þess helga manns húss at gefa tíund af öllu því herfángi, er hann hlyti, ef þeir fengi sigr. Síðan fylkti hann liði sínu, ok skipaði móti þeim mikla her, ok barðist við þá, en með fulltíngi guðs ok hins heilaga Ólafs konúngs fèkk hann sigr, en þar fèll Margaðr konúngr, ok hverr maðr er honum fylgði; ok eptir þann háleita sigr þá vendi Guthormr or þeirri (ferð) glaðr ok með öllum fjárhlut, þeim er þeir höfðu fengit í orrustu, ok var tekit af silfrinu, þat er heir höfðu fengit, hinn tíundi hlutr, svâ sem heitit var hinum helga Ólafi konúngi, þat var ofa mikit fè, svâ at af því silfri lèt Guthormr gera róðu eptir vexti sínum eða stafnbúa síns, ok er þat líkneski miklu meira, enn þeir menn sem nú eru; gaf Guthormr róðu þá svâ búna til staðar hins helga Ólafs konúngs, hefir hún þar verit síðan til minníngar sigurs Guthorms ok jarteinar hins heilaga Ólafs konúngs.

250. Sá atburðr varð í Grikklandi, þá er

Kirjalax konúngr var þar, at konúngr fór á[1] Blakumannaland[2], en er þeir kvomu á Persinja[3] völlu, þá kom þar móti honum heiðinn konúngr með óflýjanda her, þeir höfðu þángat haft hesta lið ok vagna stóra mjök ok ofan á vígskörð; en er þeir bjöggu um náttból sitt, skipuðu þeir vögnum sínum hverjum við annan fyrir utan herbúðirnar, en þar fyrir utan grófu þeir díki stór, var þat þá allt saman vígi svâ mikit sem borg væri; konúngr hinn heiðni var blindr. En er Grikkja konúngr kom þar, settu þeir fylkíng sína á völlunum fyrir utan vagnaborg hinna heiðinna manna. Þá settu Grikkir fylkíng sína þar í móti, riðu fram hvârirtuggju, ok bjuggust til at berjast, fór þá at illa, flýðu þá Grikkir, ok höfðu fengit mikit mannalát, en heiðíngjar fengu sigr; þá skipaði konúngr fylkíng af Frökkum ok Flæmíngjum, en síðan riðu þeir fram, ok börðust við þá, ok fór sem hinum fyrrum, at margir flýðu, en allir voru drepnir, þeir er eigi kvomust undan; var þá Grikkja konúngr reiðr mjök hermönnum sínum; þeir svara honum svâ, báðu hann taka til Væríngja vínbelgja sinna. Konúngr svarar svâ: at hann vill eigi spilla gersimum sínum svâ, at leiða fá menn, þótt þeir sè hvassir, móti svâ miklum her. Þá svarar orðum hans Þórir helsíngr[4], er

[1]) af, *G.* [2]) Blökumannaland, *D*, *G*, *H*, *K*; Lokumannalandi, *L*; Blökumannavöllu, *S.* [3]) Perína, *D*, *K*, *S*; Persína, *F*, *L*; Peizinja, *G* [4]) *þannig hin;* belgíngr, *A.*

þá rèð fyrir Væríngjum: ok þótt þar væri fyrir eldr brennandi, þá munda ek ok mínir þegnar í hlaupa, ef ek vissa at þat keyptist í, at þèr konúngr hefðið þá frið eptir. Konúngr svaraði: heitið þèr á hinn helga Ólaf konúng til fulltíngs ok sigurs yðr. Væríngjar höfðu fimm hundruð manna; ok tóku þeir heit sitt með handfesti, ok hètu því at láta gera kirkju í Miklagarði með sínum kostnaði ok góðra manna stoðum, ok láta þá kirkju reisa til vegs ok dyrðar hinum helga Ólafi konúngi. Síðan runnu Væríngjar fram á völluna; en er þat sá heiðíngjar, þá segja þeir konúngi svâ, at þar fór enn lið af Grikkjum, ok er þetta, sögðu þeir, hönd full manna. Þá spyrr konúngr: hverr er sá hinn tíguligi maðr, er þar ríðr á hvítum hesti fyrir liði þeirra? öngan sjá vèr, sögðu þeir; þar var eigi minni liðsmunr enn svâ at sextigir heiðíngja voru móti einum kristnum manni, en eigi hèldu þeir at síðr Væríngjar til bardaga alldjarfliga, en þegar þeir kvomu saman, þá kom flótti í lið heiðíngja af hræzlu, svâ at þeir tóku þegar at flýja; en Væríngjar tóku at drepa brátt mikinn fjölda, en er þat sá Grikkir ok Frakkar[1], þeir er áðr höfðu flýit fyrir heiðíngjum, sækja þá til ok reka flóttann með þeim, voru þá Væríngjar komnir uppí vagnaborgina, var þar ið mesta mannfall; en er heiðíngjar flýðu, þá varð handtekinn hinn heiðni konúngr,

1) Franzesar, *D*, *II*.

ok höfðu Væríngjar hann með sèr, tóku kristnir menn herbúðir heiðíngja ok vagnaborg[1].

251. Greifi einn var í Danmörk illr ok öfundsjúkr, hann átti ambátt eina norræna, ættaða or Þrændalögum, ok dýrkaði hún Ólaf konúng, ok trúði fastliga hans heilagleik; en sá greifi, er áðr gat ek, tortrygði allt þat er honum var sagt frá þessa hins helga manns jarteinum, kvað þat ekki vera nema kvitt einn ok pata, ok gjörði sèr at gabbi ok gamni lof ok dyrð þá alla, er landsfólk veitti þeim góða konúngi. Enn kom at þeim hátíðardegi, er sjá hinn mildi konúngr lèt líf sitt á, ok allir Norðmenn hèldu, þá vildi sá hinn úvitri greifi ekki heilagt láta, ok bauð ambátt sinni at hún skyldi baka ok elda ofn til brauðs á þeim degi; vita þóttist hún æði þessa greifa at hann mundi henni sárliga hefna, ef hún lèti eigi at því, sem hann bauð henni, gengr hún til þegar, ok bakaði, ok eldi ofninn, ok veinaði mjök, er hún starfaði, ok heitaðist við Ólaf konúng, ok kveðst aldri mundi trúa á hann, nema hann gjörði nokkura bendíng ok hefndi þessa údæma; nú megu þèr heyra makligar refsíngar ok sannligar jarteinir: allt var þat

[1]) Eptir þat fór konúngr aptr til Miklagarðs, ok lèt gera kirkju, sem hann hafði heitið, ok vígja hinni helgu mey Maríu ok hinum helga Olafi konúngi, en Væríngjar lögðu svâ mikit fè til þess hins helga húss, at margir gripir gengu af, þá er kirkjan var gjörð ok innan buin með allri þeirri dyrð ok vegsemd, er þeir máttu gera guði ok hinum helga Olafi konúngi. *b. v. K.*

jafnskjótt er greifinn sá [hleifa báðum hendi augum[1], ok varð þat brauð allt at grjóti, er hún hafði í ofninn skotit, ok er komit af því grjóti til staðar hins helga Ólafs konúngs ok víða annarstaðar[2].

252. Vestr á Vallandi var einn maðr svâ vannheill, at hann var krypplíngr, ok gekk á knjám ok knúum, hann var sofnaðr úti á veg, þá dreymdi hann at maðr kom til hans göfugligr, ok spurði hvert hann ætlaði at fara, en hann nefndi til einn bæ; en hinn göfugligi[3] maðr mælti við hann: far þú til Ólafs kirkju þeirrar, er í Lundúnum stendr, mun þú þar heill verða; en síðan vaknaði hann, ok fór til Ólafs kirkju þegar á leið; en um síðir þá kom hann til Lundúna bryggju, ok spurði þar borgarmenn, ef þeir kynni at segja, hvar Ólafs kirkja væri, en þeir kváðu miklu fleiri kirkjur þar vera, enn þeir vissi, hverjum hver var helguð. En litlu síðar þá gekk maðr at honum, ok spurði hvert hann gjörðist; hann sagði honum; við skulum fara, segir hinn komni maðr, báðir saman til Ólafs kirkju, ok kann ek leið þángat. Síðan fóru þeir yfir bryggjuna, ok fóru þat stræti er til Ólafs kirkju lá, en er þeir kvomu til kirkjugarðs hliðsins, þá stè sá yfir þreskjöldinn, þann er í hliðinu var, en krypplíngrinn veltist þar

1) *á líkliga at vera:* hendi hleifa báðum augum, *A*; varð blindr báðum augum, *hin.* 2) jafnan síðan hefir Olafsmessa haldin verit í Danmörku, *b. v. F, G, S.* 3) *hèr sleppr D um sinn.*

inn yfir, ok reis þegar heill upp, en þá er hann sást um, þá var förunautr hans horfinn.

253. Magnús konúngr hinn góði, son ens heilaga Ólafs konúngs, rèð fyrir Noregi, sem fyrr var sagt, þá var Rögnvaldr, son Brúsa jarls, með honum, en þá rèð fyrir Orkneyjum[1] Þorfinnr jarl, Sigurðarson, föðurbróðir Rögnvalds jarls. Þá (sendi) konúngr Rögnvald jarl til Orkneyja, ok bauð svâ, at hann[2] skyldi taka við föðurleifð sinni. Þorfinnr lèt Rögnvald hafa þriðjúng landa við sik, þvíat svâ hafði haft Brúsi, faðir hans, á deyjanda degi. Þorfinnr átti þá Íngibjörgu jarla móður, dóttur Finns Árnasonar. Rögnvaldr þóttist eiga 2 hluti landa, svâ sem Ólafr hinn helgi veitti Brúsa, feðr hans, ok Brúsi hafði um hans daga. Þetta var upphaf til deilu þeirra frænda, ok er frá því saga mikil. Áttu þeir orrustu á Petlandsfirði; þá var Kálfr Árnason með Þorfinni jarli. Svâ segir Bjarni gullbrárskald:

Frágum, Finns hve mági
fylgduð Kálfr um dylgjur,
ok lèzt þú á sjá snekkjur
snarla [lagt at[3] jarli;
áræði vant þú eyða
allfúss[4] syni[5] Brúsa,
hlæði ruðr[6], en tèðut[7]
heiptminnigum[8] Þorfinni.

---

1) *þannig hin, og leiðrètt i A*; Noregi, *rángt A.* 2) *Hèr endar G at fullu.* 3) sett með, *L.* 4) óðfuss, *K, L.* 5) sonar, *K, L, S.* 6) hugr, *K, L, S.* 7) rèðut, *S*; tæðit, *L.* 8) heiptminnigr, *K, L, S.*

Magnús konúngr varðveitti helgan dóm Ólafs konúngs vandliga, skar hár hans ok negl. Ofarlíga á dögum Magnúsar konúngs kom til Noregs Haraldr Sigurðarson, ok rèðu þeir einn vetr báðir fyrir Noregi, áðr Magnús konúngr andaðist á Jótlandi í Danmörk; síðan rèð Haraldr konúngr Noregi, bróðir Ólafs konúngs hins helga, ok varðveitti hann þá helgan dóm Ólafs konúngs, sem Magnús hafði fyrr gjört; en er Haraldr var búinn or landi vestr til Englands, þá læsti hann skrín Ólafs konúngs, ok kastaði lyklinum út á Nið, en sumir segja, at hann kastaði utanborðs fyrir Agðanesi. Þá var liðit frá falli Ólafs konúngs hálfr fjórði tögr vetra, jafnmargir sem Ólafr konúngr lifði hèr í heimi. Skríni Ólafs konúngs hefir eigi síðan verit upplokit. Harald konúng dreymdi, er hann lá í Sólundum[1], með her sinn, honum sýndist Ólafr konúngr, ok kvað vísu þessa:

Gramr vo frægr til fremdar
flestan sigr hinn digri,
hlaut[2] því at heima sátum,
heilagt fall til vallar;
uggi ek efist[3] ráð tiggja,
[yðr muni feigð of byrjut[4]
trölls gefr fákum fylli[5],
fiks veldr at guð slíku.

Haraldr konúngr fèll á Englandi í þeirri ferð.

254. Ólafr hèt son Haralds konúngs, ann-

[1]) *þannig L, S*; Lundúnum, *A og hin.* [2]) ek. *b.* *i*, *K, L, S.* [3]) efst, *K, S*; efsta, *L.* [4]) era feigð um hin Ecða, *L.* [5]) fullar, *K.*

ar Magnús, þeir voru konúngar í Noregi eptir Harald konúng. Magnús konúngr lifði skamma stund, síðan var Ólafr konúngr í Noregi, hann var maðr vinsæll ok friðsamr, hann lèt gjöra kirkju í Kaupángi í þeim stað, sem Ólafr konúngr var fyrst jarðaðr, ok lèt þat musteri búa at öllu, var þá vígð Krists kirkja, var þar þá Ólafs skrín ok biskups[1] stóll, þar urðu þá margir jarteinir; margir menn sóttu þángat at jafnlengð þess er kirkjan var vígð, ok á þeim degi er sá guðs dýrðlíngr, Ólafr konúngr, skildist við heim þenna ok fór til eilífrar dýrðar, nú höfðu fluzt sjúkir menn þrír þángat til hans helgu grafar, ok hugðu sèr til miskunar ok heilsu, ok fær einn af þeim sýn sína á messuaptninum, er sjónlaus kom þángat; en á messudeginum sjálfum, þá er helgir dómar voru útbornir, ok skrín var niðrsett í kirkjugarði eptir vanda, þá fèkk mállaus miskun, sá er lengi var áðr dumbi, en þá veitti hann óspart lof guði ok hinum helga Ólafi konúngi með mjúku túngubragði; kona var hinn þriði maðr, er þángat hafði sótt or Svíþjóð austan, ok í ferð þeirri hafði hún þolat mikla nauð ok var sjónlaus, treystist hún miskun almáttigs guðs, ok kom þar farandi at þeirri hátíð, hún var leidd sjónlaus inn í hins helga manns hús at messu um daginn, ok fyrr enn henni var lokit, þá sá hún báðum augum hið helga skrín, fór hún þaðan á burt heileyg með háleitum fagnaði, en (hafði) blind áðr verit um 19[2] vetr.

[1]) konúngs, *L.* [2]) 18, *F*; 16, *L*; 14, *S*.

255. Sá atburðr gjörðist í Niðarósi, þá skrín Ólafs konúngs var borit um stræti at höfugt[1] var skrínit, svâ at eigi fengu menn borit or þeim stað, en síðan var skrínit niðrsett ok brotit upp strætit, ok leitat, hvat þar var undir, ok fannst þar barnslík, er myrt hafði verit ok fólgit þar, var þat þá brott borit, en bætt aptr strætit, sem áðr hafði verit, en borit skrínit at vanda.

256. Ólafr hinn kyrri varð sóttdauðr í Vík austr, hans son var Magnús berfættr, er konúngr var í Noregi eptir föður sinn Ólaf. Sá atburðr gjörðist í Kaupángi, þar sem Ólafr konúngr hvílir, at eldr kom í hús í bænum, ok brann víða, þá var borit út or kirkju skrín Ólafs konúngs, þeir settu mót eldinum skrínit; síðan hljóp til maðr hvatvíss ok úvitr, ok barði skrínit, ok heitaðist við þann helga mann, sagði at allr bærinn mundi uppbrenna ok kirkjan, nema hann dygði með sínum bænum, ok nú lèt almáttigr guð viðberast kirkjubrunan, en þeim úvitra manni sendi hann augnaverk þegar eptir um náttina, ok lá hann þar allt til þess er hinn heilagi Ólafr konúngr bað honum miskunar við almáttkan guð, ok bættist í þeirri kirkju.

257. Sá atburðr varð enn í Kaupángi, at kona ein var færð þángat til staðár, sem hinn helgi Olafs konúngr hvílir, hún var svâ aumlig, at hún var krept öll saman, svâ[2] at báðir fætr lágu, ok er hún var á bænum, ok hafði heitit á

[1]) þúngt, *K.* [2]) *Hèr byrjar D aptr.*

hann grátandi, þá bætti hann henni þetta hit mikla vanheilindi, at fætr hennar ok leggir ok aðrir limir rèttust or hlykkjum, ok varð síðan hverr liðr ok limr með rèttri skepnu, mátti hún eigi krjúpa, er hún kom þángat, en þaðan gekk hún heil ok fegin til sinna heimkynna.

258. Magnús berfættr fèll á Írlandi, Noregs konúngr, þá tóku hans synir Sigurðr, Eysteinn, Ólafr ríki í Noregi. Úngan mann nokkurn, danskan at ætt, tóku heiðnir menn ok fluttu til Vindlands, ok höfðu þar í böndum með öðrum herteknum mönnum, var hann um daga í járnum varðveizlulaus, en um (nætr) var hann svâ bundinn í fjötri at hann hljópist eigi frá þeim; en sá hinn aumi maðr beið aldregi svefn nè ró fyrir harms sökum, hugleiddi marga vega, hvat til skyldi taka eðr hjálpræða leita, kvíddi mjök ánauð ok hræðslu, bæði sult ok píslum, ok vænti enga útlausn af frændum sínum, þvíat þeir höfðu leystan hann af heiðnum löndum [tysvar fyrr[1], ok þóttist hann vita, at þeim mundi þá þikkja mikit fyrir því ok kostnaðarsamt at gánga undir hit þriðja sinn; vel hefir sá maðr, er eigi bíðr slíkt íllt þessa heims, sem hann þóttist beðit hafa; nú gerði hann sèr þat í hug, at hlaupast í brutt ok komast undan, ef þess yrði auðit, rèð hann til á náttarþeli, ok drap áðr son bónda, hjó af honum höfuð ok stefnir til skógar með fjötrin undan; en um morgininn eptir er lýsti, þá verða þeir varir við, ok fara eptir honum með hunda, er þeir voru

[1]) *þannig gizkað, máð í A*; með fè, *F*.

vanir at spyrja þá upp, er undan hljópust, þeir finna hann í skógi, þar sem hann lá ok leyndist fyrir þeim, nú taka þeir hann höndum ok berja ok leika allskonar illa, síðan draga þeir hann heim, ljá honum lífs, ok þó nauðuliga, ok öngrar aðrar miskunar, ok settu hann þegar í myrkvastofu, þar er inni voru aðrir 15 kristnir menn, ok bundu hann bæði járnum ok öðrum böndum sem fastast máttu þeir; svâ þótti honum vesöld ok píslir þær, er hann hafði fyrr haft, sem þat væri skuggi nokkurr þess alls hins illa, er fyrr hafði hann reynt; engi maðr sá hann augum í þessum píslum, sá er honum bæði miskunar, öngum manni þótti aumligt um vesöld hans nema kristnum mönnum, er þar lágu bundnir með honum, þeir hörmuðu ok grètu hans mein ok sína ógæfu; en um dag nokkurn lögðu þeir ráð fyrir hann, báðu hann at hann hètist hinum helga Ólafi konúngi, ok gæfist til embættismanns honum í hans dýrðar húsi, ef hann kæmist burt með guðs miskun ok hans bænum or þeirri prísund; nú játaði hann því feginn, ok gafst þegar til þess staðar, er þeir báðu hann; nótt hina næstu þóttist hann sjá mann einn standa hjá sèr ekki mikill, ok mæla við sik á þessa leið: heyr þú, hinn aumi maðr! sagði hann, hví rís þú eigi upp? hann svarar: lávarðr minn! hvat manna ert þú? hann svarar: ek em Ólafr konúngr, er þú kallaðir á. Hó! hó! lávarðr minn[1] góðr! ek vilda feginn upprísa, ef

1) ok vinr, *b v. F.*

ek mætta, en ek ligg í járnum bundinn, ok þó í fjötri með þeim mönnum, er hèr liggja bundnir hjá mèr. Síðan heitr hinn komni maðr á hann, ok kvað svâ at orði: statt upp skjótt ok æðrast ekki um, víst ert þú nú laus. Því næst vaknaði hann, ok sagði þá sínum fèlögum, hvat fyrir hann hafði borit; síðan báðu þeir hann uppstanda ok freysta, ef satt væri; uppstendr hann ok kennir þá, at hann er laus; þá sögðu fèlagar hans, at honum mundi þat fyrir ekki koma, þvíat hurð[1] var bæði læst utan ok innan; þá lagði til gamall maðr, er aumliga var haldinn, ok bað hann ekki tortryggja þess hins helga manns miskun, er hann hafði lausn af fengit: ok svâ mun hann jartegnir við þik gjört hafa at þú skyldir af hans miskun laus verða, en eigi þèr til vesaldar meiri ok písla; nú lát við fljótt, segir hann, ok leita dyra, ok ef þú mátt nú komast brott, þá ert þú hólpinn; svâ gjörði hann, hann finnr dyrnar þegar opnar[2], stökkr hann þegar á skóg á brott jafnskjótt; þeir urðu þá þegar varir við, er hans gættu, þeir slógu þá lausum hundunum, ok fara þeir sem skyndiligast, en hann liggr ok leynist, ok sèr gerla vesall kall, hvar þeir fara eptir honum; nú villast hundarnir farsins, þegar þeir gengu at honum, en þeim öllum viltist sýn, at engi þeirra mátti finna

[1]) *þannig hin*; hún, *A*; myrkvastofa, *L*. [2]) *hèr er komið að seinustu blaðsíðunni í A, sem er gjör máð og ólæsilig, er því F fylgt, sem alstaðar næst að undanförnu er samhljóða að orðum og frásögn.*

hann, ok lá hann þar fyrir fótum þeim, vendu þessir þá heim aptr, ok veinuðu miök ok hörmuðu mjök, er þeir máttu eigi finna hann; en Ólafr konúngr lèt hann eigi finnast, er hann var til skógar kominn, ok gaf honum heyrn sína ok heilsu góða, er þeir höfðu áðr barit höfuð hans ok knosat, til þess er hann var daufr; þvínæst kom hann sèr á skip með kristnum mönnum tveimr, þeir er lengi höfðu þar legit ok verit píndir, ok neyttu þess farkostar allir saman sem ákafast, ok fluttust þá á leið af þeim hlaupstígi; síðan sótti hann til þess helga manns húss, er hann var heill vorðinn or herför, þá iðraðist hann sinna heita, gekk þá á orð sín við þann hinn milda konúng, ok hljópst í brottu um dag, ok kom at kveldi til bónda eins, þess er honum veitti herbergi fyrir guðs sakir; síðan um nóttina, er hann var í svefni, þá sá hann meyjar 3 gánga til sín fríðar ok fagurbúnar, ok ortu orða á hann, ok börðu hann með miklum ávítum, hví hann skyldi svâ djarfr gjörast, at hann hlypi frá þeim góða konúngi, er honum hafði svâ mikla miskun veitt, fyrst er hann leysti hann or járnum ok allri písl, ok fýsast frá þeim ljúfa lávarð, er hann hafði áðr gefizt. Því næst vaknar hann felmsfullr, ok stóð upp þegar árdegis, ok sagði húsbónda[1], hvat fyrir hann hafði borit; en hinn góði bóndi lèt hann engu öðru viðkoma, enn fara aptr til þess staðar. Sá maðr ritaði af upphafi þessa jarteign, er sjálfr sá á honum járnastaðinn.

1) *Hèr sleppr D um sinn.*

259. Kolbeinn hèt maðr úngr ok fátækr, en Þóra, móðir Sigurðar konúngs jórsalafara, lèt skera túngu or höfði honum, ok var til þess eigi meiri sök, enn sá hinn úngi maðr Kolbeinn hafði eitt stykki haft af diski konúngs móður, ok sagði at steikari hafði gefit hónum, en hann þorði eigi við at gánga fyrir henni; síðan fór sá maðr lánga hríð mállaus; þess getr Einar Skúlason í Ólafs drápu:

Göfug lèt[1] hörn[2] or höfði
hvítíngs[3] of sök litla,
auðar aumum[4] bæði[5],
úngs manns skera túngu;
þann sám vær, er vorum,
válaust numinn máli
hodda-brjótr[6] þar er heitir
Hlíð, fám vikum síðar.

Hann sótti til Þrándheims ok til Niðaróss, ok vakti at Kristskirkju; en um óttusaung Ólafs vökudag hinn síðara þá sofnaði hann, ok þóttist sjá hinn heilaga Ólaf konúng koma til sín, ok taka hendi sinni í stúfinn túngunnar, ok heimta hana, en hann vaknaði heill, ok þakkaði guði feginsamliga, ok Ólafi konúngi er hann hafði heilsu ok miskun af þegit, hafði farit þángat mállaus til hans helga skríns, en þaðan fór hann heill ok skorinorðr.

260. Á dögum þeirra Eysteins konúngs ok Ínga varð sá atburðr, at sá maðr, er Haldór er nefndr, varð fyrir Vindum, ok tóku

[1]) skar, *K*, *S*. [2]) hömr, *L*. [3]) hjörrúngs, *hin*. [4]) aumir, *L*. [5]) beiða, *L*. [6]) odda njót, *L*.

þeir hann ok veittu honum meiðsl, skáru kverkina ok drógu þar út túnguna, ok skáru af í túngurótunum; síðan sótti hann til hins helga Ólafs konúngs, ok rendi hann hugnum til þess hins helga manns, ok bað grátandi þann hinn blessaða konúng ljá sèr máls ok heilsu, þvínæst fèkk hann mál og miskun af guði fyrir árnaðarorð hins signaða Ólafs konúngs, ok gerðist þegar þjónustumaðr hans um alla sína lífsdaga, ok var dýrðligr maðr ok trúfastr. Þessi atburðr ok jarteign varð hálfum mánaði fyrir Ólafs vöku hina síðari, á þeim degi er Nicholaus cardínalis var landfastr í Noregi[1].

261. Bræðr 2 voru á Upplöndum, kristnir menn ok fjáðir vel, synir Guthorms grábaks[2], Einar ok Andreas, móðurbræðr Sigurðar konúngs Haraldssonar, áttu þeir óðul ok eignir allar; systur áttu þeir fríða at ásjónu, en eigi til forsjála við orði vondra manna, sem síðar reyndist, hafði hún blíðlæti mikit við prest einn enskan, er Rikarðr hèt, er þar var á vist með þeim bræðrum hennar, ok gerði honum mart í vild ok opt mikit gagn; fyrir sakir góðvilja þessa bar at eigi betr enn um konu þá flaut ferligt orð, þegar þat var á málræðu komit, þá hugðu allir menn þat á hendr presti, ok svâ bræðr hennar, þegar þeir urðu þess varir, þá lètu þeir hann líkligastan til vera fyrir alþýðu í þeirri miklu blíðu er þeirra var á meðal, varð þeim

[1]) *sá fylgjandi kapít. er og tekinn úr F, ok sèr til nokkurs af honum, sem samhljóða er í Á; í L. vantar hann.* [2]) grábarða, *H*; grábarðs, *K*, *S*.

þó laginn mikill ófagnaðr síðar, sem eigi var örvænt, er þeir leyndu þessi vèl, ok lètu ekki á sèr finna; en um dag nokkurn kölluðu þeir prest til sín, hann varði einskis af þeim nema góðs, teygðu þeir hann heiman með sèr, ok kvóðust fara mundu í annat hèrað, at smíða þar nokkut þat, er þeir þyrfti, ok báðu hann fylgja sèr; þeir höfðu heiman mann einn, er vissi ráð með þeim, ok fóru á skipi eptir vatni því, er Rönd heitir, þeir gengu þar á land upp, ok lèku stund nokkura, þá fóru þeir í nokkurn leyndan stað, þeir báðu þá þrælinn ljósta prest öxarhamars högg; hann gerði sem þeir báðu, ok sló prest svâ at hann lá í svima, en er hann vitkaðist, þá mælti hann: hví skal nú svâ hart við mik leika? þeir svöruðu: þú veizt þó at engi segi þèr, þá skaltu nú vita, hvat þú hefir gert; báru þeir síðan sakir fyrir hann, en hann synjaði ok bað guð skipta ok hinn heilaga Ólaf konúng á millum þeirra, síðan brutu þeir fótleggi hans, þá drógu þeir hann á milli sín til skógar, og bundu hendr hans á bak aptr, síðan lögðu þeir streng at höfðinu[1], en þilju undir herðar honum, ok settu í sneril, ok snèru, at strenginn; þá tók Einar hæl, ok setti á augat presti, en þjón hans stoð upp yfir, ok laust á með öxi, ok hleypti út auganu, svâ at þegar stökk niðr á kampinn, en þá setti hann hælinn á

[1]) *Hèr sèr til að seinasta blaðsíðan í A er úti; þó er blaðskiki af næsta blaði þar eptir í kjölnum, sem á standa nokkur fylgjandi orð úr kapit. en hins vegar er hann auðr, má því hèraf ráða að A hefir endað með þessum kapitula.*

annat augat, ok mælti við þjóninn: slá þú nú kyrrara; hann gerði svâ, þá stökk hællinn af auganu, ok sleit frá hvarminn ofan, en síðan tók Einar hvarminn frá upp með hendi sèr, ok sá at augasteinninn var þar; þá setti hann hællinn við kinnina út, en þjóninn laust á, ok sprakk augasteinninn út á kinnarbeinit niðr, þar sem hæst var, síðan opnuðu þeir munn hans, ok tóku túnguna ok drógu út ok skáru af, en síðan leystu þeir hendr hans ok höfuð; þegar er hann vitkaðist þá varð honum þat fyrir, at hann lagði augnasteininn upp undir brúnina í stað sinn, ok hèlt þar at báðum höndunum, þá báru þeir hann til skips, ok fóru til bæjar þess, er heitir á Sæheimi, ok lendu þar, þeir sendu mann til bæjarins, at segja at prestr var á ströndu niðri; meðan sá maðr var farinn, er sendr var, þá spurðu þeir, ef prestr mætti mæla, en hann blaðraði túngunni, ok vildi viðleita at mæla; þá mælti Einar við bróður sinn: ef hann rèttir við ok grær fyrir túngustúfinn, þá kemr mèr þat í hug, at hann mun mæla mega; síðan kiptu þeir túngustúfnum með töng, ok skáru tysvar þaðan frá ok í túngurótunum hit þriðja sinn, ok lètu hann þar liggja hálfdauðan; húsfreyja þar á bænum var fátæk, en þó fór hún þángat, batt hún þá sár hans öll, ok leitaði honum hæginda slíkra sem hún mátti, ok bar hún hann heim til húss, ok dætr hennar með henni í mötlum sínum, hann lá þá hinn sári prestr aum-

liga haldinn, vilnaðist hann jafnan guðs miskunar, en tortrygði aldri, bað mállaus með hugrenníngu ok sorgfullu hjarta því öllu traustara, sem[1] hann var sjúkari, ok rendi hug til hins milda Ólafs konúngs guðs dýrlíngs, hafði hann mart áðr heyrt sagt frá honum ok hans dyrðar verkum, ok trúði því af öllu hjarta á hann til allrar hjálpar í sínum nauðum, en er hann lá þar laminn ok numinn öllu magni, þá grèt hann sárliga, ok stundi með sáru brjósti, ok bað hinn blessaða Ólaf konúng duga sèr; en eptir miðja nótt þá sofnaði hann hinn sári prestr, þá þóttist hann sjá göfugligan mann koma til sín ok mæla við sik: illa ertu leikinn, Rikgarðr[1] fèlagi! sè ek at eigi er máttrinn mikill; hann þóttist svara ok sanna þat. Þá mælti sá: miskunar ertu þurfi. Prestr svarar: ek þyrfta nú guðs miskunnar ok hins helga Ólafs konúngs. Sá svarar: þú skalt nú ok fá. Þvínæst tók hann túngustúfinn, ok heimti svâ hart, at presti varð íllt við, þvínæst strauk hann hendi sinni um augu honum ok bein, svâ ok um aðra limu hans, þá er sárir voru. Þá spurði prestr, hverr hann væri. Hann leit við honum, ok mælti: Ólafr er hèr norðan or Þrándheimi; en síðan hvarf hann á brott, en prestr vaknaði alheill, ok þegar tók hann at mæla: sæll er ek, segir hann, guði þakka ek ok hinum heilaga Ólafi konúngi, er hann hefir græddan mik; en svâ hörmuliga sem hann var áðr leik-

[1]) *þannig.*

inn, svâ bráðar bætr fèkk hann allrar þeirrar óhamíngju, en svâ þótti honum, sem hann hefði hvorki vorðit sár nè sjúkr, túngan heil, augun bæði í lag komin, beinbrotin gróin, ok allr hans líkami heill vorðinn, ok fengit hina beztu heilsu, en til jarteigna var þat á augum hans, er út höfðu verit stúngin, þá grèru ör hvít á hvarminum hvoromtveggja, til þess at sjá mætti dýrð þess hins góða konúngs á þeim manni, er svâ aumliga var leikinn[1].

---

1) *Hèr er S úti ok A, sem áðr er greint, en hin handritin hafa ýmsa viðrauka.*

# Viðraukar
# við Ólafs sögu helga,
## er hin handritin hafa helzta umfram aðalskinnbókina.

### *A.*

### *Ólafr konúngr kom til Englands, ok vann Lundúnaborg*[1].

Í þenna tíma var kominn til Englands Knútr hinn ríki, son Sveins konúngs tjúguskeggs, ok þorkell hinn háfi, eptir þat er drepit hafði verit þíngamannalið fyrir Knúti; þat hafði drepit með svikum Úlfkell snillíngr eina nótt af ráðum þeirra Játmundar bræðra, Aðalráðs sona. Játmundr var konúngr 9 mánuði; á þeim átti hann 5 orrostur við Knút Sveinsson, ok höfðu ýmsir sigr. Knútr konúngr kom þat sumar til Englands, sem Aðalráðr andaðist. Eðríkr strjóna var fóstri Emmu drottníngar, er átt hafði Aðalráðr konúngr. Knútr konúngr var metnaðarmaðr mikill, hann gekk at eiga Emmu drottníngu; þeirra börn var Haraldr ok Hörða-Knútr ok Gunnhildr. Knútr hafði þá unnit allt

[1]) *Eptir 34 kap. i A, bætir F inní fylgjandi 5 kap. þó er ágrip þeirra 2gja seinustu kap. í 35 og 36 ap. í A.*

England utan Lundúnaborg, ok bryggjurnar voru eigi unnar, þær er á Temps voru; áin Temps fellr í gegnum borgina. Þetta sumar[1] höfðu þeir bræðr Játmundr ok Játvarðr Lundúnaborg, ok þá 2 kastala, er stóðu hjá bryggjunum, ok þann kastala er á bryggjunum var. Norðr fyrir Slesvík á Englandi rèð Þorkell hinn háfi jarl, hann hafði þá hefnt Hemíngs, bróður síns, er þar fèll með 60 skipshafna. Þorkell drap Úlfkel snillíng, ok gekk at eiga Úlfhildi, dóttur Aðalráðs, er Úlfkell hafði átta. Ólafr konúngr heyrði mart sagt frá orrostum Þorkels jarls, þeim er hann átti, áðr hann gat hefnt Hemíngs, bróður síns, á Englandi, ok hafði jafnan sigr; þángat fór Ólafr konúngr með 6 tigi skipa, ok er Þorkell spurði til fara Ólafs konúngs, fór hann í móti honum, ok bauð honum til vetrvistar heim með sèr við svâ marga menn, sem hann vildi; þat þiggr Ólafr, ok tekst þá fèlag þeirra Þorkels ok mikit vinfengi. Þorkell gengr um sættir með þeim Knúti konúngi ok Ólafi konúngi, ok segir Knúti konúngi mart frá vizku Ólafs, ok þikir hann vænstr til þat geta unnit Lundúna bryggjur; kemr svâ með þeim Knúti ok Ólafi, at Knútr gefr honum þann hlut ríkis, sem hann þóttist eiga í Noregi, ef Ólafr gæti unnit Lundúna bryggjur, þvíat Haraldr konúngr Gormsson hafði gert Noreg skattgildan undir sik, þá er hann hafði Hákon jarl yfirsettan, ok

[1]) *þannig gizkað*, svo, *F.*

því þóttist Sveinn tjúguskegg eiga Noreg, ok setti yfir sonu Hákonar jarls, Eirík ok Svein jarla; mörgum friðendum hèt Knútr Ólafi konúngi til þessa verks. Ólafr konúngr lèt nú veita umbúnað nökkurn; hann lèt gera járnkróka í líkíng akkerisfleina, ok strengi jafnmarga sem járnkrókana, ok reyrði járni; þá skipar Ólafr til um atgaungu: at Knútr konúngr skal vinna annan hlut Lundúnaborgar með lið sitt, en annan hlut Þorkell ok Þórðr víkíngr. Ólafr konúngr sjálfr ferr utan í ána Tems á skipum sínum undir bryggjurnar, ok lætr lúka skjaldborg um öll skipin, ok lætr bera járnkróka um stólpa ok skotása, beina síðan róðr með straums fulltíngi, ok róa undan stólpa alla ok skotása; en þá máttu bryggjurnar eigi upphalda höfga svå miklum sem á var, ok sígr kastalinn ok bryggjurnar, ok týnist mannfólkit, þat er til varnar hafði sett verit á bryggjunum ok í kastalanum; þá hefir Þorkell hinn háfi unnit annan hlut borgarinnar, hafði þar fallit mart lið hans; þá ferr Þorkell jarl hinn háfi at vinna annan hlut borgarinnar með Knúti konúngi, ok gaf honum nær líf með sköpum, af því at Játvarðr, son Aðalráðs konúngs, hjó þá högg þat, er menn hafa síðan at minnum haft; Þorkell hratt Knúti af baki, en Játvarðr hjó í sundr söðul ok hrygg í hestinum, enda urðu þeir þá at flýja bræðr, hrósaði Knútr konúngr þá sigri sínum, ok þakkaði Ólafi konúngi sína liðveizlu.

*Af ræðum Knúts konúngs ok Sigurðar biskups.*

Eptir þessa orrostu sættast þeir Eatmundr ok Knútr, ok skipta Englandi með sèr, ok voru báðir konúngar, ok ef misdauði þeirra yrði, þá skyldi sá vera einvaldskonúngr yfir öllu Englandi, er lengr lifði; en er einn mánuðr var liðinn frá sáttmáli þeirra Knúts konúngs, var Játmundr konúngr svikinn ok veginn af Eðríki strjónu, fóstra sínum. Síðan var Knútr hinn ríki einn konúngr yfir Englandi, hann ríkti fjögur ár ok 20; en eptir er konúnga sætt var orðin, fór Ólafr konúngr til hirðvistar með Knúti konúngi, ok var þar nokkurn hlut vetrar; með þeim var hin mesta vinátta, þar til er Knútr konúngr heyrði þat sagt, at Ólafr konúngr hefði litlu síðar unnit Lundúna bryggjur, enn hann, eðr England, ok því reiddist Knútr konúngr, ok gerðist færra í vináttu með þeim Ólafi konúngi enn var. Biskup beið Ólafi of allt at tíðum, en eigi Knúti, ok biskup hafði kallat Ólaf konúng, en Knútr vildi þat eigi heyra, ok gaf þar um mörg stór orð biskupi, þartil er hann varð af at leggja sakir ríkis Knúts konúngs, þvíat dramb ok ofmetnaðr, sá er hann fylltist upp af sínum ríkleika, hafði varla rúm í hans hjarta. Nú ferr svâ fram, unst kemr at lángaföstu, þá tekr Knútr til orða við Sigurð biskup: er þat svâ, er þú hefir kallat Ólaf konúng í vetr, eðr hversu fær þú sönnur á þínu máli, þar er hann er hvorki

ílendr, ok eigi er hann kórónaðr. Satt er þat, herra! kvað biskup, at hann er eigi hèr ílendr, ok eigi berr hann kórónu af gulli eðr silfri, heldr er hann kjörinn ok kórónaðr af hinum hæsta herra ok höfðíngja ok konúngi allra konúnga, enum allsvaldanda guði, til þess ríkis, valds ok stjórnar, sem hann er tilborinn, ok einum ætlat at stýra ríki undirgefnum lýð til náða ok nytsemda, ok gjalda guði makligan ávöxt sinnar þarkomu, mun allr lýðr í Noregi ok þar undirgefnum skattlöndum, ok eigi at eins þar, heldr jafnvel öll Norðrhálfan hafa eylífar menjar ok minníngar þessa stólpa ok styrktarmanns guðs kristni, er upp mun ræta þyrni klúngr ok allt illgresi or guðs akri ok víngarði, en sá þar niðr ístaðin frjóligu sáði heilagra guðs orða, hver frjóvast munu með fullkomnum ávexti, hverr at þekkr ok þægiligr mun verða hinum hæsta himna konúngi utan enda. Knútr konúngr mælti: mun þat nú eigi sannast, sem oss er flutt af yðr, herra biskup! at þèr kallið hann framar jarteignum skína enn oss, eðr enn heldr, ef þèr gerið svâ stóran mun, at þèr kallið oss öngvar jarteignir gera. Sannspurt hafi þèr þau vor orð, kvað biskup. Knútr konúngr mælti: fyrir lítit kemr mèr þá, at meinlæta mèr framar enn Ólafi, ef mik skal nokkura hluti skorta við hann, þvíat nú síðan lángafasta kom, hefir ek línlak, en eigi silkiskyrtu, skarlats kyrtil,

en eigi guðvef eðr purpura, ek drekk ok munngát, en eigi mjöð; en Ólafr hefir silkiskyrtu ok guðvefjar kyrtil, lætr hann sèr vanda krásir ok vínberill stendr á borði hans. Biskup mælti: satt er þat, herra! at Ólafr hefir silkiskyrtu, en þó hefir hann hárklæði undir skyrtunni, ok gjörð um sik svâ breiða, at hún tekr mjöðm ok herðarblað, en járn við neðan[1] ofvalt er Ólafr kemr í sæti, ok krásir koma fyrir hann mjök vandaðar; muntu sjá at þar er haugr nökkur, er hann er vanr at sitja, þar er þakiðr kryplíngr, hann etr krásir allar, en Ólafr etr sallt ok brauð, ok eitt ker með vatn, ok drekkr Ólafr þat, en eigi hefir hann meira drykk enn þann, er kryplíngrinn drekkr úr vínberlinum. Þá reiddist Knútr konúngr Sigurði biskupi svâ mjök, at Ólafr konúngr mátti eigi viðhaldast fyrir sakir öfundar Knúts konúngs, ok litlu síðar Sigurðr biskup.

*Frá Ólafi konúngi.*

Nú er frá því at segja, at Ólafr konúngr hèlt liði sínu til Fetlafjarðar, þeir runnu þar á land, þar var hèrað eitt byggt ok á milli merkr stórar ok skipalægis; þeir Ólafr konúngr hugðu, at vera mundi meira hèrað fyrir ofan mörkina, ok þángat herjuðu þeir, ok er þeim þótti hèraðit undandragast, hurfu þeir aptr til skipa sinna, ok er (þeir) svipuðust at, sá þeir at Ólafr konúngr var í brottu einnsaman, sökuð-

[1]) afer, *þikir ofaukið é F.*

ust nú um fast ok gerist nú mikill harmr í herinum. Nú er frá Ólafi konúngi at segja, at eptir er hann er fráskila vorðinn sínum mönnum, hittir hann bygð stóra; ok er hèraðsmenn sá hann, sýnist þeim sem hann hafi með sèr her úvígan, ok hann muni alla þeirra bygð uppeyða, ef eigi verðr þat ráð tekit at dugi; safnast nú saman hèraðs höfðíngjar, ok fara á mót honum, ok bjóða honum sigrgjald, sem hann vill á þá lagt hafa; síðan ákveðr Ólafr konúngr svâ mikit kvikfè, gull ok brent silfr, sem hann vill hafa, ok síðan eru menn tilfengnir at flytja þetta góts til strandar fyrir Ólaf konúng, ok fylgir (konúngr) þeim sjálfr, ok rekr fyrir sèr menn ok kvikfè; ok er menn hans sjá hann, hvar hann ríðr af landi ofan, verða þeir fegnari enn frá megi segja. En frá landsmönnum er þat at segja, at svâ sem þeir sjá hermenn marga fara í móti sèr brynjaða, en Ólaf konúng einnsaman reka þá með byrðum fyrir sèr hertekna, ok naut þeirra (ok) sauði, æpa þeir ok ýla ákafliga, ok hrífa upp í höfuð sèr ok reita sik. Ólafr konúngr hafði með sèr túlka, hvar sem hann fór; hann spurði þá eptir þessum illum látum; þeir segja honum, at þeir menn þikist orðnir fyrir sjónhverfíngum miklum, segja nú, at þeim sýndist óvígr her kominn at þeim, ok svâ bjartr at þeir þorðu eigi í gegn at vega; gerði hann þeim þá tvo kosti, annathvort at

vega í gegn honum, ef þeir þyrði, eðr færa þat til strandar, sem þeir færi með; en þeir kjöru at færa heldr fè til strandar. Konúngsmenn tóku nú við strandhöggum, en hinir hurfu aptr heim.

*Ólafr konúngr vann margýgi.*

Hina 14du upprás átti Ólafr konúngr út í Kallsár, þeir voru þá í för með honum, Þorkell jarl hinn háfi, ok Úlfr, son Þorgils sprakaleggs, þar herjuðu þeir á illgerðamenn heiðna nokkura stund. Þeir heiðíngjar blótuðu kappa tvo til fulltíngs sèr, þá er flestir urðu frá at hrökkva, ef á þá var heitit; þat var annat margýgr, ok lá hún stundum í Karlsám, en stundum var hún í sjó, hún saung svâ fagurt, at hún svæfði skipshafnir, ok er hún kendi fyrir sína náttúru, at menn allir voru sofnaðir, hvelfði hún skipunum, ok drekti svâ mönnum, en stundum æpti hún svâ hátt upp, at margir urðu at gjalti, ok hurfu fyrir þat aptr. Annat kvikendi var villigöltr, hann hafði marga manns aldra, engi maðr skyldi drepa grís af liði hans; hann var forkunnar mikill ok ákafliga grimmligr. Landsmönnum veitir nú lítt hernaðrinn, fá þeir jafnan í viðskiptum þeirra Ólafs konúngs stóran mannskaða með frekum fjárgjöldum ok vægðarlausum penínga upptektum; því taka heiðíngjar nú þat ráð, at kalla sèr til fulltíngs sína fulltrúa, margýgi ok galta, með hinum mesta blótskap ok fjandligri forneskju; ok þó

at úvinrinn vissi sik vanmáttugan, at geta nokkura mótstöðu haft við svâ ágætan guðs riddara, sem var hinn heilagi Ólafr konúngr Haraldsson, þá vill hann þó víst eigi daufheyrast við eyrindi ok ákall sinna kumpána, þikist þat ok sjá, at þessi Ólafr mun honum vinna úbættan skaða í niðran ok niðrbroti sinnar fáganar; því byrjar hann svâ sinn kyndugskap, at einhvern tíma þá er Ólafr konúngr ok hans menn lágu til byrjar í Karlsám, heyrðu þeir at uppkom svâ fögur raust með saunghljóðum, at aldri heyrðu þeir á sína daga þessháttar hljóð fyrr með svâ sætum són ok undarligum ym, at innan lítils tíma fellr svefn at þeim svâ ákaft, at þeir geta víst eigi fyrir sèr vöku haldit. Konúngr sitr í lyptíng á skipi sínu, ok les á bók sína; ok er menn allir voru sofnaðir, sèr konúngr, hvar margýgr kemr upp, hún er svâ sköpuð, at á henni er höfuð svâ skapat sem á hrossi með standandi eyrum ok opnum nösum, hún hefir græn augu, ákafliga stór, ok kjapta gífrliga stóra, hún hefir bógu sem ross ok framskapat sem hendr, en aptr sköpuð at öllu sem ormr, með lykkju ákafliga mikilli ok breiðum sporði; drekkir hún svâ mönnum ok skipum, at hún setr hendurnar upp á annat borðit, en bregðr sporðinum niðr undir skipit ok uppá borðit öðrumegin, ok hvelfir svâ skipinu, at hún ríðr um þveran kjölinn, ok steypist svâ í kaf; hún er

loðin sem selr ok grá at lit. Margýgr kann sína náttúru, at þegar hún veit at menn eru sofnaðir, hefir hún sik at skipi Ólafs konúngs, ok með krapti úvinarins getr hún uppkomit höndunum á borðit; ok er Ólafr konúngr sèr þat, grípr hann sverðit Hneiti, ok hleypr fram eptir skipinu, ok er þat allt jafnfram, at margýgr hefir þá uppkomit sporðinum öðrumegin á borðit, konúngr höggr þá hendr af margýg, en hún kveðr við svâ hátt ok öskrliga, at slík læti þóttist konúngrinn eigi heyrt hafa; hún slöngvir sèr þá þvert á bak aptr, ok slær í sundr kjöptunum, ok beinir svâ raustina. Konúngsmenn vakna nú á skipunum, ok þikjast eigi vita, hvat um èr, bregðr nú mörgum mjök við þessi læti; konúngr biðr þá hlífa sèr með marki hins heilaga kross; ok með guðs fulltíngi ok bænum Ólafs konúngs fèkk hann svâ umgengit, at honum ok hans mönnum varð þessi úvættr ekki at skaða, sökk hún síðan þar niðr, sem hún var komin, ok varð at henni þar ekki mein síðan.

*Ólafr konúngr drap göltinn á skóginum.*

Nú renna þeir á land upp, ok fá mikils fjár; Ólafr konúngr lætr þar brjóta blóthaug þeirra heiðíngja, en því var hann svâ kallaðr, at jafnan, er þeir höfðu stórblót til árs sèr eðr friðar, skyldu allir fara á þenna haug, ok blóta þar fyrrsögðum kvikendum, ok báru þángat mikit fè ok lögðu í hauginn, áðr þeir gengu frá; Ólafr

konúngr fèkk þar ógrynni fjár; fara til skips með þenna fjárhlut, konúngr reið seinast, ok litaðist jafnan um, ef hann sæi nokkura nýlundu; menn hans berr bráðla undan; ok er Ólafr konúngr sèr þat, ríðr hann af út í rjóðr nokkut, ok hugði at ráðum, hvórt hann skyldi aptr hverfa eðr eigi, þá heyrði konúngr braukán mikla í skóginn alla vega frá sèr, þá rennr þar galti með lið sitt, ok þekr allt rjóðrit; galti ferr rítandi ok emjandi með illum látum ok gapanda gini, hann var svâ stór, at konúngr þóttist þesshàttar kvikendi ekki fyrr slíkt sèð hafa, þvíat hans bust næfði náliga við limar uppi hinna hæstu trjá í skóginum; konúngr hopaði þá hestinum, ok forðaði fótum sínum; en galti gæddi þá ferðina, ok lagði upp ranann ok tennrnar á söðultreyju konúngs, þá bregðr konúngr sverði sínu, ok höggr ranann af galta, ok fellr hann niðr í söðulinn; galti kvað við ógrliga, ok snèri undan, ok vildi eigi bíða höggsins annars, en þó sagði Ólafr konúngr svâ, at hann þóttist galta viðkvöð ámâtligust heyrt hafa annat enn margýgjar, ok þá mesta mannraun ok hugraun sýnt hafa, er hann átti höggvaskipti við þessi kvikendi; síðan kallaði Ólafr konúngr sverð sitt Hneiti, er áðr hèt Bæsíngr; nú hefir hann rana af galta ok tennr, ríðr hann með þetta til skipa, ok var síðan mjök lofat þetta þrekvirki Ólafs konúngs.

*B*[1].

Þaðan fór Ólafr konúngr til Englands, ok átti hinn 16da bardaga í Auðafurðu, ok hafði sigr; hina 17du orrostu átti hann vestarliga á landinu!, í þeim stað er á Vallandi heitir; þaðan fór Ólafr konúngr í Austrvøg, ok hafði markað við heiðit land; þar var á því landi spákona sú, er sagði fyrir orlög manna ok líf; förunautum konúngs þótti gott við hana at tala; þeir spyrja konúng, ef hann vildi gánga til frèttar við hana; hann lèzt þat eigi vilja; þá spyrja þeir, ef konúngr vildi leyfa þeim at spyrja hana nokkut eptir hans forlögum, en hann kveðst þar eigi banna mega. Þeir fara til móts við völvuna, ok spyrja hana, ef hún hefði nökkut hugat at um Ólaf konúng, hversu lánglífr hann mundi verða. Hún mælti: þar standa yfir æfi hans ógnar geislar, þeir er mèr er eigi lofat þángat at sjá, en svâ skulu þèr segja konúngi yðrum, segir hún, at hann mun eitt mismæli mæla á allri æfi sinni, ok láta samdægris lífit.

*Ólafr konúngr gerði Konúngssund, ok kom svâ í brott.*

Ólafr konúngr átti hina 18du orrostu í Svíþjóð, ok urðu þar margar atlögur. Ólafr konúngr hèlt skipum sínum inní Mar, en Svíar söfnuðu her miklum ok lágu fyrir utan um þvera höfnina á herskipum, ok ætluðu þess at

[1]) *Eptir* 37 *kap. í A, bætir F inni* 2 *fylgjandi kap.*

bíða, at skip Ólafs konúngs frèri þar í hafninni, ok þótti sem sèr mundi þá auðveldt at vinna skipin ok drepa mannfólkit, ef öllumegin mætti at þeim sækja. Ólafr konúngr lèt þá veita umbúð nökkura, hann lèt menn sína fara á land upp, þeir feldu viðu stóra; ok áðr enn frjósa tók, lèt hann gera fleka stóra af viðinum alla vega út í frá skipunum, en þegar er sjórinn tók at kólna, þá tóku þeir bátana ok hræðu flekana, ok gerðu á elda stóra, svâ aldri mátti frjósa at skipum þeirra um vetrinn. En um vârit, er Svíar höfðu liðsdrátt mikinn, ok ætluðu at berjast við Ólaf, ok taka hann af lífi, ok er hann spurði þessa fyrirætlan Svía, sèr hann, at hann hefir (eigi) liðskost til at deila af kappi við allan Svía her, því fellr hann fram til bænar, ok biðr þann fulltíngs ok styrks til brottkomu or þessum lífsháska, er allt gott má, sem er einn ok almáttigr, allsvaldandi guð, sèr ok sínum mönnum; ok er hann hefir endaða sína bæn, biðr hann menn sína vinda segl upp, ok sigldu at nesi því, er gengr af Agnafit, ok er konúngr kemr þar, spríngr jörðin í sundr allt til sjófar með svâ miklum stórmerkjum, at þessi skurðr er á einu augabragði svâ breiðr ok djúpr, at þar mátti vel skipum halda; þat heitir síðan Konúngssund, en Stokkhólmr þat er af sprakk milli ósminnis ok Konúngssunds; sigldi hann svâ vestr til Englands með miklum sigri, ok var með Þorkatli jarli um vetrinn. Um

sumarit eptir fara þeir Úlfr jarl ok Þorkell hási með Ólafi konúngi í vestrvíkíng ok til Írlands, ok fara á land, ok er sú talin hin 19da orrosta Ólafs konúngs, ok fá mikils fjár; þar fjaraði uppi skip þeirra; nú sjá þeir, at Írar sækja af landi ofan með miklu fjölmenni; ok er Ólafr konúngr sèr þat, er svâ sagt, at þá hafi hann heitit, at hann skyldi aldri framhöggva í hernaði sverði nè öxi nökkurum manni til skaða; við þetta heit skipaðist svâ fljótt, at þegar samstundis flutu skip Ólafs konúngs, en hans úvinir týndust, ok fèllu í þá gröf, er þeir höfðu honúm ætlat; sigla þá til Englands, ok voru þar allir um vetrinn.

## C[1].

*Ólafr konúngr fór í móti Sveini jarli.*

En er Ólafr konúngr spyrr liðsöfnuð Sveins jarls ok Einars Þambaskelfis um allan Noreg, ferr hann á fund Sigurðar konúngs sýrs, mágs síns, ok segir honum liðsöfnuð þeirra Sveins jarls: munu þeir ætla, segir hann, at brenna skip mín ok drepa lið mitt, ok eigna sèr síðan land allt; en þó at fundr vor sè úviðrkvæmiligr at missera tali, þvíat nú er ofarla á lángaföstu, þá mun ek þó eigi nenna öðru enn fara í móti þeim, hvat sem í kann at gjörast, ok vil ek, mágr! at þú sèr í för með mèr. Sigurðr konúngr svarar: eigi mun meira lið mèr fylgja

---

1) *F bætir þessu stykki inní 54 kap. í A, eptir orðin, blaðs.* 95: ok lagðist við Grenjar með herinn.

enn svå, at mèr þikir von, at ek muna búinn með mitt lið, þá er þèr villð farit hafa. Þeir fara nú með þat lið, er Sigurðr konúngr fèkk, til móts við meginherinn, þeir höfðu alls 20 lángskip ok 2 skeiðr ok 2 knörru, er Ólafr konúngr kom í land með.

*D*[1].

En er Ólafr konúngr sá þat, at hann náði eigi frestun, lèt hann fylkja liði sínu, svå at samteingð voru 20 skip fyrir Nesjum, en sín skeið í hvorn arm, en knerrirnir lágu yztir, ok sund breitt á millum ok skeiðanna. Sveinn jarl hafði hálfan fimta tög skipa; en er þeir sá viðrbúnað Ólafs konúngs mælti Einar Þambaskelfir: sjáið þar fylkíng konúngs, ok má hana kalla ekki þykkva, en eigi kemr mèr þat á úvart, þóat raninn verði harðsóttr á fylkíng hans, áðr enn sól gengr í ægi í kveld, en rúm er þèr ætlat, jarl! í hvorum fylkíngararmi, er þú vill. Ef ek neyti þess rúms, kvað jarl, þá muntu fara með mèr? Engi er þess von, kvað Einar, at mitt skip fari or teingslum ok í skipaflota konúngs, at berjast við hann nauðgan, þvíat ek sè, at honum er ekki um at berjast í dag, þóat hann vill eigi vanbúinn vera við þèr ok mönnum þínum. Eigi fann ek þat fyrr, kvað jarl, at þèr yrði hugfátt. Kalla þat, sem þú vill,

---

[1]) *F bætir þessu stykki inni* 55 *Kap. í A, eptir orðin á blaðsíðu* 97: ok bjuggust vel um.

kvað Einar, enda má vera, jarl! at þèr sè gæfufátt, ef mèr er hugfátt. Eigi mun þat, kvað jarl, þvíat vèr munum gera skothríð harða. Einar mælti: eigi er jafnkomit á um vitsmuni með ykkr Ólafi konúngi; ráð eru tvö fyrir hendi, ok hefir konúngr bæði, en þú hvorki; þat er ráð annat, at þyrma hátíð, ok gera þeir svâ; en annat, at hlífa sèr ok varðveita skeyti, sem ek hygg at þeir muni gera, ok mun hörð hríð sú, er þeir senda aptr skeytin, þóat þú sjáir eigi við því. Svâ gekk, sem Einar gat. Nú búast þeir Sveinn jarl til bardaga, ok gera harða skothríð, en Ólafr konúngr ok hans menn hlífa sèr, ok geyma skotvopn öll, ok gekk því lángt fram á dag; en er því linnti, þá greiða þeir atróðr sinn.

*E*[1].

Þá er Ólafr konúngr hafði undir sik lagit þat ríki, er þeir 5 konúngar höfðu haft áðr, ok aðrir 6, þeir er Styrmir reiknar í sinni bók; svâ segir Sighvatr:

Upplönd fèkk (til) enda
os neista ok þar reisti
kristnihald þat er hèldu
hverr veitir sverðs beita;
áðr stýrðu því eyðar
ellifu fyrr hella

[1]) *I stað þessara orða í kap.* 73 *í A blaðs.* 152: Olafr konúngr lagði þá undir sik allt þat ríkí, er þessir 5 konúngar höfðu átt, tók hann þá gislar af mönnum ok bóndum, *hefir F þetta stykki.*

mildíngs máls en guldu
menn vísliga gísla.

tók konúngr þá gisla af lendum mönnum ok bóndum.

*F*[1].

*Óðin kom til Ólafs konúngs með dul ok prettum.*

Litlu síðar enn Ólafr konúngr hafði fengit Ástríðar, dóttur Ólafs Svía konúngs, fór hann at heimboðum um landit, ok var á veizlu í Víkinni, þá kom einn maðr ókunnr til hans, ok gekk fyrir konúng, ok kvaddi hann; konúngr tók honum, ok spurði hann at nafni; en hann nefndist Gestr, ok beiddist at dveljast með hirðinni; en konúngr hafði þar fátt um, en skipaði honum at sitja utar frá gestum; gekk hann þar til sætis, ok var heldr úþýðr ok stikkinn, ok þó uppvöðslu mikill; hann var stuttklæddr, ok hafði síðan hatt niðr fyrir andlitit, ok sá ógerla ásjónu hans; skeggjaðr var hann. Konúngr bað menn vera fáskiptna við kvomumanninn; ok um kveldit, er konúngr gekk til sængr, lèt konúngr kalla Gest, ok spurði, ef hann kynni nokkut skemta; en hann var bæði fróðr ok djarfmæltr; varð þeim þá talat mart til hinna fyrri konúnga, er verit höfðu, ok þeirra framaverka. Gestr spurði konúng: hverr vildir þú, herra! helzt fornkonúngr verit, ef þú ættir um þat at kjósa? Konúngr svarar: ek vildi engi heiðinn maðr vera, hvorki konúngr nè

[1]) *Milli* 88 *og* 89 *Kap. í A bætir F inní þessu stykki.*

annar maðr. Gestr mælti: þat er ljóst, at þú munt ekki annar maðr vera enn þú ert; en at hinu spyr ek, hverjum þú vildir líkastr fornkonúngi vera, ef þú skyldir nökkurum. Nú er enn sem áðr, segir konúngr, at ek vilda öngum fornkonúngi líkr vera, en ef (ek) skylda nokkut þar um tala, þá vilda ek helzt hafa atferð ok höfðíngskap Hrólfs kraka, þess þó, at ek hèlda allri kristni ok trú minni. Gestr mælti: hví vildir þú helzt vera sem Hrólfr kraki, sem ekki at manni mátti heita, hjá því sem annar konúngr, sá er verit hefir? eðr hví vildir þú eigi vera sem sá konúngr, er sigr hafði við hvern sem hann átti bardaga, ok svâ var vænn ok vel at íþróttum búinn, at engi var hans líki á Norðrlöndum, ok svâ mátti öðrum sigr gefa í sóknum sem sjálfum sèr, ok svâ kríngr skáldskapr, sem öðrum mönnum mál sitt. Konúngr sezt þá upp, ok tók til tíðabókar, er var í sænginni, ok ætlaði at slá í höfuð Gesti, ok mælti: þú vilda ek sízt vera, hinn illi Óðinn! Segja menn þá svâ verða við Gest, at hann færi þar niðr, sem hann var kominn; þóttist konúngrinn þá víst vita, hverr verit hafði, galt hann þá margfaldt lòf guði fyrir þat at sjá óhreini andi, er sýndist í líkíng hins illa Óðins, gat önga þá vèl eðr tál framsett, at nokkurn skugga eðr sorta drægi á hit bjartasta blóm hans heilagrar trúar.

## G[1].

### *Er Óttar hafði verit með Ólafi Svíakonúngi.*

Óttarr svarti hafði lengi verit með Svíakonúngi, hann hafði ort mannsaungs drápu um Astríði, dóttur Ólafs Svíakonúngs, þat mislíkaði Ólafi konúngi Haraldssyni, [þvíat kvæðit var mjök kveðit, svâ at hèlt við væníngar[2]; en er Óttarr kom til Noregs, lèt Ólafr konúngr taka hann ok setja í myrkvastofu. Sighvatr skáld var [náfrændi Óttars ok[3] vinr hans mikill; Sighvatr fór um nótt til myrkvastofunnar at finna Óttar, ok spurði hversu honum líkaði; Óttarr kveðst verit hafa kátari; Sighvatr bað hann kveða sèr kvæðit, er hann hafði ort um Ástríði drottníngu; Óttarr gerði svâ. Þá mælti Sighvatr: mjök er kvæðit kveðit, ok er eigi undarligt at konúnginum líki eigi vel kvæðit: nú skulum við snúa vísum þeim, er [næst eru kveðnar[4] í kvæðinu, en síðan skaltu yrkja annat kvæði um konúnginn; konúngr mun vilja heyra þat, er ort er um drottníngu áðrenn þú ert

---

[1]) *I Kap.* 109 *í A, eptir orðin á blasíðu* 250: beiddist at gánga á hönd Olafi konúngi, *bætir L inní eptirfylgjandi* 3 *Kap.*; *F hefir byrjun seinasta Kap. eptir* 85 *Kap.*, *og í Viðbætirnum, sem seinna kemr eptir Styrmi presti fróða, þaraðauki alla* 3 *kapítulana, að undantekinni vís.*: Hlýð manngöfugr minni; *en sú kap. sem hèr er seinastr, stendr þar í niðurlagi* 5 *kap. viðbætirsins, næst á undan hinum* 2, *sem hèr eru fyrri*; *en H ok K hafa þá* 2 *fyrstu kap. þar sem L, en seinasta kap. eptir* 118 *Kap. í A, vantar þó seinustu vís. í H.* [2]) þvíat honum þótti mjök ávikit í kvæðinu, at honum líkaði vel til drottníngar, *H.* [3]) *v. í F.* [4]) mest eru ákveðin orð, *F*; mest eru kveðnar, *H.*

drepinn; en þegar úti er drápan, þá skaltu hefja upp þat kvæði, er þú hefir ort um konúnginn, ok kveða á meðan þú mátt. Óttarr gerði sem Sighvatr kendi ráð til, hann orti drápu um Ólaf konúng á þeim 3 nóttum, er hann var í myrkvastofunni. Eptir þat lèt Ólafr konúngr leiða Óttar á sinn fund; hann kvaddi konúng, en konúngr tók eigi kveðju hans, heldr mælti hann til Óttars: þat er nú ráð, Óttarr! at þú látir heyra kvæði þat, er þú hefir ort um Ástríði drottníngu, þvíat hún skal nú heyra hróðr sinn. Ástríðr sat á aðra hönd konúnginum. Óttarr settist niðr fyrir fætr konúnginum, á meðan hann færði kvæðit, en konúngr roðnaði við, en er lokit var kvæðinu, þá lèt hann eigi dvína kveðandina, ok hóf þegar upp drápuna, þá er hann hafði ort um konúnginn, [ ok er þetta upphaf:

Hlýð mann göfugr minni
myrk báls þvíat ek kann yrkja
finnum yðr ok annann
alvaldr konúng fallinn;
þat tel ek grams ok gauta
glað sistanda mistag
döglíngs verk at dýrka
dýr-þengill mik lengi[1].

Þá kölluðu hirðmenn ok mæltu, at Óttarr[2] skyldi þegja. Sighvatr mælti: þat er öllum auðsýnt, at konúngr má gjöra af ráði Óttars þat sem

[1]) *v. í F, H.* [2]) flimberinn, *F.*

hann vill, þóat hann kveði út kvæði þetta, en oss er gott at heyra lof konúngs vors; hirðmenn þögnuðu, en Óttarr kvað drápuna. Konúngr þagði á meðan Óttarr flutti kvæðit; en er lokit var, þá lofaði Sighvatr mjök kvæðit. Þá mælti konúngr: þat mun bezt, Óttarr! at þú þiggir höfuð þitt fyrir drápuna. Óttarr svaraði: sú gjöf þikir mèr góð, þóat höfuðit sè eigi fagrt. Konúngr dró gullhríng af hendi sèr ok gaf Óttari. Astríðr rendi fíngrgulli [af hendi sèr ok gaf Óttari[1]; þá mælti konúngr við hana: [skaltu lengi halda á vingjöfum[2] við Óttar? Ástríðr svaraði: eigi munu þèr kunna mik um þetta, herra! þóat ek vilja launa mitt lof sem þú þitt. Konúngr mælti: [svâ skal vera[3]. Óttarr var lengi með konúnginum í góðri virðíng; sjá drápa hèt Höfuðlausn, er Óttarr orti um Ólaf konúng. [Þenna vetr hinn næsta áðr hafði andazt Ólafr konúngr hinn svenski[4].

Nú er þeir Sighvatr ok Óttarr höfðu lengi verit með Ólafi konúngi, þá voru þeir eigi jafnmikils metnir, sem verit hafði; þat var einn dag at konúngr sendi þeim hnetr af borði sínu, þá kvað Sighvatr vísu:

---

1) á gólfit til Ottars ok mælti: taktu, skáld! gneista þann ok eig, *F*, *H*. 2) Var svo, at þú mættir eigi alls bindast at sýna þitt vinfengi, *F*. 3) svo skal nú ok vera í þessu sinni, at ek skal þèr eigi sakir fyrir gefa þessa fjárgjöf, en svo megu þið þó tilætla, at mèr mun lítilgæft vera um vinfengi ykkat hèðan í frá, af þeim [skáldskap er Ottarr hefir ort um þik, *F*. 4) *v. í F*.

Sendi mèr hinn mæri,
mann þengill sjá drengi,
síðan mun ek heldr at hróðri,
hnetr[1] þjóðkonúngr, letjast[2];
opt, en okkr bað skipta
Óttar í tvâ[3], drottinn,
enda mál, sem mundum,
manndjarfr, föðurarfi.

Þá kvað Óttarr aðra vísu:

Hnetr sendi mèr handan,
[handleggjar, týr[4] branda,
ár var [ þat er[5] ek man meiri
mín þíng jöfri[6], híngat;
mjór er, markar stjóri
meir, sjákk[7] þar[8] til fleira,
viðráttu[9] oss í öðru
Íslands, mikils vísir.

konúngr brosti at vísunni, er þeir höfðu kveðit.

[Ólafr konúngr veitti þá virðíng Sighvati skáldi, at hann hèlt[10] dóttur hans undir skírn, þá kvað Sighvatr:

1) hnytr, *H.* 2) snytrast, *F*, snytjast, *H.* 3) tvö, *H.* 4) hranndáðr arm, *F*, *H.* 5) þá, *F.* 6) konúngr, *H.* 7) sám, *F* 8) þat, *H.* 9) niðrattu, *F*, *H.* 10) Sighvatr skáld var þá með Olafi konúngi í góðu yfirlæti, svâ at þat er sannligast sagt, at engi einn maðr, eigi meiriháttar, hafi fengit meira heimmolleika ok vináttu af Olafi konúngi enn hann, sem optsinnis hefir raun á orðit, sem eitt æfintýr skal afsegja; þat bar til, at Sighvatr skáld gat barn með einni konu, þat var mær, ok er svà sagt, at Olafr konúngr ok Astríðr drottníng veittu svâ mikla virðíng Sighvati, at þau hèldu *o. s. frv. H.*

Drottinn hjálptu þeim, er dóttur,
dýr er þinn vili skýri[1],
heim úr heiðnum dómi
hóf ok nafn gaf Tófu;
hèlt und vottr[2] hinn vitri,
varð ek þeirra[3] feginn harða[4]
morni, mínu barni
móðrakkr Haralds bróðir.

Þat var sagt at (þat) var einhvern dag, at Sighvatr skáld sagði Ólafi konúngi frá því at hann var á vist út á Íslandi með þeim manni er Karli hèt[5], hann var lítill bóndi, en honum þótti Sighvatr vilja lítit vinna. Þat var einn dag, sagði Sighvatr, at ek tók konu Karla, ok fór ek með hana í einn helli[6], ok þaðan sá ek yfir bygðina Karla, þá kvað ek vísu þessa:

Hèðan sè ek reyk[7], er rjúka
rönn[8] yfir[9] fiskimönnum,
stór eru [skjaldr um skorar[10]
skelli brögð í[11] helli;
nú [frýr at[12] mèr nýrrar,
nenníngar[13] dag þenna
hliti ek fyrir hvítan
harmstraums[14] dögurð naumu[15].

1) minni, *Fa*, *H*; vinni, *Fb*; *ofaukið í L.* 2) vatn, *H.* 3) þeim, *Fa*, *Fb*, H. 4) harðla, *H.* 5) hann átti konu únga ok þrifliga, *b. v. H.* 6) ok þar sátum við ok lèkum okkr, *b. v. H.* 7) reyk þann, *F. H.* 8) *skrifast* hraunn, *L*; ravnn, *H*, 9) af, *H.* 10) skálds um skærar; *F*; skálds skærur, *H.* 11) or, *F*, *H.* 12) fryrrar, *H.* 13) *eða* nynníngar, *L.* 14) hornstraums, *F*; horn-straum, *H.* 15) *þannig*, *F*, *H*; námu, *L.*

Konúngr brosti at, ok mælti til Sighvats:

Segi þat Karla,
er hann[1] kemr híngat,
nýtum þegni
fyrir norðan haf:
at fleira skal
í förum vinna,
enn hylda hval
hvössum knífi.

Þat segja sumir menn, at Ólafr konúngr hafi ort um Íngibjörgu Finnsdóttur vísu þessa:

Nær er sem upp úr eisu[2],
innar [lít ek til kvinna[2],
snót hver er svå mjök láti
segðu mèr! loga bregði;
mik hefir máli[3] sýknin[4]
mest á skömmu fresti,
gekk ek um gólf at drekka
gramr, ok brattir hamrar.

*H*[5].

[Síðan fór Ólafr konúngr allt til fjalls, ok er hann fór yfir fjallit gjörði kuldaveðr, konúngr reið, en flest allt liðit gekk; Sighvatr skáld var þá með konúngi, ok gekk nær honum, Sighvatr þóttist sjá, at konúngi gjörði kalt, ok

---

[1]) *v. í F.* [2]) *gleymt í L.* [3]) mála, *F.* [4]) *þannig F;* sýkum, *L.* [5]) *Milli* 117 *og* 118 *kap. í A bætir L þessu stykki inní, líka K, at vísunni undanskilinni; F hefir það fyrst (Fa) eptir* 85 *kap. í A, og síðan (Fb) í byrjun* 6*ta kap. viðbætirsins eptir Styrmi, og er þar L að mestu samhljóða, eins og H, sem hefir stykki þetta á undan* 119 *kap. í A.*

mælti: herra! sagði hann, látið mik ríða, þvíat ek mun eigi komast af fjallinu, ef ek geng; svâ skal vera, skáld! sagði konúngr, ok stè af baki; þat vilda ek nú, herra! at þèr færuð í kápu mína; konúngr gjörði svâ, ok gekk um hríð; ok er Sighvatr vissi, at konúngi gjörði heitt, þá mælti hann: nú tekr mik at kala, ok vil ek nú gjarna gánga, en ek vilda at þèr riðið ok reiddið loðkápuna, þvíat ek komumst hvergi, ef ek geng í henni. Konúngr kvað svâ vera skyldu, sem hann vildi, ok reið hann í loðkápunni um daginn; [konúngr lètti eigi ferð sinni, furr enn hann kom í Þrándheim ok allt til Niðaróss, ok bjó þar til vetrsetu, ok sat þar um vetrinn[1]. [Þat var einhverju sinni at Sig-

[1]) Svo er sagt, at Sigvatr skáld var lengstum með Olafi konúngi, meðan þeir voru á lífi báðir; ok einhverju sinni bar svo til förum þeirra Olafs konúngs, at þeir höfðu farit um Dofrafjall, en þat var um vetr, ok var þar Sigvatr þá, ok þar tók þá snæfall mikit, ok gjörðist ill færðin, ok var mjöllin svâ djúp, at hrossin fengu eigi vaðit, ok fóru menn á fæti, ok vildu þó leita af fjallinu. Ok nú bar svo til, er áleið daginn ok dymma tók, at þeir urðu 2 saman Olafr konúngr ok Sigvatr, ok hafði hann yfir sèr feld grán; ok er þeir sóttu af fjallinu ok færðin batnaði, þóttist Sighvatr finna á, at konúnginum svalaði mjök, þvíat honum hafði orðit ákafliga heitt um daginn. Þá mælti Sighvatr við konúnginn, ok kveðst mæðast taka mjök undir feldinum af hita ok erfiði, ok lèzt eigi mega bera hann lengr eptir sèr. Konúngrinn bað hann selja sèr feldinn, ok mundi hann bera, ok nú gerðu þeir svo, ok fóru þeir svo um hríð, ok tók konúngi at orna undir feldinum Ok þá koma þeir at bæ nokkrum, þá mælti Sighvatr: eigi er þat minnr, at mik tekr nú at kala, er mèr var heitt fyrir stundu. Er svâ nú, skáld!

hvatr þóttist eiga nauðsynja erindi at tala við konúnginn, en þá var svâ mikil þraung af fjölmenni hjá konúnginum, at Sighvatr náði eigi máli konúngs; Sighvatr kvað þá vísu[1]:

þraungvist eir[2] um úngan
ítrmenni[3] gram þennan,
bægist öld, svâ at eigi
Ólafs náig máli;
mèr varð[4] orð at orum
audsótt frömum drottni,
þá er óðum mjök móðir
mjöll á[5] Dofrafjöllum[6]

Konúngr svarar, er hann heyrði vísuna: ok enn skal þèr auðveldt vera, skáld! at tala við mik, ef þú vilt; síðan skildi konúngr erindi Sighvats svâ at honum líkaði vel.

## I.

## *Af búníngi Steins*[7].

Steinn var með Knúti konúngi um hríð, ok

---

segir konúngr; eigi þiki mèr skipta, þótt ek bera klæði þín allt til bæjarins, ok sè ek nú bragð þitt; ok nú fara þeir til bæjarins, ok þá sagði Olafr konúngr: vel kanntu at vera með tignum mönnum, Sighvatr! *Fa*; *frá síðara* [ *v í Fb*, *H.*

1) Sighvatr skáld minntist þessa, þá er hann kom af Islandi, ok var nýkominn við land þar er konúngrinn Olafr var fyrir, ok var hann á móti nokkuru fjölmennu, ok var þraungt mjök um konúnginn öllu megin af fólkinu, en Sighvatr vildi fyrir hvörn mun hitta konúnginn sem fyrst, ok ferr hann til mótsins, ok borast fram á milli manna, ok fær eigi komizt allt fyrir konúnginn, ok kvað vísu svo hátt, at hann skyldi heyra mega, *Fa.* 2) *eða* er, *L*; ek, *Fa*, *H*; èr, *Fb.* 3) *eða* ítrmenninn. 4) var, *Fa.* 5) af, *Fb.* 6) Dofrafjalli, *Fa*, *Fb*, *H*, 7) *Eptir* 134 *kap. í A bætir L þessum kap. inní.*

var afburðar mikill maðr at vopnum ok klæðum, ok var hann þá kallaðr Steinn enn prúði. Svâ hafa sagt fornir fræðimenn, at Steinn gjörði svâ mikit of fors, at hann skipaði hest sinn með gull, ok bjó hófinn fyrir ofan. Knúti konúngi þótti hann keppast um skrautgirni við sik, ok því fór Steinn í braut frá honum; Steinn var í förum síðan, en þau urðu æfilok hans, at hann braut skip sitt við Jótlands síðu, ok komst einn á land; hann var þá enn skrautliga búinn, ok hafði mikit fè á sèr, ok var dasaðr mjök; kona nökkur fann hann, er fór með klæði til þvottar, hún hafði vífl í hendi, hann var máttlítill ok lá í bruki; hún sá at hann hafði mikit fè á sèr, síðan fór hún til, ok barði hann í hel með víflunni, ok myrti hann til fjár, af því er menn segja eða hyggja um, gafst honum svâ af ofmetnaði ok óhlýðni við Ólaf konúng.

## K.

## *Ólafr konúngr flutti mann yfir vatnit*[1].

Þat bar til einn hátíðardag at menn sóttu til tíða til Krists kirkju í Kaupáng, þá var engi brú á ánni Nið, ok er menn voru komnir at ánni, þá var ferjumaðrinn farinn til tíða, en fólkit beið við ána, ef ferjumaðrinn kynni í móti því at koma; ok svâ sem stund leið, sá fólkit róa mann á báti at móti þeim yfir ána,

[1]) *Eptir* 134 *kap. í A bætir H þessum kap. inní F hefir* hann nærst seinastan í viðbætirnum eptir Styrmi, eg heldr fáorðari; *K hefir hann eptir* 129 *kap. í A.*

sá maðr var í svörtum kufli, ok lèt síga kufls-hattinn fyrir andlitit, ok er hann kom at landi, fóru tíðamennirnir þegar útí bátinn, en kuflmaðr röri aptr yfir ána sem tíðast. Svâ segist at ein gömul kona fèlítil ok skynsöm var með tíðamönnum, ok er þau komu at landi, veik hin gamla kona at kuflmanni ok talaði við hann hljótt ok mælti svâ: mikit er yðvart lítillæti, herra! segir hún, er þèr róið einn-saman á báti yfir svâ mikit vatnfall, sem áin Nið er, móti óbreittum mönnum, ok flytið oss sjálfir yfir á þessa. Konúngr mælti: eigi vilda ek, kerlíng! at þèr mistið tíðanna, síðan þèr höfðuð góðfýsi til at sækja; en nú skal þat vera kaup með okkr, at þú skalt þetta segja öngum manni, meðan ek er á lífi, at ek hafi ferjat yðr yfir ána, en ek skal gefa þèr fim kýr. Kerlíng kvað svâ vera skyldu, ok þakkaði konúngi gjöfina, en engi maðr annarr enn kerlíng kendi konúnginn, sá er yfir var fluttr ána, efndi hún vel orð sín ok sagði þetta engum manni meðan konúngr lifði, en síðan birti hún þetta góðum mönnum.

### L[1].

### *Af göfugum manni Sigurði Ákasyni.*

Sigurðr hèt maðr göfugr í Danmörk, hann var son Áka Vagnssonar Ákasònar, hann fór eitt sumar til Vindlands[2] at afla sèr dýrgripa,

[1]) *Eptir* 153 *kap. í A, bætir L þessum kap. inní; í F er hann nokkut fjölorðari milli kap.* 88 *og* 89. [2]) *þannig hèr*; Vínlands, *L*.

ok hafði mikla sveit manna; ok er þeir kvomu norðan, ok ætluðu at verja fènu, bauð sá maðr at kaupa at honum, er Jón hèt, þeir voru þar kallaðir brakkarnir[1], er vær köllum túlka, ok er þeir höfðu varit fènu, mælti Jón: Sigurðr! sagði hann, þú skalt nú yfir sjá, hversu með er farit fè þínu; hann gekk til ok sá, ok þakkaði honum, ok hafði mikill ávöxtr í orðit, ok höfðu þeir margar gersimar fengit. Sigurðr bauð Jóni til sín, ok lèt honum heimilan sinn vinskap; Jón kveðst þat þiggja mundu. Hann átti frillu í afdal einum, ok var hún með feðr sínum; þat var einusinni, er Jón var þar kominn, ok þau voru í reykju komin, kom kall ógrligt yfir þau bónda ok húsfreyju, þat mælti svâ: gjaltu mèr skuld mína. Tvennar voru dyr á húsinu, ok horfðu aðrar til fjalls, en aðrar til fjöru, þar var kona í skinnkyrtli, ok lá hár á herðum niðri svart ok stórt sem tálknfannir; hún beiðir at hann gjaldi henni gestinn eða konuna[2]. Jón ljóp upp ok út ok ofan til sjófar, þar sem Sigurðr hefir tjaldat, ok heitr á hann til hjálpar, ok kvað tröll elta sik. Sigurðr sprettr upp, ok þrífr skjöld ok sverð, ok er hún þá komin, ok bíðr hans, ok biðr hann selja fram mannin; Sigurðr biðr hana alla fara í tröll hendr eptir sínu eðli; síðan brá hann sverðinu, ok

---

1) brokunarmenn, er þá sýslu hafa at kaupa með fjárhlutum manna, ok vilja þann veg fyrirtúlka, *F.* 2) þik sjálfan, *F.*

höggr til hennar, hún bregðr við skálminni, er hún hafði í hendinni, ok leggr til hans, hann veik sèr undan, ok (hjó) á mót öðru sinni ok af henni höndina, hún kvað við hátt, ok hljóp í braut, en hann eptir, þá snýst hún við honum, ok mælti: mikinn sigr hefir þú unnit, en á mun liggja nökkut, hèðan af skaltu aldregi sjá mega manns blóð ok vera aldregi í röskra manna tali, ok hristi at honum stúfinn; honum varð íllt við, ok skildu þau við svâ búit. Sigurðr kom heim í Danmörk, ok hafði fengit auð fjár, hann hafði mikit yfirlæti af Knúti hinum ríka, ok er hann var á veizlu ok sat hjá honum, þá mælti Alfífa við konúng: mikinn berst Sigurðr á, ok væri þat vel, ef hann væri nýtr til verks, en nú er minna um vert, er hann má eigi mannsblóð sjá; þetta vissi hún af fornum göldrum. Konúngr kvað þat eigi satt mundu. Hún svarar: gjör þá tilraun, herra! vek þèr blóð ok bregð voveifliga fyrir augu honum; hann gjörði svâ, ok er þeir sátu inni, brá Knútr konúngr blóðinu fyrir augu honum, er hann varði minnst; Sigurði brá mjök við, ok leitaði sèr ráðs at eigi yrði einmælt um; konúngr grunaði hann, ok var færra um með þeim enn áðr. Ok er Knútr konúngr fór í herför, þá var Sigurðr kvaddr til ferðar, síðan riðu þeir konúngr ok Sigurðr úti um einn dag, þá hleypr maðr eptir þeim, ok leggr til

Sigurðar með spjóti, ok fèll hann af baki. Konúngr varð óðr við, ok vildi drepa manninn, ok er Sigurðr raknaði við, vildi hann þat eigi. Um kveldit, er þeir kvomu heim, mælti Alfífa: eigi eru öruggir vinir þínir, ok eigi mundi svå farit hafa frændr hans, ok segir nú Knúti konúngi, hversu farit hafði með þeim tröllkonunni, eða hvat skulu yðr slíkir menn, er til einkis eru nýtir í herförum, þó af stórum ættum sè? Konúngr lagði á hann óvirðíng mikla. Sigurðr finnr þat, ok ferr á fund Ólafs konúngs, ok gekk fyrir hann, ok kveðr hann vel. Konúngr spurði, hverr hann væri; hann segir til sín; eigi var mèr þess von, sagði konúngr, at þú mundir hèr koma. Sigurðr sagði konúngi í hljóði allan atburð um atferli þat, er hann hafði fengit. Konúngr svarar: harmr er mikill um slíkan mann, ok undarligt þikki mèr, er Knútr konúngr lèt þik fyrir þessa sök á braut fara, ok skaltu hèr vera velkominn. Ok einhvern dag, er þeir Sigurðr ok konúngr voru í laugu, mælti konúngr: hvort þikkir þèr mikit mein á, er þú mátt eigi mannsblóð sjá? herra! segir hann, ekki þikkir mèr jafníllt á högum mínum sem þat; þá tók konúngr hárkníf, ok reist í lófa sèr krossmark, svå at dreyrði, ok mælti: vertu kátr, Sigurðr! ekki mun þèr mein at þessu verða heðan frá. Sigurðr kveðst aungum hlut jafnfeginn orðit hafa, ok aldri kom hann síð-

an í svâ stóra manns raun, er hann sagði, (at hugr hans bilaði), síðan hann hafði sèt blóð hins helga Ólafs konúngs; hann var síðan í góðu yfirlæti með Ólafi konúngi. Knútr konúngr sendi mann til hans, ok bauð honum mikinn sóma. Sigurðr kveðst hafa fengit sèr þat traust, er hann kveðst fyrir aungan mun láta vilja, kvað sèr til ójafns at gánga, er hann kom í vandann. Slíkar hafði Knútr konúngr sakir við Ólaf konúng.

*M*[1].

*Konúngr talaði við fiskikarl.*

Þá er Knútr konúngr hafði borit fè undir höfðíngja í Noregi, kemr einn maðr at Ólafi konúngi á fiskibáti, ok festi við stýrissteingur konúngsskipi. Ólafr spyrr, hverr hann væri. Ek er einn búkarl, kvað (hann), fundit eigi fyrr enn nú, þat hefir tilhaldit, at ek verðr at vinna fyrir ómegð minni, ek byggi 12 aura jörð, er þú átt, ok færi ek þèr landskyldir þær, sem á at gjalda. Konúngr mælti: hví kendir þú skip vor, ef engi sagði þèr? Karl mælti: sá er einn svâ hlutrinn, at ek hefir tekit mèr til íþrótta, vil ek af því þaðan hrósa, at ek vil byggja jörðina lengr, at hvert skip mun ek kenna, hvârt at þú átt eðr þínir menn. Ólafr konúngr mælti: vera muntu at fleira glöggþekkinn, en því muntu hrósa, at þú munt tíðindi þikjast kunna at (segja) af skipaförum. Hann svarar: ek sá menn fara á skipi prúða,

[1]) *Milli* 157 *og* 158 *kap. í A bætir F þessum* 3 *kap. inni.*

ok hljóða, ek hugða at því, af hverju er þeir (höfðu) mest þúngat skip sitt, en þat þótti mèr frásagnar vert, er ek sá, at þar voru töskur tvær, fullar gull ok silfr, fór ek síðan á brott; mánaði síðar fóru þeir hjá mèr kátir, þá hugða ek at, hvat til tíðenda væri fleira enn gleði þeirra, ek sá töskur hinar sömu, ok voru þá tómar, uggi ek at þar sè margir vondir orðnir af fögru fè. Eigi er þat ólíkligt, kvað konúngr, en nú skaltu eignast jörð ok fè fyrir sögu þína, ok kom á minn fund, ef þèr eyðast fè, en ef Knútr eðr synir hans ráða landi, þá vitja þú þeirra; þat hafði verit sendiskip Knúts konúngs í fyrra sinn at bera fè undir lenda menn, ok tóku þá þeir 6 við fènu, er nefndir eru í Ólafs sögu.

*Björn þiggr fè af mönnum Knúts.*

Tólf sendimenn Knúts konúngs, þeir er fè höfðu borit undir lenda menn, voru með Kálfi Árnasyni, þeir fóru um land, ok tóku af mönnum svardaga. Þeir spyrja Kálf, hvört þá muni þeir við fènu tekit, er Knúti konúngi væri mestr styrkr at. Kálfr kveðst þat víst heldr ætla; en eptir er enn einn, ok mun sá torfenginn, þvíat hann er ástvinr konúngs, en engi er honum fègjarnari, mun þar mestu verða til at verja, enda er ok mikit mannkaupit í. Sendimenn spurðu, hverr sá var? Kálfr segir, at þat var Björn stallari. Þeir fóru litlu eptir þetta frá Kálfi, ok komu bráðliga til Bjarnar; hann fagnar

þeim vel, ok setr þeirra foríngja sèr hit næsta; hann mælti til Bjarnar: vèr förum at hitta lendamenn, er Knútr konúngr telr sína menn nú vera, ok merkir hann þat annan veg, enn mönnum sè títt, hann lýsir fyrr örleik sinn ok gjaflyndi, enn hann viti vilja yðvarn, því sendi (hann) þèr fegursta fjárhluti, at honum þótti í þèr mest vinkaup, ok stærstu ríða um þína hollostu, en þó beiddist hann af yðr í móti gersimum sínum, at þèr festið honum trúnað yðvarn með svardögum, at þèr skulið eigi taka við Ólafi konúngi orrostulaust; hann berr þá fram einn kistil, ok tekr þar upp or 12 gullhrínga. Hann mælti: lofa ek konúng yðvarn, en lasta ek eigi, en seg nú, Björn! þat er ek spyr þik: hefir Ólafr konúngr gefit þèr svâ mikit fè allan þann tíma, er þú hefir honum þjónat, sem Knútr konúngr nú at sinni einn tíma, ok þó ósènum? Björn svarar: eigi mun ek kæra á Olaf um gjafalausi, þvíat mart hefir hann stórvel til mín gert. Björn geymir þá hríngana, ok heitr svardögum, býr þeim síðan veizlu. Ok er menn voru at veizlunni, gerðist Björn ókátr, ok leit jafnan niðr fyrir sik, ok er minnstar vonir voru, bað Björn menn sína uppstanda, ok taka sendimenn Knúts konúngs, ok festa á gálga, ok svâ var gert; nú vænti ek þess, kvað Björn, at þeir eigi öðru at hrósa, þá er þeir koma heim í helvíti, enn ek muni þat til fjár vinna, at svíkja svâ virðuligan lánardrottr

inn, sem ek á; ætla ek ok þetta fè svâ miklu betr komit í höndum ok hirzlu Ólafs konúngs enn þeirra vondra svikara, sem mèr færðu.

*Björn kom á fund Olafs konúngs.*

Björn býr nú ferð sína, ok ríðr á fund Ólafs konúngs, þar sem hann var, hann kemr at hallardyrum. En nú skal þar tiltaka, sem Ólafr konúngr var, er hann sat yfir borðum, ok bað menn ráða draum sinn. Þeir spurðu, hvat hann hafði dreymt. Hann svarar: þat bar fyrir mik, at mèr þótti bjarndýri gánga at hallardyrum, ok laust með hrammi sínum dyrvörðinn, ok gekk síðan inn í höll, ok færði mèr höfuð sitt, ok var dýrit mjök daprligt, ok í þeirri svipan beiddi Björn dyrvörðu inngaungu, dyrverðirnir vilja eigi lofa honum, ok fara fyrir dyrnar, Björn bregðr þá sverði, ok höggr dyrvörðinn banahögg, en annar tekr á rás undan; Björn gekk fyrir Ólaf, ok lagði höfuðit í knè honum, ok mælti: ek færi yðr höfuð mitt, herra! ok gerið af hvat er þèr vilið. Konúngr mælti: hví hefir þinn hagr svâ mjök spillzt, eðr hvert vandræði stendr þik? Björn svarar: íllt gerist í landi, herra! þvíat menn taka fè til at svíkja þik; Knútr konúngr hefir sent 12 menn með fègjöfum híngat í Noreg, til móts við lenda menn þína, ok gefit þeim fè til mótgángs; þeir komu ok til mín, ok færðu mèr 12 gullhrínga, ok eru þeir nú hèr, herra! þvíat mèr þótti þeir betr komnir yðr í höndum, enn þeim

vondum svikarum, er marga hafa blekt með sínum sviksamligum tálum ok fjandligum fortölum. Konúngr leit á fèð, ok mælti: bæði er nú, Björn! at Knútr setr fagran tálsigan fyrir yðr, enda verði þèr mjök veikir fyrir fènu ok óstyrkir, en fáir hafa nú um tíma til vor komit með slíkum eyrindum, at oss hafi fèð fært, en höfuð þitt, Björn! mun þar sæmst, sem nú er þat. Björn sagði konúngi þá, at hann hafði hengja (látit) alla sendimenn Knúts konúngs. Þá mælti Ólafr konúngr: þú hefir sýnt við mik mikla hollostu ok drengskap, ok þigg nú at mèr hrínga þessa. Björn þakkaði konúngi, sem vert var; síðan gekk hann til skripta við Sigurð biskup, ok hèlt alla tíma vináttu sína við Ólaf konúng, ok fèll með honum á Stiklastöðum, sem síðar mun sagt verða.

N[1].

*Ólafr fángaði Knúts menn.*

Þat gerðist til tíðinda, at konúngr gat áhent 3 sendimenn Knúts konúngs, er þar höfðu eptir verit, at skipta fè með lendum mönnum; hann neyðir þá til sagna; þeir sögðu 6 lenda menn við fè Knúts konúngs tekit, þá er áðr eru nefndir; Ólafr konúngr lèt þá í friði fara ómeidda á mót því sem hann hafði áðr gert við þá. Rögnvaldr jarl Brúsason var þá með Ólafi konúngi, hann spurði, hví at eigi skyldi drepa flugumenn; eru margir illir orðnir hèr

[1]) *Eptir* 161 *kap. í A bætir F inní þessum kap.*

í landi af þeirra orðum, er þú við þá eigi ódrápgjarn, er minna gera til saka. Ólafr mælti: ek hefi land þetta haldit eptir guðs lögum, þvíat þat eru guðs lög, at hegna ósiðu, en rasa eigi eptir reiði sinni; yðr þótti stirðr minn dómr um þat, er ek lèt drepa Þóri, ok því skal þetta nú vítislaust, er við mik er afgert, at ek á þat heimilt at fyrirgefa þat, væntir ek ok guð muni mèr þetta hirtíngarleysi eigi til sekta dæma; fóru Knúts menn þá heilir á brott.

*O*[1].

*Af ofmetnaði Knúts konúngs.*

Í þann tíma var svâ mikill ofmetnaðr Knúts konúngs hins ríka, at hann vildi eigi heyra, at nökkur konúngr væri honum jafn látinn á Norðrlöndum, þvíat þat sýnir í því, er eptir ferr. Svâ bar til vestr í Englandi, at tveir skjalegir menn ok fèlausir kvomu til hirðar Knúts konúngs, þeir voru úngir at aldri ok frumvaxta, annar danskr, en annar norrænn; þeir sátu í hálmi, þvíat þeir voru fátækir; en er þeir voru þar komnir, þá tók hinn danski til orða, ok mælti: þat er satt at segja, at hèr er gott at koma, svâ at ek hefir hvergi þess komit, er svâ mikla tign megi sjá, sem hèr er, ok víst er Knútr konúngr hirðprúðari ok húsprúðari enn aðrir konúngar. Annar sveinninn svarar: víst er

[1]) *Eptir* 177 *kap. í A bætir L þessum kap. inní*; *F hefir hann nokkut styttri framar eptir* 90 *kap. í A*; *en K og H hafa hann eptir* 127 *kap. í A.*

hèr gott at koma, en eigi svâ at örvænt sè at annarstaðar verði þvílíkt. Knúts sveinn svarar: hvar veiztu þvílíkan konúng, sem Knútr er, eðr hvar sáttu þvílíkt herbergi, sem hèr er, ok mun þat jafnt skilja, sem von er, at svâ sem Knútr konúngr sjálfr er merkiligri ok ríkari enn aðrir konúngar? Hinn svarar: þat ætla ek, at mèr þiki Ólafr konúngr Haraldsson eigi vera ómerkiligri konúngr, ok eigi hefir hann verri herbergi, enn hèr eru. Knúts sveinn svarar: þat er ólíkligt, því hèr eru margir hlutir miklu merkiligri ok virðuligri enn með Ólafi. Hinn svarar: eigi sýnist mèr Ólafr konúngr ómerkiligri enn Knútr, ok aungvir hlutir með minni stórmensku enn hèr eru. Nú ræddu þeir lengi um konúngana, ok urðu eigi ásáttir um þeirra virðíng. Um morguninn eptir heimti Knútr konúngr sveinana á sinn fund, ok mælti: hvat áttu þið at tala í gærkveld? Sá svarar sveinninn, er hans máli hafði fylgt: við töluðum um ykkra virðíng Ólafs konúngs Haraldssonar, flutta ek þína virðíng fram, en hann hèlt fram máli Ólafs konúngs. Knútr konúngr svarar: svâ heyrðist mèr sem væri; nú skuluð þið koma til borðs míns í dag, ok þiggja af mèr nökkur laun fyrir ykkra þrætu; þeir urðu glaðir við, er þeir voru kallaðir til konúngs borðs; ok er konúngr var undir borð kominn, þá gengu sveinarnir fyrir hann. Konúngr mælti: hèr eru

hanar 2 steiktir,[1] er ek vil gefa sinn hvorum ykkrum, ok skuluð þið nú fara burt með hanana, nú legg ek til gæfu mína með þessum sveini, er mitt mál flutti, en Ólafs sveinn skal flytjast fram í hans hamíngju, fyrir þat er hann fulltíngði honum; nú komið önnur misseri á minn fund, ok vil ek þá vita, hvorum ykkrum betr hefir hagnat. Síðan fóru þeir á braut með sinn hana hvorr þeirra, sem konúngr hafði gefit þeim; en er þeir voru komnir út úr borginni, þá tók Knúts sveinn til orða: eigi veit ek, hví Knútr konúngr skiptir svå hönunum með okkr, þvíat sá er miklu meiri haninn ok feitari ok betri, er hann hefir þèr gefit, en ek þóttumst hans virðíng í öllu gjöra, sem ek kunna, en þú gjörðir honum aungva sæmd í orðum þínum, ok hèlt Ólaf konúng framar í öllum hlutum, ok eigi kalla ek skipta til hvers gjört er við þá stórhöfðíngjana. Ólafs sveinn svarar: eigi sè ek at munr sè um fugla þessa. Knúts sveinn (svarar): ef þèr þikkir sá eigi betri, er þú hefir, þá muntu vilja skipta við mik hönunum. Ólafs sveinn svarar: ef þèr þikkir sá betri, þá hafðu þenna heldr. Knúts sveinn svarar: víst vil ek heldr þenna hafa, þvíat ek sè í mörgu, at sá er betri; þeir keyptu þá hönunum, ok eptir þat skildu þeir, ok fóru þá til sinnar

[1]) ok pipraðir, *b v. H.*

gistíngar hvorr at kveldi; nú er Knúts sveinn hafði sèr herbergi tekit, þá krufði hann hana sinn, ok var vel af fengit; en er Ólafs sveinn bjóst til matar, þá krufði hann ok sinn hana, þá fann hann at haninn var fullr af ensku silfri[1]; hann segir þá húsbónda, er hann var hjá, alla sögu, sem farit hafði með þeim Knúti konúngi ok sveininum, ok sýnir honum, hversu haninn var búinn innan. Bóndi sagði honum, at Knútr (konúngr) mundi þetta silfr ætlat hafa þeim, [er hann hafði lofat[2]: en þó þikkir mèr þú at hafa komizt þessu fè, ok þú mátt þat frjálsliga eiga. Sveinninn varði þessu fè til ávaxtar, ok varð síðan ágætr kaupmaðr, þótti þar vitr ok gegn, sem hann kom fram. En Knúts sveinn kom önnur misseri til fundar við hann, ok var þá fátækligri enn fyrr; hann sagði Knúti konúngi, hversu farit hafði um hanakaupit með þeim sveinunum, ok svâ þat at Ólafs sveinn var þá ríkr at fè ok ágætr maðr í kaupferðum. Knútr mælti: gæfu munr hefir orðit með ykkr mikill í þessu sinni, en þó skal þetta ekki þitt gjald verða, ok gaf honum góðan kaupeyri, ok bað hann halda því fè til vaxtar; sveinninn þakkaði konúngi for[3] gjöf sína ok stórlyndi sína, ok fór á braut síðan með fèit ok varði, en svâ ferst honum með fèit, at þat týnist allt; sá maðr var ávalt síðan snauðr,

[1]) gullpeníngum, *F.* [2]) hólbera, *H.* [3]) þannig.

svâ at aldri festist fè við hann; nú má þat sjá í þessum atburð, at guð veitir jafnan virðíng sínum vinum bæði nær ok fjarri.

*P.*

*Af því er Olafr konúngr bar mikla áhyggju*[1].

Sá atburðr gjörðist á einum sunnudegi, at Ólafr konúngr bar svâ mikla áhyggju, at hann gáði eigi stundanna, hann hafði í hendi kníf ok hèlt á trè litlu, ok rendi þar af nökkura spóna; skutulsveinn stóð fyrir honum, ok hèlt á borðkerum, sá hann hvat konúngr gjörði, ok þat at hann hugði at öðru, hann mælti: mánudagr er á morgin, herra! Konúngr leit til hans, er hann heyrði þetta, ok kom í hug, hvat hann hafði gjört; síðan bað konúngr fá sèr kertisljós, hann sópaði spónunum öllum í hönd sèr, þeim er hann hafði telgt, þá brá hann í kertisljósinu, ok lèt brenna spónuna í lófa sèr, ok mátti þaðan af marka, at hann mundi fast halda lögin ok boðorðin, ok vilja eigi yfirgánga þat, er hann vissi rèttast; ok má af þessu sjá, hversu hann mundi hegna ósiðuna, er hann gjörði sèr slíka refsíng fyrir þessa óathygli.

*Q.*

*Þeir fundust Olafr konúngr, Sigurðr biskup ok Haraldr*[2].

En er Ólafr konúngr hóf ferð sína, þá

1) *Eptir 178 kap. í A bætir L þessum kap. inní, B, D, F, H, K hafa hann eptir 179 kap. í A.* 2) *I stað 185 kap. í A hefir F þenna.*

kom til hans lið þat, er Svíakonúngr fèkk honum, voru þat 4 hundruð manna, ferr konúngr, er Svíar komu, ok stefndu fyrst uppá land til marka; en þar er konúngr þá veizlu fyrst, þá lá fyrir þeim vatn, er Svíar kalla sjó, er þat ósalt vatn ok ísi þakit, ok var mjök hált, hestar voru óskúaðir, þá bað konúngr fara fyrst til messu, ok um hinn fyrsta lága saung hèlt konúngr fyrir augu sèr, ok þegar dreif í löginn krömmu, síðan lètti af èlinu, fara þeir síðan ok varð förin þó sein, en ríða stundum, en fara stundum á skipi; þá sá þeir ríða í móti sèr 12 menn, þeir voru allir í svörtum kuflum, ok kendu þar Sigurð biskup ok lærða menn hans. Konúngr spurði biskup, hverju gegndi um farar hans; hann kveðst ætla síðan at eigi aptr í Noreg. Konúngr mælti: hví skulum við svâ skjótt skilja. Biskup svarar: þvíat nú eru ill tíðendi í landinu, hafa menn tekit við fè Knúts, uggi ek at þú sèr eigi þrem nóttum lengr í landinu, ok vilda ek þá eigi við vera, þvíat ek veit hvern hug lendir menn ok hafa til þín, ætla þeir at reisa herflokka mót þèr, ok hafa til selt Knúti konúngi trúnað sinn ok svardögum bundit. Konúngr mælti: þinn fulltíng vilda ek þó hafa ok mínir menn, því heldr sem ek ætti skemra líf eptir, ok mèr væri háskinn nærr. Biskup svarar ok sagði svâ vera skyldu. Þá fara þeir á fjall þat, er skilr Svíþjóð ok Noreg; kon-

úngr hafði þá nær 12 hundruð manna, ok komu þar fram, var kallat var Járnberaland, kom þá í móti þeim lið þat, er farit hafði af Noregi til móts við hann, sem fyrr var sagt; hitti hann þá Harald, bróður sinn, ok marga aðra frændr sína ok vini; varð þat hinn mesti fagna fundr, höfðu þeir þá allir saman 18 hundruð manna.

*R.*

*Fundr þeirra Olafs konúngs ok Kálfs Arnasonar*[1].

Litlu eptir þenna atburð sèr konúngr ríða á mót þeim 5 menn, þar var Kálfr Árnason, hann kvaddi konúng virðuliga, en konúngr leit við honum ok bað guð geyma hans. Konúngr spurði, hvert hann ætlaði at fara, er hann var svâ ofarliga á fjöllum: hugða ek þik meira starf mundu fyrir höndum eiga nú í landi, nú er þú skalt vinna þèr til jarldæmis, enn at fara sem veiðimenn á fjall upp. Kálfr svarar: hèr mun ek lykkju láta á leið minni, er ek hefvi yðr fundit, en starf mitt er eigi lítit í landi; en þó er þat ekki minnr í vöxt fært, en tignarnafns vænti ek mèr ekki af Knúti konúngi, en þat er satt, at vèr höfum tekit við fjám Knúts konúngs, ok heitit því, at taka eigi við þèr orrostulaust; en liðsafnaðr mikill er á Stiklastöðum, ok eru þar bændr margir, þeir er reka þikjast eiga harma sinna við yðr, hefvi ek þar ok mikla sveit manna, er ek ætla til styrks við yðr,

[1]) *Milli* 189 *og* 190 *kap. bætir F þessum kap. inní.*

en í fyrstu, er liðit er fylkt, mun ek vera í bónda flokki ok mínir menn, ok skjóta dynskot í flokk yðvarn, en upp frá því er blóð kemr á jörð, viljum vèr allir þínir menn vera, þvíat vèr erum þá lausir allra orða ok eiða við Knút konúng. Konúngr þagnaði um hríð, ok mælti síðan til Þorbergs: hversu skulum vèr trúa orðum Kálfs? Eigi veit ek þat, kvað Þorbergr; Kálfr er okkar vitrari, en tillaga vissa ek eigi verr um hríð, en uggi ek at lítt njótum vèr hans vits við, eðr hinni betri ráða hans. Finnr lèzt gjörla sjá kunna trúskap Kálfs, þóat hann væri eigi atspurðr, þvíat Kálfr er slægr sem refr: snúi þèr vönd í hár honum, ok vil ek höggva höfuð af honum, eðr virgul um háls honum, en ek mun skjóta stokki undan fótunum, ok sè hann svâ uppfestr á gálga, ok leiða honum svâ landráð ok drottins svik. Reiðr ertu nú, Finnr! kvað konúngr, er þú vill drepa láta bróður þinn, eðr spara eigi þínar hendr at týna honum, ok sómir þèr eigi svâ at gera. Finnr svarar: þat sómir mèr vel, herra! þvíat fyrir skömmu kendir þú mèr þat at hnekkja vondu ráði, ef ek sè glæp á manni, þeim mun betra er mèr at drepa bróður minn enn aðra menn, sem mèr er skyldara at hnekkja fyrir honum vondu ráði. Finnr ætlaði þá at Kálfi, enn hann náði því ekki, þvíat konúngr lèt halda honum. Kálfr snèri þá annan veg, ok lètti eigi, fyrr enn hann kom aptr til liðs síns.

S.

*Vín varð af vatni*[1].

Konúngr reið hvítum hesti um daginn, en þá er minnst var von, drap hestrinn fæti, ok stökk í sundr fótrinn í honum; hverr maðr bauð konúngi sinn faraskjóta, en Ólafr konúngr kveðst annathvort gánga skyldu, eðr ríða hinum sama hesti, þvíat hann kvað býsna skyldu til batnaðar. Konúngr batt þá fót á hestinum, höfðu þeir þá dvöl nokkura á atfánga, ok var hestum hagi fenginn; ok er þeir kvomu aptr til hesta, er þeirra gættu, sá þeir þá, at hestrinn var heill vorðinn, sá er konúngr hafði riðit. Konúngr hafði varmr orðit um daginn, bað hann þá færa sèr vatn í keri, hann bað biskup blessa; hann gerði svâ. Konúngr tók við, ok leit á, ok mælti: eigi vil ek munngát drekka, ok bað sveininn taka vatn í annat sinn; hann gerði svà; en er hann kom aptr, þá blessaði biskup, fèkk sveinninn þá konúngi kerit; en er konúngr sá, þá mælti hann: síðr vil ek mjöð drekka enn munngát á föstutíðum; kvaddi konúngr þá til hirðprest sinn at taka vatn; hann ferr ok tekr vatnit; Sigurðr biskup blessar þá enn, ok fær konúngi. Konúngr mælti, er hann hafði viðtekit: síðr vil ek vín drekka, enn mjöð eðr munngát. Biskup mælti: þigg þú feginn drykk þenna, sá gefr þèr, er heimilt á. Konúngr

---

[1]) *Eptir* 191 *kap. í A bætir F þessum kap. inní. K hefr hann eptir* 189 *kap.*

drekkr þá af kerinu, ok lofaðu allir nærverandis menn guð, sem verðugt var.

T.

*Frá Olafi konúngi*[1].

Þat hafði verit eitt sinn, er Ólafr konúngr var í Garðaríki, at Íngigerðr drotníng fór or landi leiðar sinnar, sá Ólafr konúngr á för hennar, ok kvað vísu:

Fagr stóð er bar brúði
blakkr sýndist mèr sprakki
oss lèt yndis missa
augfögr kona á haugi;
keyrði Gerðr or Görðum
góðlát vala slóðar
eik en ein glöp sækir
jarl hvern konur allar.

Ok enn kvað hann:

Ár stóð ok en dýra
jarladóms með blómi
harðla græn sem hörðar
hvat missari vissu;
nú hefir bekkjar trè bliknat
brátt Mardallar gráti
lind hefir laufi bundit
limuorð í Görðum.

Má þat á þessu augsýnast, at honum hefir

[1]) *Eptir* 192 *kap. í A hefir F þenna kap. ístað þess sem stendr í* 87 *kap. í A, frá orðunum á blaðs.* 194: leitaði Astríðr spakliga eptir, *til orðanna blaðs.* 196: ok kom þat upp af tali þeirra.

við Íngigerði verit betr, enn flestar konur aðrar, er þat nú ljóst vorðit, at henni hefir þat verit hin mesta höfuðgæfa ok hverjum öðrum, er við hann hafa í vináttu verit.

*U*[1].

Ólafr konúngr lèt þá hvern mann til skripta gánga við biskup ok lærða, ok sýngja *prímu messu*, síðan lèt hann sýngja messu ok taka *corpus domini*; en þá er menn gengu til skripta, fóru þeir Gaukaþórir ok Hafrafasti með flokk sinn at sitja einhvers staðar. Konúngr spurði, hví þeir gerðe eigi sem aðrir menn. Ekki höfum vèr til at hvísla við biskup, sagði Gaukaþórir. Ekki mun þat svâ vera, kvað konúngr, en þat megi vera, at þèr berið þar ekki mikinn vana til; lèt konúngr þá verða sagt þeim til skriptargángs, ok breyttu þeir sèr síðan sem aðrir menn.

*V*[2].

Þar er þeir voru staddir, voru ber á einni þúfu, konúngr tekr berin ok rennir í lófa sèr; þá sá konúngr, hvar upp voru sett merki bónda, hann mælti þá: vesöl ber, kvað hann. Rögnvaldr Brúsason svarar: mismælt varð þèr nú, konúngr! lið mundir þú nefna vilja. Rètt segir þú, jarl! kvað konúngr; eigi muntu minna mismæli mæla, þá er þú átt skamt ólifat. Þat gekk eptir, sem segir í jarlasögum.

1) *I kap.* 193 *eptir orðin á blaðs.* 59 *efst*: halda bardaga við Olaf konúng, *bætir F þessu stykki inni. K hefir þat á sama stað.* 2) *F bætir þessu stykki við kap.* 200 *í A.*

X[1].

*Konúngr talaði til Kálfs ok Þoris ok bónda.*

Þá er lið hvorratveggju stóð, ok menn kendust, þá mælti konúngr: hví ertu þar, Kálfr! eðr hvat verðr nú af friðinum þeim, er þú hèzt oss austr á fjalli? Kálfr mælti: rjúfast mun sá friðr. Hví skal þat, kvað konúngr, þvíat vinir skildu vèr suðr á Mæri, ok illa samir þèr at berjast í móti mèr, eðr skjóta geigrskoti í móti oss, þvíat hèr eru fjórir bræðr þínir. Kálfr svarar: mart ferr nú annan veg enn best mundi sama, skilduzt þèr svâ at eina við oss, at nauðsýn bar oss til at friðast við þá, er eptir voru, verðr þar nú hverr at vera, sem staddr er, en sættast mundu vèr, ef ek skylda ráða. Þá svarar Finnr: þat er mark at um Kálf, ef hann mælir vel, þá er hann ráðinn til at gera illa. Konúngr mælti: vera kann, Kálfr! at þú vilir sættast, en ekki friðsamliga þiki mèr þú láta; en hversu fús ertu at vita þinn hlut, ef vèr komumst heilir brott? Ekki fús, kvað Kálfr. Þá mun ek segja þèr, kvað konúngr, hvorki mun ek ræna þik lífi nè fjárhlutum; suðrgaungu býð ek þèr, sæztu við guð, þá ertu sáttr við mik. Þórir hundr, kvað konúngr, viltu vita þinn hluta, ef ek kem lífs af Stiklastöðum? Ekki renn ek frá því, kvað Þórir. Eigi mun ek bjóða þèr suðrgaungu,

[1]) *I stað byrjunar* 211 *kap. í A til orðanna blaðs.* 77: Þórir hundr kom þá með sveit sina, *hefir F þetta.*

kvað konúngr, slíka menn þarf í landi at vinna þat allt, er konúngr þikist þurfa, ok engi dugandi maðr vill vinna. Þorgeir af Kriststöðum eðr Kveldrum mælti: þèr, konúngr! skuluð nú hafa slíkan frið, sem margir hafa áðr af yðr hafðan, ok munu þèr nú þess gjalda. Konúngr svarar: eigi þarftu, Þorgeir! svâ mjök at fýsast til vors fundar, þvíat eigi mun þèr auðit verða sigrs á oss í dag, þvíat ek hóf þik til ríkis af litlum manni, eðr mantu glöggt, hvat títt var jólin fyrri enn nú voru? Mörg hefi ek jól svâ drukkit, kvað Þorgeir, at ek hefi eigi til minni lagt. Ek mun þik þá áminna, kvað konúngr, þá vartu innan hirðar með mèr, ok bart eigi þitt höfuð lægra, enn ek mitt, vandaða ek at því hina smærri hluti sem hina stærri, vilda ek at þú gengir frá, þvíat með þèr sè ek sízt nokkura hluti hæfa. Þorleifr kveikr streingði þá heit, at verða þess manns bani, er fyrstr ynni á Ólafi konúngi. Gizor gullbrárfóstri tók til orða: þat er títt útá Islandi at hafa ákvæðisverk, þikjast þeir þá komnir til hvíldar eptir erfiði sitt, er verki er lokit. Konúngr svarar: þar standa gegnt þèr í fylkíngu bræðr tveir, ok er annar rammr at afli, en annar fjölkunnigr, þá ver þú þik frýju, ef þú fellir þá báða. Gizor svarar: þar skal at snúa, sem þú vísar á, teigr mun harðslægr, en stund ekki laung, þó mun ráða, hversu járn bíta.

## Y.

### *Tal Kálfs við bændr*[1].

Kálfr Árnason mælti þá: nú er konúngr yðvar fallinn, köllumst vèr nú eiga Noreg til forráða. Dagr mælti: þat væri til hugganar þeim, er eptir lifði, at þèr ynnið jafnaðar um landit oss til forráða. Hverir eru til lands? segir Kálfr. Býð ek sjálfan mik, segir Dagr. Bændr svöruðu: víst eigi viljum vèr þik til konúngs kjósa. Dagr mælti: þá býð ek Harald, bróður Ólafs, yðr til konúngs at taka. Bændr svöruðu: ef vèr vildum eigi hafa Ólaf at konúngi yfir oss, þá viljum vèr hálfu síðr Harald, bróður hans. Þá er til Hríngr, faðir minn, segir hann, vitr maðr ok ráðinn. Kálfr svarar: Hríngr er gamall, ok erum vèr þá konúnglausir; enda vili þèr eigi mik, segir Dagr, enda er ek varla tilfær sakir vitsmuna lands at gæta, en þó betr tilkominn at varðveita í hendr ástvinum Ólafs konúngs, enn Knútr konúngr eðr synir hans hafi land þetta. Kálfr svarar: allir verðum vèr þá at klækjum einum; kalli þèr nú at vèr hafvim væltan konúng þenna, enda bregðumst vèr nú Knúti konúngi. Dagr svarar: vili þèr eigi einhvern þenna, þá skulu vèr gera yðr þá hríð, at þèr skuluð allan aldr örkumbl eptir bera. Þá tókst bardagi með þeim, ok kalla menn þat Dags-

[1]) *I stað byrjunar* 212 *kap. i A til orðanna:* þá fèll fjöldi liðs af bóndum, *hefr F* þetta.

hríð; í þeirri orrustu fèll fjöldi manna; eigi höfðu þrændir reynt harðari hríð enn þessa, er Ólafs menn gerðu síðan, er Dagr kom til, þeir ráku marga menn útá ána, er ofan fellr eptir Veradal, ok stönguðu þá með spjótum til bana. Haraldr Sigurðarson ok Rögnvaldr Brúsason lètu skamt stórra höggva í milli. Finnr Árnason mætti í bardaga Kálfi, bróður sínum, ok lagði spjóti til hans, kom í lærit, fèkk Kálfr mikit sár, ok mælti þá til Finns, bróður síns: eigi hyggr þú nú at, bróðir! hvat er þú gerir. Finnr svarar: veit ek, hvat ek vil, ok svâ hvat er ek gerir, þvíat ek vilda drepa alla drottins svikara, hafi þèr mikin glæp gervan, svikit yðvarn lánardrottinn, þann er þèr munuð aldri slíkan fá.

Z.

*Viðræða þeirra bræðra eptir bardagann*[1].

Kálfr Árnason leitaði at bræðrum sínum, er þeir voru fallnir; þeir ræddust við í valnum Finnr ok þorbergr Árnasynir, en þar lágu hjá þeim Árni ok Kolbjörn dauðir. Finnr mælti: hve opt hefir þú í val verit, þorbergr bróðir? Verit hefi ek nokkurum sinnum, segir hann, ok hefir mèr of allt íllt þótt; en hversu þikir þèr nú, kvað Finnr? Gott, segir þorbergr, þvíat hèr er mjúkt ok lint, uni ek vel við; svâ er mèr ok, kvað Finnr, ok ek hefi

[1]) *I stað byrjunar* 214 *kap. í A til orðanna*: Kálfr gaf ekki at því gaum, *hefir F þetta.*

öngan sviða í sárum, eðr veiztu, ef þau endimi eru sönn, at konúngrinn sè heilagr hjá okkr? Svâ ertu skjótorðr, kvað þorbergr, at þú hyggr illa at, hvat þú mælir, eðr gáir eigi ella, vissir þú helgi hans fyrir laungu. Finnr svarar: heyrir þú, hvat nú er um? Ek veit eigi, til hvers þú talar, segir þorbergr. Ek þikjumst, kvað Finnr, heyra málit hundsins Kálfs, bróður míns, hann mun vilja láta græða okkr, ok mun vel tilgefa, þvíat ek mun nú geta hefnt Ólafs konúngs. þorbergr mælti: vinn þú eigi á bróður þínum. Finnr svarar: hirði ek eigi, hvers bróðir hann er, enda er eigi opt á þat at minnast, at ek hafa verit vitrari enn konúngr eðr þú, enn gjör vissa ek á fjallinu, at eigi mundu slík fádæmi hafa framfarit, ef ek hefða þá ráðit, at Kálfr hefði þá verit drepinn. þorbergr mælti þá svâ hátt, at Kálfr mátti heyra: gættu ok vinn eigi á Kálfi, bróður þínum. Kálfr gekk þá heldr tæpara. En þegar at Finnr sá hann, þá kastaði hann saxi til hans, ok hljóp í gegnum niðr ristina, ok varð Kálfr síðan varla óhaltr. Kálfr mælti þá: um sèr konúngr nú með þèr, en hann unni þèr eigi óhapps, en vissi at ek þurfti hegníngar. Finnr svarar: dylstu ekki við þat, at ek vilda at þar hefði á þik komit, at þik hefði sem fyrst öll tröll tekit, sem þess mun skamt at bíða, kallaði hann þá bæði guðníðíng ok drottins svikara. Kálfr mælti: sættumst

við nú, ok þigg þú at mèr yfirbætr, ek hefi verit kallaðr mestr vor bræðra hèrtil, en nú skal ek þikjast minnstr hèðan frá. Finnr mælti: hverjum manni muntu þikja minni ok verri, ok engi mun bætr þiggja at þèr dugandi manna, muntu hverjum manni leiðr, er þenna atburð spyrr; annat var orð Finns harðara enn annat.

### Þ.

### *Þórir hundr segir Knúti jarteignir Ólafs*[1].

Mikil var umbræða um helgi Ólafs konúngs, ok svâ um þat, hverr at Knúti konúngi skyldi segja. Þórir hundr kveðst þat gera mundu, þvíat ek hefi jarteign fengit af konúngi, ok leynt helzti lengi; vèr höfum keypt at Finnum 12 mötunautar, at þeir gerði oss þá bjálba, at ekki biti járn á, ermr var sköm á bjálba þeim, er ek hafða, ek var höggvinn á höndina, svâ at mjök svâ leysti frá þumalfíngrinn, en þá er vèr unnum á konúnginum, hóf hann til himins augu sín, þá kom mèr í hug glæpr minn, ok brá mèr við mjök, svâ at frá mèr tók sýn, ok þá meðan rann blóð konúngsins eptir spjótskeptinu ok upp á hönd mèr, þá var fíngr minn viðgróinn, er ek tók sýn, ok er sem þráðr liggi eptir um fíngrinn, þessa jarteign skal ek sýna Knúti konúngi, hann veit hversu makligr ek var. Þórir hundr ferr til Englands, ok segir Knúti konúngi allt, hversu

[1]) *Eptir kap.* 226 *í A bætir F þessum inni.*

farit hafði. Konúngr varð mjök ógláðr við þessa sögu. Þórir spurði, hverju þat gegndi. Konúngr svarar: ek þóttumst þat vita, at annarhvor okkar mundi heilagr vera, ok hafða ek mèr þat ætlat, þó skal ek nú leggja fè fyrstr til skríns Ólafs konúngs, hans úvina, ok trúa fyrstr helgi hans, ok eigi skal ek koma í Noreg, með því er Ólafr er heilagr.

Æ.

*Af Sighvati skáldi*[1].

Sighvatr skáld var með Magnúsi konúngi hinum góða, ok hafði jafnan mikinn hugtrega af falli Ólafs konúngs, svâ sem heyra má í vísu þeirri, er hann orti þá:

Gekk ek um þvert frá þengils
þróast ekki mèr en[2] rekka
em ek sem bast í brjósti
bleikr [vex þýngð af leiki[4];
[munda ek hinn[5] hve manna
minn drottinn lèk[6] sinnum
opt á [aðaltóptum[7]
orðsælt[8] [er var[9] forðum.

---

[1]) *Eptir kap. 252 í A bætir L þessum kap. inní. F hefir kap., að undanteknum 2 miðvísunum ok fyrirsögn þeirra, við niðrlag sögunnar; en F hefir fyrri miðvísuna milli 3ju og 4ðu vísu í kap. 238 í A, ok þá síðari þar sem eptir á tilvísar. H hefir þenna kap., að undantekinni Alfífu vísunni, við niðrlag sögunnar. K hefr einasta Alfífu vísuna við niðrlag 223 kap. i A.* [2]) *v. í F, G.* [3]) böst, *G.* [4]) verðúngarleiki, *F, H.* [5]) minnumst ek hins, *F*; minnumst hins, *H* [6]) lèt, *F, H.* [7]) óðals tóptum *F*; óðals tóptir, *H.* [8]) orðsælstr *F, H.* [9]) ok vær, *H.*

[Þat var eitt kveld[1] at menn höfðu þat at skemtan, at tala um skáldskap manna, ok varð svâ í orðum þeirra, at þeir ámæltu skáldskapnum Sighvats, ok kölluðu at hann hefði eigi rètt ort at máli; þá kvað Sighvatr vísu þessa:

Munu þeir er [mestar skynjar[2]
munn[3] viggs[4] dáins[5] kunna[6]
síðr[7] á Sighvats hróðri
svinnz[8] braglöstu finna;
sik vill hverr er kvikir[9]
haldorðr boði skorðar[10]
[at því er[11] allir mæla
iflaust gjöra at fífli[12].

Þessa vísu kvað Sighvatr til Alfífu um þat, er hallæri var, meðan Sveinn, son hennar, var konúngr yfir Noregi:

Alfífu mun æfi[13]
úngr drengr muna lengi,

[1]) Nú ferr Sighvatr sunnan, kemr í Danmörk, ferr, þá huldu höfði fyrir sakir ríkis Knúts, þvíat hann var grimmr öllum vinum Olafs konúngs. Sighvatr kom til gistíngar til eins ríks bónda, ok duldist, en þat höfðu menn til skemtanar um kveldit, þeir sem fyrir voru, *F, H.* [2]) mest um skynja, *F, H.* [3]) menn, *H.* [4]) vigrs, *F*; Olafs, *H.* [5]) vígs, *H.* [6]) kenna, *H.* [7]) sið, *H.* [8]) sinn, *H.* [9]) hnykkir, *H*; at hnekkir, *F.* [10]) skjaldar, *F, H.* [11]) els þvíat, *F, H.* [12]) En um náttina er Sighvatr var sofnaðr kom at honum dóttir húsbóndans, hún vakti Sighvat, ok mælti, at hann skyldi uppstanda ok á brott fara, þvíat þú vart kendr í gjar aptan af vísu þeirri, er þú kvatt; en Knútr konúngr hefir um allt sitt ríki sett menn til höfuðs þèr at drepa þik, ef færi gæfi á; nú muntu á morgin drepinn verða, ef þú ferr eigi á brott í nátt; *b. v. F, H.* [13]) *þannig hin*; arfi, *L.*

þá er uxamat átum  
inni skaf (sem) hafrar[1];  
annat var, þá er Ólafr  
ógnbráðr[2] um rèð láði,  
hvörr átti þá hrósa  
hjálmr þorn fræri borinn[3].

Sighvatr orti erfidrápu um enn helga Ólaf konúng, ok ætlaði at stæla eptir sögu Sigurðar fofnisbana. Sighvatr kom skipi við ey þá, er Súla[4] heitir, ok er hann var kominn, þá varð sá atburðr, at bóndi sá, er á meginlandi var[5], tók sótt mikla, svâ at hann var banvænn, en kona hans sat yfir honum í hryggum hug; ok er mátt bóndans tók at mínka, þá vitrast Ólafr konúngr konu hans í draumi, ok mælti svâ við hana: við skulum kaupa verkum saman, ek mun geyma at bónda þínum, en þú skalt fara til fundar við Sighvat, skáld mitt, seg honum þat, at ek vil at hann stæli drápu þá, er hann yrkir um mik, (eigi) eptir Sigurðar sögu, heldr vil ek at hann stæli hana eptir uppreistar sögu. Nú eptir þessa vitrun fór húsfreyjan til fundar við Sighvat, ok sagði honum, hvat konúngr hafði vitrat henni; ok eptir þat fór hún heim; ok meðan hún hafði heiman verit, þá hafði Ólafr konúngr vitrazt bóndanum, ok gjört hann heilan. Sighvatr snèri þá drápunni, ok stælti eptir uppreistar drápu. Nökkuru síðar tók Sighvatr

[1]) *þannig F;* skap hafta, *L.* [2]) avgnbandaðr, *K.* [3]) hjálmr þornuðu korni, *K.* [4]) *þannig F*; Suo, *L.* [5]) *þannig F*; bað enn fyrir eyninni, *L.*

sótt harða; í þeirri sótt vitraðist honum Ólafr konúngr, ok bauð honum með sèr at fara, ok kvað á dag, nær hann mundi á móti honum koma. Nú er sá dagr kom, er konúngr hafði ákveðit, þá kvað Sighvatr vísu þessa:

Seinn þikki mèr sunnan
sókndjarfr Haralds arfi
laung er at lýða þengil
lífs sorg konúngs[1] morgin;
hvatki er heiðis gotna
hýrtælandi sælan,
nú hefik vætt í dag drottins,
dvelr, bíð ek hans í Selju.

Eptir þat andaðist Sighvatr, ok ætlum vèr at Ólafr konúngr muni efnt hafa þat, er hann hèt honum, ok veitir mörgum mikla miskun, þeim er á hann kalla.

Ö.

*Miraculum Sancti Ólafs*[2].

Nú var þat í annat sinn, er Ólafr konúngr gerði fagurt tákn ok fátítt: búandkarl einn, mildr ok meinlaus, varð fyrir klandri ríkra manna þar í hèraði sem hann bjó, ok gáfu þeir honum þjófssök, meir fyrir ilsku sakir þeirra enn sanninda; dæmdu þeir hann skjótt, ok drógu þeir hann til gálga í móti guðs lögum ok manna, ok vildu öngva undanfærslu af honum taka; síðan er sá hinn vesli maðr fèkk eigi skírslu

[1]) *þannig F;* þat, *L.* [2]) *við niðrlag sögunnar eptir kap. 260 í A hefir F þenna.*

fyrir sik komit, þóat hann bæði þá hina illu menn, þá vænti hann sèr öngrar bjargar eðr hjálpar af öðrum mönnum, skaut hann þá sínu máli ok öllu trausti undir guðs miskun, ok árnaðarorð hins virðuligasta herra Ólafs Haraldssonar, ok bað hann veita sèr fulltíng eptir sannindum við almáttkan guð, allra helzt þá, ok er hann bergr opt miskunsamliga, þegar er á hann er heitit, ok stórum hafa tilverkat ok verðir eru sannra refsínga; nú kemr þar at lokum, þóat fleira ræði um, at þeir hinir illu menn fara sinni ilsku fram við þann aumíngja, hengja hann upp saklausan ok fyrir lög fram, en sá hinn góði konúngr, er hann hafði opt ákallat, dugði honum miskunsamliga, er hann þóttist áðr staddr allnauðuliga, en þegar jafnskjótt er hann lyptist af jörðu upp, þá sýndist honum hinn góði guðs ástvin, Ólafr konúngr, skjóta fjöl undir fætr sèr, ok studdist hann við þá miskun nær þann dag allan allt til þess, er kona (hans) ok synir komu frá ríks manns eins, ok höfðu þá þegit leyfi af honum at jarða líkit ok ofan at taka; síðan komu þau til hángans, þá kleif sonr hans uppí trèð, þat sem hann hèkk við, en því trè var skotit í berghamar, ok fèkk hann allnauðugliga kropit til at höggva virgulinn í sundr, en þá er því var lokit, þá steyptist sá hinn aumi líkami þar niðr fyrir þat hit bratta bjarg, ok hugði þat hverr maðr, sá er þar var, at hvert bein mundi sundrbrotna, þegar at niðr kæmi; en svâ mikit var honum

skjól at vernd drottins ok árnaðarorði þessa hins helga manns, at honum mátti hvorki tortýna gálgi nè virgull, ok eigi þat þótt lopt væri mikit til jarðar at falla, ok óslètt undir; nú reis hann upp, þegar er hann kom niðr, ok þótti svâ sjálfum, er hann tók at hugleiða, sem draumr hefði verit, en þegar, er hann vitkaðist ok fèkk megin sitt, þá bjóst hann, ok fór þángat sem hinn helgi Ólafr konúngr hvílir, ok sagði erkibiskupinum ok öllum kórsbræðrum frá öndverðu máli ok til enda, hverja miskun (hann) hafði þegit af almáttkum guði, fyrir sakir árnaðarorð hins göfugliga guðs ástvinar Ólafs konúngs.

### *AA.*

### *Jarteign*[1].

1. Enn bar svâ til í Kaupángi, þar sem hinn heilagi Ólafr konúngr hvílir, at þar var kona sú, er brottfallssótt hafði lánga æfi, ok giptist hún úngum manni, ok lèyndi sem hún mátti þeirri sótt; nú í hvílu nökkra nótt þá minntist hennar sú hin illa atkvoma, ok vaknaði bóndi hennar við þat hit mikla mein, er hún lá ok snörglaði, brauzt á bak aptr, ok vissi eigi til sín; vesall þóttist hann sinnar ógæfu, ok harmaði mjök við svâ bótalaust áfall, ok sá at þá

[1]) *Fjórum næstfylgjandi kap. bæta L og F við niðrlag sögunnar; K hefir af þeim einasta þann, sem næst þessum fylgir. D kemr aptr við í niðrlagi fyrsta kap. og hefir þar næst enn seinasta af þessum fjórum.*

mátti hann öngvan veg fráskiljast, leitar þá eptir við hana, hve opt sjá bardagi kæmi at henni, eðr ef nökkur lækníng lægi henni til bóta. Hún sagði þá hina illu sótt á hverjum mánaði vitja sín, ok aungva lækníng kvað hún sèr at hjálp verða; nú í þeim mikla harmi, er þau hjónin höfðu, þá kölluðu þau á hina helgu meyju Maríam ok á hinn helga Ólaf konúng, bað hún þau grátandi líknar sèr sjúkri ok harmfullri; síðan tjáði hún mál sitt fyrir skriptapresti sínum, sagði honum sína ógæfu, ok beiddi hann umráða, hann hugði at þegar, hvat segir í guðsspjallinu, ok sagði henni svâ, at þessar sóttar bíðr engi bót nema með bænum ok föstum; en eptir þessa áminníng þá fóru þau bæði til kirkju hins helga Ólafs konúngs, ok höfðu með sèr vaxljós at dýrka þá hina helgu hátíð, föstuðu ok vöktu fyrir um nóttina með mörgum vanfærum mönnum; nú á næsta degi eptir þá var hátíðardagr þess ins helga konúngs, en um morgininn eptir, er lokit var óttusaung, svâ sem þeirri hátíð sómdi, er sá guðs dýrlíngr lèt líf sitt á, þá fór hún heim með svâ háleitri miskun frá þeim degi til enda lífs hennar, (at) hennar vitjaði aldri sú hin illa óhamíngja; en svâ mikill hafði verit ákafi þess hins illa meins, at á aungum mánaði misti hennar sá ótími, síðan er hún var úr barnæsku; síðan óx þeim svâ mikil gipt, at á hverjum jafnlengðar degi á Ólafs messu aptni, er hún hafði heilsu þegit, þá

vöktu þau ok föstuðu, ok fálust á hendr guði með ölmusugjörðum ok bænum.

*At eldr kom í kaupstaðinn.*

2. Svâ barst at eitt sinn í Görðum austr, at eldr kom í kaupstaðinn, er Hólmgarðr heitir, ok stóð eigi til minna voða enn borgin öll mundi uppbrenna; nú flýðu allir menn felmsfullir til kennimanns eins, þess er Stephanus var nefndr, en hann þjónaði þar kirkju Ólafs konúngs, ok vildi víst freista í svâ mikilli nauðsyn styrktar ok veldis hins heilaga Ólafs konúngs, ok reyna svâ til sanns sögur annarra manna; en þá er prestrinn heyrði þeirra bænarorð, þá greip hann í faðm sèr líkneski þess hins góða lávarðar ok setti á mót eldinum, síðan þokaði eldrinn hvergi um þat fram, er þá var kominn, ok varð svâ borgit hinum mesta hlut borgarinnar.

*Jarteign af Olafi konúngi.*

3. Frá því er verðugt at segja, at sá hinn góði konúngr, Ólafr, gjörði í hèraði því, er Þelamörk heitir: dag nökkurn var þat, at bændr allir fundust í því hèraði, ok ræddu um Ólaf í millum sín, at þeir vildu láta gjöra steinkirkju hinum helga Ólafi konúngi til lofs ok dýrðar, en tálgu grjót mátti hvergi finnast þar í nánd, þá er at var leitat; nú at þeim degi er steinmeistarinn sá ætlaði á braut at fara, er þess var ráðinn, þá lèt guð bresta í sundr fjall eitt mikit þar þegar í nánd, ok var þaðan flutt allt grjót

ok síðan til kirkjunnar, en hèraðsmenn lètu uppgjöra með miklum kostnaði.

*Jarteignir.*

4. Sveinn einn lítill tapaðist frá frændum sínum í því hèraði, er næst er Kaupángi, en þeir voru þá staddir at samkvâmu nökkuri; nú söfnuðu þeir sèr liði, ok fóru at leita hans, en þá er allar vânir voru ransakaðar, fannst sveinninn eigi; annan dag allan leituðu þeir, ok máttu eigi til hans spyrja, þá hètu þeir á hinn helga Ólaf konúng, ok skunda saman fjárhlutum, hverr eptir sínum efnum, ok sendist þegar samdægris til kirkju hins heilaga Ólafs konúngs, treystandi á hans miskun, leituðu þeir þá hit þriðja sinn at sveininum, ok fundu hann sofanda hjá húsi einu, þar sem mest höfðu þeir áðr leitat, fóru þá heim fegnir ok þökkuðu guði ok hinum helga Ólafi konúngi fyrir dýrð þá, er hann gjörir hvert sinn, er á hann er heitit.

*BB.*

*Miraculum virðuligs Ólafs konúngs*[1].

Mart hefi ek sagt frá jarteignum þeim, er drottinn vor hefir gert fyrir sakir hins helga Ólafs konúngs, en þetta sýnist mèr all háleitt vera, er mjök vekr upp hug margra guðs vina; at sönnu svâ sem sál hvers kristins manns er ágætari at eðlisskapan enn líkaminn, svâ er ok

---

[1]) *Tvéimr fylgjandi kapp. bætir F enn þá við niðrlag sögunnar. K hefir seinni hluta þess síðari kap. frá vísunni við 231 kap. í A, á undan orðunum:* Kálfr Arnas. fann.

hennar dauði hættari ok þýngri, ok svâ heilan dýrðligri, en óvinr alls mannkyns lèttir aldregi af slíkt at vinna við oss á hverjum degi, sem hann vann í Paradíso forðum, hug ok sálu hvers manns vill hann æ spilla, ok tæla hvern mann með svikfullri flærð; því skrökvi biðr hann trúa, er hann telr fyrir, en guðs reiði ok boðorða brot, segir hann, lítils verð vera, veraldar virðíng heitr hann, ok svíkr með því margan mann, en guðs dóm ok helvítis kvalar kveðr hann öngan mann hræðast þurfa; með þeirri villu sveik hann hinn fyrsta mann, þarmeð blekkir hann hvern dag hans afsprengi, til þess at hann gleymi öllum guðs boðorðum, svâ sem hann gerði við mann einn, þann er hann sveik með svâ banvænum drykk af djöfulsins áblæstri; en sá hinn vesli maðr var í því hèraði ofdrambsfullr, þvíat óvinrinn hafði hann blindat svâ, at í móti munuð sinni ok veraldar girnd virði hann einskis annars heims píslir, er hann gafst í fjandans vald, til þess at fá sínar rángar fýstir, ok sagði sik svâ or öllu samneyti heilagra manna; síðan hlífði hann messudegi hins blessaða Ólafs konúngs. En einhvern tíma bar svâ til, þá er fjöldi manna sótti til þess staðar, er sá háleiti konúngr hvílir, ok væntu sèr miskunnar, þá fór fá hinn vesli maðr ok þángat, ok fyrir þær einar sakir, at hann mætti sjá ok heyra, mæla ok gera nokkut þess í saurlífis synd, er hann fengi fastligar bundit

sik í vináttu úvinarins enn áðr; en vor drottinn er svâ mjúkhjartaðr, at honum þikir því öllu aumligra um þann aumíngja, er hann sèr sárligar svikinn enn einhvern annan kristinn mann. Nú um daginn, þá er líkamr þess hins helga manns var útborinn með háleitri dýrð, þá tók sá hinn aumi maðr at hugleiða dýrð þess hins helga manns ok vesöld sína ok eylífan ófagnað, er hann þóttist eiga mundi fyrir höndum, þegar er hann skildist við þessa veröld; þvínæst vitjaði hans svâ háleit miskun hins helga anda, fyrir sakir návist þess guðs mildíngs, ok sendi honum svâ mikla iðran, at utan þóttust menn þat mega sjá á honum, hversu aumliga hann þóttist þá, hinn vesli maðr, syndgast hafa; en þá er skrínit var flutt or þeim stað, er þat hafði staðit, þá leitaði hann þar til miskunnar, sem sá hinn helgi líkami hafði áðr hvílzt; tók hann þá at kalla á þann hinn helga mann með miklum styn ok andvörpum, bað með sárum gráti þann hinn milda konúng með guðs fulltíngi leysa þau hinn seigu syndabönd af sèr, er fjandinn hafði hann í vafðan; nú lèt guð hann njóta árnaðarorðs háleitliga hins helga Ólafs konúngs, ok leysti hann til sín or andskotans veldi, vændi honum enn með því miskunnar ok eylífrar dýrðar, ef hann hafnaði sínum ókynnum, ok neitti andskotans áeggjun; síðan er at því kom, at hann skyldi til skripta bera sín mein ok saurlífi, þá þorði hann

eigi vesall at segja til, ok gleymdi þá ok vildi eigi greiða sitt líf syndugt, þá sendi vorr drottinn honum svâ mikla sótt ok ákafa, ok reis hann eigi fyrr upp or þeirri sótt, en hann hafði bætt með skriptagángi alla sína glæpi, þá er hann hafði gert, þvínæst fèkk hann heilsu andar ok líkama, ok þóttist hann gjörla fundit hafa í sínu ómagni, at fyrir ofdrambs sakar ok líkams munuð hafði hann vilzt ok snúizt frá guði, ok týnt í því sálu sinni; síðan gerðist hann því öllu guðrèttligri trúari, sem hann vissi sik ferligar áðr farit hafa, ok fleira þess drýgt, er guði ok öllum góðum mönnum var gagnstaðligt, dýrkaði hann drottinn vorn ok hinn heilaga Ólaf konúng alla sína lífsdaga síðan, meðan hann lifði.

*Orð Einars þambarskelfis.*

Þá er Sveinn konúngr rèð fyrir Noregi, ok Alfífa, móðir hans, þá tók landsfólkit aumliga við vesöld sinni, þar sem ríki þeirra stóð yfir, ok var þar hörmuligt undir því ríki at liggja með ófrelsi ok óárani, þvíat fólkit lifði meir við búfjár fóðr enn manna mat, þvíat aldri varð á þeirra dögum mikit ár í Noregi, sem heyra má í vísu þessari, er Sighvatr kvað:

Alfífu mun æfi
úngr drengr muna lengi,
er oxamat átum
inniskaf sem hafrar;
annat var, þá er Ólafr

ógnbráðr er rèð láði
hverr átti þá hrósa
hjálmþorns freku korni.

Frá því er sagt einhverju sinni, at þíng var fjölmennt í Niðarósi, ok var á þínginu Sveinn konúngr, ok Alfífa móðir hans, ok var þá enn talat um mikit vanrètti bónda, en þá var engi rómr gerr at máli hans nè Alfífu, ok var þá hvorki játtat nè neytat. Þá svarar Einar Þambarskelfir, svâ allir menn heyrðu: engi var ek vinr Ólafs konúngs, en þó voru Þrændir þá öngvir kaupmenn, er þeir seldu konúng sinn helgan, ok tóku við fyl ok meri; konúngr þessi kann ekki at mæla, en móðir hans vill íllt eitt, ok má ærit. Þá brugðu allir grönum, þeir er heyrðu, ok hlógu at, ok sagði hvorr öðrum, þótti vel mælt vera. Þá mælti Alfífa: hví sitja bændr eigi niðr, ok hlýða konúngs eyrindi, en kurra eigi svâ. Þá þögnuðu bændr, en Einar stóð upp, ok mælti hátt, svâ allir heyrðu: fari menn heim, hart íllt eyrindi hafa menn híngat haft, bæði nú ok optar, til fundar Alfífu, ok mega menn heldr bíða heima vanrèttis þess, er at höndum berr, en sækja eigi allir í einn stað, ok hlýða þar einnar konu orðum, þeir er eigi vildu hlýða Ólafi konúngi, þeim er nú er sannheilagr orðinn, ok hefir ok þat mest níðíngsverk gert verit hèr í landi, er menn sviku Ólaf konúng, ok hefir þat illu reilt, sem von

var, ok svâ mikla ánauð hefir fólk þolat, síðan þetta ríki kom yfir, at þat skyldi guð vilja, at þat væri skamt, ok hefir þó verit ærit lángt. Gekk Einar þá af þínginu, ok allr múgr fjölmennis með honum.

CC[1].

*Jarteign.*

Væríngi einn í Görðum austr keypti sèr þræl einn úngan, ok var sá hinn úngi maðr dumbi, ok mátti eigi mæla, ok þó var hann með öllu hygginn ok næfr um marga hluti; engi maðr vissi, hverrar ættar hann var, fyrir því at hann fèkk eigi mælt; þess gátu flestir menn til, at hann mundi norrænn vera, fyrir því at hann gjörði vopn þau ok bjó, er Væríngjar þurfa. Nú hafði sá hinn úngi maðr marga staði kannaða, ok iðuliga við verði seldr verit ok keyptr; kaupmaðr einn góðr leysti hann til sín, ok gaf honum frelsi fyrir miskunnar sakir; síðan fór hann í sjálfræði sínu til borgar þeirrar, er Hólmgarðr heitir, ok veitti honum þar herbergi húsfreyja ein góð, ok dvaldist hann þar marga daga, en kona sú hin góða sótti allar tíðir jafnan til kirkju hins heilaga Ólafs konúngs, ok dýrkaði hún þann hinn milda konúng með mikilli ást ok átrúnaði; nú um nóttina, síðan er hún var í svefn komin, þá sýndist henni hinn heilagi Ólafr konúngr, ok mælti við hana, at sá hinn

1) *L og D bæta enn fremr þessum kap. við.*

úngi maðr skyldi fylgja henni til óttusaungs um morgininn, ok svâ gjörði hún, sem hann bauð, ok bað hinn únga mann at fara til kirkju með sèr; en þegar er þau voru þar komin, þá þýngði honum mjök, ok lagðist hann niðr ok svaf, á meðan tíðirnar voru súngnar, því næst sá hann í svefninum þann sama mann til sín koma svâ klæddann ok í annliti fallinn, sem konunni hafði sýnzt um nóttina. Ólafr konúngr mælti við hinn dumba mann: *aperi os tuum et implebo illud*, þat er svâ at skilja: lúk upp munn þinn, ok mun ek fylla hann; ok eptir þat tók hann túnguna hans ok gjörði á krossmark; þá spurði hann, ef hann vissi, hverr sá væri er honum vitraðist, ok mælti at hann skyldi nefna hann, ef hann mætti mæla. Sjá hinn sjúki svaraði: þat ætla ek, at þú sèrt Ólafr konúngr hinn helgi; ok þá vaknaði hann, ok mátti mæla, ok lofaði almáttigan guð, ok hinn signaða Ólaf konúng fyrir heilsu, er hann hafði fengit.

*DD*[1].

Pílagrímr einn fór um Upplönd, ok ætlaði til hins heilaga Ólafs konúngs, hann var tekinn á Upplöndum ok grýttr í hel ok dysjaðr síðan, þá sýndi sá hinn mildi guðs vin sín mildiverk síðan, þá gaf hann þeim manni líf; en eptir því er hann var máttlítill, sýnd-

---

[1]) *A eptir fyrirfarandi kap. bœtir D enn við 3 fylgjandi kap, en sleppt í þeim seinasta, og vantar niðrlag hans.*

ist honum sem sjálfr konúngr gengi at, ok fleygði af honum grjótinu, ok mælti síðan við hann: far þú nú hvert er þú vill; hann spratt upp þegar, ok fór norðr til Niðaróss, ok sagði þetta sjálfr it ágætliga mildiverk, er hinn heilagi Ólafr konúngr veitti honum; hinir iðruðust ákafliga glæps síns, er gjört höfðu, ok lofuðu allir guð ok hinn heilaga Ólaf konúng.

Sá atburðr varð enn á Gautlandi, at konu var tortínt saklaussi, hún hafði ætlat at sækja hinn heilaga Ólaf konúng heim, hún var kölluð með þjófum, þá kom sá hana upp at reisa ok þaðan at leiða, er jafn veit með guðs miskunn hugrenníngar manna ok verk, ok virði svâ mikils við hana sína fyrirætlan, at hann gaf henni líf fyrir framkvæmd farar; nú lofa allir guð ok hinn heilaga Ólaf konúng.

Lángt var þess í milli, er hinn heilagi Ólafr konúngr var upptekinn or jörðu, ok dýrkaðr sem verðugt var með háleitri tign, ok kirkja var gjör á Stiklastöðum, þar sem hans hit helga blóð hafði niðrkomit, þá er hann fór af þessum heimi; en er kirkju skyldi vígja þar ok biskup skyldi þángat koma, bar svâ til at konúngr var í því hèraði ok var sjúkr mjök, þroti mikill var kominn í knè honum, svâ at bæði bólgnaði lærit ok lengra upp í frá, ok var hann náliga alverki allr af; nú við þessa sársauka fýstist hann at gánga til tíða, ok sjá guðs dyrð ok ens helga Ólafs konúngs; þvínæst var hann færðr til skips

ok flutter á bati yfir ána, fara síðan með honum til kirkju; en um daginn, er óttusaungs tíðum var lokit, þá var konúngi sagt frá steini þeim, er hinn helgi Ólafr konúngr lèt líf sitt á, ok enn kveða blóði drifinn, en sá steinn kemr fram út or altara; síðan þokaði konúngrinn at altarinu ok þrýsti knènu ok því er sárast var við steininn, ok þegar jafnskjótt vitjaði hans svâ háleit miskunn allmáttigs guðs skapára ok árnaðarorð hins heilaga Ólafs konúngs, at á þeim sama degi tók or verkin ok þrotan allan....

*EE*[1].

*Af riddara einum í Englandi.*

Riddari einn í Englandi var missáttr við bróður sinn, þá er þeir skyldu skipta arfi í millum sín; nú bar svâ illa at í þeirra missætti, at riddarinn reiddist mjök bróður sínum, svâ at hann brá sverði ok hjó til hans, en móðir þeirra hljóp í milli, ok vildi stöðva höggit, en riddarinn hjó þau bæði í einu höggi til bana, móður sína ok bróður; hann óttaðist mjök guðliga hefnd fyrir sína glæpi fáheyrða, örvínladist þá guðs miskunnar, ok minntist hjálpsamligra orða vors drottins: eigi vil ek dauða syndugs manns, heldr at hann snúist ok leiðrèttist ok lifi; hann minnist á með gráti ok iðran á dæmi Pètrs postula ok annarra guðs manna, þá lèt hann at sjálfræði sínu negla á sik járn, ok fór at vitja heilagra staða at ráði kennimanna. Nú spurði

[1]) *L hefir enn þenna kap umfram, og endar með honum.*

hann eigi fleiri sagðar jarteignir annars heilags manns enn Ólafs konúngs Haraldssonar, ok fýstist þess at sækja hann heim, þóat farvegrinn væri lángr; hann kom til Noregs at Hvítadögum, ok er hann heyrði messu upphafna með miskun heilags anda, þá spratt af armlegg hans járnit á gólfit, ok lángt svâ at saunglaði við hátt; hann þakkaði guði almáttkum ok hinum helga Ólafi konúngi jarteign þá, er hann hafði fengit, ok lagði hann þat fyrir sik, at vera þar til andláts dags hans, fyrir því at eptir var járn þat, er um háls honum var neglt; en messudag Ólafs konúngs var skrín hans útborit ok niðrsett, at menn mætti atgánga þeir er vildu, þá spratt af þessum sama riddara þat járn, er hann hafði sagða glæpi sína, ok at hálsi (honum) hafði neglt verit. Sjá jarteign var af öllum mönnum ágætt um mörg lönd. Hèr (munum) vèr nú láta endíng bókar þessarar, at eigi gjörum vèr .....í lángmælgi ... þeim er til hlýða, er ok engi von at, at einn maðr megi hans allar jarteignir í sögu færa, þær sem drottinn vor Jesús Christus lætr verða dag frá degi til dýrðar (sèr), en fyrir verðleika ok árnaðarorð hins blessaða Ólafs konúngs, sá er með feðr ok (syni ok) anda lifir ok ríkir einn guð í heilagri þrenníngu um allar aldir.

*FF*[1].

Þessir smáir artículí, sem hèr eru saman-

[1]) *Þat sem hèr á eptir fylgir, stendr aptan við sögu Ólafs konúngs helga í Flateyjarbók.*

lesnir, standa í sjálfri lífssögu hins heilaga Ólafs konúngs Haraldssonar, þeirri sömu, er Styrmir prestr hinn fróði hefir samansett, þótt þeir sè eigi svâ fulliga skrifaðir hèr fyrr í bókinni; má þat engi maðr undrast, þótt mart liggi niðri úskrifat, þat er til hefir borit um hans daga, svâ sem þessi hinn göfugligi geisli kom víða fram á Norðrlöndum, þar sem þá var heilagri kristni ok kyrkjunnar rètt meir til frelsis ok náðar heldr enn áðr.

Þat bar til, þá er Ólafr konúngr var í Englandi, ok hann hafði með sinni list ok ráðleitni unnit Lundúnaborg, hitti hann kaupmenn nokkura, þá er komnir voru af Noregi vestr þángat; hann spurði þá tíðinda or landinu, ok einkum vandligast spurði hann at móður sinni ok stjúpföður. Kaupmenn sögðu slíkt, er hann spurði. Þat varð í viðræðum þeirra, at Ólafr konúngr spurði at konu þeirri norænni, er Steinvör hèt, sú hafði kölluð verit þokkakona Ólafs; kaupmenn sögðu, at hún var manni gipt. Ólafr spurði, hverjum hún væri gipt. Þeir sögðu, at sá maðr hèti Þorvarðr, er hana átti, ok væri kallaðr galli. Ólafr spurði, hvat manna hann væri. Þeir sögðu at hann var einn bóndi, ok býr fyrir norðan Stað í Noregi, ok Steinvör var þángat komin til búss með honum. Þá kvað Ólafr konúngr vísu þessa:

Böl er þat, er lind í landi
landrifs fyrir ver handan
gulli merkd við galla

grjót aulnís skal fölna;
þann munda ek við vilja
valklifs, meðan ek lifða
alinn erumk björk at bölfvi
bands algrænan standa.

Nú skiljast þeir Ólafr konúngr ok kaupmenninnir at svâ mæltu.

Þenna flokk orti Ólafr konúngr eptir er hann hafði unnit Lundúnaborg:

Gaungum upp áðr Engla
ættlönd farin röndu
morðs ok miklar ferðir
málmregns skafar fregni;
verum hugrakkir, Hlakkar
hristum spjót ok skjótum,
leggr fyrir orum eggjum
Engla gnótt á flótta.

Margr ferr ullr í illan
odd senni dag þenna
Freyr þar er fæddir vorum
fornan serk ok bornir;
enn á enskra manna
álm[1] gjóðs Hnikars blóði
vart mun skáld í skyrtu
skreið á hamri seiða.

Þollr mun glaums of grímu
gjarn síðarla árna
randarskóð at rjóða
ræðinn sá er mey fæðir;

[1]) gizkað; aulun, *F.*

berr eigi sá sveigir
sáralauks á ári
reiðr til Rínar glóða
rönd upp á Englandi.
Þóttuð mèr er ek þátta
Þorkels liðar dvelja
sást eigi þeir sverða
saung í fólk at gánga;
áðan er hörð á heiði
hríð víkíngar kníðu,
vèr hlutum vopna skúrir
varð fylgr liði harða.
Hár þikki mèr hlýra
hinn jarl, er brá snarla
mær spyrr vitr ef væri
valköst, ara föstu;
en þekkjondum þikkir
þunn blás megin ásar
hörð sú er hilmir gerði
hríð á Tempsár síðu.
Einráðit lèt áðan
Úlfkell þar er spjör gullu
hörð óx hildar garða
hríð víkínga at bíða;
ok sliðrhuguðr síðan
sáttu á oss, hve mátti
byggs ver bitran skeggja
brunns tveir hugir runnum.
Knútr rèð ok bað bíða
baugstalls Dani alla,

lundr gekk röskr und randir
ríkr vá her við díki;
nær var sveit, þar er sóttum
sýn með hjálm ok brynju;
elds, sem ólmum hèldi
elgrennanda kennir.
Út mun ekkjan líta
opt glóa vopn á lopti
of hjálmtömum hilmi
hrein sú er býr í steini;
hve sigrfíkinn sækir
snarla borgar karla
dynr á bretskum brynjum
blóð ís Dana vísi.
Hvern morgin sèr horna
hlökk á Tempsár bakka
skamt hánga má húngra
hjálmskóð roðin blóði;
rýðr eigi sá svegir
sáralauk í ári
hinn, er Grjótvarar gætir,
gunborðs, fyrir Stað norðan.
Dag var hvern þat er Högna
hurð rióðast nam blóði
ár þar er úti vorum
ilmr í för með hilmi;
knegum vèr sízt vígum
varð nýlokit hörðum
fyllar dags í fögrum
sit Lundúnum sitja.

Nú má þat sjá af þessum vísum, at Ólafr konúngr muni opt komit hafa í líkamligar orrostur hèr á jarðríki, en þó hefir hann optar strítt andaliga í móti fjandanum, ok svâ opt sem hann sigraðist líkamliga á úvinum sínum, þá sigraði hann þó optar úhreinan anda í andligri hólmgaungu þeirri, er hann hvern dag háði ímót honum, verandi eigi úminnigr, hvat guð býðr í evangelíó: *estote fortes bello*! þat er svâ at skilja; veri þèr styrkir í orrostu ok berìst við fornan eitrorm, ok munu þèr taka eylíft ríki. Þetta sama boðorð hèlt þessi guðs kappi, enn ágæti Ólafr, at hann barðist dagliga við hinn forna fjanda, ok fyrir þat sama stríð öðlaðist hann af vorum herra eylífa dýrð himinríkis.

Svâ bar til einn páskamorgin, þá er Ólafr konúngr var í Niðarósi, at til bæjarins var kominn mikill fjöldi manna, voru nokkurir menn gengnir uppí Gaulardal af þeim, er tilkomnir voru. Svâ bar til, at maðr einn gekk hjá þeim, hann var herða mikill, hann var í kápu ok í hvítum hosum; hann gekk einnsaman. Þá spurði einnhverr þeirra: hverr ertu, fèlagi? þessi maðr þagði við, ok gekk sem áðr. Ek svâ heill! kvað sá, ek skal maka honum háðúng; hleypr nú síðan eptir honum, ok lætr erja skóinn við legginn ofan, en þar var blautlent ok leirugt mjök, ok varð maðrinn mjök þrekkóttr á fætinum, ok skiljast þeir við svâ

búit. Annan dag páskanna koma konúngsins menn í þat herbergi, er þessir sátu í, ok segja svâ, at Ólafr konúngr vill hitta þá. Þeir þikkjast sízt vita, hvat konúngrinn mun þeim vilja, fara þó á hans fund ok heilsa honum. Hann fagnar þeim, ok mælti: hvat er nú um fèlag vort, þat er ek á hjá ykkr? Þeir drápu niðr höfði, ok kvóðust eigi minnast, at þeir hefði nokkurntíma hans fèlag haft. Nei, kvað hann: þið kvóðust at vísu konúngs fèlagar vera. Þeir urðu við þetta nokkut úglaðir. Konúngr mælti: ekki þurfi þið at úgleðjast; en þat ráð vil ek gefa ykkr: makið þeim einum háðung, er þið vitið hverr er. Þeir þökkuðu konúngi, ok skildu síðan, ok þóttust þeir vita, at þat hafði Ólafr konúngr verit, er þeir höfðu þetta kalls gert.

Þat barst at einusinni, þá er Ólafr konúngr hinn helgi fór á skipum fyrir land fram með hirðmönnum sínum, þar er Þorvarðr galli átti garða á landi uppi skamt frá sjó, ok þau Steinvör, er fyrr voru nefnd, þá spurðu hirðmenn konúngs, ef hann vildi þar at landi leggja, ok hitta Steinvöru, vinkonu sína. Konúngr svarar, ok kvað vísu þessa:

Vandfærra er vorrar
varbliks fyrir Stað miklu
þrey ek um aldr til eyjar
örborðs, enn var forðum;
nú er fyrir höfn þá er hafna
hlun sæfvar má ek æfva

gunnhvítínga grjóti
geirþorps boða vorpit.

Eigi skal ek nú hèr undir land leggja, sagði konúngr, af því at mèr sómir meirr, at gera vilja guðs heldr enn lifva eptir minni fýst rángri. Nú (má) af slíkum lutum sjá, hversu mikit hann unni almátkum guði, er hann virði meira vilja guðs í himinríki, enn sína eiginliga fýst[1].

[2]Ólafr konúngr hafði með sèr marga íslenzka menn, ok hafði þá í góðu yfirlæti ok gerði þá sína hirðmenn; einn af þeim var Sighvatr skáld, hann var Þórðarson; hann var fæddr útá Íslandi, á þeim bæ er at Apavatni heitir; þar bjó sá maðr er Þorkell heitir; hann fæddi upp Sighvat ok fóstraði; Sighvatr þótti heldr seinligr fyrst í æskunni. Í Apavatni var fiskiveiðr mikil á vetrum. Þat barst at einn vetr, þá er menn sátu á ísi, ok veiddu fiska, at þeir sá einn mikinn fisk ok fagran í vatninu, þann er auðkendr var frá öðrum fiskum; þann fisk gátu þeir eigi veitt. Austmaðr einn var á vist með Þorkeli, hann mælti einhvern dag við Sighvat, at hann skyldi fara til vatns með honum ok sitja á ísi; ok er þeir koma á ísinn, þá bjó austmaðrinn til veiðarfæri Sighvats. Síðan sátu þeir á ísinum um

1) *Hèrnæst koma kapitularnir, sem áðr standa að framan í viðraukunum: fyrst II kap. bls.* 178 *og þriði kap. af G; og þarnæst í einum kap.* 2 *fyrri kap. af G.* 2) *Þó þessi kap. sè áðr að framan prentaðr sem* 52 *kap. sögunnar eptir A, þótti honum ekki sleppandi hèr bæði orðamunarins vegna, og þess að eigi mátti skilja næst fylgjandi kap. frá honum.*

daginn. Sighvatr veiddi þá enn fagra fisk, þann er margir vildu veitt hafa. Síðan fóru þeir heim, ok sauð austmaðr fiskinn; þá mælti hann við Sighvat, at hann skyldi fyrst eta höfuðit af fiskinum, kvað þar vera vit hvers kvikendis ífólgit. Sighvatr át þá höfuðit ok síðan allan fiskinn, ok þegar eptir kvað hann vísu þessa:

Fiskr gekk oss at óskum
eitrs sem vèr höfum leitat
lýsu vángs or lýngi
leygjar orm at teygja;
atrennir lèt annan
aungulgripinn hánga
vel hæfir örriða at egna
agn gálga mèr hagnat.

Sighvatr varð þaðan af skír maðr ok skáld gott.

Annar var sá maðr, er Bersi hèt, ok var Skáldtorfuson, hann var ok skáld gott. Bersi varð rægðr við konúnginn, ok sagt at hann kynni ekki at yrkja nè kveða þat, er eigi var áðr kveðit. Þá lèt konúngr taka mörg sverð ok bregða ok setja niðr nökd í eina litla stofu. Þá lèt konúngr kalla Bersa. En er Bersi kom, þá mælti konúngr, at hann skyldi yrkja um þat, er sverðin voru uppreist. Þá kvað Bersi:

Sverð standa hèr sunda
sárs leyfum vèr árar
herstillis þarf ek hylli
höll rauð búin gulli;

viðr tæka ek vika
vil ek enn með þèr kennir
elds, ef þú eitthvert vildir,
alvaldr! gefa skáldi.

Þá gaf konúngr Bersa eitt gott sverð. Þriði var Þormóðr Kolbrúnarskáld; fjórði Björn Hítdælakappi; fimti var Þórir Nefjúlfsson, hann var spekíngr mikill ok forvitri; þá voru (bræðr) 2, hèt annar Þórðr, enn annar Þorfinnr, hann var skáld mikit. Þat var (eitt sinn) at Þorfinnr sat á reiðustóli fyrir Ólafi konúngi, þá mælti konúngr til hans: yrk, skáld! um þat er skrifat er á tjaldinu! Þorfinnr leit til, ok sá, at þar var markat á tjaldinu, at Sigurðr vann at Fâfni, ok kvað vísu:

Geisli stendr til grundar
gunnar jarðar munna
ofan fèll blóð á báðar
benskeiðr, en gramr reiðist;
hrystist hjörr í brjósti
hríngi grænna lýngva;
en fólkþorinn fylkir
ferr við steik at leika.

Átti Þorgeir Hávarsson; níundi Óttar svarti ok margir aðrir.

Eptir fall Erlíngs Skjálgssonar kvað Ólafr konúngr vísu þessa:

Lítt mun höldr enn hvíti
hrafn etr af ná getnum
vèr unnum gný gunnar

glaðr í nátt á Jaðri;
svâ hefir öllúngis illa
ek gekk reiðr um skeiðar
jörð veldr manna morði
mitt rán gefist hánum[1].

En Sighvatr kvað þessa vísu:

Drakk eigi ek drekkju
dag þann, er mèr sögðu
Erlíngs tál at jólum
allglaðr þess er rèð Jaðri;
hans mun dráp um drúpa
dýrmennis mèr kenna
höfuð bárum þá hærra
hart morð var þat forðum.

Eptir dráp Karla fèkk Þórir hundr mikla úblíðu af Ólafi konúngi. Sá konúngr rèð þá fyrir Finnmörk, er Möttull hèt; hann var heiðinn blótmaðr ok mjök fjölkunnigr; þángat fór Þórir á fund hans. Þórir gekk fyrir Möttul, ok kvaddi hann; konúngr tók kveðju Þóris, ok spurði, hve sætti, er hann var þángat kominn allt norðr. Þórir svarar: harðr var nú á annat borð, þvíat mèr (er) eigi úhætt nú heima at búum mínum fyrir Ólafi digra. Möttull svarar: þat mun eigi satt, er þú segir nú, at þèr muni eigi úhætt vera fyrir konúngi yðrum Ólafi, þvíat ek veit, at hann hefir lengi verit mikill vinr þinn, ok mun hann halda fast vinfengi sínu við yðr kristna menn, þvíat þèr,

[1]) *vísa þessi er að framan í* 169 *kap.*

kristnir menn! kallið konúng yðvarn vitran ok vel at sèr; nú er sá einn allvel at sèr, er bæði er vinfastr ok vingóðr. Þórir svarar: veit ek, at þú munt spurt hafa missætti þat, er gerzt hefir með okkr Ólafi konúngi, hversu hann tók af lífi Þóri, frænda minn, með mikilli svívirðíngu; fyrir þat hefir ek drepit nokkura menn, ok þó einum til fátt, er ek hefir eigi konúnginn sjálfan við velli lagt; nú er ek því á þinn fund kominn, at ek veit at þú ert bæði vitr ok stórráðr ok kannt mart þat, er eigi kunna aðrir menn; nú ætla ek mèr þar til trausts ok fulltíngis sem þú ert. Möttull svarar: ef þèr er þetta svâ gefit, sem þú segir, þá mun þèr at því verða, sem þú væntir; skaltu vera hèr með mèr við tólfta mann, ok bíða svâ þíns sóma; þvíat eigi munu fleiri mik heimsækja enn svâ af liði Ólafs konúngs, enn mèr er nauðsýn á at gera þeirra för góða híngat. Nú var Þórir þar, ok þeir 12 saman, ok nam þar fjölkýngi. Um vorit gekk Þórir fyrir Möttul, ok bað hann leggja til með sèr ráð sín ok hamíngju: þvíat ek treystum framarliga yðrum fróðleik um alla luti. Möttull svarar: fúss vil ek mína hamíngju tilleggja með þèr ímót Ólafi konúngi, ok svâ segir mèr hugr um, at þú munir um síðir sigrast á honum: nú eru hèr 12 hreinbjálfar, er ek vil þèr gefit hafa, hefir ek þá svâ signaða ok magnaða, at engan þeirra mun járn bíta. Þessa bjálfa hafði Þórir ok

hans menn á Stiklastöðum. Þessir höfðíngjar (seldu) hinn heilaga Ólaf konúng við verði, ok tóku fè til höfuðs honum, er nú mun ek telja í fyrstu: Erlíngr á Sóla, Erlendr or Gerði, Áslákr af Finneyjum, Hárekr or Þjóttu, Kálfr Árnason, Þórir hundr, Þorgeirr af Kviststöðum, Hrútr af Viggju. Með þeim gekk í lið Þorsteinn knarrarsmiðr ok Ólafr, frændi Kálfs, en þessa rót ok upphaf var alls Knútr enn ríki; ok þess spurði Ólafr konúngr hann eitt sinn, er þeir fundust, hví hann sýndi honum svâ mikil svik ok mótgáng: at þú vilt svíkja undan mèr lönd ok þegna, þar er ek vann Lundúnaborg með guðs fulltíngi þèr til handa, ok mæltu þat sumir menn, at eigi mundir þú hafa vorðit konúngr at öllu Englandi, nema ek hefði þèr lið veitt; nú dæmi almáttigr guð okkar á milli. Knútr konúngr svarar: þú gerðir fyrr sakar við mik, tókt af mèr ríki mitt í Noregi, þat er Haraldr, afi minn, hefir átt, þat Hákon jarl hèlt af honum; þat ríki átti síðan Sveinn konúngr, faðir minn, ok setti yfir Eirek jarl; þú rakt í braut Hákon, systurson minn, af föðurleifð vorri, hefir ek látit þik stýra 15 vetr þessu ríki, er vèr lángfeðgar höfum átt, ok launat þèr svâ liðveizlu, er þú veittir mèr í Englandi. Nú er mèr nauðr á, at ná þessu ríki annathvort með vèl eðr afli; en þó er ein sök sú, er mik eggj-

ar mest fram, at vera þinn mótgángsmaðr, en þat er sú, at allir konúngar, þeir er í nánd mèr ríkja, kyssa á knè mèr ok lúta mèr, nema þú ok Önundr konúngr, mágr þinn, en ef þið vildið þat gera, munda ek ekki gremjast ykkr. Ólafr konúngr svarar: hvârgi okkar er með minni tign enn þú, nè virðíngu, ok eigi viljum vèr með neinu lögmáli binda okkr til þjónustu við þik, þar er þú mátt litlu síðr heita hervíkíngr enn dýrðligr konúngr[1].

Ólafr konúngr efldi í mörgu kristinn rètt: hann lèt reisa kyrkju í hverju fylki, ok lagði próventur til. Ólafr konúngr var vænn maðr ok listuligr at yfirlitum, riðvaxinn ok ekki hár, herðimikill, rèttleitr ok bjarteygr, hárit ljósjarpt ok liðaðist vel, en nokkru rauðara skeggit; hann var rjóðr í andliti, ennibreiðr ok opinneygr, limaðr vel ok líttfættr, fastúðigr ok hugaðlátr, rèttvaxinn ok raundigr[2]; allra manna var hann vitrastr, ok sá hvert ráð, sem bezt gegndi, ef hann lèk í tómi við; en ef skjótliga komu at honum, þá var nokkut hætt. Hann var einvaldskonúngr yfir Noregi, svâ vítt sem Haraldr hinn hárfagri hafði átt, frændi hans; rèð fyrir norðan, Gandvík, en

---

1) *Hèr kemr í þessum viðbætir kap. um ferjun Olafs k. á tíðamönnum, sem áðr er prentaðr bls.* 181 *eptir H, og er þar lítið fjölorðari.* 2) *þannig.*

fyrir sunnan, Gautelfr, en Eiðaskógr fyrir austan, Aungulseyjasund fyrir vestan; þessu ríki stýrði engi einn milli Haralds hárfagra ok Ólafs ens helga. Ólafr konúngr kristnaði þetta ríki allt: öll blót braut hann niðr ok öll goð, sem Þór Engilsmannagoð, ok Óðin Saxagoð, ok Skjöld Skánúngagoð ok Frey Svíagoð ok Goðorm Danagoð, ok mörg önnur blótskapar skrímsl, bæði hamra ok hörga, skóga, vötn ok trè ok öll önnur blót, bæði meiri ok minni. Hann hafði með sèr merkiliga kennimenn: Grímkel biskup ok Sigurð biskup; þeir kendu kenníngar ok skírðu menn. Lítils virðist konúngi öll hègómlig gleði ok dýrð þessa heims ríkis, fyrir sætleik himnesks fagnaðar; hann mátti heita hertugi guðligra orða. Líf hans ágætt ok dásamlig góðfýsi kveikti margra manna hjörtu til hafnanar veraldar ok til ástar himinríkis dyrðar. Hvers manns þrágirni mundi svâ mikil vera, at eigi mundi mýkjast við sætt mál hins ágætasta konúngs, fullt af andligri speki. Eigi at eins trúði hann á allmáttkan guð, heldr bar hann mörg meinlæti fyrir guðs sakir. Mikill bruni heilagrar trúar brann í hans brjósti. Konúngr virði mikils kyrkjur ok kennimenn ok allan kristinn dóm; hann gaf atvinnu aumum mönnum, klæddi hann kalna, gaf fè föðurlausum, ekkjum ok útlendum, þeim er fátækir voru, huggaði hann hrygga,

ok studdi alla ráðvanda menn bæði (heilræðum) ok öðrum tillögum; hann var harðr við hermenn ok heiðíngja, stirðr við stuldamenn ok ósvífr við alla úsiðamenn; hepti hann höfðíngja ok alla alþýðu at öllum úsiðum; hann refsti rán, ok hegndi hart, ef guðs rètti var raskat, en fyrirgaf linliga þat, er viðr hann var misgert. Misjafn var orðrómr á um hans mál ok framferði, meðan hann lifði í þessum heimi, þvíat margir kölluðu hann ríklyndan ok ráðgjarnan, hardráðan ok heiptúðigan, fastan ok fègjarnan, ólman ok údælan metnaðarmann ok mikillátan, ok þessa heims höfðíngja fyrir alls sakir. En þeir, er gjörr vissu, kölluðu hann linan ok lítillátan, hægjan ok huggóðan, mildan ok mjúklyndan, vitran ok vingóðan, frægjan ok fályndan, tryggan ok trúlyndan, forsjálan ok fastorðan, gjöflan ok góðgjarnan, góðan ok glæpvaran, stjórnsaman ok stiltan, vel geyminn at guðs lögum ok góðra manna frelsi; ok hafa þeir rètt rætt um hann, er svâ hefir sýnzt, sem nú verða margar raunir á. Ef hann fann þat í lund sinni, at eigi væri alleins sjálfs hans fýst ok guðs vilì, þá braut hann optliga sinn vilja, en gerði guðs vilja, ok leitaði jafnan hans dýrðar, meirr enn sinnar vírðíngar at rèttsýnna manna áliti; marga luti gerði hann til nytsemdar guðs kristni. Hann lèt kyrkju gera á Íslandi á Þíngvelli, þar sem nú er honum helg-

uð kyrkja; hann var mildr formælari góðra manna, en ógnarligr hegnari vondum mönnum. Enginn Noregs konúnga var honum jafn, hvârki áðr nè síðan, þvíat hann unni mikit allsvoldugum guði, ok gekk guðs götur ávalt, ok gerði hans boðorð; fyrir því var drottinn með honum í öllum lutum, þeim er hann gerði vel ok spakliga, ok því lætr almáttigr guð nú því meiri hans dýrð birtast, sem hann dýrkaði sjálfan guð framar í sínu lífi, en lítillætti sik framar fyrir guði ok mönnum. Engi túnga má tína, nè hugr hyggja, hversu mikit gott konúngrinn veitti sínum mönnum í lagasetníngu ok huggan fátækra manna, í optleik heilagra kennínga, í stjórn ríkis síns, í ást við almáttkan guð ok almenniliga kristni, í helgu bænahaldi ok fögrum dæmum heilagrar atferðar. Skín hann nú því hærra í himinríkis dyrð með allsvaldanda guði, sem hann lifði hreinligar í þessum heimi, enn flestir konúngar aðrir á Norðrlöndum; gerir hann svâ háleitar jartegnir með guðs vilja ok forsjá, ok margar, sem seint eðr eigi munu skrifaðar verða. Hafið nú þat af samsettri sögu Ólafs konúngs allri saman, sem yðr lízt sannligt vera, þvíat í fornum sögum verðr mörgu samanblandat, er þat ok eigi úlíkligt, þar er menn hafa sögusögn eina til; en því trúi

menn fastliga, at þat mun allt sannast, er frá Ólafi konúngi er bezt sagt; væntir ek þess ok, at hinn heilagi Ólafr mun eigi fyrirkunna menn, þóat nokkut sè falsligt í, þvíat menn hafa þat meir gert fyrir sakir skemtanar mönnum, enn til áleitni við konúnginn eðr nokkurra illenda.

---

*A.*

# Hèr hefr upp þátt Styrbjarnar Svía kappa, er hann barðist við Eirek Svía konúng.

Fra því er at segja, at Eirekr ok Ólafr rèðu Svíaveldi, synir Bjarnar hins gamla. Ólafr átti Íngibjörgu, dóttur Þrándar súlu jarls; Úlfr hèt bróðir hennar; Björn hèt son Ólafs ok Íngibjargar. Ólafr varð bráðdauðr af eitri undir borðum at Uppsölum. Eirekr fæddi Björn upp með hirð sinni, eptir er faðir hans var andaðr; Úlfr fóstraði hann. Þá er Björn var 12 vetra, sat hann á haugi föður síns, ok kom eigi undir borð með konúngi, þá taldi hann til ríkis í fyrsta sinn, ok kvað líkt tilfarit ríkinu yfirsjónar ok aldri sínum, ok kvað nokkut bernsliga framfara; hinn sami atburðr gerðist um þat annat vorit, ok hit þriðja. Eirekr taldi hann eigi tilkominn til konúngdóms nè til erfðar, fyrr enn hann væri 16 vetra, en þá kveðst hann mundu láta vera kyrt fyrir sína hönd. Á þeim misserum urðu þeir missáttir, Áki, hirðmaðr Eireks, ok Björn; rak Björn slæður yfir höfuð honum, en Áki rak horn á nasir Birni, en þann

sama dag drap Björn Áka fyrir hallar dyrum, þat vildi Björn öngvu bæta, en konúngr bætti þat, ok varð þá konúngr at fara til veizlu annarar, en Björn var þar eptir, ok beið þíngs; en á þíngi rèðu bændr mann til af litlum stigum, þann er Birni varnaði konúngdóms, var sá til konúngs tekinn yfir þeim hluta lands, er Birni bar til; eptir þat riðu þeir Björn ok Úlfr af þíngi, slitu þeir nú svâ þínginu, at alþýða manna kastaði eptir þeim torfi ok grjóti. Þat rèðst litlu síðar, at Björn fór til hirðar með konúngi; nokkuru eptir þat leysti konúngr Björn af hendi með 60 skipa alskipaðra ok vel búnum at öllu, ok skyldi hann vera á burtu 3 vetr, þvíat hann þóttist eigi mega hafa hann í ríkinu, sakir framgirni ok óspektar ok þys bændanna. Síðan fór Björn í brottu, hèlt hann þá frèttum til, hvar vera mundi konúngr þeirra Svíanna hinn nýtekni; fór Björn þá til móts við hann, ok átti við hann bardaga, ok feldi hann; fór Björn í Austrríki, ok herjaði þar, ok skyldaði menn víða til herfarar með sèr; á þriggja vetra fresti náði hann Jómsborg á Vindlandi, ok varð þar yfirhöfðíngi; þar urðu undr þau, þá er hann var þar með lið sitt, at í díki því, er um var gert borgina, kom upp fingálkn mikit, ok kvað þetta:

Hildr stendr hverjan myrginn
hjaldrs undir rauðum skildi,
nú hafa sigrmeyjar settan

sverðleik Dönum harðan;
eigut víga veigi
við-baldurs föðr illan
Óðinn hörðr sem allir
óljósan val kjósa.

En áðr enn Björn fór or landi, gaf Eirekr konúngr honum viðrnefni af harðfengi sinni ok styrjöld, ok kallaði hann Styrbjörn. Hann fór nú í vestrvíkíng í Danmörk, gerði hann úfrið mikinn. Þat varð at sætt við Dani, at hann gekk at eiga Þyri, dóttur Haralds Gormssonar, enda skyldu þeir fá honum hundrað skipa, ok heyja með honum 3 fólkorrostur. Ok þá er hann hafði eina nátt hvílt inni, þá fór hann til Vindlands til Jómsborgar, af því at þar var kominn fjöldi liðs or Austrlöndum til móts við hann, ok námust förina, ef hann kæmi eigi; en með liði því öllu fór hann aptr til Danmerkr, ok hafði hann þá 10 hundruð herskipa, ok lèzt mundu setjast í bú þeirra Dana, nema fengi þeir honum 2 hundruð herskipa, ok mann þann, er hann kjöri í förina, en hann kaus Harald konúng; þá kvóðu Danir vísu:

Eigi vildu Jótar
reiða gjald til skeiða
áðr Styrbjarnar stæði
strandar dýr á landi;
nú er Danmarkar drottinn
í drengja lið genginn

landa vanr ok lýða
lifir ánauðr hann auðar.

Síðan fóru þeir Styrbjörn með öll þessi herskip til Svíþjóðar.

*Orrosta Eiríks ok Bjarnar Svíakappa.*

2. Þorgnýr hèt maðr ok var Þorgnýrsson, hann var lögmaðr á Tíundalandi, ok svâ hafði faðir hans verit, hann var allra manna vitrastr, er þá voru í Svíaveldi, hann var í mikilli virðíngu með Eireki konúngi, þvíat þar var lausn ok band allra vandamála, sem Þorgnýr var; hann var þá mjök aldraðr, er hèr er komit sögunni, ok lítt sýndr. En er Eirekr konúngr spyrr liðsafnað Styrbjarnar, þikist hann vita at hann mun ætla at vinna Svíaveldi undan honum, stefnir hann þá þíng, ok leitar ráðs við spekínga sína. Þorgnýr lögmaðr lagði þat til, at hann bætti mjök lög við alþýðu, ok gerði rètt manna góðan, ok kvæði á hvat vopna eðr herklæða hverr bóndi skyldi eiga; hann skyldi ok láta stika þjóðleið þá, er til Uppsala lá, svâ at eigi væri þar skipum fært. Þrír menn voru þeir með konúngi, er hann hafði í mikilli virðíngu, þeir voru ekki vinsælir af alþýðu, þó voru þeir garpar miklir, ok máttu þó litlu síðr heita illvirkjar enn hreystimenn; einn þeirra hèt Helgi, Þorgisl ok Þórir. En er Styrbjörn kom við Svíþjóð, varð hann var við viðrbúníng þann, er þar var fyrir; hèldu þeir at landi, þar sem þeim þótti friðligast; þeir tóku at

ryðja götu í gegnum skóg þann, er Myrkviðr heitir, en þá voru menn gervir ímót þeim, ok bönnuðu þeim ferð yfir skóginn. Styrbjörn gjörði þeim 2 kosti, at hann mundi brenna skóginn, nema þeim væri lofut ferð yfir hann. Eirekr konúngr kaus, at þeir færi yfir skóginn; Styrbjörn komst með lið sitt allt á Fýrisvöllu; Styrbjörn brendi skip þau öll, er hann hafði þángat haft, þvíat hann ætlaði at menn mundi þá síðr flýja, er engi var kostr í brott at komast. Þorgnýr lögmaðr lagði þat ráð til með Eireki konúngi, at hann skyldi láta safna saman öllum eykjum, hestum ok uxum, ok gera ok á alla, ok slá fram or okunum brodda ok atgeira, þar skyldi þrælafólk ok illþýði fara eptir á; var ok svâ gert, at þessu öllu saman var fyrst hleypt á lið Styrbjarnar enn fyrsta dag, ok fèkk Styrbjörn af þessu mikit mannspell; annan dag börðust þeir ok fylktu liði; engi var þá liðsmunr; þar var Hemíngr jarl með Styrbirni; nátt skildi þá. Styrbjörn blótaði þá Þór at áeggjan Úlfs, fóstra síns, ok alþýðu; þá nótt var sènn maðr rauðskeggjaðr í herbúðum Styrbjarnar, ok kvað þetta:

Lætr eigi mik lýtir
liðbands sá er frið grandar
reiðr er ek stála stýri
Styrbjörn vera kyrran;
þat mun sað um síðir
sigr nennum her kenna

roðinn eru leyfðra lofða
lindis sár at binda.

Þá nótt hina sömu gekk Eirekr í hof Oðins, ok gafst honum til sigrs sèr, ok kvað á tíu vetra frest síns dauða, mörgu hafði hann áðr blótat, þvíat honum horfði úvænna; litlu síðar sá hann mann mikinn með síðum hetti, sá seldi honum reyrsprota í hönd, ok bað hann skjóta honum yfir lið Styrbjarnar, ok þat skyldi hann mæla: Oðinn á yðr alla; ok er hann hafði skotit, þá sýndist honum gaflak á lopti, ok fló yfir fólk Styrbjarnar, ok þegar sló blindi á lið Styrbjarnar, ok síðan á sjálfan hann; ok eptir þat urðu svâ mikil undr, at skriða brast upp í fjallit, ok hljóp ofan á lið Styrbjarnar, ok drapst allt hans fólk; ok er Haraldr konúngr sèr þat, lagði hann á flótta, ok allir Danir, ok höfðu sýn sína, þegar þeir komu á brott þaðan, er spjót hafði komit ok flogit yfir þá; þeir komu til Danmerkr. Styrbjörn bað sína menn stínga niðr merkisstaungum ok flýja hvergi; þar fèll Styrbjörn ok allt lið hans; Þá var Eirekr á Uppsala brekku, ok bað yrkja þann er kunni, ok hèt launum fyrir. Þorvaldr Hjaltason orti vísur þessar:

Farit til Fýrisvallar
fólka túngls hverr er húngrar
verðr at virkis garði
vestr kveldriðu hesta;
þar hefir hreggdöggvar höggvit

hóllaust er þat sólar
elfar skins fyrir úlfa
Eirekr í dyn geira.

Ok enn kvað hann:

Ill varð elfar fjalla
auðkveðjundum beðjar
til Svíþjóðar síðan
seimir víkínga heiman;
þat eitt lifir þeirra
þeir höfðu lið fleira
gott var her at handa
hundíngs er rann unda.

Þorvaldr þá at launum hálfrar merkr hríng fyrir hvora vísu; ekki orti hann áðr nè síðan, svâ at menn vissu.

*B.*

# Hróa þáttr.

## *Frá Hróa.*

Hroi hèt maðr, er uppfæddist í Danmörku, hann var góðs bónda son, hann var atgervimaðr ok sterkr at afli, ok vel viti borinn. Hrói var jafnan í kaupferðum, ok aflaði sèr þannveg fjár, hann var hagr vel, svâ at hann aflaði enn löngum á því mikils fjár. Þá rèð fyrir Danmörku Sveinn konúngr Haraldsson, er kallaðr var Tjúguskegg, hann var vinsæll konúngr af sínum landsmönnum. Þat var eitt sumar at Hrói braut skip sitt við land sunnarla við Danmörk, ok týndi þar fè öllu því er á var, menn hèldust at kalla, ok gengu á land; þá tók Hrói at smíða, ok aflaði sèr fjár, hann var vinsæll við sína fèlaga, ok eigi hafði hann lengi þessa iðju haft, áðr honum greiddust peníngar, þvíat hann var hinn mesti þjóðsmiðr; en lèk á hinu sama, at honum fórst eigi vel með fèð, þvíat þegar hann hafði fè dregit sem hann vildi, þá fór hann or landi ok týndi fènu. Hrói var auðkendr sýnum frá því sem flestir menn aðrir í yfirlitum, þvíat auga hans var annat blátt, en annat svart, en maðrinn var hinn vaskligasti ok vel stiltr, þótt hans væri eigi vel leit-

at; hann græddi jafnan fè, þegar hann var á landi, en hann týndi þegar er hann fór í kaupferðir; en þá er hann hafði þrisvar skip sitt brotit í kaupferðum, þá þóttist hann skilja, at honum var ekki sjá iðn ætluð; en þat var þó næst skapi hans, at fara landa á milli með kaupeyri sinn; ok er svå var komit, þá kemr honum í hug, at hann skal fara á fund Sveins konúngs, ok vita hvat er hann leggi til ráðs með honum, þvíat hann vissi at hann var heilráðr honum, ok margir hlutu gott af hans ráðum. Hrói gerir nú svâ; ok er hann kom fyrir konúnginn, kvaddi Hrói hann. Konúngr spurði: hverr ertu? Hrói heitir ek, segir hann. Konúngr spurði: ertu Ófara-Hrói? Hann svarar: annars væri mèr meir þörf af yðr at þiggja enn slík skjótyrði, vilda ek heldr at þèr legðið til við mik fè ok hamíngju þína, ok kann vera at þá dugi, vænti ek at þá megi meira gipta yðr ok hamíngja enn úgæfa mín. Sveinn konúngr mælti: ef þú ætlar giptu at sækja á minn fund, þá er þat vænst at við gjörim fèlagsskap, ef þú vill. Menn sögðu at konúngi væri þetta úráðligt við slíkan úgiptumann, sem Hrói var, at gera fèlag við hann, ok kvóðu hann þegar mundu týna fènu. Konúngr svarar: þat skal áhætta, hvårt meira megi konúnglig gipt eðr úgæfa hans. Síðan lagði konúngr fè til við Hróa, ok skyldu eiga báðir saman. Hrói leggst nú í kaupferðir

með þessu konúngs tillagi, at eigi skyldi hans gjald vera, þóat týndist fèð, en njóta ef græddist, ok greiða konúngi þá jafnmikit fè, sem hann fèkk honum fyrir öndverðu. Hrói fór nú leið sína, ok tókst vel til um ferðirnar, ok græddist nú skjótt fè, ok kemr aptr at hausti til konúngs með miklu fè, ok skamt líðr áðr enn hann gerir velauðgan, var hann þá kallaðr Hrói hinn auðgi, eðr Hrói hinn prúði, ok fór hann með þessu konúngs tillagi hvert sumar til ýmsra landa.

*Frá Hróa.*

2. Eitthvert sinn mælti Hrói til konúngs: nú vil ek at þèr takið yðvarn hlut, herra! at eigi beri svâ illa til, at ek týna yðvarri eigu. Konúngr svarar: ætlar þú þèr þat betr gegna, at okkart fèlag sè eigi lengr; en eigi þætti mèr þat úráðligt, at þú værir hèr innan lands í mínu trausti, ok kvæntizt þú ok settizt um kyrt með minni forsjá, ok lízt mèr eigi vænna, at þú búist nú í kaupferðina, þiki mèr því slýsa vænna, sem þú hefir nokkut áðr af því reynt. Hrói vill nú skipta fènu, ok svâ var gert. Sveinn konúngr mælti þá: þitt ráð er þetta, Hrói! en eigi mitt, ok betr þætti mèr, alls þú hefir þó áðr giptu til mín sótt, at hún hèldist þèr. Menn tóku undir, at þat hefði hann reynt, at skjót væri konúngs gipta í hans nauðsýn. Konúngr kvað hann vel hafa með sèr verit, ok sagði vera skaða mikinn, ef hann rataði í nokkra

úlykku; ok skilja nú við þetta. Hrói rèðst nú í kaupferðir, ok hefir auð fjár; hann siglir nú til Svíþjóðar ok heldr upp Löginn, ok lögðu at við völlu nokkura; Hrói átti þá einn alla áhöfn á skipinu. Ok einn dag gekk hann á land einn-saman, ok er hann hafði gengit um stund, kom maðr á móti honum, sá var jarpr á hár ok rètthærðr, ok var heldr fræknligr. Hrói spurði þenna mann at nafni, en hann lèzt Helgi heita, ok vera hirðmaðr Eireks konúngs; hann spurði hverr kaupmaðrinn væri? Hrói sagði til sín, ok kannaðist Helgi við hann, ok lèzt hafa sèð hann fyrr. Helgi kveðst vilja kaupa við hann. Hrói spyrr, hversu mikit hann vill at því gera? þá svarar Helgi: veit ek at þèr Danir eruð hèr komnir við land, ok er mèr svâ sagt, at þeir sè allir leigumenn þínir, en þú eigir alla áhöfn á skipinu: nú vil ek kaupa at þèr farm-inn allan, ef þú vill. Hrói kvað hann vera stórkaupamann mikinn. Helgi kveðst kunna at kaupa smám kaupum sem stórum. Hrói spyrr: hvar er fè þat, er ek skal af þèr taka? Helgi bað hann gánga með sèr, ok kvað hann þá sjá mundu, at þat var ekki fals, er hann bauð honum. þeir gengu nú þar til er ein skemma stóð fyrir þeim, hún var full af varn-íngi; þetta fè bauð Helgi allt við farminum, sem þar var inni, ok sýndist Hróa sem all-kaupmannliga mundi vera viðboðit, ok mundi eigi mikit afkaup í vera, þóat þeir skipti

þessu, þóttist hann fá hagkeypi á varníngi; fór þat fram at þeir kaupa þessu, ok láta ákveðit með sèr; skilja nú at svâ mæltu, ok ferr Hrói til skips síns.

*Ráð Þorgnýrs jarls við dóttur sína.*

3. Þegar hinn næsta dag eptir kemr Helgi ofan með marga menn ok faraskjóta, ok lætr flytja í brott varnínginn, svâ at allr var í brottu um kveldit, ok skorti Helga til þess hvorki menn nè eyki. Eptir fá daga gengr Hrói einnsaman á land upp, ok ætlaði at skipa til flutníngar at flytja ofan varníng sinn; þá var liðin ein nóttt fram yfir þat, er skilit var at hann skyldi sækja láta; þótti Hróa sem hvorigum mundi viðliggja um nótt, þóat hann kæmi seinna enn mælt var, þvíat Hrói átti mart at annast. Hrói var í góðum klæðum, þvíat hann var skartsmaðr mikill, hann hafði bellti ágætt ok kníf, ok kom mikit fè til hvorstveggja, hann hafði góð vopn ok góðan skarlaks kyrtil með skikkju hlaðbúinni yzta klæða; veðr var gott, hann fór þartil er hann kom til skemmunnar, ok stóð hún opin, en fè sitt sá hann hvergi; honum þótti þetta undarligt, gengr hann umhverfis skemmuna, kemr hann þar at í einhverjum stað, er Helgi svaf. Hrói spurði, hvar fè hans var. Helgi kveðst ekki fè vita, þat er hann ætti. Hrói spurði, hví svâ má vera. Helgi kveðst út hafa borit fèit at þeirri stundu, sem ákveðit var,

en ek sá þik þá eigi eptir koma; nú var þess engi von, at ek láta þar standa fèit fyrir hvers manns höndum, ok því lèt ek í burt flytja fèit, ok ætla ek mèr þat nú allt, en ekki þèr. Hrói kvað hann skjótt skipta ok eigi jafnliga, ok er ekki undarligt þótt þèr safnist skjótt fè, ef þú sætir slíkum leynibrögðum opt. Helgi kvað sèr við slíkt hafa framfluzt nokkura stund, ok sagði sèr dugat hafa til þessa; en konúngr á sök á því, segir Helgi, er þú varðveittir þitt eigi, þvíat þat eru hèr landslög, at hverr skal sitt varðveita, svâ at eigi megi hverr þjófr stela, ella á konúngr sök (á) honum, nú skal á þessu máli konúngsdómr vera. Hrói kvað eigi at fèvænligar horfa, ef konúngr vildi nokkut halda á þessi sök við hann. Við þetta skilja þeir, ok gengr Hrói til garðs annars, ok er hann kemr mjök svâ í garðinn, sá hann at 2 menn gengu snúðigt eptir honum, var annar mjök líkr kaupunaut hans; Hrói hafði kastat beltinu á háls sèr, ok þar hèkk við knífr einn harðla fèmikill; þessi maðr hèt Þorgisl, er fyrir gekk, hann var bróðir Helga, hann seildist eptir beltinu, þegar þeir fundust, ok mælti við: svâ gengr hverr at sínu, þetta belti ok kníf tóktu frá mèr í Vallandi, en ek lèt mèr smíða þessa gripi í Englandi. Hrói svaraði: ekki þiki mèr enn horfa fèvænliga, ok brosti við; síðan

gekk Hrói leið sína, en þeir snèru aptr; ok er hann hafði eigi lángt gengit, þá gekk maðr í móti, sá var mikill ok illiligr, hann hafði eitt auga, ok er þeir fundust, spurði Hrói, hverr sá maðr væri. Hann svarar: kenna ætta ek þik, þvíat ek hefir á mèr merki, at við höfum sèzt fyrr. Hrói spurði, hvat helzt væri til merkja um þat. Sá maðr mælti: eigi þarftu at bregðast ókunnr við þat, þú fæddist upp (í) Danmörk, sem þú veizt, ok vart maðr einsýnn, ok eittsinn er þú hafðir farit kaupferð ok látt við Samsey nokkurar nætr, þá var ek þar fyrir, þú hafðir með þèr ok keyptir þú at þeim, at þeir finnvitkaði or mèr augat, má hverr maðr sjá, er vits er vitandi, at þessi augu hafa í einum hausi verit bæði, hefir þú nú annat, en ek annat, ok skal konúngr hèr um dæma á morgin, ok um þat er þú tókt belti ok kníf af Þorgisli, bróður mínum. Ekki kennumst ek við þetta, segir Hrói, en vera þiki mèr nú mega, at sökótt verði nú í dag, ok brosti at lítinn þann. Eptir þat skildu þeir, ok gekk Hrói til skips síns, hann gat ekki um þetta fyrir sínum mönnum, ok fann engi maðr, at honum líkaði eigi allt hit besta. Ok um morguninn eptir gekk Hrói til borgarhliðs, ok var einn í för, ok er hann kom þar, stóðu skemmur hjá honum, þángat heyrði hann mannamál, ok tók maðr til orða: hvort mun Hrói sjá hinn heimski

koma til þíngs á morgin? Annar svarar: þeim manni horfir óvænt, þvíat konúngr dæmir jafnan eptir því, sem þeir flytja bræðr, hvort sem þat er rètt eðr rángt. Hrói lèt sem hann heyrði eigi, ok gekk leið sína; hann kom þar at, sem kona ein úng gekk til vatns, öngva þóttist hann sèð hafa konu fríðari enn þessa; ok er hann kom at henni, leit hún við honum, ok mælti: hverr ertu? Ek heiti Hrói, segir hann. Ertu Hrói hinn heimski? segir hún. Hann svarar: ek ætla þat nú vera ærit mikit sannnefni, en átt hefi ek æðri nöfn fyrr: eðr hvert er þitt nafn? segir hann. Hún segir: ek heiti Sigrbjörg, ok er ek dóttir Þorgnýrs lögmanns. Hrói mælti: vilda ek njóta vizku hans: eðr hvort muntu vilja nokkut veita mèr dugnað? Hún svarar: lítit er föður mínum jafnan um danska menn, enda er hann ok engi vin þeirra bræðra, ok jafnan verða þeir fyrir honum at láta sinn hlut. Hrói spurði: viltu nokkut ráð leggja til með mèr? Engi hefir fyrr til mín ráða leitat, segir hún, ok er eigi sýnt at ek kunna þat ráð, at þèr gagni, þótt ek vildi nokkut tilleggja, en ærit ertu girniligr maðr; gakk nú með mèr ok nem stað undir loptskemmunni minni, ok mun gjörla, hvat þú heyrir mælt, þat er þèr megi gagn at verða, ef nokkur leggr ráð á með þèr. Hann sagði svâ vera skyldu.

Hún gengr nú í brott, en Hrói var þar undir loptskemmunni. Þorgnýr kendi röddina dóttur sinnar, er hún gekk í skemmuna, ok spurði hann: hvernveg er veðr úti, dóttir? Gott er veðr, segir hún. Þorgnýr mælti: hvârt mun Hrói hinn heimski koma á þíngit í dag? Hún kveðst þat eigi vita. Þorgnýr spurði: hví andvarpar þú svâ, dóttir! þúngliga? hefr þú fundit hann Hróa hinn heimska? hvort sýnist þèr hann allvænligr ok eiguligr? viltu nú veita honum lið ok ásjá? Hún mælti: seg þú nú þá, ef þú værir í þvílíku vandræði staddr, sem hann er, hvat þú mundir tiltaka, en engi mundi tiltaka vilja fè til at flytja þitt mál. Þorgnýr svarar: engi vandræði þiki mèr þetta, ek mundi koma láta prett í móti prett, ok mun Hrói kunna at gjöra þat í móti Helga; má þat hverr maðr skilja, ef maðr grípr upp eigu manns með flærðum ok svikum, ok ann honum engis góðs fyrir, konúngr á sök á þeim manni, ef satt skal uppi, ok má hann gera hann at þjóf, ok af allri eigu sinni ok sæmd; en vel má Hrói gjalda lýgi í móti lýgi, ok mun Hrói kunna þat allt áðr. Hún svarar: eigi væri hann þá Hrói hinn heimski, ef hann væri jafnvitr þèr; en hversu skyldir þú þá meðfara, ef maðr kallaði til auga þíns, segir hún, eðr hverju mundir þú þar fyrir svara? Þorgnýr svarar: láta koma fádæmi móti fádæmum. Síðan segir Þorgnýr henni, hvat er hann mun

hvorigu láta í móti koma, ok kemr sú frásögn síðar fram.

*Viðreign Hróa ok Helga.*

4. Eptir þetta gengr Sigrbjörg í brott, ok hitti Hróa, ok spurði, hvorsu hann hefði hugfest þat, er honum var ráðit; en hann kveðst ætla, at hann mundi mjök vel muna mart í. Hún mælti: far þú í lið föður míns, þá er hann ríðr til þíngs, ok hirð ekki um átölur hans, þóat hann kasti kaldyrðum á þik, þvíat hann þikist vita, at ek hefir fundit þik, ok reitt hug til þín, en ek vænti at hann sè þèr sinnaðr í þraut, því heldr er hann veit, at mèr þikir meira máli skipta; en ekki fær ek ráðit þèr ráð, ef þèr verðr þetta ekki at ráði. Þau skilja nú at svâ mæltu; ok er Þorgnýr var búinn ríðr hann til þíngs, ok mætir Hrói honum þegar við borgarhliðit, ok kvaddi hann vel. Þorgnýr mælti: hver ertu? en Hrói segir til sín. Þorgnýr spurði: hvat vill Hrói hinn heimski í mitt lið: far annan stig, ekki vil ek at þú farir með oss. Hrói svarar: ekki muntu spara í orð við mik at gánga eptir, ok fara leið þá sem ek vil, með því at þèr sè ekki mein at mèr, en mèr er hèr ókunnigt, ok vilda ek njóta föruneytis yðvars; berr mèr ok ærna nauðsýn til at fara þessa ferð, ok flytja nokkut mitt mál. Þá tóku menn undir, ok sögðu þat satt vera; fara nú þartil, er þeir koma á þíngit, ok hafði Þorgnýr mikit lið; þar var ok kominn

fjöldi landsmanna. Þorgnýr mælti, er menn komu á þíngit: eru þeir bræðr hèr komnir, Helgi ok Þorgisl? Þeir sögðust þar komnir. Þat er þá ráð, segir Þorgnýr, at gera konúngi kunnigt um skipti yðr Hróa hins heimska. Helgi segir: þat segi ek, at svâ var mælt með okkr, at Hrói skyldi eiga allan varníng þann, er í skemmunni var, en ek skyldi útbera ok eyða skemmuna, ok ákveðit nær Hrói skyldi eptirkoma, en ek skyldi þar í móti taka farm allan af skipi hans, ok flytja þat í brott, en nú gerði ek eptir því, herra! segir hann, sem skilit var; ok þá er ek hafða rudda skemmuna ok borit út varnínginn, þá var Hrói eigi þar kominn, síðan lèt ek í brott flytja, ok vilda ek eigi, at þjófar stæli í brott, ætla ek mèr nú fèð, en þèr, konúngr! eigið sök á honum, er hann varðveitti eigi góts sitt, ok vildi at aðrir spilti sèr á fè hans; nú skulu þèr, herra! hèr um dæma. Konúngr mælti: prettr var þetta, en vera kann at þú komist til fjárins, ef þann veg er um farit: eðr var svâ mælt, Hrói? Hann kveðst eigi þess dylja mega; en þó er hèr, herra! grein í: á þat urðu við Helgi sáttir, er við keyptumst við, at ek skyldi eiga allt þat, er í var skemmunni, nú kalla ek mèr öll skriðkvikvendi, mölu ok maðka, ok öll spillidýr, þau sem inni voru, tel ek hann skyldan þessu út at ryðja, ok öllu því sem inni var, en ek hygg at hann hafi þat eigi gert; þarmeð eigna ek mèr hann

Helga, þvíat hann var þá inni í skemmunni, er við keyptum, ok báðir við; en þóat hann sè illr maðr, þá má hann þó vera þræll minn, eðr ek sel hann mannsali; nú eigiþèr, herra konúngr! hèr um at dæma. Konúngr mælti: við brögðótta áttu nú um, Helgi! ok eigi óvitra. Þorgnýr mælti þá: vel mælist þèr, Hrói! ok er hèr úhægt til mótmælis. En hvat er at tala um skipti ykkar, Þorgisl? Þorgisl svarar: þat kalla ek at Hrói hafi tekit frá mèr kníf ok belti, ok hvortveggja mikla gersemi. Þorgnýr mælti: þá mun Hrói hèr verða at svara, til nökkuru, eðr gánga við ella, ef honum þikir þetta satt vera. Hrói mælti: hèr mun ek verða at svara til nokkru: ek fæddist upp í Danmörku, ok átta ek mèr bróður, er Sigurðr hèt, hann var at öllu efniligri maðr enn ek, hann var sýnu ýngri; ok eitt sinn fór hann með mèr til Vallands í kaupferð, hann var þá tólf vetra gamall; ok einn dag á markaðinum hitti sveinninn fyrir sèr mann einn mikinn ok rètthærðan, þeir slógu þegar kaupi saman, ok gekk af mikit fè í sjóði, er sveinninn átti, svâ at hinn hafði þar ekki ímóti at gefa, en sá var þó fèskygn, er til móts var kominn við hann, ok vildi hann flest til fjárins; gerðist þat af at hann drap sveininn ok vildi myrða, en menn urðu þá varir við ok sögðu mèr; en er ek kom at, þar er bróðir minn var dauðr, þá var þessi maðr í brottu, lá þar eptir knífrinn ok beltit, en fè

var allt í brottu; nú hefi ek þannveg komizt at þessum gripum, ætla ek at Þorgisl hafi stolit fènu, en drepit bróður minn: nú skulu þèr, herra! hèrum dæma. Þorgnýr mælti: slíkt eru sannliga ólífismenn, sem þeir bræðr eru.

*Af boðum Hróa við Þóri.*

5. Nú gengr Þórir bróðir þeirra Helga ok Þorgisl, þá mælti hann svâ: hèr mun um vandamál mest at dæma, sem ek á hlut í; sagði hann síðan sögu sína, hversu hann hafði mist auga síns, sem fyrr var ritat; nú vænti ek, herra! at þèr gerið góðan minn hlut, segir hann, þvíat hèr má hann eigi ímóti þræta, at svâ er farit, sem ek segi; eigu þèr, herra! ekki at virða útlenda menn meira enn oss bræðr, þvíat vèr höfum lengi verit yðr þarfir, ok lagizt ekki undir höfuð þat, sem þèr hafið viljat fyrir oss leggja. Konúngr mælti: þetta er undarligr hlutr ok fáheyrðr, en þó skaltu, Hrói! svara hèr fyrir nökkuru. Hrói svarar: ekki kennumst ek við þetta, ok vel má ek til skírslu, at þetta er úsatt á mik sagt; en þó skulu hèr boð í móti koma af minni hendi fyrir yðra skyld, herra! Lát oss heyra þá, segir konúngr. Hrói mælti: ek býðr Þóri, at sitt auga sè stúngit or höfði á hvorum okkrum, ok leggi síðan í skálir, ok ef or einum hausi eru bæði, þá munu vera jafnþúng, skal þá ok bæta Þóri eptir yðrum dómi; en ef eigi eru jafnþúng, eðr Þóri vilì þetta eigi, þá mun

hann kunna at ljúga fleira enn þetta eitt. Þórir kveðst eigi þetta vilja. Þorgnýr mælti: þat kemr til þess, at þú lýgr, ok ferr yðr bræðrum nú sem jafnan illa ok illmannliga; má nú ok vera at yðr vefist löng ok margföld lýgi um háls ok höfuð, ok hafi þèr ok lengi setit í konúngs trausti úmakliga, ok hefir hann ætlat yðr betri menn, enn þèr eruð: nú þarf eigi lengr at gánga duls hins sanna hèr um, þvíat þat er nú öllum augljóst vorðit, at engi er annar dómr rèttr, enn Hrói ráði lífi þeirra bræðra ok fè. Hrói mælti: skjótr er dómr minn, ok man ek ekki síðar vitrari: at þá bræðr Þóri ok Þorgisl vil ek láta taka af lífi, en þú, konúngr! skalt eiga jarðir þeirra, en ek lausafè, en Helgi vil ek at gerðr sè or landi, svâ at hann eigi hèr aldri landvært síðan, ok sè dræpr ok tiltækr, ef hann verðr staddr í Svíþjóð, dæmi ek mèr fè hans allt. Síðan voru þeir Þorgisl ok Þórir teknir ok reistr þeim gálgi, ok heingðir sem þjófar at landslögum. Síðan var slitit þínginu, ok fór hverr heim af þínginu til sinna heimkynna, ok var hann nú kallaðr Hrói hinn spaki; síðan þakkaði hann Þorgný lögmanni liðveizlu sína, lèzt eigi munda hafa undan stýrt, ef hann hefði eigi notit hans ráða við ok vizku: nú kann vera at þèr þiki ek gerast gjörbænn við þik, ok biðja dóttur þinnar mèr til handa. Þorgnýr svarar: ek ætla þat ráð, at svara hèr vel um, þvíat snemma barst dóttir mín þat fyrir, at henni leizt vel á þik, ok vildi eiga

þik. Síðan tókust þessi ráð með sæmd ok mikilli virðíngu, ok var þar inni höfð hin fegursta veizla. Eptir þat bjóst Hrói til brott ferðar, ok fór til Danmerkr, ok kom á fund Sveins konúngs, ok sagði honum allt frá sinni ferð, ok sagði honum, hversu gengit hafði, ok kveðst öngvum manni eiga jafngóðr at vera sem honum; færði Hrói honum marga góða gripi or Svíþjóð. Sveinn konúngr kvað honum vel tekizt ok gæfusamliga, ok vorðit þó heldr nærr stýrt, hversu fara mundi; skildu þeir konúngr eptir þat, ok voru jafnan vinir síðan, meðan þeir lifðu; fór Hrói til Svíþjóðar, ok var Þorgnýr lögmaðr þá andaðr; þá tók lögmannsdæmi eptir hann Þorgnýr, son hans, ok var hinn mesti vitríngr; skiptu þeir Hrói peníngum með sèr eptir landslögum rèttum, ok urðu vel ásáttir; þótti Hrói hinn bezti drengr, en kona hans var forvitri, ok er þar í Svíþjóð frá þeim komit mart göfugmenni.

C.

## Hèr hefr upp
## þátt
# Eymundar ok Olafs konúngs.

Hringr hefir konúngr heitit, er rèð fyrir Upplöndum í Noregi; þat fylki var kallat Hríngaríki, er hann var konúngr yfir; hann var vitr ok vinsæll, góðgjarn ok vellauðigr; hann var Dagson, Hríngssonar, Haralds sonar hins hárfagra; ok þótti sú ætt bezt ok göfgust í Noregi, at eiga til hans at telja. Hríngr átti 3 sonu, ok voru allir konúngar: einn hèt Hrærekr, hann var þeirra elztr; annar hèt Eymundr; þriði Dagr. þeir voru allir harðfengir menn, ok voru í útgerðum fyrir föður sínum ok í víkíngum, ok öfluðu sèr svâ metorða. þetta var í þann tíma, er Sigurðr konúngr sýrr rèð fyrir Upplöndum; hann átti Ástu Guðbrandsdóttur, móður Ólafs konúngs hins helga. þorný hèt systir hennar, móðir Hallvarðs hins helga, en önnur Ísríðr, móðurmóðir Steigar-þóris. þeir voru fóstbræðr, er þeir óxu upp, Ólafr Haraldsson ok Eymundr Hríngsson, þeir voru ok mjök jafnaldra. þeir vöndust við íþróttir allar þær, er kallmann bætti, ok voru ýmist með Sigurði konúngi eðr með Hríngi konúngi, föður Ey-

mundar. En þá er Ólafr konúngr fór til Englands, þá fór Eymundr með honum; þar var ok með þeim Ragnar Agnarsson, Ragnars sonar rykkils, Haralds sonar hárfagra, ok mart annarra ríkra manna. Voru þeir því ágætari ok víðfrægri, sem þeir fóru víðara, sem nú hefir raun á vorðit um Ólaf konúng hinn helga, at hans nafn er kunnigt vorðit um alla Norðrhálfuna; ok þá er hann fèkk vald yfir Noreg, lagði hann undir sik allt land, ok eyddi öllum fylkiskonúngum, sem segir í sögu hans, með ýmsum atburðum, sem fróðir menn hafa ritat; þvíat þat er jafnan sagt, at hann tók ríki af fimm konúngum á einum morgni, en alls tæki hann ríki af 9 konúngum þar innan lands, eptir sögn Styrmis hins fróða; lèt hann drepa suma, en suma meiða, suma rak hann or landi. Í þessu flóði urðu þeir Hríngr ok Hrærekr ok Dagr, en Eymundr ok Ragnar jarl Agnarsson voru þá í víkíngu, er þessi tíðindi gerðust. Fóru þeir or landi, Hríngr ok Dagr, ok voru lengi í hernaði; síðan fóru þeir austr í Gautland, ok rèðu þeir þar lengi síðan. En Hrærekr konúngr var blindaðr, ok var með Ólafi konúngi, þar til er hann sveik hann, ok rægði saman hirðmenn hans, svâ at þeir drápust; en hann veitti Ólafi konúngi tilræði Uppstigníngardag í kórnum í Kristkirkju, ok skárust pellsklæðin, er konúngrinn var í, en guð barg er konúngrinn varð

ekki sár; en síðan varð Ólafr konúngr honum reiðr, ok sendi hann til Grænlands, ef byri gæfi, með Þórarni Nefúlfssyni; en þeir komu til Íslands, ok var hann með Guðmundi ríka á Möðruvöllum í Eyjafirði, ok dó hann á Kálfskinni.

*Frá Eymundi ok Ragnari.*

2. Nú er þat fyrst at segja, at þeir Eymundr ok Ragnar komu til Noregs litlu síðar með mörgum skipum. Þá var Ólafr konúngr hvergi nær. Þeir spyrja nú þessi tíðindi, er fyrr var frásagt. Eymundr stefnir þíng við landsmenn, ok talar á þá lund: hèr hafa orðit mikil tíðindi í landi, síðan vèr fórum í brott: höfum mist frændr vora, en sumir or landi reknir með harmkvælum; höfum vèr bæði skömm ok skaða eptir vora göfga frændr ok ættstóra; er nú einn konúngr yfir Noreg, þar er áðr voru margir; ætla ek þat ríki vel komit, er Ólafr konúngr, fóstbróðir minn, stýrir, þóat þat þiki nú nokkut með ofsa gánga um hans ríki; vænti ek mèr af honum góðrar sæmdar, utan konúngs nafn. Nú lögðu til vinir hvorratveggju, at hann skyldi hitta Ólaf konúng, ok reyna ef hann vildi gefa honum konúngsnafn. Eymundr svarar: eigi mun ek bera herskjöld í móti Ólafi konúngi, ok eigi vera í andskota flokki í móti honum, en eigi nenni ek af þessum sökum hinum miklum, er nú eru vorðnar vor í meðal,

at gánga nú á hans miskun, ok leggja niðr mitt tignarnafn; en hvat ætli þèr þá fyrirliggja, ef vèr viljum eigi til sætta leggja, nema koma ekki á hans fund. Veit ek, at hann mun mèr mikla sæmd veita, ef við finnumst, þvíat eigi mun ek gánga á ríki hans; en hitt þiki mèr ósýnna, at þèr standizt jafn vel, er mínir menn eruð, ef þèr sjáið frændr yðra svívirða mjök; en ef þèr eggið mik fram, þá þiki mèr þat skapraun, þvíat vèr mundum áðr verða eiða at sverja, ok hæfir oss þá vel at halda. Þá mæltu liðsmenn Eymundar: hvat hyggr þú, ef eigi skal til sætta gánga, nema koma ekki á konúngs fund, ok fara útlægr af eignum sínum, enda koma ekki í andskota flokk konúngs. Ragnar mælti: mjök hefir Eymundr talat eptir því sem mèr er í skapi, ok eigi treysti ek vorri hamíngju ímóti giptu Ólafs konúngs; en svâ þiki mèr vèr verða fyrir at sjá, ef vèr skulum flýja jarðir vorar, ef vèr þikim þá vera meiri enn aðrir kaupmenn. Eymundr mælti: ef þèr vilið þat ráð upptaka, sem mèr er í skapi, ok mun ek segja yðr mína ætlan, ef þèr vilið þat: ek hefi frètt andlát Valdamars konúngs austan í Garðaríki, ok hafa nú þat ríki synir hans þrír, hinir ágætastu menn; en hann skipti með þeim ríkinu varla at jafnaði, þvíat nú hefir einn meira ríki enn hinir 2, ok heitir einn Burisleifr, er mest hefir af föðurleifðinni, ok er hann þeirra elztr; annar heitir Jarisleifr; hinn þriði Varnlaf. Buris-

leifr hefir Kænugarð, ok er hans bezt ríki í öllu Garðaríki; Jarisleifr hefir Hólmgarð, en hinn þriðì Palteskju, ok þat ríki allt er þar liggr til; en þeir verða nú eigi ásáttir um ríkin sín á milli, ok unir sá nú sízt sínum hlut, er mest hefir, ok bezt haft or skiptum, ok þikir honum þat mínka sitt ríki, er hann hefir minna enn faðir hans, ok þikist hann af því minni sinum foreldrum. Nú kemr mèr þat í hug, ef yðr synist svâ, at sækja þángat ok vitja þessa konúnga, ok vera með öðrumhvorum ok heldr með þeim, er sínu ríki vilja halda, ok una því, er faðir þeirra hefir skipt meðal þeirra; man oss þat verða gott, bæði til fjár ok virðíngar; nú skal ek festa þetta ráð með oss; ok er þetta allra þeirra vilì. Voru þar margir þeir menn, er sèr vildu fjár afla, en áttu at reka harma sína í Noregi; vildu þeir heldr rýma land, enn eptirsitja ok sæta afarkostum af konúngi ok úvinum sínum; ráðast nú á brott með Eymundi ok Ragnari, ok sigla á brott með miklu liði ok völdu at hreysti ok harðfengi, ok hèldu í Austrveg. Ok þetta frètti Ólafr konúngr eigi fyrri, enn þeir voru í brottu, ok hann kvað þat illa vera, er þeir Eymundr höfðu eigi fundizt: þvíat (við) skyldum betri vinir skilizt hafa; ok er þat, sem von er, at hann hafi grimdarhug á oss; en þar er sá maðr farinn or landi, er vèr mundum mestar sæmdir veitt hafa í Noregi utan konúngsnafn. Sagt háfði verit Ólafi kon-

úngi, hvat Eymundr hafði sagt á þínginu; ok sagði konúngr, at hann var líkligr til þess at taka gott órræði. Ok er nú ekki fleira hèr frá at segja; víkr nú sögunni aptr til Eymundar ok Ragnars jarls.

*Eymundr kom í Garðaríki.*

3. Þeir Eymundr lèttu nú eigi fyrr sinni ferð, enn þeir koma austr í Hólmgarð til Jarisleifs konúngs; sækja þeir nú fyrst á fund Jarisleifs konúngs, eptir því sem Ragnar beiddi. Jarisleifr konúngr var mægðr við Ólaf Svíakonúng; hann átti dóttur hans Íngigerði. Ok er konúngr spyrr kvomu þeirra þángat í land, sendir hann menn (til) þeirra, þess eyrindis at bjóða þeim friðland ok á konúngs fund til fríðrar veizlu, ok þat þekkjast þeir vel. Ok er þeir sitja at veizlunni, spyrja þau konúngr ok drottníng vandliga tíðinda or Noregi frá Ólafi konúngi Haraldssyni. En Eymundr kvað þar margt gott frá honum at segja ok hans háttum; sagði þá lengi hafa verit fóstbræðr ok fèlaga; en Eymundr vildi ekki tala þat, er honum mislikaði um þau tilfelli, er fyrr var getit. Nú virðist þeim Eymundi ok Ragnari vel allt til konúngs, en eigi verr til drottníngar; þvíat hún var hinn mesti skörúngr ok mild af fè; en Jarisleifr konúngr var ekki kallaðr mildr af fè en var stjórnsamr konúngr ok ríklundaðr.

*Skildagi Eymundar við Jarisleif konúng.*

4. Nu spyrr konúngr, hvert þeir ætla

sína ferð eðr farlengð at stofna; en þeir segja svâ: vèr höfum þat spurt, herra! at þèr verðið at mínka nokkut yðvart ríki fyrir bræðrum yðrum, en vèr erum flæmdir or landi, ok höfum sótt austr híngat í Garðaríki á yðvarn fund þriggja bræðra; ætlum vèr þann yðvarn at athyllast, er mestan gerir vorn sóma at veg ok virðíngu; þvíat vèr viljum afla oss fjár ok frægðar, ok þiggja sæmd ok sóma af yðr; kom oss þat í hug, at þèr mundið vilja hafa með yðr vaska menn, ef um sæmd yðra er setit af frændum yðrum, þeim hinum sömu, er nú gerast yðr at fjandmönnum. Nú bjóðumst vèr til at gerast varnarmenn ríkis þessa, ok gánga hèr á mála, ok taka af yðr gull ok silfr ok góð klæði; en ef yðr sýnist eigi þetta ráð með skjótu atkvæði, þá tökum vèr þenna sama hlut með öðrum konúngi, ef þèr vísið oss frá. Jarisleifr konúngr svarar: mjök þurfum vèr yðvars liðsinnis ok ráðagerða, þvíat þèr eruð vitrir menn ok harðfengir Norðmenn; en mèr er ókunnigt, hvers þèr beiðizt af voru fè í yðra þjónustu. Eymundr svarar: þat er fyrst, at þú skalt fá oss eina höll ok liði voru öllu; ok láta oss öngvan hlut skorta af hinum beztum tilföngum yðrum, þann er vèr þurfum at hafa. Þann kost vil ek, segir konúngr. Eymundr mælti: þá er heimilt þetta lið til foristu þèr ok framgaungu fyrir liði þínu ok ríki. Hèr með skaltu greiða hverjum liðsmanni

vorum eyri veginn silfrs, en skipstjórnarmanni hverjum ofaná hálfan eyri. Konúngr svarar; þat megum vèr eigi. Eymundr mælti: þat megi þèr, herra! þvíat vèr skulum taka í þetta fè bjór ok safala, ok þá hluti aðra, er hèr eru auðfengir í yðru landi; ok skulu vèr þat meta, en eigi liðsmenn vorir; ok ef herfáng verðr nokkut, þá máttu oss uppgreiða fèð; en ef vèr situm kyrrir, þá skal mínka vorn hlut; ok nú játar konúngr þessu; ok skal þessi máli standa 12 mánaði.

*Eymundr fèkk sigr í Garðaríki.*

5. Nú setja þeir Eymundr upp skip sín, ok búa vel um. En Jarisleifr konúngr lætr þeim búa eina steinhöll, ok lèt hana vel tjalda með guðvefjarpelli; en þeim var fengit þat, er þeir þurftu at hafa með hinum beztum faungum. Voru þeir nú hvern dag í mikilli gleði ok skemtán með konúngi ok drottníngu. En er þeir höfðu þar eigi lengi verit í góðu yfirlæti, komu brèf frá Burisleifi konúngi til Jarisleifs konúngs, ok segja svâ: at hann beiddist nokkurra hèraða ok kauptúna af konúngi, er næst liggja ríki hans, ok kvað sèr þat tilfalla til aftekta. Jarisleifr konúngr sagði nú Eymundi konúngi, hvers bróðir hans beiddi hann. Hann svarar: fátt kann ek til þess at leggja, en heimöl er yðr vor fylgð, ef þèr vilið þat upptaka; en nauðsýn berr til at vægja við bróður sinn, ef við góðu gengr; en ef hitt er, sem mik grunar, at hann mun beiða meira, ef þetta er tillátit, þá áttu við

þik kjörit, hvort þú vill afleggja, eðr eigi, ríki þitt; eðr viltu halda því með drengskap, ok láta sverfa til stáls með ykkr bræðrum, ef þú sèr at þú getir haldit þik síðan; er þat óháskasamara at láta jafnan uppi, er hann beiðir, en mörgum mun þat þikja lítilmannligt ok ókonúngligt, þóat þú takir þann upp; veit ek ok eigi, til hvers þú heldr hèr útlendan her, er þú skalt ekki á oss treysta; skaltu nú eiga við þik kjörin. Jarisleifr konúngr kveðst eigi nenna, at úreyndu upp at gefa ríki sitt. Eymundr mælti: þá skaltu svâ segja sendimönnum bróður þíns: at þú vill verja ríki þitt. Gef honum ok ekki lánga tómstund at safna liði móti þèr, þvíat þat hafa vitrir mælt, at hamíngjusamligra væri, at berjast á sinni jörðu, enn á annarra. Fóru nú sendimenn aptr, ok sögðu konúngi sínum allt sem farit hafði, at Jarisleifr konúngr vildi öngvan hlut miðla af ríkinu við bróður sinn, en vera búinn at berjast, ef hann vill á ríki hans gánga. Konúngr mælti: liðs ok trausts mun hann þikjast vonar eiga, ef hann ætlar sèr at keppa við oss, eðr komu nökkurir útlendir menn til hans, þeir er honum gæfi ráð, at styrkja ríki hans. Sendimenn sögðu, at þeir hefði heyrt þat, at þar væri Norðmanna konúngr við 6 hundruð Norðmanna. Burisleifr konúngr mælti: þeir munu honum þetta ráðit hafa, Hann stefnir nú liði at sèr. Jarisleifr konúngr lætr fara

herör um allt ríki sitt, ok boða nú konúngar út liði sínu. Fór þat nú, sem Eymundr ætlaði, at Burisleifr konúngr fór or ríki sínu móti bróður sínum; ok er þeir hittust, var þar skógr mikill við móðu eina, ok settu sínar tjaldbúðir hvorir svâ, at áin var í milli, ok var ok eigi mikill liðsmunr þeirra. Eymundr konúngr ok allir Norðmenn höfðu einir sèr tjöld, ok sátu svâ fjórar kyrrir nætr, at hvorugir rèðu til bardaga við aðra. Þá mælti Ragnar: hvers bíðum vèr, eðr hvat merkir seta sjá? Eymundr konúngr svarar: konúngi vorum þikir oflítill flokkr úvina sinna, ok eru lítilsverð ráð hans. Eptir þat hitta þeir Jarisleif konúng, ok spyrja hvort hann ætlar ekki til bardaga at ráða. Konúngr svarar: mèr sýnist sem vèr hafim góðan liðskost, ok eigim vèr mikinn liðskost ok traust. Eymundr konúngr svarar: annan veg lízt mèr þat, herra! í fyrstu, er vèr komum híngat, þótti mèr sem vera mundi lítit herlið í hverju tjaldi, ok meir gervar herbúðir til fjölganar, enn þar mundi mart lið í vera; en nú mun annat vera, at þeir verða at auka tjaldbúðir sínar, eðr byggja utan búða ella, en mikill herr hefir frá yðr hlaupit heim í hèrað, ok mun þèr ótraustr vera herinn. Konúngr spurði: hvat er nú til ráða? Eymundr svarar: allt er nú óhægra enn fyrr var, ok höfum vèr setit or hendi oss sigr þenna; en at höfum vèr nokkut hafzt Norðmenn: skip vor öll höfum vèr flutt

upp eptir móðunni, ok á herklæði, munu vèr þángat fara með voru liði, ok koma á bak á þeim, en tjöldin skulu standa auð eptir; en þèr skjótið á fylkíng sem hvatligast með yðru liði. Nú var svâ gert, ok var blásinn herblástr, ok merki uppsett, ok skipuðu hvorirtveggju til orrostu. Gengu nú saman fylkíngar, ok tekst þar hin snarpasta sókn, ok var brátt mikit mannfall. Þeir Eymundr konúngr ok Ragnar veittu þeim Burisleifi konúngi hart áhlaup, ok komu honum í opna skjöldu, varð þar hin snarpasta orrosta, ok mikit manntjón; ok eptir þat raufst fylkíng Burisleifs konúngs, ok tók lið hans at flýja, en Eymundr konúngr gekk í gegnum lið hans, ok feldi svâ margan mann, at lángt er at skrá nöfn þeirra allra; ok nú brestr flótti í liðinu, svâ at ekki varð viðnám, ok flýja á merkr ok skóga, þeir er undan komust, ok þágu svâ lífit; en í þeirri svipan var þat sagt, at Burisleifr konúngr væri fallinn. Tók Jarisleifr konúngr nú mikit herfáng eptir þenna bardaga. Eigna flestir Eymundi konúngi sigrinn ok Norðmönnum; höfðu (þeir) hèr af mikin metnað; ok gekk þat eptir málaefnum, þvíat guð drottinn Jesús Kristus var rèttdæmr um þetta, sem um allt annat. Fóru þeir nú heim í ríki sitt, ok hafði Jarisleifr konúngr nú bæði ríki sitt ok herfáng þat, er hann fèkk í þessi orrostu.

*Ráð Eymundar.*

6. Eptir um sumarit ok um vetrinn var kyrt ok tíðindalaust, ok stýrði Jarisleifr konúngr báðum ríkjunum með ráðum ok umsjá Eymundar konúngs. Voru Norðmenn nú í miklum sóma ok virðíng, ok eru nú hlífskjöldr fyrir konúngi at ráðum ok herfángi, en fyrirfórust málagjöldin af konúngi, ok ætlar hann sèr nú minni liðs þörf, er konúngrinn var fallinn, ok þikir nú friðvænligt um allt sitt ríki. Ok er eindagi kom málagjaldsins, þá gekk Eymundr konúngr á fund Jarisleifs konúngs, ok mælti svâ: hèr höfum vèr verit, herra! í yðru ríki um hríð; kjósið nú, hvort kaup vort skal standa lengr, eðr viltu nú at skili með oss vort fèlag, ok leitum vèr annars höfðíngja, þvíat tregt hefir fèð útgreizt? Konúngr svarar: ek ætla nú eigi jafnmikla nauðsýn tilbera, sem fyrr til yðvars liðsinnis; verðr oss þat mikil fjárauðn, at gefa yðr svâ mikinn mála, sem þèr kveðið á. Svâ er, herra! segir Eymundr konúngr, þvíat nú skal greiða eyri gulls hvörjum manni, enn hálfa mörk gulls hvörjum skipstjórnarmanni. Konúngr mælti: þá kýs ek laust kaup vort. Þat skal á þínu valdi, segir Eymundr konúngr; en viti þèr víst, at Burisleifr er dauðr. Þat hygg ek satt vera, segir konúngr. Eymundr spurði: vegliga mun leiði hans búit, eðr hvar er gröftr hans? Konúngr svarar: eigi vitum vèr þat glögt. Eymundr

mælti: þat byrjar, herra! yðvarri tign at vita um jafngöfgan bróður yðvarn, hvar leg hans er; en hitt grunar mik, at liðsmenn yðrir muni vilhallt sagt hafa, ok eigi viti þèr enn sannindi þessa máls. Hvat viti þèr sannara af at segja, þat at vèr megim því heldr trúa? Eymundr svarar: svâ er mèr sagt, at Burisleifr konúngr lifi í Bjarmalandi í vetr; ok þat höfum vèr spurt með sannindum, at hann eflir her á hendr þèr með miklu fjölmenni, ok mun þetta vera sannara. Konúngr mælti: nær mun hann hèr koma í vort ríki? Eymundr svarar: svâ er mèr sagt, at hann muni hèr koma á þriggja vikna fresti. Ok nú vill Jarisleifr konúngr eigi missa þeirra liðsinnis; kaupa þeir nú enn saman um 12 mánuði. Þá spurði konúngr: hvat liggr nú fyrir? hvort skulu vèr liði safna, ok berjast við þá? Eymundr svarar: þat er mitt ráð, ef þèr vilið halda Garðaríki fyrir Burisleifi konúngi. Jarisleifr spurr: hvort skal híngat stefna liðinu, eðr í móti þeim? Eymundr svarar: híngat skal öllu stefna því sem má komast til borgarinnar; ok er liðit kemr, þá munu vèr enn leggja til nokkur ráð, þau er oss þikja vænst at dugi.

*Bardagi þeirra bræðra.*

7. Þessu næst lætr Jarisleifr konúngr senda herboð um allt sitt ríki, ok kemr nú til hans mikill bóndaherr. Eptir þetta sendir Eymundr konúngr menn sína á mörkina,

ok lætr fella viðu, ok færa heim at borginni, ok setja upp á borgar armana; hann lætr snúa liminu hvers très út af borginni, at eigi mætti skjóta upp í borgina. Mikit díki lèt hann ok grafa fyrir utan borgina, ok færa brott moldina, ok veita vatni í eptir; síðan lèt hann leggja ofan yfir viðu, ok búa svâ um, at ekki mætti á sjá, ok sem heil væri jörðin. En er þessi sýslu var lokit, þá spurðu þeir til Burisleifs konúngs, at hann var kominn í Garðaríki, ok stefndi þángat til borgarinnar, sem þeir voru fyrir konúngarnir. Þeir Eymundr konúngr höfðu ok búa látit sterkliga um tvö borgarhlið, ok ætluðu þar at verja, ok svâ til brottgaungu, ef þyrfti. Ok um kveldit, þá er hersins var von um morgininn eptir, bað Eymundr konúngr konur gánga út á borgararmana, með alla dýrgripi sína, ok búast um, sem bezt kynni þær, ok festa digra gullhrínga upp á stángir, at þeim mætti sem mest um finnast. Væntir ek, segir hann, at þeir Bjarmar muni gjarnir til gersimanna; munu þeir ríða hvatt ok úvarliga at borginni, er sólin skín á gullit ok á guðvefina hina gullofnu. Nú var svâ gert, sem hann sagði fyrir. Burisleifr kemr nú at borginni með her sinn or mörkinni fram; ok sjá þeir nú fegurð til borgarinnar, ok hyggja nú gott til, at engi njósn muni fyrir þeim hafa farit. Ríða nú at hart ok hermannliga, ok fá eigi

tilgætt; fellr fjöldi manns í díkit, ok farast þar; en Burisleifr konúngr var síðar í fylkíngu, ok verðr hann nú var við þessar ófarar. Hann mælti svâ: vera má, at eigi verði hèr jafn auðsótt sem vèr hugðum til; ok eru þeir ráðagerðamenn miklir Norðmennirnir. Hyggr hann nú at, hvar bezt mun at at sækja; ok var nú í brottu öll fegurðin, sú er sýnd var; sèr hann nú, at öll borgarhlið eru aptrlokin, nema tvö ein, ok er þar ekki auðvelligt inn at komast, þvíat skortir eigi stóran viðbúníng ok fjölmenni; þvínæst var slegit upp herópi, ok eru borgarmenn búnir til bardaga; við sitt borgarhlið var hvorr þeirra konúnganna, Jarisleifr ok Eymundr. Tókst nú harðr bardagi, ok fèll mart fólk af hvorumtveggjum. Þar var nú svâ mikil atsókn, er fyrir var Jarisleifr konúngr, at þar var uppgánga veitt í því borgarhliði, er hann varði, en konúngr varð særðr á fæti mjök; varð þar mikit mannspell, áðr enn sótt var borgarhliðit. Þá mælti Eymundr konúngr: nú ferr í óvænt efni, er konúngr vor er sár vorðinn, en þeir hafa drepit marga menn fyrir oss, ok komast nú upp í borgina; gjör nú, hvort er þú vill, Ragnar! segir hann, ver þetta borgarhlið, eðr far til með konúngi vorum ok veit honum lið. Ragnar svarar: hèr mun ek viðhafast, en þú far til konúngs, þvíat þar mun ráða við þurfa. Fór Eymundr nú þángat með mikit lið, ok

sá at Bjarmar voru nú komnir inn í borgina. Hann veitti þeim þegar mikit slag ok íllt; drápu þeir þegar mikit lið af Burisleifi konúngi; sækir Eymundr konúngr at fast með miklu kappi, ok eggjar mjök sína menn; ok eigi hefir verit harðari sókn jafnlöng enn þessi; ok nú flýja Bjarmar or borginni, allir þeir er upp stóðu. Ok nú flýr Burisleifr konúngr með miklu manntjóni; en Eymundr konúngr ok hans menn reka flóttann til skógar, ok drápu merkismann konúngs; ok er nú enn þat sagt, at konúngrinn muni fallinn vera. Ok er nú miklum sigri at hrósa; hefir Eymundr konúngr nú framat sik mjök í þessi orrostu. Ok er nú kyrt at sinni; sitja þeir nú í miklum sóma með konúngi, ok virðast þeir hverjum manni vel innan lands; en málagjöldin verða enn sein af konúngi ok torsótt, svâ at þau greiddust ekki eptir skildögum.

### *Frá Eymundi.*

8. Svâ bar til enn einhvern tíma, at Eymundr konúngr talar til konúngs, at hann skuli greiða af hendi mála þeirra, svâ sem ríkum konúngi sómdi; kveðst ok hyggja, at þeir hafi honum meira fè í hendr unnit, enn málinn átti at vera: ok köllum vèr þetta yðvart missýni; ok eigi munu þèr nú þurfa vors gengis eðr liðsinnis? Konúngr mælti: vera kann nú þó, at vel hlýði, þó at þèr

gefið eigi yðvart fulltíng til; ok hafi þèr þó oss mikit lið veitt; en þat er mèr sagt, at lið yðvart sè vant at öllum hlutum. Eymundr svarar: hvat er nú undir því, herra! er þèr skulið einir um allt dæma; þikjast nú ok margir mínir menn mikils mist hafa, sumir fóta eðr handa, eðr nokkurra lima, eðr fengit skaða á hervopnum sínum; ok verðr mikill kostnaðr vor; ok enn máttu þat bæta; ok kjós oss nú annathvort, til eðr frá! Konúngr mælti: eigi kýs ek yðr í brott; en ekki gefum vèr yðr jafnmikit fè, þegar vèr vitum eigi von ófriðarins. Eymundr svarar: fè þurfum vèr, ok eigi vilja mínir menn vinna til matar eins; ok heldr munu vèr fara í annarra konúnga ríki, ok leita þar eptir vorri sæmd; en líkligt er þat, at eigi muni nú gerast úfriðr hèr í landi! eðr veiztu nú víst, at konúngrinn er drepinn? þat hyggjum vèr satt, segir konúngr, fyrir því at vèr höfum merki hans. Eymundr spyrr: veiztu nú þá gröft hans? Nei! segir konúngr. Eymundr mælti: þat er óvitrligt at vita þat eigi. Konúngr svarar: hvat veiztu þat gjörr enn aðrir menn, þeir er sannan vísdom bera á þetta. Eymundr svarar: minna þótti honum at láta merkit enn lífit; ok hygg ek hann undan komizt hafa, ok verit í Tyrklandi í vetr, ok ætlar enn at herja á hendr yðr, ok hefir hann með sèr óflýjanda her, ok eru þat Tyrkir ok Blökumenn, ok mörg önnur

ill þjóð; ok þat hefi ek heyrt, at þat sè líkligra, at hann gángi af kristninni, ok hann ætlar at skipa þessi hinni illu þjóð ríkin, ef hann fær unnit Garðaríki undan yðr; en ef svâ verðr, sem hann ætlar, þá er þat vænst, at alla yðra frændr reki hann or landi með svívirðíngu. Konúngr spyrr: hversu skjótt man hann hèr koma með þat hit illa lið? Eymundr svarar: á hálfs mánaðar fresti. Hvat er nú til ráðs? sagði konúngr, þvíat nú megum vèr eigi missa yðvarrar forsjó. Ragnar sagði, át hann vildi, at þeir færi þá í brott, ok bað konúng hafa sín ráð. Eymundr mælti: ámælis aflar þat, ef vèr skiljumst svâ við konúng, í þvílíkum háska, þvíat konúngr var þá í friði, er vèr komum til hans; nú vil ek eigi svâ við hann skilja, at hann sitì eigi í friði eptir, ok munum vèr enn heldr kaupa við hann þessa 12 mánuði, ok bæti hann mála vorn, sem skilit var með oss. Er nú at hyggja at ráðagerðum, hvort liði skal safna; eðr vilì þèr, herra! at vèr verjum einir landit, Norðmenn, en þú sitr kyrr hjá vorum viðskiptum, ok takir þá til liðs þíns, er vèr erum yfirkomnir. Þat vil ek, segir konúngr. Eymundr mælti: ger eigi svâ bráðlitit á þetta, herra! Hinn er til annar, at halda saman herliðinu, ok þat lízt mèr sómasamligra; ok eigi skulum vèr fyrstir renna Norðmenn; en (þat) veit ek, at margr mun nú þess albuinn verða, þeir sem fyrir spjótsoddum eru hafðir, en hitt

veit ek eigi, hversu þeir munu í rauninni gefast, sem nú eggja þessa mest; en hversu skal þat vera, herra! ef vèr komumst í færi við konúnginn, hvort skulum vèr drepa konúnginn, eðr eigi? þvíat aldri verðr endir á þessum ófriði, meðan þið lifið báðir. Konúngr svarar: eigi man ek hvorttveggja gera, at eggja menn til bardaga við Burisleif konúng, enda gefa sök á, at hann er drepinn. Nú fara hvorir heim til hallar sinnar, ok lètu ekki safna liði ok öngan viðrbúníng veittu þeir, ok þetta þikir öllum mönnum undarligt, er nú er sízt viðbúizt, er mest ógn ferr at hendi. Ok litlu síðar frètta þeir til Burisleifs konúngs, at hann var kominn í Garðaríki með mikinn her, ok marga illa þjóð. Svâ lèt Eymundr konúngr, sem hann vissi eigi, hvat um var, ok hann hefði ekki spurt. Margir menn mæltu þat, at hann mundi eigi þora at berjast við Burisleif.

*Eymundr drap Burislaf konúng.*

9. Einn morgun árla kveðr Eymundr með sèr Ragnar, frænda sinn, ok tíu menn aðra. Hann lèt söðla þeim hesta. Riða nú 12 saman út af borginni, en eigi fleiri, en allt lið annat var eptir. Björn hèt íslenzkr maðr, er fór með þeim, ok Garða-Ketill, ok Askell hèt maðr, ok Þórðar tveir. Þeir Eymundr höfðu með sèr lausan hest, ok voru þar á herklæði þeirra ok vist. Nú ríða þeir allir í brott í kaupmanns gerfi, ok vissu menn eigi, hvat er undir bjó

þessi ferð, eðr hvat þeir mundu fyrir ætlast í brögðum. Þeir ríða nú í skóg einn, ok fara allan þann dag, þar til er kom at nótt; þá koma þeir or skóginum fram, ok at einni mikilli eik; þar var hjá völlr fagr ok víða slèttr. Þá mælti Eymundr konúngr: hèr munum vèr stað nema, þat hefi ek spurt, at Burisleifr konúngr mun hèr náttstað hafa ok tjaldstað í nátt. Þeir gánga nú umhverfis trèð, ok með rjóðrinu, ok hugðu at, hvar beztr mundi vera tjaldstaðrinn. Þá mælti Eymundr konúngr: hèr mun Burisleifr konúngr láta setja herbúðir sínar; mèr er sagt, at hann tjaldi jafnan nær skógi, ef því má viðkoma, ok eiga þar þá undanbragð, ef hann þarf til at taka. Eymundr konúngr tók þá einn streng eðr kaðal, ok bað þá gánga í rjóðrit hèr at þessu trènu; hann mælti, at einnhverr maðr skyldi fara upp í limarnar, ok bera þar á strenginn; ok svâ var gert. Síðan sveigðu þeir trèð, allt til þess er limarnar voru komnar allt at jörðu niðr, ok undu svâ trèð allt at rótinni. Þá mælti Eymundr konúngr: þetta líkar mèr nú vel, ok má oss þetta koma at góðu gagni. Eptir þat bera þeir strenginn, ok festa endana; ok er lokit var þessu starfi, þá var miðraptan. Nú heyra þeir til liðs konúngsins, hvar þat fór; gánga þeir nú í skóginn til hesta sinna; þeir sjá nú lið mikit ok einn dýrligan vagn, ok fylgja þar margir menn, ok þar var merki fyrir bor-

it. Þeir snúa at skóginum ok í rjóðrit, ok at þángat, er beztr var tjaldstaðrinn, sem Eymundr konúngr gat til; reisa þeir þar landtjaldit, ok svâ allt herliðit út í frá með skóginum. Gekk því allt til myrkrs. Konúngs tjaldit var harðla dýrligt ok vel gert; þar voru fjórar stúkur af, ok staung mikil upp or, ok knappr á or gulli ok veðrviti með. Þeir sá öll tíðindi or skóginum til herliðsins, ok lètu hljótt yfir sèr. Ok er myrkt var orðit, þá voru log kveikt í tjöldunum, ok vita þeir, at nú mun til matar búist í tjöldunum. Þá mælti Eymundr konúngr: vèr höfum litlar vistir, ok hæfir oss þat eigi, ok man ek ráða til búðarvarðar, ok fara til herbúða þeirra. Eymundr tekr nú stafkarls búníng, bindr sèr geitarskegg, ok gengr við tvo stafi; hann ferr í konúngs tjaldit, ok biðr sèr matar, ok gengr fyrir hvern mann; hann fór ok í hin næstu tjöld, ok varð gott til fengjar, ok þakkaði vel góðan beina; ferr hann nú í brott frá tjöldunum, ok skortir nú eigi vistir. En er menn höfðu drukkit ok etit, sem menn vildu, þá var hljótt eptir þat. Eymundr konúngr skipti nú liðinu sínu í tvo staði; lèt vera eptir 6 menn í mörkinni, at gæta hesta sinna, ok láta búna vera, ef skjótt skal tiltaka. Nú gánga þeir Eymundr í rjóðrit 6 saman til herbúðanna, ok láta sem ekki sè at vandræðum. Þá mælti

Eymundr: Rögnvaldr[1] og Björn, ok þeir hinir íslenzku menn skulu gánga til trèsins, þar sem vèr höfum þat niðrsveigt. Hann selr sína bolöxi í hendr hverjum þeirra: þèr eruð menn stórhöggir, ok neytið nú vel þess í þörf. Þeir gánga þá þar til sem limarnar voru niðrsveigðar. Ok enn mælti Eymundr konúngr: hèr skal hinn þriði maðr standa á leiðinni til rjóðrsins; sá skal ekki gera, nema hafa strenginn í hendi sèr, ok láta gánga sem vèr heimtum, en vèr höfum annan enda, ok er vèr höfum umbúizt, sem vèr viljum, þá skal sá drepa öxarskapti á snærit, er ek hefi tilætlat; en sá skal vita, er á strenginum heldr, hvort hann skelfr af því, er vèr hrærum hann, eðr af högginu. Ok þá er vèr höfum gert þessa bendíng, er fram skal koma, ok oss liggr við, ef hamíngjan veitir oss, þá skal sá segja, er strenginn hefir, ok skal þá höggva limar trèsins, ok mun þat þá hart ok skjótt uppspretta. Nú gera þeir, sem þeim var fyrirsagt. Björn ferr með þeim Eymundi konúngi ok Ragnari, ok gánga nú at tjaldinu ok gera rúmsnöru á strenginn ok hafa við spjótsköptin, ok færa á veðrvitann, er upp var af stönginni á landtjaldi konúngsins, ok rann hún upp at knappinum, ok var kyrt at farit; en menn svófu fast í öllum tjöldum, er þeir voru farmóðir ok mjök

[1]) *áðr kallaðr Ragnar, en nöfn þessi brúkast ýmist um hann eins og um afa hans.*

drukknir. En er þetta var gert, þá heimta þeir endana, ok stytta svâ strenginn, ok gera ráð sín. Gengr Eymundr konúngr nú nærr tjaldi konúngsins, ok vill vera eigi fjarri, er kipt er tjaldinu. Er nú drepit á snærit, ok kennir þá þess, sá (er) á hèlt, at skalf strengrinn; segir sá þeim, er höggva skulu. Nú höggva þeir trèð, ok sprettr þat hart ok hátt upp, ok kippir upp öllu landtjaldi konúngsins, ok lángt á skóg á burt; login sloknuðu öll í því. Eymundr konúngr hafði glögt miðat á um kveldit, hvar konúngrinn hvíldi í tjaldinu; snýr hann nú þángat, ok veitir konúnginum bráðan bana, ok svâ mörgum öðrum. Hann hefir nú með sèr höfuð Burisleifs konúngs; hleypr hann nú í skóginn, ok menn hans, ok verða eigi fundnir. Þeir verða nú óttafullir, er eptir eru af mönnum Burisleifs konúngs, af þessum tíðindum hinum miklum; en þeir Eymundr konúngr ríða nú í brott, þar til er þeir koma nú heim snemma morgins, ok ferr nú á fund Jarisleifs konúngs, ok segir honum sannliga fall Burisleifs konúngs: ok lít nú á, herra! á höfuðit, ef þèr megið kenna. Konúngr roðnar, er hann sá höfuðit. Eymundr mælti: þessu völdu vèr Norðmenn hinu mikla þrekvirki, herra! ok búttu nú til graftrar líkama bróður yðvars vel ok sæmiliga. Jarisleifr konúngr svarar: bráðráðin tíðindi hafi

*H.*

## þáttr
# af Rauðúlfi ok sonum hans.

RAUÐULFR[1] hèt maðr, er bjó í dalnum[2]; Ragnhildr hèt kona hans; Dagr ok Sigurðr hètu synir hans, þeir voru enu efniligustu menn, þeir skyldu halda svörum upp fyrir Austrdali[3], ok bera þá undan sök um þessi kensl[4]; Birni þóttu þeir vera líkastir til, ok vera drambsmenn miklir at vopnum ok í orðum, snèri hann þá þángat ræðunni á hendr þeim, ok kvað þá eigi ólíkliga til at hafa slíkt gjört; þeir synjuðu fyrir sik, ok sleit svâ þínginu. Litlu síðar kom til Bjarnar ármanns Ólafr konúngr með liði sínu, ok tók þar veizlu, var þá kært fyrir konúngi mál þeirra, er áðr var uppborit, sagði Björn, at honum þóttu Rauðssynir líkastir til at valda þessum ótila. Síðan var sendt eptir sonum Rauðs, en er þeir hittu konúng, þá taldi hann þá menn óþjófliga, ok bar þá undan sökum, ok kveðst hyggja at þeir væri þessa eigi valdir. Rauðr[5] hèt öðru nafni þorólfr[6], hann átti vegligan bæ; ok var ríkastr maðr í Dölunum; þeir feðgar

---

1) Rauðr, *B*, *H*, *K*, *S*; Ulfr, *D*, *F*. 2) Eystridölum, *D*, *H*. 3) Eystri-Dæla, *B*, *H*. 4) *sjá* 160 *kapít. í sögu Ol. konúngs helga.* 5) Ulfr, *D*. 6) *þannig B*, *H*; Rauðr, *D*; þórálfr, *L*.

höfðu þar smíðat öll hús þau, er mestr hagleikr (var) á. Síðan sendi Rauðúlfr sonu sína á fund Ólafs konúngs, ok bauð honum heim til veizlu; þat var heldr síð dags, er konúngr kom til Rauðs, hann hafði þá þár með sèr 2 hundruð manna; konúngr sá þar garða háfa ok vel lukta, en er þeir kvomu at hliðinu, þá var þat opit, ok þó vel umbúit, ok lèk þar grind á járnum, ok eigi allauðveldligt at komast inn, ef lukt var hliðit. En er konúngr reið í hliðit, þar stóð fyrir Rauðr bóndi ok synir hans ok mikit fjölmenni; fagnar Rauðr vel konúngi ok mönnum hans, ok stigu þeir af hestum sínum; þá spurði konúngr bónda: er þetta kirkja et fagra hús, er ek sè hèr í garðinum? Bóndi svarar: þetta er svefnskemma mín, er gjör var í sumar, ok er nú hit fyrsta algjör; öll ræfr voru þar spónþökt á húsinu ok þá nýþökt ok ný brædd, Síðan gengu þeir til stofunnar, ok sá konúngr, at þat var allmikit hús, stofan var borðþökt ok brædd. Konúngr sá þar í garðinum mörg stór hús ok smá ok öll fagrliga gjör; spurði konúngr ef þar væri kirkja í garðinum. Bóndi svarar: ekki hefir hèr fyrr biskup komit enn nú með yðr. Síðan lèt biskup reisa landtjald sitt í túninu fyrir stofunni, ok saung þar aptansaung, ok var því lokit í dagsetr; eptir þat gekk konúngr til stofu, ok voru kerti borin fyrir konúngi, ok er þeir kvomu í stofuna, var þar vel umbúizt; síðan settist

konúngr í hásæti, ok hjá honum biskup til annarrar handar, en til vinstri handar honum sat drottníng, ok þar hinar fremri konur útífrá henni. Björn stallari sat gegnt konúngi á enn óæðra bekk, ok hirðin til beggja handa honum; útífrá biskupi sat Finnr Árnason, þá Kálfr[1] bróðir hans, ok þá Þorbergr[2] Árnason, þá Arnbjörn Árnason, síðan Kolbjörn Árnason, þá Árni Árnason, þeir bræðr voru allir lendir menn Ólafs konúngs; ok þá er skipat var öllum förunautum Ólafs konúngs uppá pallana, þá var alskipuð stofan et efra með veggjunum, en heimamenn ok fyrirboðsmenn skipuðu reiðustóla ok forsæti[3]; Rauðólfr bóndi sat at framan á reiðustól[4], er stóð fyrir lendum mönnum, þar var hin fegursta veizla ok margskonar drykkr ok krásir góðar; synir Rauðs gengu um beina, ok skipuðu öllu, eptir því sem bezt samdi; konúngrinn gjörði sik þar kátan, ok fannst mikit um list þá ok kurteisi, er þar var á öllu, ok hversu skörugliga veitt var, ok skörugliga fór allt fram[5]. Konúngr átti þá tal við Rauð bónda, ok fann hann þat brátt, at Rauðr var orðsvinnr[6] ok forvitri; gjörðist þá gleði mikil um alla stofuna, ok spurði konúngr Úlf[7] margra luta úkunnra, en Úlfr hafði til allra luta úrlausnir; var þat sumt er kon-

---

1) þorbergr, *H.* 2) Kálfr, *H.* 3) flota, *hin.* 4) þeim stóli, *hin.* 5) *Hèr bæta B, D, H stykki við um ætt Rauðs, sem stendr í niðrlægi þáttarins.* 6) orðfær, *F.* 7) Rauð, *hin.*

úngi var áðr kunnigt at svâ var, en sumt var honum ókunnigt, svâ at hann vissi eigi áðr til, en allt þat sem hann vissi, þá var þat eptir því sem Úlfr sagði; nú lagði konúngr af því trúnað á ræður hans; ok sagði Úlfr hvergi lengra, enn konúngr spurði. Þá spurði Ólafr konúngr Úlf þeirra hluta, er eigi voru framkomnir, hvern veg verða mundi, en Úlfr veitti úrskurð nökkurn um flest. Þá mælti konúngr: ertu spámaðr, Úlfr? Fjarri ferr þat, herra! sagði hann. Hví veiztu slíkt þá, sagði konúngr, er eigi er framkomit? Legg eigi trúnað á slíkt, sagði Úlfr, þótt ek geypi mart fyrir yðr, er ek nenni eigi at þegja við yðr, en eigi veit ek slíkt með sannindum. Konúngr svarar: at hefi ek nú hugat nökkut, ok finnst mèr svâ til, sem þú segir aungvan hlut framarr, enn þú þikist vita, ok seg mèr, hvat til berr, er þú veizt óorðna hluti fyrir, enda sèrtu eigi spámaðr; veit ek ok at þú ert vel kristinn, ok muntu því eigi hafa fjölkýngi til slíks. Úlfr svarar: sumt merki ek af vindum[1], sumt af himintúnglum, sól eðr túngli eðr stjörnum, en sumt (af draumum). Konúngr spyrr þá af sèrhverjum hlut þessara greina, en Úlfr veitti þann úrskurð öllum hans getum, sem honum vel líkaði; töluðu þeir flest ok mest um hátt draumanna: máttu kenna mèr ráð nökkut til þess, sagði konúngr, at mèr

---

1) *Hèr byrjar E. í þættinum.*

birtist í draumi nökkut um þat, er mèr er mest forvitni á at vita? Ekki má ek yðr kenna, herra! segir Úlfr, þvíat þèr vitið allt áðr ok kunnið miklu gjörr enn ek; en þat gjöri ek stundum, þá er ek vil forvitnast í draumi þau sannindi stórra hluta, at ek tek ný klæði, ok fer ek í nýja sæng eðr reykkju, þá er stendr í nýjum stað, svâ at engi maðr hefir fyrr í sofit í þeim stað á þeim klæðum, á sæng eðr húsinu, ok slíkt sem þá dreymir mik, marka ek, ok mun gánga eptir því sem þá fæ ek ráðit drauma.

*Ólafr konúngr spurði Ulf um íþróttir hans.*

2. Konúngr spyrr þá: hverja íþrótt kantu bezt, Úlfr? sagði hann, ek sè at margra hluta muntu vera velkunnandi. Úlfr svarar, ok kveðst hann vera enginn íþróttamaðr: en þó, ef ek skal nökkut tiltaka, þá ætla ek helzt at ek muna drauma ráða, eptir því sem gánga munu. Konúngr mælti: hvert hefir þú kent sonum þínum allar íþróttir þínar? Úlfr svarar: spyrr þú at því þá. Síðan lèt hann kalla þá til sín, ok mælti: Úlfr, faðir ykkar, kennist mèr vitr maðr ok margkunnigr: eða hafið þið numit allar íþróttir hans? Sigurðr svarar, hann var ellri: kann ek at síðr allar hans íþróttir, at ein er sú er hann hefir mèr kent, ok skil ek at ek kann eigi jafnvel sem hann, ok er sú ein af mörgum hans íþróttum. Hver er sú, sagði konúngr? Sigurðr svarar: þat er at greina gáng

himintúngla, sólar ok túngls, ok vita allan gáng himintúngla þeirra, er ek sè, ok kenna stjörnur þær, er merkja stundir, svâ at ek mun vita þá lengð um dag ok nótt, þóat ek sjái eigi himintúngl, ok veit ek þó grein allra stunda. Konúngr mælti: þat er mikil íþrótt. Dagr mælti: þá eina íþrótt hefi ek ok numit, þá er mèr þikir frásagnar verð, ok kann faðir minn þó þar miklu meira af. Konúngr spyrr, hver sú væri. Dagr svarar: ef ek sè vandliga í augu manni, ok sè ek allt athæfi hans ok yfirbragð, mun ek skynja háttu hans, ok vita kost ok löst á honum. Konúngr svarar: þetta er mikit augnabragð, ef svà er sem þú segir, fæ ek þetta skjótt reynt. Þá mælti konúngr til biskups: svâ lízt mèr sem þann bónda höfum vèr nú heimsóttan, er mik væntir at vèr fáum eigi hans nóta[1] í hans fræðum ok íþróttum eðr sona hans, ok þikkjumst vèr þó hafa mjök gott mannval, ok eigi skal ok kostr í Noregi þeirra manna, er betr eru mentir enn þeir er nú eru með oss, en þó hygg ek at oss skorti flesta hluti við þá feðga; en hverja íþrótt vili þèr tiltaka, herra biskup! þá er þèr þikizt helzt tilfærir? Biskup svarar: þat mun ek helzt tiltaka, ef ek skal nökkut, at ek mun sýngja tíðir 12 mánuðu alla, allar þær sem hafa þarf, þóat ek hafi aungva bók við. Þetta er mikil íþrótt,

1) maka, *B*, *D*; líka, *F*, *H*.

sagði konúngr, með þeima hætti sem er[1]. Þá mælti biskup: heyra viljum vèr nú, konúngr! hvat þèr takið yðr til íþróttar. Konúngr svarar: þat mun ek helzt taka mèr til íþrótta, ef ek sè mann um sinn, ok vilja ek vandliga athyggja, þá skal ek kenna hann síðan, hversu lángt sem í millum okkra funda er. Biskup svarar: þessi íþrótt er af miklu viti. Þá mælti konúngr: þessi skemtan, sem vèr höfum upptekit, skal fara nökkru víðara um stofuna; seg, Kálfr Árnason! hvat þú tekr þèr til íþrótta. Hann svarar: eigi mun ek melta reiði mína, hversu lengi sem ek þarf at bera hana. Enn mælti konúngr: Finnr! segir hann, segja verðr þú þínar íþróttir. Finnr svarar[2]: þat færi ek þá mèr til íþrótta, at ek mun eigi flýja úr neinum háska frá lánardrottni mínum, ámeðan hann vill viðhaldast, ok standi hann uppi. Konúngr mælti: þat er líkligt, at þèr endist þat vel. Enn mælti konúngr: þú, Þorbergr! heyra viljum vèr hvat þú leggr til þessa máls. Hann svarar: þat ætla ek, at ek skal hvorki rjúfa orð mín nè eiða við lánardrottinn minn. Konúngr mælti: þetta er mikit mál, ok þó allíkligt at slíkum manni muni vel endast sem þú ert, en all lítt halda menn trúnaðinum við mik, er fyrir skömmu

1) ok yðr sómagóð, herra! *b. v. B*, *H*; þínslig, *D.* 2) engi fær þat sagt, herra! er ekki er til. Konúngr mælti: fær til nokkut, *b. v. B*, *F*, *H.*

var mèr þess lítil von at. Þá mælti konúngr til Arnbjarnar: hverja íþrótt kantu framast? Arnbjörn var styrkr maðr, hann mælti: þat mun ek tiltaka, er vera kann at eigi sè satt, at ek þikjumst vel fær vera at bogaskoti, ætla ek at eigi skuli sá bogi hèr finnast í Noregi, at mèr muni eigi vopnfær. Konúngr sagði, at svâ mundi vera. Síðan spyrr konúngr Kolbjörn[1], hverjar hans íþróttir voru, þær er hann vill helzt tiltaka. Kolbjörn svarar: þar eru þær íþróttir mínar, er ek kalla allar jafnar, en þó aungva betri enn góða fyrir sik, beinskeyti ok skíðaferð ok sund. Konúngr sagði, at hann tæki eigi meira af, enn hann mætti, þvíat þú ert at þessum íþróttum jafnbúinn þeim, er beztir eru af jafnsterkum. Þá spurði konúngr Árna, hvat hann vildi tilnefna. Árni svarar: ef ek sigli með landi fram snekkju minni, ok sit ek í aktaumum, þá skal engi[2] snekkja tvítugsessa sigla fyrir mèr, eða ek vilja fyrri svipta enn þeir. Konúngr kvað aungvan þess mundu frýja honum, sagði ok aungvan kunna nærr at ætla enn hann, hvat [endast mundi[3]. Konúngr spurði Björn stallara, hverja íþrótt er hann þóttist framast hafa; þann hlut mun ek helzt tiltelja, sagði Björn, ef ek tala á þíngum orð eðr eyrindi

1) Kolbein, *hèr L.* 2) *hèr byrjar I bókar brotið aptr;* jafnmikil, *b. v. B, F, H.* 3) næst mundi liggja ófærunni, *B, D, I; hèr sleppr E um sinn.*

konúngs eðr lánardrottins míns, at engi skal svâ ríkr áheyra, at ek skula fyrir þá sök mæla lægra eðr skelfra, hvort honum þikir vel eðr illa. Þessu trúi ek vel, sagði konúngr, síðan þú vart á Uppsalaþíngi, ok talaðir þar, ok gjörðir reiðan Ólaf konúng svenska, þvíat flestum mönnum mundi ok þat verða frama skortr. Síðan töluðu tveir ok tveir sín í milli, ok tóku til sinna íþrótta, varð at þessu mikil skemtan; gekk konúngr síðan at sofa.

3. Þá fylgði Rauðólfr bóndi honum til skemmu þeirrar ennar nýju, er konúngr hafði sèð um kveldit, ok hann ætlaði at kirkja væri; þá var á logn veðrs ok heiðviðri, svâ at hvergi sá annat enn heiðan himin. Konúngr spurði Sigurð, son bónda: hvat mun veðrs á morgin? Drífa, sagði Sigurðr. Þat þikir mèr ólíkligt, sagði konúngr; gekk hann síðan til reykkju sinnar, ok var þar vel umbúit. En er konúngr gekk inní svefnskemmuna, þá var kerti loganda borit fyrir honum, hann litaðist um úti í svölunum ok hugði at stöðu hússins, ok skildi þegar setníng þess, at þat var krínglótt, gekk hann þá inní húsit, ok sá fyrir innan svalirnar skjaldþili umhverfis[1] húsit; fjórar voru útdyr á skemmunni, ok allra jafnlángt í millum, en út með veggjunum [voru útstafir upphafir, ok þar með[2] voru reykkjur búnar allvegligar, en

[1]) *þannig hin*; um þvert, *L.* [2]) *v. í hin.*

allt tjaldat, þar er þat þótti bæta; í þessu húsi voru ok reistir upp[1] háfir stafir ok digrir, ok stóðu þeir í hríng, var þar upp af hvelft ræfrit, þat var allt steint ok pentat[2], en í millum stafanna voru bríkur, ok þar fyrir innan voru reykkjurnar búnar ríkum mönnum, mátti þar vel í hverjum fjórðúngi liggja 20 menn, en 40 í útiskemmunni; þar var skipat hirðmönnum konúngs; í miðju húsinu var arinn víðr[3] ok krínglóttr með trè gjörr, ok pallar umhverfis upp at gánga, en uppi á arninum var sæng mikil, ok gjör með hinum mesta hagleik; flest trè voru þar með [koppara járnum rend[4] ok steint[5] allt ok víða gulllagt; upp af hornstöfunum voru járnslár ok stórir knappar upp, af eiri[6] gjörfir ok gyltir, en út úr hornstöfunum voru járnslár, en þar upp voru kertistigr, ok stóðu þar uppákertistikur[7] með þrimr kvíslum. Úlfr sagði konúngi, at hann (skal) fara í þá sængina, er þar var búin, ef hann vill drauma forvitnast, en drottníng skal sofa í annarri náttlángt. Konúngr sagði at svâ skyldi vera; ok er hann var afklæddr, steig hann upp í reykkjuna, ok lagðist til svefns; hann sá til hægri handar sèr [innar í[8] sætinu[9], at

1) 20, *b. v. hin.* 2) púnterat, *F.* 3) settr, *F.* 4) gjörr, *B H*; *v. í.* *J*; *frá* [*hefr F:* kopar eða járnum slegin. 5) pentut, *F.* 6) *þannig hin*; vel, *L.* 7) ok stóðu þàr á (upp hallz kerti, *I*;) umhverfis mikil vaxkerti, *D*; kerti há, *F*, *H*, *I b. v. B*, *D*, *F*, *H*, *I.* 8) í einu yðra, *B*, *H*, *J*; syðra, *D.* 9) plasinu, *H*, *I.*

þar var skipat biskupi ok kennimönnum hans, en til vinstri handar hvíldi drottníng ok ríkiskonur hennar, en at höfða fjölunni, þá lágu í þeim fjórðúngi Kálfr [ok Arnbjörn[1] [ok Árni[2] ok Kolbjörn[3] Árnasynir ok þeirra menn, [ok í frá fótafjölinni lá Finnr, Þorbergr ok Árni[4] ok þeirra menn[5].

*Um vitran Ólafs konúngs ok hugsan.*

4. Ólafr konúngr vakti lengi um nóttina, svå sem hann var vanr, saung hann fyrst bænir sínar, ok síðan hugsar hann mart, þá sá hann upp yfir sik í ræfrit, hann sá þar skrifaðan guð sjálfan ok veldishríng hans, ok þar ofan yfir engla fylki hans, ok þar [með víðan[6] himin, þann er hverfðr er utan um lopt öll, ok þarmeð voru mörkut himintúngl, en neðst ský ok vindar ok þá fuglar margir, en neðast[7] jörð ok þarmeð grös ok viðir ok margskyns kvikendi, sjár ok vötn, ok sjókvikendi á marga lund, en á neðra ræfrinu fyrir utan stafina voru markaðar forneskjur ok sögur frá ágætum konúngum, ok leit konúngr þar lengi á, en er hann lengi hugsaði hèr um, þá var sá einn hlutr, er honum þótti undarligri enn annat, honum þótti sængin snúast undir sèr, síðan fèll svefn á hann, ok svaf hann um hríð; en er hann vaknar, hugði hann at draumum sínum; þvínæst dagaði, stóð biskup þá upp

1) *v. í D.* 2) *v. í B, F, H, J.* 3) *þannig hin*; Kolbeinn, *F, L.* 4) Arnbjörn, *D.* 5) *Frá [ v. í L*; *b. v. hin.* 6) fyrir neðan, *hin.* 7) fuglar, *b. L hèr við aptr.*

til tíða. Konúngr klæddist, ok gekk til óttusaungs, ok hlýddi morguntíðum[1]; síðan gekk hann á málstefnu, ok lèt kalla til sín Rauð bónda, ok sagði honum draum sinn; ok er því var lokit, mælti konúngr: þú (skalt) segja mèr í dag eptir hámessu, hvat draumr[2] sjá merkir. Merkiligr þikki mèr draumr yðvar, sagði Úlfr[3], ok or honum mun ek gera nökkut, en þat skuluð þèr bæta mèr, herra! er þèr hyggið, at mik skorti á, ok hann þýði annat, enn ek gjöri úr honum.

*Ólafr konúngr lèt kalla Dag til sín.*

5. Veðr (var) þykt ok drífa, sem Sigurðr[4] hafði sagt, þá lèt konúngr kalla til sín Dag ok Sigurð, sonu bónda; síðan lèt konúngr sjá út, ok sá hvergi skýlausan himin; þá bað konúngr Sigurð segja, hvar þá mundi sól komin; hann kvað glöggt á þat; konúngr lèt taka sólarstein ok hèlt upp, ok sá hann þá, hvar geislaði úr steininum, ok markaði svâ til, sem Sigurðr hafði sagt. [Þá spurði konúngr Dag: hvern sèr þú skaplöst minn? Eigi fæ ek, herra! þat sèð, en þóat ek geipi nökkut um hversdagliga menn, þá er þat nökkut öðruvísa, en ek hefir hvorki til vit nè skilníng, er þat ok ætlan mín, at fátt muni vera aftækt um yðra skapsmuni. Seg nú, sagði konúngr, ekki stoðar nú undan at fara. Dagr svarar: þann þá, herra! er fleiri hendir, [en þat er kvenna ást[5]. Rètt segir þú, sagði konúngr, ok eruð þèr feðgar lángt um fram

[1]) morgum tíðum, *rángt*, *L.* [2]) *Hèr endar I bókar brotið í þættinum.* [3]) enn, *b. v. L.* [4]) Dagr, *L.* [5]) at þú ert kvennhallr, *F.*

flesta menn, þá er ek veit, at viti ok hyggindi[1]. Síðan gekk konúngr til messu.

*Er konúngr gekk til stofu.*

6. En er tíðum var lokit, þá gekk konúngr til málstofu, ok með honum biskup ok drottníng ok lendir menn, þar var ok Rauðr ok synir hans. Konúngr mælti til Úlfs: mun svâ vera, sem mèr sýndist í nótt, at mèr þótti sem sængin snèrist undir mèr, sú er ek svaf í, eðr húsit? Úlfr svarar: því var svâ smíðat, herra! at þèr skylduð jafnan horfa á sólina, ok draumr þinn gengi at sólu, ok allt athæfi þitt ok forvitni. Þá mælti konúngr: nú vil ek, Úlfr! at þú segir mèr draum minn, ok svâ hvat hann merkir. Úlfr svarar: hitt mun ek fyrst segja, er þú spurðir eigi, hvat þú hugsaðir, áðr enn þú sofnaðir; þú batt at guð skyldi birta fyrir þèr, hvern enda eiga mundi stjórn[2] sú ok styrjöld, er nú hefir hafizt, eðr á hvern veg fara mundi hèðan af eðr síðan, þá signdir þú þik í krossmarki drottins. Rètt segir þú þetta, sagði konúngr, en hvat segir þú af drauminum[3]? Úlfr mælti: þèr sýndist í drauminum kross standa á jörðunni mikill ok grænn sem gras, ok líkneski á krossinum, en er þú sátt höfuðit róðunnar, þá var þat af rauðu gulli gjört, en er þú sátt í andlitit, þá þótti þèr sem um utan lægi hríngr rauðlitr sem regnbogi, en vaxinn sem veldishríngr guðs,

[1]) *Hèr kemr í B, D, H, K, S. þat sem seinast stendr í þættinum: svar Dags um Björn ármann; en bæði þat ok hitt frá fyrra [ hefir E framar, þar sem Dagr telr íþrótt sína.* [2]) *óró,* B. [3]) *Hèr byrjar E aptr.*

en innan í hríngnum voru markaðir englar guðs ok himinríkis dýrð; kross þessi, er þú sátt, ok krossfestíng boðar ófrið, en svâ sem þú ert höfuðsmaðr, þá muntu eiga höfuð líkneskisins í drauminum, ok svâ sem þèr þótti höfuðit af rauðu gulli gjört, ok þar lýsti af sem forðum af ljósu gulli, þar mun birtast tign þín um alla menn fram í þessu landi, svâ sem rautt gull er dýrra hverjum málmi öðrum; en sem þèr sýndist andlitit, er bæði fylgir heyrn ok sýn ok mál, þar var þèr sýnt í þeim stað himinríki ok himinríkis dýrð, þar var þèr sýnd umbun góðra verka, er þú hefir snúit[1] mörgum lýð til rèttrar trúar með orðum þínum ok ríkdómi; en mannahöfuð er meir böllótt enn lángt, þá get ek þèr sýnt hafa verit ekki lángt ríki[2] ok eyðiligt veraldar ríki. Konúngr mælti: hvat mun veldishríngr sá merkja, er mèr sýndist? Úlfr svarar: hríngr sá merkir æfi þína ok tign ríkis; hríngr er endalaus, svâ mun ok verða frægð þín; hríngr sýndist þèr vera hvass upp ok niðr, svâ ferr ok um æfi þína, hvöss eru upphöf, látið bæði föður þinn ok aðra frændr þína göfga, [svâ ferr ok æfi þín[3], at hörð munu verða endamörk ríkis þíns; hríngr vaxandi til miðs, ok síðan þverrandi til endalykta, svâ hefir ok hafizt ríki þitt ok þessa heims veldi. Úlfr mælti: hálsinn á líkneskjunni sýndist þèr úr kopar gjörr, þat er hinn harðasti málmr, ok af því eru klukkur gjörvar, er mest hljóð fylgir; þat ríki, er

1) *þannig hin.* sýnt, *L.* 2) líf, *hin.* 3) ok allar eignir; kann ok vera, *L.*

næst kemr eptir þat, mun vera frægt ok birtist fyrir hvers manns eyrum, svâ sem hljóð stórra klukkna; þar leikr um utan skoteldr, þat er hit mesta herskaparfæri, hræðiligt ok staðfastligt; kopar er harðr ok stökkr[1], svâ mun þat ríki óþolit[2]; en þar, er þat var fyrir ofan ok neðan slètt fyrir málmaskiptit, þar mun þat ríki ekki lángt vera, ok aungvar ættir munu þaraf lifna í þessu landi; þèr sýndist, sem ofan úr höfðinu greiddist gulligr lokkr allt á axlir ofan, þat mun þat merkja, at yðr vegsemd mun mest prýdd vera í þessu landi ok víðara annarsstaðar. Úlfr mælti: en þá leiddir þú fyrir augu þèr brjóst ok faðm róðunnar ok úthendrnar á krossinum, þat sýndist þèr vera af brendu silfri, var þar á markaðr himin ok túngls gángr, sól ok túngl, ok stjörnur með birti ok fegurð; þat ríki, er þá kemr næst, mun vera vegsamligt, svâ sem himintúngl birtir, ok allir menn fagna birti sólarinnar, ok er hún nytsamlig öllum heimi, hún gefr ljós, ok vermir döggina ok jörðina til ávaxtar, svâ mun ok þat ríki vera ársællt[3] öllu landsfólkinu; en þar er þú sátt líkneskit breiða faðminn, þar mun sá, er kemr til þessa ríkis, hafa miklu meira í fángi, enn aðrir höfðíngjar hafa haft fyrr hèr í landi[4]; en þar er lokkar þeir hinir gulligu fèllu ofan um brjóstit[5], þar mun sá enn ágæti höfðíngi vera, er þá kemr til ríkis hèr,

[1]) sterkr, *E.* [2]) óþolanligt, *E.* [3]) þarfsælt, *E.* [4]) ok vera víðfaðmara hans ríki, *b. v. B.* [5]) ok voru holdgrónir, *b. v. E.*

yðr tengðr, ok prýðast af yðvarri dýrð; en svâ breiðr sem hans faðmr var, þá var hann stuttr[1], ok[2] mun ríki hans verða eigi lángt. Úlfr sagði: enn þarnæst sáttu fyrir neðan brjóstit breiða gjörð liggja um róðuna, ok tók nær allt upp undir hendr, gjörðin var gjör af járni ok skýgð sem sverð, þat má kalla megingjörð; ríki þat, er þá kemr næst, mun verða styrkt ok máttugt af mektugum höfðíngja; ok er þèr var þat sýnt skýgt járn, þar mun vera margt skýgt sverð á lopt borit fyrr ok síðar; sú gjörð var öll fáguð með brögðum ok undarligum hagleik, at því er þèr þótti, sum ristin eptir fornum sögum, þèr sýndist þar á saga Sigurðar Fofnisbana ok Haralds hilditannar, ok enn nökkut af verkum Haralds hárfagra, þar mun sá konúngr fremja mörg stórverk, þau er lengi munu uppi vera, ok mikla bardaga gjöra með sinni frægð[3]; en þar er þèr voru ásýnd stórverk hinna mestu konúnga ok hinna ágætustu, þá mun sá konúngr þat sýna með sjálfum sèr, ok af þeirra líkíng mun hann fremjast; en járn þat er harðr málmr ok mörgum til skaða lagðr, þat ríki mun mörgum þikja hart ok skaðasamt frá upphafi til enda. Úlfr segir: en fyrir neðan járngjörðina var kviðr róðunnar bleikr ásýndar sem næsta[4] gull þat var litat[5] ok skýgt fagurt, þar var áfáit flúr ok viðir ok allskyns blóm, þat er á jörðu

---

1) stinnr, *E.* 2) þó, *E.* 3) framkvæmd, *hin.* 4) *þannig*, *B*, *H*; hesta, *D*; vesta, *L.* 5) líkat, *B*, *D*, *E*, *H*.

vex, ok margskonar kvikindi þau, er á jörðu gánga, allt þetta var gjört með hinum mesta hagleik, þar var sýnt í þessu þat ríki, er þar kemr næst, þat var gulligt [til at sjá, sem næsta gull, en upp í höfuð róðunnar var at sjá sem rautt gull[1]; rautt gull ok bleikt gull á eigi saman nema nafn eitt, þat munda ek ætla at sá konúngr mundi hafa nafn þitt ok vera göfugr ok dýrligr, en þó ekki þinn[2] maki, þar var ámarkaðr jarðar ávöxtr, ok nær öll prýði heims ok fegurð, svâ mun ok þessi konúngr prýða þetta ríki með góðri stjórn, hans æfi mun vera með miklum blóma, ok svâ mikill hagleikr sem þèr var þar sýndr, (svâ) margfalliga mun hann vera kallaðr sínu landsfólki hentiligr. Úlfr mælti enn: en er þú hugleiddir[3], ok sátt lengra ofan þann sama mann, er á krossinum var, sýndist þèr ofan frá nafla allt ofan um sköpin silfr litr á, þat er óskírt er, ok var þó vellitt[4], þat silfr gengr hèr í landi, ok má með því alla hluti hèr kaupa, en utanlands er þat eigi gjaldgengt, nú mun sá vera mikill höfðíngi ok öllum vegr at hèr í landi, en utanlands mun hans vera ekki svâ mikill (gángr) sem hins, er hið bjartasta silfr merkist fyrir; en þar er silfrit var vel litt ok var fagurt, þar mun hann öllum vel líka ok hans ríki, þat er standa mun með fegurð ok prýði allt til enda lífs síns, [mun hann ok fylgja sköpum

[1]) sem höfuðit uppi, *D, E, F.* [2]) hins, *F.* [3]) *hèr sleppr E í þættinum, H.* [4]) með þeim hætti sem var, *b. v. B, H.*

sínum[1] ok forlögum, mun af honum kvíslast[2] ok dreifast kynkvíslir; nú var komit ofan til fótanna mannsins, ok svâ þá sem bolrinn er[3], mun sá vera um flesta hluti jafníngi fyrirmanna sinna. Rauðúlfr segir: þar er þèr sýndist lærit ofan, ok hörundar litr á, þat ríki mun vera þarnæst, er tvískipti mun vera á öllu landi, ok mun þar koma í bræðraskipti; þar er þèr sýndist á báðum lærunum hörundarlitr, þá munu þeir deila makliga ok jafnliga sín í milli; ok svâ sem fætr halda upp öllum líkam, svâ munu þeir upphalda siðum ok dæmum fyrirmanna sinna, ok mun þeirra ríki haldast ok fara eptir rèttri skepnu[4] ok almenniligri mensku; þá sýndist yðr niðr frá knè tær[5] af trè, en þat er fornt mál, at þess manns ráð gengr á trèfótum, er margir hlutir gánga illa, þat ríki, er þá kemr, þikir mèr líkligt til þess, at ill endimörk verði á þeirra skiptum, ok munu þeir þó vera af einum kynkvíslum, mun þar upphefjast frænda róg ok illar deilur; þarnæst sáttu á ristum fram, var þat af trè allt, þèr sýndist sem fætrnir væri mislögum lagðir á krossinum, ok settr í jarngaddr í gegnum báðar ristrnar, ok tærnar legðist hver yfir aðra, þar er þèr sýnt þat, hverjar mislögur þeir munu hafa ok misgjörðir, þar munu bræðr berast banaspjót eptir þat; þar er

1) *b. v. B, D.* 2) valdit, *b. v. B, D, H.* 3) allr upptynðr er sá konúngr kemr til, þá *b. v. B, H.* 4) skipan, *B.* 5) fótleggir, *B, D, H.*

þú sátt einn járngadd í gegnum báðar ristrnar, en tærnar lagðar hver yfir aðra, svâ sem börn gjöra hrúta með fíngrum sèr, þeirra afkvæmi mun síðan hver öðrum mýgja ok vilja til jarðar koma. Konúngr mælti: vitr maðr ertu, Rauðr! ok þèr feðgar; síðan gekk konúngr til borða, ok var þar hin prýðiligasta veizla. Rauðr segir, at hann var svenskr at ætt: hlupumst (ek) í burt með konu þessa, er ek hefi átt síðan, hún er systir Hríngs konúngs Dagssonar; þá vaknaði konúngr við ætt beggja þeirra. Þá spurði konúngr Dag Rauðsson, (ok segir) at hann skyldi segja honum, hvern skaplöst hann sæi Bjarnar ármanns. Dagr sagði, at Björn var þjófr, ok þat með at hann segir, hvar Björn hafði fólgit á bæ sínum, bæði bein ok horn ok hold[1], af nautum þeim, er hann hafði stolit þá um haustit: er (hann) ok valdr allra þeirra stulda, er í haust hafa orðit, ok hann hefir öðrum mönnum kent; sagði Dagr konúngi öll merki til, hvar konúngr skyldi leita láta. En er konúngr fór í burt frá Rauðúlfs, þá var hann leiddr með stórum gjöfum út, fóru með konúngi synir Rauðs, kvomu þeir þá fyrst til Bjarnar, ok reyndist honum allt, svâ sem Dagr hafði sagt, en eptir þat lèt konúngr Björn fara úr landi í burt, ok naut hann drottníngar at því, er hann hèlt lífi sínu ok limum.

1) húðir, *B, H.*

# Geisli

er

## Einar Skúlason

kvað um

## Olaf Haraldsson

Noregs konúng.

Eins má orð ok bænir
allsráðanda[1] hins snjalla
vel er fróðr sá er getr góða
guðs þrenníng mèr kenna;
göfugt ljós boðar Geisli
gunnöfligr miskunnar
ágætan býð ek ítrum
Ólafi brag sólar.

2.

Þeirrar er húms[2] í heimi
heims myrkrum brá þeima
ok ljós meðan var vísi
veðr kallaðist hallar;
sá lèt bert frá bjartri
berast maðr und sky-jaðri[3]
frægr stóð af því flæðar
förnuðr röðull stjörnu.

---

[1]) allsvaldanda, *HK.* [2]) *þannig, HK*; heims, *F.* [3]) *eða,* skýjaðri.

3.

Síðar heilags brá sólar
setrs var þat fyrir betra
auðfinnendum annars
ómjóss röðuls ljósi;
æztr þrifnuðr rèð efnast
oss þá er líf á krossi
jarðar allra fyrða
ónauðigr tók dauða.

4.

Upprann allrar skepnu
iðvanðr á dag þriðja
Kristr með krapti hæstum
kunnr rèttlætis sunnu;
veit ek at mildr frá moldu
meginfjöldi reis hölda
iflaust má þat efla
ossa vân með hânum.

5.

Sonr stè upp með yndi
auðar mildr frá hauðri
jöfra bestr í æztrar
alls ráðanda hallar;
lofaðr sitr englum efri
öðlínga hnígr þíngat
döglíngs hirð á dýrum
dagbóls konúngr stóli.

6.

Veitti dýrðar drottinn
dáðvandr gjafir anda

mál kynnast þau mönnum
máttigs framir vátta;
þá reis upp sú er einum
alþýð guði hlýðir
hæstr skjöldúngr býðr höldum
himin vistar til kristni.

7.

Nú skulum göfgan geisla
guðs hallar vèr allir
ítr þann er Ólafr heitír
alstyrkan vel dýrka;
þjóð veit hann und heiða
hríð-blásnum sal víða
menn nemi mál sem ek inni
mín jarteignum skína.

8.

Heyrðu til afreksorða
Eysteinn konúngr beinna
Sigurðr bygg at því snöggum
sóknsterkr hve ek fer verka;
drengr berr óð fyrir Ínga
yðvart bið ek magnit styrkva
mærð þá er miklu varðar
máttig höfuðáttar.

9.

Yfirmanni býð ek unnin
upp er mærð borin lærðra
Jón köllum svâ allrar
alþýðu brag hlýða;
hefjum hendr en leyfa

hygg ek vin röðuls tiggja
stóls vex hæð þar er hvílir
heilagr konúngr fagran.

10.

Öld samir Ólafs gilda
orðgnóttar bið ek drottinn
oss at óðgerð þessi
ítrgeðs lofi kveðja;
fann ek aldrei val vildra
vallrjóðanda allra
raun samir rètt í einu
ranni fremdar manna.

11.

Þreklynds skulu þrændir
þegns prýði brag hlýða
Krists lifir hann í hæstri
hall, ok Norðmenn allir;
dýrð er ágæt orðin
eljanhress í þessum[1]
þjóð nè þengill fæðist
þvílíkr í konúngs ríki.

12.

Sighvatr frá ek at segði
sóknbráðr konúngs dáðir,
spurt hefir öld at orti
Óttar um gram dróttar;
þeir þafa þengil mæra
því er sízt frama lýstan
helgum lyt ek er hètu
höfuðskáld fíra[2] jöfri.

---

[1]) þessu, *HK.* [2]) fírar, *HK.*

13.

Móðr vann margar dáðir
munnrjóðr hugins gunna
satt var at siklíngr bætti
sín mein guði einum;
leyndi lofðúngr Þrænda
liðgegn snara þegna
fár gramr hefir frægri
fæzk háleitri gæzku.

14.

Rèð um tólf sá er trúði
tír bráðr á guð láði
þjóð muna þegnar fæða
þrjá vetr konúng betra;
áðr fullhugaðr fèlli
fólkvaldr í dyn skjalda
hann spenni oss fyrir innan
Ölvis haug frá bölvi.

15.

Fregit hef ek satt at sagði
snjallri ferð áðr berðist
drótt nýtr döglíngs máttar
draum sinn konúngr Rauma;
stiga sá standa fagran
stjórnarfimr til himna
rausn dugir hans at hrósa
Hörða gramr af jörðu.

16.

Ok hver[1] lofaðr hugðist

---

[1]) hvar, *HK*.

hrokkinnseiðs hins dökkva
lýngs í lopt uppgánga
látrs stríðandi síðan;
leit[1] sá er landsfólk[2] gætir
líknframr himinríki
umgeypnandi opnast
alls heims fyrir gram snjallum

17.

Vakit frá ek víg á Stikla
víðlendr stöðum síðan
Innþrændum lèt undir
álmreyr-lundr dreyra;
heims þessa frá ek hvassan
hvatir feldu gram skatnar
þeir drýgðu böl brigðu
branddríf numinn lífi.

18.

Fúss er ek því at vann vísir
var hann mestr konúngr flestra
drótt nemi mærð ef ek mætta
manndýrðir stef vanda;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari[3] stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

19.

Náðit[4] bjartr þá er beiðir
baugskjalda lauk aldri,
sýndi salvörðr grundar
sín tákn, röðull skína;

[1]) lèt, *HK*. [2]) landfólks, *HK*. [3]) *þannig*, *HK*; riðaðri, *F*.
[4]) *þannig* *HK*; náðist *F*.

fyrr var hitt at harra
hauðr tjalda bar[1] dauða
happ nýtast mèr mætta
máltól skinu sólar.

20.

Gerðist brátt þá er barðist
broddrjóðr við kyn þjóðar
gramr vandit sá syndum
sik jarteignir miklar;
ljós brann líki vísa
log skíðs yfir síðan
þá er önd með sèr sendist[2]
samdægris guð framdi.

21.

Dýrð lætr drottinn[3] Hörða
dragist mærð þannig hrærða
ítr munat öðlingr betri
alls græðari fæðast;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

22.

Drótt þó dýran sveita
döglíngs ríks af líki
von gleðr hug með hreinu
hans batnaðar vatni;
satt var at Sygna drottins[4]
særendr guði kæran

[1]) brá, *HK.* [2]) sendá, *HK.* [3]) drottins, *HK.* [4]) drottinn, *HK.*

hríngs megu heyra drengir
hans brögð í gröf[1] lögðu.

23.

Kom þar blindr en ek byrja
blíðverk muni síðar
auðar njótr er ýtar
jöfrs bein þvegit höfðu;
sjón brautir þó sínar
seggjum kunns í brunni
ár þeim er Ólafs dreyra
orms landa var blandinn.

24.

Sjón fèkk seggr af hreinu
sú dýrð munat fyrðum
förundr mun þat firnast
fjölgóðr konúngs blóði;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

25.

Tólf mánuði var týnir
tandranðr[2] huliðr sandi
fremdar lystr ok fasta
fimm nætr vala strætis;
áðr enn upp or víðu
úlfs nistanda kistu
dýrr lætr drottinn harra
dáðmilds koma láði.

---

[1]) róf, *HK.* [2]) tandra, *HK.*

26.

Mál fèkk maðr þar er hvílir
margfríðr jöfurr síðan
áðr sá er orða hlýru
afskurðr[1] farit hafði;
frægð ríðr fylkis Egða
fólksterks af því verki
jöfrs snilli fremst alla
úngs á danska túngu.

27.

Föður skulum fulltíngs biðja
fremdar þjóð ens góða
mæðir mart á láði
Magnúss hvatir bragnar;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Olafr af gram sólar.

28.

Gekk sínum bur svekkvir[2]
sólar straums í drauma
vald[3] lèzt fylgja foldar
framlyndum gram myndu;
áðr á Hlýrskógsheiði
harðgeðr konúngr barðist
góðs eldis naut[4] gyldir
gnótt við heiðnar dróttir.

29.

Lèt jarplits átu
arnar jóðs enn góði

1) afskurði, *HK.* 2) sökkvir, *HK.* 3) valdr, *HK.* 4) hlaut, *HK.*

munn rauð málmþíngs kennir
Magnús hugins[1] fagna;
hrætt varð fólk á flótta
frán beit egg at leggja
sorg biðu víf en vargar
vindversk of hræ gíndu.

30.

Raun er at sigr gaf sínum
snjallr lausnara spjalli
hrósek verkum vísa
vígdjarfs frómum arfa;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt þat er æskir
Ólafr af gram sólar.

31.

Satt var at silfri skreytta
seggjum hollr ok golli
her lèt Guthormr gerfa
grams hróðr var þat róðu;
þat hafa menn at minnum
meirr jarteigna þeirra
mark stendr Krists í kirkju.
konúngs friðgjafar[2] miðri.

32.

Menn hafa sagt at svanni
sunnr Skánúngum kunnir
oss um Ólafs missu
almilds baka vildi;

---

1) hugin, *HK.* 2) *þannig, HK; er óskilmerkiligt i F.*

en þá er brúðr at brauði
brennheitu tók leita,
þá varð grjón at gránu
grjóti danskrar snótu.

33.

Hildíngs hefir haldin
hátíð verit síðan,
sannspurt er þat sunnan,
snjalls um Danmörk alla;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

34.

Göfug rèð horn úr hofi[1]
hvítíngs of sök litla
auðar aumum beiði
úngs manns skera túngu;
þann sám vèr er vorum
válaust numinn máli
hodda njót[2] þar er heitir
Hlíð fám vikum síðan.

35.

Frètt hef ek at sá sótti
síðan málma stríðir
heim þann er hjálp gefr aumum
hár skerðandi í ferðum;
hèr fèkk hann en byrja
hátt kvæði skal ek bæði

[1]) hæfi, *HK*. [2]) brjót, *HK*.

snáka vángs of slöngvi
slúngin mál ok túngu.

36.

Dýrð er ágæt orðin
öðlíngs ríks af slíku
mærð ríðr mildíngs Hörða
mest um heimsbygd flesta;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

37.

Veit ek at Vindr ferr skauti
verðr bragr en þeir skerðu
gjálfrs [niðranda grundar[1]
greiddr sárliga meiddu;
ok endr fyrir trú týndri
tírar-sterks úr kverkum
auð skýfanda óðar
ár grimliga skáru.

38.

Sótti skrín et skreytta
skíðrennandi síðan
orð finnast mèr unnar
Ólafs dreka bóli;
ok þeim er vel vakti
veit ek sönn hugins teiti
máls fèkk hilmir[2] heilsu
heilagr á því deili.

---

[1]) riðanda grindar, *HK.* [2]) ok, *b. v. HK.*

39.

Hás lætr helgan ræsi
heims dómara sóma
fyllir framlyndr stillir
ferð himneska verða[1];
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

40.

Hneitir frá ek at hèti
hjaldrs at vopna galdri
Ólafs hjörr þess er orra
ilbleikum gaf steikar[2];
þeim klauf þengill Rauma
þunnvaxin ský gunnar
rekin bitu stál á Stikla-
stöðum valbastar röðli.

41.

Tók, þá er fèll enn frækni
fylkis kundr til grundar
sverð, er sókn var orðin,
svænskr maðr af gram þrænskum;
sá hefir hjörr ens háfa
hríngs stríðandi[3] síðan
gulli merktr í Gerkja[4]
gunn djarfs liði fundist.

42

Nú finnr sá er gaf gumnum

[1]) verðan, *HK*. [2]) *þannig HK*; stikar, *F*. [3]) striðanda, *HK*. [4]) Girkja, *HK*.

göfug dýrð jöfra fyrða
slöng Endriði úngi
armglæðr í brag ræðu;
greitt má gumnum lètta
guðs riðari í stríðum
röskr þiggr allt sem æskir
Ólafr af gram sólar.

43.

Mèr er því mærð skal skíra
mildíngs þess er gaf hrínga
styrjarvalls[1] of stilli
styrkan vant at yrkja;
þvíat tákn þess er lýð læknar
lofðúngs himintúngla
ljós kemr raun um ræsi
ranns ferr hvert á annat.

44.

Gerðist hála[2] herðum
heldr síðalla á kveldi
glann kennandi gunnar
glaðr vetþryma[3] naðri;
drengr rèð dýrr at vángi
dagr rofnaðist sofna
ítrs landreka undir
orðfimr berum himni.

45.

Misti maðr er lýsti
morgin var þá borgar
styrks mundriða steindra

1) *þannig HK*; styrjar-snalls, *F.* 2) *eða*, hal á, *F.* 3) vetrima, *HK.*

stýrsbráðr regins váða;
nýtr gat sèð á slèttri
seim þiggjandi liggja
grundu gyldis kundar
gómsparra sèr fjarri.

46.

Þrjár grímur vann þeima
þjóðnýtr Haralds bróðir
rökk stefnanda reifnis
ríkr bendíngar slíkar;
áðr þrifhvassir þessar
þíngdjarfs fírar ýnga
björt eru bauga snyrtis
brögð jarteignir sögðu.

47.

Más lèt jarðar eisu
alvaldr fyrir hjör gjalda
slèttig óð þann er átti
Ólafr bragar tólum;
yfirskjöldúngr lèt jöfra
oddhríðar þar síðan
garðs of gulli vörðu
grand altari standa.

48.

Tákn eru björt þau er birtast
brandel á Grikklandi
mál finnst um þat mönnum
margþarfr Haralds arfi;
fregn ek at allt nè aungir

innendr meguð finna
dýrð Ólafs ríðr dála
dagræfrs konúng hæfra.

49.

Háðist hjaldr á víðum
húngr slökti vel þúngan
gunnar már í geira
göll Petzínavöllum;
þar er svâ at þjóð fyrir hjörvi
þúsundum fèll undan
hríð óx hamdis klæða
hjálmskæð Grikkir flæðu.

50.

Mundi mest und fjöndum
Miklagarðs ok jarðir
hryggs dugði lið liggja
lagar eldbrota veldi;
nema rönd í byr branda
[bart rögn fáir[1] harða
röðuls bliku vopn í veðri
Væríngjar frambæri.

51.

Hètu hart á ítran
hraustir menn af trausti
stríð stóð[2] ógnar eyðis
Ólaf[3] í gný stála;
þar er of einum jörfa
und báru flug váru
rofinn[4] klofnaði reifnis
rann sextígir manna.

1) barð rögn fáin, *HK.* 2) *þannig HK*; stál, *F.* 3) *þannig HK*; Olafr, *F.* 4) roðinn, *HK.*

52.

Þá er rauk af ríki
regn dreif stál á þegna
hjálmnjörðúngum harða
heiðengja lið[1] gengi:
hálft fimta vann heimtan
hundrað [brimils sunda[2]
nýstan tír þar er nærri
Norðmanna val þorðu.

53.

Ruðu gumnar gladdir[3]
göfugr þengill barg drengjum
Vagnaborg þar er vargar
vopn-sundrat hræ fundu;
nennir öld at inna
úngr[4] brimloga slúngins[5]
döglíngs verk þau er dýrka
dáðsnjalls veröld alla.

54.

Nú er þau er vann vísir
verk fyrir þjóð at merkja
nauðr í nýjum óði
næst ríðrat þat smæstu;
krapt skulum guðs þess er giptu
gunnstyrks lofi dýrka
lèr haldfrömum hárrar
heimslæknis gram þeima.

55.

Ángrs fyldr varð aldar

[1]) liðs, *HK*. [2]) brimis fundi, *HK*. [3]) glaðir, *HK*. [4]) úngs, *HK* [5]) slúnginn, *HK*.

illr gerist hugr af villu
mildíngs þjón fyrir manna
margfaldr öfund kaldri;
lýgi hefir bragna brugðit
brýtr stundum frið nýtra
hermdar kraptr til heiptar
hjaldr stríð skapi blíðu.

56.

Lustu í sundr í sandi
seggir marglituðr[1] eggja
hörð grèri fjón með fyrða[2]
fót aldrtrega rótum;
ok prest þeir er limleystu
leyfðar[3] kröfð or höfði
hætt mál var þat heila
himintúngl fírar stúngu.

57.

Túngan var með tángar
tírkunns lokin munni
vara sem vænst ok þrisvar
viðr líf skorin knífi;
auðskiptir lá eptir
önd lætr maðr á ströndu
margr of minni sorgir
meinsamliga hamlaðr.

58.

Leyfðr er sá er lèt stýfðar
lamins fótar gram njóta
ítran þegn til augna

---

1) marglituðs, *HK*. 2) fyrðum, *HK*. 3) *þannig HK*; feyfðar, *F*.

útstúnginna ok túngu;
hönd Ólafs vann heilan
hreins gjörvallra meina
ger munu gjöld þeim er byrjar
guðs þræl öfugmæli.

59.

Bíðr allskonar æðri
örugt mælek þat sælu
dýrðar vottr með drottni
dyggvi enn þjóð of hyggvi;
sèr at lausnara leysi
liðs valdr numin aldri
lángvinr friði sik syndum
slík verk á jarðríki.

60.

Hèðan var úngr frá ángri
alls mest vini flestir[1]
guð reynir svâ sína
siklíngr numinn miklu;
nú lifir hraustr af hæstri
himna valds þar er aldri
fár skerðandi fyrða
friðar sýn gleði týnist.

61.

Hverr er svâ hoskr at hyrjar
hans veg megi of segja
ljóss í lífi þessu
lofðúngs gjafar[2] túnga;
þar er hreggsalar hyggjum

[1]) flesta, *HK*, [2]) grafar, *HK*.

heitfastr jöfurr veitir
skreytt megu skatnar líta
skrín dýrðar vin sínum.

62.

Heims hygg ek híngat komu
höfuð menn í stað þenna
snarr tiggi bergr seggjum
sólar erkistólar;
hèr er af himna gervis
heilagr viðr sem biðjum
yfirskjödúngr bjarg þú aldar
oss píníngar krossi.

63.

Öld nýtr Ólafs mildi
jöfrs dýrð höfum skírða
þrotnar háss frá þessum
þíngsnjalls veröld alla;
lúti landsfólk ítrum
[lima síns[1] konúngi himna
sæll er hverr er hollan
hann gerir sèr manna.

64.

Talda ek fátt í fjölda
friðgegns af jarteignum
ber koma orð af orum
Ólafs bragar stóli;
báls[2] fái seggr hverr sólar
siklíngs hæfir mikla
hilmis ást ens hæsta
heiðbjartr[3] er lof reiðir.

[1]) *þannig HK*; limsalmls, *F.* [2]) bóls, *HK.* [3]) heið-bjarts, *HK.*

65.

Svâ at lausnara leysi
lángvinr frá kvöl strángri
nýta þjóð or nauðum
nafn kuðr við trú jafnan;
víga skys[1] þeir er vísa
velendr framan telja
öflugs Krists af ástum
almennins brag þenna.

66.

Ólafs höfum jöfri
orð hags kyni sagðar
fylgir hugr ens helga
happs dáðir því ráði;
laún fám holl af hánum
hræsik þrimu líkar
göfugs öðar hjalp gæðum
guðs blessan lofs þessa.

67.

Mundi bragr ens brenda
baug hvers vera þersi
kann ek rausnar skap ræsis
raun dýrliga launaðr;
ef lofða gramr lifði
leikmildr Sigurðr hildar
þess lýsek veg vísa
vellom grimmr enn ellri.

68.

Bæn hefir þengill þína

1) skíðs, *HK*.

þrekrammr stoðat framla
iflaust hafum jöfri •
unnit mærð sem kunnum;
ágætr segir (ýtum)
æstán hve ek brag leysta
hás elskik veg vísa
vagnræfrs en ek þagna.

# Registr

yfir

öll manna ok þjóða nöfn, sem finnast í sögu Ólafs konúngs helga.

# Registr

yfir

öll landa, staða ok fljótanöfn, sem finnast í sögu Ólafs konúngs helga.

---

## *Prentvillur:*

I fyrri Deild Ol. S. H. *bls.* 310: Þorláfs *les:* Þórálfs.
— — — — 380: ármaðr Olafs konúngs, *les:* ármanns. Olafr konúngr.

# F o r m á l i.

Eptir niðrskipan þeirri, sem viðtekin er á útgáfu Fornmannasagnanna, er fara skal að tímaröðinni, kemr hèr nú í ljós, næst Olafs konúngs sögu Tryggvasonar, Saga Olafs konúngs ens helga Haraldssonar, með tilheyrandi þáttum í tveim bindum. Skal hèr nú lýst þeim handritum, er brúkuð hafa verið, og frá því öðru sagt, sem helzt er að merkja við atbúníng og útgáfu sögu þessarar.

Sagan er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 61 í arkarformi (*A*), sem áðr Olafs saga Tryggvasonar, og er henni nokkuð lýst við þá sögu; en nú fylgir til ýtarligri ímyndar um hana, eyrgrafin eptirmynd af parti eins blaðs hennar, er það byrjun 79da kap. og inniheldr alla tölu Þorgnýs lögmanns til Olafs Svíakonúngs. I 137da kap. sögunnar skiptir rithöndum í *A* við orðin „at verkkaupi", sleppr þar eldri rithöndin, að ágizkun frá öndverðri 14du öld, er Olafs saga Tryggvasonar og fyrri hluti sögu þessarar er ritaðr með, og tekr við töluvert nýligri hönd, og eigi eins snotur eða jafnvel sett, er og rèttritunin þar lakari, virðist og sem vísurnar í þeim hluta sögunnar heldr hafi afbakazt af vangá eða kunnáttuleysi ritarans. Við orðin í 268da kap. „var bæði læst utan ok innan" byrjar seinasta blaðsíðan í *A*, er hún máð og ólæsilig, en af því frasögnin og kapítula niðrröðunin um hríð á undan hafði í *A* verið samhljóða Flateyjarbók (*F*), en eigi eins vel að hvorutveggju í hinum handritunum, var niðrlag greinds kap. og þrír þar á

ofan fylgjandi kapítular í lok sögunnar tekið úr *F*; sá og til þess á seinustu máðu blaðsíðunni í *A*, sem úti er framí 261sta kap., að bókin var þar enn samhljóða *F*. Fyrir aptan máða blaðið hángir skiki af innra dálki blaðs við kjölinn í *A*, og er auðr á aptari síðunni; má og af því ráða, að *A* hefir eigi haft söguna lengri enn prentuð er. *A* hafði aungvan prólógum fyrir sögunni, og er hann prentaðr eptir *S*, mun hann þó reyndar ekki eiga við þá meðferð sögunnar, sem í *A* og nokkurum hinna handritanna er, sè hún eldri *Snorra*; má vera að sagan sè í þeim handritunum, er hafa prólógum, (en það eru *D*, *G*, *H*, *K*, *S*), dregin úr *Snorra* með ýmsum viðraukum, og hafi þartil lagaðr verið prólógus, er *Snorri* hefir fyrir sínum Noregs konúnga sögum.

Við aðalskinnbókina hafa samanborin verið þau handrit, sem nú skal lýsa:

1) Nr. 75d í 4rablf. (stendr meðal bókanna í arkarformi) (*B*), er Arni Magnússon á lausu blaði framanvið kallar Bæjarbók úr Borgarfirði, og kveðr Síra Haldór í Reykholti fyrrum hafa brúkað, en Arna Gíslason átt. Kálfskinnsbók þessi er sæmiliga og þó mjög þètt skrifuð og ærið bundin, en að rèttritun eigi frábrugðin meðalgóðum skinnbókum; og bendir útlit bókarinnar til, að hún sè rituð á ofanverðri 14du öld; hún byrjar sem *A*, og ferr henni næst, en víkr þó sumstaðar frá í orðatiltæki, þó efnið sè eð sama; hún sleppir líka 16da og 17da kap., hefir eigi nema stutt ágrip 18da kap., líka 19da kap., sem að eins getr gystíngar Astu, og lýsir lítið Sigurði konúngi; hún sleppir enn 21, 23, 24, 28, 29, 30, 35, 36ta og 41sta kap., og úr 44da kap. stykkinu um Finnska spámanninn, sleppir ennfremr 49da kap. og fyrra parti 52ars kap., líka 60sta kap. og niðrlagi 63ja kap. frá merkinu; þá enn úr 87da kap. viðrtali Olafs k. og Astríð-

ar og vís., og úr 122rum kap. vísunni; en hefir umfram *A* P-viðraukann (5 B. eðr 2 D. bls. 195) eptir 179 kap. og ístað 160sta kap. Rauðúlfs þátt í 6 kapítulum (2 D. bls. 330-348). *B* sleppr að fullu í 200sta kap. Vísurnar eru í bók þessari víða afbakaðar og úr lagi færðar. Eptir *B* er pappírsbókin í arkarf. Nr. 74 nákvæmliga skrifuð, og hefir því eigi brúkuð verið.

2) Nr. 325 (7) í stóru 4rablf (*C*), er brot af kálfskinnsbók, er inniheldr mikinn hluta sögunnar; það er vel skrifað og sett, með nokkuð smáu og þèttu letri, og sumstaðar í meira lagi bundnu; rèttritunin er víða nokkuð fábreytilig, og þó að skapi elztu skinnbóka; t. d. er þ víða brúkað fyrir ð, *c* víðast f. *k*, *æ* f. *e*. og *ø* f. *æ*; einstöku sinnum *av* í einum bókstaf f. *á*, líka opt *umb* f. *um*, o. s. frv.; við skammstöfun og band orðanna má það og merkja: rúnin maðr er stundum sett f. orðið maðr, *l* (*vel*) með höllu striki yfir f. e ð a, n'l (*nihil*) f. e k k i, og stöku sinnum *n̄* (*non*) f. e k k i; við stafanna lögun er það fábreytiligt, að látínskt d víða, einkum framantil, er brúkað þar sem óstúngið d skal lesa; fyrir *ll* stendr optast einfaldt *l* með hlykk á miðju, og *ck* er víða bundið í einn bókstaf. Af útliti bókarinnar og rèttritun má því ráða, að hún sè rituð á öndverðri 14du öld, og sum böndin, sem eru látínsk, benda til þess að lærðr maðr hafi skrifað hana. Þar sem *C* víkr frá *A* að orðatiltæki, berr það stundum til að hún er fornyrðtari, hittast og í henni sumstaðar fágætar hneigíngar á orðunum, mátti slíkt þó eigi tilgreina. *C* bókarbrotið byrjar í 5ta kap. og tekr fram í 11ta kap., byrjar aptr í 31ta og nær framí 40sta kap., en vantar 35ta og 36ta, kap., byrjar aptr í 44da kap. og nær framí 72an kap., sleppir 49da kap. og orðum Hrœreks úr niðrlagi 50ta kap, líka fyrstu vísunni með inngánginum til hennar úr 52rum kap., og þá 60ta kap. og

niðrlagi 63ja frá merkinu, byrjar aptr í 73ja kap. og nær þá framí 141sta kap., en sleppir úr 87da kap. viðrtali Astríðar og Olafs konúngs, og vísunni þar; hefir við niðrlag 97da kap. og í 98da kap. umfram *A* vísur, er standa í sögunni hjá Snorra í 108da og 109da kap.; sleppir vísunni í 122um kap.; tekr C þá enn til í 146ta kap. og nær framí 155ta kap.; byrjar þá aptr með 166ta kap. og nær framí 178da kap.; tekr þá enn til í 191sta kap. og nær framí 222an kap.; en sleppir 207da kap. byrjar þá aptr í 229da kap. og endar að fullu í 248da kap. þaraðauk sleppir *C* stökusinnum vísum úr sögunni, er standa bæði í *A* og öllum hinum handritunum, og er þess þá viðgetið í nótunum, eru þó líkliga eigi önnur rök til þess mismunar enn vangá þess er skrifaði bókina; líka hittist stundum í *C* hálfskrifuð eða skammstöfuð vísa.

3) Nr. 325 (5) í 4rablf. (*D*) er skinnbók í litlu 4rablaða formi, rituð í tveim dálkum með skíru og meðalsnotru letri, og venjuligri rèttritun, og trauðliga eldri enn lok 14du aldar; í hana vanta mörg blöð. Hún er allvíða nokkuð frábrugðin *A* að orðatiltæki, og er þá heldr fáorðari, sleppir og stundum greinum, en sjaldnar er hún *A* fjölorðari; þykir og orðfæri hennar, þar sem hún víkr af, eigi jafn fornligt og í *A*. *D* hefir styttri prólógum, eins og við hann er umgetið; sleppir 3ðja kap. og þá 16da og 17da kap.; hefir sem *B* ágrip 18da og 19da kap.; sleppir þá og viðrtali Olafanna úr 20sta kap., líka 21, 23, 24, 28, 29, 30, 35, 36ta og 41sta kap., og stykki, sem *B*, úr 44da kap.; vantar þá enn 49da kap., og tölu Hræreks í lok 50ta kap., líka fyrstu vísuna með tilheyrandi inngángi í 60ta kap. og niðrlag 63ja frá [. *D* sleppr í 85ta kap., en byrjar aptr í 97da kap., og nær þá framí 107da kap.; hefir í 97da og 98da kap. 2 vísur umfram *A*, sem standa hjá Snorra í sög-

unnar 108da og 109da kap.; *D* byrjar þá að nýu í 112ta kap. og nær framí 201sta kap., sleppir vísunni úr 122um kap.; hefir í stað 160sta kap. þátt Rauðúlfs í 6 kapítulum; bætir inní milli 179da og 180sta kap. viðbætirnum *P*. *D* byrjar þá enn aptr í 211ta kap. og nær framí 252an kap.; tekr þá til enn í 257da kap. og nær framí 258da kap.; en seinasta brotið af *D* byrjar eigi fyrr enn sagan er úti, eptir þeirri meðferð hennar, sem hèr er nú prentuð, á orðunum: „þá kölluðu þau á hina helgu meyju Maríam" í fyrsta kap. viðraukans *AA*.; hefir þarnæst 4ða kap. tèðs viðrauka, og þá viðraukann *CC*, og er þar samanborin við *L*, sem tèðir viðraukar eru eptir prentaðir; hefir *D* þá alein þar á eptir viðraukann *DD*. í 3 kapítulum, er hann prentaðr þareptir (2 D. bls. 222-224), og sleppr *D* að fullu í enum síðasta þeirra; en seinasta blað bókarinnar, sem niðrlag kap. og kannske nokkuð meira hefir á staðið, er glatað. Nokkurjar vísur vanta í *D*, sem í *A* standa, og er slíks getið í athugasemdunum við hverja sèrilagi.

4. Nr. 75c meðal handritanna í a. karf., (*E*); það er vel skrifað og settliga með stóru letri, hvorki mjög þèttu nè bundnu, og rèttritunin að því lagi, sem enar eldri og beztu skinnbækr hafa. það er illa farið, að mikinn hluta sögunnar vantar í bók þessa, því annað og þriðja hvört blað er glatað, og stundum mörg í rennu. Skinnbók þessi hefir að vísu verið eitt hið bezta þeirra handrita af sögunni, sem enn eru heil til eða leyfar af, vottar það bæði orðfærið í henni, sem víðast er snoturligra og fegurra þá sjaldan, er hún víkr frá *A* bókinni og þeim handritunum, er *A* koma næst; eru og vísurnar í *E*, að því sem ráða má, sízt úr lagi færðar. Bókin hefir líkliga rituð verið snemma á 14du öld. Brotið byrjar við niðurlag 3ja kap. með hálfri þriðju vísu sem umfram er hin handritin öll, sem þar eru við, og tekr

framí 10da kap.; byrjar þá aptr í 31sta kap., og nær framí 44da kap.; en sleppir 35, 36ta og 41ta kap., líka sem *B*, parti úr 44da kap.; byrjar þá enn í 48da kap., og sleppr aptr í 51sta kap., en fellir 49da kap., og tölu Hræreks úr niðrlagi 50ta kap. undan; byrjar þá enn aptr í 63ja kap. en sleppir niðrlagi hans frá [, og nær framtil 65ta kap.; byrjar þá aptr í 69da kap. og nær framí 73ja kap.; tekr þá enn til í 81 kap. og nær lángt framí hann; byrjar enn í 85ta kap. og nær þá framí 86ta kap., tekr þá aptr til í 89da kap. og kemst framí 91ta kap, kemr enn við með 95ta kap. og nær framí 98da kap, hefir þá vísu umfram *A* við niðrlag 97da kap., er hjá Snorra stendr við niðurlag 108da kap. sögunnar; byrjar þá *E* enn í 107da kap. og nær framí 111ta kap.; tekr þá til aptr í 119da kap. og nær framí 122an kap.; byrjar þá enn í 129da kap. og tekr framí sama kap., tekr þá til aptr í 131ta kap. og nær framí 133ja kap.; byrjar þá enn í 134da kap. og tekr framí 135ta kap.; tekr þá til aptr seint í sama kap. og nær framí 137da kap.; byrjar þá enn aptr í sama kap., og tekr framí 139da kap.; kemr þá aptr við í sama kap., ok nær framí 141ta kap.; byrjar þá enn í 144da kap. og tekr framí 159da kap., en hefir vísu umfram öll hin handritin í 157da kap.; byrjar þá aptr í Rauðúlfsþætti 1ta kap. og nær framí 2an kap., en tekr aptr til í 6ta kap. þáttarins, og sleppr í sama kap., standa þessi 2 brot af þættinum í *E* í stað 160ta kap hèr; byrjar *E* enn í 163ðja kap., og tekr framí 166ta kap., kemr þá enn við í 169da kap., og sleppr í 170ta kap., byrjar þá loksins enn í 182um kap., og sleppr að fullu í 185ta kap.

5) Flateyjarbók á Konúngsins stóra bókasafni (*F*), nafnkend kálfskinnsbók í stærsta arkarformi, er blað hennar sèrhvört skrifað í tveim dálkum, er hún alls 905 dálkar, en saga þessi og annað fleira er þar með hendi Jóns prests Þórðarsonar, og er

bókin rituð milli áranna 1387 og 1395, að því sem hún berr sjálf vitni um. það er alkunnugt, að bók þessi er fremr í miklu áliti og afhaldi af fjölda sagna þeirra, er hún inniheldr, en vali þeirra allra eða nákvæmni og rèttleika ritunarinnar, og er hun þó að þessu hvorutveggiu með meðalbókum teljandi. Olafs saga helga byrjar á 310da dálki bókarinnar, og endar á 516 dálki hennar; kemr hún þar næst á eptir „upphafi ríkis Haralds hárfagra" eða rèttar nefndum söguþætti hans. Inngáng sögunnar sem hèr innifelst í fyrstu 12 kapítulunum vantar á þessum stað í *F*, af því innihald hans er áðr ritað í bókinni við Olafssögu Tryggvasonar. A eptir Haralds söguþætti kemr í *F*, sem inngángr til Olafssögu, (á 306-308 dálks) „þáttr Haralds grænska" í 4 kapítulum, sama innihalds og 13, 14, og 15di kap. hèr, og þeim að miklu leiti samhljóða. þá kemr á 308 til 310 dálks enn á undan sjálfri sögunni „þáttr Olafs Geirstaða álfs" í 4 kap., sama höfuðefnis sem 16di og 17di kap., þó með nokkrum viðbætir. Sagan byrjar því í *F* með 18da kap. hèr, er hann og næst fylgjandi kap. nokkuð frábrugðnir þar, en þó sama efnis. *F* sleppir 28, 29 og 30sta kap., en bætir 5 kap. við eptir 34da kap. hèr, eru þeir prentaðir hèr aptan við söguna eptir *F* í viðraukanum *A* (2 D. bls. 155-165); er þó annar og þriði þeirra reyndar sama innihalds og 29di og 30sti kap. hèr, en tveir þeir seinustu standa í stað 35ta og 36ta kap., og eru að nokkru leiti sama efnis. *F* bætir þá og enn við (á 319-320 dálks) 2 kap. á eptir 37da kap. hèr, og eru þeir þar eptir prentaðir í viðraukanum *B* (2 D. bls. 166-168); þó er síðari partr ens fyrra þeirra nærri því eins og 28di kap. hèr, sem um er getið að vantaði í *F*. *F* sleppir úr sögunni 39da kap. og fyrra hluta 40ta kap. að orðunum „Eptir þat rak

Knútr konúngr af Englandi," líka sleppir hún 41sta kap., og er hann þó að nokkru leiti enn sami og síðari kap. viðraukans *B*; sleppir *F* og 43ja kap., og þá úr 44da kap. stykkinu um finnska spámanninn, og enn 45ta og 49da kap., og ræðu Hræreks í lok 50ta kap. og þá vísunni með inngángi úr 52um kap. er þó kemr seinna í *F* í viðbætir (sjá viðraukann *FF*). þá bætir *F* (á 327da dálki) við grein í 54da kap. við orðin "ok lagðist við Gr. með herinn„ er hún prentuð þareptir í viðraukanum *C* (2 D. bls. 168-169), og enn bætir hún ein við (á 328da dálki) grein í 55ta kap. hèr, eptir orðin „ok bjuggust vel um", er sú grein prentuð í viðraukanum *D* (2 B. bls. 169-170); og þá sleppir hún 4ðu vís. úr sama kap., en fyrsta greinin af 56ta kap. er í henni nokkuð fjölorðari; *F* sleppir þá og 60ta kap., en kallar 64da og 65ta kap. þátt Eyvindar Urarhorns. þá bætir *F* enn ein við (á 341ta dálki) grein inní 73ja kap. hèr, á eptir seinustu vís., er það viðraukinn *E* (2 D. bls. 170-171). A eptir 75ta kap. hèr, kemr þáttr Styrbjarnar Svíakappa í *F* einni (á 342-344 dálks), er hann þar eptir prentaðr (*A* 2 D. bls. 245-251) *) og líka Hróaþáttr (*B* 2 D. bls. 252-256), er honum fylgir í *F* (á 344-348 dálks). þá kemr, á eptir 82um kap. hèr, upphaf Fostbræðrasögu í *F* (á 354-363 dálks), er það prólógus sögunnar, og 13 fyrstu kap. hennar samhljóða handriti því, er sagan er prentuð eptir í Khöfn 1822 8blf.; eru hvorki þeir, nè framhald sögunnar, er síðar mun getið verða, hèr prentað, af því

*) þáttr þessi er áðr prentaðr, með látínskri útleggíng, í Schedis Ara, er Worm útgaf í Öxnafurðu 1716; er þáttrinn í ritgjörð þar aptanvið, er kallast *De Aræ Multiscii vita & scriptis Dissertatio*, á bls. 111-118.

það á eigi við þessa sögu. Enn bætir *F* (á 365 dálki), á eptir 85ta kap. hèr, einum kap. við um Olaf. k. og Sighvat, er fyrri partr hans viðbætirinn *H*, sem prentaðr er eptir *L*, er orðamunrinn tekinn úr *F*, (sem þar kallast *Fa* til aðgreiníngar frá orðamun þeim sem þar er viðtekinn úr viðbætirnum við söguna í *F*, er síðar verðr getið, og aptr hefir sama kap. og kallast *Fb.*); en síðari partr hans er fyrsta vísa 3ja kap. með inngánginum til hennar í viðraukanum *G*, og er þarvið orðamunr tekinn hèðan úr *F* (*Fa*). þá fellir *F* undan úr 87da kap. viðrtal Olafs konúngs og Astríðar, en vísan þar kemr seinna með annari fyrisögn, sem síðar mun getið. Eptir 88da kap. hèr kemr þá í *F* e i n n r i (á 368-377da dálks) þ á t t r E y m u n d a r o k O l a f s k o n ú n g s, og er þar eptir prentaðr (*C*, 2 D. bls. 267-298). þaráeptir bætir *F* (á 377da dálki) enn e i n við v i ð r a u k a n u m *F* (2 D. bls. 171-172). Enn bætir *F* e i n við (á 378-379 dálks) þ æ t t i T ó k a T ó k a s o n a r, og er hann þareptir prentaðr (*D* 2 D. bls. 299-303). þá bætir *F* þarnæst enn við (á 379-381sta dálks) kapítula, sem prentaðr er í viðraukanum *L* eptir handritinu *L*, og er hann fjölorðari í *F*. þá er enn þará eptir (á 381 dálki) í *F* bætt inní söguna þætti af Isleifi biskupi, er prentaðr er aptanvið Kaupmannahafnar útgáfuna af Kristnisögu, og á eigi við þessa sögu. Enn er þaráeptir viðbætt í *F* (á 382-385ta dalks) þætti Egils Hallssonar og Tófa Valgautssonar, sem prentaðr er hèr (*G* 2 D. bls. 321-329) eptir *L*, en samanborinn við *F*, og er hann þó í *F* enginn sèrílagi þáttr, heldr nokkur grein sjálfrar sögunnar, er þar sumstaðar lítið fjölorðari, en sama efnis, og er orðamunrinn sá eigi tekinn. þá kemr í *F* (á 385-396 dálks) framhald Fóstbræðrasögu, samkvæmt 14-23 kap. ennar prentuðu, og er því

hèr sleppt. þá er komið í *F* að 89da kap. hèr, og kallast hann þar þáttr Eymundar af Skörum. Enn bætir *F* (á 400 dálki), eptir 89da kap. hèr, viðraukanum *O*, og er þar heldr fáorðari enn *L*, sem þá er til grundvallar lögð. þá sleppir *F* úr þessari sögu 91ta kap. og fyrra hluta 92ars kap. að orðunum „þat var eitt sumar" kallar þá síðara hluta kap. og framað 99da kap. Orkneyínga þátt, og bætir við 2 vísum í lok 97da og 98da kap. eins og við *C, D, E* er áðr getið, en kallar þá 107-110 kap. sögunnar þátt Dala-Guðbrands ok Olafs konúngs. A eptir 110da kap. hèr bætir *F* (á 410-413 dálks) ein inní söguna þætti Eindriða ok Erlíngs, er hann hèr eptir henni prentaðr (2 D. bls. 304 - 313), en fyrisögn þáttarins stendr þar yfir 110da kap., og er svo sett af vangá, því ekki á hann við þáttinn. Enn bætir *F* inní (á 414-428 dálks) á eptir 111ta kap. hèr framhaldi Fóstbræðrasögu 24-44 kap. samhljóða þeirri prentuðu. þaráeptir bætir *F* inní einum kap., er á að vera inngángr eptirfylgjandi frásagnar um Asbjörn selsbana með fyrisögn: þáttr Asbjarnar Selsbana; er sá kap. eigi tekinn í viðraukunum, því hann innihelder eigi nema ómerkiliga afsökun fyrir að þættir sèu innteknir í söguna, er eigi sýnist í fyrstu að koma við hana, en hnýgi þó að lokum til heiðrs Olafi konúngi. þá sleppir *F*, eins og hin handritin, vísunni úr 122um kap. hèr. Fyrir kap. 124da hèr, er sú fyrisögn í *F*, að hann kallast: Færeyíngaþáttr ok Olafs konúngs; má þess og geta, að 131sti kap., upphaf 132ars kap., líka 138di og 139di kap. hèr eru færðir frameptir í *F* og viðtengðir 124da kap., hnýtir *F* (á 441 dálki) við þá einum kap. um sætt þeirra Færeyínga og þrándar, sem hèr vantar í söguna, en var þó eigi tekinn í viðrauka, af því hann snertir ekki sjálfa söguna, og verðr

þaraðauki prentaðr í tilkomandi útgáfu Færeyíngasögu. *F* kallar 133ja og 134da kap. hèr: þátt Steins Skaptasonar, og sleppir úr 153ja kap. greininni um Egil og Tófa, er áðr getið þess, að hún hafði lengri frásögn um þá eptir 88da kap. að framan. Þá bætir *F* (á 461-462 dálks) á eptir 157da kap. hèr, enn ein við 3 kapítulum, sem þar eptir eru prentaðir í viðraukanum *M* (2 D. bls. 186-190). Eins og hin handritin hefir *F* (á 463-468 dálks) líka þátt Rauðúlfs ok sona hans í stað 160sta kap. hèr, og er við þau samanborinn. Enn bætir *F* (á 469 dálki) kapítula inní söguna, er það á eptir 161 kap. hèr; er hann á þá leið prentaðr í viðraukanum *N* (2 D. bls. 190-191). Þá bætir *F* eins og hin handritin *P* viðraukanum inní söguna á eptir 179da kap. hèr. I byrjun 182ars kap. hèr bætir *F* við ómerkiligu múnkarugli um mótgáng Olafs konúngs, og er það eigi tekið, en í stað 185ta kap. hèr hefir *F* (á 481 dálki) ein viðraukann *Q* (2 D. bls. 195-197), bætir þá og ein við (á 482 dálki) eptir 189da kap. hèr viðraukanum *R* (2 D. bls. 197-198). A eptir 190sta kap. hèr bætir *F* inní söguna (á 483-485 dálks) 2 kapítulum, er kalla má Volsaþátt, með mörgum vísum og heldr lakligum, en frásögnin af hèrvillu nokkurri klæmin og ómerkilig, og var því eigi hèr prentuð. Þaráeptir bætir *F* inní 46 kap. úr Fóstbræðrasögu, er eigi á heldr hèrvið. Þá eykr *F* (á 487da dálki) eptir 191sta kap. hèr inní viðraukanum *S* (2 D. bls. 199-200) og er hann eptir henni prentaðr, og líka viðraukinn *T* (2 D. bls. 200-201) er hún ein bætir inní (á 488 dálki) eptir 192an kap. hèr, ístað þess sem hún áðr undanfeldi úr 87da kap. sögunnar. Enn bætir *F* (á 488 dálki) ein inní 193ja kap. hèr á undan orðunum „þá tók konúngr nokkorar merkr silfrs" viðraukanum *U* (2 D.

bls. 201), og á undan Bjarkamálavísunum í 194da kap. hèr, hallmæli þormóðs gegn Sighvati, og á eptir vísurnar, frásögn hans um hvað mörg víg hann hafði unnið, samkvæmt 48da kap. Fóstbræðrasögu. þá bætir *F* ein (á 490sta dálki) við niðrlag 200asta kap. inní viðraukanum *V* (2 D. bls. 201), og (á 493ja dálki) ístað byrjunar 211ta kap. að orðunum „þórir hundr kom þá" hefir hún viðraukann *X* (2 D. bls. 202-203). þá hefir *F* (á 495-496ta dálks) ein, ístað fyrstu þriggja línanna af 212ta kap. hèr, viðraukann *Y* (2 D. bls. 204-205); eru þessir fjórir síðarstnefndu viðraukar prentaðir hèr eptir *F*. En bætir *F* (á 496ta dálki) inní 212ta kap. á eptir orðunum „ok allt lið þat er eptir var" nokkru úr Fóstbræðrasögu, sem eigi er hèr tekið; er það greinin seinasta af 48da kap. og fyrstu tvær af 49da kap. í prentuðu sögunni. þá er viðraukinn *Z* (2 D. bls. 205-207) prentaðr hèr eptir *F* (á 497 dálki), er hefir hann ístað byrjunar 214da kap. sögunnar hèr, að orðunum„ Kálfr gaf ekki at því gaum." Enn bætir *F* við (á 497-498 dálks) framanvið 215da kap. hèr, atriði úr Fóstbræðrasögu, sem eigi er hèr tekið, og er það þriðja grein 49da kap. í prentuðu sögunni. þá sleppir *F* úr sögunni *) 217da kap. um burtferð Haralds Sigurðarssonar. Ístað 218da kap. hèr hefir *F* þá (á 498-500 dálks) að nokkru leiti aðra og lengri frásögn af dauða þormóðar Kolbrúnarskálds, orðrètt samhljóða niðurlagi Fóstbræðra sögu, frá greinaskiptunum bls. 206 í 49da kap. prentuðu sögunnar, er mismunrinn því eigi tekinn meðal viðraukana.

*) Vera má að þessi kap. og fleiri slíkir, sem getið er um að *F* sleppi úr þessari sögu, komi seinna í Flateyjarbók í þeirra konúnga sögum, er þeir þóttu heldr viðeiga.

Eptir 226 kap. hèr hefir *F* þann kapítula, er hèr er sá 238di með nokkrum orðamun, bætir *F* inní hann á undan orðunum „Sighvatr kom heim í Noreg" annari vísu viðraukans *Æ* (sem prentaðr er eptir *L*) með þeirri fyrisögn og eptirmála, er þar og í orðamunninum undir er um getið. þar næst á eptir bætir *F* (á 504-505ta dálks) ein við viðraukanu'm þ (2 D. bls. 207-208), en þaráeptir hefir hún kapítulana, er hèr eru sá 239di og 240asti. þá kemr í *F* á milli 227da og 228da kap. hèr, kapítuli er fyrst getr með nokkrum orðum falls Tryggva fyrir Sveini, og komu Magnúsar í Norveg, (má það álíta sem ágrip frásagnarinnar úr 233-236ta kap. hèr, sem *F* sleppir), og inniheldr þarnæst niðrlag 238da kap. hèr, frá orðunum „Sveinn konúngr Knútsson fór til Danm," og að síðurstu 232an kap. hèr. þá sleppir *F* 231sta kap. hèr, hefir þó reyndar innihald hans síðar, sem getið skál, öðruvís orðað sem sjá má í síðara kap. viðraukans *BB*; hefir þá 232an kap. hèr, framar þar, sem áðr var getið, en fellir úr 233-236ta kap. hèr. Sem áðr er getið stóð 238-240sti kap. hèr framar í *F*; en 241-248da kap. hèr sleppir *F* öldúngis úr sögunni; þá fellir og *F* úr sögunni 253ja kap. hèr. A eptir seinasta kap. sögunnar hèr bætir *F* (á 513da dálki) enn ein við viðraukanum *Ö* (2 D. bls. 211-213) og er hann eptir henni prentaðr. þar á eptir bætir *F* við viðraukanum *AA*, og er þar samhljóða *L* sem hann er prentaðr eptir. þarnæst bætir *F* (á 514-516 dálki) við viðraukanum *BB* (2 D. bls. 216-221), og er hann eptir *F* prentaðr, er vísan í seinni kapítulanum þar líka áðr komin með annari fyrrisögn í *Æ* viðraukanum eptir *L*. þaráeptir bætir *F* að endíngu við söguna viðraukanum *Æ* (sem prentaðr er eptir *L*) að undanteknum tveim miðvísunum og fyrisögn

þeirra, sem getið var að *F* hafði fyrr. Nú hefir verið viðleitazt að telja það, er Olafssögu í Flateyjarbók og þá hèr prentuðu meðferð sögunnar skilr, en svo hefir verið til hagað útgáfunni, að lesendr geti sèð mismuninn annaðhvort í orðamuninum við útgáfuna eða viðraukunum, og þá að nokkru leiti í áðr prentuðum sögum með styrk skírslu þessarar, er nú var gefin um bókina. Þess má hèr samt minnast, að enn er sumstaðar í Flateyjarbók frábrugðin niðurröðun kapítulanna auk þess sem um er getið, er hèr og óvíða tilgreindr sá orðamunr, er eigi breytti meiníngu frásagnarinnar, er þá og eigi þaðan tekinn við vísurnar nema sá orðamunr, er nokkru þótti skipta, en eigi sá, er af afbökun þótti sprottinn.

Auk þess, sem Flateyjarbók hefir umfram þá meðferð Olafssögu sem nú er prentuð, og áðr er upptalið, hefir hún seinna á eptir Hákonarsögu Hákonarsonar (á 750-754da dálks) viðbætir við söguna eptir Styrmi presti fróða að nokkru leiti umfram öll önnur handrit sögunnar, og er hann hèr nú líka prentaðr í v i ð r a u k a n u m *FF* (2 D. bls. 225-242). Þó verðr þess að geta, að eigi er allr viðbætirinn þar prentaðr í samfellu, því á undan kapítulanum „Olafr konúngr hafði með sèr marga íslenzka menn" er það úrfellt, sem áðr stendr að mestu samhljóða í viðraukunum *G*, *H* (2 D. bls. 173-180) og þar er prentað eptir *L*, er hafði greinir þær einni vísu fullkomnari; en tèðr viðbætir í *F* er þarvið samanborin og við þær greinir kallaðr *Fb*, sem Flateyjarbók hefir áðr framí sjálfri sögunni, og þar til aðgreiníngar kallast *Fa*, sem áðr er getið. Tèðar greinir viðbætirsins standa í *F* í þeirri röð, að *H* viðraukinn er þeirra fyrstr, og þá þriði kapítuli viðuraukans *G*, og þá fyrsti og annar kap. hans. Þaráeptir kemr kap. um

fiskiveið Sighvats, en sem áðr stendr í sögunnar 52um kap., en af því hann var í viðbætirnum nokkuð frábrugðinn, er hann þar aptr prentaðr, mátti því eigi heldr úrfellast, að efni hans hèkk saman við eptirfylgjandi kapítula um Bersa og hin skáldin; en þess er að gæta, að sú vísa, sem í þeim kap. er talin Bersa, er áðr í sögunnar 158da kap. kveðin sögð af Sighvati með öðrum atburðum, og var þó *F* þar í sögunni *A* samhljóða. A undan seinasta kap. viðbætirsins „Olafr konúngr efldi í mörgu kristinn rètt" er og kapítula sleppt úr honum, er sá áðr prentaðr eptir *H* (*K*. 2 D. bls. 181-182) sem hafði hann betr orðaðan. Seinasti kap. viðbætirs þessa líkist að nokkru 60sta kap. sögunnar hèr, er mörg handritin sleppa.

6. Kálfskinnsbókarbrotið Nr. 325 (⁶) í stóru fjögrablaða formi, og blað hvört ritað í tveim dálkum, (*G*) inniheldr meiri hluta sögunnar, þó víða sèu blöð úr týnd. það er vel ritað og settliga, nokkuð þètt og bundið, og rèttritunin eins og í enum betri skinnbókum, og trauðliga ýngra enn frá miðri 14du öld; það er mjög samhljoða *S*, sem síðar verðr getið. Bókarbrotið *G* byrjar á prólógus, en seinni hluti hans er úrrifinn; byrjar *G* þá aptr á sjálfri sögunni og nær framí 37da kap., en fellir úr 16da og 17da kap. hefir ágrip 18da og 19da kap. hèr; sleppir þá og greininni um Olafana úr 20sta kap., líka 21, 23, 24, 28, 29, 30, 35 og 36ta kap.; byrjar *G* aptr í 43ja kap. og tekr þá framí 71sta kap., en sleppir grein úr 44da kap, og 49da kap., og þá í lok 50sta kap. ræðu Hræreks og fyrstu vísunni með fyrisögn úr 52rum kap., líka 60sta kap. og niðrlagi 63ja kap. frá merkinu; tekr þá aptr til í 83ja kap. og nær framí 89da kap., en sleppir viðrtali Astríðar og Olafs og vísunni úr 87da kap.; byrjar þá enn í 96ta kap. og tekr framí 137da kap., en

hefir í lok 97da og 98da kap. umfram *A* 2 vísur sem hin flest, og sleppir vísunni úr 122rum kap.; tekr aptr til í 181sta kap. og nær framí 188da kap., byrjar þá enn í 220sta kap. og er þá að fullu lokið í 253ja kap. hèr.

7. Pappírshandrit Nr. 73 í arkarformi með settletri (*H*), er æði frábrugðið öllum hinum handritum sögunnar, hefir bæði kapítula, er eigi koma sögunni við umfram, og fellir undan, þegar á söguna líðr, kapítula, er þau öll hafa, verðr þá og opt fáorðara í frásögninni, og illa orðað, t. d. stendr þar í byrjun 205ta kap. „tilbæriligr" í 207da kap. „þènurum" o. s. frv.; þykir og allvíða sem orð sèu afbökuð og úr lagi færð og helzt í vísunum. Milli 4da og 5ta kap. bætir *H* inní kap. um fóstr Hákonar Aðalsteinsfóstra á Englandi, sama efnis sem 9di og 10di kap. Olafs sögu Tryggvasonar; hefir þá ístað 16da og 17da kap. nokkuð lengri frásögn um Olaf Geirstaðaálf álíka og *F*; en sleppir 23, 24, 28, 29, 30, 35, 36, 41 og 49da kap., og greininni um spámanninn úr 44da kap., og ræðu Hræreks í lok 50sta kap.; fellir þá og undan 4ðu vísuna úr 52um kap. (hefir gleymst að geta þess í athugasemdunum), en hefir vísuna, er fyrst stendr í þeim kap. hèr, með tilheyrandi inngángi í 59da kap.; þá fellir *H* undan 60sta kap., og niðrlag 63ja kap. frá [, og enn viðrtal Olafs k. og Astríðar ásamt vís. úr 87da kap., en bætir við í lok 97da og 98da kap. 2 vísum, eins og flest hin handritin, og þá enn á eptir 98da kap. 10 kapitulum, er viðkoma Birni Hýtdælakappa og þórði Kolbeinssyni, og standa þar reyndar fyrir 60sta kapítulanu, sem áðr vantaði; eru þeir eigi teknir hèr meðal viðraukanna, af því að þeir eiga við sögu Bjarnar og eigi við þessa sögu. I aptanverðan 109da kap. hèr bætir *H* inní söguna 2 fyrstu kap. viðraukans *G*, fellir þó undan vísuna í fyrra kapítulanum, og aptr,

eptir 118da kap. hèr, bætir *H* inní söguna seinasta kap. viðraukans *G*, og þaráeptir viðraukanum *H*, að undantekinni seinustu vísu hans og fyrisögn hennar; er helzti orðamunrinn, sem *H* hefir, tekinn við þessa viðrauka. þá bætir *H* og inní á undan 2 síðarst nefndum kapítulum, og næst eptir 118da kap. hèr, 2 kapítulum um þorkel Eyjúlfsson, sem hèr eru eigi prentaðir, af því þeir eiga við Laxdælu, og eru sama efnis sem 74di og 75ti kap. þar; þaráeptir koma 15 kapítular af Fóstbræðrasögu, er innihalda höfuðefni 18-45ta kap. eptir prentuðu sögunni, en eru öðruvís orðaðir og styttri enn þar; eru þeir hèr eigi heldr teknir. Ur 122rum kap. hèr sleppr *H* vísunni, en bætir inní söguna áeptir 127da kap. hèr *G*-viðraukanum, og er þar samanborin við *L* handritið, sem hann er prentaðr eptir. þá bætir *H* inní söguna áeptir 134da kap. hèr viðraukanum *K* (2 D. bls. 181-182) er hann þar eptir prentaðr, og samanborinn við viðbætirinn í Flateyjarbók, og líka við *K*. Istað 160ta kap. hèr hefir *H*, eins og hin handritin, Rauðúlfsþátt, og bætir sem þau P-viðraukanum inní söguna eptir 179da kap. hèr. Kapítulinn 193ði er styttri í *H*, en 202an og 203ðja kap. vanta þar að mestu, er þá og 205ti kap. og fylgjandi kapítular, allt fram að vísunum í 211ta kap. hèr, mikið styttri, og að eins ágrip af þeim í *H*. Enn fellir *H* úr sögunni 253, 254, 255, 256, 257da kap. þá bætir *H* við niðrlag sögunnar viðraukanum *Æ*, að undanteknni vísunni um Alfífu og fyrisögn hennar, og er orðamunr úr *H* þar viðtekinn. Auk þess, sem nú er talið, að *A* og *H* hafi skilið, fellir *H* þaraðauki víða vísur undan sem standa í *A* og hinum handritunum, nefniliga: í fyrri deildinni á bls. 102, 105, 151, 185, 186, 190, 349, 350, 354, 377, og í 2ri deild bls. 16, 76,

79 og 80, sem ljósar má sjá í athugasemdunum. Samhljóða *H* er pappírshandritið Nr. 76a í arkarf. með hálfsettu letri, og annað Nr. 71 í arkarf. með fljótaskrift, nema prólógus vantar í því síðarnefnda; þessara handrita orðamunar er því eigi getið.

8. Kálfskinnsbókarbrotið Nr. 75 *A* í 4rablf. (stendr meðal bókanna í arkarformi) (*I* eða *J*) er vel skrifað með stóru letri og eigi allþèttu nè bundnu, og er hvört blað ritað í tveim dálkum. Af rèttritun bókarbrotsins og útliti þess þykir ráða mega að það sè skrifað í byrjun 14du aldar. Eigi skilr *A* og *I* mikið að orðatiltæki, en þar sem svo berr við, er jafnvel orðað í *I*, eru vísunar þar og allrèttligar. *I*-bókarbrotið byrjar í 55ta kap. sögunnar, og tekr framí 57da kap., kemr þá aptr við í 62um kap. og nær framí 76ta kap., en sleppir niðrlagi 63ðja kap. frá merkinu; byrjar þá aptr í 85ta og nær framí 89da kap., en sleppir viðrtali Astríðar og Olafs með vís. úr 87da kap.; tekr þá enn til í 89da kap., og nær framí 95ta kap., byrjar þá aptr í 97da kap. og tekr framí 101ta kap., en bætir við niðrlag 97da og 98da kap. 2 vísum sem hin; kemr þá enn við í 117da kap. og nær til loka 122ars kap., en sleppir vís. úr 122rum kap.; byrjar aptr í 127da kap. og tekr framí 134da kap., kemr þá enn við í sama kap. og nær framí 137da kap., byrjar aptr í 153ðja kap. og tekr framí 156da kap.; kemr þá aptr við í 2rum kap. af Rauðúlfsþætti, er *I* eins og hin hefir fyrir 160asta kap. sögunnar; endar þá *I*- bókarbrotið að fullu í 4da kap. þáttarins.

9. Kálfskinnsbók í arkarformi í konúngsins bókasafni í Stokkhólmi, er nefnist Konúngabók af Bergi ábóta (*K*); hún er allvel skrifuð og með eldri bókum teljandi. Eins og hin handritin sleppir hún nokkr-

um kap. sem í *A* standa, og þó eigi jafnmörgum sem flest þeirra, hefir líka marga kapítula umfram *A*, og standa þeir þó flestir í einhverjum hinna handritanna, og eru hèr teknir í viðraukana; þó hefir og *K* einstöku kapitula enn umfram þau, sem hèr verðr að eins tilbendt; en þegar bókin var samanborin, urðu þeir eigi annríkis vegna uppskrifaðir, voru og lítils verðir og sögðu helzt frá heilagleik Olafs konúngs eins og flest það er *K* bætir við. Að öðru leiti virðist *K* að orðun og frásögn helzt vera samhljóða *D*. *K* fellir nokkuð undan úr prólógus, eins og *D*, sleppir þá og 21, 23 og 24da kap., hefir þá miklu fjölorðari lýsíngu Olafs í 25ta kap. enn hin.; fellir úr 28, 29, 30, 35 og 36ta kap., en bætir inní söguna í lok 40asta kap. 6 kapítulum, áhrærandi kraptaverk Olafs konúngs, og sleppir þá 41sta kap., er þó nokkuð efni hans í einum greindra kap., er *K* bætti við. þá sleppir *K* og 49da kap. hèr, og ræðu Hræreks í lok 50ta kap. og fyrstu vísunni með tilheyrandi inngángi úr 42rum kap. Við niðrlag 54da kap. bætir *K* inní söguna grein, er vera mun sama og viðraukinn *C*, er *F* bætir við á sama stað. A undan 58da kap. hèr bætir og *K* við kapítula, er inniheldr lofræðu um Olaf konúng, er vera mun sama innihalds og 60ti kap. hèr sem *K* fellir úr; þá sleppir *K* líka niðrlagi 63ðja kap. frá [. Amilli 66ta og 67da kap. hèr bætir *K* inní söguna frásögn um Valgaut, er það þáttrinn af Egli Hallssyni og Tófa Valgautssyni, er hèr er prentaðr aptan við söguna. þá bætir *K* ómerkri grein inní söguna í lok 86ta kap., og milli 86ta og 87da kap. hèr einum kap. um ferð Astríðar og Egils, fóstra hennar, á fund Olafs k. helga, en sleppir úr 87da kap. viðrtali Astríðar og Olafs k. ásamt vísunni. Við lok 97da og 98da kap. bætir *K* líka við 2 vísum eins

og flest hin handritin. I aptanverðan 109da kap. hèr bætir þá *K* líka tveim fyrstu kapítulum viðraukans *G*, og ámilli 117da og 118da kap. hèr viðraukanum *H*; sleppir þá *K* vísunni úr 122rum kap. en bætir *O* viðraukanum inní söguna eptir 127da kap., og *K* viðraukanum eptir 129da kap. og þá enn eptir 132an kap. hèr grein um hvarf Olafs konúngs á nóttum. Þá vantar eitt blað í *K*, og nemr það frá orðunum í 135ta kap., „or Vestrafirði," og til orðanna „arkarfót einn" í 137da kap., og enn vantar aptr í *K* frá því í 165ta til þess í 169da kap. blöð. Istað 160ta kap. hefir *K* Rauðúlfsþátt, en bætir inní milli 179da og 180sta kap. *P*- viðraukanum. Þá eru týnd úr *K* blöð frá því í 182um til í 189da kap., en á eptir 189da kap. bætir hún inní söguna *S*- viðraukanum, og þá í niðrlagi 193ðja kap. hèr *U*- viðraukanum. Þá vantar enn blað í *K*, er nemr frá því í 210-211ta kap., en við niðrlag 223ðja kap. bætir hún inní vísu með fyrisögn um Alfífu, sem stendr í *Æ*- viðraukanum (2 D. bls. 209), og í 231sta kap, ístað orðanna „svo ok Kálfr Arnason ok" því sem stendr í *BB*-viðraukanum á eptir vísuna þar. Þá sleppir *K* 258da kap. hèr, en bætir 2 kap. við eptir 261sta hèr, er það viðraukinn *EE*, og þá annar kap. viðraukans *AA*. Þá vanta líka nokkrar vísur í *K*, sem getið er í athugasemdunum.

10. Skinnbók á enu konúngliga stóra bókasafni í Kaupmannahöfn í arkarf. (*L*) er kallast Thómásskinna, af því Thómásar postula saga er þar fyrst í bókinni. Bókin er hvorki vel nè rètt skrifuð, og víða sèr þess merki, að sá er ritaði ekki hefir getað lesið það sem hann ritaði eptir, og af því stundum skrifað raung orðin og stundum ólæsilig, eru þau á þann hátt víða afbökuð og helzt í vísunum. Rèttritun bókar-

innar og útlit sýnist benda til, að hún sè skrifuð einhvörntíma á 15du öld; hún sleppir mörgum kap. sem standa í *A*, en hefir þá líka mikið umfram *A*, og öll hin handritin. Pappírs handritið Nr. 72 í arkarformi með hendi Asgeirs Jónssonar er skrifað eptir þessari bók. *L* hefir engan prólógus, fellir og undan 16da og 17da kap., en hefir að eins ágrip 18da og 19da kap., sleppir líka viðræðu Olafanna úr 20sta kap., og þá 21, 23, 24, 28, 29, 30, 35, 36 og 41sta kap., ennfremr greininni um spámanninn úr 44da kap., og tali Hræreks í lok 50sta kap., líka fyrstu vísunni með inngángi til hennar úr 52rum kap, og 4ðu vísunni úr 55ta kap.; tvítekr í 86ta kap. greinina frá orðunum, „öndverðan vetr fór Sighvatr úr Borg" o. s. frv. til „Brátt sagði Sighvatr Olafi konúngi" er hún í *L* bæði þar, sem *A* hefir hana (bls. 192) og líka á eptir 12tu vísuna í sama kap., þar sem hún stendr í hinum handritunum. Þá bætir *L* inní 2 vísum í lok 97da og 98da kap. sem flest handritin. A undan orðunum í 109da kap. hèr „þann vetr hafði andazt Olafr Svíakonúngr" bætir *L* inní söguna 3 kapítulum, eru þeir hèr prentaðir eptir henni, og er það viðraukinn *G* (2 D. bls. 173-178), en *F, H, K* eru þar við samanbornar, að því leiti sem þær hafa viðraukann. Þá bætir *L* kapítula inní söguna á eptir 117da kap. hèr, er það viðraukinn *H* (2 D. bls. 178-180), og er hann þar eptir prentaðr og samanborinn við *Fa*, *Fb*, *H*, og *K*. Þaráeptir bætir *L* ein inní söguna: frásögn um Þórarinn Nefjúlfsson, sem eptir *L* er prentuð meðal þáttanna (*F*, 2 D. bls. 314 - 320). *L* fellir úr 122rum kap. hèr vísuna. Þá er þáttr Egils Hallssonar ok Tófa Valgautssonar (*G*, 2 D. bls. 321-329) prentaðr hèr eptir *L*, sem á ýmsum stöðum bætir honum inní; fyrsta kap. hans bætir hún

inní söguna á eptir 125da kap., en öðrum eptir 128da kap. hèr; en þriði kap. þáttarins stendr í *L* í stað fyrra hluta 153ðja kap. hèr. Aeptir 134da kap. hèr bætir *L* ein inní söguna viðraukanum *I* (2 D. bls. 180-181), og er hann prentaðr eptir *L*; þá bætir *L* og inní eptir 153ðja kap. hèr viðraukanum *L* (2 D. bls. 182-186), og var hann því heldr prentaðr eptir *L* enn *F*, að *F* hefir hann skjalmeiri og eigi jafnsöguligan. Þaráeptir bætir og *L* inní einum kap. um Þormóð Kolbrúnarskáld, en hann var hèr eigi tekinn af því hann á við Fóstbræðrasögu, og er ágrip 24da og 25ta og upphafs 26ta kap. hennar framyfir fyrstu vísuna eptir útgáfunni. Eins og hin handritin hefir *L* þáttinn af Rauðúlfi ok sonum hans í stað 160sta kap. hèr, og er hann eptir henni prentadr (*H*, 2 D. bls. 330-348) og við hin handritin samanborinn. Þá er og viðraukinn *O* (2 D. bls. 191-195) prentaðr eptir *L*, en samanborinn við *F* og *H*, bætir *L* honum inní söguna á eptir 177da kap. hèr; þá bætir hún og við *P*-viðraukanum (2 D. bls. 195) eptir 178da kap. hèr, er hann prentaðr eptir *L* og samanborinn við hin handritin sem hann höfðu. Enn bætir *L* við í 253ðja kap. hèr eptir fyrri vísuna þar *Æ*-viðraukanum (2 D. bls. 208-211), sem þareptir er prentaðr og samanborinn við *F* og *H* og að nokkru leiti við *K*. Þá sleppir *L* seinasta kap. sögunnar hèr, en hefir í hans stað 6 aðra kapítula, er það fyrst viðraukinn *AA* (2 D. bls. 213-216), sem þareptir er prentaðr og samanborinn við *F* og að nokkru leiti við *D*, *K*; þarnæst hefir *L* viðraukann *CC* (2 D. bls. 221-222), sem er samanborinn við *D*, og endar þá söguna með viðraukanum *EE* (2 D. bls. 224-225); eru báðir þessir viðraukar prentaðir eptir *L*.

11. Skinnbók Nr. 2 í arkarformi í konúngsins bókasafni í Stokkhólmi (*S*); hún er vel og regluliga skrifuð og rètt orðuð, má og af rèttritun og útliti hennar ráða, að hún er með eldri skinnbókum teljandi; að orðatiltæki skilr hana og *A* eigi töluverdt, en nokkrum kapítulum sleppir hún úr sögunni hèr eins og flest handritin. *S* er allra handritanna líkust Snorra frásögn að orðatiltæki, og einkanliga í vísunum; hún er og mjög samhljóða *G* bókarbrotinu; hún hefir prólógum við söguna, og er hann prentaðr eptir henni sem áðr er getið.; hún sleppir 16da og 17da kap., og hefir að eins ágrip 18da og 19da kap., fellir þá og undan greinina um Olafana úr 20sta kap., og þá 21, 23, 24, 28, 29, 30, 35 og 41da kap., og greinina um spámanninn úr 44da kap., einneginn 49da kap. og ræðu Hræreks í lok 50ta kap. og fyrstu vísuna með tilheyrandi ínngángi úr 52rum kap. og þá líka 60ta kap. og niðrlag 63ðja kap. frá [. Enn sleppir *S* viðrtali Astríðar og Olafs með vísunni úr 87da kap., en bætir við 2 vísum í lok 97da og 98da kap. sem flest hinna, fellir þá undan vísuna úr 122rum kap., en hefir Rauðúlfsþátt fyrir 160sta kap., og bætir P-viðraukanum inní söguna ámilli 179da og 180sta kap., og hefir jafnlángt söguna sem hún er hèr prentuð.

Þá er enn til í Nr. 75 B í arkarf. skinnbókarbrot af sögunni, eru það 4 blöð og enn blaðskiki úr bók er verið hefir í litlu 4blf.; það er vel skrifað og mjög gamalt útlits, hefir Arni Magnússon skrifað á blað, er hjáliggr „úr O. S. H. egregio codice, fengið frá Hálfdáni Jónssyni á Reykjum í Ölvesi." Fyrsta blaðið byrjar í 9da kap. sögunnar á orðunum „konúng, ok hafði hann jafnan sigr" og er annað blaðið í samfellu við það, og endar í 20sta kap. á orð. „Olafr k. var vel kristinn" en úr er þar feldr 16, 17di og mikill

partr 18da og 19da kap., eins og í flestum handritunum, sem lýst hefir verið. þriðja blaðið byrjar í 116da kap. á orðunum í orðamuninum „landlög þau" og sleppr framí 118da kap. við orðin: „áðr um sumarit." Fjórða blaðið byrjar í 129da kap. við orðin „þá snèri þórir í brott," og sleppr í 131sta kap. við orðin "ef ek væri nökkurum vetrum yngri;" en blaðskikin inniheldr nokkuð af 134ta og 135da kap.

Enn eru brot af sögunni úr ýmsum skinnbókum sem verið hafa til í Nr. 75 E í arkarformi. Hið fyrsta þeirra byrjar í 56ta kap. í 2ari vísunni og nær framí 58da kap. að orðunum „játtu at hafa þau lög;" byrjar seinna blað þess þá aptr í 67da kap. við orðin „þvíat þat mælti k." og nær framí 69da kap. að orð. „yfirlæti kunníngjar mínir"; brot þetta er vel skrifað og með stóru letri. Annað brotið úr bók með ólíkri hendi og þó vel skrifaðri byrjar í 72um kap. við orðin „þeim mönnum, er hígat vilja" og sleppr fyrsta blað þess í sama kap. við orðin „sannast af at segja;" en annað blaðið byrjar aptr í 77da kap. með orð. „þágat menn sína," og sleppr í 79da kap. með orð. „við þat allt kapp.;" en þriðja blaðið sem tekr til í 134da kap. við orðin „ok er sendimenn komu" sleppr í 135ta kap. með orð. „þá stefndi hann þíng við bændr." þriðja brotið með líkri hendi og *E* byrjar í 136ta kap. við orðin „þat hefir ekki furr verit gert", er það 2 blöð í samfellu, og endar síðara blaðið í 138da kap. við orðin „mikill ok fríðr sýnum." Fjórða brotið, sem jafneldra virðist hinum er eitt blað ritað í tveim dálkum og er vel skrifað, ok ærið bundið, byrjar það í 194da kap. við orð. „friðr er betri eða verri" og sleppr í 201sta kap. á orð. „nú mun ek trúa því." Svo virðist sem öll brot þessi sèu rituð í fyrri hluta 14du aldar, sýnir það útlit þeirra og rèttritun, er hún

sem í góðum og gömlum skinnbókum og þó eigi fábreytlig. Hvorki er orðamunr við útgáfu sögunnar hèr tekinn úr brotunum, er nú var næst lýst, eða hinum í Nr. 75 B, sem áðr var frásagt, bæði af því að svo margar aðrar bækr voru hagnýttar, og líka af því að þar sem þau víkja frá *A*, berr þeim saman við eitthvört af handritunum *C*, *E*, *G* eða *S*. Enn eru í Nr. 75 *E* nokkur blöð af skinnbók, er verið hefir í 12blf. mjög illa skrifuð og eigi all gömull, sem innihalda 16da og 17da kap., og þó fjölorðari enn hèr er, og líkasta, að því sem næst verðr komizt því sem þeir eru í *F*.

Enn eru í Nr. 325. 4, 8, 9, 11 í 4blfr. smá brot úr ýmisligum skinnbókum, er innihaldið hafa söguna, eiga þau betri þeirra nokkur við meðferð sögunnar í Snorra, en sum eru svo smá og lítilfjörlig, að eigi þykir þurfa að lýsa hvörju þeirra sèrílagi.

Nú er þeim handritum lýst er fyrir hendi voru af sögunni, og má vera að sumum þyki sú lýsíng að óþörfu laung orðin, en sá er tilgángrinn, er svo ýtarliga hefir sagt verið frá hverju handriti, að lesandi megi gjöra sèr skíra hugmynd um hvert handrit sögunnar sèrílagi, og við það rèttiliga geta metið sèr hvörja meðferð hennar; en þóað mörg handritin á einn veg víki frá *A* í einu, þótti aúngvu að síðr rèttara að tilgreina það í lýsíngu hvörs þeirra, svo hún yrði heil við hvört sèrílagi. En útgáfu sögunnar hefir verið svo hagað, að hún er prentuð eptir því handriti óbrjáluðu, er þessvegna þótti bezt tilfallið, að það var sæmiliga orðað og rètt ritað og þvínær heilt, og hafði ýmisligt umfram flest hin handritin, og nokkuð umfram öll, en það hafði ekkert hinna alltsaman til að bera. Það sem hin handritin öll eða eitthvört þeirra höfðu umfram frásögnina í *A*, er prentað aptan

við söguna í þeirri röð, sem það kemr við hana; eru þær greinir, sem eigi má aðskilja frá sjálfri frásögninni um Olaf konúng, prentaðar í viðraukunum, en þær frásagnir, er sum handritin bættu við, og bæði voru lengri og líka máttu eins vel standa fyrir sig, eru prentaðar í þáttum aptanvið söguna, eru og flestar þeirra svo nefndar í handritunum. Orðamunr handritanna er eigi tekinn nema þegar í einhvörju skildi frásögn og meiníngu í þeim og aðalhandritinu, eða þau höfðu skjaldgæf orð þar, sem það hafði eigi, en þó sagt væri stundum með öðrum orðum frá í hinum handritunum, og þó eitthvað vantaði í þau lítilsverð, varð þess eigi getið.

Geisli, er Einar Skúlason kvað um Olaf Haraldsson Noregs konúng (2 D. bls. 349-370) er prentaðr eptir Flateyjarbók *(F)*, en úr Heimskrínglu eru þær leiðrèttíngar, er þurfa þótti, *(Hk)* viðteknar, og þess getið, er þar hefir öðruvísi lesið verið.

Starfinu við útgáfu sögunnar hefir svo verið hagað, að Cand. Theol. og Yfirkennari Þorgeir *Guðmundsson* hefir afskrifað alla söguna líka viðraukana og þættina, að því undanteknu, að Prófessor Dr. *Rafn*, Riddari af Danabróge og Leiðarstjörnunni, hefir skrifað Eymundarþáttinn, en sá fyrrnefndi og Þorsteinn *Helgason* hafa samanborið öll handritin; hefir þá og Prófessor *Rafn* leiðrètt hvörja aðra prófórk af sögunni, en Cand. *Guðmundsson*, hvörja fyrstu og þriðju prófórk, hefir hann og búið til registrin við söguna.

Kaupmannahöfn dag 28 Janúarí 1830.